# BISKUPA SÖGUR,

GEFNAR ÚT

AF

## HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

ANNAT BINDI.

KAUPMANNAHÖFN.

I prentsmiðju S. L. Möllers.

1878.

# YFIRLIT ANNARS BINDIS.

# FORMÁLI.

Í þessu bindi er framan við hvern sagnaþáttanna, eða sumar greinir þeirra og kafla, skýrt frá því (neðanmáls), hvaðan hvað eina er tekið, og síðan ýmislegt tilgreint í neðanmálsgreinum, sem athugavert þótti. Hið sama er gort við kvæðið um Ögmund biskup, kvæðin og vísurnar um Jón Arason, og þau sem eptir hann eru eða honum eru eignuð. Þess vegna þykir eigi hèr þörf á til frekari skýríngar neinu við að bæta. Þess skal að eins getið, að Guðbrandr Vigfússon hefir haft að kalla allt starf við sögurnar og kvæðin í fyrsta hepti þessa bindis, svo sem skýrt er frá í skýrslum fèlagsins 1862, en í hinum heptunum hefir verið svo hagað, að Jón Sigurðsson og Þorvaldur Bjarnarson hafa gjört úr garði fram að þættinum um Gizur biskup Einarsson. Þaðan hefir Eiríkur Jónsson skrifað upp og búið til prentunar, og Jón Sigurðsson borið saman prófarkir við handritin í Árna Magnússonar safninu. Bæði registrin hefir samið Sigurður Hansen, skrifari deildarinnar.

# GUDMUNDAR BISKUPS SAGA.

## Hèr byrjast prologus fyrir sögu Guðmundar Hólabiskups á Íslandi[1].

Í þann tíma heimstöðu, er liðit var frá híngatburð várs herra Jesu Christi þúsundrat [hundrat] fimmtigir ok fjögr ár, tók virðuligr herra Adrianus páfi, fjórði með því nafni, almenniliga stjórn rómneskrar kristni. Hann hèt áðr Nikulaus, enskr maðr at ætt, lofsamligr at viti ok lítillæti, ok þar með harðla röksamligr í stjórninni. Hann talaði svá fallin orð í sínum valdsdómi fyrir meistara Jóni Salesbernensi, er síðan var í þjónustu Thomæ Cantuariensis: at engi maðr væri vesalli en páfinn í Róm. Í annarri grein var hann [svá] gildr, at hann forboðaði mikinn samblástr í Roma, fyrir þá sök, at skemdr hafði verit einn af kardinalibus. Hann vígði til krúnu Friðrek keisara fyrsta með því nafni; sýndist því keisarinn hlýðinn heilagri Rómakirkju meðan þeir lifðu báðir; en eptir fjögr ár herra páfans, sem hann er út hafinn, brestr upp mikit rugl í sjálfri Roma fyrir nýjan páfakosníng, þvíat sjálfir cardinales skutlast í tvá staði; birtir þá Friðrekr keisari hverr hann var, því með fylgi biskupanna ok afli ríkisins veitir hann þeim cardinalibus er verr höfðu, þvíat þeir allir samt kjósa digran prætumann, er Octovianus hèt. Annan veg með kardinalibus stendr Louis Frakkakonúngr, ok Heinrekr Andagavie Englands konúngr. Kjósa þeir þann mann, er þá hèt Rollant kanceler. Efldist sá kosníngr, því at guð vildi. Var þá Rollant nefndr Alexander tertius, frægr maðr í guðs kristni, bæði af lagasetníngu ok sönnu þolinmæði, þvíat um xx ár ok eitt er hann ríkti stóð hann nær í sama striði, þvíat Friðreki keisara vóru kirkjunnar náðir þá svá leiðar, at æ hóf hann annan prætumann, er annarr valt ór, þar til er svá gekk út um iiij ár.

1) Til grundvallar er lögð Stokkhólmsbók Nr. 5 folio, (merkt Hd.), en til samanburðar höfð A. M. 396 4to (á skinni), 398 4to (pappír) og skinnbóka brot (11 blöð) i A. M. 219—220 folio.

Hinn fyrsti var Octovianus, sem vèr sögðum, er kallaðist Victor, annarr Gvido, er kallaðist Paskalis, þriði Jóhannes, er kallaðist Kalixtus, fjórði Leundonus, er kallaðist Innocentius. Þrír af þeim vóru kardinales, prestar at vígslu, bannsettir af Alexandro páfa, ok fóru svá búnir af heimi veslugir menn. En eptir þá báða samdist sú sætt með herra páfanum ok keisaranum, at hann krossaðist til Jórsala með allt sitt herfólk, þvíat þá litlu [áðr] var landit unnit í fyrstu undir Saladín eðr Solldan konúng af Babilon fyrir svikligan prett ok bölvaðan Malti jarls af Tripolia, sem ljósliga stendr í þesskáttar letrum. En vèr þaðan frá vendum til fyrirætlaðs efnis. Í öndverdum páfadómi herra Alexandri blómgaðist hans blezaðr vígsluson herra Thomas Kantuariensis, er í sínum valdstíma þoldi þá ógn ok aga, sem bæði píndi önd ok líkama, þvíat Heinrekr konúngr dró í mót honum allt sitt ráð ok ríki með sjálfum biskupunum, þar til er þeir allir samt sóttu hann fyrst til útlegðar, en þvísa næst til blóðs úthellingar.

2. Á sama tíma birtist í norðrhálfunni fjórði maðr ynniligrar[1] atferðar fyrir guði ok mönnum, er makliga má samlagast fyrnefndum feðrum, ok þótt hann væri þeim fjarlægr í landa grein ok staða setníng, gekk hann þeim beint it næsta um boðorða braut almáttigs guðs, bæði með biskupligri tign ok sterkri staðfesti. Þessi maðr er signaðr faðir ok sæmiligr herra Guðmundr biskup, er kendi ákafligan kulda heimligra únáða í mæðum ok mannraunum, ofsókn ok útlegðum, framarr flestum dæmum, at hann mætti hluttakari verða várs drottins orða, er hann forðum sagði af Saulo: Ek mun sýna honum hversu stóra hluti hann byrjar at þola fyrir nafni mínu. Þenna úfrið leiddi líkt ok hinn fyrra eigi af heiðnum mönnum eðr útlenzkum her, heldr af biskupsins undirmönnum andligum. Var þat öndvert efni svá vondra vesalda, at á þá jörð, sem hann var biskup yfir, var þá enn eigi komit herra konúngsins vald, ok því ruddi hinn rangláti sèr til ríkis með odd ok egg; en ef heimlig hönd varði sik svá, at þar viknaði eigi fyrir, þá sneri hinn úmildi sínum herskildi upp á kirkjunnar meinleysi, gerandi hennar fè ok frelsi sèr at herfangi; var þá því næst svá svívirðr lærðr sem leikr með sóknum ok sakargiptum, með lima láti ok útlegðum. Í svá bröttum bylgjum ok hörð-

1) þann. 396; ýmisligrar, Hd.

um hvirfilvindum reiddi þenna blezaða biskup, er at lyktum fann fagrt lægi.

Greindr guðs þjónn var biskup á því landi er bækr kalla Thile, en Norðmenn nefna Ísland. Má þat ok vel segjast eiginligt nafn þeirrar eyjar, þvíat þar er íss inóg bæði lands ok lagar. Á sjánum liggja þeir hafísar, at með sinum ofvægiligum vexti taka þeir at fylla norðrhöfin, en yfir háfjöll landsins svá úbræðiligir jöklar með yfirvættis hæð ok vidd, at þeim mun útrúligt þykkja, sem fjarri eru fæddir. Undan þeim fjalljöklum fellr með atburð striðr straumr með frábærum flaum ok fúlasta snyk[1], svá at þar af deyja fuglar í lopti en menn á jörðu eðr kvikvendi. Þau eru fjöll önnur þess lands, er ór sèr verpa ægiligum eldi með grimmasta grjótkasti, svá at þat brak ok bresti heyrir um allt landit, svá vitt sem menn kalla fjórtán tylftir umbergis at sigla rèttleiði fyrir hvert nes; kann þessi ógn at fylgja svá mikit myrkr forviðris, at um hásumar um miðdegi sèr eigi handa grein. Þat fylgir þessum fádæmum, at í sjálfu hafinu, viku sjáfar suðr undan landinu, hefir upp komit af eldsganginum stórt fjall, en annat sökk niðr í staðinn, þat er upp kom í fyrstu með sömu grein. Keldur vellandi ok brennustein fær þar inóg. Skógr er þar engi utan björk, ok þó litils vaxtar. Korn vex í fám stöðum sunnanlands, ok eigi nema bygg. Fiskr sjádreginn ok búnyt er þar almennings matr. Ey þessi liggr svá norðarliga undir zodiaco, at hennar neðri hlutr hefir í sumum stöðum samhaldinn dag með sólskini björtu, mánað eðr meirr, i enda Geminorum ok upphafi Cancri. En um vetrar tið þá er sólin er in Capricornu, er hún yfir þess lands emisperium litit um fjórar stundir náttúrligs dags, þótt hvárki meini fjöll nè ský. Landit er víðast bygt með sjónum, en skerðist mest austan ok vestan. Tveir eru þar biskups stólar, sinn í hvárn luta lands; eru þeir af þeim tíu, er undir lúta erkistólinn í Niðarósi, þar sem hvilir ágætr guðs maðr herra Ólafr konúngr Haraldsson. Sætið norðanlands heitir Holer. Fyrsti biskup Holensis var heilagr Jóhannes, annarr Ketillus, þriði Bero, fjórði Brando, fimti Guðmundr. Syðra sætið heitir Skálholt, sat þar fyrstr Islavus, annarr Gizerus, þriði Magnus, fjórði Þorlakus primus, fimti Klængr, sètti

1) þann. Hd., 396.

heilagr þorlákr, sjaundi Paulus, áttandi Magnus secundus. Fyrir þá skynsemd höfum vèr nokkut greint af þessu fátæku landi, at ef þessi frásögn verðr í fjarska lesin, lofist því framarr várs herra nafn, er engan jarðar enda firrir sinni miskunn, sem þá sýndist enn, er hann gaf greindum útskaga svá ríkan gimstein, sem heilög ván diktar, at Guðmundr hinn góði sè í hans konúngligri höll at eilífu.

3. Nú til þess, at eigi sýnist vèr með öllu um líða hans blezaða bernsku ok einkanlegan uppruna, munu vèr þat setja með stuttum málshætti, því at vèr skundum til þess efnis, sem honum er enn meiri sæmd í, þat er at greina hans mæður ok þolinmæðis krúnu með þeim mála gjöfum, er guð alls veldis veitir honum í starfalaun, bæði lífs ok liðnum, at svá sem harmrinn má hryggja hjartnæmra manna hugi, svá skulu táknin hugga með andligri gleði. þat hugsuðum vèr ok heyriligt svá dýrum manni, at án öllu lögmáli leiðist til hans lífs sögu nokkur tiltekin dæmi hans bræðra biskupanna, þar sem samhljóða frumtignir þeirra. En þeim sem þetta líkar betr aðra leið, sendum vèr til íslenzkra bóka.

4. Sjau árum framarr liðnum af várs drottins holdgan en summerat var í fyrsta prologo, fæddist nefndr smásveinn í Hóla biskupsdæmi quarto kalendas octobris; þat var ít fjórða ár postuligs herra Alexandri páfa, hit fyrsta Magnúsar Noregs konúngs Erlíngssonar ok Eysteins erkibiskups, er næstr sat eptir Jón Birgisson, er fyrstr bar pallium Nidrosie, en næstr fyrir Eirik, er síðan varð vígslufaðir þessa góða manns, er nú litlu greindum vèr nýfæddan, á dögum biskupanna Bjarnar Holensis ok Kleings Skalholtensis. Hann var svá góðrar ættar sem hin bezta mátti kallast á öllu Íslandi, þvíat hans kynferð var reynd í röskleik ok rèttvísi. Ari hèt faðir hans en Úlfeiðr móðir. þegar í fyrstu fæðíng þessa sveins birtist forsögn óvorðinna hluta hans daga, því at í fyrsta grát, er hann gaf út, talaði einn vitr kennimaðr, er þar var nær staddr, lík orð ok Ambrosius las forðum til sonar síns Ambrosium únga, at þessi piltr mundi til mikils fæddr í veröldina ef lífi hèldi. Var þat mikil frumtign þess er enn var nýfæddr, at hans sorgligri raust skyldi þegar fylgja miskunnar tákn almáttigs guðs. [Svá kvað Einarr Gilsson:

Fæddr var ölr sá er eyddi
alnýtr fíra lýtum
endr[1] á Grjótár grundu
gulls með virðíng fullri;
sagði sveins at hann hugði
sauðnis látrs í gráti
kærum krapta stóra
Kárhöfði þat árum[2].

Er ok sú forspá fagrliga fylld í dag, því at sútfengnum trega snýr hann fljótt í fagnað, ok grát í nýfenginn glaum. Í aðra grein var þat einkanligt, at í fremsta brum sinna daga skyldi hann þeim líkjast á nökkvern hátt, sem alla götu elskaði hann mest næst várri frú, sem enn mun síðarr getið verða. Þegar í blautu barns beini bergir hann á mótstöðu heimsins. Svá segir Einarr Gilsson:

Ari fèkk högg af hjörvi,
[hann fèll við lof manna,
hraustr barg hjörfa treystir
harðfíngum Erlíngi;
þá tók arf sem ek inni
ölbjóðr við skrá fróða,
límí gekk með lámum
lundstórum Guðmundi.[3]

Þvíat faðir hans, er var einn framr maðr, fèll vápnsóttr í Noregi; var því Guðmundr uppfæddr með móðurfrændum sínum, þegar til bækr settr á skilníngar aldri, hlýðinn ok auðmjúkr sínum meistara, sem öllum öðrum, er honum vildu gott kenna, því at sú er röksamlig regla ritnínganna, at engi rísi fyrr upp til meistaradóms yfir aðra menn, en hann sat áðr hlýðinn lærisveinn fyrir síns meistara fótum, ok leiðist svá fram ef guð vill, at bera hit hæsta ok á herðum sèr með sælum Joseph til Egiptalands. Snemma runnu forspár fyrir sveini þessum, bæði af líkams athöfnum ok merkiligum draumum, at hann mundi verða mikill maðr í kristni guðs, ok standa til stórra ömbuna fyrir augliti várs herra. Var þat eitt af því, at[4] vèr settum, at jafnan í pilta leikum skyldi hann hafa ok bera mítro ok bagal með biskups nafni. Líktist hann í þessu

1) getg.; suðr, 396. 2—3) [b. v. 396. 4) er, 396.

sælum feðr Athanasio erkibiskupi Alexandrino, þvíat hans upprás var þat til bækr ok skóla, at Alexander erkibiskup hans forverari sá uppá þann piltaleik, er úngr Athanasius stóð með bagal ok mítru, ok bauð at skirast lærisveina sina, þá sem at eins vóru primsigndir áðr af kirkjunnar hálfu. Hèr með renna draumar merkiligir sem vèr sögðum. Þat bar fyrir einn skilrikan mann ok náfrænda Guðmundar, at hann þóttist ganga fram at húsi einu furðuliga stóru ok vænu í öllum vexti, ok sem hann vildi inn ganga þær formiklu dyrr, er á vóru húsinu, verðr hann svá breiðr í brjóstinu, at við nemr báðum öxlunum. Sem draumr sjá er entr[1] i orða framburði ok sá, er forðum sýndist frú Máild í Englandi, sem hún gekk með son sinn Thomam Cantuariensem, ok hún þóttist koma til Krists kirkju í Lundúnum ok mega eigi inn ganga, sakir mikils vaxtar, svá er hans sama glósa hèr ok þar, sem skýrði einn spakr maðr í Englandi, at hennar burðr mundi verða meiri ok mætari, en kristni jarðnesk mundi bera, eðr skilning á koma. Enn dreymdi sama mann, at hann þóttist koma til Krists kirkju í Niðarósi ok inn ganga; hann sèr, at hún er þá skipuð sem ein höll af konúngligri mekt ok hans hirðsveitum til beggja handa; honum gefr þat at skilja, at konúngr í hásæti er hinn heilagi Ólafr Haraldsson. Ok þegar sem hann nálgast fram fyrir hásætið, ok hugsar at heilsa konúnginn, stendr hann upp í öllu sínu skrúði, ok fram á gólfit móti honum með breiddum faðmi, ok segir svá: Guði velkominn kæri minn, blezaðr um öll Norðrlönd! — Þessi fyrirburðr er þeim líkr í rèttri skýring, er enn sá frú Máild fyrir sælum Thoma, þá er hún stóð at rekja þat pell, er rödd af himni sagði víðara öllu Englandi, hvat er merkir háleita frægð þessara feðra, þvíat eigi mundi hún fara land af landi, nema hún væri víðari áttjörðinni. Þat gefr annat vel skilja í greindri sýn, at fyrir breiddan faðm hins sæla Ólafs konúngs, er helgastr maðr hvílir í Niðarósi, merkjast hendr heilagrar kristni, er smurðu herra Guðmund biskup í því sama musteri. Nú er ljóst, at þessar tvær sýnir með sínum [rèttum skilníngi] eignast Guðmundr góði í síðöstum timum; því fylgir til hin þriðja, er rèttara nafn hefir til at heita sem vitran, sakir þess, at henni fylgja fals-

1) enn, 396.

lausir váttar. þar innanlands var ein kona, góðs siðferðis í mörgu lagi, því fráteknu, at hún hafði laugar stundir ofblíð verit til kennimanna, ok enn var hún svá, er þetta gjörðist. Svá bar henni til einn vetr, sem guð vildi hirtíng veita hennar villistigum, næsta laugardag fyrir dominicam Esto mihi in deum protectorem: at hún fèll niðr í úvit, sem drepin væri. En því at heimamenn hennar kendu liggja nokkurn verma í í limunum, ok þat annat, at hörundit brá við stundum sem sárt yrði, var hún lagin hógliga niðr, ok geymd, þar til at síðla sama dags hverfr hún aptr til sín, sezt upp ok signar sik, ok bað guð geyma sín. þeim er spurðu af hennar brautveru, segir hún svá: þegar sem hún var niðr fallin kómu til hennar tveir blámenn, gripu hana ok drógu heldr en leiddu án allri vægð um hraun ok hvassa þyrna yfir þá eymdar staði, er allír vóru fullir myrkra ok meina með ýmisligum píslum vá ok vesalda, þar til þau koma fram at einum pytt eðr ketli, er allr lèk utan ok innan sem ein sia, með grimmasta gnist úbæriligs bruna, svá at af ákafri kastvellu þess ljóta lagar, er í var, dreif allt umhverfis með verpandi flaug þeirra dimmustu dropa, hvar af nökt sálin særist þegar hryggiliga bæði á höndum ok fótum. Hèr með höndlaði hana svá údæmiligr ótti auskranligra kvala, er þaut frammi fyrir henni, at þat má engi orðum inna, því at hún skilr sitt synda gjald mikit vera munu fyrir guði. þar með særa þeir bölvaðir blámenn hennar hjarta með örvæntíngar ör, er þeir segja svá: sè þú hin auma sál, vei er þèr vorðit, hèr er heimili þitt at eilífu, hèr skaltu taka gistíng einnar nætr, en sú er endalaus; gráðugr logi skal þik gleypa, sá er aldri kann at seðjast, svá sem þú saddist aldrí frá þínum údáðum, þá er þú saurgaðir ok svívirðir þeirra þjónustu, er guði sóru í sinni vígslu at halda sik hreina til heilagra bæna ok embættisgjörða fyrir guði, þar með fyrir sèr ok öðrum, því skulu vèr sýngja þèr makligan sálusöng með bótlausri bölvan, svá at angr ok eymd þinna sútfullra sorga bíði aldri bata; því skaltu vá ok vilsinni með oss þola án enda, at þú vildir aldri enda oss at þjóna. Með þvílíkum afarorðum drógu þeir helvítis ormar hana fram at dynjanda loganum; sèr hún þá glöggt at þar eru drektir í eldi margir formenn landsins af veraldar stètt, er dauðir vóru, en hinna beið búinn úfagnaðrinn, er enn lifðu. Sálin varð

þá hræddari enn í frásögn megi færa, treysti þá með öllum sínum krapti á sæla guðs móður ok sæla postula Petrum ok Paulum, því þeir vóru kirkjudrottnar á hennar heimili. Hèr með kallar hún á guðs píslarvátta: Ólaf konúng, Hallvarð ok Magnús, ok án dvöl lítr á hana guðs miskunn, svá at því himneska ljósi, sem nálgast, fylgja þrír bjartir menn ok tíguligir. Þeir grípa hana skjótt með styrkri hendi braut af úvina valdi. En er fjándr sjá þat, gella þeir með grimmum þyt rymjandi raddar ok segja svá: þó at vèr verðum enn sem optar at bera lægra hlut fyrir yðr, skal þessi saurlífismaðrinn hafa erindit. Fleygja síðan glóandi knappasvipu um þverar herðar sálinni, svá at [af] beiskum bruna, er fylgdi þeim slag, kendi hún kvöl í hvern köggul, fyrirvarð hún sik þá öll í annat sinn, áðr formaðr þeirra þriggja, er komnir vóru, setr sína hönd yfir hana, hressir ok huggar; hann segir svá: guðs miskunn ertu skyldug at lofa, er þik leiddi til helvítis ok aptr þaðan út, ok þat, at vèr erum sendir af várrar frú guðs móður hálfu þik at hjálpa, því at þú treystir á hennar virðuligt vald. Guðs postular, er þú nefndir, eru ok fulltíngjandi þitt frelsi, eru vèr hèr þrír frændr, Ólafr, Hallvarðr ok Magnús, er þú hèzt á í þínum þröngslum, er þó kómu náliga yfir þik makliga, sakir þess er þú hefir úvarliga lifat; því fantu heitan bakstr á herðum, at þú hefir skreyzt skrúði, en glæst með líni þinn líkama eptir veraldar slekt en saurlífis anda tillögu, at þá skyldir þú vænni sýnast; því brunnu fætr þínir í vellunnar hávaða, at þú hefir þá glæst með skrúð ok skó enn fyrir sömu grein, en því hendr þínar, at þú hefir bæði veitt handasaum þèr ok öðrum á guðs hátíðum. Nú skaltu greina sýn þína, er þú kemr aptr, vándum til viðvörunar en völdum til fagnaðar, þvíat svá sem þú leiddist fyrr til dauða, svá skaltu þvísa næst leiðast til lífs hèraða. Þegar án dvöl eptir svá talat koma þau fram á einn vænasta völl, er allr flaut með flúr, unað ok ang ýmissar gleði; þar í miðju plácinu stendr ein höll eðr hús, svá fagrt formerat, sem aldri sá manns auga, þar með fylgdi sýngjandi hljómr, ilmandi yfir þat allt er maðr má hugsa. Sá hinn himneski rómr gæddi ok gladdi fyrgreinda höll, svá at hún þaut öll í einum glaum. Hinn sæli Ólafr konúngr talar þá enn til hennar: sèr þú herbergi þetta, svá signat ok sæmiligt, er jafnan stendr án flekk ok fölnan, ok með sama ríkdómi ok úlíðandi gleði? sjá er

eignarjörð ok óðal Guðmundar Arasonar, er fá mun um síðir eigi lægra sess en Thomas í Kantia, ok svá sem vèr fullting veitum Noregi ok Orkneyjum, svá mun hann hjálpa Ísland með sínum bænum. Sem hèr stendr vitran, er með guðs almætti allt í sama augabragði, at hún þykkist sjá nýja dýrðina, ok er lukt í líkama. Gengu með þessi vitran tveir váttar, sá annarr, at hún skalf í hvert sinn, sem hún sagði frá údæmum píslanna. Þat annat, at öllum þeim bruna, sem hún hafði þolt at eins í andar sýninni, bar skýrt vitni hennar dauðligr líkami. Nú þat efni sem at Guðmundi vikr í vitran þessi, sýnist concordera þeirri sýn, er forðum sá í andar gjöf Nikulás biskup Paterensis fyrir systursyni sínum Nikulao, er í þann tíma var í barndómi, en síðan Mirrensis erkibiskup. Af þeirri hallar sýn til austrættar í lifandi manna jörð er öll ein frásögn, ok nú greindum vér í sagðri vitran. Trúum vèr, at vitrum mönnum sýnist þessar frásagnir bera bjart vitni þeim greinum, [er fyrir spáðu] þessa Guðmundar tign ok æru.

5. Á næsta ári eptir fæðíng Guðmundar gengr herra Björn Holensis almenniligan veg um dauða dyrr; er þá kjörinn af landsmönnum sæmiligr maðr sira Brandr, er varð fjórði Hóla biskup, sem fyrr var ritað. Á hans dögum öndverðum andaðist Klængr biskup Skalholtensis, en hinn sæli Thorlákr biskup vígðr sitr fimtán ár ok ferr svá til guðs; tekr þá Páll frændi hans biskups tign. Herra Brandr setr sína vígslu hönd yfir hinn góða Guðmund, þegar hann hefir tólf ár, ok þaðan fram sem tímar lofast; vígist hann þá lesdjákn. Var hann þegar hvass í hugviti ok glöggrar greinar bæði til bækr ok brjóstvitru, ei síðr til veraldar ok lands laga, ef hann hefði þat viljat fága. Þegar í æsku var hann gildrar lundar, eigi gjarn at afleggja sitt mál, þótt við aflamun væri at etja, sem enn mun síðar greint verða. Mjök ástúðigr var hann bæði frændum ok vinum, svá at borð var honum til reiðu með gleði húsbónda hvar hann vildi hafa. En sakir þess, at af mannraunum vaxa manndýrðir, fær hann þúnga plágu í greindum stètt, þvíat í skipferð nokkurri muldi sundr fótlegginn annan, fylgdi þeim meizlum slík mæða ok meinlæti, sem kunnigt er, áðr greri, þvíat í fyrri festíng dugði eigi ok varð at brjóta í annat sinn; bar hann þetta allt með megnu hugskotí, þvíat hann vissi vel, at þann sem várs herra miskunn mæðir í þessum heimi, hefir

hann disponerat at gjöra sinn hægri handar son í andligu lífi, þvíat sá veit gjörst, er greinir alla hluti, hvár skriptin er léttbærri. Er hèðan ljóst, at þeir villast, er faðma stundliga blíðu en beiðast undan ráðníngar sprota guðs, svá sem lesit er af Mauricio keisara, er var á dögum hins mikla Gregorii páfa. Sjá Mauricius var úhlýðinn herra páfanum, fyrst af áleitni ok umlestrum, en síðarr af lífs umsátum, þar til at á stræti Rome birtíst maðr í múnks klæðum með brugðnu sverði, ok segir, at sá sami brandr skal fljúga í gegnum Mauricium keisara á því sama ári. En er keisaranum flyzt þessi sýn, biðr hann ok lætr biðja heilaga kristni, at guð firri hann þessi ógn. Þessu næst, sem hann sefr á einni nátt, hljóðar yfir hann rödd með þvílíkum róm: hvárt viltu heldr þiggja þyrmíngina hèr eða í öðru lífi? Hann svarar: Guð drottinn minn! ber mik hèr fyrir glæpi mína, at ek finna miskunn á degi þínum. Eptir þetta var hann drepinn, kona hans ok synir, af riddara Foka, er næstr var keisari eptir hann. Þvílík dæmi ok önnur heilagra ritnínga laða til sín guðs valdir menn, því fagna þeir í hverri mótstöðu, sem vèr trúum hinn góða Guðmund gjört hafa, þvíat yfir þat, er fyrr var tjáð, hallast at honum mæður ok manna missur, svá at æ valdi þá braut or hans ætt ok vináttu, sem hann syrgði mest. Gjörðist svá hèðan af at, með guðs miskunn ok ásjá, at hann fyrirlætr heims blíðu því framarr, sem [hann] skildi gjörr, hvern flótta ok píníng hún hafði til hans; en þó sýndist svá í aðra grein, at í þenna púnkt lèti veröldin vel við hann, því at hatr ok hermd eptirveranda stríðs var enn eigi komit.

6. Hèr næst verða góð tíðindi ok mörgum harðla nytsamlig, er Guðmundr vígðist til prests í heilagri Hóla kirkju á laugardag næsta fyrir Passionem domini, fjórum náttum eptir Festum beati Gregorii páfa. Þá hafði hann xx. iiij. ár aldrs síns. Svá kvað Einarr Gilsson:

Vígslur tók sá er víkja
váttr guðs laga knátti
lyndr til hægri handar
hèr bezt siðum flestum:
ok prestr er lèt löstu
lífsnjallr hatað alla

Guðmundr var[ð], en greindust
góð verk kyni þjóðar.[1]

En hvat munum vèr brèfa af því siðferði, sem guð prýddi hann með í þessum kennimanns dómi, utan þat í fyrstu, at hann samdi sínar lendar með linda skirlífis, svá at ei um aldr var honum kona kend nè eignuð, því svá, at hann lærði líkamann með föstum ok fáheyrðu athaldi at þjóna andanum. Hèr með veitti hann föstunni þá tvá vængi sem hún þarf nauðsynliga til at beina himneskan flug, þat er hrein bæn ok ölmusu gæði, því vurðu ok hans bænir þægar guðdóminum, at hann lypti til hans lèttar hendr ok hreinar; lèttar á meinsemi samkristinna manna, en hreinar í framníng góðra verka án saurlífis flekk, ok hversu hinn heilagi andi veitti sik hýran hans bænum, má skilja fyrir þenna eventum.

7. Svá berr til einn morgin árla, sem sira Guðmundr gerir sína bæn yfir gráða nökkvern, frammi fyrir kór kirkju þeirrar, er hann þjónaði, at því nærri kemr út farandi skilríkr maðr, hans húsbóndi, ok sèr líkams augum, at snjóhvítr fugl sitr á hægri öxl hins góða Guðmundar, ok hefr sik síðan á lopt ok í gegnum kirkjuráfit. Svá kvað Einarr Gilsson:

Nótt fór Már af mætti
[menjum virkr til kirkju,
gautr vann grafníngs látra
Guðmund á bæn fundit:
út fló öxl af gætis
einn fugl siða hreinna,
því er dýrð um ask orðin
alkunn dreka sunnu.[2]

Hèr með var hans bænahald svá heitt ok iðuligt, at hann var í kirkju löngum nátta, bæði síð ok árla, með svá merkri staðfesti, at æ var it sama. Ölmusugæðit fágaði hann svá með miklu megni, at þá rentu, sem hann tók af heilugu altari fyrir sín störf, lagði hann alla fram fyrir guðs ölmusur, fátæka frændr sína, sem fremst mátti hann af draga sínum nauðsynjum. Svá kvað Einarr Gilsson:

Braut gaf vígslu veitir

1) Hd. skýtr hèr inn á röngum stað: Ok enn kvað hann: Braut gaf vígslu veitir — vakti löngum; sjá 7. kap. 2) [b. v. 396.

[vins nálimum sínum
tíða offr sá er trúði
tjaldranns á guð sannan;
kendi meiðir mundar
merkr prúðliga[1] klerkum,
reitt er at seggja sættir
söng ok vakti löngum.[2]

Aldri vóru færri en vij ölmusumenn í hans varnaði, ok *móðir* hans áttandi; veitti hann henni vakra umhyggju allt til dauðadags. Sè þar tvá vængi gagnfæra gegnum himna, fram fyrir hásæti himna konúngs. Hèr með trúist hans sparneytni matar ok drykkjar svá mikil verit hafa, at hann hafi geymt samhaldit bindindi sem kraptanðigr múnkr eða einsetumaðr, ok svá mikla birti spádóms ok vitru, sem hinn heilagi andi flutti at hans hjarta án afláti; mundi þat ei svá vorðit, ef girnd hugarins eða *græðgi* kviðarins hefði flekkat öndina. Svá var hann vakr í góðum verkum, at engi sá hann iðjulausan, heldr veik hann sinum veg frá góðu til betra, ok steig svá dygð frá dygð, sem salmista kennir, þar til hann mátti sjá guðs son. Tíða í millum kendi hann klerkum, er feðr gáfu undir hans faðerni, eða skrifaði bækr með einkanligri nytsemd, þvíat hvat gott, er hann fann í úkunnum letrum, las hann at sèr sem hin eiguligstu auðæfi. Hljóðr ok athugall var hann dagliga, þýðr ok þekkr í máli, öllum mjúkr ok mildr, er at hann lutu í nökkurum hlut; því unni honum hvert barn. Svá kvað Einarr Gilsson:

Gjörðist dátt um dýrðir
dýrðar prests, þvíat flestir
unnu elsku svinnir
auðlundar Guðmundi:
hittust höpp þau er sóttu
hvert dægr trega lægi,
skildist hár meðal[3] hölda
heiðr guðs laga reiðis.

Heilagri kirkju leysti hann svá skilríka skyldu, at þeim er heyrðu varð bæði lètt ok ynniligt. Skrúða kirkjunnar trakt-

1) fróðliga, 396. 2) Hd. tekr hèr upp aptr byrjun vísunnar, en 396 hefir hana alla; sjá kap. 6. 3) 396; við, Hd.

eraði hann svá, at hann var bæði hreinn ok heyriligr guðs þjónustu, sem fremst var honum möguligt. Altaris embættið sjálft flutti hann ok framdi með svá mikilli gæzku ok góðfýsi af guðræzlu, sem hann sæi sjálfan græðarann fyrir sèr á krossi píndan. Ok at öngum sýnist þat orðum aukit, skulum vèr hlýða fjórum váttum, er þat fullfæra, hversu guði var þægilig hans fórnfæríng: — Einn hátíðardag, sem hann hefir súngit messu fram yfir Credo in unum deum, ok snerist utar með Dominus vobiscum, sèr ein kona kristiligrar siðferðar, er í var kirkjunni, at eldr svá bjartr, sem ei bar fyrir manns auga, leið út einkar sætliga af hans munni, ok svá upp í loptið. Svá segir Einarr Gilsson:

Eld sá eik hvar mildust
orma ness um messu
stóð af stefja leiði
stund eina Guðmundar:
vells kvað [vitran] fulla
verk dásamlig merkja
hrund at heilagr andi
hans embættis gætti. [1]

Þat var á öðrum tíma, sem hann flutti guðs embætti, ok hefir upp byrjat kanonem, steig niðr yfir höfuð ok herðar honum geisli svá bjartr, at þessa heims birti bar ei þvílíkan; hvíldist sú drottins dýrð yfir honum um alla messuna ok leið svá síðan í loptið upp. Þriðja sinni var þat, sem hann söng, at klerkar hans höfðu eigi fyrir hugsat hversu bakstr var reiðubúinn; þat yfir fram, þat nú var kistan læst með sterkan útlás, en lykill fanst eigi. Menn bjóðast til at bera at kistunni konúngs lykil, en sira Guðmundr neitar því. Hvat lengra? flytr hann embættið sitt sem vant var, með öllu athygli, þar til at út er sagt Offertorium, þá snýst hann frá altarinu ok blezar móti kistunni svá stórmerkiliga, at lássinn söng á gólfi niðri svá hátt, at heyrði um alla kirkjuna; var þá kostr at taka bakstr sem bezt likaði. Fjórða tíma var þat, sem hann hefir fyllt embættið ok tekr ablutionem calicis, at þann veg altaris lágu kvistir nökkurir fornir ok mjök rotnir, en yfir þá niðr kemr þat vatn, sem sira Guðmundr hefir látið í kalekinn,

1) sætu, 396.

ok rètt sama dags sjá þat skilvísir menn, at þeir sömu pálmkvistir eru nú lífgaðir með fagri nær ok nýju mái, sem á miðjum ávaxtar tíma kann sá viðr at verða, sem stendr heill ok staðfastr í sinni náttúru; fylgir þat hèr með, ok sýnir ljósi bjartara hver hans ástundan var þá er hann vakti, þvíat um nætrnar flutti hann fram sofandi messu embættið svá skýrt ok skilit, at stundum gekk með rèttri reglu allt til lágasöngva, fór ok aldri lengra fram. Hèr með er þat greinanda í sæmd sira Guðmundar, at optliga veitti guðs miskunn lofsamliga dýrð hans predikanar orðum, at grjótlig hjörtu, sem úbergan[1], urðu fyrir heilags anda vitjan ok guðs ótta innleiddan svá lág ok linuð í viðrkenníng lastanna, [at] flutu fram úr bráðnandi jöklum fögr ok hjálpsamlig vötn tárligrar iðranar með sannri leiðrèttu ok afláti[2] ljótra misverka, sem birtist með konu þeirri, er um langar stundir hafði legit í hórdóms lífi, en fyrir prèdikan þessa dýrðar manns fèkk hún vitran heilags anda svá framkvæma, at hún leyndist braut af þeim búgarð, er í var hennar hórkarl, ok leggr eigi sína rás fyrr en hún kemr fyrir sira Guðmund með geysiligum gráti beiskrar iðranar; segist af hjarta gjöra sinn viðskilnað við sagða glæpi, ok biðr sik undir ásjón sira Guðmundar, lík þeirri, er [í] húsi Simonis kraup at fótum várs drottins Jesú Christi, þváandi löstuna í lækjum táranna, fylgjandi honum allt til pínu krossins; svá fylgdi þessi kona síðan allar stundir sira Guðmundi, þegar úfriðr skildi þau eigi. Var ok þat heyriligt heilagri skript, at þvílíks manns kenníng ynni sálunum uppreist ok eilífan ávöxt; fyrir þat fyrsta, at hans ástundan var full með elsku guðs ok manna, því at hræsnilöstrinn var fjarri honum. Þat annat, at hvat er hann lærði aðra með orðum, fylldi hann fyrri sjálfr í sínum verkum.

8. Vær lásum, hversu sira Guðmundr þjónaði heilagri kirkju með embætti ok predikanar orði, því skulum vèr heyra hversu kirkjan þjónar honum með guðs boði. Þat var einn dag, at hann reið til vina sinna, ok varð dvalsamt, þvíat margir dugandi menn felldu til hans mikinn kærleik, sem alla götu var stöðugt. Sira Guðmundr kemr heim til kirkju sinnar sem mjök er síðla vorðit, kirkja læst en fólk í svefni ok lykill geymdr í

1) Hd., 396, 398. 2) 396, af gráti, Hd.

bænum. Piltar hans bjóðast til at banga dyrr ok taka lykil; hann vill þat eigi, segir, at lestr er langr eptir, en fólkit nær nýsofnat. Ok sem hann hefir gengit einn tíma umbergis kirkjuna með bæn sinni, kemr hann til dyra; er þá orlof til inngöngu, því at kirkjan er upp lokin ok liðug. Svá segir Einarr Gilsson:

Síð kom [heim] sá er heiða
hríngs laut at döglíngi
vörðr með vizku dýrðum
virkr til læstrar kirkju:
en þegar eftir svinnu
almildr lesa vildi
upp laukst hurð fyrir hirði
heilags dóms með sóma.

Gjörðist þessi hlutr svá merkiligr in festo sancti Matthei á haustið. Varð mönnum nú tíðrætt, hversu birtist kærleikr várs herra til sira Guðmundar. En þó at fólkit frægði hans líf, treysti hann sjálfr lítillætis dygð því framarr fyrir allar sínar gjörðir; var nú allt eins svá komit, at ei því síðr, þótt hann veldi sèr inn bezta lut, vóx ok víðfrægðist, flaug ok fluttist hans nafn ok dygð um alla landsbygðina, svá at með múginum var þat alræmt sem lögtekit mál, at hann skal heita sira Guðmundr góði um alla sína daga, ok þat var skyldugt, at landsfólkit veitti honum heyriliga sæmd, því at sú guðs miskunn, sem hann hafði eignazt ok aflat með angr ok erviði andar sinnar, var nú hyski guðs sameigin hjálp ok huggan, því at vatnvígslur hans ok bæn yfir sjúka menn frjófaðist til ávaxtar dag frá degi meirr ok meirr, bæði fyrir guði ok mönnum. En til þess at engi maðr eignaði hans krapti eðr dygðum þat er gjörðist, las hann at sèr reliquias heilagra hvar hann kunni fá, bar þá æ með sèr til sjúkra manna, döggði þá með vatni, ok reið því sama yfir kverka mein ok kranka limu. Sæla guðs móður Mariam elskaði hann ok tilbað umfram alla heilaga menn; varð ok með þeim sá kærleikr fyrir meðalgöngu skírlífis ok lítillætis, sem síðarr mun sagt verða í sögunni. Svá segir Einarr:

Vinr rèð þrátt at þjóna
þýðr Máríu lýðum,[1]

1) þann. lyðu, 396; hlýðinn, Hd.

hèt á himna gætis
hríngbjóðr frama móður;
virkr nam dátt at dýrka
drafnar runnr sem kunni
elds ok engla stilli
yfirdrottníngu gotna.

Sæll Ambrosius biskup var honum harðla kærr, sem síðarr mun getið verða. Nú var meira magn í framferð þessari um öll xvj ár, er hann stóð í prestdóminum, en vèr megim eða kunnim í frásögn færa með stöddum greinum, því at meirr en um sinn umkríngdi hann landit náliga með vatnvígslum ok heilsugjöfum, svá at fjögurra vegna fluttist í allar ættir landsins sú blezan guðs, er fylgdi hans bænar orðum. Þar sem eigi voru fagrir brunnar, vígði hann rennandi vötn eða vöð, mönnum til farsældar. Þat fylgir hèr, sem mjök einkanligt er, at sjáinn sjálfan, hálfa tylft norðr undan landinu, er þvert liggr til eyjar þeirrar, er heitir Grímsey, þar stendr kirkja sæls Ólafs konúngs: þenna allan sjá blezaði hann í sinni skipferð, svá at engi um aldr man at þar hafi manni misfarizt, ef þar er út látið sem hann lèt, ok sú stefna höfð sem hann hafði. Hjá þjóðveginum landsins á fjöllum uppi vígði hann brunna, fyrir bæn vina sinna, drekka menn þar af árliga, sem um ríða. Optliga gera ok þessháttar vötn meiri rèttarbót, þá er úfærast hestar manna, en fá þar af fljótan bata, ok þat trúum vèr öngan mann letrum lykta, hversu hans vötn ok vígslur hafa veitt mönnum ok smala mikinn fagnað, ok enn gera. En því at sira Guðmundr eignaði sèr með öllu ekki en allt öðrum af kraptinum, sem fyrr var getið, varð hann makligr svá venum vitnisburð, sem hèr stendr skrifaðr.

9. Á þessum tímum sira Guðmundar var kona nökkur norðanlands svá sjúk ok sálug, at sakir [þess] varð hún opt at þola bönd ok bardaga. Heitið var á vára frú fyrir henni, ok aðra heilaga menn, ok stóð it sama hennar vanmegn þar til at tígulig júngfrú birtist um nótt konu þeirri, er mesta dygð ok manndóm sýndi þeim umíngja. Frúin talar svá: fallast yðr læknidómar við hina sjúku? Hún svarar: eigi fám vèr á fundit hvat guð hefir henni til lækníngar sett. Frúin svarar: eigi sýnist mèr þèr ráðleitin í þvíliku vandkvæði. Hún svarar: hversu munu vèr syndugir menn slíkt með ráðum vinna,

heldr bið ek fyrir várs herra nafn, at þú kynnir mèr ráð þat, sem til liggr, því at ek trúir at þú vítir guðs vílja. Satt segir þú þat, vel veit ek ráðit, því at ek er María, móðir guðs, skal ek ok til leggja, því at þèr hètuð á mik. Gerið eptir vatni því, er blezat hefir vin minn Guðmundr prestr Arason, því at hann þykki mèr beztan hátt á kunna at vígja vötnin. Leið hún síðan í loptið braut blezuð í veraldir. En sýn þessi prófaðist án falsi, því at svá fljótt sem vatnit var sótt ok riðit yfir sjúkdóm konunnar, varð hún í stað alheil, lofandi sinn græðara herra Jesum Christum. Hèr til kvað Einarr Gilsson vísur.

Ærðist ofnis jarðar
unnr, hètu þá runnar
víst á drottníng dýrsta
dalregns himins þegna;
fríð nam mildíngs móðir
menja gefn i svefni
sýnast mundar mána
mist[ar] geymandi tvistrar.

Segðu at vatn þat er vígði
vinr minn, kvað frú svinnust
stökkvi ræsis rekkar
röðuls dúks á bil sjúka:
sá kann bezt yfir brunnum
baldr lofsöngum halda,
bóls segir buðlúngs èla
blíð mær, funa viðis.

Braut hvarf at sýn sætu[1]
sæt mær himingætis,
blin nam guðvefs greina
grein stálviðum hreina;
lýðr brá vatni víða
víðfrægr á man síðan,
heil varð brúðr af báli[2]
báls stýranda tálar.

10. Enn í öðrum stað var sá bóndi ok góðr vin Guðmundar, er tók fárligt kverkamein, með svá frábærum þrota,

1) 396; sæta, Hd. 396; beiði, Hd.

at af tók málit ok náttúru til at bergja nökkuru; en þvíat hann var bæði vin ok nágranni Guðmundar, teiknar hann til með bæn, at sira Guðmundr kvæmi til hans, ok svá gerist, því at sá guðs maðr var harðla fúss ok framlútr at veita þeim bót, er þurfti, í hverju rúmi sem hann mátti þat helzt vinna. Sem hann fram kemr í þann bæ, sem hinn sjúki liggr, tekr hann fyrst til vápna þeirra, er honum voru tömust í slíkar nauðsynjar: gerir bæn sína til guðs; síðan tekr hann þann helgan dóm, er hann bar með sèr ok bregðr í vatn, dreypir síðan því vatni á varrir sjúka manni, ok rennr niðr þegar, þó sem nauðgast, svá at krankdóminum varð mikil sótt í. Sira Guðmundr reist þá kross yfir kverkunum með fíngri sínum, ok án dvöl þiggr maðrinn mál, en meinit linast svá, at sama dags gengr hann um sinn bæ ok búsýslur, lofandi miskunn Jesú Christi. Svá segir Einarr:

Mein hlaut Kálfr af kauni,
kverkr þrútnuðu, serkjar
niðr þó at reyndi rindar
rann alls ekki manni;
prestr gaf hjörfa[1] hristi
heilagt vatn, en skatnar
litu eldboða Áta[2]
albættan þar stèttar.

11. Á einshverju ári biskupsdóms herra Brands, ok á næstu nótt fyrir festum Leonardi, varð eldr lauss á biskupsgarðinum, með svá miklum váða, at bærinn mundi upp ganga; lèk þó upphafliga ok mestum ákafa þat er í var viðværiskostr staðarins. Er nú hlaup ok hark í bænum, sem ván er í þesshàttar tilfellum; vatn er borit með afli, en eldr æ því frekari. Herra biskup vaknar við hlaup ok háreysti, hefir [sik] upp til kirkju ok tekr skrýddr heilaga dóma, gengr svá búinn með kennimönnum fram í móti eldinum, þar er mest ógnaði brunann; gerir þá guðs vald fyrir bæn heilagra, ok sem trúast má, fyrir ván biskupsins, at eldr æsist eigi framarr, utan heldr því, er hann hefir fengit, stendr ok neytir, því at vatnburðr vinnr ekki. Biskupinn spyrr, ef sira Guðmundar vatn er nökkut á garðinum? Prestr einn svarar, at þat mun finnast. Biskup býðr með öll-

1) Hèr vanta 2 arkir í 396. 2) leiðr; Ara, Hd.

um skunda, at þat skal dreifast fram á eldinn, ok án allri dvöl dregr hann sik saman ok fellr í fölska.

12. Sá maðr, sem vel hugsaði hvat nú hefir lesizt, má skilníng yfir bera hversu sira Guðmundr var valdr maðr fyrir guði, en með því at nú ofraðist þegar nökkut svá öfundar kveykja í móti honum, meirr í fyrstu af kennimanna hálfu en leikvaldi, þá er fyrir aðra grein eptir leitanda, sem með nökkurri undran, hvat þeim mislíkaði við hann. Eigi meinyrði hann nökkurn þeirra, eigi dró hann undir sik eitt eðr annat af þeirra varnaði; sú var hans sök sem var heilags Martini við biskupa í Franz, eptir orðum Sulp[i]tii, ok hins sæla Benidicti við Florentium prest, eptir orðum hins mikla Gregorii. Þat er öfundar kyn kunnast, at maðr pínist at þeirri velferð samkristins, sem hann vildi sjálfr fá. En hitt annat er meirr frá dæmum, sem hèr var, at öfunda þat með öðrum, er hann vill á önga lund sjálfr nýta, þat [eru bænir ok bindandi, ölmusugæði ok aðrir mannkostir; því kostuðu þeir at slökkva kraptinn, ok sátu við eyra biskupsins, at hann mínkaði þá náð ok nytsemd, sem sira Guðmundr hèlt af kirkjunnar frelsi. En hvat er þeir drógu eða leiddu biskupinn, lagði várs herra miskunn æ sínum vin þar í mót aðra gleði, svá at endiliga hèlt hann viljuga dygð ok staðfesti. Hèr með kallaðist biskupinn fram til þess, at þat væna messuskrúð, sem föðurbróðir sira Guðmundar prests at vígslu gaf honum áðr hann fór af landi á braut, tekr hann heim til sín með valdi ok leggr eigi penníng fyrir. En þó at herra biskup gjörði svá, brá sira Guðmundr ei um aldr sinni dygð ok hlýðni við [hann] eða Hólakirkju, heldr var hans auðmjúk þjónusta reiðubúin nær ok firr, á nótt ok dag; var þat einkanligt í grein, at biskupinn skyldi hrærast lèttliga móti þvílíkum manni, er öllum reyndist frábærr í biskupsdómi hans. En þat er með biskupinum, er Gregorius segir í fyrstu bók Dialogorum, at formannsins hugr, dreifðr í áhyggjum, verðr því fljótara blektr í fortölum, sem hann er aflminni með sundrgreindri parteran í ýmissum erindum. Snúum enn aptr til Guðmundar ok sjám hans athafnir.

13. Svá gekk á lopt mildi ok manndýrð sira Guðmundar, at sauðir guðs af ymissum hèruðum fóru ok fluttust hann at finna, ok at gera skriptamál fyrir honum sem hinum mjúkasta feðr; var í því mest megn móti jólum ok páskum, jafnvel þótt

hann færi veg sinn, sem hann sæti heima. En því leiddust margir til hans, at hann [var] veykdóminum svá víkjanligr, at allr flaut í várkynd. Væri mjök kalt á vetrum, skriptaði hann fólki í stofu heitri eða laugarhúsi. Hèðan gengr þat af, at svá berr til einn tíma um hávetri, sem hann gjörir sinn veg, at hann gistir einn bónda, at þar er fólk komit ok sitr fyrir Guðmundi presti; dvaldist hann þar næsta dag ok heyrir játníng manna í stofu lítilli, þviat frer var hart úti; hafði hann í sömu stofu kleðzt um morguninn ok þvegizt; stóð þar eptir laugin annan veg í pallinum. Af húsbónda er þat [at] greina, at hann hèlt fyrir bæði augu með svá ströngum augnaverk, at hann fèkk nauðuliga borit. Hann sami reikar með sinni eymd um bæinn, ok síðan í þá litlu stofu, er sira Guðmundr sat fyrir, ok sem gjarnt er þessháttar krankdómi, hefir hann hendr fyrir sèr hvar sitja mætti, ok er hann finnr munnlaug með vatn á pallinum, þykkist hann vita, at þar í mun sira Guðmundr þvegizt hafa; hann vætir þá augun bæði ok alla ásjónina í því sama vatni, ok fèkk þar í mót þau starfalaun, at hann er í stað albættr maðr svá framt, at aldri síðan fèkk hann augnaverk á alla sína daga. Svá segir Einarr Gilsson:

Móð fèkk hreytir hríðar
hjörteins í brásteinum,
Ófeigr hlaut augum
undrlaust í stað blunda;
varð af handlaug hirðis
hreins dýrligra greina
hlátrar hellis gauta
heil brúna röf deilis.

14. En þat er sagt var litlu áðr, at Guðmundr góði vandist á vetra tímum at heyra mönnum í vörmum herbergjum, kann vera at þaðan af leiðist, er varð í fyrrum tímum, at tveir norænir menn, kumpanar hans, er sátu samhèraðs, kómu til játníngar ok kölluðu hann fljótt með vátu höfði eptir nýtekna hárlaug í grimmu frosti, sem er í því landi svá norðarliga um hávetrar skeið, ok eptir litla útivist hrapaði á hann svá strangr höfuðverkr með váða, at hann varð úmáli, ok lá svá um eina eykt, þar til er drottinn leit af sæti sínu þau hörmulig tár, er allr lýðr á bænum steypti út í hans augliti fyrir heilsubót síns

andligs föður; var þá ok batinn svá fljótr, at hann söng messu samdægris, sèr til fagnaðar ok öllum öðrum.

15. En er virðuligr herra þorlákr biskup secundus hafði líkamliga í jörðu legit um fjögr ár, væntu ástvinir hans enn meiri gleði; þar af má einkanliga til nefna herra Pál biskup frænda hans, ok sira Ormr, er var hans kapellanus, en sat í þenna tíma með herra Brandi biskupi at Hólum. Greindum árgang fundust þeir Guðmundr góði ok sira Ormr, talandi með sèr þat er þorláki biskupi tilheyrði; sagðist sira Ormr þess vænta, at hans elskuligr faðir veri góðr maðr fyrir guði, en sira Guðmundr vann þar meira at með fortaks orðum, at þorlákr biskup veri hinn helgasti maðr, ok eigi mundi langt áðr en þat yrði ljóst öllu landsfólki. Svá fylldist þessi spásaga, at með birtíngum ok fögrum jartegnum fyrirförundum varð blezaðr þorlákr á næsta ári eptir translatus. Var biskup Holensis, sira Guðmundr ok sira Ormr þá í Skálaholti, eptir bæn herra Páls í þeirri embættisgjörð, er eigi var fyrr framin í því landi. Skipar biskup Skalholtensis sira Guðmundi hæsta rödd yfir alla kennimenn, næst biskupinum, hvat lesa skal eða sýngja í hverri stöðu eða framgöngu; fèkk hann þar af mikla virðíng, því at svá sýndist í hverri grein viðkvæmiligast, sem hann skipaði. Hèr með [lèt] herra Páll biskup hann bleza fullt ker með vatn, at þat gefist út í sýsluna mönnum ok smala til heilsubótar. Á sama tíma var þar á garðinum biskupsins svá krankr maðr, at hann lá lengstum sem í kör; hans vanheilsa var svá fallin, at í millum hæls ok háls var hann steyptr einni hrufu, ok þar undan fèll daunmikit vatn; var meinit æ því úhægra ok líkaminn stirðari sem hryfit var harðara með órferðinni. Ræðismanni á garðinum þykkir mikit at um sjúkdóm þessa manns, þvíat hann var hægr, en hafði nú verit með öllu úfærr um tíma; finnr ræðismaðr þann veg er dugði, at hann segir til sira Guðmundi; biðr þar með mjúkliga, at hann muni eitthvert [ráð] til leggja. Sira Guðmundr svarar svá: várs herra miskunn má hans sjúkdóm lækna, en ef ek skal til leggja, þá fá mèr einn bikar með oleum. Verðr ræðismaðr þá glaðr, gengr til Páls biskups ok kynnir honum hvar komit er. Sem oleum er til látið, hefir sira Guðmundr þat upphaf, sem honum var kærast, kallar á nafn Krists, ok blezar oleum ok smyrr síðan þá hina aumu limu, er allir vóru lamdir einni líkþrá; leggr

til síðan nokkurar bænir lágliga af sinni hálfu, ok talar svá: þess væntir ek í valdi drottins, at þèr lètti. Ríðr hann síðan fljótt með Brandi biskupi norðr um land, en af líkþrámanni er þat [at] segja, at hann var hreinn ok alheill í öllum limum ok liðum innan vij nátta; sýndi hann sik sira Guðmundi alvarliga hreinan, sem þeir fundust á næsta ári. Svá lutu sæmdir at þessum guðs manni, at litlu síðarr stóð hann í þeirri þjónustugjörð með sömu raust ok forráði, er gjör var i Hólakirkju til dýrðar sælum föður Jóhanne Holensi, þá er hann var með jartegnum ór jörðu lyptr ok gleði allrar landsbygðar, þvíat drottinn guð sneri fyrir hans meðalgöngu rèttdæmi sitt ok refsíng í mildan mjúkdóm hunangligrar miskunnar. En þó at veizlur guðs eða mannvirðíng, sem nú var greind, hallaðist at sira Guðmundi, ofraðist ei hans hjarta þar af, heldr var hann æ því kostgæfri til þjónustu við guð, sem gjafarnar vóru meiri. Má hèðan af vel til hans segjast þat er ritníngin setr rèttvísum mönnum, at fyrr en hann kallaði guð, svaraði várr [drottinn]: ek er hèr; þvíat sú blezan ok birti, sem framdist af hans bænum, gengr framarr flestum dæmum.

16. Þar er kyn jartegna, at maðr mýktr í hjarta leitar miskunn ok finnr hana, en þat er frábært, at hjálpin grípi mann þann, er einskis biðr um sína nauðsyn, sem optsinnis varð fyrir vötn ok vígslur þessa manns, þó at eitt af mörgu sè hèr til dæmis dregið, þat er tvær konur fóthrumar vóðu þann læk, er fèll úr þeim brunni, er sira Guðmundr hafði vígt, ok vurðu í stað alheilar, en vissu á öngan veg hvaðan leiddi þeirra bata, áðr kunnir menn greindu þeim upprás lækjarins. Hèr með fylgir þat, er þó varð miklu síðarr, at hans öfundsmenn urpu vatn af sínum líkam í hans blezaða brunn. En þat sem þeir þóttust [gjöra] guðs vin til háðúngar, sneri várr drottinn sèr ok sin[um] vin til virðíngar, því at framarr en fyrr blómgaðist sjá brunnr mönnum ok fènaði til heilsubótar. Þat var enn eitt sinni, at hann hafði brunn vígt, at kona nökkur langt til komin vildi bera vatn til heimilis síns, en hafði fatið ekki; tekr þá húfuna af höfði sèr gjörva með lèrept ok fyllir með vatn. Svá gerir hún allan sinn veg, at vatn er úbrugðit en húfan þurr utan. Í sama brunn tók maðr vatn í fötu luktri; hans farlengd var um fjallveg mikinn; ok er hann kemr í hæð fjallsins, sezt hann niðr at eyrindi, en lætr fötuna lausa hjá sèr ok

hugsar eigi hvar hallrinn var undir, ok því grípr hana brattlendit með fjallsins flug, ok steytir urð af urð þar til hún kemr à forlendi. Maðrinn harmaði þat, er hann hugðist tapat hafa; rennr þó ofan af hlíðinni ok finnr fötuna með sínum farmi svá heila sem hún hefði í dún fallit. Nú ef vatni sira Guðmundar fylgði þvílíkr kraptr hvar er þat fór eða fluttist i fjarska við hann, má þat vitr maðr vel hugleiða, hverrar dygðar þat mundi þá vera, er hann sjálfr fylgði fram með bænum sinum ok list heilags anda, sem enn sýnist i því er eptir ferr. Maðr kom til hans með fótarmeini svá sáru, at varla var bæriligt þeim er þoldi; því fellir hann mjúkar bænir, at guðs þjónn miskunni honum; hann dvelr ok ekki, vætir í vatni fótinn ok meinit, signar síðan ok less yfir langa bæn svá at fótr þessi var albættr innan þriggja nátta. Í öðrum stað ok tíma vitjar hann þann mann, er nær var numinn öllu afli, ok hafði legit um vij ár i sífeldri kör; þenna mann dreifir sira Guðmundr vígðu vatni, berr yfir helga dóma með bæn sinni, ok reisir hann svá upp af rekkjunni, endrgoldinn fullri heilsu, sem eigi hefði krankr vorðit. Í þriðja tíma kom til hans sá maðr, er sárligra mein hafði en flestir aðrir, þvíat hann pindist með úbærligum harmi i sjálfum getnaðarliminum, er hjartanligan sárleik hafði umfram aðra liðu. Hvat þarf lengra, en þessi guðs maðr hefir sína læknidóma, sem greindir vóru, ok gerir hann alheilan mann með valdi ok vilja várs herra Jesu Christi. Fjórða sinni kemr hann í þann bæ sem hann gerir sinn veg, at þar liggr maðr í rekkju svá krankr ok kreptr, at samhaldin kör var hans eigit heimili. Þenna mann vætir sira Guðmundr i vatni , vígðu með sjálfs síns höndum, biðr fyrir honum, berr yfir hann reliquias, ok fyrir þetta allt saman nálgast sá guðs kraptr, at limirnir rèttast, hverr til síns embættis ok þjónustu líkamans, svá at þessi maðr fagnar fullri heilsu fyrir allar greinir. Svá kvað Einarr Gilsson:

Raun lá sárt à sveini,
svall búkr, limu alla,
kör vann, krepti[1] stórum,
kvöl, böðvar Tý fölvan;
þar fèkk síðan sökkvir

1) leiðr.; krapti, Hd.

sundeims af Guðmundar
hreina björtum bænum
bót armæðu ljótrar.

Í fimta stað kemr enn sira Guðmundr til sjúks manns, er um langa tíma hafði í rekkju legit, ok sem hann hefir borit yfir hann vígt vatn eptir vana, fellr hann fram til bænar á pallinn, millum sængrinnar ok eins klerks, er honum tilheyrir, svá at í fyrstu hafði klerkrinn sýnan púnga af annarri öxlinni. Nú sem hann hefir beðizt fyrir um stund, rennr yfir hann púngi sem hann sofnaði, ok nú í stað skilr klerkrinn, at sá líkams púngi er brott borinn, sem fyrr h(afði) hann kent í þeirra samkvámu. Eptir þrjár stundir vaknar hann sætt ok hógliga. Klerkrinn spyrr þá: sira minn, segir hann, hver grein mun til þess, er ek kenda eigi púnga af þèr síðan höfginn leið yfir þik. Hann svarar: drottinn várr vinnr þat er hann vill; hans nafn sè blezat um veraldir! Ei fær klerkrinn meira hèr um. Þessir lutir gjörðust á einn laugardag; líða nú tímar, þar til at frèttist, at á vestanverðu landinu fór einn bóndi dagstætt at sækja tíðir, ok því næst skrefar at honum einn fjandi í flagðkonu mynd, ok vill bægja honum til fjalls brott af veginum. Hann mæðist brátt í umfangi við þann úvin, svá at hann þykkist at þrotum kominn; fær síðan hinn bezta veg síns vandkvæðis, kallar með háreysti á góða Guðmund prest Arason; ok án dvöl kemr maðr í svartri kápu með vatn ok stökkvil, millum hans ok fjallkonunnar. Flýr þegar úvinrinn, en kápumaðr tekr vald yfir bónda ok fylgir honum allt til bæjar; kendi bóndi berliga sinn leiðtoga, at hann var sira Guðmundr Arason, þvíat hans vöxtr var flestum mönnum kunnr á Íslandi, bæði at sýn ok skýrri frásögn, heldr lægri en meðalmaðr ok þykkr í vextinum, breiðlaginn í ásjónu ok eigi langleitr, æ með hýrligu yfirbragði. Svá segir Einarr Gilsson:

Fyrr gekk flagð at Snorra,
fór drengr á hæl stórum,
sótti mörn af mætti
mest valklifa lesti:
hèt á Guðmund gætir
glaðr ílegu naðra,
þeim barg garpi geymir
greiðvirkr höfuðkirkju.

Sè hèr nú afburðarmann, er sæmist þeim frumtignum, sem fáligast finnast af heilögum feðrum, at sýnist líkamliga líkams augum í tveim stöðum á einum ok sama tíma; hvar er víðara lesit svá lofsamligt efni en með Ambrosio Mediolanensi ok Frontone Petragoriensi: þeir sátu báðir heima skrýddir sofandi fyrir altari, hvorr at sínum biskupsstóli, en vóru í sama púnkt báðir með guðs boði sènir í fjarlægjum stöðum, at veita graftar þjónustu guðs ástvinum: Ambrosius í Turs at sæma signaðan Martinum, en Fronto í þeim stað, er Tharaskonum heitir, at veita líksöng sælli Marthe, várs herra húsfrú. Þessum tveimr samlagast sira Guðmundr í sagðri gjöf, ok at heillri sæmd svá frægra guðs vina má þat sýnast hèr fremra, at gera tveimr í sama tíma hjálp ok heilsu sinna þröngvínga, þá er sjúkr reis ór rekkju, en sóttr af fjánda frjálsaðist. Sami klerkr sagði svá gerast optliga um nætr, sem þeir sira Guðmundr sváfu báðir í einni sæng, at kenníng hans líkama veru var í bröttu, en sakir ótta þorði hann eigi höndum til at taka, en þá er svá bar til, spurðust á síðan nökkur tígulig verk samtíma vorðin í landinu, er hann vann í fjarlægð líkamans með krapti andarinnar, þótt vèr kunnim eigi framarr greina sakir fáfræði, er þat prófan þess er fyrr var skrifat, at þetta er lítið brèf hans ágætligra verka; mun þó svá sýnast mega, at fylgjandi frásögn efli mjök þat fyrra efni, þá er greinist hvat kraptrinn vinnr fyrir hans klæði honum fráveranda, svá sem lesit er af ágætum manni í guðs kristni Anselmo, er síðan varð Cantuariensis erkibiskup næstr fyrir Theobaldum, at í sínum klerkdómi fèkk hann stríðan púnkt á stóru [fjalli] um hávetrartíma, sem hann fyrirlèt áttjörð sína ok gjörðist norðr til Borgundíam. Finnst sama grein í lífssögu sira Guðmundar, þá er hann sótti fjallveg þann, er liggr annan veg biskupsstólsins at Hólum. Í þeirri för var með honum mart fólk, sem honum var gjarnt, alla götu, þvíat hægt þótti at búa undir hans góðleik ok mildi. Á sètta dag viku byrjar hann sína ferð upp á fjallit; eru með honum í ferð bæði úngir menn ok gamlir, þótt fáir sè nefndir. Klerkar hans vóru þar tveir: Hospes (= Gestr) ok Vermundr, er hann unni sem lífi sínu. . Fóstrmóðir hans var ok þar, ok ein meyja lítil. Þat er fljótast af at segja ferð sira Guðmundar, at[1]

1) leiðr.; ok, Hd.

svá sterkt ofviðri með grimmasta frost ok myrkr grípr hann, ok allt hans föruneyti, á sjálfum fjallgarðinum, at dauði ok dráttr hríðarinnar dreifir fjögurra vegna allt þetta fólk. Báðir lærisveinar fyrnefndir látast þar á fjallinu, meyjan sú hin litla, er vèr gátum, var grafin í snjá með þeim búnaði, at hún [var] sveipuð með kyrtli sira Guðmundar; hann sjálfr hefir þat náttból í fönninni á fjalli uppi svá úhægliga, at á sinni hendi lá hvárt, fóstrmóðir hans lifandi ok andlauss lærisveinn; varð [hann] hèr af svá stirðr, at varla mátti hann ganga. Eptir um morguninn, sem hans var leita farit á hesti ok fæti, því at mikil sorg var vorðin allri bygðinni af hans brotthvarfi: hann lætr með virktum flytja ok til kirkju færa lík beggja lærisveina sinna, söng hann yfir þeim heimkominn með tárligri góðfýsi; ok áðr þeirra ásjónur veri sveipaðar, kyssir hann þá báða með grátstokknum augum, ok talar svá; drottinn minn lífgi ykkr í ríki sínu! — Ok á næstu nótt eptir þeirra gröft dreymdi fóstrmóður sira Guðmundar, at hún þykkist koma fram á eina fagra eng; þar er pilta leikr mikill, ok þar sèr hún at leikr Hospes, lærisveinn sira Guðmundar. Hann víkr at henni heimoliga, en hún talar til hans: hví stendr þú í leikferðum, framliðinn maðr? — Hann svarar: ek var dauðr, en nú lífs, því at fóstri minn gaf mèr í gær góðan kyrtil, veittist honum ok þat, er hann bað með kossinum, at drottinn lífgaði okkr í ríki sínu; nú er ek vel kominn, en skólabróðir minn betr miklu, megum vèr nú gera lètta nökkvern í erindum fóstra okkars þá er hann vill. Þessa sýn sagði hún sira Guðmundi um morgininn, gladdist hann mjök hèr fyrir af harmi piltanna, ok lofaði guð. En af meynni, þeirri er á fjallinu var sveipuð kyrtli sira Guðmundar, er þat at greina, at hún fannst á mánadaginn eptir heil ok ókalin, utan lítt á fótinn annan, er tók undan kyrtlinum; svá hlífði henni guðs vinar klæði, at hvárki frost nè húngr náði hennar lífi. Nú svá sem guðs mildi fæddi sælan Anselmum himnesku brauði í fyrrgreindum veg, sem hann var at úferu kominn í fjallsins vegleysu, svá nærði hèr andlig miskunn móti náttúru lítið barn um svá mörg dægr, fyrir verðleik ok klæði sira Guðmundar. Því hæfir, at enn hlýðim vèr framleiðis, hversu gæ[zka] drottins, er honum [var] nákvæm á nótt ok degi, verðr öðrum sorgar slökkvir með nýtekinni gleði. Svá berr til í ferð sira Guðmundar, at hann gistir þann húsbónda, er svá var

handlami með ofrverkjum, at hans sjúkdómr mátti eigi svefn hafa; ferr þar sömu leið þarvista sira Guðmundar, at hann sálugr reikar brött af svefnskemmunni; en er hann kemr aptr farandi, sèr hann skínandi birti af loptinu standa niðr yfir sæng sira Guðmundar, því líkast sem sól gefr í krapti sínum at alskærum himni; hann gengr ok rèttir fram hendrnar í geislann ok þá krönku hönd, ok eigi í tómt, þvíat án minnstu hindran flýr braut verkrinn; gengr hann til rúms síns albættr maðr í náð ok heilsu líkams, sem eigi mundi hann sik þess háttar þolt hafa. Í annan tíma var þat, at í blíðum viðrtektum hans gistíngar var fengin til kona nökkur at klá fót hans, er hann kom í sæng; en þó at hann fýsti eigi þvílíks, vildi hann sakir hógveri eigi neita, síðan ástin beiddi þjónustu. Kona sú hafði vanfæra hönd til vinnu, þvíat þrír fíngr lágu kreptir í lófa; en er hún klær, líkir sira Guðmundi þat sem honum þykki hún ofkyrt vinna, ok spyrnir fætinum at fótafjölinni; verða þar í millum þeir kreptu fíngr, svá at hællinn kemr í buginn, rètt á þá sin, sem dregit hafði; en í móti þeim sárleika, er konan kendi hèr af, finnr hún þat verðkaup, at innan fárra nátta eru þeir sömu fíngr alrèttir; sýndi hún þá síðan guðs manni; hann lofaði guð fyrir, eignandi sèr með öllu ekki af þess-háttar verki. Svá segir Einarr Gilsson:

Fót kló jarðar Áta
elds Guðmundar þella,
þóttu þeygi rèttir
þrír fíngr á bil kíngu:
hreinn nam hart at spyrna
hófs í kreptan lófa,
en hönd á vár vindu
varð heil, friðar deilir.

Í þriðja tíma, sem hann flutti guðs embætti, stendr djákn hans hjá honum, er hafði mikinn sull í miðju höfðinu; en er þar kemr officio, at sira Guðmundr hefr upp sínar blezuðu hendr eptir upphaldit, mætir annarr handleggrinn rètt miðjum sullinum klerksins, svá at í ákvámunni verðr honum mjök sárt, en litlu síðarr varð því linara, því at aldri nè eina stund upp frá því kendi hann þar meinlætis af; tjáði hann meistara sínum þenna hlut, en þar kom í móti eptir vana dúfuligt einfeldi ok þakklæti við hinn hæsta guð. Í fjórða tíma stendr svá skrifat, sem hann

kemr í sinni hjálpsamligri yfirferð til eins bónda, er býr nær sjó, ok þar út af meginlandi vill hann hafa skipferð til eyjar einnar, at finna vini sína; víkr hann til við húsbóndann, at hann man ljá honum skip ok lið svá langt sem iij vikur sjáfar. Bóndinn svarar: sira minn, segir hann, ek vil gjarna veita skipit, en eigi mun þèr þykkja harðskipat verða; piltar mínir tveir ok húskarl skulu til vera, en sakir þess, at þeir eru aflvani til róðrar, vil ek at þú veitir þeim byrleiði heim aptr. Guðs maðr svarar: við skal ek leita at biðja drottinn minn, at hann lètti erfiði þeirra. Sem þeir eru búnir, fara þeir ok fram koma; ok at skilnaði, sem sira Guðmundr gengr af skipi, tala svá piltarnir: minstu nú, sira minn, at þú hèzt feðr okkrum at gefa leiðit. Hann svarar: guð greiði veg ykkarn, mínir sætu synir! — Síðan gengr hann til kirkju. Veðr var kyrt með öllu er piltar láta ór vörum, eru svá öruggir af nökkurri tilleiðslu sira Guðmundar, at þeir draga segl í vindlausu; er þat ok allt í sama púnkt, at þeir hafa vundit, ok vindr greiðist með fullum skrið, svá at eigi leggja þeir fyrri en fyrir bæ föður síns; varð bóndinn glaðr í þeirra kvámu, jafnan síðan boðinn í vináttu sira Guðmundar framarr en fyrr hafði verit. Hèr var sagt af farargreiða sira Guðmundar, hversu hann var guði kærr, því skal setja þessu næst hversu honum líkaði ef menn fyrirkváðust hans nauðsynjar. Á nökkurum tíma kemr hann af löngum veg landsins með mæddan hestakost, ok krefr einn bónda í hèraði ljá sèr góðan hest, um dagleið, er hann átti. Bóndinn fyrirnemst hestlánit; er þar fljótt um [at] gera; vegr sira Guðmundar fellr ei því heldr, en bóndinn með sínum húskörlum á þau verkefni á næsta morni, at draga dauðan hestinn góða ór því feni, er hann hafði í steypzt um nóttina; kemr þat hèr fram, sem sæll Gregorius váttar í fyrstu bók Dialogorum, at ef guðs þjónustumaðr verðr reittr, verðr ok hans hugskot eigi seinna provoceraðr. Á þessum tímum sira Guðmundar vóru tvær einsetukonur á Íslandi: önnur á biskupsgarðinum í Skálaholti, en önnur norðanlands, at því múnklífi, er heitir at Þingeyrum. Þeirri bar svá til, er í Skálaholti var ok þar hafði þjónat, at litlu fyrir hennar andlátstíð kemr þar vegfarandi várr blezaðr sögumaðr, sira Guðmundr góði, ok at bæn herra Páls biskups sagði hann henni allan yfirsöng til moldar; var þat mál manna, at í því birtist mjök hennar kærleikr við

guð, at hún öðlaðist þvílíkan árnaðarmann í sinni útferð, þvíat lestrinn var, sem skrifat finnst, bæði skilríkr ok társtökkinn; en nunnu þeirrar, er sat at þíngeyrum, mun þenna tíma sögunnar verða getið, sem síra Guðmundr er Electus til Hólakirkju. En þat er múnklífinu tilheyrir má hèr setja viðrkvæmiliga, hversu sæmiliga þat tók við sira Guðmundi, ok þann tíma sem hann reið í garð prestr at vígslu, þá var yfir lifnaðinum ábóti, er Karl hèt, en fremstr í samnaðinum var bróðir, Gunnlaugr at nafni, er þá var kallaðr bezt skiljandi til bækr á öllu Íslandi. Meðr hans tillögu gerir ábóti sæmiliga processionem ok skrýdda móti sira Guðmundi, með þessu Responsorio: Vir iste in populo suo mitissimus apparuit; sanctitate autem et gratia plenus iste est, qui assidue orat pro populo et pro civitate ista. þessi Gunnlaugr componeraði meðr latínu líf hins sæla Johannis fyrsta Holensis; váttar hann þat í prologo þess sama verks, at þat efni tók hann upp í fyrstu fyrir bæn eða boð virðuligs herra Guðmundar Hólabiskups[1]. En hversu þessi múnkrinn, sem fleiri aðrir, umturnar sinni dygð, mun þann tíma getið verða, sem sira Guðmund berr fram í boðana. En af þeirri processione, er vèr greindum gjörva mót honum at þíngeyrum, má vel skilja, hversu almenniligu lofi hann var prýddr á þeim tímum; því syrgiligra var þat er eptir kom, at margir gjörðu því minnr vel til hans, sem þeir vóru honum meira skyldugir.

17. Virðuligr herra heilagr Thorlakus, nývorðinn biskup Skalholtensis, flutti þau brèf herra Eysteins erkibiskups í fyrstu til Íslands, er birtu herra páfans boð, at upp frá því skyldu allar kirkjueignir æfinliga standa undir valdi ok skipan lærðra manna. Efldist sá boðskapr lítið á þeim tíma sunnanlands, en með öllu eigi fyrir norðan; eigi fyrir þá grein lítið, at sæll Thorlákr vanrækti hann, heldr fyrir þat, at Jón Loptsson, er þá var gildastr leikmaðr á Íslandi, reis með almúganum svá örðigr, at við vóðann lá sjálfan, áðr eyrindit nam stað með öllu fortekit. Fyrir þessa grein sátu kennimenn með bóndum í hèruðum, ok höfðu þat borð af kirkjunnar rentu, sem góðfýsi fyrri manna hafði offrat altarinu; því sat várs herra þjónustumaðr, Guðmundr góði, at líðanda sínum prestdómi, með þeim húsbónda, er hèt

1) sjá Biskupa sögur I, 215—16.

Kolbeinn Tumason; hann bjó í því hèraði norðanlands, er heitir Skagafjörðr, þat liggr til vestrættar annan veg biskupsstólsins at Hólum. Kolbeinn, er vèr nefndum, var mesthâttar maðr í því hèraði, formentr í skáldskap, svá at hans óðr leggst alldri niðr; hann orti fagrligt lof guðs móður Mariæ til dýrðar, ok í mörgu lagi var hann vel fallinn, þótt hamingjan veri honum hverflynd. Hans húsfrú, Gyríð at nafni, var náin frendkona sira Guðmundar; hún var kvenna vænust, ok brást aldri sinum frænda hversu hart sem dró. Svá berr til í nökkurn tima, sem Kolbeinn ok hans húsfrú hafa með sinni fylgð riðit þann stóra kjöl, er millum bygða liggr um mitt landit, at hann tekr náttgisting í þeim stað, er landsmenn kalla Vinverjadal. Hann lætr tjalda ríkmannliga, sem honum til heyrir, dvelst þar um náttina, en myrgininn árla hefir hann sik á fótum, var maðr á lèttasta aldri, glaðværr ok leikinn, ok því kallar hann út pilta sina, at efla einshverja gleði áðr tími sè til borðs. Nú sem þeir standa, heyra þeir til tjaldsins sárliga rödd; rennr Kolbeinn fyrstr manna, ok inn komandi sèr hann rúm autt með öllu, er Gyríð hafði haft. Hèr af verðr hann sleginn þeirri sorg, sem enginn fæst í at greina; ok sem hann hefir lengi andvarpat með hugleiðíng, hvat helzt muni til hjálpa í svá stirðan púnkt, kallar hann þá síðan til sín lágliga tvá menn, ok býðr þeim at sækja fjallit sem ákafligast norðr í bygð, á fund sira Guðmundar, ok segja honum, at Kolbeinn sè sjúkr á fjalli ok vili fá prestfund. Þeir fara ok fram koma, berandi svá fallin orð sem þeim var boðit. Sira Guðmundr kennir þegar með sèr nökkut óttaboð, ok svarar svá sendimönnum: Þat trúi ek satt vera, at Kolbeinn sè krankr, en hvárt sjúkara er, hugr hans eðr hörund, látið þit kyrt vera, en þat kann vera, at Kolbeini þykki ek skyldugr vera at fara. Hann dvelr ok ekki, ríðr sama dag heiman upp til fjalls, ok þegar upp á fjall um nóttina, því at hásumar var, i Julio mánaði, með svá miklum sólargang, sem greindr var í upphafi sögunnar. Sira Guðmundr kemr suðr í Vinverjadal þegar í óttu; veitir Kolbeinn honum þá virðing, stendr upp í mót honum ok tjár honum hver hörmúng hann hefir heim sótt, biðr þar með hverja lund er hann kunni, at sira Guðmundr árni þess við guð, at líkami konunnar skipist ok mætti þiggjast í kristiligan gröft þótt líf hennar veri forlagt. Guðs maðr svarar öngu, utan biðr hann senn alla þá

ganga brōt af tjaldinu; ok eptir liðnar iij stundir kallar hann Kolbein, ok til kominn sèr hann á klæðunum liggja líkam ljótliga spilltan, alla lund snaraðan ok drepsóttan, sem grætiligt var þeim at sjá er unni, hvert ferlíkan vorðit var af ljúfum kristnum manni. Kolbeinn fellr þá í meiri sorg en fyrri, fellandi nýjar bænir at sira Guðmundi til lèttis ok endrbata konunni. Hann svarar: þú knýr mik, Kolbeinn, undir úberiligan þúnga, því at til svá stórra luta ber ek öngan verðleik. Kolbeinn gefr sik þá fram [með] tárum fyrir fætr hans, þar til þat blezaða brjóst bognar fyrir, ok biðr hann brott ganga. Eptir liðnar tver stundir, eðr heldr meirr, kallast hann aptr í tjaldit, sèr hann þá guðligan krapt svá mikinn skína fyrir bæn sira Guðmundar, at líkaminn var aptr leiddr í mannliga mynd, ok endrbættr i öllum greinum, því fráteknu, at svá var hún mædd ok máttfarin, sem líf at eins bragðaði fyrir brjóstinu. Guðs maðr segir þá: þat mun guðs dómr krefja af þèr, Kolbeinn, fyrir svá háfa velgjörð, sem hann veitti þèr hèr í dag, at þú fyllir eigi flokk hans úvina, ok ei finnist þú með þeim, er hans rètt ok heilagrar kirkju vilja fyrirsmá. Kolbeinn svarar: um alla mína lífsdaga skal ek þik elska, ok þat er þú segir mèr gott vera skal ek gera. Sira Guðmundr segir þá: vánligt þykki mèr, at nú í dag sè þetta þitt hugarfar, en brestr mèr mágr, ef ek sè þik eigi um sinn í öndverðu brjósti þeirra, er mèr vilja með öllu fyrir koma; en leggjum þetta tal; far heldr ok nær húsfrú þína seint ok stilliliga; far ok ei hèðan fyrr en [hún] má hættulaust á baki sitja, þvíat hún mun þèr á[vallt] til nytsemdar skipuð, ef þú kant geyma. Hèr um kvað Einarr Gilsson fimm vísur:

Snjöll varð ferð á fjalli,
fleinþíngs, með Kolbeini,
tjald sló vörðr sem vildi
víns hirði-Bil sinni;
ein sat ægis mána
eik, en sveit nam leika,
braut hvarf elds frá ýtum
Áta lands, með gráti.

Angrs var Kolbeinn klúngri
kvíðandi mjök síðan
Otrs er eik var brautu

úng nauðgjalda þrúngin;
fróns bað fyrða sína
farar rækjandi sækja
prest þann er lýði leysti
linns allmörgu sinni.

Veit ek at geirþíngs gautar
Guðmund í stað fundu,
kváðu Kolbein meiðar
kjaldúks vera sjúkan;
heill berr stefja stillir
stríðr útlimu fríða,
brátt segir bölva lèttir
bjartr, en nauð í hjarta.

Kænn nam Kolbein finna
kafs rýrandi fýris,
bittu, kvað Viðris vettir
víns, fyrir beðju minni;
hèt á siklíng sætan
seimlundr röðulgrundar,
aptr kom brúðr til beiðis
bláleit ok dauð hneitis.

Enn nam öðru sinni
allhryggr á prest kalla
hjaldrs at hjálpa skyldi
hlunnr valbrautar Gunni;
hár gaf himna stýrir
Hlín albætta Vínu
fyrir Guðmundar greindar
grænleiks fríðar bænir.

Eptir framit þetta dýrðarverk, er saman heldr bæði spádóm ok verðleik sira Guðmundar, ríðr hann norðr af fjallinu, ok bíðr heima húsbónda. En því var Kolbeini mikit lagit í meingjörðum við sira Guðmund, at mörgum hans táknum mátti hann vitni bera. Hann tjáði optliga þat fyrir öllu heimafólki sínu, at í hans búgarði gekk jafnan minni kostr, ef sira Guðmundr sat heima með klerkum sínum. Hann hafði ok sèð ef sauðr sýktist eðr stærri fènaðr, svá leiddr í dauða at rètti frá

sèr hvern fót: spratt kykvandit upp alheilt ok tók á rás síðan Guðmundr gekk til með bæn sinni ok vígðu vatni.

18. Mikill bardagi fèll yfir einn búgarð norðanlands með þat kyn, at ganganda fè datt niðr í bráðan dauða; því eru orð gjör signuðum lækní sira Guðmundi; hann er ok fljótr at stoða náúngunum eptir vana. Sem hann fram kemr, lætr hann samka fèit í einn stað, berr síðan yfir fyrst vatn, með heilagri bæn, en síðan gengr hann til kirkju á þeim sama bæ, ok býðr at klokka sú, sem utan húss var um búit, sè niðr tekin; síðan lætr hann fjögurra vegna rista á henni hinn heilaga kross, ok eptir þat skipast í sama stað; þar með býðr hann forráðsmanni bæjarins, at þeirri klukku skal hann láta hríngja iðuliga móti búinu, þá er þat gengr heim ór haga, segist þá vænta í guðs miskunn, at fallit muni af nema. Eigi fèll hit minnsta í hans forsögn meðan geymdist þat er hann bauð; fallit svæfðist meðan klokkan hríngdist; en síðan gleymdist, leiddist aptr sama úgipta, ok því nærri fèll sú klukka niðr af sínum umbúnaði með svá einkanligum hætti, at hún brast á grjóti en hrotnaði eigi; var þá síðan upplátin ok hríngt eptir guðs manns boði, var þá ok þegar fallit afnumit í þriðja sinn. Annarr búgarðr varð enn fyrir sama stríði, ok þeirri pínu fram yfir, at mannfólkit í bænum greipst í bráðasótt, svá at innan fárra nátta hnigu vij menn; var sá býr allr í hörmúng ok angri sem ván var. Bóndi af þeima bý ríðr til fundar við sira Guðmund, sem hann ferr yfir land í sömu gæzku ok góðvilja til kristinsdómsins sem greint var, biðr hann víkja til sinna hýbýla ok segir honum hvat hann hefir hræra. Guðs maðr víkst þegar við hans þörf ok ríðr á bæinn, gengr síðan með vígt vatn ok reliquias ok heilagt bænahald inni ok úti um akr ok eng, langt ok víða alla vega frá bænum. Hèr má nú sjá einkanligan hlut ok eptirdæmi sæls Martini mjök lofligan, þvíat fyrir bænir þessa guðs manns tókst hvártveggja braut, fall af fènaði ok sótt af mönnum, þvíat þar birtist mestr verðleikr mannsins, ef hann þiggr af mannfólki lagða ráðníng, hvárt sem heldr fyrir syndir þeirra sjálfra eðr leyndan guðs dóm, sem váttaði sæll Martinus þá er hann græddi hús Licontii jarls. Þat bar enn til í sömu ferð sira Guðmundar, sem hann kom með sínu föruneyti fram at á einni stórri snemma sumars, at vatnið var með öllu úfert, sakir úvægiligs vaxtar. Tveim megin til ríða farfúsir

menn, en hverigum gefst fararleyfi. Sira Guðmundr stigr af baki ok víkr fram at ánni, en klerkar hans leika sèr í leyfi; ok alllitlu síðarr brestr á grandanum framfall árinnar, svá at hvárirtveggju ráða til, mætast í miðju ok berr af it bezta, en án dvöl eptir þetta hleypr áin upp í sama vöxt, svá at lengi sumars fór fuglinn einn yfir hana. Þat var annat vatnfall, er gekk ór fornum farveg, svá þann fylldi með sandmel, en braut annan, ok dregr sik þaðan svá meinliga, at hún ógnar ófför þeirri kirkju er nálægst var. Hèr til er kallaðr sira Guðmundr með sínum læknidómum, sem hann var í greindum veg sunnanlands; hann bar sína[r] reliquias fram til árinnar, dreifir hann hana með vigðu vatni, fellr síðan á knè til bænar móti austri, ok stendr svá um stund. Hvat lengra? en á næsta morni sjá menn út komnir, at áin hefir brotið sik aptr í fyrra farveg, ok fellr svá um sanda þvers í braut frá bænum. Er þetta verk því samlíkt, er sæll Gregorius váttar með lofligum orðum í þriðju bók Dialogorum, af þeim guðs þjón, er hèt Frigidianus biskup Luteanensis. Millum annarra heilagra dóma, er sira Guðmundr bar með sèr hvar hann fór, var bein hins blezaða Johannis Holensis; þat sama tjár hann í heilagri kirkju á sama bæ. Þar er viðstaddr einn prestr; orðmargr maðr en eigi djúpvitr: hann talar svá til beinsins, sem þat berast, at honum þykkir þat hvorki vel litt nè stórum heilagligt. Sira Guðmundr lítr til hans hógliga ok talar svá: mun Martinus Turonensis fyrir þá sök lítt eina heilagr, er hans bein er dökkt, eðr trúir þú þat standa fyrir dýrð Þorláks biskups, er hans bein er eigi hvítt? Prestrinn svarar: eigi þarftú saman at taka Þorlák várn ok Jón yðvarn. Sira Guðmundr svarar: ókennimannlig orð hefir þú, þvíat í þeim finnst bæði dirfð ok vantrú, því skulu vèr nú biðja várn herra, at hann birti enn um sinn hversu Jóhannes má reiknast millum heilagra manna. Ok sem menn hafa lesit Pater noster með Ave Maria, biðr hann alla menn minnast við beinit; fylgir þá sú dýrð, at þar af angar hinn sætasti ilmr; þat kenna allir menn, utan prestrinn einn. Sira Guðmundr segir þá: nú hefir guð sýnt stöðu þína, prestr, at þú ert frá skildr vináttu hins sæla Johannis; nú krefr þik nauðsyn at renna meðan þú mátt, ok gera iðran fyri glæp þinn, skal ek þá veita þèr af helgum dómi Johannis til vináttumarks með okkr. Prestrinn svarar þá með góðu hjarta: ek

má óttast, at sæll Johannes vili varla þiggja mína þjónkan fyrir þau mínkunar orð er ek kallzaði til hans. Sira Guðmundr segir þá öllu því fólki: nú skulum vèr falla á knè í annat sinn með þeirri bæn til guðs, at hann birti sèr ok sínum elskara þæga vera prestsins iðran. Þegar eptir bæn gjörva ok prestrinn kyssir beinit, kennir hann svá sætan ilm, sem ei mátti jarðneskt reykelsi við jafnast; gaf Guðmundr honum siðan af helgum dóminum ok vóru sáttir vel. Í sama bæ, sem sira Guðmundr dvelst þar, [liggr] ein kona komin at dauða, hún hafði verit meinlauss maðr í lífi sínu, hógvær ok bænrækin, en nú komin í örvasa aldr: hún lá svá um vij nætr, fyrir utan næríng matar ok drykkjar, at hún hrærði engan lim, nema sem minst framanverða fíngrna, liggr hún svá búin á þann sama laugardag, er sira Guðmundr býst í veg. Ok sem hann er kominn til hests, talar hann svá: þat er ei vel farit ef ek finn eigi þá góðu konu hina gömlu, er liggr í bænum. Síðan gengr hann inn í stofuna ok svá margt fólk með honum, at sumir stóðu utan dyra; hann gengr at sænginni ok talar svá: þú, vinkona mín, munt brátt koma til guðs, því biðr ek þik, at þú berir kveðju mína várri frú; sælli guðs móður, þar næst Michaele ok Johanne baptista, Petro ok Paulo, Ólafi konúngi, ok einkanliga vin mínum sælum Ambrosio, ok öllum guðs helgum mönnum. Kerlíngin svarar hátt ok hvellt, svá at þeir heyrðu fullvel, er í forstofunni vóru: já, já, segir hún. Fylldist enn svá þessi forspá sira Guðmundar, at hún lifði eigi lengr en vj stundir dags upp frá því. Var þessi hlutr í mikilli dásemd með fólkinu, at náliga [var] at sjálfr dauðinn hlýddi boði sira Guðmundar meðr guðs vilja, sem lesit er í Vita patrum af heremita nökkurum. Eignarmaðr jarð[ar]innar, er frjálsaðist undan árbrotinu fyrir bæn sira Guðmundar, ok sá uppá þessi tákn, var gildr maðr ok klókr til veraldar vits, Sigurðr Ormsson at nafni; hann ríðr sama laugardag í veg með sira Guðmundi, ok greinir honum þat stírð ok áskilnað, sem meðr þótta snaraðist millum hans ok Oddaverja, er kyngöfgastir menn vóru á Íslandi, ok sakir þess, at eignir hans bóndans liggja í syðra biskupsdómi, nálægt viðr hans mótstöðumenn, talar hann svá til sira Guðmundar: ef svá verðr sem mik varir, sira minn, segir hann, at þú fáir meira vald norðanlands en í dag hefir þú, þá minnst vináttu okkarrar, at ek megi firrast forþótt Oddaverja ok fá heyriliga

staðfestu norðanlands með þinni umsjá, þvíat oss mun ella meiri úgipta heim sækja. En þessum orðum fær sira Guðmundr lítil andsvör, sakir síns einfalleiks, utan talar þat er honum fylgdi hvar hann fór, at friðr í góðum lutum er öllum auðæfum betri. En ef svá finnst í sögunni, at nefndr bóndi standi annarr maðr fremstr í flokki móti sira Guðmundi, er þeim hugleiðanda, er lesa, hverja dýrðar kóronu þat mundi afla við guð, at taka þar beiskleik, er hann hefir beztu sáð. En þóat járnligt hjarta sè hatrs heimili ok blindleiki[1], mun heilagri kristni svá sýnast á friðar tíma, at varla finnst sá maðr, at svá veri leiddr í höll himneskrar miskunnar sem þessi Guðmundr; hugleiði sá, er less fyrirfarandi tákn, hversu satt er: hann dró lifanda [mann] ór höndum fjandans, ok skipaði aptr með sínum bænarkrapti í faðm heilagrar kristni, þvíat hans meðalgöngu viðr guð þjónaði bæði líf ok dauði. Hèr meðr höfðu hans bænir svá mikit afl fyrir guðdóminum, at hann lypti hans ráðníng eðr reiði brött af mönnum, sem lesit var, en fall af fènaði; greindi þarmeð tilleiðíng ok lækníng skriptanna, sem var í guðs dómi. Skepnan var honum svá hlýðin, at hún veik sèr hvert er hann vildi, ok því svá, eptir orðum sæls Gregorii, at hann geymdi skaparanum sanna hlýðni; ok at þessor hans blóm sè því bjartari, fylgdi váttr hverju máli.

19. Fyrr var ritað, hversu spár ok forsýnir bendu fyrir löngu biskupliga tign sira Guðmundar, ok sakir þess, at nú nálægist sá tími sögunnar, er drottinn Jesús, brunnr spekinnar, hefir löngu disponerat, at sömu sýnir renni skipaða rás til rèttrar þýðíngar, skulu vèr hlýða, hversu samhljóðar þat er sjálfan sira Guðmund dreymir fyrir sínum kosníngi, því at guð vissi gjörla hvert var hans lítillæti, ok hversu þúngt honum bauð hugr at taka valdit, ok því mundi hann eigi hafa undir játazt, nema mörgum vitnum veri hann til knúinn af guðs hálfu; var þó sá endinn þess máls, at ei fyrr setti hann fullöruggan, en sjálf himinríkis curia gekk til at vátta þat sannan guðs vilja, sem síðarr mun sagt verða. Líktist hann í því Dunstano í Englandi, þvíat hann til biskups kosinn vildi eigi undir játtast, áðr þrír postular: Petrus, Paulus ok Andreas, birtust honum með blíðri kveðju. Andreas byrjar erindit með orðum várs

---

[1]) ljóss andvani, b. v. 398.

herra: tollite jugum meum super vos. Eptir þat gengr Petrus fram palmarium, ok segir svá: Rètt, Dunstane. Sem hann hefir rètt ok þegit hljóðgóðan slag í vinstra lófa, segir postolinn svá: þat er þín plága fyrir óliðit ok óvorðit, því at þèr þolist á öngan veg at færa þinn háls undan okinu. Skipaðist herra Dunstanus hèr við, at hann varð fyrstr lýðbiskup, en síðan Kantuariensis erkibiskup, mikill röksemdarmaðr í guðs kristni. Ok því er hans dæmi til herra Guðmundar optarr leiðanda, þótt seinna sè. En þótt þessir þrír, er Dunstano vitruðust, birti æztan gráða postulligrar tignar, má vel tala þeim til virðíngar, at enn æðri er sá í höll himna konúngs, er endalíga styrkir kosníng herra Guðmundar, sem lesit finnst ok síðarr greinir. Þau tákn, er næst eru skrifuð, vann sira Guðmundr, sem hann fór síðast um land með einföldum prestdómi. Í þann tíma dreymir hann, at hann þykkist koma í eina kirkju, er hann hafði fyrr þjónat, ok vígð var sælum Ólafi konúngi. Í sanctuario kirkjunnar sèr hann standa eitt virðuligt altari meðr svá vænum búnaði sem langt var yfir þann ríkdóm kirkjunnar, sem hann vissi vakandi at hún varð nökkvern tíma eigandi; ok er hann nálægist með athygli hversu vorðit var, hneigir sik altarit hans nákvæmd ok fellr rètt honum í fang. Hann íhugar draum þenna, ok óttast þýðíng hans. Hèr með lýtr undir sama efni þat er varð miklu fyrri, þá er ein abbadís sunnanlands, þess klaustrs er heitir Vicus ecclesiæ[1], hafði þegit biskupa orlof, at sira Guðmundr staðfestist með hennar vernd, ok hann hafði lypt norðanlands sinni ferð, kemr samt í ráðagjörð hèraðsfólks, er látið hafði þvílíkan föður, at biðja Brand biskup þat orlof aptr taka. Sem þat fór fram, skýrði svá sjálfr biskupinn þenna mótburð, at sira Guðmundr mætti hafa líkíng hins mikla Gregorii, er fyrir herra páfans boð kallaðist aptr í Romam ór Englandsferð, ok varð síðan hinn æzti biskup.

20. Þessu næst verða þau tíðindi, at herra Brandr ferr fram af löngum sjúkdóm í almenniligan veg octavo idus Augusti; þá hafði hann setið xxx ára ok ix[2] ár, ok var sira Guðmundr í þann tíma í eystra luta landsins, mjök í fjarska, ok því fregnir hann ei fyrr þessur tiðindi en í festo Bartholomei, sem hann segir óttusöng; brá honum svá við sögn þessa, sem

[1]) þ. e. Kirkjubær á Síðu. [2]) þann. 398; ij, Hd.

hann veri höndlaðr undarligum harmi, svá at varla fèkk hann fram borit sitt embætti, lèt hann þá þegar fórnfærast í formessu fyrir biskupinum, en predikaði í hámessunni meðr ágetri viðrkomníngu ok sætu orðfelli, opinberandi þar með hvern harm Hólakirkja hafði fengið, eðr hvat hún hafði látið, ok eigi síðr áminnandi, at menn biði sannan guð þann gefa til stólsins, er hagligr sè sauðum hans. Eptir dags tíðir lætr hann sýngja sálutíðir með þeirri virkt, sem kærleikrinn kann með góðum mönnum. Nú sem heilög Hólakirkja er voltin í ekkjudóm, gerist hin hæsta nauðsyn, at annarr kjósist í sætið; ok at þat megi gerast því þæ[gi]ligarr fyrir guði, er lagðr dagr kalendis Septembris, at allir vitrustu menn, lærðir ok ei síðr leikir menn í þeim landsfjórðúngi, skulu samt koma í tiltekinn stað nærri Hólakirkju; flaug þetta orð innanlands um svá marga daga, ok því sóttu margir þetta mót ór syðra biskupsdæmi, bæði lærðir ok leikar; kom samt á nefndan dag múgr manns; eru fremst nefnandi af lærdóminum ábótinn Thingeyriensis ok ábótinn Thuer[a]ensis sama biskupsdæmis. Eigi er lesit at kosníngs grein veri af fleirum persónum gör en tveim; var annarr sira Guðmundr, norðlenzkr, en annarr sira Magnús, sunnlenzkr; bar þat hèr í millum, at sira Magnús var ríkr maðr, ok hafði fylgi mikit af föður ok fóstbræðrum, nálægr í heyrn hvat hvergi lagði með eðr móti; en sira Guðmundr var fátækr at fè, ok svá fjarri sem fyrr var sagt, án öllu fylgi nema því, er reis af guðs forsjá í hugskotum rèttvísra manna, eðr því öðru, sem rann af vándri forhugsan til niðrbrots við kirkjuna, sem stendr í heilagri skript, at optliga sækir eitt mót góðr vili guðs ok illr vili manns; var ok sú misjafnan sett af sumum millum þessara tveggja, at sira Magnús veri bæði reyndr á bók meirr ok veraldar forsjá. Hèr til svarar einn vitr maðr: eigi trúi ek oss semja hèr um norðanlands, at móðir vár heilug Hólakirkja seilist í annan luta lands eptir sínum formanni svá ven efni, föng ok færi sem hún hefir í sínum faðmi sjálfrar heima, þar sem er son hennar Guðmundr góði, þvíat ek þykkist víst vita, at svá mun skrifat í lögmáli guðs, at framarr standi hreinlífi ok grandveri til flutníngs við mann á svá háfan gráða heilagrar kristni, en fjáreign eðr frænda styrkr með veraldar fylgi. Eptir þessa tölu heyrða snerist allt fólk heilagrar Hólakirkju í eitt ok hit sama samþykki, at með ákallaðri heilags

anda miskunn keyru þeir sèr ok sínum sálum sira Guðmund góða til andligs föður ok forstjóra; eru þegar sama dags brèf gjör af kirkjunnar hálfu til sira Guðmundar undir æztu manna innsiglum, þau er birta gjört ok biðja, at hann viti sem fyrst sinnar hjarðar. Kolbeinn mágr sira Guðmundar fór þar því líkt á mannfundi þessum, sem hann stæði í skugga nökkurum, því svá, at hann sýndist með sira Guðmundi, en brjóst var eigi bjart, sem síðan prófaðist; en þó tekr hann á sik sakir venzla, at halda mann ok kost í þetta |sendiboð. Dreifðist fundr víðs vegar eptir svá gört í várs drottins nafni. Fara sendimenn ok finna sira Guðmund in crastino sanctæ Crucis, tjáandi honum [brèf] þau, er brotin ok yfirlesin birta fullvel, at hann er kjörinn til Hólabiskups. En þessum tíðindum fær sira Guðmundr um eina stund ei með orðum ansat, þvíat óttinn tjár brjóstinu hvat bruggat var; gerir hann síðan veg sinn svá fljótan, sem áðr hafði hann hugsat, ok þar í veginum, sem hann finnr lofliga kennimenn, leitar hann, ef nökkurr þeirra vill hans þúnga lètta. En þótt þeir veri greindir í stöðum, vóru þeir samir í andsvörum, at guðs vili mundi ráðinn, at hann yrði biskup. Hvat lengra? svá kemr hann heim á búgarð Kolbeins mágs síns in profesto sancti Lucæ; gengr Kolbeinn blítt móti honum. Þar er þá kominn til garðs föðurbróðir sira Guðmundar; hann tekr orðum sira Guðmund þegar næsta morgin, sem með undran nökkverri, ef þat er satt, er af honum er flutt, at hann búist til at bakverpast við sinni sæmd ok allra sinna kynsmanna. Sira Guðmundr svarar fátt ok staðfastliga, segir, at metnaðr frenda hans sè ínóg, þótt hann mínkist heldr en vaxi; hygg ek ok, segir hann, at mínir kynsmenn flyti þetta framarr fyrir sína hönd en mína, ok því fær ek ei skilit hver skylda mik þröngvir at setjast í stokk fyrir yðrar fortölur, því at ef þèr ynnit mèr mikit, mundi ek hafa vorðit varr við. Svá skilja þeir frændr ræðu sína, at ei vinnst á. Gengr nú maðr undir manns hönd, þar til at Kolbeinn kallar saman hèraðs fólkit á næsta sunnudag, þvílíkt sem hann leiddi ofrefli móti honum; var hèr sami rómr ok ein allra bæn, at fyrir guðs skyld vikist sira Guðmundr eigi undan lærðra manna kosníng ok kirkjunnar nauðsyn með samþykkt fremstu leikmanna en bæn allrar alþýðu. Verðr hèr um síðir sem lesit finnst af guðs vinum, at Guðmundr, heldr dreginn en leiddr til nökkurs samþykkis, talar svá: þèr

vilit mik þýngja ok fyrir borð bera, en eigi yðrum augum upp lypta, at sjá hverr lítilmagni ek er, at bera svá óberiligt ok; mun þat ok fyllast, sem ek talar hèr í dag, at þeir, sem nú fylgja fastast, munu eptir lítinn tíma þessarar gerðar beiskliga iðrast, því at ei mun fagrt at ek kaupi mína náð með kirkjunnar smán; þat ok, sem ek má, [skal ek] hennar vera. Þessi orð sira Guðmundar bera þann skilníng, at þótt tignar munr veri mikill með þeim Heinreki konúngi í Englandi ok Kolbeini Tumasyni, var lík þeirra ástundan með undirhyggju: báðir vildu formann, sem þeir hugðu sèr hlýðnastan, lömdu ok báðir þann sama mest til lægðar, sem áðr sýndust þeir lypta til virðíngar. Svá slítr þetta mót, at menn þakka sira Guðmundi, sem hann hefði undir játazt kosnínginn; setr hann þá ok öngar mótbárur í síðustu, þat er svá veri skilit, því var honum sama kveld hásæti búit, sem Hólakirkju formanni, ok sjálfr húsbóndi skipar sik í hans þjónustu; borð hans var breitt sæmiliga, en eigi stórum ríkmannliga, þvíat dúkr var mjök brotinn af odd ok egg, hvar fyrir hann bóndinn talar svá: herra, fyrir látið, þótt eigi verði svá sæmiliga við yðr gört sem yðarri stètt byrjar, einkanliga fyrir þenna fátæka dúk. Guðs maðr svarar honum: þat er sannara, mágr, at slíkr dúkr skipaðist fyrir mik it fyrsta sinn, því at með sínum borum ok brestum berr hann fígúru ok forspá biskupsdómi mínum. Bóndi bakar fast á báðar kinnr, en svaraði öngu til. Á næsta morgin eptir þessor tíðindi hefir Kolbeinn bóndi sik uppi ok fram í veg til Hólakirkju með herra Electo; gengu klerkar sæmiliga í mót honum án klukkum ok processione.

21. Nú kann vera, at nýrri kristni ok vaxanda klerkdómi sýnist sagðr kosníngr vart[1] hafa vorðit í suma grein eptir skipuðum kirkjunnar lögum. En því má til svara, ef líkar, at herra páfanna skipanir hafa lengi þróazt ok runnit síðan með postulligri röksemd innan um kristnina, land af landi, ok þvíat kristindómrinn var fyrr [en] smásmygli laganna, varð hvert ríki skyldugt at halda lögliga siðvenju; er þat ok heiðr þessháttar vana, hversu giptuliga hefir tiltekizt at kjósa mennina, þvíat þeir sömu, er kjörnir vóru, skína nú með dýrðar blómi háleitra jartegna, ok því er ljósi bjartara, at sá confirmeraði þá, [sem]

1) þann. 219; gjörr, Hd.

án ifa er yfirbiskup ok einvaldskonúngr laganna; má þat ok rèttliga tala, at hvar í kristninni sem makligr var kosinn, án nokkurri simonia, var alla götu lögunum ágetara; þat váttaði [Adrianus] primus, þá er hann skipaði einum leikmanni, Karulo magno, svá mikit yfirvald lærdómsinsins, at engi Electus um allt Italiam skyldi fyrr taka bagal ok gull út af sætinu, en kosningar kapituli veri áðr prófaðr fyrir herra keisaranum hversu hreinn hann veri ok samþykkr lögunum. Þessi skipan Adriani bar vitni dýrligr maðr Gregorius sextus í sinni banasótt, at ei um aldr fyrr nè síðarr hefir kristnin svá hreinferðug verit í sínum formönnum, sem á dögum Karoli magni, fyrir þá grein, at engi florin flaug í hans auga; en á várum dögum, segir herra páfinn, sem konúnganna kurt gerist[1] fylld af ágirnd ok gjálífi, gerir mær ok móðir heilug kirkja einkar rèttliga, þó at hún aptr takì þat privilegium, þvíat einn ok hinn samì lutr er í tímanna grein ýmisliga gerandi. Af þessum orðum herra páfans má vitr maðr skilja, at eigi sæmdi hann at eins Karlamagnús konúng, heldr alla kristni, er grunlausan kosníng gerir formanna. Er þat loflig dygð í stórríkjum með ágetum klerkum, en myklu lofligri í fátækum löndum með svá fáteku fólki, at ekki kunnum nema krossfestan Jesum Christum. Svá kvað herra Arngrímr:

Leysti, lýð [sá] er föstur
lætr jafnan vel gæta,
sen var í hjarta hánum,
hrein akkeris fleina;
engr fær talt með túngu
tíðast þó at lof smiði
verk þau er dátt munu dýrka
dygða manns hins sanna.

De apparitione Johannis:

Tignar birtist maðr af magni,
menn sè gjörr ef nökkurr kennir,
klæðin hefir sá illsku eyðir
öll ok prúð, með biskups skrúði;
happreyni gaf hjálpar kænum,
hann græðir sár krankra manna,

1) þann. 219; gerast, Hd.

sína blezan, svá varð raunar
svefn at vitran biskupsefni.

22. Sem herra Guðmundr electus er til kominn kirkju sinnar, hefr Kolbeinn bóndi á þann hátt sína þjónustu, at án frètt ok formanns leyfi sezt hann upp á kirkjunnar náð meðr vij. mann af sjálfs síns húsi; er herra Electus svá borinn ráðum, at eigi fèkk borð á staðnum einn bróðurson hans; hèr meðr tekr hann skipanarlaust með sterkri hendi alla lukla á garðinum með ræðísmanns vald, svá at allr bærinn skal lúta hans boði ok banni. Þann heimoliga klerk, er herra Guðmundi til heyrir, ok hans notarius var allt til þess dags, fyrírlætr hann nú, ok hefir hann nú at viðsjámanni, en semr þar í mót nýjan fèlagskap við einn kirkjuprest, er hèt Kygri-Björn, ok alla götu fannst í úvinaflokki herra Guðmundar. Nú fyrir þat, er Kolbeinn var svá ístöðumikill á garðinum, hafði herra Electus litla fjölskyldu, nema tala með klerkum um tíðagjörð; var hann nú þolinn, ok bar þessa upprás með mikilli hógværi, bæði fyrir þat at hann var ríkr at kraptinum, ok þat annat, at hann sá löngu fyrir í spádóminum. Mildi hans ok ölmusugæði var hit sama til fátækra manna, en því meira ok víðfaðmara út í frá tveggja vega sem lánit var margfaldara, því hann vissi vel skrifat, at þá er gjafirnar vaxa, vaxa ok skynsemdir gjafanna. Nú sakir þess, at þat er kynfylgja í því landi, at þar gengr með öreign múgr manns hús af húsi á vetr ok sumar, ok hefir öngva næríng nema ölmúsugjörðir góðra manna, segir herra Guðmundr svá fyrír, at öllum þeim fátækum, er á koma garðínn, skal gefa tvímælíng; en þess[i] skipan líkar trautt Kolbeini, kallar vera auðnar glutr, ok vill með öngu móti hafa. Því leitar herra Electus annan veg sinni góðfýsi, at með leyndri hlýðni starfsmanna á garðinum gefr hann bæði fóðr ok fæzlur þurföndum. Hèðan leiðir þat, er herra Guðmundr lèt hníta við: um vetrínn eptir jól, sem starfsmenn kómu til hans ok sögðu, at allr kostr, bæði til mann[fæðu ok] fènaðar, var nú mörgum hlutum meiri upptaks en eptir vana. Herra Electus svarar: guði lof ok várri frú! hvat er úvænt í, at þeim lítist betr útlátin en Kolbeini vin várum? — Bóndinn heyrði uppá ok brá við lit, en svaraði öngu; varð af slíku sundrgrein ok sem nökkurr sveitardráttr á garðinum, ok því hugleiðir herra Guðmundr, sem vitr maðr, at lægja þessa ofran meirr meðr hóg-

leik en harðindum, því at hann sèr rèttara, at kennimanns vald sè yfir kirkjunnar góðs, en handgrip leikligrar persónu. Hèrmeð hugsar hann, at heilög Hólakirkja er nauðsynjuð at fá tvá röskva menn ok ráðna, annan til at halda kirkjunnar umboð í hans fráveru, en annan til Noregs með sjálfum sèr. Því skrifar hann tvenn brèf eptir jólin, önnur austr til Sigurðar Ormssonar, í þann skilníng, at honum er nú færi at firrast foráttu Oddaverja ok veita vörð Hólakirkju góðs, meðan Electus er af landi brott. Önnur brèf skrifar hann vestr á landit, til vinar síns er Rafn hèt, reyndr maðr í dygð ok hamíngju; þar í lýsir hann vígsluferð sinni til Noregs, ef guð vill svá takast láta; biðr Rafn í vináttu þeirra fylgja sèr, ok forsjá veita kirkjunnar ok sínum nauðsynjum; nefnir honum stað ok tíma, hvar þeir skulu finnast á várit eptir hvítasunnu, í því hèraði Hóla biskupsdæmis, er Miðfjörðr heitir. Líða nú tímar, fram yfir Transitum sancti Johannis Holensis; býst þá herra Electus at finna Rafn. Sem hann er albúinn til reiðar, gengr Kolbeinn bóndi til hans ok talar svá: ek vil at fæð sú leggist brott, sem inn hefir komit í vetr millum vár, því at sökin er engi, ef rètt er virt. Herra Guðmundr svarar: eigi fæ ek á fundit, at ek hafi verðat mèr mikla úblíðu várlangt, er ok vel, ef þú ok þínir menn hafa svá gert, en ef finnst öðru vegs, svarit sjálfir. Kolbeinn svarar: þat er ei úlíkast, at hèr fari sem mælt er, at sjaldan er eins ef tvá greinir, kann vera, at ek hafa meira inn lagt, ok því bið ek fyrirláts, vil ek fyrirgefa yðr, ef þèr hafit framarr leiðzt en heyrði. Herra Electus svarar: glyslig orð væri harðla góð, ef þau bæta þann er þau berr fram, en þat er þú veikt at um beizlu mína, mundi framarr bert vorðit ef friðrinn hefði legit nökkuru firr. Mun sá orðskviðr hèr sannast, at fár gengr sekr af sjálfs dómi. Eptir svá talat skilja þeir mágar; ríðr herra Electus ór hèraði til Þíngeyra klaustrs ok kemr nær hvítasunnu; er þar sem fyrr allblítt við honum tekit. Nunna sú, er fyrr var nefnd, leiddi svá dýrligt líf í þeim sama stað, at sakir einvistar ok sífeldrar þagnar vildi hún engan karlmann sjá nè finna, ei heldr son sinn kjötligan, kennimann at vígslu; en svá sem þessi nýi gestr herra Guðmundr kemr til garðs, bregðr sú guðs ambátt sínum vana, svá at fyrir teikn eðr lágligt orð þykkist hún við hann eyrindi eiga. Hann leiðist ok gjarna eptir hennar vild í þat litla hús, er hún þjónaði. Sem

hann hefir niðr sezt, fellr hún fram hjá fótum hans ok tekr svá til orða: hvat líðr, faðir minn, hefir þú nú staðfest hjarta þitt undir kosnínginn? — Hann svarar: dóttir mín, ek vilda þèr satt segja, at þýnganarbæn manna gengr upp á hugboð mitt, svá at þar fyrir angrast ek allr, ok því veit ek vart hvárt er ek vil. Hún svarar: búðu hjarta þitt til mannrauna, ger karlmannliga, ok styr[k]st í drottni, því at ek, hin lægsta ölmusa guðs kristni, kann flytja þèr, at engi er undanferðin, vili guðs er ráðinn, at gera þik biskup sinnar kristni, svá sem ek nam af munni sjálfrar minnar frú, guðs móður, ok set í frá þèr allan ótta, berr þik æ glaðr í guðligt strið, þvíat krúnan er æ því fegri, sem sigrinn er frægari. Herra Guðmundr tók með trúnaði hennar orð, hræddr fyrir lítillætið, en styrkr af guðligum tènaði. Skilja þau í guðs blezan með sambland sinna bæna; gerir hann sinn veg sem ætlat var; finnast þeir Rafn í nefndum stað, ok staðfesta sína siglíng út af þeirri höfn norðanlands, er Eyjafjörðr kallast; þat hèrað er eitt bezt á því landi, bæði sakir veðráttu ok góðrar bygðar allt út tveim megin sjófarins. Þar stóð uppi Norrent far á Gáseyri, ok ætlaði brott um sumarit. Eptir svá gjört, ok nefndan dag, nær þeir skulu finnast, ríðr herra Electus heim aptr; er þá Sigurðr bóndi sunnan kominn ok bíðr hans at Hólum; hèldu þeir tal með sèr, at Sigurðr taki umboð staðarins í þeim árgang ok öðrum. Er þat fljótt at greina, hvert upphaf hann hefir fundit til hlýðni ok vináttu við herra Electum, at hann vill á öngva lund gera lètta kirkjunni, nema herra Guðmundr gefi honum handsal yfir hennar gózi. Þat annat, at heilög kirkja skal ábyrgjast honum hvern þann eyri, frítt ok ófrítt, sem hann leggr í hennar varnað. Þessi vegr hvárrtveggi sýnist herra Guðmundi nauðbeygðr, hinn fyrri varla með lögunum, hinn síðarri til fjárskaða með undirhyggju, þvíat hann sèr, at Sigurðr mun inn leggja með einvirðíng sinni, en taka fullt af kirkjunni. Ríss hèr hart við [um] kostaboð, áðr vitrir menn leggja til, at þröngvandi nauðsyn kirkjunnar í frá veru formannsins megi á öngva leið þarnast forsjá; kalla bóndann ráðinn til forgangs ok verndar, þótt hann þykki harðr í skildögum. Fyrir þvílíkar tillögur, ok mest fyrir sína brottferð ok svá bráðrar nauðsynjar, leiðist herra Electus á þenna kost, mjök um þveran hug. Ríðr Sigurðr þá suðr aptr ok flytr sunnan sitt góz, er hann kallaði tvau hundrat hundraða, var

þat svá sem spakr gat með nafni innlagt, en síðan með ávinníng út heimt. Líðr nú þar til er Rafn kemr vestan, ok ríðr með skipan herra Electi síðan norðr til skips, at taka við, geyma ok út skipa þat góðs, er ræðismaðr Hólakirkju lætr tilflytja. En þann tíma, er Julius gengr inn, ríðr herra Electus til skips, skipandi áðr kirkjunnar erindum sem bezt ok sæmiligast var honum möguligt. Er nú haldit á búnaði, þar til er hvert fat er á skipi sem Divisio apostolorum gengr inn; hún var þá[1] á drottins dag. Á laugardag næsta áðr sendir herra Electus einn af piltum sínum austr yfir fjörð ep[tir] vatnfötum, er þar lágu, verðr honum dvalsamt, svá at þat skip rær undan honum er hann var farþegi til; því kemst hann eigi aptr samdægris. En árla sunnudags morguninn, er sól rauð, kastar ofan fjörðinn fagrt gul, ok þegar vilja kaupmenn leysa ok vinda, en herra Electus leggr til fátt, sakir sveinsins, en setr ei bann fyrir, ok þegar sem út kemr fyrir eyrina, er hlífir höfnina, grær því skjótara gulit, sem meirr er aflent; tekr nú búsan góðan skrið, en piltr herra Guðmundar er fyrir austan fjörð, sèr hann þeim í váðarbug, ok þykkist ei, sem mælt er, hjá stýrimanni staddr, ok rètt í því bili rennir at landi sexært skip með þrim röskum mönnum; hann segir þeim sína úgiptu, biðr þá drýgja manndóm fyrir skyld herra Guðmundar, ok flytja sik út til búzunnar. Sá er fyrir var bátinum svarar honum: gjarna viljum vèr kumpánar þat verðskylda með stundar erfiði, at vera heldr í vináttu meistara þíns en fyrir utan, því gakk til vár, ok muntu skipit fá ef honum þykkir betr at þú fáir. Síðan setja þeir til segls ok róa undir með afli allir iij afklæddir, ok sýnist ei því síðr, at stórum dragi undan búzuna. Formaðr talar þá til sveinsins: hvar til skulu vèr flytja þik svá, at þú kallir röskliga eptir sótt? — Út í fjarðarminni segir hann, sem haf tekr til. Svá er rètt talat, segir bóndi. Þat er greinanda, at utarliga í firðinum stendr ein ey, þar er prestssetr ok bæir nökkurir, þar er ok kaupmanna lægi, ef byrfall verðr, hvárt þeir sigla út eða inn. Herra Electus segir til kaupmanna, sem út gengr undir eyna, at hann vill at leggja ok bíða þjónustumanns síns, ok heyra þar messu. Kaupmenn kasta í mót, ok kalla úfert at únýta svá venan byr. Herra Guðmundr svarar: þat

1) þann. leiðr; þr (þar), Hd.; sbr. I, 482 athgr. 4.

má guð gefa, at þèr fáit dvöl aðra eigi minni, þótt þèr sneiðit hjá messustundinni. Kaupmenn treysta nú eigi at halda við hann, þvíat þeir skilja at honum mislíkar ef hann ræðr eigi; fyrir þá sök lægja þeir ok leggjast með akkeri; flyzt nú herra Electus til lands, ok segir sjálfr messu postulum guðs. Eptir þat gjört vel ok fagrliga eptir vana ferr hann aptr til skips, er þá ok kominn sendimaðr hans með fylgð sinni; þakkar herra Guðmundr þeim röskliga gjörð með vináttu. Þar liggja þeir á sunnudaginn, þvíat austan lá fyrir. En snemma næsta morgin hefir út fjörðinn; vilja kaupmenn þá leysa, en þess er nú eigi kostr svá fljótt, þvíat akkeri þeirra er svá grunnfast, at hvárki vinnr afl nè útvegr, þar til þeir hugsa þat ráð, er bezt var til, segja herra Guðmundi sitt vandræði; hann gengr fram á saxit ok blezar yfir strenginn ok lætr fylgja þessi orð svá at allir heyrðu: drottinn minn, leys þú akkerit; síðan tekr hann sjálfr strenginn ok fleiri með honum, flýtr þá akkerit upp sem eitt kefli. Hèr má nú sjá virðuligan sporgöngumann ágetra guðs vina Helisei ok Benedicti, þessir iij leystu járn af grunni, ok þat er hèr má sýnast móti náttúru, at mannligt afl lètti ok leiddi járns þúnga, því meirr var móti eðli náttúrunnar í fyrra stað, er mannligr styrkr prófaði sama járn læst í grunni áðr engla þjónusta leysti þat eptir boði guðs ok bæn herra Guðmundar. Setja nú kaupmenn segl, ok þakka guði sitt fararleyfi. Slafast þegar byrleiði þeirra, er þeir koma undan landinu, þvíat þetta sumar var þat mjök alvara veðrfalls at liggja í landnorðri, en þat var þeim mest í móti, því at allir þeir, er svá taka norðrhallt út, hafa þá stefnu, at sigla norðr um landit ok svá í haf; leiðir þá um kveldit ok þó síðla út undir Grímsey, er fyr var nefnd, þar liggja þeir um víj nætr, því at landnyrðingr setr þeim farbann. Eptir þat liðit kemr þeim hagstætt, svá langt fyrir landit sem eina morginsiglíng. Síðan fellr á sami landnyrðíngr ok rekr til Grímseyjar ok þaðan vestr annat hálfu lengra. Sem þar hefir reitt um stund, lætr vestræna sem hún sè alráðinn byrr beggja skauta, ok leiðir þá svá langt norðr fyrir land, sem brátt sneri til landsuðrs í Íslands haf. Nú brestr á austan með magni, svá at þá keyrir vestr í haf hálfu lengra en fyrr. Sem þar er komit, dreymir einn mann í búzunni, at tíguligr herra, skrýddr öllu biskupsskrúði, gengr um skipit, einkanliga þar til sem

stendr húðfat herra Electi; hèr nemr hann stað, ok blezar hugaðlátliga upp yfir sængina. Þat blæs í brjóst þeim er sá, at þar væri sæll Johannes Holensis; glöddust skiparar við draum þenna, ok þýddu svá, at brátt mundi lèttara falla. Herra Guðmundr hugsar með sèr, hversu honum fèllu skipferðirnar; hann leitaði til einn tíma fyrr ok braut þá fót sinn, en nú válkar hann aptr ok fram sem hafrek, ok fær hvergi fram komizt. Nú sem landnyrðíngr linar lítið dag nè nótt, talar herra Guðmundr svá til stýrimanna: þat er ráð mitt, sagði hann, at vèr dragim segl ok látið ganga vestr um landit, því at landnyrðingar liggja svá þrátt, at tvísýnt er hvárt vèr komumst nakkvat fram. Þessari hans tillögu samþykkja allir skipmenn, segja blásanda byr vestr um land, [ok] allt austr um [eyjar þær] er heita Vestmannaeyjar. Ok sem vart eru þeir komnir í Íslands haf, brestr á sá galandi landnyrðíngr, svá at á nótt með degi keyrir þá ok kastar suðr í haf, svá at þeir hafa vita af Suðreyjum, en kenna sik berliga hjá þeim eyjum er Hirtir heita. Þá gengr vindr upp á austr, ok rekr þá með ofviðri vestr í Írlands haf, með svá miklum[1] lífsháska ok váða, at boðaföll grenja[2] á bæði borð, ok þar veðrit upp á. Herra Electus býðr yfir allt skipit, at menn gangi til skriptar ok kennimenn semi krúnur sínar. Síðan samsetr hann heit fyrir allra þeirra hönd, at hverr sá maðr, er góðs hefir í skipi, skal leggja til Rómkostar einum manni. Hèrmeð skal gefast fátækum alin af hverjum sekk, ok hálf mörk vax til kirkju á hvern mann, er góðs átti. Eigi seinna en þetta heit fór um skipit með handsali, fellr veðrit í kyrt, en án dvöl kaldar af boðafallinu, svá at með segli varð undan vikit ok hefr svá brött frá sjálfum dauðanum; leika þá við lèttir útnyrðíngar ok bægja þeim suðr undir Skotland; þar liggja þeir nökkurar nætr, sem heitir fyrir Stauri; þat kalla þeir fyrir Hvarfi. Svá segir herra Arngrímr:

Enn er sagt með sönnu,
sær gekk fjöllum hæri,
áðr þvarr öld fyrir prúðri
austr, at þeirra flausti:
sundr brast há fyrir hendi,
hnoss er í slíkum krossi,

1) háska ok, b. v. Hd. 2) greinja, Hd.

ván er at hlýði hánum,
hrönn, sú er ægði mönnum.

þar fá þeir at liðnum degi útsynníng svá óðan, at engi maðr í skipi mundi sik hafa vorðit fyrir slíku fári bæði veðrs ok sjófar. þá kvað einn maðr í skipi vísu þessa:

Eisandi veðr undan[1]
Uðr, er hvast af suðri,
stærir sterkar bárur,
starf erað smátt fyrir Hvarfi;
klökkr verðr kjölr [en rakkan[2]
kemr hregg í stað seggja,
nú eru fjöll á sæ sollin,
súð gengr æ sem prúðast.

þetta veðr fèll brátt, en þó var hafit svá grafit sakir ofviðris, at grunnföllum var líkara en hafgjálfri; þó leggja þeir í rètt, ok hafa svá krappan sem þola mátti, þar til eina nótt heyra nökkurir þat brak ok bresti, sem sannliga mátti ógn heita, hafa sik þá allir menn uppi á skipinu; en þaðan leiddi þenna ógnar gný, at hafbylgja gekk geisandi sem fjall væri, ok svá löng milli arma, at ei sá út yfir; hún horfði á þvert skipit ok ógnaði hræðiligan steyt, því at hana bar hærra en flaugina. Stýrimaðr segir sèr sýnast ráð, at vinda segl ok prófa ef stafnhaldit verðr mót bylgjunni. Rafn bóndi svarar honum, at þat ráð veri ofseint, sýnist mèr þat snjallara, segir hann, at segja til herra Guðmundi, því at þat mun duga. Blezaðr guðs maðr skipast mjúkliga við allra þörf, ok tekr fljótt sína reliquias ok gengr svá fram öruggr i guðs fulltíngi, at rètt í þann púnkt sem skipit var komit í brjóst bylgjunnar, blezar hann upp móti henni, ok viðr þann kross brestr hún í sundr fyrir barðinu ok klýfst svá með tveimr borðvegum, at hún slær af sólbyrðin ok hvat er laust var á búlkanum aptr í austr. Kaupmenn kalla þá: æ fór efnum betr! — Herra Guðmundr sagði: þat er vánligt at þaðan veitist miskunn, sem nóg er til. Eptir þetta umliðit gengr upp stormr hinn sami, svá at engi er annarr lífsvegr en halda undan; var veðrit svá hart, at þeir sigldu með eitt rif í miðju trè þar til at landi skýtr upp; þeir kenna, at þat eru sker ok útgrynni, er liggja fyrir Suðreyjum; vóru þar sund,

1) undir, 398. 2) [hinn rakki, 398.

ef kunnir menn sigldu í kyrru, en nú var þvílíkt yfir sjá sem eitt bratt boðafall. Norænir menn segjast hèr aldri komit hafa, ok því öngva stefnu vita. Herra Elektus segir þá: þat dugir á öngva leið, at menn láti yfir drífast; ef þèr vilit eigi, norrænir menn, þá far til Rafn bóndi, segir hann, þú ert vitr maðr ok fróðr í frèttum, en reyndr ok ráðinn í hamíngju. Rafn svarar: dýrt er drottins orð, gef mèr blezan yðra, ok mun ek þá til ráða í guðs nafni, ef stýrimaðr vill eigi. Stýrimaðr fyrirtekr. Rafn bóndi þiggr blezan sem hann bað, ok sezt með stjórnarvöl, ok stýrir með svá frábærri giptu ok þess verðleik, er honum bauð verkit, at þat var þrim sinnum um nóttina, at skilríkir vökumenn sögðust engan hlut fyrir stafninn sjá nema flúð ok fall, en þó kendi búzan hvárki grjót nè grunn; svá leiddi guðs miskunn þá gegnum þenna háska í brott af öllum váða margföldum, er fyrr var greindr í þeirra ferðum, at þeir fá blítt lægi í Suðreyjum þar er Sandey heitir; þar liggja þeir nökkurar nætr; gengr herra Electus þar á land til heilagrar kirkju, ok er meðr sæmiligu yfirlæti í boði þess valdsmanns, er Ólafr hèt ok yfir bauð eyjarnar; þaðan taka þeir hagstæðan byr; ríss þá ekki á móti, þvíat þeir taka Noreg með heilu ok höldnu litið suðr frá Þrándheimi, þar sem á Eiði heitir. Þaðan sigla þeir sem byr gaf norðr til Þrándheims, ok leggja inn fyrir Niðarós.

23. Á þessum tímum sem herra Guðmundr góði kom af Íslandi til Niðaróss, at taka biskups vígslu með guðs forsjá, var liðit frá holdgan várs herra ᚥ. ok cc. ok tvau ár á dögum Innocentii páfa þriðja með því nafni, er var dýrðar eptirdæmi formönnum í kristninni, því at hann var stjórnsamr ok ölmusugóðr, þar með nytsamligr siðarr um tímum í lagasetníng ok predicamentis. Hann hèlt almenniligt þíng í Latran, svá at upp sátu ᚥ. tvau hundrat ok xiiij formenn heilagrar kirkju ýmisligra stètta. Á hans tímum byrjaðist ok lögtókst hvárrtveggi lifnaðr, Prèdikara ok Berfættu bræðra. Honum eignar heilög bók fyrsta compileran Decretalium, en Honorio tertio næst eptir hann; sat hann honum ok næstr í páfadóminum fyrir Gregorium nonum. Nefndr Innocentius efldi þat hús í Roma, er hann kallaði heilags anda spítal, ok lagði þar til svá miklar eignir ok rentur sem þörf beiddi; var þat föðurleifð hans, þvíat hann hafði verit ríkr maðr fyrir páfadóminn, kynjaðr af þeirri hálfu

Italie er Kampania heitir. Hann bannferði Ottonem keisara fjórða með því nafni fyrir svá einkanligt efni, sem hèr stendr. Keisarinn var hans sjálfs vígsluson, ok er hann skyldi eið vinna í vígslunni, stafar herra páfinn svá frekan, at allar þær eignir, sem at fornu hefði til heyrt krúnu keisarans ok nú veri skutlaðar, skal hann með sterkri hendi aptr skipa fyrra stètt. Keisarinn er tregr at sverja, því at hann [skilr] með sèr, at þetta mál hefir auga, sem þeim báðum mun af leiða hinn mesta ótila. En þann tíma sem herra páfinn knýr hann at eiðstafnum, sverr hann. Um daginn eptir, sem herra páfinn veitir honum ágætliga, ok þeir sitja báðir samt, talar keisarinn svá: heilagr faðir, segir hann, framan eið buðu þèr mèr í dag. Herra páfinn svarar: hann var rèttvísliga framr, en í önga grein framarr. Keisarinn svarar: þat er ljóst, at þèr munit gjarna aptr leggja þat, er þèr haldit, ok visvitað er at keisaradæminu til heyrir. Hvat er þat? segir herra páfinn. Þat heitir Mathildar arfr, segir keisarinn. Herra páfinn talar þá, ok bregðr litt: þat er heilög Róma kirkja hefir haft ok mínir forverarar haldit í náðum ok friði fyrir minn dag, skulum vèr halda sem einn rómverskr biskup fyrir hverjum lifanda manni, ok ef nökkurr dirfist at ræna kirkjuna ok oss svá höldnu góðs[i], skulu vèr gjarna prófa hvárt sverðit Petri kann bíta hálsinn á honum. Keisarinn svarar fá um at sinni, en ferr til litlu síðarr, ok tekr upp alla þá eign, sem fyrr var nefnd. Þessi var hans bannsetníngar sök; skipaði herra páfinn annan keisara í hans rúm, þann ok svá fallinn sem finnst í þessa háttar letrum. En vèr munum þaðan aptr venda til virðuligs föður herra Guðmundar, ok sjá hversu gerist hans vígsla.

24. Sem fyrr var greint í bókinni, sat herra Eiríkr, hinn þriði með erkibiskups tign, í Niðarósi, þat er samtíða fyrr greindu ári várs herra. Hann tekr með sannri virðíng sinn blezaða son herra Guðmund, skoðandi smásmugliga hans nytsemdar erindi, sem brèf af Íslandi þar um gjör birta ok báðu ljósliga. En því vóru stefnur haldnar meirr en um sinn yfir þvísa efni, at herra Guðmundr færðist undan á hverja lund er hann kunni; tjár herra erkibiskupi með snjöllum orðum ok framligum, at kirkjunnar rèttr er svá til falls kominn á Íslandi, at hún þarf skörúng ok sterka hlífð með vitrligri stoð, ef hún skal ei með öllu hniga fyrir ágang ok yfirgirnd vándra manna;

váttar sik fátækan mann at vizku, ok allan veg fjarlægjan svá háleitri stètt. Nú því framarr sem hann telst undan með margfaldri tálman, sèr erkibiskupinn skrifuð guðs lög, at hann er kirkjunnar stèttinum æ því makligri; þar með gengr bjartr ok fagr vitnisburðr þess ágæta lifnaðar, er Guðmundr hafði leitt í sínum dögum án allan úfrægðar flekk. Hèr með bætir mikit um lítillæti ok daglig áhyggja, er erkibiskupinn sèr hann hafa í allri guðs þjónustu með hófsemd ok kærleik til allra manna. Því skipar herra erkibiskup í nafni guðs endiligan veg þessa máls, at biskups vígsla herra Guðmundar skal fremjast fyrir sjálfan hann heima í Kristskirkju; þetta nytsemdar verk heilagrar kirkju vill hann eigi dvelja til úvisra tíma, heldr kallar hann til sín í stað biskupa, sem lögin bjóða, ok vígir herra Guðmund til biskups xvj. kal. Oktobris sama sumar, er hann kom til Noregs, þat er festum Eufemiæ virginis, tveim náttum eptir Exaltationem sanctæ crucis. Þat var þá drottinsdagr[1]; bar þar eigi meira í millum en eina nátt, ok þess er í fyrra árgang [kom] honum biskups kosníngrinn, sem fyrr var ritað. Fylldust hèr nú fagrliga þeir draumar tveir, er Ólafs kirkju tilheyra ok áðr voru taldir, því at sannliga fèll guðs altari honum í faðm á þeim degi, með biskupligri tign, er æ mun berast ok boðast meðan Norðrlönd byggvast. Svá kvað herra Arngrímr:

Vèlrýrir tók vígslu dýra,
vagna bóls, með helgum stóli,
sínum framdi siklíngr mána
seima skipti andar giptum;
tírprúðr let trúarsæði
túngla hválfs í munar kálfum
göfgri ferð þar er gætti[2] hjarðar
gæfu studdr af vexti frævast.

Lestir mæddi fárs í föstum
frægjan aldr ok bænahaldi,
mæta sýndi miskunn ýtum
meina brjótr í dómum hreinum,
mjúklátum var mönnum veitir
mildr ok blíðr, en grimmr við stríða

---

1) sbr. I, 136 athgr. 2) gættu, Hd.

jöfra ferð, sá er jafnan gerði
eljanbragð þat er guðspjall sagði.

25. Herra Guðmundr biskup sat í Niðarósi um vetrinn, harðla sæmiliga virðr af herra erkibiskupi ok öllum góðum mönnum út í frá, því at hans ágæta líf gjörði hann þess makligan. Þat var í upphafi ríkis herra Hákonar konúngs Sverrissonar, en ei kunnum vèr greina hvar Guðmundr biskup kom til hans, en þat er skrifat, at herra konúngrinn tók hann kærliga; er þat ok líklig sögn fyrir þá sök, at Hákon konúngr úngi hefir verit hinn mesti höfðíngi ok hófsemdarmaðr, ok allt á Ísland lifir hans verka, þat er hann hefir snarat, meðr einkanligum stíl, sögu Barlaam ok Josafat, er vóru á dögum Damasi páfa ok sæls Jeronimi. Optliga var herra Guðmundr biskup í boði vígsluföður síns um vetrinn, ok töluðu miðil sín margan heimoleik, ok þat með öðru, hversu kristinn rèttr hèlzt á Íslandi, ok sýnist þeim einnveg báðum, at heilög kirkja ok kennimenn þoli úbæriligan ágang ok yfirvald heimligra hermanna, en þeim þykkir vís ván, at sá mun mæta hörðu mótkasti, sem sik berr fram móti þeirra úvenju, er kirkjunni vilja fyrirkoma. Því treystir herra erkibiskup hjarta herra Guðmundar biskups, at hann geymi sína önd í teknu[1] valdi ok vinni[2] bata kirkjunni, hvat er hann má í andligum styrk, til friðar ok frelsis við kirkjuna. Ok næsta sumar, sem Íslands[för] eru búin, tekr herra Guðmundr biskup orlof með bæn ok blezan erkibiskups, sæmiligum gjöfum út leystr með æskiligum orðróm. Svá gengr hann í haf sem byr gefr; fá þeir góð veðrföll, lètt ok hagstæð lengstum, ok koma austan at landi at áliðnu sumri, ok vilja norðr fyrir til Gáseyrar; en er þeir hafa legit í rètt fár nætr fyrir Austfjörðum, setr sik harðan í móti þeim vestrænn útnyrðíngr, hvar fyrir herra biskup tekr þat ráð, með samþykkt allra kumpána, at hann leggr inn til lægis þar sem heitir Mjófafjörðr, austan á landinu, en þegar í stað, sem þat flýgr ok ferr um fjörðuna, at Guðmundr biskup er þar út kominn, skortir eigi góðvilja með allskyns farargreiða, er hann ok hans fylgð þurfti at hafa. Skipar hann góðs Hólakirkju í þá geymslu, er hann kunni bezta fá, ok ríðr síðan frá skipi rètta leið heim til

1) 398; ekna, Hd. 2) 398; vinna, Hd.

Hóla; var Rafn í ferð með honum; hvar sem hann ok kom tóku lærðir ok leikar með honum af hinum fremstum föngum; svá ok í veginum runnu fátækir menn flokkum saman hann at heilsa með nýfengnum fagnaði, sem þeir tæki himin höndum; ok þó at þessháttar mál sè orðskviðr, má þat hèr vel vera eptir orðum Salomonis: Anima justi, et cetera. Öllum tók herra biskupinn sæmiliga með sama lítillæti, sem fætt var með honum, en þó einkum hýrligast guðs ölmusum. En hvat megu vèr skrifa af þeirri sæmd, er heilug Hólakirkja ok hennar klerkar veittu þessum nýja biskupi, er hann heim kom, utan þat fremsta sem hún til hafði með söng ok skrúða.

26. Eigi miklu síðarr en herra biskup kom heim, ok hafði skipat þeim hlutum, sem honum sýndist bráðust nauðsyn á standa, biðr Rafn bóndi orlofs ok þiggr; leiddi herra biskup hann út með sæmiligum gjöfum sem vert var; er þetta greint, at biskup gaf honum vænt stóð, þar með náttúraðan kristallum ok rauðbrúnaðan kyrtil hlaðbúinn; hèr með svarar Rafn bóndi: gjafir þessar eru sæmiligar mjök, en þær vil ek gjarna þiggja, en ömbuna því sem fáheyrt er, fyrst í stað, at ek vil biðja þeirra gjafanna hèr umfram, sem mèr sýnast enn dýrri ok at öllu dýrligri. Herra biskup svarar: hvat er þat er þú vilt þiggja? Rafn svarar: þat er óleysilig yð[u]r vinátta. Herra biskup svarar: ek trúi at þat gangi um tíma, at margr kaupi ódýrra vináttu mína en þú, Rafn, ok því er ek skuldbundinn at játa þèr hana slíkt er hún má. Rafn svarar: ok nú til marks hversu vena gjöf ek þigg í dag, hina síðustu, bið ek at vit skiptim kyrtlum. Herra biskup veitti þetta gjarna; vóru þessir báðir kyrtlar dökkbrúnir, búnir með hlöð, sem í þann tið var ríkra manna siðr at bera. Herra biskup segir þá: gripi þessa muntu virða svá mikils með vináttu okkarri, at þú eigir þá um þína daga, ok ef þú gerir svá, er líkast, at synir þínir taki eptir þinn dag gripi, þó at annat sè hugsat. Meðr svá greindum hætti tekr Rafn bóndi blezan, sækir heim á sinn búgarð; geymdi hann með virktum klæði ok kristallum meðan hann lifði. Er ok trúligt með góðum verkum hans sjálfs, hafi honum vel stoðat játuð vinátta svá dýrligs manns, því at þessi Rafn þá, sem trúist, æskiligan enda með píslarvætti, þá er hann var fyrir eina saman öfund leiddr um nátt af sæng sinni undir brugðit sverð, því meirr en saklauss, at þann er fyrir var heimsókninni hafði

hann elskat, fætt ok fóstrat [sem] sinn kjötligan son. En svá sem hann var af sleginn, ok þeir dauða synir rupluðu bæinn, leita þeir gripanna Guðmundar nauta, þvíat þat var í allra manna vitand, at Rafn hafði þegit þá, en þó vóru þeir í þenna tíma eigi kenniligir, þvíat kristallus var nú at sjá grár sem hègeltill, en brúnn kyrtill hlaðbúinn sem leppr rotinn. Fylldist enn í þessu spásaga herra Guðmundar, þvíat hermenn köstuðu niðr hvá[ru]tveggja, ok því tóku synir Rafns gripina sem aðra erfð eptir föður sinn. — Þann fyrsta vetr, sem herra [Guðmundr sat] heima at Hólum, lagðist með guðs dómi svá[1] grátlig hörmúng ok hallæri yfir fólkit, at fyrir þrot bóndans hnigu fátækir menn niðr af sulti, svá at hundruðum skipti í einum samt norðanlands fjórðúngi; var þessi vá ok vesöld kristinna manna svá nærgeng brjóstfastri mildi herra Guðmundar biskups, at einn guð í himnum var hans váttr þar um, því at ei var ríkdómr til at stoða öllum, þótt góðvilinn úmæddr með ástinni bitnaði í hjartanu; ok þó tók hann formannliga staðarins góðs þurfundum til næríngar, at Sigurði ræðismanni þótti með öllu ofrausn í vera; fylgði þat ok langa tíma hans biskupsdómi, at sú var æ önnur hans sakagipt, er guðs ölmusum til heyrði, þvíat vantrúaðir menn skildu eigi, at erfð hins krossfesta Jesú er fátækra manna fè. Ei höfðu þeir ok heyrt með hugskots eyranu, hversu loflig orð Gregorius mikli setr Paulino biskupi Nolano[2] í upphafi þriðju bækr Dialogorum, fyrir þat er hann gaf upp í hertekinna manna lausn slèttan thesaur kirkjunnar, ok þar upp yfir se[á]lfan sik í þrældóm inn á heiðit land, þvíat þeirri ekkjuuni, sem síðast bað hann útlausnar fyrir son sinn, hafði hann öngan pen[in]g at tæra nema sjálfan sik; gafst honum ok svá þessi gjörð, at þá er hann gekk einn í þján leiddi hann alla aptr ór þeirri herleiðíng til síns fóstrlands, at þess dæmi er oss leysti. Eigi höfðu ok viltir menn þann hugar styrk, at þeir vildi bíða hvat herra Guðmundr biskup hefði til ráða tekit, eðr hvat guð hefði honum lagit síðan fè kirkjunnar vóru uppgefin, því at færi tákn eru lesin af Tiburcio keisara, ok gaf guð honum fè at úvöru til þess at gera ölmusuna. Þessi Tiburcius var næstr fyrir Mauricium, er fyrr var nefndr í sögunni. Hann var svá ölmusugjarn, at sjálf drottníngin tók hann þar um

1) sem, Hd. 2) 219; nalano, Hd.

með svá harðri ávítan, at ei mundi hann lengi bera keisarans krúnu úhalla, ef þessu færi fram. Hann svarar henni: ef svá er frú, sem þú sannar, hefir ek ei rètt hugsat; ek hugði at satt ölmusugæði mundi mann gera auðgan bæði hèr ok í öðru lífi. Honum varð ok ei ván sín at hègóma, þvíat á einn dag sem hann spácerar um eina stóra höll, er haft höfðu fyrri konúngar í Róm, sèr hann í marmara gólfinu, at grafinn var heilagr kross, ok án dvöl talar hans hjarta vandlæti trúarinnar ok talar svá: ferlig úhæfa, segir hann, at it hæsta lausnarmark, skipat á brjóst ok enni kristninnar, skal þola fóttroð syndugra manna. Ok rètt í sinni nálægð býðr upp[1] brjóta steininn. Sem þat er gjört liggr önnur hella þar undir með sama form, ok þeirri upp leystri, birtist þriðja berg með sama hætti, ok þeirri enn upp settri at keisarans boði, er nú eigi grjót undir, heldr svá mikit ógrynni gull ok silfr, at engi veraldar maðr mátti á vág færa. Svá styrkti drottinn þann mann í ölmusugjörðum, ok þat er trúligt, at herra Guðmundr biskup hafi sömu ván haft í guði, þvíat hann vissi skrifat, at sá öðlast ríkdóm himinríkis, sem ekki elskar jarðligt. Leiðist þó biskupinum at fást við lund Sigurðar, ok því fór hann brott frá Hólum um várit með allt sitt eðr meira, sem fyrr var ritað.

27. Herra Guðmundr biskup hugsar um bæði nætr ok daga, hversu heilög kristni guðs var ryggiliga hneist í háðuligum framferðum svá óbæriligs ofsa ok ágirndar, sem hún hafði svá langan tíma þolat um daga fyrri biskupa með úbættum skaða; hann sèr, at tveir eru vegir: hylja sik með úfremd ok kaupa svá frið, eðr taka krossinn Jesu Christi ok bera með honum hvat er hendrnar þola. Af þessum tveim kýss hann þann með heilags anda íblástri, at vera heldr hirðir en leigumaðr, því ríss hann upp meðr frjálsri kirkjunnar rödd móti þeim vörgum, er þat eitt stunduðu með gráðgum sult, at svelgja hjörð almáttigs guðs. Heðan varð þat, er hann spáði í sínum kosníngi, at þeir birta sik fyrstir í bótlausri iðran sem fyrr sýndust ok fylgdarmenn hans heimligrar tignar, þvíat eigi vildu þeir greina, at skipt var um mennina, ok honum var nú bæði boðit af guðs hálfu [at] brenna ok lækna, berja ok miskuna, þvíat svá sem biskupi er boðit at vera linr iðröndum,

1) Hèr byrjar aptr 396.

svá er hann skyldugr at vera strangr ok stríðr dramblátum. En því at vitstolnir menn vanvirða biskupsins gjörðir, gleymdu þeir eigi hans reglu, ok settu honum einkanliga tvennt ámæli alla götu; þat fyrra, at hann úkyrði alla menn með sínu forsi, þat annat, at hann hafnaði hvers manns tillögu. En í mót þessum tvíföldum umlestri stendr vel, at vèr hlýðim hvat erkibiskup Dunstanus segir hèr um, at þau lögtekin dæmi fylgi síðan Guðmundi biskupi um alla söguna. Heilagr Dunstanus var erkibiskup í Kantia, þá er svá bar til þar innan staðar, at meistaramenn yfir steðja erkistólsins, í þeim glæp sannprófaðir, at þeir höfðu falsat steðjann[1], vóru inn kastaðir með valdi konúngsins. Gjörðist þessi hlutr mjök síðla á næsta laugardag fyrir hvítasunnu. En á næsta morgin, þriðju stund dags, sem herra erkibiskup er til messu búinn, snýst hann til fólksins ok spyrr yfirvald staðarins af konúngdóminum, hvárt falsarinn hefði tekit lögliga skript, en þat er í Englands lögum at láta báðar hendr. Honum var sagt, at þat var dvalt sakir hátíðar. Hann svarar: þessi sök heyrir mèr til ok minni kirkju, ok því sýng ek eigi messuna fyrri, en þeirra pína er fullgjör, ok án dvöl, sem hann sèr at þeir renna út af musterinu, sem vinna skulu verkit, snýst hann til altaris, ok grætr svá í sampíníng bróður síns, at fljóta tárin fram af augunum með stórum styn ok hugar angri. Svá framt ok, sem þeir koma aptr er sendir vóru, þvær hann ásjón sína ok segir svá: nú væntir ek, at drottinn minn þiggi offr af þessum höndum; gekk síðan glaðr til altaris. Í því sama officio kom yfir hans höfuð ok herðar heilagr andi, sem eldr logandi, ok hvíldist sá yfir honum um alla lágamessuna, sem allir menn sá í kirkjunni. En eptir messuna, sem hann lèt síga hökulinn aptr af herðunum, hèkk hann í lopti, því at klerkarnir vóru nær blindir af tárum, ok þeim ótta heilagleiks, at koma nær honum. Þetta dæmi sýnir, hversu vöndr ok himnamjöl, vin ok oleum, á samt at vera í formannsins brjósti, ok hversu almáttkum guði er þat sambland elskuligt. Hèr fylgir annat dæmi af biskupligri staðfesti. Dunstanus erkibiskup bannferði einn ríkan jarl í landinu fyrir opinbera hóranar skemd, en jarlinn sækir at fylgi konúnginn í

1) sláttinn, 398.

Englandi, ok hann gefr honum brèf til erkibiskups, at jarlinn fái lausn. Erkibiskup virði þat brèf svá mikils, sem blek ok bókfell. Herra jarlinn lætr eigi fyrir vinnast, sækir nú á herra páfans garð með stóran kostnað, ok hugsar yfirvinna erkibiskupinn. Svá tærir hann í kuria, at hann fær herra páfans brèf til Dunstanum erkibiskups. Sem þat er upp lesit fyrir Dunstano með því boðorði, at hann taki jarl ór banni: hann svarar svá: langt sè þat frá mèr, sagði hann, at fyrir nökkurs dauðligs manns orð fyrirláti ek lögmál drottins míns Jesu Christi, langt ok fjarri sè þat minni sál. At sènni slikri staðfesti fellr jarlinn til fóta honum með tárum, gefandi sik allan í guðs vald á kirkjunnar dóm, með fráskilnaði fyrri ófrægðar. Fann hann þegar þat er hann leitaði, lausn ok líkn af kirkjunnar hálfu. Þetta birtir þann sið valdra manna guðs, at skíra fyrst auga sjáldrit yfir glóð ástarinnar, enda *víkja*[1] síðan fyrir öngum lifanda manni af rèttum veg, sem gjörði Thomas erkibiskup eða Guðmundr Holensis, en þá sýnist vándum mönnum sem þeir sè einráðir ok deilugjarnir, sem stendr í lífssögum þessarra guðs vina, sem nú vóru nefndir.

28. Nú meðr því, at Kolbeini Tumasyni varð höfgara en hann hugði, at hafa herra Guðmund Hólabiskup undir hendi sèr, byrjar hann óheyriligan herskap ok ófagran fjárafla móti kirkjunnar frjálsi ok klerkanna, sem einn af justisum Heinreks konúngs. Þat er upphaf hans, at hann hefr kæru á lærðan mann, þat kallar hann fornt fèmál, en bygðar rómr [var sá], ef menn þorði rètt at tala, at sá mála tilúnaðr veri eigi mjök vandaðr, þótt leikmenn hefði hlut í átt undir lands lögum. Prestrinn sækir biskup at málinu, gerir honum kunnigt hvat hann hafði lögligra vernda, en gefr sik ok sitt góðs á kirkjunnar vald ok frið undir vernd biskupsins. En er Kolbeinn fregn þetta, sækir hann prestinn, sem hann kallaði landslög bjóða, til útlægðar, ok ætlaði þá sömu sekt at hafa frammi á allsherjar þíngi um sumarit. Herra biskup fyrirbýðr Kolbeini af guðs álfu ok heilagrar kirkju, at sækja prestinn, en hann leggr úgilt hvat herra biskup talar, ok fjölmennir til þíngs, sem hann skuli kæra hin stærstu málaferli. Herra biskup hugleiðir annan veg, at bæði sakir guðs rèttar, ok þess, er

1) 398; vilja, Hd.

prestrinn hafði sik lagt á kirkjunnar náð, stendr honum ei at snúa baki við, ok því tekr hann at sèr vini sína ok frændr til alþíngisreiðar. Sem fram kemr í þíng, ok mál er búit móti prestinum til dóms eptir flutníng ok atgöngu Kolbeins, gengr herra biskup til lögbergs með bagal ok stólu, ok talar svá: vèr fyrirbjóðum af guðs álfu undir banns pínu, at draga prestinn undir leikmanna dóm. Síðan gengr hann í braut, en þeir dæma eigi at síðr, ok gera prestinn sekjan drápsmann. Sem þetta er sannspurt gengr herra biskup til lögbergs á næsta dag eptir, ok hefr svá sitt mál: þik kveð ek at þessu, Kolbeinn, þú hefr ratað í óhlýðni við guð ok heilaga kirkju, ok við oss, með svá opinberum glæp, sem nú er öllum ljóst, at þú hefir dregit lærðan mann með fors ok ranglæti undir leikmanna dóm; hefir þú eigi verit þèr einum illr ok úþarfr í þessu verki, heldr þeim öllum, er hèr samþykktu með vitnisburð, dómi eðr rangfengnum sóknargögnum, þvíat þvi firr stæði þèr at rangdæma prestinn til dauðligrar sektar, at þèr áttið hann eigi rètt at dæma. Nú samir öllum lítt, en þèr ferligast, at grimmast svá í móti guði; því megum vèr ei nè viljum þyrma þèr, ok sakir þess at glæprinn fyrirmælir þèr ok öllum þínum fylgjörum í þessum ósóma, þá lýsum vèr yfir yðr öllum samt, af kirkjunnar álfu ok herra páfanna skipan, hit sterkasta forboð guðs þjónustu, þar til þèr sættist við guð ok heilaga kirkju með iðran ok fullri yfirbót. Kolbeinn svarar máli hans svá sem hann gekk í braut: því muntu nú ráða fyrst at sinni hvat þú segir, en vèr munum gera sem líkar. Herra biskup heyrir orðin, en svarar öngu. Prestrinn seki hafði riðit til þíngs með biskupi, svá reið hann ok heim aptr til Hóla með honum, en kona sú, er prestinum tilheyrir ok geymir þeirra búnað, kúgast af Kolbeini til fjár framlaga, at hann láti búit standa. Þetta sama haust dregr Kolbeinn at sèr fjölmenni, ok ríðr til Hóla, ok lætr þar dynja stefnu svá stranga uppá húskarla ok heimamenn biskupsins, at hann lætr varða útlegðar sök hald ok hjálp við prestinn. Móti þessi stefnu hrærist mjök biskupinn, ok heitast berliga at bannfæra Kolbein, áðr til koma beggja vinir, ok bera sáttmál, en herra biskup vill enga aðra sætt fyrir kirkjunnar hönd, en Kolbeinn gangi til festu, ok allt hans brot standi á kirkjunnar dómi, bæði til skripta ok fègjalda. Ok til þess, at illsku eldrinn mætti

lægjast, draga góðgjarnir bændr saman með því játyrði Kolbeins til sættar, at þeir skulu borga fégjöld slík sem dæmast. Svá slítr þetta mót, at Kolbeinn gengr til festu sem áðr var greint, segist herra biskup vel mega bíða annars sumars ok alþíngis um þetta mál, at því betr verði haldinn dómr kirkjunnar, sem vitrastu manna ráð er til leitt, hversu lögliga hann er settr ok saminn; skildust at svá mæltu ok hètu sáttir; var nú næsta vetr kyrt at kalla. En um sumarit eptir ríðr herra biskup til alþíngis, ok dæmir þar með ráði Páls biskups, ok annarra vísastu manna, xij. c. vaðmála. En þessa gjörð svá lágliga samda rýfr Kolbeinn þegar hann kom heim í hèrað, svá at varla laukst helmingr dómsins, þvíat hann sagði bændr skylduga að lúka slíkt er þeir játuðu, en biskupinn heimtir einart á Kolbein fullan dóm eptir handfestu þeirra; en því lúka bændr eigi, at Kolbeini líkaði svá betr; ok þó at hann veri fallinn fyrir dómrof aptr í sama forboð, þá lætr biskupinn enn atgjörðalaust, þar til hann eykr meiri bölvan yfir sitt höfuð.

29. Sigurðr Ormsson, ok hans kumpán er Hallr hèt, hafast enn nökkut at þetta sumar. Þeir fara til ok draga mann undir meiðíngar ok limalát ór Þverár klaustri í Eyjafirði, þar með kúga þeir einn prest at lúka sèr stórfè, til þess at hann haldi lífi ok limum; þetta fè draga þeir undir sik, ok kalla höfuðmund prestsins. Fyrir þessar tvífaldar sakir, svá ljósar ok guðrækar, bannfærir biskup þá báða; lætr Kolbeinn í fyrstu, sem hann skuli forðast þeirra samneyti, en litlu síðarr tekr þá bannsetta svá sem í sinn faðm, með sætt ok löguneyti. Varð sá endinn þessa máls fyrst at sinni, at Sigurðr ok Hallr sættust við heilaga kirkju um haustið in festo Mauricii; greinir ei framarr þeirra sætt, en biskupi þótti heilög kirkja hafa sinn rètt. Kolbeinn sat í hjá friðinum, því at honum er sárt at láta af peníngimum; en svá sem herra biskup hugleiðir, hverja samtempran rèttvísi ok miskunn hefir í lögmáli guðs, sèr hann at eigi tjár linleiki við þenna mann, því at æ framleiðis eykr hann sína vesöld, hvar fyrir biskupinn neytir valds sèr gefins af guði, ok bannfærir Kolbein með fullri þjónustugjörð á næsta vetr eptir jól, fyrir þær tvær sakir: at fyrir kirkjunnar dómrof fèll hann aptr í þat sama forboð er fyrr var hann í settr, en nú síðarr fyrir samneyti bannsettra manna með fráskilning kirkjunnar. Margar vóru hans sakir, þótt þessar sè greindar,

sem var samblástr hans at banna sölur[1] til staðarins, ok hvat annat er hann lysti. Sem hann hafði bannfærðr verit, heldr hann sik einn veg í samneyti sem áðr, dregr nú saman herfólk um várit eptir páskir ok gerir heimsókn aðra til Hóla meðr lxxx manna, þess erindis, at stefna lærða ok leikmenn af biskupsins garði til þess hèraðsþíngs, er þeir kölluðu Hegranessþíng; ok er biskup varð þess varr, býðr hann bæjar lýð at standa hjá sèr til beggja handa, í þeirri stöðu, sem hann skipar, fjarri kirkju, því at hann segist eigi vilja at kirkjan svívirðist í nákvæmd bannsettra manna; skulu þeir ekki tala við þat auma fólk: en ek mun tala þat mèr leggst í brjóst. Síðan skrýddist herra biskup, ok tekr með sèr eina rullu skrifaða með norrænu[2], stendr hann svá með bagal ok mítru í öndverðu brjósti síns fólks, þann tíma er Kolbeinn reið á staðinn. Kolbeinn víkr þangat at, sem hann sèr at biskup er fyrir, ok byrjar þegar sitt mál með stefnu, svá fjölmennri sem fyrr var sagt. Biskup þolir ok þegir meðan fram ferr stefnan, en talar síðan: enn býð ek þèr sætt, Kolbeinn, þvíat alls oflengi heldr þú þínu þrái; þú reisist í móti þeim, er þú ættir at þjóna með öllum krapti andar ok líkama, þú þikkist vitr, en villist þó allr ok hvarflar í myrkrum sem sjónlaus maðr, þá er [þú] þykkist hefja[st] af þinni rapan ok vaxa af þinni vesöld, þá er þú hatar ok hæðir móður þína, er þú ættir vernda ok verja, ef þú vildir vera rèttr kirkjunnar son. Nú geym þín, at þú ofþreytir eigi, þvíat ek segi þèr satt, at hvárt er þú fjölmennir eða stefnir, skal ek ei hopa fyrir þèr ok eigi gerast eiðrofi fyrir þína skyld, en þá veri ek svá, ef ek hylda með hljóði þá er þú fyrirsmár ok fóttreðr kirkjunnar ok klerkanna rètt; ok til þess at þú gangir óduldr hvat sä maðrinn aflar, er þvílíkt starfar, þá heyr hvat ek les þèr! — Herra biskup tekr þá rolluna, ok less sjálfr á norrænu þau bannsetníngar orð, er þar vóru saman lesin, þúng ok mikil at heyra. Kolbeinn stendr ok heyrir, en víkr síðan þeg[j]andi aptr í veg, ok kveðr vísur þessar með miklum móð:

Báls kveðr hlynr at Hólum
hvern mann vera í banni
Gylfa láðs, þann er greiðir

[1]) 396; sálvr þ$^{5}$, Hd. [2]) noræna, Hd.

geðrakkr fyrir mèr nakkvat:
geystr mun gegn at flestu
Guðmundr fara um stundir,
trautt má ek enn fyrir annan
enda sjá, hvar lendir.

Bannar biskup mönnum,
berr strið af því síðan,
lýða kind á láði
löngum kirkjugöngur;
trautt kann hóf sá er háttar
hoddlestir vel flestu,
meðr eru af því aðrir
ósælir, stórmæla.

[Guð hefir Guðmund gervan
glikan[1] Thome at riki,
nær liggr okkr við eyra
erfíngi höfðíngja,
ræðr guðs laga greiðir,
geðbjartr snöru hjarta,
hræðist himna prýði
hann, en vætki annat.

Hèr af má skilja, at Kolbeinn sá tvá hluti, rèttvísi biskupsins en rangindi sjálfs síns, ok þó gaf ógiptan honum faðmlag svá fast, at hann fèkk eigi frá henni snarast.

30. Herra Guðmundr biskup sitr nú heima um várit, en Kolbeinn linar enn lítið, heldr gerir hann nú eptir styrk móti biskupinum i syðra biskupsdæmi, at fjölmenna sem mest til hèraðsþings, ok þat orð yfirfram, at með öllum þessum liðdrætti munu þeir fara eptir þingit í þriðju heimsókn at herra biskupi, ok taka út með valdi undir sverð þá menn af húsi, sem þeir kalla, fyrir ýmis tilfelli. Nú sem komit er at þvílíkri úfæru, hlutast til góðir menn at friðr mætti formerast, en þar gekk seint á, þviat dómi biskupsins neitar Kolbeinn þverliga, en biskupinn sèr hallat sínu valdi, ef undan honum leggst rèttr dómr yfir sinnar kirkju meingerðum ok hennar

1) [ara vill Guðmundr gjörast glikr, 396, 219.

klerka; en þó enn sem fyrr sýnir hann sik vera sannan vin friðarins, ok því leggr hann sinn rètt ok samþykkir, at öll þau mál, sem ganga milli kirkjunnar ok Kolbeins, skal standa á dómi erkibiskups; þiggr Kolbeinn lausn undir þeim veg, en gefr upp sektir allar, er hann kallaði á biskups menn; skyldu nú heita sáttir, ok því svá, at ei varð langt friðkaupit, sakir þess, at menn Kolbeins rugla æ kirkjunnar rètt með einshverjum óhæfum, heldr tíund hennar eða annat vitafè, svá at þeir máttu öngan tíma frjálsir fara án kirkjunnar refst. En þann hirtíngar sprota, sem biskupinn nauðbeygðist til kviðjanar á at leggja fyrir þeirra löstu, rangsneru þeir svá, at hann ryfi sættir allar, ok engi maðr mætti frið fá fyrir hans únáðum. En þessi úgipta Kolbeins var góðum vinum hans it mesta ángr ok hörmúngar efni; má þar fremsta til telja húsfrú hans Gyrið, frændkonu biskupsins, þviat hún elskaði þá báða. Hèr af kveinkar hún fyrir frænda sínum, sem þau finnast, ok tekr svá til orðs: þat angrar mik yfir alla luti fram, er bóndi minn reytir þik svá margfalliga minn sæti faðir ok frændi, því at ek óttast, at hèr fyrir falli hann í guðs reiði, ok fái svá harða hegníng, sem ei sè orð eptir sendandi. Biskup svarar: ef ek mætta því ráða, þá mundi honum lètt falla þat er hann meingerir mik, en þat er honum hræðiligra, er guði tilheyrir ok hans heilagri kristni. Hún svarar: hvat mun hin sæla guðs móðir til sín taka í þessu máli, mun hún nökkura amban skipa Kolbeini fyrir þann óð, sem hann þykkist hafa samsett henni til lofs? — Biskup svarar: sannliga frændi, mun hún ambuna. — Nær þá? segir hún. — þá er hann þarf mest, segir biskup. — Hvar mun þat? segir hún. — þar sem málskiptin ok hjálpin liggr við, segir biskup. Hún grætr þá sárliga, en biskup mátti ekki aumt sjá ok vill gjarna hugga hana, þótt hèr væri eigi brýn efni til hugganar. Hann segir svá: grát eigi sæti mín, vel mun verða; kann verða með guðs miskunn ok minnar frú, at endinn verði líkari en upphafit. Eigi er getið fleiri orða þeirra at sinni. Á þessum tímum Guðmundar biskups verðr höfðíngjaskipti í Niðarósi, kallaðist burt Eiríkr vígslufaðir hans, en herra Þórir vígðr, fyrsti Nidrosiensis með því nafni.

31. Þessu næst gerist þat úfriðar efni í bygðinni enn at nýju, meðal kirkjunnar ok Kolbeins, at einn klerkr, akolitus at

vígslu úsiðsamr í vápnaburð, lifnaði ok klæðaskurð, ráðspellaði konu nökkura í vernd ok garði bræðra sinna. Bræðr konunnar taka þat ráð, sem þá var kært, sækja Ko[l]bein at málafylgi uppá skaða klerksins. Klerkr leitar fyrir sèr í öðrum stað, ferr til biskups ok biðr hann ásjá, gefr þar með sik ok allt sitt góðs í vald ok vernd heilagrar kirkju. Við þetta tiltæki grimmast Kolbeinn at marki ok býr til sóknar legorðs sökina. Herra biskup býðr fram klerkinum til frelsis vj hundrat vaðmála, ok kallar þat tvenn fullrètti svá fallinnar konu. Þessu boði neitar Kolbeinn mest fyrir þá sök, at hann segir öngum vinna at semja við biskupinn, segir hann æ fyrst rjúfa hvat er hann talar, ok því ferr hann fram málaferlum ok tilbúnaði sem hann hugsaði. Herra biskup sèr enn þar komit, at guð drottinn fyrir spámanninn býðr honum upp stíga til verndar ok skipast múr fyrir húsi Ísrael, ok standa í bardaga á degi drottins, því fyrirbýðr hann, undir banns viðrlögu, at Kolbeinn dragi kirkjunnar rètt undir sik eðr sína blástrsmenn í fordæmi klerksins. Kolbeinn ansar öngu hvat hann segir, lætr tumba málit á gallhörðum landslaga lit allt til útlegðar. Herra biskup sèr sik krafðan til framferðar af kirkjunnar álfu, ok gerir fyrst lögligar ok föðurligar áminníngar til afláts ok yfirbótar, en forboðar síðan Kolbein ok alla þá sem sátu þann útlegðardóm. Kolbeinn harðnar því meirr, dregr nú at sèr Sigurð Ormsson til fylgis ok framferða móti biskupinum, at þat hèr vel sannist, sem fyrr var ritað, at þeir tveir stóðu fremst í fylkíngu móti biskupinum, sem honum áttu bezt at lúka. Þeir byrja fjársókn innan xiiij nátta eptir dóminn, at allt þat góðs, er klerkrinn hafði átt, skal falla upptækt í þeirra garð. Herra biskup fyrirbýðr þeim ranga sókn ok yfirgirnd fjárins, segir, at hverr sá peníngr er kirkjunnar eign. Þeir gefa því öngan gaum, ok grípa slètt upp undir sik. Herra biskup bannfærir þá báða fyrir svá guðrækilig rán; stendr nú í þeirri hörmúng, at veslugir víkja ei tilbaka, heldr verða af vándum verri, þvíat þetta sumar fjölmenna þeir til alþíngis. Því er alþíngi kallat, at þat skal vera eitt höfuðþíng á hverju ári í sama stað sunnanlands ok sama tíma, í enda Junii en[1] upphafi Julii; hèldu þann tíma þíngit formenn landsins, en nú stjórna lögmenn, síðan landit

1) ok, 396.

var svarit Noregs konúngi; skulu sýslumenn nefna svá [marga] skilvænustu menn til þíngreiðar ór hverju hèraðsþíngi, sem bók váttar. þessir nefndarmenn skulu dæma í lögrèttu öll þau mál, er þangat bjóðast, með prófuðu skilríki, ok ei verða samin í hèraði. Optliga sóttu biskupar í þann tíma til alþíngis, annathvárt at vernda kirkjuna fyrir rangindum leikmanna, eðr eitthvert frammi at hafa til styrktar kristindóminum, en þó ríðr herra Guðmundr eigi til þíngs þetta sumar; því eru þeir Kolbeinn ok Sigurðr eigi iðjulausir: þat fyrst, at þeir svívirða þíngit í samneyti viðr sik, þat annat, at þeir sækja vj menn af húsi biskupsins at Hólum fyrir bjargir ok samlag viðr klerkinn, er þeir kalla sinn útlaga, því at hverr er hjálpaði alsekum manni skyldi fá sama tjón lífs ok aleigu. Fyrir þá sök hafa þeir liðdrátt í hèruðum eptir þíngit, með þeim orðflaugum, at þeir munu veita herra biskupi heimsókn enn um sinn með þessum her, ok taka út með afla mun líf ok lán þeirra manna, er þeir kalla sekja. Vinum herra biskups sýnist eigi traust at sitja fámennt fyrir svá miklum mannstormi ok þeirra forsligum fjándskap, því biðja menn, at biskupinn hættleggi eigi þat, heldr rými hann með visiteran sýslu sinnar. Herra biskup er seinn at láta sígast með forflótta, en fyrir þá grein, at gott er erindit til bata kirkjunnar, lætr [hann] eptir tillögum ok byrjar ferð sína norðr í sýslu; fara þeir allir með honum, er sekir vóru kallaðir. Ok er hann víkr norðan at áliðnu sumri í Augusto mánaði, fregn hann þat einu vestan yfir fjöllin, at eigi er fagrt: Bannsettir menn ganga í kirkjur ok heyra guðs embætti, einn veg fyrir manna augum sem synir kirkjunnar; lærðir menn vóru svá lítt fengnir, at þeir flytja guðs embætti yfir þeirra höfut, sumir kúgaðir en aðrir leiddir af eiginligum vándskap sinnar úhlýðni, þat er lengi síðan var þeim haldsamt at officera yfir afsniðnum, hvárt sem kirkjan bauð eðr bannaði. Má ok merkja hvílíkir þeir mundu vera í embættisgjörðinni með óhlýðni móti biskupinum, sem glaðir gengu í orrustur ok umsátir með hans opinberum óvinum, vóru ok at öllu grimmari en úlærðir, sem brátt mun lýsast í því sem eptir ferr. Svá veraldarfullir vóru þessir tímar, at þeir máttu sannligar heita samhaldin nátt en lýsandi dagar, þvíat andligt ljós var mörgu hjarta löngu horfit, en sá inntekinn í leiðsögu, sem alla sína tíma gekk í myrkrum. Herra biskup harmar af huggæði svá mikla eymd ok angran

heilagrar kristni, en fær eigi vikit í þann veg, er honum líkar, heldr fara þau orð vestan móti honum, sem hann um ríðr Eyjafjörð, at herr manns muni samhlaupast, ef hann ríðr heim til Hóla, ok þeir er sekir kallast af hans fylgð, munu utan alla miskunn láta sinn háls. Fyrir þenna kurr koma saman frendr ok vinir biskupsins, meirr af sinni vild ok manndómi en hans bænarstað; var þeirra foríngi einn röskr maðr, er Ögmundr hèt; þeir [vóru] bræðra synir ok biskupinn.

32. Nú berr svá til í veginum, at herrá biskup ríðr um þann bý, sem búgarðr Sigurðar Ormssonar stendr; þar er kirkja fögr, skrín vænt með helgum dómum, ok bækr góðar. Herra biskup víkr hèr til með sinni fylgð ok tekr skrínit í sitt vald ok bækr nökkurar, segir úfallit, at bannsettir menn hafi nökkura drottnan yfir þvílíkum hlutum. Sigurðr var heima, ok í þann tíma með honum bróðir [Kolbeins], Arnórr at nafni, er einn finnst aumastr maðr í sögu þessi, þvíat hann tók at erfðum bróðurligt hatr ok illsku. Þeir standa eigi fyrir, at biskupinn skipi kirkjunnar gózi sem honum líkar, utan túngur sínar hvessa þeir sem tvíeggjat sverð, ok hleypa sendiboð vestr til Kolbeins, at biskup ætlar vestr til Hóla ok dregr eptir sèr útlaga þeirra, en ferr um land með rån ok rifs. Kolbeinn samnar liði fyrir vestan, en Sigurðr ok Arnórr fyrir norðan, ok ei því síðr, hvat sem brakat er, segist herra biskup heim vilja til kirkju sinnar at hennar vígsludegi, er þá stóð in Festo nativitatis beatæ virginis, at biskup eignaðist þat er ritað er: justus, ut leo confidens absque terrore erat, et cet. En fyrir þá hræríng, sem nú gengr í hèruðin, með úbæriligum ótta dugandis manna, sækir fjölmennt á fund biskupsins, bæði lærðir ok leikar, hann at styðja ok styrkja ef þörf gerist: ábótar báðir norðanlands ok nær fjórum tigum presta, en svá mart leikfólk, at dró í þúsundrat áðr lauk.

33. Svá gerist, at herra biskup kemr heim á staðinn á næsta kveld fyrir kirkjudaginn með allt þat fólk er honum fylgir; segir sjálfr messu á kirkjudaginn, ok predikar einkar fagrliga. Þenna sama dag kemr Kolbeinn með þúsund manna ok sezt um staðinn; fara þá menn í miðil af hvárratveggju liði ok vilja koma sáttum á. Er herra biskup enn sem fyrr víkjanligr til friðarins, ok segist búinn at veita Kolbeini líkn, ef hann vildi þess alvarliga biðja, með þeirri grein, at allir hans menn hafi grið ok góðan frið, en þat er þvert af Kolbeini at gefa

sektir upp, heldr líkar honum þat eina, at þeir menn, sem hann kallar sekja, sè gefnir í hans vald. Biskupinn segist eigi vilja selja menn sína undir öxi, segist ok þat hyggja, at Kolbeini muni nógu þúngt á höndum, þótt hann beri eigi með sèr saklaust blóð. Ögmundr biskups frendi leggr sik allan til at draga saman með þeim, þykkist hann kominn í vandan púnkt: annan veg stendr at biskup hans ok náfrændi, en annan veg námægðir. En meðr því, at Kolbeinn er ekki til hallr friðargjörðinni, er þess leitað, at biskupinn muni liðugr fara, ef hann rýmir undan honum, en Kolbeinn geldr þar þögn í mót. Ok er þat kemr fyrir biskupinn, svarar hann: stríðr er Kolbeinn nú, at mèr skal ei játta friði, þótt ek gerist flóttamaðr frá kirkju minni. En fyrir þá grein, at þat finnst boðit, at fyrir utan sálutjón firri maðr mann foraði, skal í myrgin, sem þèr biðit, í brött ríða, ok ei fyrr, en ek hefir gjört mitt embætti guði til tignar ok hans mæðr. Er nú þat ráðit, at biskupinn skal undan láta með sitt lið. Kolbeinn ok hans menn sitja í útgarði nökkurum, svá langt sem vart ördrag norðr af staðnum; ok svá er sagt með sannindum, at þeir heyrðu eigi nökkurskyns hljóð, þá er hríngdust allar klukkur at Hólakirkju. [Birtíst í þeima[1] lut, hver guðs reiði lá yfir þeima lýð, at allir vóru samdæmdir svá sem með einu banni. En er á leið kveldit, segist, at Kolbeinn tekr svá til orðs: reiðr er Guðmundr mágr várr, er hann lætr klukkur þegja svá dýra hátíð. Þá svarar einn maðr í liðinu: kann vera, bóndi, segir hann, at hríngt hafi verit þótt vèr hafim eigi heyrt. En eptir þetta, segist at Kolbeinn kvæði vísur þessar:

Heyrðu himna smiðr
hvers skáldit biðr,
komi mjúk til mín
miskunin þín;
því heit ek á þik
þú hefir skaptan mik,
ek em þrællinn þinn,
þú ert drottinn minn.

Guð heit ek á þik
at þú græðir mik,

1) [396; birtir þĩa, Hd.

minnstu mildíngr mín,
mest þurfum þín;
rittu röðla gramr
ríklyndr ok framr
hölds[1] hverri sorg
ór hjarta borg.

Gæt mildíngr mín,
mjök þurfum þín,
haulz[2] hverja stund
á hölda grund;
settu meyjar mögr
málsefnin[3] fögr,
hjálpin öll af þèr,
í hjarta mèr.

Vóru nökkurir svá illir menn með Kolbeini, at þegar vildu hafa strítt upp á staðinn um kveldit, en Kolbeinn fyritekr þat, sakir guðs móður hátíðar, þvíat hann veit biskupinn svá einarðan, at ei lætr hann kirkjuna officerast í þeirra nákvæmd; liggr hann í sama stað um náttina, en Ögmundr með sína fylgð er á verði alla þá nátt, en biskupinn vakir náliga alla þá nátt allt til myrgins, ok biðr fyrir sínum mótgangs mönnum, felandi sik ok kirkjunnar sök í várs drottins vald ok verðleika várrar frú.

34. Á næsta morgin, sem tíðum er lokit fagrliga ok herra biskup er albúinn í veg, lyptir hann sinni ferð, með allri þeirri fylgð er fyrr var reiknuð; var [þat] it bezta mannval. Þeir víkja á fram þær flata foldir, er liggja norðr ok niðr frá staðnum. Í fylgð með Kolbeini var einn vansignaðr maðr, er rètt má kallast krúnaðr son Plutonis, en prestr, Brúsi at nafni, þvíat hans eitrlig túnga talar sèr sjálfum ok [enn] mörgum öðrum bráðan höfuðsbana, þá er hann segir svá, sem lið herra biskupsins nálgast í ferðar brodd niðr á eyrarnar, þar sem heitir Víðines: sè, Kolbeinn, segir hann, þar ríðr nú biskup í brott með beggja ykkra virðíng. Við þessa eggjan býðr Kolbeinn at menn herklæðist[4] ok hlaupi á bak; renna síðan sem hvatast fram í veginn þvert á eyrarnar, stökkva af baki ok fylkja. En er herra

1) haulldz, Hd.; haullz, 396. 2) (= helzt); haulldz, Hd.
3) þann. 657 C; mál stofna ek, Hd. 4) herklæðaz, Hd.

biskup sèr þat, at forsát er skiput, býðr hann sinni fylgð bæði með orði ok hendi, at þeir víki annan veg út í frá; en þegar sem þeir víkja, lætr Kolbeinn síga sína fylkíng fram fyrir þá, ok hefr höggorustu þegar brjóstin mætast. Herra biskupinu kallar hátt um herinn, fyrirbjóðandi af guðs álfu at menn berist á svá dýrri hátíð, en hvat hann talar geymir engi maðr, þvíat árásin varð hin snarpasta sakir þess at fullhugar fundust, þótt ei veri mótið fagrt. Ögmundr biskupsfrendi var svá framr maðr til vápns, at í einu höggvi tvískipti hann miðjan mann í þessarri[1] sókn. En hví skulu bækr lengja slíka atburði, er ekki gera heyrandum utan hörmúng, nema segja þat er at lýtr þess dýrðligs manns lofi ok verðleik, er þá verðr frá sagt? — Sem litla hríð hafði sóknin staðit, fær Kolbeinn sár mikit á hægra fót, sem kálfinn er digrastr, en litlu síðarr kemr honum steinn í ennit svá snart, at þegar tumbar [hann] í úvit á bak aptr, en við hans fall fellr ok orustan í stað; standa menn yfir honum, ok finna þvísa næst, at vit hans er veitt brjóstinu, en mál er honum enn bannat. Herra biskupinn, sem hann heyrir hversu vorðit er, angrast hann ok hrærist af midli, sem einvalit ker almáttigs guðs, í eptirlikíng sæls Davíðs konúngs, ok talar svá með andvarpan: drottinn minn ok sancta María! hjálptu skáldi þínu; ok eptir litla stund öðlast hans bæn svá háleita framkvæmd, at Kolbeinn fær bæði skyn ok mál, ok beiðist hófsamliga biskups fundar; er þá biskupinum sagt. Ferr biskupinn þegar feginn til fundar viðr hann, ok spyrr hvört hann vill sættast við guð ok heilaga kirkju. Hann svarar: gjarna, herra, allt mitt mál legg ek upp á guðs vald ok yðvart, þar með bið ek lausnar af heilagri kirkju fyrir öll mín misfelli. Herra biskup svarar: viltu sverja þann trúnaðar eið, at standa á dómi heilagrar Hólakirkju, ok veita henni aldri mótgang meðan líf liggr þèr í brjósti. Kolbeinn segist þat gjarna vilja, ok sverr; er siðan leystr, skriptaðr ok husladr, en andaðist litlu síðarr. Herra biskup lætr flytja líkam Kolbeins til [Hóla], ok veitir honum fagran söng fyrir umsátir, mjúka bæn fyrir mótgjörðir, með sæmiligri graptar þjónustu; þótti þessi tíðindi mörgum mikil, ok þeim mest er vitrastir vóru, því at þeir sá hvat eptir mundi koma. Má hèr líkligt þykkja, at enn hafi fyllzt forsögn herra biskups, í hjálp ok heimván Kolbeins, sem hann forðum tilveik í hugganar orðum frendkonu sinnar, sem sagt var.

35. Engi maðr veit enn í dag hverr stein þann sendi, er Kolbeini varð at bana, því er þat margra manna ætlan, at meinleysi biskupsins muni hafa slegit hann með guðligri hefnd. Má þat sýnast líkligt enn fyrir aðra grein, at sá var mismuni í þeirra sókn, at ij menn fèllu af liði Ögmundar, en níu af Kolbeini, ok hann sjálf[r] enn tíundi. Þat þriðja má hèr fylgja, at sá illgirndar prestr, er fyrr var nefndr, fèll náliga í fyrstu hríð. En þó rèttsýnum mönnum, er hlýða sögunni, verði vel ljóst, hversu syrgiliga Kolbeinn þægði saman sínar sakir móti kirkjunni ok fèll í því: kollverpa biskupsins úvinir ok svá rangturna þessu máli, at þeir kalla hann meirr en saklausan, ok því skulu hefjast í hans eptirmál fullar mannhefndir í garð biskupsins. Var þat veitt þar um fyrsta afhroð, at hans náfrendi, góðr maðr, subdjákn at vígslu, er Snorri hèt, var settr undir öxi suðr á Kili litlu eptir fundinn; var formaðr þess verks Þorvaldr Gizurarson, sunnlenzkr maðr, er herra Guðmundr kallaði mesta undirrót allra þeirra únáða, er kirkjan fèkk af Kolbeini, þvíat hann var á þeim fundi, er klerkrinn var sekr gjörr, ok nú kominn upp á fjallveg at veita biskupi heimsókn, áðr hann spyrr norðan fall Kolbeins, sem áðr var sagt. Hèr með styðja at bændr í hèruðum, þvíat þann sáttar eið, er þeir vunnu kirkjunni eptir fundinn, rjúfa þeir svá ferliga, at þeir kalla í fyrstu sinn formann rangliga drepinn; þar með segjast þeir ræntir góðsinu, þá er þeir skyldu lúka ölmusu fátækra manna, er biskupinn hafði dæmt hverjum í sína skript fyrir atför ok óhlýðni. Hèr með reis þat efni til meiri framferða, at Kolbeinn var ættstórr maðr, vóru sumir hans frendr, sumir mágar, er mest máttu afla í úfriðinum, ok þann tíma vóru kallaðir landshöfðíngjar. Þrjá bræðr verðr at nefna, þótt ólíkir væri, er svá hètu: Þórðr, Snorri, Sighvatr, Sturlusynir. Þórðr var þeirra beztr, Snorri í mið, en Sighvatr vestr; ok því kveðum vèr svá at með fullteknu orði, at Þórðr var alla götu inn trúasti vin herra Guðmundar biskups, sem bæði lýsist í sögunni fyrr ok síðarr, þar fyrir fèkk hann alvarliga vináttu biskupsins; þat til marks, at einn tíma sem þeir fundust ok sitja báðir samt, talar Þórðr svá til hans: ek bið þik, vinr minn, at þú vísir nökkut á fyrir mèr, hversu lengi ek mun lifa. Herra biskup færist undan með einfeldi, segir fjarlægt sínu lífi at vita örlög manna. Þórðr sagði, at þat brást engum manni er hann veik á. Hèr

lendir með þeim, at herra biskup segir svá: þat er hugsan mín, ef ek skal til leggja, at þá er þú spyrr andlát mitt munir þú eigi langt draga. Nú hversu þetta sannprófaðist, er herra biskup sagði, stendr síðarr greint í sögunni. Snorri var í mið, sem vèr sögðum, því at hann stóð í úvina flokki herra biskups, en sýndi honum þó stundum nökkvern manndóm, þá er harðast gekk, sem brátt mun lesast. En Sighvatr finnst í öngum sínum veg annat hafa gjört biskupinum, en mein ok mótgjörðir, með svá máttugri úhæfu, sem segja skilríkir menn, at sjálfar biskups tíundir um allan Eyjafjörð tók hann undir sik, eigi miðr en um viij ár, meðan stormrinn geisaði sem hæst móti kirkjunni; hèr með hefði hann verit kátr kaupmaðr, þótt hann hefði tært alla sína eign, at firrast þau atvik sem lesin eru at herra Guðmundr hafi veitt [optar en um sinn[1] hans andligri ván. Sighvatr átti systur Kolbeins; var honum þat mikil framhvöt til illra luta fyrir áeggjan hennar. Arnórr Tumason, bróðir Kolbeins, ok Sigurðr Ormsson sátu sunnanlands næsta vetr eptir fundinn, ok váru heilagri Hólakirkju helzti úþarfir, því at þegar um vetrinn fara sendiboð meðal þeirra, er bandamenn gerast at stríða biskupinum ok hefna Kolbeins, er þar fyrstr Sighvatr, annarr Snorri bróðir hans, þriði ok fjórði Arnórr ok Sigurðr, fimti ok sètti Þorvaldar tveir, Gizurarson, er fyrr var nefndr, ok annarr Vatnsfirðíngr, er vann þat níðíngsverk, sem fyrr var skrifat af lífláti Rafns bónda, fylgdarmanns Guðmundar biskups. Þessir vj ok aðrir ij samblása þá guðs reiði, at fara með her norðr um land til mannhefnda eptir Kolbein. Sighvatr sendir orð Þórði bróður sínum, at þeir finnist. Þórðr sækir þat mót, sem mælt var; biðr Sighvatr, at Þórðr ráðist í fylgð með honum. Hann svarar: hversu mikil skulu ráð mín, ef ek ferr? Sighvatr segir: hví muntu eigi ráða því er þèr líkar, eðr hvern styrk hefir þú margmennis? Þórðr svarar: þat eru v menn. Sighvatr sagði: hvat vinnr þú þá meira en annarr maðr? Þórðr svarar: þú sér, frendi; en undr þykki mèr, er þú gengr í slíka snöru, er langligan úfagnað mun af leiða þér ok mörgum öðrum. Sighvatr reiðist ok hleypr á hest sinn; sagði Þórðr svá, at aldri varð síðan þeirra bróðerni svá blítt sem áðr.

36. Eptir páskir um várit draga þeir formenn herfólk sam-

1) [b. v. 396.

an, er nefndir vóru; fór lítil njósn fyrir þeim um fjallit áðr þeir kómu yfir fjallit í Skagafjörð; dreif þar enn til þeirra margt lið, svá at um kveldit hafa þeir allir samt vj hundrat manna. Fáir halda á þessum tíma trúnaðinn við herra biskupinn, var ok ei mjök hægt um, þvíat Ögmundr, frendi hans, norðan kominn um fjall, var svá höndlaðr af herinum í Skagafirði, at þeir rændu hann bæði vápnum ok hesti, ok komst hann því hvergi fram, en þeir allir, er Arnórr kallar mest sekja um bróðurdráp, flýja undan, svá sem til skjóls, á biskupsgarðinn. Herra biskup sitr heima, sem hann fregn úfriðinn, ráðinn at rýma eigi nè hræðast fjöld úmildra, heldr bíða, ok gjarna þola hvat er guð vill lofa at honum sè meingjört; engum sendi hann orð til liðs eðr málafylgis, því at hann setti sik allan í þess vernd, er vald hefir allra luta. Ein var hans úgleði ok áhyggja, sakir samfæddrar mildi, at sjá eymd ok afarkosti, dráp ok dauða sinna sauða, þvíat eigi fór leynt af herinum, at þeir ætluðu hírðinn bröt skýfa, en höggva niðr þá menn af hans hjörð, sem þeir kalla mest sakaða, ok taka þar með biskupsgarðinn í sítt vald, með allt þat góðs, er honum heyrir til. Á næsta dag fyrir Festum Tíburtii ok Valeriani halda þeir herinum heim á staðinn, en þeir búast til varnar, er fyrir vóru, röskvir menn ok margir, bera at sèr grjót ok þá vernd sem fá mátti, taka sèr stöðu á þeirri hæð eða húsi, sem sterkast[1] var ok veggbrattast ásóknar. Formenn sjást um, hversu þeir megi með minnstri mannhættu vinna þá er fyrir vóru. Þá leggr til einn klókr maðr, at þeir ljósti upp herblástr sama dag, en greiði atgöngu eigi fyrr en um morguninn; væntir mik, segir hann, ef svá er gjört, at fylkíng þeirra sè heldr þynnri. Þetta ráð var haft; gekk ok sem hann gat, at eigi vóru allir jafnir, sumir leynast á braut um náttina til liðs með Sighvati, aðrir í kirkju, eðr flýja í brott í leyni, svá at fátt eina stendr eptir á verndinni um morguninn. Svá finnst ok í nökkurum stað, at þessi hafi einkanliga verit tillaga Þorvalds Gizurarsonar, at þeir skyldu eigi samdægris stríða við staðarmenn, sakir þess, at hann sagði þá vera vígsludag Guðmundar biskups, ok veri vánlaust, at [þeir] beri sigr yfir hann eðr hans menn á þann dag. Nú ef svá er satt, má skilja, at lesandi maðr má vel skilja ok hugleiða, hversu sjá undarligr lýðr líktist þeim er röktu letrin hvar Jesus mundi fæðast, en ofsóttu hann

1) sterkastr, Hd.

síðan allt til krossins. Í aðra grein, ef svá er sem hann sagði, hefir herra Guðmundr vígzt á várit, idus Aprilis, en hann kom til Noregs áðr um sumarit; má þetta vera fyrir þá sök, at Martirilogium setr á þann dag andlát Eyfemie virginis in Kallcedonia, finnst ok hèr með i fornum kalendariis, að in Profesto Tiburtii et Valeriani hefir súngizt Evfemiæ virgini. Nú sem herra Jesus Christus ok hans vin Guðmundr biskup veit sannara vera, viljum vèr svá hafa sett ok sagt, þótt festum Evfemiæ virginis ok martyris in Kalcedonia sè mönnum nýrrar kristni kunnara sexto decimo kalendas Octobris, þvíat þar sem finnst ýmisligt skrifat af inni sömu grein, ok fyri utan săluháska er eigi vísvitað hversu varð, hafa feðr várir hvártveggja sett en hvárki dæmt. Á myrgininn gengr Arnórr til með gnógum styrk, ok slær niðr staðarmenn úti ok inni, ok einn í kirkjugarðinum, svá at blóðit stökkr á kirkjuna.. Arnórr ok Sigurðr ganga til biskups, gera honum tvá kosti, þann fyrra, at hann leysi þá, fari liðugr brott ok komi þar aldri síðan utan þeirra orlof; hèr í mót játa þeir, að gefa grið þeim mönnum, er á kirkju náðir eru komnir; vill hann eigi þenna, heitast þeir at reka hann brott með svívirðu, en drepa menn hvar er þeir finnast. Herra biskup svarar: hvat er ek má rèttliga kirkjunni til frelsis, ok þeim til náða er á hennar grið eru komnir, vil ek gjarna gera, en at leysa ykkr ór banni er langt yfir mitt vald, þvíat þit erut fallnir í svá djúpa bannsetníng dauðans, at af henni megi þit hvergi leysast utan á herra páfans garði, nema meiri iðran glæpanna gangi fyrir, en nú má sýnast. Heilagrar kirkju eign ok rètt skal ek ok aldri upp gefa, eðr játta undir bannsettra manna vald, þvíat enginn yðvarr á mik frá minni kirkju út flæma eðr mèr útlegðar dóm setja, nè mínar gjörðir dæma; mik ok kirkjunnar sök gef ek enn sem fyrr undir erkistólsins dóm í Niðarósi. Snorri Sturluson leggr til, at biskup geri nokkura linan á þeirra máli þeim til lífs, er nú reið sverð at svíra; segir þar mikit til vinnanda. Svá gerist fyrir bænir [Snorra], at biskup less yfir þeim Miserere, segir þó allt eins, at þeir eru jafnlausir ok áðr. Snorri býðr heim biskupi, því at honum sýnist eigi mjök friðvænligt. Herra biskup þiggr þat ok ríðr sama dag brött með honum ok hefir fá þjónustumenn. Þat var á sjaunda ári hans biskupsdóms. Angrast margir af hans brotferð, þeir sem dagliga höfðu með honum verit ok

mesta huggan af hans miskunarfullu brjósti þegit. Þegar sem herra biskup er í brott riðinn, ganga þeir Arnórr væpntir at kirkjunni ok eggja [þá] út sem inni vóru, segjast ella skulu draga þá út eðr svelta til bana. Maðr svarar, er Sveinn Jónsson hèt: gera mun ek kost á útgöngu, ef þèr játið at lima mik til hálshöggs, væntir ek engis friðar af yðr, þvíat þeim geri þèr úfrið í dag, er yðr samir verr. Þessu játtuðu gengr hann út, ok þeir er inni vóru; er Sveinn aflimaðr, ok segir Ave Maria með hverri aflíman, rèttir hálsinn at síðustu ok lætr [líf] sitt með frægiligum orðstír. Margir vóru þar drepnir, er út gengu. Nær allir formenn tóku í grið einshverja af því fólki, gjörði þat hverr þeirra í þrá við annan, því at ei vóru þeir í öllu samlyndir, þótt þeir veri til ills jafnir, í eptirlíkíng Herodis ok Pilati. Aðrir af hermönnum hlaupa í bæinn, brjóta hurðir, lok ok lása, leita bæði fjár ok manna; margri staðarins eign var þar rænt ok stolit, hestum ok húsbúníngi ok flestu því er utan kirkju var, á líkan hátt ok af slegnum sælum Thoma in Kancia.

37. Arnórr ok Sigurðr, eigi fegra fallnir en fyrr var ritað, taka nú yfirvald biskupstólsins at Hólum, yfir tíundum hans ok tign ok rèttarbótum, sem þetta allt saman veri þeirra erfð; eru nú þeir dagar komnir, er Sigurðr ambanar líkt manndómi sínum þat, er herra Guðmundr leiddi hann forðum undan ágangi Oddaverja, þvíat hverr sá maðr, er at því verðr kunnr at honum hafi fulltíng veitt, eða forstoð fjár eðr fylgis, skal nú gjalda skyn fyrir eðr kúgast með afarkostum, fyrst til sjálfdæmis en síðan til fèpínu, eptir þeim atvikum, sem hverr sýndist sekr; lètu sumir ccc, einir v, aðrir x eða xx, xxx eða xl. Ögmundr biskupsfrendi lèt c hundraða, með fjórðúngs sekt um alla sína daga. Segja svá fróðar frásagnir, at verðleikr herra Guðmundar hafi leidt hann heim til Hóla, ok brott af allri útlegð, ok eigi fyrr en hann var áðr örendr. Grepti drepinna manna skipa þeir svá at staðnum, at sína menn bannferða láta þeir hafa kirkjugarðs gröpt, en biskup[s]menn dragast í urð; presta ij ok leikmenn tvá kúga þeir til járnburðar, ok þeirrar undanferslu, at þeir hafi eigi unnit á Kolbeini. Eina ok aðra gera þeir óbótamenn ok útlaga fyrir ýmissar sakir; kennimönnum kirkjunnar gera þeir boð ok skipan, at flytja þar allt embætti sem hún veri án flekk ok fölnan; sama boð gera þeir út fjögurra vegna, at allir prestar í hverri kirkju, þótt afsvíptir veri sínu embætti

fyrir lögligar sakir, skulu nú sýngja ok öll embætti flytja, sem þeir segja herra biskup boðit hafa áðr hann reið brott. Herra Guðmundr biskup, sem til hans koma svá sorglig tíðindi, harmar hann í sinni huggæði, at heilug kristni ferr svá stopalt, með hryggiligri hratan brott frá þess boðorðum, er hana leysti sinu blóði; því skrifar hann opit brèf, með röksemd ritninganna ok ráði vitrustu manna, í hverju hann býðr með biskupligu veldi, at Hólakirkja, margfalliga saurgut ok svívirð af bannsettum mönnum lífs ok dauðum, skal aptr strengjast ok allri þjónustugjörð af setjast, þar til drottinn lítr hana ok sendir henni miskun af sínum háleita himni. Sem þessur brèf koma fram ok upp lesast, er kirkjan læst fyrst í stað ok tjald reist til messusöngs utan kirkjugarðs, en litlu síðarr leiðist ræðismönnum þessi þögn kirkjunnar, ok því lokka þeir prestana til í fyrstu með undirhyggju, at segja þar tíðir messulausar, ok innan fárra daga kúga þeir til með harðindum, at þar gerist allt embætti. Harmanlig var þessi kristni, einir vóru þeir kennimenn, er lögðu sitt embætti með ótta guðs ok biskupsins, en aðrir fyrir mannliga hræzlu, eðr fluttu þat fyrir þeirra kúgan eðr eigina úhlýðni. Höfuðkirkja, allra móðir, sitr í sorg ok sút, sem útlæg frá sínum formanni, ok sumar dætr gráta með henni, en sumar gleyma hennar sýtiligum harmi; hverr lifði sem lysti, þviat ei var sá er um vandaði.

38. Virðuligr herra Guðmundr biskup, útlægr fyrir guðs rèttlæti, sat á næsta vetr í syðra biskupsdæmi með Snorra Sturlusyni, vel haldinn á þann sið sem þá var í landi. Herra Páll biskup sendir honum orð, ok býðr honum sinn kost meðan sem harðast lægi á úfriðar stormr, ok herra Guðmundr þakkar honum boð, en treystir eigi at þiggja, þvíat hans meingjörðamenn stóðu í kærri vináttu Páls biskups. Sem vetrinn er af liðinn staðfestir herra Guðmundr biskup með sèr ok sínu ráði, at venda heim af útlegð til kirkju sinnar, ef hans vegir tálmast eigi af úvina forsát, því fær Snorri honum ok hans fylgð norðr til sjófar, er Hrútafjörðr kallast, — þar mætast biskupsdæmi, — allan nógligan kost, ok skilja með blíðu. Herra biskup ræðr til skipa, ok hugsar at fara sjáveg alla leið norðr, til lægis þess, er heitir Kolbeinsáróss, ok næst liggr biskups stólnum, en þessi forhugsan gengr honum eigi fram, þvíat fyrr en hann kemr á skip eru þær frèttir norðan, at Arnórr ok Sigurðr taka með flokk

ok ferð hafnir allar á veginum, en hafa liðsdrátt á landi, ok ætla því liði at stefna móti biskupinum, þegar þeir vita glöggt hvar hann kemr fram. Fyrir þessi tíðindi skilr herra biskup, at allt er samt ok fyrr, vill ei leiða fá menn í forað, ok vendir ferð sinni til syðra biskupsdæmis, þar sem heitir Steingrímsfjörðr, þar fregn hann norðan frámferð prestanna, hversu þeir súngu í forboði, ok bönnuðum stöðum með náveru bannsettra manna, er alla illsku draga móti kirkjunni, sem fremst megu þeir afla; því gerir biskupinn brèf, fyrirbjóðandi þeim framleiðis, undir efstu banns viðrlögu, at fremja guðs embætti sèr til áfalls ok fyrdæmíngar. En er þessur brèf koma norðr, þykkir þeim harðna at eins, ok bregða þó undir sitt úráð, en verpa í vind biskupsins orð fyrir eigin vándskap ok illar fortölur, er þar eignat mikit af fyrnefndum múnk, bróður Gunnlaugi at Thyngeyrum; má þat ok trúligt þykkja fyrir þann forsligan hlut, er af honum segist, at svá sem hann hafði diktat novam historiam sancti Ambrosii, fór hann norðr til Hóla þann tíma sem biskup var heima, gekk fram í kór næsta kveld fyrir Festum Ambrosii, ok hefr upp at úspurðum biskupinum þat nýja dikt, er hann hafði saman borit; en er þat kemr fyrir herra Guðmund biskup, gengr hann fram í kór, ok fyrirbýðr honum undir forboðs pínu at leiða inn nökkura nýjúng orlofslausa í sína kirkju, segir miklu lofligra ok kirkjunni [makligra] þat kompon, er samdi blezaðr faðir Gregorius páfi i Roma. Lætr bróðir Gunnlaugr þá niðr falla, ok fèkk fyrir dirfð heyriligan kinnroða. Herra Guðmundr biskup, sem hann fær öngva náð í sínu biskupsdæmi, vitjar vini sína, er honum forðum öfluðust í kennimanns stèttnum, svá sem útlægr maðr, í nafni Jesu Christi; fyrir því hneigir hann i þær hálfur landsins syðra biskupsdæmis, er Vestfirðir heita. Taka Vestfirðingar hann sem fyrr, með allri bliðu ok manndóm, greiða ok góðvilja, af fremstum föngum; veitir ok guð þeim þegar stundliga þar í mót fagra rèttarbót, þvíat í þeirri ferð verða margir merkiligir hlutir fyrir guðs mann, þótt hèr greinist fár af mörgu, einkanliga hversu hann frjálsaði menn ok hèruð af því flagði eðr fjanda, er þeir nefndu Selkollu. En á hvern hátt þessi úhreinn andi kom til í fyrstu, eðr hversu hennar yfirgangr steyptist fyrir bæn ok blezan Guðmundar biskups, stendr hèr skrifat.

39. Svá berr til í þeirri hálfu, sem títt er, at á einum litlum bæ fæðir kona meybarn; eru skipaðir eptir skyldu karl

ok kona at bera barnit til sóknarkirkju, at þat taki skírn, ok er þau gera sinn veg fram með sjó, verðr fyrir þeim stór steinn, er menn kalla Miklastein, þar gera þau illmannliga dvöl, leggja niðr barnit undir steininn ok víkja annan veg til saurlífis, ok er þau koma aptr, sýnist þeim barnit blátt, dautt ok ferligt; hèr hugsa þau [við skiljast, ok ganga frá harla skamt[1], áðr þau heyra grát, ok sem þau aptr víkja, sýnist þeim barnit lifa, ok nú svá hræðiligt, at hvárki þora þau snerta nè nær koma, snúa heimleiðis ok segja þetta undr; síðan er leita farit barnsins, ok er í bröttu, ok litlu síðarr sýnist þar kona ein nýkomin í bygðina, stundum með venu áliti, en stundum með selshöfði, gekk þessi fjándi einn veg djarft á dag sem nátt, því var þessi miðdegis djöfull Selkolla nefndr í sveitinni.

40. Nú gengr svá til efnis í því hèraði, at bóndi sá, er á húsfrú vena heima í sínum bæ, stendr um dag at skipsmíð í nausti nökkuru nær sjó, at þar kemr til hans at úvöru sú kona, er þat lík er með áliti ok öllu látbragði, sem hún sè hans eigin kona; hún slær í fyrstu á leik nökkurn við hann bóndann, þar til hann leggr glenz í mót, en nákvæmir hana síðast með kjötligu verki, ok brátt eptir þetta verk birtist, fyrir umskiptiliga mynd úvinarins, hversu brögðuliga hann var blekktr; vill hann nú heim leita til bæjarins, en Selkolla verr honum veginn, svá at mæddr ok máttfarinn nær hann um síðir bænum; kennir hann þó sína heimamenn, en leggst í kör fyrir þá sótt, er svikligr fjandans prettr hafði unnit hans náttúru; má hann síðan öngva hafa, þvíat sami úhreinn andi sækir hann dag ok nátt með ákafa, þora engir menn at sæma með þvílíkri óhamíngju, nema einn dygðugr frendi hans, er liggr í hjá honum, þar til er Selkolla ræðr á þann of nátt, ok sprengir ór honum bæði augu; liggja þeir nú báðir sem hálfdauðir. Svá mikinn úgang hafði þessi fjandi á nætr ok daga, at gildir menn þorðu eigi at fara vega sinna, þvíat þar kom hún upp ór jörðunni, sem sízt varði. Stendr þessi sút með svá miklu áfalli, sem herra Sturla váttar, er þessa sögu samsetti, at sumir lágu blindir, sumir beinbrotnir, aðrir með öllu dauðir, svá at öll sú hèraðsbygð var uppnæm til auðnar áðr læknir kom. En þó at þessi úvin sveimaði víða um bygðina, þóttist hún heimili eiga hjá þeim

1) [396; ganga fr. h. sk. ok ætla við sk., Hd.

bónda, [er svikizt hafði[1] með hans háðuligt samband. Því var [sá] aumi bær allr ruglaðr með hrygð ok fjandaligum yfirgang, svá at þar var engi ró, heldr vá ok vesuld síð ok árla.

41. Nú er at segja frá ferðum Guðmundar biskups, at í meðal annarra góðra manna bjóða honum heim tveir skilríkir bændr, var fólk margt með herra biskupi, bæði frjálst ok fátækt, en hallæri mikit í þeim hèruðum, ok torfengr kostr til mannfæðu. Sá bóndinn, er fyrr tekr með honum, slær niðr xx geldínga fyrir fátæka menn biskups, dvelst hann þar tvær nætr ok líkar allvel. Bóndi biðr, áðr hann ríðr í bröt, at hann vígi honum brunn, vildi ek, segir hann, at þat yrði með öllu heilagt vatn. Herra biskup svarar: sá er helgar alla hluti stjórnar því, hversu heilagt þat verðr, en bleza skal ek brunninn þinn sem ek kann. Síðan vígir hann brunninn, ok er þat vatn svá mikillar blezanar, at margfaldar heilsubætr gerast af. Ór þeim sama brunni var flutt vatn í línhúfu yfir þveran Steingrímsfjörð, sýndist hún utan sem svell meðan hún hèlt, en þurt lín er ór var látið. Hèðan ferr biskup í annat heimboð; gerir sá bóndi líkt hinum fyrra, leggr niðr xx geldínga fyrir fátæka menn, ok er kjötin eru upp gengin, dregr á gleði biskupsins með nökkurri fæð. Bóndi finnr þat brátt, ok talar svá: herra minn, segir hann, hvat er þat í mínu valdi, er yðr þykkir at skorta? Herra biskup svarar: heyrðist mèr rètt, at þú gæfir fátækum xx geldínga? Já, minn herra, segir hann. Biskup svarar: þarf hann nökkut hinn fátæki bæði á fót ok líkam. — Bóndi finnr nú hvar ferr, at hann hefir kippt geldínga gærunum í sína eign, en veitt kjötin slætt; [því svarar hann svá til:[2] ek víl gjarna svá hafa gefit, sem yðr líkar betr; lætr síðan gærurnar til; skiptir biskup þeim með ölmusumönnum, ok er þá kátr sem áðr. Í herbergjum þessa bónda var sá kvennkrypíngr, at knèin þrön[g]ðu brjóstið með föllnum sárum. Hèr um biðr bóndinn, at biskupinn muni líkna svá auman líkam. Biskup svarar: gjarna skal ek biðja drottinn minn ok hans sæla móður, at þau miskunni; legg ek þat til í fyrstu, at þèr berit hana í sæng mína, sem ek geng til óttusöngs í nótt. Um morguninn eptir, sem þetta var áðr gjört, segir hann sjálfr messu, ok býðr at kryplínginn skuli leggja niðr á gólfit hægra veg altaris í því sama officio, þar sem hann dæmir heyriligast, blezar [hann] þrysvar[3] yfir kryplínginn.

1) [b. v. 396. 2) [b. v. 396. 3) 396; þrisvar, Hd.

En þann tíma eptir messuna, sem hann hefir tekit ablucionem calicis, vætir hann krepta limu með því vatni, ok guðs krapti tilkomanda rèttast bjúgir limir svá, at hverr þjónar þægiligri skipan sinnar náttúru. Lifði sú kona lengi síðan, ok bar á brjósti æfinlig ör, er váttuðu hversu stórmerkisfullt verkit var fyrir guði ok mönnum.

42. Þessir tveir menn, er greindir vóru, ok fleiri bygðarlýðr, tjá mjúkliga herra Guðmundi hverr ágangr ok illska þröngði þann auma lýð með falsi fjandans, er næst bjó bygðum Selkollu; þar með biðja þeir hans ágætt faðerni, at hann muni til fara ok álíta með sinni list, at þessi úhreinn andi mætti firrast. Hann svarar: þessi er mikil bæn, ok langt yfir mitt megn, at þreyta við helvízkt vald, þat er svá ofrar sèr með sterkum yfirgang; en [þó] sigrar hans mildi eptir vana, [ok ferðast[2] sem beðit var; vóru flestir þangat ófúsari en til boðinna brúðlaupa. Fram kemr hann til þess bæjar, er úvinar máttr ok megin átti heima. Því var líkt sem allt þat hús veri grafit í dupt ok hárklæði með sorg ok sótt úbærra vesalda. Hèr tekr herra biskup gistíng, þótt ei væri glatt í móti gengit; var forbeini lèttr um kveldit, þvíat sumir heimamenn lágu, en sumir litlu betr. Herra biskup býðr, at sæing hans sè gjör í stofunni á hægra veg dyra, segir, at þar skal allt fólk hjá honum inni vera um nóttina. Herra biskup blezar þá menn, er í lágu stofunni, gengr síðan til sængr, ok sezt niðr í rúmit ok ætlar af klæðast. En með því at þjónustumenn vangeyma at draga af honum skóklæðin, sèr herra biskup, at kona skýzt fram at óvöru ok gengr úboðin í þjónustu, lætr sèr ei feilast, ok dregr af hosuna. Hann kennir hver komin var, þrífr af henni hosuna með afli, ok keyrir um höfuðit með þessum orðum: far niðr, fjandi, ok gakk ei framarr! — Ok svá varð, at Selkolla þorir eigi til þrautar at leggja við biskup. Flestir sváfu laust ok lítið í stofunni, en biskup vakir lengst á bænum þá nótt. Á myrgininn lætr biskup gera vj krossa með trè ok einn stóran, svá at fáir hafnarkrossar eru stærri; síðan hefr hann sína ferð til þess altarishúss, er nálægast var í bygðinni, hefir með sèr alla vj krossana, ok í veginum, sem þeir fram koma at einum læk, sjá ófreskir menn, at þar stendr Selkolla ok býst enn til bragða. Þessa sýn óttast bæði menn ok hestar. Herra biskup sèr ok hvar Selkolla stendr, víkr djarfliga at fram

1) 2) [b. v. 396.

at henni ok gerir kross með sinni blezaðri hendi. Eptir hann gjörvan talar hann svá: sökk nú, fjándinn, ok kom aldri siðan upp í þessum landsfjórðúngi, en ef þú biðr þess, er ek steypi þèr þriðja sinni!, skaltu sjálft undirdjúpit finna. Selkolla sökk við þetta boð. Sem herra Guðmundr kemr fram til kirkjunnar, segir hann fyrst sjálfr altarismessu, en vígir síðan krossana alla, ok vatn þvísa næst í einu keri; síðan lætr hann setja uppreista krossana í kerit, ok væta alla með vatni, en þat vatnit, sem áðr vígðist ok nú flaut af krossunum, býðr hann dreifast syðra veg upp á kirkjuþekjuna[1], segist þess vænta, at af því grasi er þar vex muni menn fá lètta meina sinna, biðr menn ok þat varast, þótt húsit verði þakt með nýju, at æ nökkuð fyrra samblandist í þekjuna, segir ef svá er gjört, at ei mun grasrótin tapa sinni náttúru ok dygð. Prófaðist þetta síðan sem hann fyrir sagði, ok brátt mun lesast með einu vitni. En nú fyrst eptir svá gjört, er greinanda, at hann snýr aptr í veg, ok sem hann kemr til bekkjarins þar er Selkolla sökk, býðr hann í þeim sama stað niðr skipast þann stærsta krossinn, ok aðra iiij setr hann í fjórar höfuðættir umbergis bæinn, ok fimmta uppi á stofuþekjunni, þar skíðlægt yfir, sem Selkolla hafði niðr leitað undan hosunni. Síðan huggar hann þat auma fólk, segist þess vænta, at ei muni Selkolla þar ganga um sýslur [frá] þeim degi. Sjúka bónda býðr hann þat, at hann láti flytja sik til sóknarkirkju sinnar, segir, at hann mun þá eigi langa kröm bera. Þetta fór enn svá; hann lèt flytja sik ok andaðist innan fárra nátta; fluttu forsýnir menn, at í hans graftar stund stóð skelmir fyrir utan kirkjugarð ok treystist eigi nær koma, sakir þeirrar blezanar til fararleyfis[1], er maðrinn hafði þegit af herra Guðmundi biskupi, en frændi bóndans, er augna sprenginn fèkk, var steinblindr á alla sína daga.

43. Litlu síðarr koma þeir menn á fund herra Guðmundar biskups, er ráðit hafa sína skipferð norðr yfir þann fjörð eðr flóa, [sem liggr] meðal nerðra biskupsdæmis. Þeir ganga til herra Guðmundar ok biðja blezanar til fararleyfis. Herra biskup blezar þeim ok talar svá: farit vel, synir, verit varir, ok signit yðr kristiliga, þvíat við brögðóttan er at beita. Þeir koma til skips, ok ýta lítið undan landi, áðr í kemr skipit svá mikill ofrþúngi úsýniligr, at skipit er með öllu kafhlaðit. Þeir litast

1) bæna, 396.

um þetta undr ok sjá öngva nýlundu, utan sýnist sem ein stór ok svört beinknúta liggi aptr í skutinn. Hraðr var byrr, en mjök bárstórt ok lítið borð við báru[1], því lystir þá at vinna kyrt, ok verðr ei út kastað knútunni; halda þeir inn á Miðfjörð, er fyrr var nefndr, ok taka land með höldnu. En þann tíma sem skipit kennir grunn, kastar einn kumpána knútunni fyrir borð, veltist [hún] með varpi sjófarins upp í flæðarmál, sèr þá skygn maðr, at þar ríss upp Selkolla ok gengr á land. Sè hèr dýrðligan verðleik, er flóttrak helvízkan anda ok fjötraði jafnfram, svá at hann mátti kristnum mönnum ei granda. Man þat enginn aldr síðan, at hún hafi sèzt eða meinat í Vestfjörðum. Síðan er hún ór sögunni. En nú skal enn aptr víkja ok sjá, hvat herra Guðmundr biskup veitti Vestfirðíngum fyrir þau grös ok heilagan kross, er hann leifði þeim í elskumark fyrir margan greiða ok góðvilja, er þeir gjörðu honum bæði fyrr ok síðarr. Ok þó at þessi lutr hafi síðarr gjörzt en hann fór til guðs, ritast hann í þessum stað tilheyrandi fyrra efni. Eptir Selkollu sögu kvað Einarr Gilsson xx vísur ok eina, ok er þetta upphaf á:

Askr fór els ok Röskva
ósvinn dalar tvinna,
grands var gaurr[2] af stundu
gjarn, með heiðnu barni:
lögðu jóð, en ugðu
öngva grein, hjá steiní
beint meðan [börðust punti[3]
baugrein ok Týr fleina.

2. Hugðust barn, áðr bægði
brynjumeið, ok reiði,
girndar úhreinn andi
undrgjarn, taka mundu:
sýndist fljóð en fundu
fláræðin þau bæði,
illiligt með öllu,
ofgrand af tál fjanda.

3. Gengu þar frá þínga,
þjóð frètti slíkt, jóði

1) báru stórt, Hd. 2) 396; gautr, Hd. 3) [bárust pinu, 396.

Baldr ok[1] Bölverks köldu
baugarein[2] und steini;
þar gekk síðan sökkva
svört Gneip viðum björtum,
sýndist selr i enda,
sannfrètt er þat[3], annan.
4. Dálkr rèð fyrri fólki,
furðu tiðr á smíðar,
ei var auðar bægir
ólmr, at Lægishólmi[4]:
kemr i hús, en hamra
hlyns olli þat kynjum,
Gríðr við [grimdar æði[5]
gjósorð um dag ljósan.
5. Lagðist Laufa brigðir
ljóða hvass með skassi,
brúns lèzt beðju sína
broddspennir þar kenna;
sótti síðan rètti[6]
seims Gestilja[7] heima
æst, svá at ýtir misti
undfleins þegar greina.
6. Sat yfir sjúkum veiti,
svall móðr, daga alla,
þundi þorna randa,
þorgísl, er fèkk píslir;
sprúngu á hreyti hrínga
hyrflæðar þeim bæði
sjónarberg af sorgum,
Selkolla því olli.
7. Svá lèt Gýgr fyrir Gautum
grimm hanga-Týs rimmu,
ferð var af Hálu harðri
hremd, farvegu stemda:
víst at varla treystist

1) á, 396 (rangt). 2) beðjarein, 396 (rangt).
3) sannfrið vera, 396 (rangt). 4) = Hafnarhólmi i Steingrímsfirði.
5) [getg.; grundar fæði, Hd; til grimdar fæðis, 396.
6) reitti, 396. 7) gestþilja, 396.

væn drótt slegin ótta
riða rèttar leiðir
raunfast af Bil hrauna.
8. Báðu biskup síðan
bálregns viðir[1] gegnir
hjaldrs, at hann hjálpa skyldi
hugrakkr fírum nakkvat;
fór til Hólms, er heyrði
hörmúng[2] um lið þúnga
leika sjófar sæki[3]
snjallr manndáða allra.
9. Inn kom leygs þar er lágu
lægis vörðr með hörðum,
trautt munu, tálum settir,
tveir veslíngar, meiri;
blindr var, gæðir[4] grandi
geirþíngs í píníngu
vinds[5] en vitlauss annarr
valdr fjöldrifins skjaldar[6].
10. Vitr[7] nam biskup breyta
bálflæðar skóklæðum,
hosu dró harðla lausa
hönd ein af Guðmundi;
þá kom inn hin auma
Ámgerðr við lit sáman,
hugðist Greip[8] at grípa
ginljót um kjöl[9] fótar.
11. Vitr sá Leirvör ljóta
lands höfðíngi standa
örr ok ei sèr fjarri
áðr guðligra ráða,
en þollr af frægð fullri
fríðr blezaði víðis
glóða, glatt varð lýðum,
greypt flagð í jörð steyptist.

1) viðar, 396. 2) hörmúngs, 396. 3) sækir, 396.
4) 396; græðir, Hd. 5) vinnz, 396. 6) fjöldrifinn skjalda, 396.
7) votr, 396. 8) gneip, 396. 9) skjól, 396.

12. Þar lá nól sá er nærði
njótr allmarga brjóta
sægs, þá er sjúkir lágu,
sindrs benloga vindar;
dagr kom, djöfla sigrir
dáðmildr ok þá vildi
glaðr yfir Gauta friða
Góins skers hafa messu.

13. Ætla á Hamar, þvíat, humra
hyrbíðendr friðir,
þar stóð, bíngs, hit blíða
bænhús, með sið vænan;
satt var at mönnum mætti
meinvættr hjá bekk einum,
bægði sára sigða
Selkolla mjök þollum.

14. Sæll nam sökkva trölli
söngs meistari ströngu
harðr með helgum orðum
hellis grams við mellu;
varð aldregi virðum,
víðfrægt er þat síðan,
mein at Mörnar sjónum,
móð lètti svá þjóðar.

15, Ráð- söng messu meiðum,
mitru gramr at Hamri,
-víss ok vígði krossa
vel fimm Kjalars rimmu;
settu sólar drottins
seims verkendr merki
eitt þar er Áma knátti
alklökk í jörð sökkva.

16. En fjóra lèt færa
furðu jafn til Hafnar-
skreytir-hólms í heitum
hyrfoss þegar krossa;
Dálkr fèkk, dróttir klökkvar,
dáðlistanda, mistu,

skyn fyrir blíðar bænir
böls græðara, mæði.
17. Fóru frægir árar
fleinþeyrs á byrhreini,
sveit hafði þar sóta
svanbekks hlaðit ekki;
kemr á heiðar humra
hest óþokkuð flestum,
þat var hrossknúta heitin,
hræseiðs frömum meiðum.
18. Bátr seig, borð var lítið,
brast súgr um lið drjúgan,
salt þó húfi hèltum,
hrönn fèll í knè mönnum:
áðr hreytendr hètu,
húm lá salt[1] í rúmum,
at Guðmundr grandi,
Góins stèttar, þeim lètti.
19. Borð flutu, byrr kom Njörðum
blíðr Sköfnúnga hríðar,
sjór lèk stafn ok stýri,
stirð inn at Miðfirði,
þar lèt kastað knútu
kát ferð á höfn verða,
hafa sónviðir sèna[2]
Selkollu þá heljar[3].
20. Barðs hefir aldri orðit
angr at Hálu gangi
síðan Svölnis beðju
sár[4] eyðendum reyðar,
svá nam hildíngs himna
hvatr þjónandi ljónum,
lýðr fèkk miskunn mikla
margr, fagrliga bjarga.
21. Eigi verðr í orðum,
öld sannar þat, manna

---

1) svalt, 396. 2) seima, 396. 3) 396; þolla, Hd.
4) sárt, 396.

tínt þat er happa henti[1],
heiðrs, vinnanda svinnan,
þvíat verk, sem drótt dýrkar
dáðvaldanda aldar,
rètt [er at[2] rausnir vátta,
ranns, ferr hvert á annat[3].

44. Smalamaðr var einn trúlítill ok úskynsamr, hann hljóp til fjár um morna, svá at hann signdi sik varla, ok fyrirlèt kirkjuna. Hann var á þeim bæ, er herra Guðmundr vígði krossana ok grösin vaxa. Nú gengr svá til einn morgin, sem hann hefir heim rekit fè ok er mæddr af hlaupi, at hann fleygir sèr niðr at læk, ok drekkr þegar ósigndr sem eitt kvikvendi. En eptir þann drykk setr honum upp stór óp, sem gellr í, segir þar með, at sá úvinrinn, er hann gleypti af læknum, rífr ok ruggar öll hans iðr. Nú er runnit sem hvatast eptir at taka gras þat, er herra Guðmundr vígði, af kirkjunni, ok ei seinna en þat kemr í hans kvið fær hann svá harðan kreppíng, at með fossfalli skýzt fram af hans munni þat eitrfulla lif, er hann svalg, mjótt ok svart með snörpum tindum, svá fljótt ok frátt, at þegar [tók] á rás aptr í lækinn; liggr maðrinn sem í dái svá langan tíma, sem vánligt var at grasit móaðist[4] með honum eptir náttúru. Eptir þat liðit æpir hann í sinn annat með ógurligum tannagníst ok svá föllnum orðum: nú er úvinrinn aptr kominn at drepa mik, ok litlu síðarr deyr hann.. Var hèr sýndr verðleikr herra Guðmundar á þann hátt, sem virðuligs vinar hans Ambrosii, þá er óðr maðr var leiddr í veg at græðast af honum, fyrirlèt úvinrinn á miðri götu sitt herbergi, en tók þat aptr í sama stað til sín, sem maðrinn fór ór augliti Ambrosii. Birtist fyrir þetta, at tign heilagra manna má eigi draga syndugan mann undan leyndum ok endaligum guðs dómi, þótt þeirra kærleikr birtist í fyrra stað fyrir augum heilagrar kristni. Þat er segjanda af þeim stóra krossi, er við lækinn stendr, at um langan tíma var þangat eigi minni sókn en til þeirrar kirkju, er herra páfans vald hefir til syndalausnar, því at þetta signaða mark flaut í jartegnum, sem herra Guðmundr sagði fyrir þá er krossinn var niðr settr. Fyrir honum brunnu log, sem i húsi, þótt hagl ok hreggviðri væri úti; svá var hann klofinn,

1) 396; hentir, Hd. 2) [ok, 396. 3) annan, 396.
4) þann. 396; mæddiz, Hd.

telgdr ok skoraðr af pílagrímum sínum, at um síðir var náliga bröttu bæði hendr ok höfut, þvíat einn ok annarr vildi bera spón með sèr til heilsubótar mönnum ok fènaði; ok sem krossinn er svá fallinn, berr svá til í nálægu hèraði, at einn sjá maðr sviptist þeirri hamíngju, sem honum hafði lengi veizt. Hann var klókr skyti, ok hinn mesti veiðimaðr til allra sjáfanga; hafði hann með þeim listum jafnliga flutt allt sitt fólk. þessi öll framferð fyrirlætr hann nú, vefst honum allt ok veltr í öreign. Hann snýr sèr nú til áheita við guð ok heilaga menn, ok stendr it sama, þar til at hann treystir nefnilig[a] á Guðmund Hólabiskup; ok litlu síðarr birtist honum í svefni sá guðs maðr ok talar svá: þat skal vera skilorð með okkr, at ek skal þiggja fyrir þína hönd fengsemi þá alla, er þú hafðir forðum, en þú skalt semja kross minn, þvíat þú ert hagr vel; seg þat ok sóknarmönnum, at ek vil ei láta lýta krossinn síðan þú skilr við. þetta gekk sömu leið, hann samdi kross, ok var saminn til fèfanga framarr en fyrr; var ok sá hinn heilagi kross minnr skoraðr en áðr, þótt hann sè nokkuð snortinn jafnan fyrir elsku sakir, stendr hann enn í sama stað með sínum blóma, veitanda várum herra Jesú Christo, er lifir blezaðr í veraldir. amen.

45. Fyrr í sögunni var sagt höfðíngjaskipti í Niðarósi, at Eiríkr fèll frá en herra þórir kom til; segja sumar bækr, at Eiríkr gæfi lifandi upp erkibiskupsdóminn, fyrir þat tilfelli er hann varð sjónlauss. þórir var þenna tíma kórsbróðir austr í Vík, býðr erkibiskup honum à sinn fund ok leynir eyrindum þar til þeir finnast; en síðan birtir hann sinn vilja, at sira þórir kjósist af kórsbræðrum til erkibiskups með samþykki Hákonar konúngs; gengr svá fram, at herra þórir ferr ór landi ok þiggr pallium af fyrrnefndum Innocentio páfa tertio, ok kemr heim ári síðarr. Herra þórir var ríkr maðr, vitr ok vinsæll; hann heyrir af Íslandsförum hversu sáran sjúkdóm heilug kristni þolir á Íslandi, einkanliga norðanlands; höfuð hennar, sjálfr biskupinn, er keyrðr í útlegð, en brúðr hans, heilug Hólakirkja með sínum rèttarbótum, liggr sem herfengin ambátt í tárligum trega undir bannsettra manna drottnan, svívirð ok saurguð utan ok innan með þeirra meinligri nákvæmd, svá at hún fær eigi augum upp litið til gleði fyrir því brígzli ok háðúng, sem henni veitist á nátt ok dag. Prestar hennar

ok klerkar eru slegnir af sem sauðir, ok aðrir hennar synir svá nær henni drepnir, at þeirra dreyri stökkr á hennar möttul, ok ei því síðr þolir hún úgræddum angri allar sínar meingjörðir. Hèðan[1] hugleiðir erkibiskup sem góðr hirðir, [hversu þesskyndis[2] fóttroð ok fyrirlitníng heilagra guðs laga var almúgnum opið efni tjóns ok tapanar, síðan sá fannst varla, at gæfi leyndar áminníngar guðs vegar, en sá með öllu engi, er legði opínbert á við með hirtíng laganna, ok þótt hann sjái ofsóknar grein verða útlægum biskupinum til krúnu, skilr hann, at flestum verðr til bótlausrar pínu. Nú þótt hann sjái brotin svá stór, at vert sè sterkrar pínu, vill hann fyrri prófa, sakir guðhræzlu, ef hann fær linat sem friðsamr læknir svá þrjózkufullum þrota vándra manna; því skrifar hann brèf til Arnórs ok Sigurðar með hógværri ávítan ok föðurligum áminníngum, at þeir lægi sinn ofmetnað, ok mýkist til friðar við heilaga Hólakirkju ok hennar formann, herra Guðmund biskup, bæti svá yfir afbrotin, at þeir styrki kristinndóminn ok veri hans rètt fyrir ranglátum, ok verði svá makligir at kallast ok vera kirkjunnar synir. Þessor erkibiskups brèf koma til Íslands á því sumri, sem herra Guðmundr ferr yfir Vestfjörðu ok vinnr yfir úvin, sem fyrr er skrifat; gera þeir Arnórr ok Sigurðr svá mikinn rètt erkibiskups ok hans heilræðum, at herra Guðmundr biskup var í útlægð vetr annan sem fátækr maðr; sat hann þá í Steingrímsfirði með vinum sínum, þvíat ei þurfti frið at nefna ef hann fór í sjálfs síns biskupsdæmi. Þenna vetr andaðist Páll biskup í Skálholti, verðr þá fyrrnefndr Magnús Gizurarson næstr biskup Skalholtensis.

46. Liðnum tveim vetrum útlegðar herra Guðmundar tendrast upp nökkurir menn góðfúsir beggja biskupsdæma, at leita til ef friðr mætti formerast millum hans ok mótgangsmanna; kemr svá með góðra manna tillögum ok bænarorðum, at fundr er laginn með herra biskupi ok Arnóri; verðr þat bezta boð Arnórs til friðar á þeim fundi við biskup, at Guðmundr biskup skal fá orlof at sækja undir hans handlegg heim til Hóla, ok stjórna kirkju sinni ok klerkum, en Arnórr vill hafa ræði öll nú sem fyrrum yfir gózi ok mönnum, en þvíat vinum biskups sýnist þetta boð hvorki glaðvert nè góðrar trúar, kann biskup því eigi játta, ok sakir þess, at æðra frelsi kirkjunnar[3] var forliga nítt, skilja þeir svá fundinn, at ei stóð betr en

[1]) Hèr hèðan, Hd. [2]) 396; [þatkyndis, Hd. [3]) kirkinar, Hd.

fyrr. Reið herra Guðmundr biskup vestan er á leið sumarit allt it efra fjallveg með tíunda mann, kom ofan í Eyjafjörð, ok um síðir á þann búgarð, er sitr formaðr héraðsins, er Hallr hèt, hann hafði forðum samnetjazt Sigurði í vanvirðu klaustrsins ok prestsins höfuðmund, sem fyrr var ritað, en er nú í góðri vináttu biskupsins með herra biskupi, ok því gengr hann í mót honum vel ok býðr honum með sèr. Herra biskup hefir í ráði at fara í sýslu sína; en þegar Arnórr fregn þat, dregr hann lið saman ok ætlar í mót biskupi ef byrjar yfirferð. En er Hallr spyrr þetta dregr hann lið saman í annan stað, ok hugsar at veita biskupi; finnast þeir með fylktu liði, en skilja svá með góðra manna tilstilli, at menn eru úska[d]dir, en einn veg ok áðr missáttir. Hallr var drepinn næsta vetr eptir, var þat kennt kaldum ráðum Sighvats Sturlusonar, hafði hann tvær sakir, þá aðra, at hann var formaðr í Eyjafirði, þvíat Sighvatr vildi hans rúm, en þá aðra, at hann fylgði Guðmundi biskupi, ok þann arf vildi Sighvatr eigi taka eptir Hall með formannsskapnum; bjó hann síðan í Eyjafirði. Ferr herra Guðmundr biskup norðr á hèruð um sumarit, ok dvelst þar lengi, lætr messur flytja í tjöldum, en því eigi í kirkjum, at móðurhúsit, heilug Hólakirkja, var enn í sút ok saurgan. Þetta sama sumar koma út önnur brèf herra Þóris erkibiskups, bæði til herra Guðmundar biskups skrifuð ok þeirra, er svívirðu kirkjuna. Skriptum til herra biskups hefir þann skilning endaligan, at hann kallast á fund erkibiskups at svara fyrir kirkjuna jafnfram sínum mótstöðumönnum, er stefndir vóru, til lögligrar umbótar, at friðr mætti formerast kirkjunni ok klerkunum til stöðugra náða. Stefnubrèf þeirra kumpána annan veg hefir upp brotið þvílíkan skilníng.

47. Þórir meðr guðs miskunn erkibiskup í Niðarósi sendir Arnóri Tumasyni, Sigurði Ormssyni, Þorvaldi Gizurarsyni, Snorra Sturlusyni ok öðrum þeim sem formenn eru kirkjunnar meingjörða norðanlands, þá kveðju, at hneigja frá illu ok gera gott. Sú hörmúngar framferð, er af yðr flyzt fyrir sannorða menn, angrar hjarta várt ok áeggjar, at vèr hefim með hrygðar orðum heilræði vár til yðvar, því at svá sem postulinn lærir at hafa glaum með góðum mönnum, svá erum vèr skyldugir af hirðiligri sampíníng at sýta með sýtöndum, en sakir þess, at frægðin flytr oss eigi fagnaðar efni eyrum várum, þat er yðr heyrir til, grætr mær ok móðir almennilig kristni, ok vèr með móður

várri af þeirri grimd ok ágang, er þèr gerit henni ok hennar formönnum með berri úhlýðni við æzta hirði, er svá talaði til postulanna ok þeirra lögligra leytismanna: hverr er yðr heyrír, heyrir mik, ok hverr yðr hafnar, hafnar mik. Þessi várs drottins orð, postulum gefin í fyrstu, líða fram til vár, er skipumst, þótt úverðugir, fyrir erfð ok hjörð almáttigs guðs, þvíat vèr segjumst þeirra synir, sem próphetinn váttar, ef vèr veitum guðs kristni þá kenníng, er þeir seldu oss, ok tökum líka ömbun sem þeir tóku, ef vèr líkjumst þeim í ástundan ok einörð guðspjalligra boðorða, en ef vèr föllum í letisvefn leigumannsins með hirðuleysu hjarðarinnar, töpum vèr hirðis nafni ok kynferði postulanna, þar með oss sjálfa ok sálir várra undirmanna, er vèr ættim at lífga með allri kunnastu, þvíat þenna ávinníng krefr hæsti konúngr framarr öllum fjárhlut af várri ármenníng; því stæði yðr vel at virða, hversu vèr skyldumst af striðu laganna, at boða glæpi várra undirmanna, þvíat ef vèr vanrækjum þeirra líf, er þat várr dauði. Nú þótt vèr hnöggvim ok gangim verr en vera skyldi, er í mót öllum setníngum ok sjálfum náttúrulögunum, at limr af dæmi höfuðit sinni sæmd, hvat undrandi dirfðar vær heyrum með yðr gerast, at þèr hafit dæmt til útlegðar föður yðvarn, en elskuligan bróður várn, herra Guðmund Hólabiskup, en hversu yðvart rasanda fors er lögunum fjarlægt, lýsist í þeim orðum, at yfir biskupinn er einkis manns dómr á jarðríki utan herra páfans ok várr af hans álfu. Hèr fyrir veri yðr hugleiðanda, þó síðla sè, í hversu hátt forað ok greypiligan glæp þèr hafit steypt yðrum sálum fyrir biskupsins útlegðardóm, presta dráp ok klerka, ok fleiri annarra undir kirkjunnar vernd. Fyrir þessar úhæfur ok aðrar hèr úgreindar at sinni, er þèr hafit í fallit í svá fordæmliga guðs reiði, at yðr má engi leysa eða upp reisa utan herra pávinn. Vèr höfum prófat at lina þessi mein með áminníngar orðum ok verpst í vind, þvíat vandræði vaxa, ok gróðsamlig orð gera[1] með yðr ekki frjó. Skiljum vèr at þat leiðir af langri úlýzku ok ofbeldisfullum illvilja yðvars landsskapar. Nú sakir þess, at vèr höfum leitað hver upprás gangi ríkast svá vándra vesälda fleiri en framlútr yðvarr illvili mót kirkjunni, flyzt oss þar af nökkuð ýmisligt. Sjám vèr eigi annat líkara kristni guðs til náða, en allr yðvarr áskilnaðr, af hvorra tveggju

[1]) geta, 396.

hálfu, komi fyrir oss; því bjóðum vèr yðr öllum fyrrnefndum af því guðs valdi sem vèr höldum, syndum yðrum til lausnar, kirkjunni til frelsis ok öllum landslýð til eiginligs friðar, at þèr komit á várn fund forfallalaust sem fyrst megi þèr, síðan skip ganga; ok sakir þess, at vèr höfum kallat biskupinn eigi síðr, bjóðum vèr þèr, Arnórr, undir banns viðrlögu, at þú veitir biskupinum liðugan gang til stóls síns, þar með allan kost á kirkjunnar náð. Svá viljum vèr ok bjóðum undir sömu stríðu, at hann ok hans föruneyti hafi svá sæmiligan kost af kirkjunni fram ok aptr með hennar eyrindi, at hann megi vel fara hvar sem hann vill vera. Nú ef þèr þverist enu móti þessum várum veg, skulum vèr hug á leggja sem skyldan býðr at koma mót yðr; skipist þèr ok vel við, skyldumst vèr ok því framarr at gera yðrum málagreinum hvat gott er vèr megum, því at máttigr er guð at reisa sonu Habraháms upp af steinum.

48. Heyrðum boðskap erkibiskups linast Arnórr svá mikit, at nú verr hann eigi vápnum biskupsstólinn; náir nú biskupinn herra Guðmundr at sitja um vetrinn í þvílíkum friði sem verða mátti; var þá heilög Hólakirkja hreinsuð, ok þeir menn leystir er sættast vildu, ok biskupinn sá sik vald yfir hafa. Á næsta sumar býst hann til siglíngar, ok sitr til vj vikur eðr vij, verðr tysvar aptrreka, ok um síðir borinn sjúkr af skipi; kemr hann til Hóla heim nær vetrnóttum, ok sitr þá heima í góðum náðum, þvíat Arnórr Tumason kom eptir boði erkibiskups á því sama sumri til Noregs, er Guðmundr biskup varð aptrreka. Eigi greina bækr, at fleiri nefndarmenn hafi siglt en Arnórr ok Þorvaldr Gizurarson, kómu þeir báðir fyrri til erkibiskups en herra Guðmundr, var því hans greinum ok framferðum heldr vikit afvegar. Má þat ok vel skilja, hvenn hlut Kygri-Björn, er fyrr var nefndr, mundi þar í eiga, þvíat hann[1] var alla götu vin biskupsins óvina, fyrst Kolbeins Tumasonar, en síðan Sighvats Sturlusonar; er þat vísvitað, at Kygri-Björn fór til Noregs nær þessum tíma, ok þaðan út til Róms eigi miklu fyrir þíngit í Latran, er hèlt herra Innocentius tercius, sem greint var í hans kapitulo. Nú með flutníng ok fortölum þvílíkra, er svá vóru hallir í sínu fylgi, leiðist erkibiskupinn, kó[r]sbræðr ok þeirra klerkar, oflangt á þann veg, at heyra áleitni ok umlestr svá til herra Guðmundar, at náliga sýndist

1) þat, Hd.

han[s] málavöxtr fyrir drifinn á garðinum, því at flestar hans gjörðir vóru afþýddar ok hneigðar til vinstri handar, ölmusur hans til auðnar, vígslur til ofdirfðar, einörð til ákefðar ok úfriðar. Því trúist, at ei sè getið Arnórs ok Þorvalds til andsvara, sem herra Guðmundr biskup kom fram á erkibiskups garð ári síðarr, at þeir þættist unnit hafa fort yfir öll þau mál, at ei um aldr mundi herra Guðmundr viðrèttu fá þótt hann flytti sik án mótkast. En þar í mót fann herra Jesus Christus eitt ráð, at herra Guðmundr heyrðist ok hey[r]ðr tignaðist sem síðarr greinist. Herra Guðmundi biskupi byrjaði farsælt næsta sumar, ok kom til Niðaróss á fund erkibiskupsins, finnr hann brátt at hans mál hefir flutt verit á garðinum, þvíat erkibiskup var mjök úblíðr, svá at málaefnum herra Guðmundar nefndist engi dagr at sinni; sezt hann í bæ með klerkum sínum, ok gerir lítið um sik, þvíat hann heldr þeirri lund sem fyrr er skrifat, at hann er eigi mjök tillátssamr, ef honum er herða mun[r] boðinn. En svá bar til af rót vándra manna, at klerkar á garðinum setja biskupi kals nökkurn, ferr svá með þeim, at klerkar hafa kinnroða, en herra biskup sæmd með skilríki sinna greina, hvar af hèr stendr skrifaðr einn eventus, þótt menn hafi utan bækr fleiri frásagnir. Klerkar byrja svá orðræðu til biskupsins: er þat satt, herra Guðmundr, at þú orlofar tvímælt kjöt á föstudaga í biskupsdæmi þinu? — Þat neita ek þverliga, segir hann. Klerkar tala: hversu skipar þú, ef burðartíð várs herra stendr á föstudag? — Þèr talið ófróðliga, segir herra biskup, þvíat yðvart mál stendr allt ómöguligt. Hvar fyrir? segja þeir. — Þar fyrir, segir hann, at burðartíð várs herra gengr skipaða rás, ok stendr optsinnis á sètta dag viku, en aldri á föstudag. Klerkar tala: hvat gerir þú þá af föstunni, er þú ferr svá með? — Herra biskup svarar: hversu fari þèr með myrkr þá er skært ljós kemr inn? Klerkum verðr þá orðfall. Herra biskup segir þá: hvárt vili [þèr] sanna, at várr herra veri fæddr á drottinsdag eðr föstudag? — Þeir segjast þat hyggja, at hann veri fæddr á drottinsdag. Nú þá, segir herra Guðmundr, hvárt kalli [þèr] burðartíðina föstudag eða drottinsdag, píslardag eðr gleðidag? Þeir játtu því, at hann má sannliga heita gleði dagr ok fagnaðar. Herra biskup svarar: þá sýnist oss allt einn veg, þvíat svá sem myrkr flýr fyrir ljósi, svá flýr fasta fyrir dýrðarfullri hátíð várs herra Jesu Christi. Skildu þeir

svá talið, at klerkar vóru seinni at andstefna með biskup, þvíat þeir skildu hann eigi vanbúinn við andsvörum. Svá segist, sem út dregr móti jólunum um vetrinn, ok nálægist burðartíð guðs vinar Thorláks biskups Skalholtensis, gengr herra Guðmundr til herra erkibiskups, ok spyrr, ef hann vill orlofa, at hann sýngi sælum Þorláki eptir íslenzkum vana, en erkibiskup svarar heldr snart: þat lofast eigi, at þèr brjótið lög á oss hèr í Noregi, hversu sem þèr gerit, herra, á Íslandi. Herra Guðmundr svarar: eigi skal þess þá lengi biðja; skilja þeir þá talið. Snemma morgins Þorláksmessu gerir herra erkibiskup tvá klerka til þeirrar kirkju, er herra Guðmundr sýngr í, at prófa hvat hann hefst at; en er þeir koma aptr farandi, spyrr herra erkibiskup hversu Guðmundr biskup heldr boðskapinn. Þeir svöruðu: þar á yfir at standa yðvarr dómr, tíðagjörð er þar harðla sæmilig, með þeirri skipan sem hæfir hátíð allra heilagra. Herra erkibiskup svarar: vel má svá vera, þvíat eigi er hægt at lýta svá gert, mun þat herra Guðmundr ætla, at Þorlákr skuli fá sinn hlut úskerðan í tíðagjörð þessi; er þat eigi hvers manns, at finna þvílíkan útveg; má þat ok eigi mjök undra, þótt hann verði þeim roskinn í leik, er á Íslandi eru; vant er mann at lofa meðan lifir, en þat er mín hugsan, at Guðmundr þessi hafi fá menn sèr líka yfir mold, bæði til höfðíngsskapar ok mannkosta.

49. Svá bar til um várit, at vinnumenn á erkibiskups garði fara í mörk at fella við, en hiti mikill með erfiði; verðr þeim heitt, ok beiðir hvíldar, setjast niðr ok snerpa öxar sínar; lítr þá einn þeirra, at lýngormr hrökkvist á grasinu upp á stofninn hjá honum; hann slæmir til öxinni ok sníðr orminn miðjan, brýnir síðan sem áðr, ok gleymir, hvað hann hafði gert, ok sakir þess at vatn er fjarri, snerpir hann eggvölinn sem verða kann meðr túngu sinni, ok án dvöl hleypr eitr í túnguna, ok þar næst í andlitið með svá óberiligum blástr, at túngan, stirð sem stokkr, slær sèr út ór munninum; augun umsnúin, ok frá mannligri mynd; verðr nú ferligsta úlíkan; svá flytja lagsmenn hann heim í Kristskirkju, ok leggja niðr á einn kögur[1], fyrir þann kross várs herra er Hjálpin kallast. Er þá sagt herra erkibiskupi, hvat gerzt hefir; gengr hann til með

1) kogbr, 396.

bæn sinni, stundar langri, ok er allt sem áðr. Þá er gengit til herra Guðmundar biskups, með bæn, at hann muni vítja hins sjúka. Hann svarar: hvað muna ek sálugr þar í vinna, er svá dýrligr maðr erkibiskupinn gekk í, frá? — Þó, at margra bæn, ferr hann of síðir; stendr herra erkibiskup þar í hjá, ok vill sjá uppá hvað þessi guðs maðr tekr ráða. Í fyrstu sem hann til kemr, lyptir hann upp þá lètta hulníng, sem lagin var yfir þá aumu ásján; en er hann sèr, hversu guðs skepna er afmynduð sinni náttúru, andvarpar hann með ást við naúnginn. En eptir bæn gerva, spýtir hann sálifu í vinstra lófa, ok ríðr með henni hríng allt umbergis eitrblástrinn, en í hrínginum innan gerir hann kross; eptir þat dregr hann túngu sína þar allstaðar yfir, sem blástrinn var ákafastr undir; þar með les hann bænir sínar, blezar síðan hinn sjúka, ok gengr í frá. Hvað lengra? en þessi maðr varð alheill innan þriggja nátta, flagnaði öll ásjánan, ok bjart ok hreint hörund var undir með fullum bata í alla staði. Vann þetta ráð herra Jesu Christi, at herra erkibiskup blíðkaðist við herra Guðmund, ok vildi heyra þat er hans málagreinum tilheyrir, ok honum var til frama.

50. Sem sá dagr kemr, er herra erkibiskup vill skoða málavöxtu Guðmundar biskups, lætr hann kalla herra Guðmund til tals við sik ok byrjar svá ræðu með þvílíku efni. Vèr höfum veitt yðr, herra Guðmundr, litla blíðu hèr til, ei sakir illvilja, heldr fyrir þat, at oss hafa fluttar verit af yðr þær framferðir, at oss sýnast mót vera skrifaðum[1] lögum feðranna, en nú er svá vikinn várr hugr, at vèr viljum gjarna þeim greinum hlýða, er yðvarri sæmd megi til lèttis vera; ok nú fyrir hverjar skynsemdir þèr hafit gjört viljum vèr at þèr sýnit oss. Í fyrstu leitum vèr, hví þèr vígit fleirum vígslum í senn en skipað er, eða kirkjunnar vani sè til. Herra Guðmundr svarar: herra minn, gjarna skal ek svara yðrum spurníngum, sem guðs miskunn tjær mèr framast at skilja, en þat þykkist ek sèt hafa í ritníngum, at þröngvandi nauðsyn verðr lögum ríkari; mèr þótti nauðsyn inóg at prestar vígðist fljótara, sakir þess, at kristnin var þurfandi kennimanna ef nokkur guðs þjónusta skyldi flytjast norðanlands, sakir þeirra únáða, sem þar hafa um tíma yfirstaðit. Sumir prestar mínir ok klerkar

1) 396; skrifaðar, Hd.

vóru svívirðir ok únáðaðir, aðrír drepnir ok útlægðir; nokkurir prestar ok kennimenn stóðu í úvina flokki með opinberum vápnum mèr at móti, súngu messur í banni mínu, samneyttu bannsettum mönnum, ok veittu þeim allar nauðsynjar ok þjónustu, þótt ek fyrirbyða; þorða ek eigi, at þvílíkir fórnfærði í guðs musteri, læt ek þó marga hluti þá um líða í várum framferðum, sem stórir megu sýnast, ok þeim samir lítt at gera. Nú fyrir þessa grein lagða [ek] mitt mál upp á guðs náð, hverja várkynd hann dæmdi mér til slíkra verka, ok því vígða ek fljótara en ek vissa kirkjunnar lög til standa, sýnist mèr þat ok heldr með en mót í minni gjörð, er ritníngin segir: qui vivit in æternum, creavit omnia simul. Þvílíkar greinir hefir ek fyrir mér af þessu efni móti mínum úvinum; hygg ek ok þat, at þeir eiga enga sök á mèr of þetta, ok ei sè þeirra valds at únýta vígslur mínar, eðr dæma mík ok mína klerka sem úlærða menn ok illvirkja. Herra erkibiskup svarar: þótt svá væri, at þèr hefðit eigi lögliga fram farit, var þat berliga rangt, at þèr, eðr yðrar gjörðir, dæmdist af yðrum undirmönnum, gagnast oss ok vel hèr um yðvarr framburðr. En nú er at tala um aðra grein, er segist, at þèr sèt mjök vígslugjarnir at krisma vötn eðr fleiri skepnur, ok kalla þat síðan helga dóma. Herra Guðmundr svarar: svá mun yðr sýnast, at þat sè eigi greinarlaust at ek vígi vatn, en þó meira greinarmál, at ek leggi þeim helganar nafn, þvíat yðvarri vizku er vel kunnigt, at sá helgaði þau í sínni hèrvist, sem brunnr er allrar helganar, þá er hann steig niðr í Jórdan, ok heilagr andi í dúfu ásján krismaði vatnið sinni nákvæmd; spretta upp af þessu vatni æ síðan margar æðar ok ýmisligar rásir í gegnum jörðina, heilagri kirkju til nytsemdar andar ok líkama. Ok hvað er þá annat sannara, en allar keldur eru Jórdanar vatn? þvíat þær fyllast allar af einni upprás með guðs forsjá. — Ok í aðra grein, þótt várr herra hafi svá skipat sem hæfði, at ei skal skírn veitast sama manni meirr en um sinn í heilagri kirkju, veitir mildr drottinn andliga skírn fólki sínu með synda afþvátt í sama vatni Jórdanar, þá er þat renur um æðar líkamans at hjartanu, ok þaðan út af augunum, með svá mikilli fljótvirkt ok heilagleik, at sá er í morgin var grimmr guðs úvin, hann er í kveld hinn kærasti guðs ástvin. Í þriðja stað er merkjanda, hversu forkunnliga elsku lausnarinn lagði á þessa

skepnu, þá er hann valdi hana til upphafs sinna jartegna in Chana Galilee. Nú sakir þess, minn sæti herra, at ek fann í bókunum skrifað þesskyns embætti, ok þar með vissi ek efalaust, at lögligir menn höfðu framit fyrir mèr þetta verk, er brunna vígsla heitir, treystir ek þar með miskunn guðs með ritnínginni: non ad mensuram dat deus spiritum. Hèr með virðist tign almáttigs guðs at herða minn hug til þeirrar þjónustu, þvíat heilum mönnum varð í kærleik, en krönkum heilsubót. Herra erkibiskup talar þá: harðla venar greinir gefr guð fyrir yðvarn munn. En nú næst er þar til víkjanda, er flyzt, at þèr hafit ok yðvarr kennidómr þar jafnan nálægr verit, er orrustur heyjast með berum fólkvápnum, þvíat enginn tekr þurr í tjörn. Herra Guðmundr svarar: nú þykkist ek skilja, herra, hversu flutníngr hefir farit, efni ok ásýn míns lýtis hafa tjáð verit, en várkynd með skynsemdum hefir niðri legit; nær var ek hjá orrustum nema nauðigr, svá til dæmis, sem herfenginn maðr ok fjötraðr? — ek leitaði at flýja ok firrast ei seinna brott af mínu biskupsdæmi en aðra vegu undan stríði ok baráttu, en þar er mèr ok mínu fólki váru forsátir veittar svá sterkar, at ei skyldi vegrinn rýmast án orrustu, varð ek þar at vera, þótt mèr þætti illt bæði fyrir mik ok aðra; mínir menn saklausir skyldu falla úhelgir ok urðgræfir, sem þeir er sækjast til fullra sekta fyrir fordæðuskap undir landslögum, en þeir er lífinu hèldu höfðu enga hvíld eðr hjálp, nema fylgja mèr, þvíat eigi seinna en ek viki þeim bröt, var úti þeirra blóð. Einn var vegr, at ek hefða mátt forðast um stundar sakir orrustur minna úvina, þegja ok þola glæpi þeirra með fors ok fóttroð kirkjunnar laga, at svá væri sóttr ok særðr lærðr sem úlærðr, ok var þó mjök óvíst hvert friðkaup veizt hefði síðan úeinörð var útlagin, þvíat þessa heims líf er allt ófrjálst ok stendr æ því ánauðgara sem valdsmaðr er verri, þvíat þeir með lastauðgu eptirdæmi ok illu foraði gera sárastan kinnroða heilagri kristni. En þar, minn herra, er þèr nefndut tjörn, þykkist ek skilja, at þèr merkit fyrir hennar nafn samneyti þat er ek veit[t]i þeim er stóðu í manndrápum, svara ek svá til, at ek vil vænta, at sú tjörn verði oss til hreinsanar heldr en saurganar, þvíat ek hefir yðr sannliga flutt, hverjum hætti ok fyrir hverja sök manndrápin urðu, þvíat atvik ok ástundan dæmir alla hluti, sem ritað er: quicquid agant homines intentio judicat omnes. Herra erkibiskup talar:

góða trú berum vèr til yðvarrar undirstöðu, kunni þèr ok þat vel styðja meðr skilríkum orðum. En nú stendr eptir ein grein óleyst, er segist, at þèr dragit fjölmenni eptir yðr, ok mart úvandat, hvort er þèr sitið kyrr eðr farit; kalla menn þetta hófleysu í fátækum landskap ok þröngu biskupsdæmi. Herra Guðmundr svarar: hèr er sú sök, er ek mun eigi hart verja, þvíat hún er sönn, en þó þykki mèr eigi víst, hvárt þeir fóru syndlaust, er yðr sögðu, þvíat atvikin munu enn þessu ráða. Þá er ek sit heima at Hólum, koma nökkurir at minni orðsendíng, en þeir miklu fleiri, er ek kalla eigi, síðan sitr hverr sem líkar, þvíat ek rak engan brött, enda bað ek fá vera; varð fyrir þessa grein kostnaðarsamt, þvíat fleirum þótti betri dvöl en brötför. Ek senda mína menn í hèruð at heimta tolla ok tíundir, ok annat vitafè staðarins, ok ef þeir fóru nokkuð óspakliga án mínu boði, var þat æ ok æ mèr eignat, at ek hèldi ránsmenn ok ribbalda upp á kirkjunnar góðs, en ef ek fór í sýslu mína, samnaðist at mèr fjöldi fólks, ok enn meirr fátækt, en þó senda ek öngum orð, en þat er satt, at mèr þótti æ því betr, er fleirum guðs ölmusum leiddi hjálp af minni ferð, þvíat mèr sýnist þat heyra mínum stètt at vera þeim er þurftu þvílíkr sem þeir væntu, þvíat sjaldnar verðr sá heimsóttr, er fám gerir gott. Nú hefir ek sagt yðr sannan veg, hversu ek hefir gjört, en hver ástundan fylgt hefir verkinu er guði kunnigt; býð ek mik nú sem fyrr allan á guðs vald, hefir ek optsinnis boðit mín málaferli á dóm heilagrar Niðarósskirkju, þat sama geri ek enn í dag, þvíat yðvarn dóm þoli ek gjarna, sakir þess, at þat er skipan míns lávarðar herra Jesu Christi, ok virðuligs herra páfans. Herra erkibiskup svarar: vær höfum heyrt um hríð, bróðir, hversu þú hefir öndverðr staðit í guðs orrustu móti kirkjunnar úvinum, því munum vèr tala til yðvar viðrligum[1] orðum, sem Clemens páfi forðum til heilags Dionisium: farit í guðs blezan út til Íslands, flytið fram guðliga kenníng, ok fylgit kirkjunnar rètt, þvíat þèr erut vel lærðr at standa í guðs víngarði; þörf er nóg en fáir vinnumenn; gerit sterkliga, viknið ei fyrir, minnist jafnan at ei krúnast upphafit, heldr endinn, hugsit optliga hversu þröngva vegu [gengu] fyrir feðr várir, þvíat æ því fegri gefst denarius verkmanninum sem hann erfiðar lengr í víngarðinum.

1) líkum, 396.

Vatnvígslur yðrar viljum vèr því síðr meina eða vanmegna, at vèr biðjum yðr ok bjóðum, at þèr blezit sem fyrr, þvíat trúin[1] þróast með þvílíkri miskunn; skulum vèr ok halda þenna skilníng meðan guð þolir oss í þessu sæti, ok því gerum vèr yðr í dag með biskupligu valdi frjálsan fyrir utan hverskyns lýti, ok dæmum sannan biskup sæmdum tilheyriligan í nafni várs herra Jesu Christi, gefum vèr oss ok vára hjörð undir yðrar bænir. Eptir svá talað gengr herra erkibiskup bröt af stefnunni, ok skilja þeir herra Guðmundr með sannri blíðu, ok stóð svá meðan þeir lifðu báðir, en þat var eigi lengi, þvíat herra Þórir andaðist á næsta sumar. Er þá kosinn sira Gutthormr, sæmiligr klerkr; fór hann á páfagarð, ok var í Róma sem þíngit stóð í Latran, en herra Guðmundr sitr þann vetr í Noregi, er Gutthormr var utanlands, þvíat honum sýnist eigi friðligt at leita út til Íslands undir vald úvina sinna; er hann lengstum í Niðarósi, en sýngr at Kristskirkju allar stærstu hátiðir. Um viðrtal þeirra Þóris erkibiskups ok herra Guðmundar biskups kvað Einarr Gilsson xvij vísur, ok þetta upphaf á:

1. Frètt hefir öld at sækir[2] sótti
sóttalauss at vilja dróttins
klerkavalds ok ítrar orku
erkibiskup harðla merkan;
Guðmund frá ek at rægði reyndar,
reyndist þat með flærð ok leyndum,
reitin þjóð við seggja sæti,
sæt urðu mál fyrða gætis.

2. Biðja frá ek um elda eyði
eyjarband[s][3] at sínum vanda
greiðir valds[4] at flytja fríðum
fríðr Þorláki helgar tíðir:
eigi skal, kvað meina mýgir,
mýgir tála ótrú[5] drýgja,
siðu styrkir sjá mæðu[6] merkir
markar grands, á váru landi.

3. Klerka sendir meiðir mundar
mundar grjóts við hlyn til fundar,

1) 396; trúiz, Hd. 2) sakir, 396 rangt. 3) lands, 396. 4) vells, 396. 5) ólög, 396. 6) meiðu, 396.

vita skyldu þeir atferð eldis
elda vers á þorláksmessu;
gengu aptr ok sögðu at sýngi
söng ágætan bauga slöngvir
öllum helgum stjörnu stillis
stilliliga með fremd ok snilli.

4. Get ek at svá, kvað meiðir mæta,
mætr ætli þat vigslu gætir,
at [hann] þorláki fái sem fullast
fulla dýrð í tíðum skýrða;
undrumst ei þótt[1] ljóst á landi
lands höfðingjum fremri standi
mítru runnr við sæmd ok sanni
sanni prýddr, er oss gefst þannig.

5. Guðmund spurði hrínga hirðir
hirð[2] gleðjandi Fáfnis beðjum:
hví æxlar þú virða vígslur
vígslunjótr lögum í móti?
græðir svaraði þegna þýðum
þýðr biskupi rètt af prýði,
hætti ek gjörð á drottins dýrðar[3]
dýrðarsnjallr of breytni alla.

6. Prestar veita mèr á móti
mótigang ok þrautir[4] strangar,
sýngr enn með biskups banni
bannsett ferð í Jesús ranni,
þjóðin vígð er lömd af lýðum,
lýðrinn veit at mörg er heitin,
flýti ek því, kvað sættir sveita
sveitum þekkr, at vígslum rekka.

7. Gjörði allt með einu orði,
orð skýra svá, drottinn[5] forðum,
greindi síðan alvaldr anda
andargipta smíði vandat;
treysti ek rètt af magni mestu,
mest styrkir þat vella lesti,

---

1) 396; þ (þat), Hd. 2) 396; hve, Hd. 3) [396; dýrðar drottins, Hd.
4) þrætur, 396. 5) drottins, 396.

himintúngla er siklíngs sómi
sæmiligr, á þessi dæmi.
8. Þórir frètti af stillíng stýri
stýrilátan hafnar fýris:
hvárt vígir þú bekki bauga
baugs leitendum[1] margar veitur?
mætr svaraði auðar ýtir
ýta sætti harðla nýtum:
eigi er greitt, kvað lýta lægir,
lægir víns um söngva mína.
9. Engi fær með sínum söngum
söng heyrandi jarðar dreyra
helgat betr en sólar setra
sætr stjórnari hrínga gætis[2];
fyrðum veitti drottinn dýrðar
dýrðar hress á skepnu þessa[3],
flotnum gjörði vín ór vatni,
vatn blezaði[4] græðir skatna.
10. Jórdán varð þá er skjöldúng[5] skírði
skíran Jón sá er hjálpar hónum
blezuð endr ok geisla grundar
grandalaus af helgum anda;
þessi dýrð hefir vötn at vissu
vísa drottins gjörvöll prísat,
finnast þau með sigri sönnum
sönnust orð til líknar mönnum.
11. Jafnan veit ek, en sjór nam sæta
sætum tír er[6] guð lèt skírast,
milli síðan enda allra[7]
allheilaga Jórdán falla,
trúi ek enn [at] vötnin vinni
vinnz ráðanda mörgu láði
öllum hjálp en öngu[8] spilli
auðs tínöndum söngvar mínir.
12. Sagðar hefig kvað bölva brigðir
brigðlunduðum erki-þundi

1) baugsveitendum, 396. 2) þann. 396 og Hd. (gætis?)
3) þessi, 396. 4) blezandi, 396. 5) 396; skjöldúngr, Hd.
6) 396; en, Hd. 7) alla, 396. 8) eigi, 396.

bæna láðs[1] sem vildar[2] vinu
vins kastala iðnir mínar;
veitið mèr af skýrleik skjótum
skjóta dygð ef finnið ljótar
várar gjörðir, frelsir fyrða
fyrðum þýðr, en ek skal hlýða.

13. Biskup svaraði runni röskum
röskr blíðliga hafnar víðis:
dugnað hljóta grafþvengs Gautar
Gautalands af yðr í þrautum[3];
jarðar[4] trúi ek at vísir varði
virðum kunnr ok leiðar sunnu
þína ást með björtum bænum
bæn vinnandi miskun sinni.

14. Hversu máttu, kvað lasta lèttir,
lèttr[5] skýrliga undan stýra
vígslu njótr þá er sæfa sveitir
sveit pínandi virðar þínir?
engi tekr ok slètt yfir slöngvir
slúngins gulls í tjörn at fullu,
reikna þat svá, at víst ei vökni,
vöku rèttliga tála slökvir.

15. Várir menn hafa sæfzt[6] at sönnu,
sönn veittust ok lífspell mönnum,
börðust þeir fyrir himna hirðis
hirð lèttanda sönnum rètti[7];
lýða spýttu benjar blóði
blóð synjaði andar þjóðum,
seggja flóði af hörðum höggum
höggvin ferð í sára döggu.

16. Treysti ek upp á himna hæstra
hæstráðanda krapt ok náðir,
verði oss ok þollum þessum
þessi laug at hreinsan bauga:
allir hafa með frægðum fullum
fulldrengiliga mínir gengit

1) beinaláðs, 396. 2) vildit, 396. 3) 396; þrautir, Hd.
4) 396; jarðir, Hd. 5) letrs, 396. 6) særz, 396.
7) 396; leitanda s. veiti, Hd.

meiðar opt þó at fyrðar flýði
flæðar báls at leiki stála.
17. Dróttir vissu at síðan sáttir
sáttnáðandi skildu báðir,
víða báru þjóðir þeira,
þeir biskupar, sæmd at meiri;
dynda mærð gat hjörva hirðir
herra minn at[1] forsögn þinni
brögnum innt, en fyrðar[2] fregni
frægð Guðmundar sóma nægða.

51. Svá berr til einn hátíðisdag, sem herra Guðmundr hefir súngit messu ok gengr út af kirkjunni með kórsbræðrum ok fleirum klerkum, at iiij fátækir menn koma á mót honum ok biðja ölmusu með ákafa. Herra biskup segist eigi nú í stað nærhendis hafa til ölmusugjörða. Þeir standa í bæn því fastara ok láta eigi frá hefjast. Herra biskup kallar þá hljóðliga klerk sinn, ok segir svá: mèr kemr í hug, son minn, segir hann, at vèr höfum ínóg at gefa, tak þú kerit, er mèr offraðist í messunni. Sem klerkrinn hefir til látið, ok herra biskup við tekit, talar hann svá: hvat mun nú? þèr erut iiij en einn er hlutrinn, hversu má ek nú þessu skipta? Síðan lítr hann til himins ok segir svá; drottinn minn Jesús ok sankta María, skipti þið! — Eptir þetta varpar hann kerit niðr á marmarann, svá at stökkr í fjóra hluti, tekr síðan hverr sinn hlut, vóru kerbrotin jafnþúng síðan vágust, svá at ei var eitt öðru meira; var þetta verk stórliga frægt allt til þessa dags. Enn fylgir hèr annarr hlutr dásamligr: þar í bænum fæddist barn blint báðum augum; móðirin harmar þat sárliga, ok sem hún heyrir margt ágæti af herra Guðmundi biskupi, tekr hún barnit, berr þat til biskups, ok leggr í hans möttulsskaut, biðr með tárum, at hann hafi hendr at augum barnsins ok sýngi yfir bænir sinar. Sem herra biskup heyrir bæn konunnar, talar hann: máttugr er guð at gleðja þinn harm. Síðan lítr hann í barnsins ásjánu, bregðr túngu sinni yfir sjáldrin, less þar með bænir sínar, ok talar til konunnar: tak dóttir barn þitt, ok far í friði! — Innan þriggja nátta var þetta sama barn alskygnt báðum augum; sagði móðirin síðan mörgum manni með tárum þetta dýrligsta

1) af, 396. 2) frygðar, 396.

tákn. Hèr fylgir þriði hlutr: Klerkr einn íslenzkr var samtíða Guðmundi biskupi í Noregi; klerkr sjá var sunnlenzkr, af þeim stað, er Viðey heitir; hann lèr herra Guðmundi bækr nokkurar um vetrinn, en um sumarit eptir, sem Íslandsför eru búin, kemr klerkr at finna herra Guðmund. Guðs maðr segir til hans: eru þèr brátt til hafs búnir, klerkr minn? — Klerkr játtar svá vera. Herra biskup talar: þá er tími at þú takir bækr þínar, ok haf þökk fyrir lánit. Klerkr svarar: þat vilda ek, at þèr launaðit mèr bókalánit. Herra Guðmundr brosir þá ok segir: hverja vildir þú ömbun hafa, klerkr minn? — Klerkr svarar: at þèr segit mèr, hv[er]su oss kumpánum mun takast Íslandsferðin[1] í sumar. Herra biskup svarar: hvað mun ek þat vita? Klerkr svarar: ef þèr vilit, viti þèr. Herra biskup þagnar þá um stund, en talar síðan: hversu mikit góðs hefir þú í skipi, djákni minn? Klerkr svarar: mèr þykkir rètt sagt, at bókakista mín sè allr minn ríkdómr. Herra biskup talar þá: ei þykki mèr úlíkt, at þèr fèlagar fáit landtöku heldr úbliða í sumar. Klerkrinn svarar: þegar þykkir mèr vel, er menn halda lífi. Þat vil ek víst segja, at þèr munuð koma lífs á Ísland í sumar. Klerkr svarar: guð sjálfr ambuni yðr hversu þèr gleðit mik í dag, þvíat nú gjörðir þú framarr en ek bað, er þèr játtuð mèr Ísland, þvíat þá er víst at ek fær Viðey at vetri, ok síðan hindrar mik eigi kost. Herra biskup svarar: þá er vel djákni minn, ef þèr líkar. Skilja þeir eptir þat. Ferr klerkr með kumpánum í haf um sumarit; koma þeir austan at landi vel kátir, ok ætla suðr fyrir, til þeirrar hafnar er á Eyrum heitir. Síðan grípr þá svá galinn útsynníngr, at þá keyrir upp í boða þar sem heitir Minþakseyrr[2], brýtr skip í spán, tapast góðs allt, en menn fá lífi haldit, svá at enginn týnist, at því framarr sannaðist þat er guðs maðr sagði. Klerkr, er vèr gátum, gengr með ströndinni, ok leitar at bókakistu sinni, finnr hann brát[t] læsta ok óbrotna, en svá sem hann lýkr hana upp, er hún full af sjá, ok bækr í kafi spiltar til ónýts, utan þær sèr greindar, hvítar ok hreinar, sem um hríð vóru undir valdi herra Guðmundar; ferr klerkr veg sinn meðr fagnaði, ok víðfrægir hvar er hann kemr hversu herra Guðmundr biskup prófaðist sannorðr í sínum forsögnum.

52. Herra Gutthormr erkibiskup kom heim í land eptir ár

---

1) hèr vanta tvö blöð í 396. 2) 398; miðdagseyrr, Hd.

liðit, vígði hann litlu síðarr herra Magnús Skalholtensem biskup, stóð herra Guðmundr á aðra hönd erkibiskupi í þeirri vígslugjörð. Á því sama ári gekk Innocentius páfi almenniligan veg um dauða dyrr, hafði hann ríkt xviij ár, fjóra mánuðr ok xx daga. Næstr eptir hann var rómver[s]kr biskup Honorius tertius. Herra Guðmundr biskup sat í Noregi næsta vetr eptir heimkvámu Gutthorms erkibiskups, ok annan til, þvíat þeim þótti eigi friðligt frèttast utan af Íslandi; var þá herra Guðmundr hafðr í mikilli virðíng ok yfirlæti, bæði af erkibiskupi ok öðru stórmenni í Noregi. Herra Magnús biskup fór til Íslands þegar næsta sumar eptir vígslu sína, þeir vóru bræðr ok Þorvaldr, einn af stefnumönnum, sem fyrr var getið. Arnórr Tumason fór til Íslands áðr Þórir erkibiskup andaðist, sezt hann nú fyrst á búgarð sinn, er Áss heitir í Skagafirði, en lætr Hólakirkju halda þeirri forsjá, sem biskupinn hafði skipað áðr hann fór í frá. Mjök er Arnóri angrsamt þat er hann fregn af herra Guðmundi biskupi, hversu hann fær gott sinni af þessum sem fyrra erkibiskupi; hugsar hann at fremja hèr fyrir óheyriligar hefndir, sem brátt mun heyrast, þótt meirr sè grátligt en gleðiligt.

53. Sem virðuligr herra Guðmundr Hólabiskup hefir setið iiij vetr í Noregi, segir hann herra erkibiskupi, at hversu friðvænt sem er, vill hann heim leita til kirkju sinnar ok kristni, en biðr erkibiskupinn, at hann muni leggja ráð á, at friðr mætti formerast, en úfriðr niðr leggjast. Því skrifar hann til Magnúsar nýja biskups, ok er brèf eru gjör tekr herra Guðmundr biskup blítt orlof með blezan af erkibiskupi, stígr á skip með sitt föruneyti, siglir í haf sem byr gefr; er þá eigi getið, at honum takist utan greitt ok farsælliga, at hann kemr heim til Hóla; allir góðir menn fagna hans tilkvámu, ok einna framast guðs ölmusur, þvíat sama var hans lítillæti, ástúð ok miskunsemi til allra dugandi manna; birti hann meðr einörð erkibiskups brèf til frelsis kirkjunni, sem honum var boðit, bætti um siðu manna sem hann mátti fremst, því mörg siðlausa hafði enn öflgazt síðan hann fór í frá. Lærdóminn sèr hann at sækir svá mikit þrot, at eigi dugir svá búit, þvíat margir höfðu dáit ór í hans frávist, en sumir lyktu svá ferliga sitt líf með löngum úvana ýmisligs vándskapar, at þeir vóru sem dauðir frá æzta guðs embætti; því skipar hann skóla heima at Hólum, með vitra manna ráði; skal þar inn ganga sá er nema vill; gáfu rikir

menn góðan kost með sonum sínum, en þeir vóru miklu fleiri, er ekki höfðu nema ölmusur biskupsins; varð því brátt á staðnum mannmart ok kostnaðarsamt, þvíat ölmusugæði herra biskups fór eigi þverranda. Hèr fyrir ofrast sú orðfleytíng í hèraðinu eptir vana, at allt staðarins góðs muni upp ganga ef biskup má lengi ráða, ok síðan umlestr með áleitni klappar at eyrum Arnórs í Ási; er þar fúsum at fleygja til mótgangs ok meingjörðar; tekr hann þat bæði af sèr ok af vináttu Sighvats Sturlusunar, er nú var kominn í höfðíngsskap í Eyjafjörð eptir Hall drepinn, sem ráð var til sett; þykkist ok Arnórr vita, ef biskup sezt ok staðfestist í frelsi kirkjunnar, at brátt mun hann eigi þegja yfir löstum þeirra, er kirkjunnar rètt fyrsmá, því kýss hann sèr þann hlut, at verða fyrr at bragði; dregr saman lið með leynd ok ferr á nátt upp til Hóla, umkríngir herbergi biskups með herfólk sitt, gengr inn með sinni fylgð í hans dormitorium, ok tekr hann sjálfan í sinni sæng, með svá greypri grimd, sem ferligt er frásagnar, at þeir draga smurðan biskupinn fullkomit nauðgan fram eptir herbergjum; þat til marks, at hann setr hendr ok fætr hvar fornám er fyrir; en þeir úvinarins limir bjóða honum afl æ því meira, svá at liggr við beinbrot ok meizlin sjálf, áðr þeir færa hann út af húsunum, leggja hann síðan í vagn lítt vandaðan, ok aka brött af staðnum á náttarþeli heim á búgarð Arnórs. Sem herra biskup er braut ekinn, gengr Arnórr at skólanum með sína sveit, ok heitr þeim bana orð með bruna sem inni vóru, ef þeir dragast ei út ok dreifast víðs vegar; hèr með keyrir hann á vánarvöl hvern þann mann af staðnum, er [í] nokkverri frendsemd eðr venzlum var við biskupinn; leitaði þetta hvárttveggja fólk braut af staðnum undan öxi í ýmissa staði, en Arnórr heldr nú enn Hóla stað ok allt hans góðs. Herra Guðmundr biskup sitr nú í Ási svá ríkuliga haldinn, at hann er ófjötraðr dag ok nótt í einni lítilli myrkvastofu meðr einum pilti, ok skal ei ganga víðara, en ákveðið er; spyrst þetta um allt land innan, hversu hann er spentr, ok sakir þess at Magnúsi biskupi var boðit af herra erkibiskupi at leggja gott til, ríðr hann sunnan um várit ok norðr um land. En er Arnórr fregn þat, dregr hann saman frændr ok vini með fjölmenni, ok vill ei vera uppi orpinn fyrir biskupum, hvað sem í gerist. En er Magnús biskup kemr í Skagafjörð, rýmir Arnórr svá

mikit gang biskupsins, at hann skal sjá mega Magnús; eru þá upp lesin brèf þau er erkibiskup hefir með berri skipan gert meðal herra Guðmundar ok hans mótstöðumanna; en síðan Arnóri sýnist nökkuð stritt á lagt, fær hann í fylgi ok leiðir með sèr vin sinn þorvald Gizurarson, bróður Magnúss biskups; virðist þá Guðmundi biskupi, at Magnús biskup viki eigi minnr eptir bróður sínum en boði erkibiskups, ok því vill hann hvergi af ganga þeirri skipan, sem gjör var, hvárt þess biðr Magnús biskup eða aðrir menn. Skilja þeir svá, at sátt verðr engi. Kennir Arnórr þat allt þrályndi biskups, at hann hvárki vill hlýða erkibiskupi nè góðra manna tillögum, ok efli svá ófrið með óróa, at menn fái aldri náðir, því skal hann aptr í stofu sína. Ríðr Magnús biskup suðr í sýslu sína. Herra Guðmundr biskup stendr æ því fastara, sem hann er meirr at knúinn með líkamligri pínu ok umlestrum, ok bíðr svá þess er hans fjandmenn vilja at honum færa, þvíat hann veit skrifat, at hverr sem vel vill lifa mun hèr ofsóknir þola. þessu næst kemr upp sú ráðagjörð Arnórs, at svá sem hann hefir tekit sèr fari þar er heitir Hvítá eða Seleyrr syðra biskupsdæmis, ætlar hann at flytja herra Guðmund biskup nauðgan, at þola þar þann dóm, sem fremst fær hann sýslat honum til handa, með brèfum ok fylgi vina sinna. Ok þann tíma öndvert sumar, sem hann er heiman búinn, tekr hann herra Guðmund út af stofunni, ok lætr setja upp í barir millum tveggja hesta, ok svá reka fram í veg til Seleyrar, eigi skemra en þrjár stórar dagleiðir, með svá litilli vægð ok manndóm, at þeir ráku svá hart, at stundum þoldu ei bararnar ok brotna í sundr, en hest[a]r draga biskupinn beran um grjót ok móa, með svá miklum váða at heldr við beinbrot, en síðan haldinn um sumarit suðr þar sem einn fángi í svá sterku varðhaldi, at vj menn vaka yfir búðinni hverja nátt; var þat fyrir tvefalda sök, þá aðra, at Arnórr vissi marga góða [vini] herra Guðmundar biskups í Vestfjörðum, þat annat, at þat var lausabúð ok hafði öngva jarðveggi; stóð húðfat herra Guðmundar í endann, ok var húð þakt utan ok innan, var þar hægt at rjúfa, ef ei meinaði forstaða. En þótt mörgum þætti hörmuligt herra biskups harmkvæli, treystust menn eigi fyrir uppgangi Arnórs at leggja sik eðr sitt góðs í hættu, því at þat var kunnigt um allt land, at sakir mágsemdar þeirra Sighvats Sturlusonar var þeim báðum at mæta í eitt, hvárr sem

til kom, en fyrir þá grein, at drottinn Jesús Christus lítr jafnan til hugganar sinna vina, þótt hann þoli þeirra þröngvíng í þessum heimi, eflir hann eins manns hug svá óskelfan til frelsis biskupinum, at hann óttist hvárngi þeirra mága; þessi maðr heitir Eyjólfr Kársson, einn af fyrrum vinum herra Guðmundar; hans búgarðr stendr þar í Vestfjörðum, er Flatey heitir; honum verðr kunnigt, sem öðrum mönnum í landinu, hversu herra Guðmundr er haldinn ok hafðr nauðigr til brötferðar; líkar honum þat stórum lítt ok stefnir þá ráðagjörð at frjálsa biskupinn hvat sem kostar. Þat er upphaf hans ráðagjörðar, at hann tekr einn fátækan pilt, dyggan, fljótan ok úfælinn, ok sendir hann til skipalægis, er áðr var nefnt, skal hann vera í hlaupum ok sendiförum, ok hafa kenníng þess, er Eyjólfi þykkir varða. Eptir Maríumessu fyrri ríðr Eyjólfr heiman við vj menn, þar til er hann kemr á þann bæ er næstr stendr læginu; hann trúir bónda, er þar býr, til trúnaðar síns um frelsi herra Guðmundar. Bóndinn samþykkir gjarna, ok leynir þeim í sauðahúsi sínu, kemr piltr Eyjólfs frá skipi ok kynnír þeim búðarstað, með því öðru sem Eyjólf forvitnar. Eyjólfr gerir bóndann fram til búða, at segja biskupi leyniliga kvámu hans ok eyrindi, þat með, at herra Guðmundr þiggi þat af guði ok vinum sínum, at þat ráð megi framgang fá. Sem þetta er gört er ei langt at bíða, áðr eina nátt brestr á þat hreggviðri með storm ok krapa drífu, at varðmenn stökkva inn í búð ok bregða vökunni, leggjast niðr til svefns, ok segja, at sjá galandinn skal vaka yfir Guðmundi. Í þenna sama púnkt ferr Eyjólfr allan veg til búðanna, gengr at gegnsta þar biskup liggr fyrir innan, sprettir hann skörunum ok húðþakinu, tekr síðan herra biskup í fang sèr, ok berr hann til kumpána; eru þar þegar klæði reiðubúin, hvítr kyrtill með blank ok myrkblá kápa. Svá varð þessi hlutr einkanligr, at[1] engi maðr hafði njósn eðr vissu af þeirra ferðum, nema hlaupapiltr Eyjólfs, hann stökkr upp í húðfat herra Guðmundar, breiðir klæði á höfuð sèr, ok liggr þar um nóttina. En af ferðum Eyjólfs er þat at segja, at svá sem þeir koma í veg, talar hann til herra biskups: nú veri mikill mun tveggja vega, minn herra, sagði [hann], at oss veri beinna ok beri fljótara þar er heita Valbjarnarvellir, en þann veg eru þau fen, at varla kemst yfir í ljósi þótt leitað sè, en nú þröngvir oss

1) byrjar aptr 396.

bæði veðrit ok náttmyrkr, munu vèr þaðan merkja, hvárt guði líkar betr, at þèr sèð í várri ferð eðr valdi Arnórs. Herra biskup svarar: guð mun greiða riðit sem yðr líkar. Eptir svá talat treysta þeir ok víkja, á Valbjarnarvöllu, sögðu þeir svá síðan, at líkara var þjóðbraut en fen undir hestafótum, þar með stendr af spjótum þeirra sú birti, en hermenn kalla hræljóma, þat ljós gaf svá glaðan veg, at þeir riðu rètt sem á dag. Nú er at víkja til Arnórs ok hans manna; langt líðr á morgin, ok liggr piltr í húðfati herra Guðmundar, þar til at búðarmönnum þykkir undarligt hví biskup sefr svá lengi mót vana, ok geymir eigi tíða sinna; tala þar meðr, sem þeir vöndust, honum til háðúngar: lengi sefr kampi nú, segja þeir, en sumir ætla hann sjúkan. Síðan ganga þeir at húðfatinu, lypta yfirbreizlit, ok sjá hversu skipt er um menn við þá; þeir spyrja hversu vorðit er. Piltr segir, at Eyjólfr Kársson hefir flutt biskup í braut, ok munu svá langt komnir, segir hann, at yðr vinnr eigi at þrá, þvíat fleiri hafa vel vakat í nátt en þèr einir. Þeir biðja hann aldri vel fara, ok segja hann munu í nökkuru tilstilli verit hafa. Piltrinn stökkr af tjaldi við þessi orð ok talar: yðr var boðin vakan, en eigi mèr. Ei fá þeir af honum meira; hleypr hann brött veg sinn. Arnóri líkar stórilla, ok kann þó eigi eptir ríða, bæði sakir veðrs, ok þess, at úvíst er, hvert herra biskup hefir vikit; bregðr Arnórr fyrir þessa sök utanferð sinni, ok ferr heim til Skagafjarðar. Hverr mun sá maðr, er svá opt líkist gimsteininum Thome Kantuariensi, sem þessi Guðmundr með sínum mannraunum? Litlu var lesit hversu hann samneytti Thome, þá er frændr hans vóru dreifðir; í annan stað, er hann stóð úhræriligr með rètt kirkjunnar, [e]i siðr í biskupsins nálægð, þótt hann veri áðr pínaðr; þriðja, er honum var eignat friðbrot með únáðum ok einræði; fjórða er hann flýði ok forðaðist náttúrliga sína úvini, at honum til lofs megi fèlagliga segjast sama prophetans orð: laqueus contritus est et nos liberati sumus.

54. Nú er at segja nökkut frá herra Guðmundi biskupi, at þeir Eyjólfr ríða þar til er þeir koma til skips, er Eyjólfr átti, fara þeir þaðan skipleið til Flateyjar, taka þar kost ok nauðsynliga hluti, þvíat þeir vilja leyni hafa þar til víst er um eptirleitina, því fara þeir í þat öræfi inn af þjóðleiði, er á Eiði heitir, dveljast þar í skógum, þar til þeir spyrja satt, at allt er kyrt. Þar höfðu verit reimleikar svá miklir, at menn þóttust

eigi byggja mega sakir tröllagangs, áðr herra Guðmundr biskup vann bata með þessum hætti: Eina nótt, sem herra biskup ok öll hans fylgð er í tjaldi, heyra þeir út dnnur miklar ok margskyns úlæti, sem glímt veri, ok eptir þat tekr til orða flagð eitt: hèr sofa drengir, ok hèr sofa drengir! — Biskup sprettr þá upp en biðr menn sofa í náðum; hann gengr út meðr helga dóma ok vígt vatn. Menn hans heyra út skræki stóra, hlaup ok eltíngar, sem þá er naut leika fátíðligast, með svá miklum gný, at jörðin skalf en tjaldit hristist. Undrum þessum fylgði údaunan svá mikit, at þeir lètust aldri slíkt kennt hafa; við þetta allt samt hlaupa þeir út ór tjaldinu, ok vilja forvitnast hvat herra biskup hafist at. Þeir sjá hann langt frá tjaldi, ok spyrja tíðinda. Hann svarar; nýjúngar smár einar, en hvergi kom ek þess fyrr, at svá margar óvættir veri, en þó væntir ek, at hèr kyrrist frá þessum degi, ok svá var, þvíat aldri síðan varð þar mein at úvættum. Sem nálgast burðartíð várrar frú, gerir herra Guðmundr orð presti einum, at hann vill hafa þar kost í hátíðina með níunda mann. Prestr mæltist undan kostnaði. Herra Guðmundr leitar þá at vera við þriðja mann. Prestr fyritekr þat nú eigi síðr. Sem þat flyzt herra Guðmundi, talar hann svá: þat óttar mik, at prestr fái annat eigi minna, en þótt ek veri við þriðja mann. Þetta kom svá fram ári síðarr, næsta dag fyrir Nativitatem beatæ virginis, at prestsins búgarðr gekk upp at köldum kolum. Herra biskup gerir nú þat ráð með tillögum Eyjólfs, at fara til annarrar kirkju, þar var húsbóndi djákn, er vandist at sýngja tíðir síð ok árla, sem hans vígslu var tilheyriligt; hann byrjar aptansöng at primas vesperas várri frú, ok segir út yfir ymnum; síðan hefr hann upp Antiphonam: Nativitas tua, ok eptir hana verðr hans minni svá undarliga sljófat, at hann fær eigi fundit hversu byrjast Canticum várrar frú; hann segir út þrim sinnum Antiphonam, ok man ei því heldr. Honum segist þá, at skip ferr at landi margmennt. Djákninn segir: kann vera, at þar sè sá innanborðs, er byrja skal í kveld lofsöng várrar frú. Svá fylldist sú guðsmóður skipan, at herra Guðmundr biskup flutti þar allar tíðir henni til lofs ok dýrðar. Á sama tíma kemrtil herra Guðmundar einn bóndi af þeima bý, hann flytr svá sitt mál: Herra minn, ek er kominn at tjá yðr mitt eyrindi ok vandkvæði; innangarðs á bæ mínum stendr einn hamarr stórr,

liggr þar fyrir slèttr völlr, er börn mín leika sèr optliga, hefir mèr þaðan leitt margan harm, þvíat ór klettinum hefir kastað verit sem sízt varði svá meinliga grjótflaug, at börn mín hafa þar af fengit beinbrot, en stundum bana. Nú biðr ek yðr fyrir þann góðvilja, er þèr veitið öllum mönnum, at þèr víkit til bæjar míns ok blezit börnin, at þesshátlar klettr kveli þau eigi. Herra biskup svarar: líkar þèr síðr, son minn, at ek blezi klettinn, því at ek sè, ef hann meinar ei, mega börnin vel fara. Bóndinn segist þat gjarna vilja, sem biskupinn vill heldr gera. Síðan ferr herra Guðmundr á þann bæ, ok signar hamarinn svá virðuliga eptir vana, at ei um aldr síðan fèkk þar barn eðr fulltíða beinbrot nè bana.

Svá er Ísland vaxit víða fyrir norðan með sjónum, at standa stór björg með svá frábærri hæð, at í sumum stöðum gengr langt yfir hundrað faðma. Í þesshátlar björg samnast í mörgum stöðum á sumarit svá margr sjófugl, at þat er útöluligr fjöldi, verpr hann í þeim holum eðr hellum, sem verða í bjarginu; þessi er fjárafli margs manns, at fara í björgin at taka egg ok fugla; þesshátlar afli fremst á þann hátt, at fuglarinn ferr í festarenda ofan fyrir bergit, gerist þat optliga með miklum háska ok bráðum manntapa, þvíat festinni kann mart granda. Einn af þesshátlar mönnum kemr til herra Guðmundar, ok biðr hann bleza einn festarþátt, er hann átti. Sem biskup hefir blezat, samsetr fuglarinn festi sína með viij þáttum, ok þeim níunda er signdr var; ferr hann síðan til bergs þess, er stóð með þeim ummælum fornra manna, at ei skyldi lengr í vera en sól veri á góðu lopti kveld ok morgin. Nú einn dag, sem hann ferr í bjargit með sömu festi, fyglir hann svá margt, at hann hleðr sik bæði bak ok fyrir; verðr því dvalsamt, svá at hann gleymir tímanum: verðr eigi fyrr varr við, en myrkr kemr at honum, ok því nær brestr fram ór bjarginu greip, eigi smáleit, ok bregðr títt á festina stórri skálm, svá at allir þættir viij fara í einum rykk í svá hörðum drætti, at neðra enda fleygir ofan yfir manninn, en því dásamligra var þat er fylgði, at einum þætti herra Guðmundar mátti fjándinn eigi granda, ok sá gaf líf manninum, þvíat svá var hann sterkr til uppdráttar sem strengr. Bera þvílík verk herra Guðmundar ljóst vitni, hvárr þeirra Arnórs hefir betri málaefni.

55. Sem herra Guðmundr biskup ok Eyjólfr spyrja til

sanns, at Arnórr hefir aptr sezt ok norðr vent til Skagafjarðar, leita þeir brott af Eiði ok heim til Flateyjar, býðr Eyjólfr herra biskupi þar um vetrinn, ok þat þiggr hann; var þar mart fólk, en húsbóndi gekk svá fyrir at ekki skorti; en er sumraði staðfesta þeir herra biskup ok Eyjólfr ráðagjörð, at enn skal vitja norðr á sveitir. Eyjólfr hugsar þat ráð, at hann vildi fá herra biskupi þann styrk, at hann veri nú eigi allr í úvina valdi, því fyrirlætr hann eignir sínar ok fylgir herra biskupi. Marga hafa þeir röskva menn, ok ríða svá norðr á hèruð; heim koma þeir til Hóla, ok dveljast litla hríð, þvíat þeir trúa Arnóri ei betr en meðallag. Ríðr herra biskup norðr um fjall með fylgð sína, ok hyggr at visitera Eyjafjörð, en þar kaldar í mót af Sighvati, at herra biskupi er fyrir kveðin yfirferð; snýr herra biskup þá austr um fjörð, ok svá norðr í sýslu sína, þar er Reykjadalr heitir; verðr þess geta, hversu tveir lærðir menn gera með biskup sinn í þeirri bygð; annarr þessarra hefir hálfa jörð með einn leikmann, skiptir þar svá til, at prestrinn rak bröt bú sitt af jörðinni, ok vildi eigi fæða biskupinn, en leikmaðrinn lagði allt sitt góðs í hönd herra biskupi með sönnum kærleik. Sá var annarr presta þessarra, er þar sat, er nýgjört var trèvirki, ok biskup vill þat sama vígja guði til tignar; en þann tíma, sem herra biskup ríðr at garðinum, stendr prestr úti móti honum, ei með skrýddri processione heldr herklæddu bygðarfólki, svá at skipt var í tvá veggi meðal húsanna, þar vegrinn lá. Eyjólfr Kársson ríðr þá fram fyrir ok spyrr hvað liðsamnaðr sjá skuli. Prestr svarar með orðskvið, at nú skal fara allt saman karl ok kýr. Eyjólfr segir: þat er eigi kennimannligt at draga her í móti biskupi sínum. Prestr segir, at svá mun nú standa. Herra Guðmundr leggr þá til: ríðum vèr hèðan ok reynum ei prestinn, þvíat nú hefir sá húsbóndi fengit hans vald, sem aldri fannst í friðinum. Ei linast prestr því heldr, þótt honum sè sýnt hver hans eymd er; víkr guðs maðr hógverliga brott annan veg. Nú fyrir svá greypa úhlýðni þessa manns, ok þeirra sem honum líktust, varð svá mikit rót ok rugl í bygðinni, at þeir ofra sinn hug til þeirrar guðs reiði, at efla þann herskap mót biskupinum, sem honum mætti þýngst falla, en þat er at senda orð Arnóri ok Sighvati, at þeir frjálsi bygðina af hans yfirferð; takast þessi ráð sem bruggat var, þvíat ei var latan at keyra; dregr Arnórr lið saman fyrir vestan fjöll, en

Sighvatr um Eyjafjörð, mætast síðan ok halda þat fólk til Reykjadals; í þeirri ferð eru tveir synir Sighvats, Sturli ok Tumi. Tumi var þá úngr, en þó vill faðir hans at hann venist meingjörðum móti herra Guðmundi, skildist honum ok þat verk, sem brátt mun lýsast. En er þeir nálgast norðrdalinn, er herra biskupinn kominn á þann bæ, er Helgastaðr heitir; þar hefir hann ráðit kirkjuvígslu á laugardag kalendas Septembris. Sama morgin, sem hann er búinn til þjónustugerðar, berst honum njósn af úfriðnum, tala þá nökkurir af hans mönnum, at kirkjuvígsla muni um líða, ef þá berr at fljótara en lykt verði. Biskupinn birtir þá enn hvern hann hefir innan brjósts, ok talar: gera mun ek þjónustu mína, þvíat nægjast mun tíminn til þess. Svá var sem hann sagði. En nærri nóni koma þeir mágar með flokka sína, ok ganga þegar at bænum með heróp. Þar kemr ok til fulltíngs viðr þá með mikinn flokk bygðarmanna prestr sá, er fyrr sagðist frá, hversu hann bjóst at verja vígi kirkjuvígsluna. Eyjólfr Kársson ok önnur fylgð biskupsins skipast til verndar í garðinum; var þat bæði, at þar vóru saman komnir röskustu menn, enda áttu þeir at standa fyrir dýrum herra. Varð þessi in snarpasta sókn, bæði með grjót ok fólkvápn, svá at þeir mágar leita hvíld at taka ok ganga brott á túnit annan veg. Ok til þess, at því framarr lýsist hversu illgjarn andi gladdist í þvílíkum gjörðum, ok gabbaði þá er unnu, er getið, at Arnórr tæki svá til orðs: Sighvatr mágr, þykki þèr eigi hörð hríð gengit hafa? — Hörð víst, segir Sighvatr. Arnórr talar: þat kann ek segja þèr, at mèr hefir verit þúnglift mjög í sumar ok nær krankr, en í stað, er mèr kómu orð Reykdæla, lypti þat allt af mèr. — Þat muntu kalla jartegn, segir Sighvatr. Nei, segir Arnórr, þat kalla ek merkiligan mótburð. Síðan gera þeir ráð, at vinna herra biskups menn meirr meðr klókskap en mannhættu; setjast síðan um kirkjuna sem einn herkastala, vaka svá hvárir yfir öðrum um nóttina. En árla sunnudags myrgininn njóta þeir liðsmunar, sækja þá sumir, en sumir brjóta stór hlið á verndinni, svá at þá er allt upp gefit. Hörmulig var sú framferð, kirkja nývígð er svá særð ok barin grjóti, at alla æfi sá þat á henni, meirr en hundrat ára, þá er þessi frásögn var samsett. Ganga menn nú til griða; gefr Arnórr Eyjólfi Kárssyni gang, ok svá út í frá, sem höfðíngjar taka til sín. Herra Guðmundi biskupi býðr til sín

einn góðr bóndi, ríðr hann brött með honum sama dag. Fjórir menn fèllu vápnsóttir af herra biskupi; en þann tíma, sem hann var á bröttu, tóku þeir Arnórr ok Tumi vij menn, er honum til heyra, ok festa upp á gálga; leið lítið, áðr en Eyjólfr Kársson ok aðrir kumpánar vitja aptr til herra biskups. Herra Guðmundr tekr þat ráð, at ríða austr lengra undan úfriðinum, en þann tíma, sem hann spyrr, at þeir mágar hafa riðit vestr um ok dreift flokkinum, vendir hann aptr í veg ok hugsar at fara til Eyjafjarðar, en þess er eigi kostr heldr en fyrr, þvíat úfriðr æpir í mót; trúist í þessum tíma þat er fyrr var skrifat, at Sighvatr hafi tekit biskups tíundir um Eyjafjörð, þvíat mágr hans var formaðr Hólakirkju, en herra biskup útlægr. Herra Guðmundr sèr enn um sinn, at hann fær öngva hvíld í sínu biskupsdæmi, því leitar hann upp á fjall ok ríðr suðr um land, ok lèttir eigi fyrr en hann kemr suðr í Odda til Sæmundar bónda, hann var son Jóns, er fyrr var nefndr í framferðar capitulo sancti Thorlaci; hann tekr herra Guðmund við allri ölverð, ok býðr honum svá lengi sem hann vill þegit hafa; þekkist herra biskup þat, ok sitr þar um vetrinn í góðu yfirlæti, en um sumarit eptir, ríðr hann it syðra vestr á landit, þar er heitir Borgarfjörðr, ok dvelst þar lengi með vinum sínum. Á því sama sumri skrifar herra Guðmundr til erkibiskups, hvert válk ok vandræði, forsmán ok fyrirlitníng hann ok heilög kristni þolir án áfláts ok yfirbótar norðanlands, fyrir ágang ok yfirgirnd þeirra mága; biðr þar með, þat mjúkt er hann kann, at herra erkibiskupinn leggi kirkjunni nökkura huggan, at hún mætti firrast úvina vald ok fá um síðir þann frið ok frelsi, sem hennar upphafari Jesús Christus ok hans vicarius, blezaðr Petrus, gaf henni. Sem þessur brèf koma fram til Niðaróss, er greinanda, at síðan herra Guðmundr sigldi þaðan er vorðit erkibiskupa skipti, Gutthormr leiddist brött en Petrus palliatus vígðr; honum berast brèf herra Guðmundar, hver upp brotin ok yfirlesin skýra honum vel, hversu kirkjan hefir nóga þörf, at hennar hlutr rèttist, því leitar hann við lærða menn, ef nökkurr vill þat gera fyrir guðs skylld ok hans bænarstaðar at visitera Hóla biskupsdæmi, ok enda þær únáðir sem þar hafa yfir gengit alls of lengi, en engi af öllum vill undir víkjast, at fara í úfagnað; því gerir herra erkibiskup þat stöðugt, at[1] kalla herra Guðmund

1) ok, Hd.

biskup ok Sturlúnga á sinn fund, at svá mætti formerast nokkur friðargjörð. Arnórr Tumason var ei at kalla, þvíat hann fór til Noregs þetta sumar, ok tók banasótt, en stefnubrèf bíða sinn tíma, ok koma svá fremi til Íslands, sem enn hafa guðs úvinir meirr ok meirr hlaðit sína byrði með glæp yfir glæp údæmiligrar illsku, sem í því mun lýsast er eptir ferr.

56. Á því sumri liðnu, sem herra Guðmundr fór yfir Borgarfjörð, kemr hann til Þórðar Sturlusonar, er hans var einn trúastr vin sem fyrr sagðist; tekr hann herra biskup báðum höndum ok býðr honum allan sinn kost, fè ok fylgi; dvelst hann þar um hríð í allgóðum fagnaði. En síðan birtir herra biskup Þórði, at hann ætlar at vitja stól sinn at Hólum, býðst Þórðr til farar með honum, segir, at Skagfirðíngar munu lægra mögla ef hann er í ferðarbroddi. Herra biskup tekr því glaðr ok vill gjarna. Ríða þeir vestan með gott mannval allan beinsta veg heim til Hóla; skilja þeir herra biskup ok Þórðr með einkanligri vináttu; sat herra biskup nú um kyrt litla hríð með sömu mildi ok ölmusugæði. Nú er þar til at taka, at Thumi sitr heima með Sighvati feðr sínum, hann hrærir þat mál við feðr sinn, at hann fái honum góðs ok manna forráð, segist í öngu fjarkomnari til þess en Stulli bróðir hans, þvíat hann hafði vald í vestra luta lands, þat er Sighvatr hèlt áðr hann kom til Eyjafjarðar. Sighvatr fyrirtekr, at hann muni leggja sinn metnað fyrir syni sínum, því hugsar Thumi ráð sín, eðr enn heldr úráð, þat er at fara vestr til Skagafjarðar, ok hafa þíng við bændr. Þat sama gerir hann, tjár ok tínir fyrir þeim, hversu herra Guðmundr var þeim úhagligr, ok allri þeirri bygð, með þann mannfjölda, er hann heldr í hófleysu upp á staðinn at Hólum; segir, at eigi seinna, en kostr er uppgenginn á staðnum, munu biskups menn fara með rán ok rifs yfir alla bygðina ok afla svá fánga. Hèraðsbóndum skiljast þessar ráðagjörðir, þvíat þeir höfðu lengi þann meistara haft, er annat lærði optarr en hlýðni við Guðmund biskup; því spyrja þeir Thuma, hvárt hann mun svá snarr, at hann vili setjast á staðinn ok halda fyrir biskupi ok hans mönnum, ef þeir fá þat gert at biskup rými brott. Thumi játtar at ráða til. Síðan gera hèraðs bændr sendimenn til Hóla, at gera biskupi tvá kosti, þann annan, at hann rými staðinn sjálfviljandi, með allt þat fólk, er þeir kalla með þarflausu þar haldit, ella segjast þeir koma skulu ok

drepa með harðri hendi þann úaldarflokk. Herra biskup kýss at rýma heldr, segir, at hans undirmenn veita þar um litið brigðmæli, ef þeir heita honum afarkostum, sýnist ei kjörligt, at halda hart mót ofrefli ok láta menn sína með ýmisligum dauða. Eptir stadda ráðagjörð, hvert af skal snúa, vendir herra biskup til skips ok flyzt í þat útsker, er Málmey heitir; þat liggr til norðrættar frá biskupsstólnum, skamt undan landi; þar er prestssetr; þar kemr herra biskup fyrir Adventum, ok sitr þar fram um Purificationem sanctæ Mariæ, þar til tíðindi gerast, en Thumi sezt á Hóla stað með því megni, sem þat sè hans föðurleifð; hefir hann varðhöld stór, ok lætr vaka náttliga yfir staðnum um vetrinn, þvíat hann grunar áhlaup biskups manna, sem honum gafst, þvíat á næsta dag eptir Purificationem beate virginis, sem herra biskup gekk frá kirkju um kveldit, nemr hann stað, ok horfir mót veðri; var landnyrðíngr bæði óðr ok kaldr, svá at vökumenn Thuma at Hólum gera sèr svefn þetta sama kveld, ok segja at landnyrðíngr skal vaka.

57. Herra Guðmundr biskup talar svá, sem menn hans heyra uppá: dýrð er vald þitt, drottinn minn, þvíat víndr ok bára vægir þínu boði. En þeir menn, sem áðr vöndust hans spádóm, skilja svá tilvik þetta, at þótt stormr þjóti en sjór rjúki, mun færiveðr til lands, ef þeir treysta; en sem herra biskup sèr víst ætlan þeirra, segir hann svá: guð gæti yðvar, at þèr hafit gott erindi, en ef svá verðr, at þèr fáit vald yfir Thuma, þá geymit boð mitt, at þèr flytið hann heilan á minn fund, en spillit eigi blóði hans, munu vit þá vel semja nökkvern veg; en ef þèr brjótið boð mitt hèr um, munu þèr efla nýjan harm heilagri kirkju ok mèr, munu þat ok sumir sanna af yðvarri sveit, at því sè mjök misráðit, áðr þessum málum lykr. Eptir svá talað ráða þeir til skipa ok xxx manna. Ei var gott at ýta, þvíat sjór var hvítr fyrir drifi, en svá sögðu þeir síðan af sinni ferð, til dæmi[s] at draga, sem stormrinn brakaði á báðar hendr í tvá steinveggi, en þar í miðil var sjókyrt ok náliga vindlaust. Gjörr er vegr til Hóla, koma þeir um nóttina með öllu á úvart, ok taka svefnhús yfir Tuma, leiða hann út af sæng, ok válka klæðlausan í því grimdar veðri, því at úgipta þeirra gaf eigi [þá] liðuga til hlýðni síns herra, þar til at einn setr höfuðit bröt af Tuma; fara síðan ok fá maklig eyrindislok, þvíat herra biskup kunni þeim mikla úþökk fyrir sitt

verk; fèll þeim ok í höfuð sín úhlýðni, sem Thuma tók af lífi móti biskups boði, þvíat litlu síðarr lèt hann sjálfs sins líf meðr nasadreyra. Líðr nú tíminn fram yfir páskir, svá at herra biskup sitr í Málmey, ok treystir öngvan veg at fara [til] lands fyrir sakir úfriðar, því leggr hann allan hug á at forðast orrustur, hversu stríða útlegð sem hann þolir; hvar fyrir hann gerir stöðugt at halda austr í haf til Grímseyjar, er fyrr var nefnd, ok leiðir guð þann veg, at þeir koma fram með höldnu.

58. Sighvatr, sem hann spyrr líftjón Thuma, gerir sèr lítið um í fyrstu, en sendir menn þegar um várit vestr á land til Sturlu sonar síns, at hann fjölmenni til bróðurhefnda. Má hèr fljótt yfir fara, at þeir draga saman lið ok skip, ccc manna, ok koma til Grímseyjar á várit næsta fyrir Festum Philippi ok Jacobi. En þvíat þessi fagnaðarlaus ferð stóð með harðligri úhæfu ok greypara glæp en nökkur sú illíng er áðr var lesin, sýnist ei bati gjörr sögunni, þótt þess háttar efni dragist í langmæli, utan [þat] er skyldugt at greina, sem at lýtr píslarvætti herra Guðmundar þrífaldliga: fyrir sjálfan hann, ok fyrir lærdóminn ok fyrir ástvini sína, þótt leikmenn veri. Í þessi hörðu hríð fèll Eyjólfr Kársson með ágetum orðstír, ok aðrir viij með honum; sumir vóru særðir til ólífis, var af þeim fremstr maðr Aron, mágr Eyjólfs Kárssonar; hann var svá mikill hreystimaðr ok ofrhugi, at hann bar þau vápn ok hlífar móti Sturlu, sem Thumi hafði átt; laut hann síðan fyrir liðsmun, ok stóð á honum spjót svá þykkt, at varla mátti hann hníga. Mátti hèðan vel skilja, hversu hans úvinir munu þykkjast örugglr af hans dauða, áðr þeir gengu frá, ok ei því heldr máttu þeir taka líf[1] hans, þvíat spásaga herra Guðmundar varð at standa, þá er hann sagði honum fyrir orrustuna, at þeir mundu sjást síðan; varð Aron skotið í skip, komst hann til lands ok fèkk margar umsátir síðan af Sturlúngum en forðaðist allar, stundum með harðfengi eðr fulltíngi herra Guðmundar, sem þá varð ljóst, er þeir umkríngdu hann í náttmyrkri, ok því næst sýndist öllum hans úvinum sem skært ljós kvæmi fram úr klett einum, ok fyrir undran þessa hlutar gleymdu þeir sókn við Aron, svá at hann tók undan, þvíat drottinn vildi fylla þat er hans þjónustumaðr sagði. Nú er at snúa aptr til Grímseyjar: klerkdóminn svívirða þeir svá

1) lífi, Hd.

feðgar, at þeir drepa einn prest, en afeista tvá, nærri kirkju hins heilaga Ólafs þar í eyjunni. Sem þeir hafa limina pint ok plágat, gengr svá úvinrinn í þá, at ei heldr þyrma þeir nú höfðinu, taka biskupinn höndum, ok farga hann svá þúngt, sem bein hans í heilagri Hólakirkju bera nú vitni, en þó vilja bækr sanna, at þrjú rifin hafi brotnað. Eptir þat fanga þeir [hann] til skips. Sem þeir búa sik til brötlögu, segir Sighvatr, at þeir skulu fara samskipa. Herra biskup fyrirtekr þat, með svá föllnum orðum: illa ok undarliga fær þú at þèr búit, þú meingerir heilaga kirkju ok mik með öllu megni, en í öðru lagi lætr þú, sem þèr muni nökkut gagn af mèr leiða. Sighvatr segir: því skal ek ráða, at skrúði þinn fari með mèr. Biskupinn svarar: þat vil ek eigi banna, þvíat samvizka þín dæmir þik, munu ok fleiri þann dóm kenna en þú einn. En hvað hefir þat at merkja, er Sighvatr vildi biskup eðr skrúða hans með sèr í sjófargangi, utan svá bjartan lífs verðleik biskupsins, at ei leyndist fyrir blindum manni. Sem þeir láta undan eyjunni, lystr yfir þeirri óðahríð með guðligri hefnd, at [tveir menn ins fjórða tigar lètust[1] af þeim ccc, er börðust í mót herra Guðmundi. Ok þá er stormrinn geysti sem mest hafit, er getið, að herra biskup tæki svá til orðs: lof sè þèr, drottinn minn, því at þeim feðgum verðr gagn at skrúða mínum í dag. Þat er sagt annat, sem hann fór inn til lands um sundit, at hann leit fyrir borð ok mælti: þar liggi þèr nú sálugir, mjök fáráðir! — Biskups skip, ok annat þeirra feðga, fá Eyjafjörð með heilu; kendu þat góðir menn verðleikum herra Guðmundar, en eigi farsælu Sighvats. Sem þeir taka land, fær biskupinn með öngu móti liðugan gang, þvíat Sighvatr tekr hann ok heldr undir sínu yfirboði, á þann hátt sem opt verðr í heiminum eptir orrustur, at menn eru þjáðir til verðs; brott eru keyrðir sveinar frá honum með þeirri orðflaug, at svá skal hann bíða þess, er hann rekst nauðigr í haf ok í skip til Noregs, ok þola þar dóm fyrir fors ok friðbrot. Líðr svá fram á sumar, þar til Noregsför koma til Íslands; í einshverju þeirra eru þau brèf Petri erkibiskups, sem fyrr var af sagt, at hann kallar herra Guðmund ok Sturlúnga á sinn fund. En sem þessur brèf berast herra biskupi, verðr hann glaðr við, at fara heldr til Noregs með boði erkibiskups en kúgan Sighvats.

1) [ei kom meir til lands, en lítið um þrjátigir, 396, 398 (rangt).

59. Vald yfir Hólastað ok hans góðs halda nú Skagfirðíngar eptir fall Thuma; fær biskupinn þaðan öngva rentu sèr til kostar eðr farar, því hefir hann þat eina, er hann fær í hèruðum af tíundum sínum eðr vina framlögum; býst hann nú [sem] verða má um vetrinn eptir, en ferr til skips um sumarit, ok hefir minna kost en þvílíkum manni hæfir eðr heyrir, en þó at sinni vill hann gjarna brött fara. Úgjörla veit hann hvað Sighvatr ætlar sinna ráða, eðr þeir fleiri sem nefndir vóru, þvíat honum samskipa var engi þeirra umboðsmaðr. Þegar sem byrr fellr sigla þeir biskup í haf, gefr þá æskiliga til Noregs, koma þó at heldr sunnarr en þeir hugsuðu, ok Þrándheims[förum] til heyrir; spyrr herra biskup þau tíðindi, at herra Pètr erkibiskup er framgenginn en Þórir secundus körinn ok búinn ór landi til kuriam. Því sèr herra Guðmundr, at honum vinnr eigi at sitja í Þrándheimi með lítinn kost, snýr suðr til Björgynjar, leggr drottinn þá huggan ok gleði sínum þjón, at fyrir þá víðfregð, er hann fèkk í fyrrum sínum ferðum, gerir sik margr dugandi maðr skyldugan bæði til fjárframlaga ok sæmiligs yfirlætis. Svá víkja bækr til, at herra Guðmundr hafi farit allt austr í Vík, ok setið þar um vetr, ok annan í Hamarkaupangi; má þat vel trúast, at hann hafi svá biðat heimkvámu erkibiskupsins, þvíat þat kann ýmisliga takast, hversu fljót þeim verðr sín ferð í curiam ok aptr þaðan. En svá fljótt sem herra Guðmundr fregn heimkvámu erkibiskups, sækir hann hans fund með öllum skunda, fær þar góða blíðu ok glaða meðtekt í öllum hlutum; tjár hann herra erkibiskupi með hógværum orðum hversu sífeldar bænir, ùnáðir, þ[v]íngan ok þröngvíng hann hefir þolt um alla daga, síðan hann hefir skilt við herra Gutthorm erkibiskup; greinir hann ok, hversu erkibiskupsins forverarar, Þórir ok Gutthormr, höfðu kærliga viðr hann gert, ok hans mál tekit. Hneigist erkibiskup fyrir þessur sannindi til sömu vináttu við herra Guðmund, huggar hann með áminníngum ok fögrum frásögnum, hversu góðir biskupar í kristninni höfðu einarðliga staðit mót ranglátu valdi, en með kirkjunni, ok þar fyrir öðlazt af guði ágetan verðleik ok vináttu með eilífum fagnaði. Herra erkibiskup býðr opt Guðmundi biskupi í boð sitt, ok gerir honum margan sóma, þar til spillendr koma.

60. Nú er at segja frá Sturlúngum, sem þeir spyrja at

herra erkibiskup er heim kominn, ok flóttamaðr þeirra, herra Guðmundr biskup, vel heyrðr á garðinum, en Arnórr frá fallinn andsvörum, bera þeir saman ráð sín, ok gera statt at hafa sik ok sitt góðs í öngri háttúng lands eðr sjófar, heldr sitja heima í rúmi sínu ok rægja svá biskupinn at eins með sendibrèfum, at hann megi muna. Hèr til draga þeir eðr kúga þá menn, er þeir hugðu virðast mundu hæstrar raddar á landinu at fráteknum biskupinum, at þessara fèlagskapr megi þeim samlagast, er psalmista talaði svá til: acuerunt linguas suas sicut serpentes, et cetera, því at [til] biskupsins skaða dikta þeir svá þrúngit brèf, at þat stendr með þrimtigum sakargipta; var þat sumt í letri sanninda litr fyrir mönnum en lygð fyrir guði, því at ljót ástundan [er] eigi maklig, at heilug skript kalli hana sannorða, sakir þess, at hún þarnast þá undirstöðu, sem æzta sannleik megi samþykkja, en flest í þessu brèfi var bæði fals af hjarta ok munni, með gamalli grimd ok öfundar austri. Þetta brèf var styrkt með þeim hætti, sem þá gekk framast um skilríki meðal landa; ferr þat brèf í haf, byrjar þeim skipum seint, ok koma við Hálogaland eptir vetrnætr, ferðast þeir norðan ok koma til Niðaróss litlu fyrir jól, sækja fund herra erkibiskups ok bera honum brèf Íslendínga. Herra erkibiskup, [sem] hann hefir þau yfirlesit, verðr mjök óglaðr; liðr svá fram yfir átta dag jóla, en á nínnda kallar erkibiskup saman kórsbræðr ok aðra lærða menn á garðinum. Þagat er boðinn herra Guðmundr biskup ok sendimenn. Eru þá upplesin brèf, með svá mörgum sakargiptum sem fyrr var greint; spyrr herra erkibiskupinn, hvað herra Guðmundr eignar sèr af sakargiptum þessum; en hann segir greiniliga, sem fyrra erkibiskupi, hvat [hann] hefir gert, neitar ok þverliga þat hann hefir ei gert, en sakir þess at skipt var um erkibiskupana, beiðist þessi eigi glósuna, heldr svá brátt sem herra Guðmundr hefir nökkura viðgöngu veitt, gengr erkibiskupinn braut af stefnu, ok kallar með sèr kórsbræðr í sitt oratorium, biðr þá skoða með athygli, hversu háfar þeim lítast þær sakir, er hann kallar herra Guðmund sèr á hendr játtað hafa. Ok síðan þeir þykkjast þau mál yfir rèttlætis vág sett hafa með einu samþykki, kallast herra Guðmundr inn, ok eptir þagnar tíma tekr herra erkibiskup svá til orðs: svá lízt oss ok bræðrum várum, sem þú, Guðmundr, hafir lengra fram vikit setníng laganna en ritað finnst í reglu biskupanna,

ok svá stórt sýnist oss yfirbera, at ei megir þú halda biskupligan stètt, utan þú fáir dispenseran in curia herra páfans, því fjarri stendr þinn málavöxtr váru valdi, því sem vèr höldum. Endir erkibiskup svá þetta mál ok gengr til hámessu, en herra Guðmundr til sinna manna; finnst honum enn um sinn, hversu hjólit kann velta, þvíat þeir sömu þegja nú, er í gær sögðu: góðan dag, herra! — heimboð er í brottu, en byrgðr erkibiskups garðr, ok náliga vörðr haldinn, at herra Guðmundr komi þar ei, sem nökkuð kallzandi um sín málaferli, líðr svá út um Purificationem beatæ virginis, at dagar hans eru daufligir, en lítill svefn á nætr; er ok svá komit heilsu líkamans, at hún veykist mjök, var þat mest fyrir þær meizlur, er hans úvinir höfðu gjört.

61. Sá prestr var með herra Guðmundi, er Ketill hèt, mikill maðr vexti ok sterkr, vel fallinn í lund ok góðrar hlýðni, en lærðr lítt til bækr, hann sefr í hjá herra Guðmundi um nætr ok less með honum. Eina nátt þeir liggja spyrr herra Guðmundr hvárt prestr vakir; hann segir svá vera. Herra biskup talar: úglaða daga eigum vèr, meðan svá búit stendr. Hverr bati mun þar á vinnast, segir prestr. Þat er mælt, segir herra Guðmundr, at ekki dugir úfreistað, hefir ek hugsat at senda þik á páfagarð, þvíat herra erkibiskup veik þangat málum mínum. Guð drottinn geymi okkar, segir prestr, ok sjá þat, hversu ek mun fara á páfagarð, fátækr ok ófróðr, þar með svá ókunnigr, at ek sá öngan stíg í öllum þessum veg; skipagangr engi meðal landa at svá búnu; er mèr ok sannliga sagt, at sjálfir konúngarnir bíði ár eðr tvau, áðr þeir sjái herra páfann, eðr sín eyrindi fá, ok þó með veraldar ríkdóm, hvar mun ek þá standa, fátækr maðr, sem mállauss í fáfræði minni. Herra biskup svarar: satt segir þú, son minn, at ef vit skulum líta upp á veraldar götu eru engi álit í þessu uppkasti, en ef vit sjám til guðs, ok fulltíngs minnar frú, liggr þinn vegr allr lauss fyrir. Prestr beiðist þriggja daga rúm, at hugsa sik hvat hann skal upp taka. Biskupinn játtar því, ok segir svá: en sakir þess at ek kenni vel þína dygð ok hlýðni, muntu þat kjósa sem þèr samir betr, ok því mun ek skrifa til herra páfans mitt eyrindi sem guð lèr mèr vizku til. Svá gerir hann, samsetr hann latínu brèf ok articulerar upp, hvat eðr í hverju hann var lýttr ok fyrir hverja sök eðr nauðsyn hann hafði framit hverja grein, tjár ok skilríkt, hverir undir

höfðu flutt þann örskurð er herra erkibiskup gaf honum, ok hvert hans mál sèr til vægðar með várkynd af guðs hálfu ok sælla postula Petri ok Pauli; gefr sik hèr með ok sína sæmd í guðs vald ok hönd herra páfans; segir ok ei síðr, hversu hans sendiboði var fátækr bæði at peníngum ok kunnustu. Sem brèf er læst ok albúit, hefir prestr hugsat sík, at hvert víl, sem úvænt efni veitir honum lands eðr lagar, vill hann gjarna þola fyrir guðs nafni ok hlýðni biskupsins, því tekr hann orlof með bæn ok blezan litlu eptir kyndilmessu, hefir skotsilfr, slikt sem herra biskup mátti fremst láta; ferr hann landveg austr til Oslóar, þaðan með fari til Danmerkr, svá til Þýzka[lands][1], leggr ei fót fyrr en hann kemr í Romam rètt fyrir cenam domini, heyrir hann á næsta dag, er herra páfinn flytr messu embætti at Pètrs kirkju, svá at umbergis hann standa þrenn[ar] tylftir alvæpntra manna, fær prestr þá hvergi nær komizt, líðr svá fram á vár, at honum þykkir ei vænt um sitt erindi. Á næsta dag fyrir festum Philippi et Jacobi, sem hann stendr á stræti, kemr undir dynr mikill, ok [því]næst sèr hann mektuga ferð riddar[a]ligrar herneskju, með allri þeirri hóf slekt ok heiðr, er konúngligt kurt plagar í veröldinni. Í miðjum skara lítr hann svá voldugan herra, at yfir hans höfut berst eitt pell með iiij pílörum uppreist. Ei sá prestrinn fyrr þvílíka hofferð ok hæ[ver]sku, [en] hann víkr sèr af þeirra veg, sakír úfremdar ok fátæks búnaðar. Litlu síðarr verðr honum sagt, at þessi herra er konúngr af Franz, ok skal vera í boði páfans á sjálfa krossmessu, en á næsta dag eptir mun herra páfinn halda þá stefnu, er konúngrinn skal inn ganga fyrir hann[2] með eyrindi síns ríkis, ok þeir fleiri, sem makligir reiknast at sjá herra páfann ok sínar greinir fyrir hann fram setja. Sú höll eðr herbergi, sem til þeirrar stefnu var skiput, stendr á eitt fagrt pláz yfir stólpa iiij nærri Pètrskirkju, vóru gráðar nökkurir upp til dyranna, at húsit var hátt í stöðu, var þangat innangengt ór herbergjum páfans, en þeir sem kölluðust skyldu um gráðana inn ganga. Lítið consistorium gekk annan veg af höllinni, er þat til þess skipað, at herra páfinn víkr þangat með kardinales til dóms, eðr skipanar þeirra luta, sem fram tjást í fremra húsinu, þvíat þenna tíma var sá síðr í kuria, at hverr ok einn, fyrir herra páfann kom-

1) þýðersku, 396. 2) ok, b. v. Hd.

andi, skal sitt eyrindi, bæn ok nauðsyn in scriptis fram setja fyrir hann án kallz eðr kæru, ok sem þessur brèf vóru fram sett með því fremsta skilríki er hverr hafði, veik herra páfinn í þat minna herbergi með sínum bræðrum. Líða nú dagar, ok vaktar prestr stefnutímann, hefir sik árla uppi þann morgin fram á gráðunum, stendr þar með brèf herra Guðmundar, ok áhyggju, sem honum var mikil manndygð í, biðar svá búinn þar til fram kemr Frakkakonúngs fylgð, með allri þeirri mekt er veröldin fágar mest. Prýði þeirra var sett með pell ok guðvef, eðr vildastu kyni ýmissa klæða, hvar af prèdikast, at honum muni skamt til skeytíngs, ef hann snertr þeirra hóferan með fátæki sínu. Hann skorar nú fast á vára frú ok bæn meistara síns herra Guðmundar; eru því næst dyrr upp loknar, ok konúngrinn inn leiddr með annat hoffólk sem skipan diktaði; gengr þá svá mikit afl í hjarta prestsins, at hann berr sik rètt fram í miðal þeirra, ok sakir þess at engi maðr hratt eðr hæddi hans göngu, skilst honum þat, at engi maðr sjái hann hvar hann ferr. Sem konúngrinn kemr fyrir herra páfann, fellr hann fram sem allir út í frá, víkr herra páfinn þegjandi sinni hendi konúnginum til sætis svá at tveir kardinales sátu meðal. Tveir kardinales stóðu fyrir herra páfanum á knjám ok hèldu einn dúk, skyldi þar í leggja öll þau skripta, sem greind vóru; lètu þeir allir hönd fylgja sem næstir vóru, en aðrir vurpu til sem kyrligast. Prestr herra Guðmundar stendr fjarri, ok því kastar hann sínu brèfi ok biðr guð stýra. Svá var, þvíat rètt kom niðr í miðjan dúkinn fyrir herra páfann. Er nú lítið, áðr þeir taka orlof er inn gengu; víkr þá herra páfinn, sem sagt var. Ferr prestr til herbergis síns, ok fær enga vissu, sem Frakka konúngr tekr orlof. Líðr nú fram vàrit, þykkir presti seinkast, þvíat peníngar skrapa lítt í púngi; hefir hann sik optast á daga nærri Pètrs kirkju eðr herra páfans garði. Sjálfan uppstigníngardag stendr hann enn nærri kirkju hins sæla Petri, ok sèr upp á smíðit, ok því næst lítr hann upp í múrinn at virðuligr maðr kemr fram at einum glugga ok talar nökkut. Prestr rennr upp undir vegginn, ok víll til heyra, ef til hans verðr talað. Þá segist svá til hans af glugganum: si nuncius Godemundi episcopi de Islandia præsens est, veniat; þat er svá at skilja: ef sendiboði Guðmundar biskups af Íslandi er nálægr, komi hann. Prestrinn tekr til klerkdóms sins, ok svarar vel hátt:

sum: ek er sá. Síðan teiknar maðrinn hendi sinni út af glugganum, at prestr taki sæmiliga þat honum sendist. Hann breiðir í sundr kápuskaut sitt, ok fellr rètt niðr í mitt. Prestr hneigir manninum, ok rennr til herbergis, leysir til ok sèr hèr undir brèf með herra páfans bulla; verðr þá fegnari en frá megi segja, leggr land undir fót, ok hleypr svá norðr eptir löndum, at á tuttugta degi ok þrettánda kemr hann í sjátún aptr í Rauðstokk, gengr þar þegar í kugg, er albúinn liggr fyrir bænum, fá þeir hraðbyri til Björgynjar. Af Björgyn kemst hann þegar í Þrændafar, ok lægja eigi fyrr [en] við Agðanes. Næsta kveld fyrir Jóns messu baptiste koma þeir undir Hólm, en árla Jónsvöku myrgin fær prestr sèr bát ok flyzt inn til Eyra, gengr upp í garðinn, ok til þess herbergis, sem herra Guðmundr biskup hafði áðr hann fór braut, bangar á dyrr ok klerkr lýkr upp. Prestr spyrr, hvárt biskup er heima. Klerkr segir hann gera bæn sína. Klerkr þessi var norrænn, ok kennir eigi hverr var. Prestr segir þá: seg biskupi at maðr er kominn af fjarlægjum hèruðum ok vill sjá hann. En síðan klerkr flytr svá biskupi, ríss hann upp frá bæninni ok gefr blítt orlof, en er prestr kemr inn, stendr biskup upp móti honum, ok faðmar hann, verðr þar fagna fundr mikill; setjast síðan niðr báðir samt, ok spyrr herra biskup vandliga af ferðum hans ok eyrindislokum. Prestr segir greiniliga þat hann hafði til, ok selr páfabrèfit í hönd biskupinum. Biskup tekr brèfit með vegsemd, kyssir bullam ok mælir svá: Þess væntir mik í drottni mínum, at nökkura huggan öðlist ek fyrir þik it góða brèf. Líðr nú svá fram tímum yfir formessur, er segjast í Kristskirkju, ok sem þær eru endaðar, gengr herra Guðmundr til herbergja erkibiskups; er honum sagt, at hann less bænir sínar in secretario. Herra Guðmundr gengr fram at dyrunum ok knýr; en svá sem lokusveinninn upp lýkr, ok spyrr hverr svá snemma únáðar einn erkibiskup, þá svarar Guðmundr biskup: seg herra þínum, at ek, Guðmundr Arason, vildi finna hann. Sem þat er gert, segir erkibiskup: hvað vill hann oss, nema tala eitthvert af sínum málaferlum, en vèr erum þar til eigi liðugir, því vèr gjörðum þat vèr munum gera. Snýr sveinninn aptr ok segir biskupi svá fallit. Herra Guðmundr segir enn: far nú, ok seg erkibiskupi ljósliga mitt eyrindi, at ek hefir herra páfans brèf nýkomit af Róm at sýna honum. Nú sem

herra erkibiskup heyrir þetta, signir hann sik ok segir: lát hann ganga, þvíat maðr svá vel reyndr mun eigi með fals fara, þótt svá fallit orð sýnist ótrúligt. Herra Guðmundr gengr innar, hneigir erkibiskupinum, ok selr honum þegar í fyrstu bert brèf herra páfans með knèfalli ok kossi. En svá sem herra erkibiskup lítr sannleik þessa hlutar, er svá skrifat, at hann hneigði sín bæði knè fyrir Guðmundi biskupi með þvílíkum orðum: fyrirlát mèr, góðr guðs maðr, at ek hefir þèr minni virðíng gerva en ek skil at skyldugt er, þvíat þínir vegir fljóta fram í guðs miskunn. En lítillæti herra Guðmundar var þessi hlutr eigi með öllu lèttbærr, at svá völdug persóna knèfellr honum. Síðan sitja þeir báðir samt; spyrr herra erkibiskup þá, hversu herra Guðmundr hefir aflat brèf þat. Hann greinir, hversu prestr hans hefir fátækr farit ok fram komit. Erkibiskup dásamar mjök þenna hlut, þvíat hann veit vel eiginni raun, at þessi er í curia nýr háttr brèfanna, at þau leysist út, svá at hvárki komi þeim í nánd fè nè flutníngr. Hèr með skoða þeir brèfit ok finnst í líkn formi sem herra Guðmundr setti sitt brèf með artikuleran, svá at grein svaraði grein út í enda. En þótt bóklausir menn segi af þessu brèfi, at sæmd herra Guðmundar væri sett undir dispenseran herra Þóris erkibiskups, er sannara, at hans tign var lagin undir eigin sjálfræði, hvat hann vildi: resignera eðr halda biskupsdóminn; þat váttaði virðuligr maðr Laurentius, ellifti Hólabiskup, at þann tíma prestdóms síns, sem hann var í þjónustu Jörundar, þrettánda Nidrosiensis erkibiskups, sá hann þat páfabrèf, er Guðmundr biskup fèkk í curia, ok greindi svá fallin páfans orð þar standa: si vult cedere, cedat. Þessi latínuorð hafa þann skilníng, með liðugri norrænu, sem fyrr var greint, til sæmdar herra Guðmundar biskups; ok í enda brèfsins setr herra páfinn þat ályktarorð, at hann vildi þiggja með várs herra náð, at allir biskupar í kristninni líktist þessum Guðmundi, at misverki þeirra yrði engi hærri, en miskun ok várkynd, þó at lagavegr sýndist aflaginn. Sama dag hins sæla Johannis var herra Guðmundr í boði erkibiskups, var þat ei undranarlaust með mörgum er inni sátu, hversu stríða erkibiskups vendist brátt í blíðu, þvíat þeim var úkunnig sú gjörð guðs miskunnar, sem næst var ritin. Síðan lætr erkibiskup snara páfabrèfit í norræna túngu ok lesa yfir kór á

Pètrsmessu í sjálfri Kristskirkju; lýsir þar með í tölu sinni fyrir öllum lýð, hversu þetta brèf hafði aflazt mót öllum vana. Fèkk herra Guðmundr hèðan af at verðugu svá mikla sæmd, sem guð vildi; var hann í boði erkibiskups, ok Rómferðar prestr hans, á Pètrs messu; sagði prestr þá erkibiskupi frá ferðum sínum til skemtanar; tók herra Guðmundr útskript norræna páfabrèfsins, ok flutti til Íslands með sèr, þann tíma sem guð gaf hann fram, en sitr nú fyrst í Niðarósi, harðla sæmiliga virðr af erkibiskupi bæði með veizlum ok fègjöfum; líkti þar eptir mart stórmenni í Noregi. Herra erkibiskup hefir sik nú allan til at gera fagnað heilagri Hólakirkju ok hennar formanni, því skrifar hann til Magnum Skalholtensem, ok ávítar hann fast um sljóleik ok úeinörð móti þeim guðs úvinum, er æ leiða sinn hernað ok hatrligt sverð upp á kirkjunnar frelsi, er hennar rèttarbótum, sem lærdómsins, vilja með gráðugri grimd allan veg fyrirkoma; þar með ásakar hann biskupinn fyrir þat, er hann samsetti sinni vináttu þá menn, er í svá ljótum ósóma eru sannreyndir. Önnur brèf skrifar hann til Sturlúnga, boðandi þeim biskupliga án allri vægð, hversu í háfan helvítis [pytt] þeir steyptust fyrir þá glæpi ok guðs reiðis verk, er þeir hlóðu sèr með ódæmligri dirfð í Grímseyjar för, býðr þeim undir bruna bannsins, at þeir sæki til Niðaróss, ok snúi til sættar við guð ok sinn formann, herra Guðmund biskup; en sakir þess, at Sighvatr Sturluson var nú sem fyrr eigi helvítis skjarr, virðir hann ei meira erkibiskups orð en einn óbúinn spora, sem ritað er: peccator cum venerit in profundum, contempnit; kýss hann heldr at sitja heima á Grund í Eyjafirði, en hafa sik undir afarkosti ok álögur kennimanna; gefst honum ok færi enn um leik, at hafa frið með syndinni, þvíat Þórir erkibiskup vannst eigi til at þrýsta honum, sakir þess, at eptir þrjú ár liðin lèt hann sitt vald með lífinu; þótti herra Guðmundi þat mikill skaði, þvíat með þeim var þá vorðin heitasta vinátta; sat hann þó í Niðarósi, þvíat ei þótti vænligt at vitja til Íslands, leiddi hann þá enn sem fyrr einfalliga sitt líf, ok var optliga einn í herbergi, ok þjónustumaðr hjá honum, þegar svá mátti. Lengstum var hann á bænum, bæði nætr ok daga, þegar meðal var annarra nauðsynja. Svá hèlt hann með staðfesti mildi ok ölmusugæði, at þó at honum veri gefnir hnossa gripir, veitti hann glaðr fá-

tækum, hvort er hann var heima eðr utanlands; enga elsku hafði hann í fallvaltri blíðu eðr fjárlutum heims þessa. Því var hann guði kærr ok góðum mönnum, at öllum þeim var ljóst hversu líðandi hlutir lágu lágt undir hans fótum, sem í því lýsist er eptir ferr.

62. Þórir erkibiskup gaf herra Guðmundi einn vænan silfrbolla; er hann geymdr, en eigi gefinn fátækum, um nökkura daga, þar til hann ferr líka leið ölmusugæðis með táknsamligu sundrskipti, sem fyrr var sagt af borðkerinu í næstu Noregsferð herra Guðmundar. Svá gengr til um dag, sem guðs maðr sitr í sínu herbergi, ok þjónustuklerkr í hjá honum, at þar koma inn þrír fátækir menn, ok biðja ölmusu í guðs nafni ok várrar frú. Biskup sèr um sik eptir vana, ef nökkut veri handbært at gefa; en sakir þess at fèmunir fálust fyrir augum, spyrr hann klerkinn, ef silfr veri nokkuð laust at gefa váluðum. Hann svarar: minn herra: allt er brott gefit, ok lánum út látið, svá at ei finnst peníngr eptir utan bollinn erkibiskupsnautr ok þætti mèr hann eigi stafkarla eign. Biskup talar: mik minnir svá skrifat, at fátæks manns hönd sè fèhirzla várs herra, því fá mèr bollann, hann fær aldri betra stað. Sem biskup hefir við tekit, lítr hann í lopt, ok segir svá: einn er hlutr, en þrír biðja, skipaðu, drottinn, hvat hverr skal hafa; varpar síðan bollann fram á gólfit svá einkanliga[1], líkt ok fyrr, at hann stökk í sundr í þrjá parta, svá meistarliga vegna, at engi var öðrum meiri. Taka þá fátækir sinn hlut ok biðja himneskan konúng ömbuna biskupi vena gjöf. Svá kvað Einarr Gilsson:

Söngs, nam hreytir hrínga
hugdyggr stofu byggja,
klerkr var einn til orku,
ormbekks, með gram þekkum,
kómu árar aumir
inn benstara minnis,
þar er Guðmundr greindi
góðverk, þrimu serkjar[2].
Báðu biskup meiðar
byrhrafns í guðs nafni

---

1) fram á gólfit, b. v. Hd. 2) sterkrar, 396.

heiðrs ok hilmis móður
himins ölmusu fimrar;
spurði grepp sá er gjörði
glóðeims at fèsjóðum,
ei var auðs á mýgi
uggr, Krists limu hugga.
Njörðr kvað eptir orðit
ítrleygs vera þeygi,
eyðist silfr í sjóðum,
svanbíngs at penníngum,
nema skál sú er hirð hælir
hvít at ei sè lítil
örr ok yðr nam herra
ættstórr gefa Þórir.
Okkr skal eigi þykkja
ofgóðr[1], himins, fróðum,
þræll kvað þengils, bolli
þýðr guðs vera lýðum,
þvíat gjöf sem helzt hæfir
hlýrs gæðu[2] vit, fýris
meiðr hygg at því móðu
mætr, heimstöðu gæti.
Ker lèt handa hyrjar
hlynr snarpliga varpat,
skiptu nú Skjöldúngr leiptrar
skál, kvað eyðir tála;
svell brast, siklíngr olli
siðvandr, í þrjú handar,
árs því at allir vóru
ölstafns hlutir jafnir.
Fóru Fundins herja
flaums þakkandi aumir
Gautar venum veiti
víns ástgjafir sínar;
gjörst mun hlýrna hæstra
hildíngs vita mildi
góðr hvat guðs til náða
Guðmundr hefir stundat.

1) ofgóð, Hd., 396. 2) greiðu, 396.

Svá stendr skrifat í bókum, at í þessari síðustu utanferð vann herra Guðmundr svá mæta hluti ok mjök ágæta, bæði með virðuligum verkum ok spásögum, at ei gleymist með norrænum mönnum, heldr lifir þar hans minníng án afláti, þótt sakir fáfræði kunnim vèr eigi letrliga setníng þeirra tákna, utan þat eina þrennt, sem hèr stendr næst: Miðil Þrándheims ok Björgynjar liggr sá sjár, er heitir Hjörúngavágr, þar barðist forðum Hákon Hlaðajarl við Jómsvíkínga. Í þeim stað varð svá mikit undr, at einn ormr með xij lykkjum flotnaði upp ór sjánum, ok lá optsinnis um þveran váginn, en leyndist stundum í kafi, ok kom þá upp er verst gegndi mönnum ok skipum, þvíat inn á váginn var gott lægi; fèkk því margr hèr fyrir úhagligan steyt. Nú berr svá til, sem herra Guðmundr siglir sagðan veg, at skiparar vildu gjarna fá lægi á Hjörúngavági, ef úvinrinn bannaði eigi, en nú hittir eigi til vænligarr, en þeir sjá allir orminn uppi liggja þvert yfir váginn. En er herra Guðmundr heyrir klið ok kurr Austmanna, ok undirstóð hvaðan leiddi, talar hann svá: leggit til hafnar sem yðr lystir, guð mun til gæta! — Skiparar treystu svá mikit í hans orðum, at þeir leggja at váginum, ok sem skipit nálgast orminn, gengr biskup fram í lokit með bæn ok vígt vatn, ok dreifir fram yfir ormslykkjuna; en er skipit rennr fram í staðinn, lægist ormrinn undan, svá at liðugr vegr veittist inn á höfnina; lágu þar um náttina, en um myrgininn mátti sjá mikit verk himnakonúngsins: ormrinn var bolaðr sundr í xij stykki ok svá kastaðr á land; varð þar aldri æfinliga mein at því skrímsli, ok öngu síðan þvílíku.

63. Annan tíma berr svá til, sem herra Guðmundr ferr landveg austan um Kjöl ok markbygðir it efra til Þrándheims, at hann tekr gistíng á þeim bæ, er á Vangi heitir, dvelst þar eina nátt ok ríðr þaðan næsta morgin yfir stóra mörk, er kallast Vangskógr. Þar tekr þá æðistormr, svá at hestar fá varla stýrt sèr, ruglast þá ferð biskupsins, þvíat hverr leitar fyrir sèr, þar til er borðprestr herra Guðmundar leiðir hugsan, hversu flatliga þeir fara ef engi sæmir við formanninn; því snýr hann aptr í veg, þótt hart blèsi í mót, ok sèr um síðir at herra Guðmundr sitr á hesti sínum ok stendr á mót austrætt, en er þeir [finnast] sèr prestrinn, at hann hefir sútfengna ásjón, því talar hann svá: ek bið fyrirláts gleymsku minnar, bið ek þar með, at þèr segit mèr hver úgleði angrar yðr nú. Biskupinn svarar: kalla

má at harmr þessi sè mèr nökkut fjarlægr, en þó er eigi glatt at sjá, at veraldarmenn úskriptaðir steytist niðr í sjó. Prestr spyrr: hvat er um þat, minn herra? — Biskup svarar: Ólafr bóndi af Berudal, er þú munt heyrt hafa nefndan, x tigir manna ok tveir týndust á þessari stund í sjó, ok með því at drottinn minn virðist mèr þenna hlut sýna, bað ek miskunnar fyrir þeirra sálum, er svá skjótliga kölluðust af heiminum, ok svá biðr ek, at þèr gerit allir samt; munu þèr frètta þessi tíðindi enn greiniligarr, sem vèr komum í kaupstaðinn. Eptir svá talað ríða þeir sinn veg; en er þeir koma til bæjarins, prófa þeir alla hluti svá vorðna, at Ólafr bóndi tapaðist á sömu stundu, með svá mart fólk sem fyrr var sagt. — Í Noregi út af Sogni ganga tveir dalir mjök stórir ok fjölbygðir, Sóknadalr ok Læradalr, en upp af þeim stendr bygð [við] fjallgarðinn, er landsmenn kalla á Tálgi. Í þessari bygð vóru þenna tíma reimleikar svá miklir, at bygðarmenn þóttust náliga upp eyddir; heitið var fyrir áfelli þessu, ok varð þeim fjándum eigi á flótta komit, heldr var þeirra yfirgangr því meiri ok mönnum úbærri. En sakir þess at fregð herra Guðmundar flaug nú í hvern dal, sækja þeirrar bygðar menn á hans fund, sem hann ferr yfir land þar í nánd, ok tala svá: þú blezaðr biskup, segja þeir, legg oss gott ráð, þvíat vèr eigum at þreyta við fjándr sjálfa, er[1] eyða undan oss lönd vár ok óðöl, má þat rèttiliga segja, at vèr megum hvárki óhræddir fara síð nè snemma. Herra biskup svarar: synir, verit hugsterkir, guð mun græða, en sakir þess at ek er nú farfúss, má ek ei ríða yfir jarðir yðrar, því mun ek vígja yðr brunn, ef þèr vilit, en vatn úr þeim brunni skulu þèr sjálfir dreifa yfir landeign yðra, ok mun batna, ef trú bilar eigi. Þeir taka þetta ráð með þökkum, vígir hann brunn, ok ferr á brott síðan, en hèraðsmenn gera eptir hans tillögu, bera vatn um hús ok herbergi, eng ok akra, ok hvervetna um sínar bygðir, til hinna yztu endimarka. Fór eptír guðs vinar orðum, því at allr sá fjandaflokkr flý[ði] brott, svá at hèraðit var alhreint alla götu síðan; veittu þeir ok þeirra eptirkomendr fyrir þenna atburð mikla vegsemd hinum góða Guðmundi biskupi, ok hans vígsluvatni, allt til þessa dags.

64. Eptir Þóri erkibiskup framliðinn af veröld vígðist Sig-

1) ok, Hd.

urðr, áttandi Nidrosiensis erkibiskup; sèr nú Guðmundr biskup, með ráði herra erkibiskups, at sá einn mun til, at vitja Hólakirkju, þótt eigi sýnist vænligt um frið eða hlýðni. Því tekr Guðmundr biskup orlof, sem hann hefir setið fjóra vetr í Noregi, siglir fyrst til Björgynjar snemma um várit, ok bíðr þar skipagangs; hefir svá guðs mildi gengit um biskupsins kost, at hann býst ríkari á brott en hann kom. Sem Íslandsför eru búin ok skiparar leysa eptir á næsta dag ef til fellr, gengr biskup til Maríukirkju ok felr guðs móður á hendi allan sinn veg bæði fyrr ok síðarr. En á næstu nátt eptir birtist honum blóm heilagra manna, blezut júngfrú sancta Maria, með mikilli blíðu ok hunangligri orðræðu, sem eigi er manns at greina, sagði hún honum marga hluti fyrir, bæði úorðna ok umliðna mjök í fjarska, ok þá er herra Guðmundr biskup sagði vitran þessa æztum sínum trúnaðarmönnum, lagði hann þat til, at drottníng himins ok jarðar gaf honum sína blezan at skilnaði. Eigi viljum vær vísdóm á bera, meðr því at eigi finnst skrifat, hvárt signuð guðsmóðir hefir í þeirri vitran sagt honum þat, er hún hafði litlu áðr birt, af upprisu síns líkama, en þat er vísvitað, at herra Guðmundr bauð þar um einum klerk, kærasta sínum vin, ef sú nýjúng kæmi skrifuð til Noregs, skyldi honum senda til Íslands þat sama skript, sem skilríkast mætti hann fá; er þat efalaust, at þetta gjörðist í síðustu utanferð hans, ok þat brèf kom til Íslands, sem síðarr mun greinast; gefum vèr þat mál upp á guðs vald, hvárt herra Guðmundr heyrði þat í fyrstu af munni várrar frú, eða dauðligs manns. Sigldi herra Guðmundr á sama sumri til Íslands, ok tekr land þar er Borðeyrr heitir í Hrútafirði, er fyrr var nefndr. Mjög fljótt, þegar hann stígr fæti á landit, gengr at honum ein kona ok biðr ölmusu. Herra biskup kennir konu þessa, at hennar bóndi var einn af fylgðarmönnum Sturlúnga í Grímseyjarferð, því svarar hann svá: þykki þèr bóndi þinn makligr, þótt nú sè hann undir lok liðinn, at ek gefa fè börnum hans, þvíat nær stóð hann Sturlu en mèr í Grímseyjarför? — Konan svarar: hvað mun ek mín njóta nè hans, heldr þess huggæðis, er þú veitir öllum mönnum, er þik sækja í sínum þröngslum? — Herra biskup svarar: far suðr yfir heiði á þann bæ, ef þú vilt þiggja hálfa kvígu, er várri frú ok mèr var gefin í vetr, þar með legg ek þèr x aura varníngs, ef þú leysir kvíguna til þín. Konan svarar:

hverr sagði þèr, minn herra, at þèr veri kvíga gefin, með því at þú fannt engan mann til frásagnar á landi? þykki mèr mæða mikil at fara suðr um heiði ef eyrindit eyðist. Biskupinn svarar: sè ek nú, at þú rennir grunum á mína sögn, ok lokkar mik svá til gjafa. En far nú ef þèr líkar, ok haf frjálsa þá x aura er ek gaf þèr; en ef þik brestr nökkut í sögn minni skaltu eiga hjá mèr jafngóða kvígu, sem ek sagða þessa vera. Konan verðr nú grátfegin, ok biðr þann ömbuna biskupi, sem einn gefr öllum alla góða hluti; ferr hún veg sinn, ok finnr utan fals, at herra Guðmundr var mjök trúlyndr bæði með orði ok verki; naut hún ok hans gjafar bæði vel ok lengi; má þat líklikt þykkja, at þenna casum hafi vár frú sagt vin sínum meðal annarra hluta.

65. Herra Guðmundr biskup ríðr frá skipi norðr á hèruð í sýslu sína, ok allan beinan veg heim til Hóla; verða frendr ok vinir, ok einkanliga fátækir menn, hans tilkvámu fegnir, því at mjúklæti hans ok línkind stóð hin sama, ok í öðru lagi biskuplig einörð mót vándum mönnum; svá at fyrir öngva þrýstíng þrekaðist hann um aldr frá rèttri hirtíng, því ferr hann fram móti þeim er eptir lifðu ok svara máttu sínum glæp í Grímseyjarför, setr þeim bæði föstur ok fèpínur, líðr þá eigi langt áðr gömul óhlýðni ofrar sèr, ok veyk iðran iðrast yfirbótar ok fær siðan verra fall en fyrr, þvíat fyrir þvilíkra undirrót ok rangan úvana hèraðsmanna í Skagafirði hófst sami kurr í móti biskupinum af eyðslu hans ok úhagligri skipan mikils mannfjölda; því taka þeir þat ráð, sem þeim samdi sízt, at gera orð Sighvati Sturlusyni, at hann taki nú enn í tauma með biskupi. En því leita Skagfirðingar til Sighvats, at meingera biskupinn, at Arnórr formaðr þeirra var undir lok liðinn, ok hans sonr, er hèt Kolbeinn úngi, eigi fullroskinn at taka þá erfð eptir feðr sinn, at útlægja Guðmund biskup; var því Kolbeinn úngi á þessum tíma í siglíngum meðal Noregs ok Íslands, þvíat faðir hans leifði honum lítið góðs í heiminum, ok því varð hann at ryðja sèr til rúms, sem síðarr mun getið. En svá sem af líðr vetr, ok herra biskup verðr viss, at Sighvatr er egndr enn af nýju á hans skaða, vill hann heldr hliða undan en bíða þess manns heima, er hann vissi sízt virða fyrir sèr at hlaupa í eldinn, ok því ríðr hann sem várar í vestra hluta lands, í syðra biskupsdæmi; fór nú sem fyrr, at hverr góðr

maðr, sem hann tók eðr hans fólk með vildustum föngum, fèkk bæði, sem trúist, stundliga amban, ok þar með eilífa, þvíat guð sýndi þat í mörgum stöðum, með ágætum verkum, at hann gaf þeim blíða þökk, er frjálsliga fæddu þann signaða gest, þótt vèr kunnim fátt greina af stöddum atburðum. Svá berr til einn dag, sem herra Guðmundr gerir sinn veg með mart fólk, ok hefir skipat gistíng sína sama kveld hjá einum bónda, sínum kærum vin, er búgarð átti nærri sjó, at nökkurir tala með hans [fylgð, at betr sè gert við bóndann, ef þeir ríða eigi á úvart upp á hans garð. Þá svarar herra biskup: látið kyrt vera, guð mun fyrir búa ok senda vin sínum góðan rètt, at ekki mun skorta. Eigi brást þat er biskup sagði, þvíat sá bezti hvalr, er reyðr heitir, var rendr upp á reka bóndans, sem herra Guðmundr reið í garð; fèkk bóndi þá tvennan fagnat: herbergði góðan gest ok gladdist af ágætri guðs gjöf. Í annan tíma berr svá til nökkut líkt, at hann sitr með alla sína fylgð [ei minnr en sjau nætr[1] hjá einni vinkonu sinni, er bygðir átti sjó nærri, var með þeirri húsfrú svá mikill örleikr, at öngri sinni eign þyrmdi hún fyrir skyld biskupsins; því kemr hún til hans eptir svá lángliðit sem áðr var sagt, ok talar svá: minn herra, segir hún, kostr okkarr grynnist á garðinum, en ek á kýr tvær feitar, ok þær skulu fá báðar slag á þenna dag. Herra biskup svarar: guð mun ambona þèr, sæti mín, hversu trausta vináttu þú veitir mèr, þvíat í hennar verð veitir þú alla þína aura blíðliga, en þó vil ek ráða, at ei skal kýrnar drepa, þvíat mín frú, sancta María, má leggja okkr þá gleði, at búi þínu falli lèttara, þvíat eiga muntu reka nökkvern ein samt. Sannliga, herra minn, sagði hún, á ek reka fyrir landi mínu, ok svá úheppin, at aldri kom rekald á í manna minnum. Biskup svarar: gefum ei því gaum, því engi hlutr er guði um megn. Líðr næsta nótt, ok árla myrgininn talar biskup: farit piltar ok sjáit yfir reka húsfreyju, mik hefir fengiliga dreymt í vàr. Þeir fara, ok bera aptr þau tiðindi, at yfir þat grunn eðr útfiri, sem liggr undan landinu, var rend sú vænasta reyðr, sem varla sá maðr þvílíka ór hafi komna, var hún ok fyrst ok síðast á þann reka, eptir því sem bækr segja, hvar fyrir lof ok dýrð várum herra eilífum konúngi allra veralda! — Enn var sú önnur húsfrú, er tók herra Guðmund með allri blíðu ok bazta kosti,

1) [b. v. 396.

ok þann tíma, sem guðs maðr skal af garði ríða, biðr hann ganga um sín herbergi, bleza kost hennar, segist trúa, at allir hlutir batni með hans blezan. Biskup gerir sem hún biðr, gengr í matbúr hennar ok sèr yfir, stóð þar á íslenzku stórt ker með búnyt, ok í öðrum stað smjörspann vel mikit. Þetta bæði signar guðs maðr ok ferr síðan brott. En tíma síðarr koma ránsmenn í þá sömu bygð, ok taka með ribbaldaskap þat bændr áttu, einkanliga mest þat er búkosti tilheyrir; grafa þeir gráðugir vargar fast eptir, hvar smjörkaup veri bezt í bygðinni, en sakir þess, at þat er háttr í vesöld at hverr víkr í frá sèr, verðr þeim sagt, at húsfrú, er vèr gátum, er fullrík þar um. Þeir koma til hennar ok fala smjör; hún segist engi kaup meðr þeim gera munu. Þeir segja, at þá skal hún svá láta, at hafa illt eitt í mót. Hún segir þat munu fara sem auðna fellr til. Þeir hlaupa inn í bæinn, ok spyrja hvar matbúr er. Hún biðr tröllin vísa þeim veg. Þeir finna dyrr ok brjóta upp, ok ganga fram í húsit, ok sjá þar ker stórt, sýnist þeim þar í afskurðir ok skinnleppar, en ekki matvænt. Innar í krá sá þeir standa í skugganum grjótklett gráan, hann er svá harðr sem hègettill fyrir öxarhyrnum, sá er mest óbergan kann verða. Ribbaldar segja þá, at þat mun smjör vera, þótt þeim sýnist grjót, sakir fjölkýngi þeirrar herjans kerlíngar, en hvat illt sem þeir tala, hafa þeir svá búit, þvíat drottinn minnist bænarorða síns elskara, ok varðveitti konunnar góðs með sínum almætti, svá at ei lèt hún eins penings verð; fóru ránsmenn brött með bannan, en hún lofaði guð, er ríkir um veraldir. — En svá marga líkamliga ölmusu, sem herra Guðmundr framdi við fátæka menn guðs, vóru þær þó litlu færri hans ölmusugjörðir, er þurftugir þágu fyrir andligan krapt hans voldugra verðleika. Svá bar til einni fátækri konu, er átti börn mörg í húsi, ok matar[kostr] var ei meira en einn sauðarlimr, þar með átti hún einn kálf, ok hann vill hún nú skera; var þar brunnr herra Guðmundar í nánd henni, ok þann morgin sem hún hugsar at sundra kálfinn, ok tekr hún vatn af brunninum ok gefr honum drekka, festir síðan upp stóran ketil, ok lætr þar í svífa kálfinn ok sauðarlimiun, ok þá er hún skal upp færa, er ketill fullr með feiti, svá at hún bar öngva skyn yfir, utan allt þat vatn, er hún bar í ketilinn, væri vorðit sú feiti, sem kjötið kann ákafligast af sèr gefa; var þetta samt svá mikit fullfengi, at hún ok hennar börn máttu vel haldast. — Sú

var önnur kona, er enn sat í nákvæmd við brunn herra Guðmundar, ok eitt vár sækir hana ok hennar börn mikit húngr; tekr hún vatn ór brunninum ok setr yfir eld, kastar þar yfir síðan þat gras, er margir menn hafa til lífs næríngar í því landi, ef einföld mjó[l]k eðr betri kostr ferr með; en hèr varð móti náttúru þá er vatn herra Guðmundar samtempraðist grasinu, ok snerist þeim í fæzlu er fátækr var, fyrir hægri handar skipti græðara várs Jesu Christi. — Sú var þriðja ölmusukona, er sat á sömu leið með mörg börn í húsi, svá meinliga þröngd, at öll líkamlig næríng var uppi; gráta þá börnin sárliga í ásjónu móðurinni, þvíat húngr kvaldi þeirra kvið. Móðirin leitar at hugga þau með orðum, ok vinnr þat eigi; síðan tekr hún ráð annat, segist í stað skulu til fara, ok festa upp ketil ok sjóða; börnin hlakka þá ok huggast, setjast umbergis eldinn, ok hyggja gott til matar síns. Móðir þeirra lætr vatn í ketil, ok þar í niðr skýtr hún elditorfi með svá klókligu yfirbragði, at börnunum mátti líkligast þykkja sem kjöt veri. En rètt á sömu stund, sem varma[1] tekr í katlinum, heyrir konan sagt, at herra Guðmundr Hólabiskup ríði þar um garð; hún tekr á rás fram á veginn fyrir hann, tjár grát ok húngran barnanna meðr eymd ok öreign, segir ok hvat hún hefir gjört þeim til hugganar. Biskup svarar: sannliga þykki mèr þú mjök ráðleitinn at hugga börnin, legg ek þat til, at þú far inn til sýslu þinnar, en ek skal biðja mína frú, at hún veiti þèr huggan. Skilja þau, ok ríðr herra biskup sinn veg. En er hún kemr inn til elds, hlaupa börnin at henni ok fagna, segja, at vel sè soðit í katlinum ok mál upp at fera. Konan gengr til ok sèr dásamligan hlut, at ketillin flýtr ofan með kjötligri feiti, fyrir þá grein guðligrar miskunnar, at torf var í brott horfit en hann fullr með kjöt; var þat síðan svá drjúgt upptaks, at börn höfðu inóg þar til aðrar guðsgjafir kómu. Er þessi hlutr svá frægr at ei má fyrnast. Hèr um kvað Einarr Gilsson þrjár vísur, [ok er þetta upphaf:[2]

Ljós var hríngs í húsum
Hörn með sínum börnum,
stríð lá þorns á þýðri
þöll, húngröðum öllum.

---

[1]) 396; varla, Hd. [2]) [v. í 396.

ketil rèð flokks[1] at flytja
fári hreld at eldi
trölls af torfi fylldan
tundr lagði Sif undir.
Glöddust jóð, en eiðu
æ var þjóstr í brjósti,
svöng til fóðrs ok[2] fanga
fús er[3] rauk í húsum;
hèt með gildum gráti
Guðmundr at [fá mundi
huggat[4] hyrjar döggva[5]
Illín veslínga sína.
Sæll kom synda fellir
sáttargjarn til barna,
ketil vann hölda heitan
hýrr blezaðan stýrir;
en þegar fljóð at fæðu
fór leitanda heitri,
slátr fannst ærit ýtum,
allt torf var þá horfit.

Einn mörgin árla, sem herra Guðmundr er varla klæddr, ok sitr í náðhúsi á einhverjum bæ, í sömu reið sem fyrr var byrjuð, kemr einn litill piltr inn farandi alnöktr, ok kallar á biskup í ákafa, at hann gefi honum nökkut til klæða. Herra biskup sèr upp á hann litla hríð, ok talar síðan: áttu ekki klæðakyns, son minn? — Piltrinn sagði svá vera. Biskup talar: þá muntu þiggja vilja, þótt fèlítil sè fatagjöfin. Piltr játtar því. Biskup segir: far hèr niðr frá bænum til torfa bónda, ok undir þeim stakkinum, sem first stendr, muntu finna fata leppa, taktu þá ok kasta yfir þik, son minn. Piltinum finnst fátt um framlagit ok þakkar eigi. Biskup svarar: ek skal fá klerka mína tvá til ferðar með þèr, at þú villist ei vegar. Piltr stendr ok vill hvergi fara. Klerkar taka í hendr honum, ok leiða hann[6] nær nauðgan; koma niðr at stakkinum ok finna þar fata leppa. Klerkar segja þá: þessi klæði gaf biskup þèr, ok því far í. Piltr svarar: ekki gaf hann mèr þetta, ek kastaði hèr niðr áðan, þvíat mèr þótti engu nýt, vildi ek at biskup gæfi mèr betri

1) þann. (floks), 396; fús, Hd. 2) 396; til, Hd. 3) 396; en, Hd.
4) [þá skundi hugga, 396. 5) 396; dyggva, Hd. 6) h'm, Hd.

klæði. Far þú nú, segja klerkar, ok finn hann, kann vera, at hann geri sem þú hugsaðir, at bæta heldr um búnaðinn. Eigi þori ek nú, segir piltrinn, at finna hann, þvíat honum mun mislíka, er ek laug at honum. Klerkar segja: fara skaltu fyrir víst; bera kann biskup meiri meingjörðir hefndalaust. þeir taka hann nú ok leiða hann til biskups. Herra biskup talar: hví vildir þú, son minn, hègóma? Piltr svarar: því at ek hugða mèr til ávinníngs, en ei kann ek sjá, at María drottníng eða þú gæfir mèr þetta, er ek átti áðr. Biskup svarar: várr drottinn ok hans signaða móðir gefa þèr ok öllum alla góða luti, skaltu nú þiggja xij álnar vaðmáls, ok fara vel. Piltr verðr grátfeginn ok segir, sem prófaðist, at Guðmundr biskup var ágætis maðr í mildi sinni. Er þetta spádómskyn því samlíkt í alla staði, er sæll Gregorius váttar í fjórðu bók Dialogorum af guðs manni Ysac.

66. þetta sumar, er áðr var byrjat, ríðr herra Guðmundr biskup til þíngs meðr xxx manna, ok er með Snorra Sturlusyni um þíngit með allt fólk sitt. Af þíngi ríðr hann vestr til Borgarfjarðar, ok er þar um sumarit; drífr þá til hans mannfjöldi, taka Borgfirðíngar vel með biskupi nú sem fyrr, gefa honum yxn ok geldínga, eðr aðrar sæmiligar gjafir. Á því sumri gerist í hans ferð sá lutr, er brosligr má kallast. þat er eitt kyn í því landi, at vargr er þar engi, en hèr í mót fæðist þar með mikilli frjósemd þat fjalldýr, er menn kalla melrakka, ok því svá, at þat dýr liggr í urðum ok brögðóttum fylsnum, ok veitir þaðan árásir sauðfè manna bæði vetr ok sumar, með stórum sköðum. Eitt af greindum dýrum er komit í Borgarfjörð á þessu sumri, með svá soltnum gráð, at bóndi sá, er skaðanum mætti, þóttist vorðinn fyrir miklu áfelli. Ok sem þessi úgipta var inn komin, gistir herra Guðmundr á þeim bæ, kærir bóndinn skaða sinn fyrir honum ok biðr hann ráðs. Herra biskup svarar: líkar þèr, bóndi, at ek vinni bót dýrbitinu? Gjarna vil ek þat, segir bóndi. Kostar þik þat nökkurs[1], segir biskup. Hvat skal kosta? segir bóndi. þú skalt gefa ölmusumönnum mínum xx geldínga, þá er ek vel af öllu fè þínu. Eigi nenni ek því, segir bóndi, at gefa svá mikit. Biskup svarar: þú skalt ráða, en vilja muntu í myrgin þenna kost. Líðr náttin; ferr sauðamaðr árla til fjár, ok heim komandi

1) nokkut, 396.

segir hann bónda bitinn hinn bezta forustugeldíng, er hann átti. Bóndi segir biskupi sem vorðit er; eðr hvað er nú góðra ráða? segir biskup. Ek vil nú gjarna þann kost, er þèr buðut í gær, segir bóndi, þvíat allt mitt fè er upp gjört siðan forustusauðrinn er frá tekinn. Held ek því er ek bauð, segir biskup. Lætr bóndi heim reka alla sína geldínga, ok fær mann til at velja af biskups hálfu, biðr síðan, at biskup gangi til ok sjái sauðina. Hann gerir svá; er þat einvala fè, bæði at vexti ok holdum. Þakkar herra biskup bóndanum framlagit, ok skiptir miðil vina sinna, guðs fátækra manna. Síðan gengr biskup til kirkju meðr klerkum sínum ok leikfólki, skrýðist til messu með klerkum sínum, ok hefr upp með lágum tón þat officium, er bannsetning tilheyrir. En at lyktaðri þjónustu gengr herra biskup til borðs, ok er þann dag í góðum náðum. Árla næsta myrgin fer sauðamaðr til fjár eptir vana, ok finnr ekki dautt, utan einn stóran melrakka nærri fènu; hann prófar, hvað kappanum hafi vorðit at fjörlesti, ok finnr at hvert bein er brotit í honum ok sem brjósk vorðit, svá beit hann bannit; skildu þeir bóndi með mikilli vináttu. Er þessi eventus nokkut þeim líkr, er Bernardus ábóti vann, þá er hann bannferði stumpinn fyrir augum ríka manns, þvíat fyrir bæði þessi dæmi mætti skilja mjög vándr maðr ok úhlýðinn heilagri kirkju, í hvert bann ok bruna hann heldr sinni sál, þá er hann stendr með fullum sökum undir stórmælum biskupsins, er skynlaus skepna fær þvílíka bölvan fyrir afl orðanna. Hèr skal fara með annarr hlutr, at þessir báðir sýni, hversu bænarorð Guðmundar biskups báru mikit afl fyri guði, svá yfir dýrum sem mönnum, hvárt sem heldr er til lífs eðr dauða. Bóndi einn í þeim luta lands átti einn stóran rakka, hann var svá vitr, at hann skildi meðr vana hvað maðr bauð honum, svá af fjöllum ok ór haga rak hann heim sauð ok naut einn samt, sem mælt var; berr heim til bæjar hvat hann fann fèmætt í haga; varði völl ok veitur með svá vökru varðhaldi nótt ok dag, at bóndanum þótti engi kýr svá góð sem hundrinn. Nú berr svá til eitt sumar, at þíngmenn koma þar í veg ok slá hestum sínum í veitur bóndans, er lágu niðr undir túninu. En er rakkinn sèr þat, ræzt hann í mót heiman, ok kostar at reka í bröt hestana, en fær ekki at gert, fyrir þess sakir, at hann var einn en þeir margir. Bóndi ferr þá til með húskarl sinn ok veitir honum,

ok er þá búit til bardaga, þvíat þingmenn slást í með vápnum; skilja þeir svá um síðir, at bónda líkar eigi betr en fyrr, þvíat þann tíma sem þeir eru albúnir til bröttferðar, slæmir einn þeirra brugðnu sverði á hrygg rakkanum, svá at náliga tvískiptir skrokkinn. Bóndi bað fyrir þeim sem verða mátti, er þetta vann, en kastar hræinu hundsins einum megin undir túngarðinn, þvíat þaðan skammt var samaneign þeirra; þarf þat einkanliga í söguna þessu næst, at á þeim bæ var brunnr hins signaða Guðmundar biskups þar mjök nærri stöðu, sem rakkinn lá, ok þat fèll í brjóst bóndanum, án heiti nökkuru, at hann tekr horn fullt ór brunninum ok slær niðr í sárit, gengr síðan inn, ok hugsar at heygja hundinn þá er hann hefði tóm til, sem þá gjörðu menn mjök í því landi, ef þeir vóru náttúrugripir í nokkuru lagi. Annan myrgin, sem hann kemr í sama stað, er rakkinn allr í bröttu, ok svá líða þrjár nætr; ætlar bóndi þá, at ernir muni hafa brott borit. En eptir svá langt liðit, kallar heimamaðr bónda árla myrgins ok segir svá: hvað mun vera, bóndi! sagði hann, ek þóttist heyra til rakka þíns uppi á húsum, ef þat mætti verða? — Bóndi svarar: engi lutr er guði um megn, þvíat hann hjálpar alla sína skepnu. Þetta þarf ei lengra, en þegar er bóndi kemr út farandi, rennr rakki hans ofan af húsum, ok fagnar honum eptir vana. En svá sem bóndi hefir hendr til ok greiðir hárit, finnr hann liggja grætt ör um þveran búkinn, þar er áðr var eggbitið. Ok þó at þessi lutr fremdist á óskynsamligri skepnu, má þat hverr maðr skilja því framarr, hversu dýrligar vóru þess manns vígslur, er heitir herra Guðmundr, fimti Hólabiskup.

67. At áliðnu sumri, því sama sem áðr var greint, kemr herra Guðmundr biskup heim til Þórðar Sturlusonar, vinar síns, ok sitr þar um hríð í góðum fagnaði. En nálægt vetri, sem herra Guðmundr er kominn þar sem heitir Staðarhóll, ok hugsar þaðan at venda heim til Hóla, kemr kappinn Sighvatr vestr þannig ok hefir liðsdrátt í hèruðum; gerir síðan þau orð biskupinum, at ei fyrir háls nè höfut sinna manna skal hann svá djarfr, at hann ríði á hèruð. Guðs maðr skildi enn sem fyrr, at ei var hæg landtaka þar er Sighvatr stóð fyrir á ströndu, því vægir hann ok eflir setu í Steingrímsfirði, er fyrr [var] nefndr, lætr þangat flytja yxn ok allan kost, er honum gafst um sumarit. Líðr nú svá fram um Adventum domini. Ok sem þar er

komit, fær herra Guðmundr svá mikla sótt, at hann liggr í rekkju þúngliga haldinn. En er Þórðr, vinr hans, spyrr þau tíðindi, gerir hann son sinn til biskups, ok býðr honum upp á sinn garð, ef þar mætti heldr sá kostr finnast, er hagligr veri hans krankdómi. Herra biskup þiggr þat boð, var hann svá mjök sótttekinn, at hann fluttist í barum; lètti þá brátt síðan með vilja guðs, ok sat hann með Þórði um vetrinn, hèlt bóndi hans fylgð ok fátæka menn svá stórmannliga, at allt samt fólk á garðinum var ei færa en hundrat. Í því öðru mátti lýsast, hverja vináttu Þórðr veitti Guðmundi biskupi, at honum lá ei lèttara hans útlegð en sjálfs síns meingjörðir, sem merkja má í því er fylgir. Þessir bræðr, Þórðr ok Sighvatr, vóru mjök missáttir, leiddi þat bæði til af fjárskipti ok fleirum greinum, en einkanliga sök hafði Þórðr með þá báða feðga, Sighvat ok Sturlu: þat var falslaus vinátta við Guðmund biskup, er hann veitti honum jafnan; en þá er góðgjarnir menn gengu í milli um sættargjörð, fyrirtekr Þórðr at semja nökkura sætt við bróður sinn nema þar fari með frjálsi Guðmundar biskups, at hann fari liðugr til stóls síns fyrir únáðum Sighvats, ok þat verðr samit í síðastu um várit, at bræðr sættast en biskupinn skal fá sæti sitt bardagalaust, vendir guðs maðr þá í veg til kirkju sinnar, ok áðr hann ríðr af syðra biskupsdæmi, sættust þeir Sturla Sighvatsson; var Sturla síðan viljugr til vináttu herra Guðmundar. Sitr herra Guðmundr heima þat sumar, ok vetr eptir, í góðum friði. Um várit ríðr hann í sýslu sína; segist, at í þessum veg gistir hann eina frændkonu sína, er vorðin var fyrir miklum harmi, þvíat son hennar hafði horfit braut, svá at engi lutr spurðist til; þetta kvein berr hún upp fyrir frenda sinn biskupinn, ok biðr hugganar, segist hafa mikinn sorgar lètti, ef hún vissi hvat piltinum væri vorðit, þótt hún mætti aldri sjá hann. Herra Guðmundr leitar undan alla vega, segir, at sú vissa verðr henni harms næríng heldr en huggan. Þar til þýngar hún biskupinn, at hann segir um síðir: nú ræðr þú, frendi, bæn þinni úþarfri, en vit, at hèr í hólinum fyrir ofan bæinn var son þinn; en nú í dag nenni ek eigi at kalla hann þinn son, þvíat hann er þèr ólíkr vorðinn, en nauðigr geri ek at angra þik, en þó veldr þú sjálf, því fyrir þann kost, er þú veitir vesalíngum mínum, værir þú annars maklig. En hvat er um á þá, er hèr fellr hjá bæ þínum, fylgir engi laxveiðr

þinni jörð? — Hún svarar: um laxveiði er eigi at tala svá snemma tímans, en sannliga á ek veiðina. Biskup svarar: lát taka net þín ok draga, en ek skal ganga til ok sjá, hvar mèr sýnist fiskiligast. Svá gerist móti náttúru ok vana landsins, at í þeim árreit, er húsfrúin átti, var sú vænasta laxveiðr um várit, svá at henni tvígildi heim allan þann kost, er hann ok guðs ölmusur höfðu þar haft. Berr hèr annarr lutr með nökkut líkt. Einn lí[till] bóndi kom til herra Guðmundar, ok býðr fram eina kú er hann átti, at gefa voluðum mönnum herra biskups; hann þiggr gjöfina, en þar nær stendr einn ríkr bóndi, ok talar svá: eigi stendr, herra, at þiggja af svá fátækum manni, því at hann á nægri börn en kýr. Herra Guðmundr svarar: kæri minn, hví skal ek eigi þiggja, þvíat fleira gagnast til mannfæðu en ganganda fè? — Sama dag fara synir þessa sama manns nærri á þeirri, er faðir þeirra átti, ok sjá einn stóran lax við landit, ok fá tekit með höndum sèr, segja föður sinum, sem hann kemr heim af fundi herra Guðmundar. Bóndi svarar: vera kann, at orðin biskups várs hafi framkvæmd, er hann kvað fleira til fæðu en kýr einar, ok er lax þessi svá góðr, at eigi mun hann einn samt verit hafa. Er þá sýnt hvat Guðmundr má þiggja af guði, ef laxveiðr kemr þegar til vár móti eðli landsins; skulu vèr fara í myrgin með net vár. Svá gerir hann; en hvat lengra? laxveiðr er komin í á hans með því megni, at hann selr til mikils fjár um sumarit, svá at vel iij kýr tók hann í mót einni. Herra Guðmundr ríðr til þings þetta sumar; í þeirri ferð gerði Sturla honum þat fyrsta vináttu bragð, at hann sendi mikinn ok góðan kost á veg fyrir hann til ölmusugjörða, þvíat allir menn í landinu, vinir ok óvinir, vissu þat, at Guðmundi biskupi þótti sèr þat mest veitt, at válaðir veri huggaðir fyrir hans skyld; lagði Sturla af með öllu, at vera mótgangsmaðr herra Guðmundar upp frá þessu; er ok sannliga sagt, at biskupinn hafi svá talat til hans, at Sturla veri dugandi maðr í mörgu lagi, ef faðir hans veri nökkuru líkari kristnum mönnum.

68. Á því sumri sem nú var greint [kom út] Kolbeinn úngi, er til verðr skipaðr at gera enda allra þeirra únáða ok eymda, er herra Guðmundr hefir þolt í sínum biskupsdómi; hann sitr næsta vetr með Sighvati mági sínum, en um várit ríðr Sighvatr til Skagafjarðar með honum ok leitar með bændr,

ef þeir vilja taka Kolbein til höfðíngja í stað föður síns ok gera honum bú á kosti sínum; víkjast bændr undir þetta mjög bliðliga, þvíat þeim sýnist vánligt at Kolbeinn verði kynlíkr feðr sínum, at hrinda með harðri hendi þann þúnga, er þeir kallast bera fyrir fjölda fólks Guðmundar biskups at Hólum. Því gera þeir Kolbeini bú á sama garð, sem faðir hans sat forðum; hefir Sighvatr ráð Kolbeins mjök í höndum, meðan hann var ýngri, en þegar hann þykkist fullroskinn, rèttir hann af sèr okit, ok gerist ofsamaðr mikill, snýr ok þangat sínum ofrgang eptir dæmi feðr síns, sem minnst mátti honum sama, þat er, at snúa sín harðindi upp á biskupinn, ok veita Skagfirðíngum fyrir búkostinn; ok sakir þess, at gull er æ því glaðara, sem þat prófast betr í eldinum, þolir várr drottinn Jesus, at hans þjónn, Guðmundr biskup, sè enn mæddr ok útborinn af sínum rèttarbótum, at [eptir] hans mæðusamligt líf, bæði fyrr ok síðarr í náverandi veröld, verði hann því háleitara höfuðgull í endalausri veröld með völdum vinum himna konúngsins. Héðan leiðir þá endaliga ofsókn, er Kolbeinn úngi hrærir móti biskupinum með þeim barmi ok hólmgöngu boðum, at biskupinn sèr öngvan veg annan í friðkaup sinna manna, en lúta undan ok leita norðr í sveitir í sýslu [sína]; váraði þúngt ok vóru kostir manna úhægir, en biskup ríðr heiman litlu eptir páskir, ok hefir fjölda fólks, bæði frjálst ok fátækt. Svá berr til í þeim veg, at biskupinn gistir einn bónda, góðan sinn vin; var hann bóndinn klókr maðr, vinsæll ok vel ríkr; hann tekr heiðarliga biskupinn með vildustum föngum. Þar vóru frjáls herbergi, þvíat húsbóndi þessi kann góða stjórn, greinir hann í tvá riðla biskupsins skara, skipar alla frjálsa menn hjá honum sjálfum, en fátækum mönnum skipar hann hús annat, ok veitir þeim þar svá góðan kost, at allir höfðu fullfengi; vóru menn kátir um kveldit í i biskups stofu, þvíat öllum líkaði vel, utan einn herra Guðmundr er mjök hljóðr. Þat skildu eigi úvitrir, þvíat bóndi var allkátr ok þó vin biskupsins. Húsbóndinn lætr um kveldit, sem ei viti hann hvat veldrúgleði biskups; en á næsta dag eptir, sem herra Guðmundr er undir borð kominn ok vist inn borin, gengr bóndinn fram af stofunni til þess fátækra manna húss, er áðr var getið. Hann spyrr hversu þeim líðr, þeir segja svá líða sem guð amboni honum eilífliga. Bóndi segir: sè þat nokkuð í, at yðr líki vel, vilda ek þiggja af yðr laun þegar í hönd. Þeir svara:

hvat munu vèr öreiga sálugir menn sjá móti þínum velgjörðum? — Bóndi svarar: fleira gagnast mèr en fè; litlu síðarr en ek geng hèðan skulu þèr allir taka dik vægðarlaust í stofu biskups, þèr skulut rífa mat af diskum ok hlífa engum manni, hrekja svá biskupsins mat sem allra annarra; geymit engis manns ávít eða umvandan nema mín, þá er ek vil til leggja, en hèr á mót játar ek yðr svá góðan kost meðan biskup sitr. Þeir játa honum þessu, ok eru þó tregir, þvíat þeir skildu eigi undirstöðu. Gengr bóndi síðan brott, en litlu síðarr lystr undir dyn þeim, at margir í stofunni hugsuðu ófrið fara; stendr því næst inn straumrinn, með þat hark ok háreysti, rif ok slit umbergis, sem ei var litið um, þar til er slær í árásir, bann ok bölvan; þolir herra biskup þegjandi, þar til orðalagit vesnar, þá segir hann: verðit úti af stofunni, veslugir menn, þvíat úmannliga gjaldi þèr bóndanum sitt frjálsi ok fagnaðarboð, er hann gerir oss öllum. En engi þeirra gefr gaum hvað biskup segir. Húsbóndi gengr fyrir herra biskup, ok segir svá; verit nú glaðir, minn herra, þvíat ölmusur yðrar eru nú inn komnar; ek fann í gærkveld, at þeirra fjarvist úgladdi yðr mjök, en nú megi þèr sjá hversu þeir halda stofuna. Herra biskup svarar: guð ömboni þèr, minn kæri vin, fyrirlát mèr þolleysi mitt, þvíat svá er betr sem þú skipar. Bóndi svarar: eigi dregr mèr stórt um, þvíat ek em ríkr maðr, en hugsa mætti hèðan af hvat honum líðr smábóndanum, þar þèr komit til garðs; þótt hann hafi kost at gefa yðrum frjálsum mönnum, ofbýðr honum þessarra yfirgangr[1] sem nú standa hèr. Nú trúi ek ok sannliga, at svá mun guði bezt líka, sem þèr gerit fyrir ástar sakir við hann sjálfan, en vel mætti fljóta fátækr maðr, þótt hann hefði með stjórn nauðsynliga hluti, ok svá skulu yðrir vinir hafa meðan þèr sitit hjá mèr, látit ok yfir sjá einhvern, ef yðr grunar þar nökkut um. Ok nú segir hann bóndinn til fátækra manna: út allir í stað, ok sukkit ei framarr! — þeir fram á hurð með hans fyrstu tillögu. Herra Guðmundr segir þá: nú er þar váttr þinn, vinr minn, hversu þú gerir, þvíat ei hefði þeir sálugir svá virt þína typtan, nema þeir veri vel haldnir. Var herra Guðmundr þá allkátr, meðan hann var með þessum húsbónda; lofuðu margir hans vitra tiltekt, þvíat guðsmaðr fèkk ei fyrir ástar sakir hirting á komit, svá framt sem

1) 396; fyrigangr, Hd.

sumum þótti tilheyriligt um fátækra manna framferð. En svá sem bóndi þessi sagði sína trú, at þat mundi guði bezt líka sem biskupinn gerði, prófast í mörgum stöðum sögu þessarar hverja ambun várr herra veitti þeim þegar í hönd, er herra Guðmund glöddu með gjöfum, fátækra manna ölmusu, ok enn mun sýnast í því sem eptir ferr. — Nærri hvítasunnu kemr herra Guðmundr biskup til annars bónda, er búgarð átti nærri vatni stóru, var þar í veiðr mikil, þá er tímaliga fèll, en þetta sama vár lá mikit hallæri með því sama vatni, svá at náliga fèkk engi bygðarmanna búðarverð[1]. Nú á laugarkveldit fyrir pentecosten, sem herra Guðmundr er kominn, segir bóndinn: ek á IX kýr allar vel hafðar, ok þar af vil ek slá einar iij fyrir ölmusur yðrar, en þèr [með] yðrum frjálsum mönnum skulut vera á mínum kosti yfir fram. Herra biskup játtar þessu gjarna; eru kýrnar niðr lagðar, en sakir þrots í veiðistöð bóndans, varð fátækt fólk herra biskups lítiliga fætt um kveldit, gengu kjötin því harðara sinn veg um morgininn eptir, svá at sunnudags kveldit var með öllu yfir lukt. Herra biskup verðr víss hvat líðr, ok vakir drjúgt [á bænum[2] um nóttina, sem æ var hans vani, til guðs. Sem tíðum er lokit á mánadaginn, gengr herra Guðmundr út af kirkju ok spácerar fram at vatninu, þvíat sjálft túnit var á ströndinni. Þar var settr garðr með grjót til hlífðar túninu, at vatnsbáran skyldi ei brjóta mega; þar yfir lágu vörpur bóndans til þurku. Herra Guðmuudr segir þá: ek vilda gjarna sjá, hversu þèr farit at veiðum norðr hegat á landit. Bóndi svarar: þat er mikit starf, herra, á þvílíkum degi. Biskup svarar: svá mun standa, at sæll Martinus lèt veiða sèr fisk til borðs á fyrsta páskadag, ok þvi sýnist mèr þetta gera mega, er biskup býðr. Bóndi hlýðir nú, ferr til, ok setr út vörpurnar[3], ok verðr fyrir einn venasti fiskr. Herra Guðmundr lofar guð fyrir, ok segir svá: nú megu vèr hafa grænan fisk í dag, en draga skulu þèr optarr. Þeir verpa í annat sinn ok þriðja, ok fá svá fagra veiði, at fulla fjóra tigi flytja þeir heim til borðs; varð þar glatt í fólki, þvíat fiskr var bæði stórr ok hinn bezti kosti. Annan myrgin eptir talar herra Guðmundr til bónda: ek vil ganga í dag at sjá veiðistöð þína í vatninu. Húsbóndi segist þat gjarna vilja. Sem herra Guðmundr kemr til, blezar hann veiðistöðina ok býðr fiskimönnum

1) 396; búðvaurð, Hd. 2) [296. 3) hèr þrýtr til fulls 396.

at slá netjum, en þat þarf ei langt, á lítilli stundu taka þeir cccc; var ok allan tíma sumarsins svá máttugr fiskigangr í bóndans reit, at hann kom varla nytjum á, ok þar yfir selr hann þurran vatnfisk meirr en til þriggja kúa; lofaði hann margan dag þann blezaða biskup, er honum veitti þvílíka luti ok fagnað með sínum verðleikum. Ferr herra Guðmundr tómliga um sumarit yfir sýslu sína, ok sem haustar ok nótt er svört vorðin, hefir herra Guðmundr sent fyrir sèr til einnar [vinkonu sinnar], at hann ætlar sama dag at gista í hjá henni; hún býst fyrir með beztum föngum, bíðr um kveldit fram í myrkr, ok kemr biskupinn eigi; þá tala nökkurir, at hann muni eigi svá koma síðla sem þá var orðit. Húsfrúin segir, at úglöggt kunna þeir menn Guðmund biskup, er honum ætla umskipti sinna orða, utan einhverja tálman; veit ek víst, segir hún, at hann [kemr], því at ei brást mèr hálft orð í því er hann sagði mèr, fyrr eðr síðarr. Því stendr hún úti með fólk sitt, sem myrkt er vorðit, ok því næst sèr hún ljós bjart í þat garðshlið, sem ván var til herra Guðmundar, svá at langt af skein á veginn, ok mjök litlu síðarr ríðr herra Guðmundr í þat sama hlið, ok fær allblíðar viðtökur um kveldit. Húsfrú þessi virðir ei langt hvat kostrinn þolir, til þess at ölmusur herra Guðmundar hafi sínar nauðsynjar: lætr fara sömu leið naut ok sauði, svá at dagliga stendr hún at matgera sem önnur Martha. Ok einn dag, sem herra Guðmundr hefir lykt morgintíðum, gengr hann með fylgð sinni fyrir þat hús, er hans vinkona stendr í starfi. Biskup nemr stað fyrir dyrunum, ok segir: hvat er nú, sæti mín, mun ei líða kvikfènu, ef svá lætr lengi? — Hún svarar: annat elskar ek meirr en kvikfè, en þat er yðar þökk ok vinátta, þvíat hvat er mik kostar, vil ek henni halda. Herra biskup talar: fullt verðskyldar þú mína vináttu, en gefa má guð minn, at þú hafir eigi færra kvikfè í vár en þeir, er nú þykkjast sitja með fullum kostum. Svá gekk út sem guðs maðr sagði, þvíat hún hafði heykost hinn bezta en fátt at fóðra, ok því seldi hún hey til beggja handa þeim er heylausir vóru, sakir þess, at vetrartími var mjög harðr næst eptirkomandi; fèkk húsfrúin með þessum hætti fullbýli á sína jörð. Hún hafði í svá mikilli virðíng verðleika herra Guðmundar, at í þá sæíng, sem hann vandist at sofa þá er hann gisti hana, bar hún kranka menn, ok skipaðist æ jafnan til lèttis á nökkvern veg. Svá ok fyrir þann stein,

er biskupinn hafði vígt henni, urðu margar heilsubætr; hann gekk ok víða yfir landeign hennar, ok því segja menn, at sú jörð standi úbrigðlig með hamíngju.

Nú svá mikit afl sem herra Guðmundr bar til at hjálpa sinni fylgð, tók hann ei síðr af þeim optliga þar í mót margar meingjörðir, sem þeir veri honum í engu skyldugir; ok því mæddist þessi maðr biskupinn framarr dæmum, en bar allt með þolinmæði, at þá er þeir þröngðu hann mest með sinum óspektum, talar hann svá einn tíma, sem húsbóndi spurði, hvárt hann vildi bað hafa: menn mínir, segir hann, hafa gert mèr bað ok launat mèr vetrvist. Allt fram í langaföstu árgangsins líðr svá, at biskupinn fær engan kost, fyrir Kolbeini únga, at sitja heima, en þann tíma eptir Dominicam palmarum, sem hann hugsar at sækja heim til stólsins at þeirri dýrustu hátíð, gengr Kolbeinn úngi út í móti honum, ei svá sem sæmandi, heldr minkandi, hvat er hann mátti, þvíat hann dreifir fjögurra vega alla biskupsins fylgð, en tekr sjálfan hann, með tveim lærðum mönnum, sem fanginn í varðhald heim til Hóla, mjög á líkan hátt ok faðir hans forðum, utan þat var hèr lèttara, at biskupinn hafði ljósa stofu, ok mátti lesa tíðir sínar; hann hefir nú ok hjá sèr tvá lærða menn, frendr sína, ok hètu Þorkell ok Helgi, þeir höfðu úngir til hans komit, ok unnu honum sem lífi sínu; urðu þeir báðir mjög langlífir menn eptir framför herra Guðmundar, ok sögðu til hans svá marga merkiliga luti, sem ei finnast í bókum ritaðir. Er þat vitað, at Þorkell lyktaði sitt líf með príorstètt í Þverárklaustri norðanlands, var hans framför merkilig, ok mjög æskilig; ok sakir þess, at þat efni lýtr enn nökkut til lofs herra Guðmundi, skal þat setjast í þessum stað. Príor þessi var meinlæta maðr ok bindandis á sinn líkam, staðfastr í guðs lofi á dag ok nátt, þvíat hann hafði eigi meira svefn en náttúran beiddi, en þann tíma sem hans endadagr nálgaðist, talar hann svá einn dag, sem hann sitr úsjúkr millim bræðra sinna in locutorio: brott mun ek hèðan ganga, segir hann; ok því nærri sem hann kemr at dyrunum, leggr hann þetta til: ok mun ráð at ek bæti barirnar, ef ek skal fyrstr á liggja. Þat var undirstaða þessa máls, at sakir fyrnsku vóru barirnar mjök kostaðar, ok því at hann príorinn var vel hagr á trè, gerir hann eptir sínum orðum. Hèr með var þat hans vani, þótt hann hèldi prioratum, at hafa viku hald í kór með öllu embætti, sem ein-

faldir bræðr, stendr nú yfir hans vika, at segja hámessur. Sem þetta gerist þann síðasta dag sem hann lifði þessa heims, segir hann hámessu svá at engi maðr sèr hans krankdóm, ok sem hann er afklæddr í skrúðhúsi eptir messuna, segir hann svá múnkinum, er las evangelium: nú þóttist ek verða víss í nótt, at Guðmundr biskup frendi minn má meira en sjálfum sèr; vil ek at þú þiggir í dag þat, er ek mun senda þèr yfir, þvíat ei mun síðarr kostr. En þó at bróðirinn græfi eptir á allar lundir, at fá fremri kynníng þessa luta[r], fèkk hann ei orði framarr en nú var sagt, þvíat príorinn fyrirtók; en raun bar vitni sannindum: hann sendi bróðurnum eitt egg, sem hann hèt, gengr síðan með psalmum Miserere út í kór eptir múnka sið, ok víkr fram fyrir brik nökkura ok várs herra píníngar mark stóð yfir; hèr styðr hann sik upp á ok hneigir krossinum, þá í stað örendr. Lýkr hèr frá honum at segja, ok því skal aptr snúa til herra Guðmundar.

69. Nú sem herra biskupinn þröngðist úaflátliga af yfirgirnd sinna undirmanna, gæddi himneskr faðir hans andligan krapt því framarr ok frábæriligarr með spádóm óvorðinna luta; hèr með fylgir þat fáheyrt er, at þótt hann veri luktr inni í varðhaldi, vissi hann gjörla hvat gjörðist úti í garðinum, sem hann stæði hjá ok sæi upp á. Þessi hvártveggi grein má lýsast í því er eptir ferr. Ef klerkar kómu til hans ok báðu hann gefa sèr vissu hversu lengi þeir mundu lifa eða halda sæmdum sínum, brást öngum um aldr eitt orð í hans forsögnum. Svá er sagt, at síðan er Sighvatr vægði nokkut til meingjörðum herra biskupsins, at Sturla son hans hafði meðr sætt komizt í góðan málfrið herra Guðmundar, bauð hann Sturlu frenda sínum at spyrja biskup, hversu langlífr at faðir hans mundi verða; en er Sturla hafði fram sagt eyrindit, svarar biskupinn: hvat mun hann sálugr ífast hverr hans endadagr mun verða, þvíat úvænn er viðrbúnaðr þó at tíminn sè vitaðr, því þykkir mèr ok líkara, at Sighvatr geri sèr glenz ok grun af mínum orðum, en nökkvern sálubata, en þat er hugsun mín, at þá er hann spyrr andlát Kygri-Bjarnar fèlaga síns, muni eigi langt áðr hann kastar fótleggjum. Framkvæmdist svá þessi spásaga, at á næsta dag fyrir þann bardaga, er Sighvatr háði síðast í Skagafirði þar Örlygsstaðir heita, spurði hann af nýrri skipkvámu andlát Kygri-Bjarnar, er þá var kallaðr kosinn til Hólabiskups. En því gat herra Guðmundr eigi fjarri, at Sighvatr sneri upp í gys forspá

biskupsins. Fyrra sinn, er Sturla sagði honum andsvar biskups, talar hann svá: eigi kann ek því trúa, sagði hann, at Kygri-Björn hafi líf mitt á linda sèr. Síðarra sinn er vèr gátum, sem hann spyrr í veg andlát sira Bjarnar, sèr hann upp ok skekr lokkana með svá föllnum orðum: vel, vel, segir hann, nú er dauðr Kygri-Björn ok lifir Sighvatr. Á næsta dag eptir datt honum dauðaskellr. Er þat efni endat, en nú er at víkja til síðarri greinar, er sett var af skygnleik herra Guðmundar heima at Hólum, þótt hann sæti luktr í stofu sinni, at af þessi kátligri sögn megi merkja skýrr maðr, hversu heilagr andi mundi honum birta stóra hluti, er hann vildi eigi leyna hann smæstum lutum, er vurðu á staðnum. Á einn dag, sem herra Guðmundr sitr í stofu sinni ok er hljótt um hann, var í fyrstu varðhaldit svá sterkt, at Kolbeinn fèkk til tvá sveina at geyma hann nátt ok dag; var þat ein ritstofa, hefir herra Guðmundr lesit um hríð, en sitr nú þegjandi; síðan talar hann þetta orð með litlum róm: ei fór nú sem skyldi. Sveinar spyrja, hvat nú sè tíðinda. Hann svarar: varla mega þetta tíðindi kallast. Þeir forvitnast því meirr. Hann svarar þá: þessi nýjúng er eigi meiri, en þeir Kolbeinn bóndi ok prestr hans settu rakkavíg uppi í garðinum, ok varð sá munr harðfengi, at rakki Kolbeins braut fremstu tönn ór þeim er prestr átti, ok svá fljótt sem hún fèll til jarðar, brá prestr hana blóðuga í munn sèr, at eigi kaldaði, þvíat hann hugsar at græða tönnina aptr í hundinn ok í sinn fyrra stað: þótti mèr þetta ókennimannliga gert, ok því varð ek svara nökkuru. Þeir segja þetta eigi munu þannveg orðit. Herra biskup segir: kann vera at svefn hafi runnit í brjóst mèr, en þó vil ek orlofa, at þit reynit hvárt sannara er, ok játta ykkr til sanns, at ek skal hèr bíða ykkar. Þeir vilja gjarna fara, ok sem þeir koma upp í bæinn reyna þeir svá hvert orð satt sem biskupinn hafði sagt, þvíat rètt í þann púnkt var þetta nývorðit. Fannst Kolbeini mikit um þenna lut ok lætr rýma varðhaldit biskupsins um nökkvern mun. Skipaði svá blezaðr guð, at þann tíma sem hans lífdögum leið mjök í lykt, ok sjálfr várr herra fór til með sínum miskunnar sprota at[1] semja ok alskíra sitt einvala ker með líkams meinlætum, lètti til úfriðinum, svá at hann mátti kyrr sitja heima at Hólum; gekk þar til einkan-

1) ok, Hd.

liga boð Hákonar konúngs gamla, sem váttaði brèf herra Njáls Stafangrensis, at Guðmundr biskup skal halda sinn biskupsstól með fullum náðum fyrir hverjum manni; leiddi þetta þaðan af, at herra biskupinn hafði komizt í valda vináttu herra konúngsins ok biskupanna, sem hann var næst í Noregi ok því skrifuðu margir til hans hugganarbrèf, at þeir angraðust af hans þröngníng sem elskuligs feðr ok kærasta vinar. Sat Kolbeinn þá lengstum at búi sínu, en lagði til hagræði með herra biskupi.

70. Þessu næst er þat segja, at þau brèf herra Sigurðar erkibiskups koma til Íslands, at hann krefr Sturlúnga undir stríðufullri ógn eilífrar tapanar, at þeir sæki á hans fund ok svari kirkjunni fyrir þá glæpi ok guðs reiði, sem þeir hlóðu sèr í misþyrming með sjálfan biskupinn, ok í svívirðíng við klerkdóminn, ok taki lausn eptir hans ráði. En er þessur brèf opinberast, staðfestir Sighvatr ráð, at Sturla son hans skal fara ok svara fyrir þá báða, ok taka lausn fyrir beggja hönd, ef þess verðr auðit, þvíat honum sýnist þat auðveldra ok fulla þörf vinna. Þat ferr fram, at Sturla kemr til Noregs, ok þykkir ágætr maðr, bæði fyrir venleik ok atgjörfi, skipar erkibiskup svá hans máli með ráði Hákonar konúngs, at hann er skriptaðr í páfagarð ok fær lausn sinna vandkvæða. En þat er frægt vorðit, hversu mjúkan hann gaf sik til yfirbótar í játorði glæpanna sèr á hendr; tók hann með þá pínu ok kinnroða, at hann var leiddr berr um borgina, ok strokinn til blóðs fyrir mörgum höfutkirkjum í Róm, svá at borgarlýðr grèt í huggeði, at svá fagrt líf skyldi þannveg kveljast; gjörði Sturla sína dygð, at hann minntist feðr síns með þeim orðum, at alla sömu lausn ok líkn vildi hann honum sótt hafa sem sjálfum sèr, en kirkjan þagði þar í mót, ok hyggjum vèr hana fyrir þá sök svá gert hafa, at henni sýndist ómöguligt, at sá sem aldri beiddist lausnar, ok ei fann sekt í sjálfum sèr, mætti leysast í annarligri persónu. Kom Sturla síðan aptr til Noregs sæmiliga virðr með Hákoni konúngi, ok þótti síðan æ frægri maðr en áðr, hvort er hann var í sínu ættlandi eðr í Noregi. En Sighvatr hefir enn nökkvat at hræra, þvíat með þeim mágum Kolbeini únga ríss upp dauðligt misþykki, svá at með þeim fyllist þat er Salomon segir til ómildra, með þessum orðum: subplantatio perversorum vastabit eos. Ok litlu siðarr í sömu ritníng tók hann svá til orðs: in insidiis

suis capientur iniqui. Þetta hvortveggja mega þeir eignast, þvíat syndligt samþykki til mótgangs ok meingjörða herra Guðmundar grimmist nú upp á þá meðr eitruðu hatri, svá at hvárr vill annan í bráðum dauða. Er nú svá komit máli, at hvárirtveggju sækja traust herra Guðmundar, þvíat þeir trúa honum munu sigrinn fylgja, hvárn veg sem hann stendr, kemr nú svá, at þeir draga herlið saman ok hafa mælt mót, at til skarar skal skríða með þeim ok hlutr skal gera dreng auðgan. En hvat mun várs herra vin Guðmundr biskup taka ráð, síðan hvárirtveggju biðja hann liðsinnis, utan þat sem honum mátti bezt sama bæði fyri guði ok mönnum, ok þó munu mjök fáir eptir líkja: þat fyrst at gleyma sökum öllum, bæði fornum ok nýjum, ok ganga svá í fylgi með hvorumtveggjum, þvíat þann dags morgin, er þeir hugsa at berjast, er hann kominn til móts við Kolbein, ok er hann sèr hversu þeir búast til vápnamótsins, þvíat Sighvatr sat sömu nótt í öðrum bæ, talar hann svá til Kolbeins ok hans manna: hermannliga búist þèr nú, synir, en vitið til sanns, at ei munu þèr berjast í dag. Þótti Kolbeini þetta orð mjök útrúligt, þvíat hann var svá fullr með reiði til Sighvats, at hann vildi drepa þann mann í veginum, er þat talaði honum áheyris, at þeim stæði þat eina sakir mægða, at gera sætt. En er þeir finnast verðr Kolbeini bilt, þvíat honum sýnist Sighvatr miklu liðfleiri en hann hugði. Ok þegar í því bilínu ganga fram góðgjarnir menn ok stórir bændr af Eyjafirði, ok bera sáttmál í millum þeirra, varð ok svá standa at þeir sættust, þvíat liðveizla herra Guðmundar vann þat með hvárumtveggjum í bæn ok vökum með mildi guðs, at hvárigir spilltu annarra lífi at því sinni, svá kunni guðs maðr at gjalda gott í móti illu. Sagt var, at margir virðulígir menn af Noregi skrifuðu til herra Guðmundar honum til gleði á þessum tímum, hvar meðal annarra brèfa honum kemr þat efni, er hann bað sinn fèlaga, klerkinn, skrifa til sín af Noregi, sem hann fengi sanna vissu af upprisu birtíng várrar frú. Þar með sendir klerkrinn herra biskupi sjálfs síns brèf, undir þvílíkum orðum: Virðulegum herra Guðmundi með guðs miskunn biskupi at Hólum á Íslandi, sendir svá heitandi klerkr sanna kveðju í upphafara allrar heilsu. Drottinn guð, er aptr geldr sèrhverjum þá góða luti, er þeir gera náúnginum fyrir ástríki, sè yðr ambun óleysilig fyrir allt þat gott, er tèðuð mèr, sem ek nálægr

var yðru faðerni. Ek veit, góði herra, at löng dvöl frá erfð himinríkis er yðr mjök þúngbær í harðri útlegð, einkanliga sakir þess, at þèr byggvit milli úmildrar þjóðar, ok enn heldr stríðrar at ganga götur guðs með sannri hlýðni. En hvað sem yðrir undirmenn gera yðr í mót, varðveiti himneskr faðir yðvart líf ok sál af allri skriðnan veraldligs vegar! — Minnist þèr, heilagr faðir, hvað vèr töluðum af líkamligri upprisu sællar guðs móðnr, hvers ek minnumst í þessu mínu brèfi, skrifandi yðr þat letr, er váttar hversu gerzt hefir með vitran hennar upprisu.

71. Þá er liðit var frá híngatburð várs herra Jesu Christi ∞. c. l. ok ij ár, á dögum postuligs herra Evgenii páfa tertii[1] var ein nunna Elisabeth at nafni í því klaustri er Skanogia heitir, ok liggr undir Treveris borg á Saxlandi. Yfir þeim lifnaði var sú abbadís, er Hildilín hèt, vel geymandi þat, er hún hafði til stjórnar tekit af guðs hálfu. Fyrrnefnd systir Elisabeth hafði ellifu ára gömul í klaustr gengit, ok lifði svá dýrligu lífi, sem allsvaldandi guð ok hans blezaða móðir virðust bæði vitni um bera, þvíat þann tíma sem þessi nunna hafði lifað í klaustri önnur ellifu ár, hafandi tvá vetr ok tuttugu, auðgaði guð hana svá úendaligri huggan, at heilug guðs móðir María birtist henni optliga, talandi með henni ýmisligar greinir ok skynsemdir heilagra ritnínga. Hèr meðr birtir henni enn optligarr einn guðs engill, sá er vandist hana at læra með einkanligri speki; kendi hún þenna engil jafnan hinn sama til sín komanda sem sannan vin ok kæran fèlaga. Ok er hún blómgast með þvílíkum gjöfum, stundar hún því framarr at líka sem bezt guði í öllum hlutum, geymandi sitt lítillæti með góðum verkum. Ok þat gerist, síðan hún skilr at vár frú guðs móðir Maria virðist hennar optliga at vitja, at hún segir leyni[li]ga einum andligum feðr sínum þar í klaustranum,[2] hverr henni gefr þat ráð, at spyrja nökkurs drottníngina, þá er hún birtist henni næsta sinn. Systirin segist þess spyrja vilja sem hinn gamli maðr vill henni ráð til gefa. Hann segir: þat biðr ek, dóttir mín, at þú spyrir hana hvort hún hafi af dauða risit, ok lifi nú í guði bæði með önd ok líkama. Nú á næsta tíma, sem blómstr allra meyja virðulig Maria birtist Elisabeth, tala þær miðal sín harðla kærliga. Þat var in octava assumptionis sanctæ Mariæ, meðan guðs þjónusta fluttist í kirkjunni; leið þá lèttr höfgi

1) leiðr.; secundi, Hd. 2) klaustrinu, 398.

yfir hana nunnuna, í hverjum henni birtist eptir vana heilug mær Maria. Elisabet spurði þá djarfliga, svá segjandi: drottníng mín sætasta, ef þat líkaði þínum góðleika, vildum vèr vita gjarna hvort þú hefðir í andanum upprisit ok ríki tekit með þínum syni, eðr reis þú af dauða upp numin yfir öll engla fylki bæði með önd ok líkama; spyr ek fyrir þá grein þessa hlutar þína mildi, at mèr er sagt efanligt skrifat í letrum heilagra feðra af þinni uppnumníng. Drottníngin svarar svá hennar máli: þat er þú spyrr, máttu eigi at sinni víss verða, en þó er þat ætlað, at þessi hlutr skal fyrir þik birtast ok auðsýnast. Sem þessi sýn hverfr bröt, gerir systirin kunnigt hinum gamla manni hversu farit hafði spurníng ok ansvör með drottníngunni, en sá góðr bróðir leggr þat til, at nunnan taki upp einkanligar bænir guðs móður til sæmdar í minníng þessa fyrirheits, ok haldí þeim dagliga þar til fram kemr vitranin. Líðr nu svá fram heilt ár, at þessa hlutar þorir nunnan hvárki spyrja guðs móður nè sinn heimonligan engil, þótt þau birtist henni bæði eptir vana, þar til at Assumptio sanctæ Mariæ stendr nálæg á öðru ári, þá sýkist Elisabeth svá framt, at á sjálfa hátíðina liggr hún mjök máttfarin í rekkju, en þann tíma, sem háleit þjónusta gerist á þeim blezaða degi, líðr yfir hana þúngi eðr úmegin, ok því næst sèr hún mjök fjarri eina steinþró. Í þrónni lítr hún liggja einn kvennligan líkama; alla vega umbergis stóðu heimamenn himinríkis, bjartir guðs englar með skínanda ljósi skærrar birti. Ok eptir lítinn tíma ríss þessi upp meðr dýrð mikilli, er áðr lá í gröfinni; lúta þá heilagir englar, ok til koma, flytjandi allir samt hátt í lopt upp með göfugligri skipan sætra hljóða, þar til móti kemr af himinríkis kuria, fagr ok dýrligr umfram sonu manna, lifandi guðs son með mörgum þúsundruðum sinna hirðsveita; sá sami drottinn berr í sinni hendi heilagan kross með dýrligu merki. Er þá skipuð einkanliga himnesk ok háleit processio, langt um þat fram, er mannligt hjarta má hugsan á koma; gengr sú blezaða drottníng inn þann virðuliga fagnað, er áðr hafði skömmu upp risit af gröfinni, at sjálfr himna konúngrinn mót rennandi leiðir hana með sinni hendi, svá skipandi umbergis alla vega, sem henni mátti mestan sóma inn bera, ok því næst byrgist háleitasta processio bröt af augum Elisabeth. Líðr þá lítil stund, áðr blezuð Maria birtist henni með sama

ljósi, sem fyrr var vant, svá at hún mátti vel standast í andarkraptinum; sýnir drottníngin henni þá sitt anlit blítt ok þekkiligt, en talar ekki við hana, ok sem hún líðr á bröt kemr á sömu stund til hennar heimonligr guðs engill, ok þegar talar hún til hans svá segjandi: herra minn, hvat merkir sú sýn, er mèr skömmu birtist? Engillinn svarar: í þessi vitran, er guð veitti þèr, birtist þat auðsýniliga, hversu vár drottníng, frú sancta Maria, var uppnumin til himinríkis, bæði samt með önd ok líkama. Eptir þessa sýn fær systir Elisabeth fljóta heilsu; líðr nú svá fram til octavam assumptionis, ok í sjálfri octava birtist henni sami engill með ágætri blíðu, hvar fyrir hún spyrr miðil annarra hluta: herra minn, bið ek þik, at þú segir mèr hversu langr tími leið milli frá uppnumníng minnar frú, áðr fylldist hennar líkamlig upprisa? — Engillinn svarar henni mjök virðuliga: á þeim sama degi, sem nú dýrkast hennar assumptio í kirkjunni, leið hún brott af þessu lífi, en á fjórða[1] degi þaðan, þat er fjórtánda[2] kalendas Septembris, reis hún af dauða, en heilagir feðr, þeir sem skipuðu hennar uppnumníngardag hátíðliga haldast í kristninni, höfðu öngva vissu af hennar líkamligri upprisu. En því kölluðu þeir hennar andlátsdag assumptionem, at þeir trúðu hana úefasamliga bæði samt upp numna með önd ok líkama. Sem systir Elisabeth hefir þvílíka luti heyrt ok sèð, er hún efanlig, hvort hún skal opinbera birtíngina, því hún óttast, at hún muni dæmast svá sem upphafsmaðr ok efni óheyrðra nýjúnga; ok svá sem líða hèðan tvau ár, þar til at enn á sömu hátíð guðs móður birtist hún sjálf optnefndri nunnu. Elisabeth spyrr þá drottnínguna eptir þeima lut, sem hún hafði áðr optliga hugsað, ok segir svá: frú mín, hvárt eðr eigi munu vèr opinbera þat orð, sem mèr er birt af þinni upprisu? — Vár frú sancta Maria svarar henni: eigi skal þat með lýðnum orðfleytast ok opinberast, þvíat veröldin er minnr góðgjörn en þyrfti, ok því munu þeir, sem heyra, sáluháska fyrir taka ef þeir mistrúa sanna luti, ok í háði hafa guðlig stórmerki. Systirin spyrr þá enn: nú þá drottníng mín, villtu at vèr skafim af með öllu þat sem skrifat er af þessi birtíng? — Guðs móðir svarar: eigi eru þessir lutir til þess birtir, at þeir afmáist ok síðan gleymist, heldr til þess, at mitt lof margfaldist meðal þeirra, er einkanliga mik elska, því skulu

1—2) rètt. ellefta — áttunda, sbr. Acta Sanctt. 25. Aug.

þessor orð kunnig verða vinum mínum at eins fyrir þinn framburð, ok munu þeim þessir lutir kærir verða, er mèr auðsýna sitt hjarta, at hèr fyrir geri þeir mèr einkanligt lof ok taki af mèr einkanligt verðkaup þar fyrir; margir eru þeir, at með miklum fagnaði ok virðíng munu þessur orð með taka ok í verki varðveita, sakir elsku við mik. Eptir þessa vitran tók múnklífi Skanogianense at sýngja hátíðliga guðs móður lof fjórtánda[1] kal. Septembris, haldandi með sæmd hennar upprisutíð, [meirr þó[2] í fyrstu, sem boðit var, í leyniligri kapellu en opinberri sóknarkirkju. Nú þeir sem sýngja þetta festum, segir klerkrinn, er skrifar til herra Guðmundar biskups, hafa þetta [letr] fyrir lectiones í ottusöng, sem hèr er norrænat, en allt annat officium sem Maríumessu fyrri. Nú biðr ek yðvarn sælan biskupsdóm, at þèr minnist mín ok minna bræðra í yðrum heilögum bænum, felandi oss alla undir vald ok verðleika Maríe drottníngar, at þèr ok vèr megim eilífliga njótandi verða himneskrar hirðvistar með göfugligum fagnaði guðligrar ásýndar. In Christo Valete. — Var herra Guðmundi í þessum letrum mikil gleði sakir ástar ok vináttu várrar frú sancte Maríe. Er öllum vel skiljandi mönnum efalaus þessi birtíng, þvíat sú lögtekin bók, er heitir Speculum historiale, setr skýrliga á hverju ári hún varð, [þá er liðit var frá [holdgan] várs herra[3] M. c. l. ok vj. Er þat svá at [skilja], er klerkrinn setti fjórum árum fyrr í upphafi sinnar frásagnar ok á dögum Evgenii páfa, at systir Elisabeth hefir á hans dögum gengit í klaustra lifnat, ok staðit svá um hans daga ok næsta, Anastasii páfa, með heilögum andar iðnum, áðr hún öðlaðist vitran þessa; hefir því birtíngin eigi vorðit á dögum Evgenii, heldr á öðru ári Adriani quarti, er fyrstr var nefndr í sögunni, sem lýsist í áratölu þar ok hèr, þvíat prologus setr[4] eptir Cronicam quartum annum Adriani, en Speculum sem hèr stendr í Latínu: Anno domini M°. c. l° vj° in partibus Saxoniæ sanctimonialis Elisabeth mirabiles visiones vidit, inter quas etiam angelus familiaris ei librum, qui dicitur Viar[i]um dei, annuntiavit et diem translationis sacri corporis beatissimæ virginis in celum demonstravit.[5] Sama bók segir í kapitulo, at þann tíma, sem vitranin varð, blómgaðist heilagr Thomas í Englandi, þá vorðinn kanciler Hein-

1) fimtánda, Hd. 2) 398; meðr því, Hd. 3) [várs herra, þá er liðit var fra, Hd. 4) 398; settr, Hd. 5) Spec. Hist. 29,3 og 7,80.

reks konúngs, á dögum Theobaldi erkibiskups Kantuariensis, þat var fimm árum fyrir fæðíng herra Guðmundar. Sæll Augustinus magnus sýnist ok framt vitni bera birtíng þessi, þá er hann skýrir evangelium: Intravit Jesus, ok setr svá: Letatur igitur Maria letitia inenarrabili anima et corpore, in proprio filio, cum filio proprio, per filium proprium, et cet. Leiðist þat af vináttu várrar frú ok herra Guðmundar, at drottníngin eignast þvílíkan part í hans lífssögu.

72. Fjögr síðustu ár sinna daga hrymdist herra Guðmundr biskup mjög fyrir sýnar sakir, fór þat svá vaxanda með guðs vilja, at tvau síðarri ár var hann ei bókskygn, sat hann þá sífellt í stofu litilli tíða í millum, ok leiddi fram svá einfalt líf, sem einn ágætr ok hljóðlyndr heremita, forðandis allan þys veraldarmanna, utan gaf kyrt orlof þeim er langsóttu til at finna hann. En þat síðasta ár, er hann lifði þessa heims, frá átta degi jóla fram yfir festum sancti Gregorii, tók hann augnaverk ok lèt meðr öllu litla sýn; fór þar með sá krankdómr, at þrútnaði andlitið ok lá verkr mestr í hægri kinn, en hvað er á lagðist lofaði hann guð án afláti, ok kraup allr undir hans ráðníng bæði með orðum ok hjarta. Vóru fyrr nefndir frendr hans dag ok nótt í hjá honum ok lásu ýmsar skýríngar eða Vitas patrum, því ei eina stund lètti hann af góðu verki, var um nætr svá iðinn at bænum eptir löngum ok lofligum vana, at náttúran beiddi harðla lítinn svefn, þó at meinlætin bannaði eigi hvíldina. Ölmusugæði hèlt hann alla æfi sína, at eptir atvikum veitti hann meira þurfundum, þá er fjögurra vegna mátti at honum ganga. Sú var hans mýkt við forna mótgangsmenn sína, sem hann myndi engan mann sèr hafa mein gert, en þó vissi hann, fyrir gipt heilags anda, hvers þeir vóru makligir í guðs dómi, er ofsótt höfðu kirkjuna, sem í því lýsist er eptir ferr. Í Februario mánaði síðasta vetr herra Guðmundar kom til Hóla vestan ór Fjörðum sá maðr, er Magnús hèt, hann er vel kunnr herra Guðmundi biskupi, þvíat Þórðr Sturluson var vin beggja þeirra. Magnús beiðir orlof at finna biskup, ok fær þegar, tala þeir lágliga meðr sèr; spyrr herra Guðmundr einkanliga, hversu Þórðr vin hans mætti. Magnús segir, at hann eldist mjög. Herra biskup svarar þá: vel hefir Þórðr staðit mèr í vináttu alla stund, svá at þar fyrir gaf hann kærleik Sighvats bróður síns ok fleiri frenda sinna,

ok því skaltú kærliga bera honum kveðju mína, ok þat með, at vit munum finnast í vár; seg honum ok þar með mitt hugboð, at þar sem nú sýnist æztr höfutburðr í hans kynferð, mun bráðast tapanin koma. Marga luti talar herra Guðmundr fyrir honum leyniliga, þá er hèr standa eigi skrifaðir, ok vissi flest til óvorðinna luta, segir ok skilrikliga, at langt frá sèr hafði hann greint, hverja lund eðr tíma lengð Hólabiskupar mundu hafa í sinni stjórn, ok hverrar nytsemdar hverr mundi vera kirkjunni. En hversu Magnús gerir biskupsins erindi, mun síðarr greinast. En herra biskup tekr sótt í sama mánaði, litlu fyri langaföstu; ferr sá krankdómr í fyrstu ekki mjök ákaft, ok líkaminn svá máttdreginn, bæði af elli ok harðlífi, at hann mátti eigi stórmerki bera eptir náttúru eðli; líðr nú svá fram til festum sancti Gregorii, at hann hefir mæðiliga sótt, fellr þá megn líkamans dagliga, svá at allir hans hugðarmenn þykjast vita vísan enda. En af honum sjálfum má þat rèttliga segja, at löngu fyrri en fram kæmi vissi hann fyrir sitt andlát, sem váttar þat erindi til Þórðar Sturlusonar. Sæll Gregorius [stóð] þann vetr á fimtudag viku, meðal ymbrudaga, ok á næsta dag eptir býðr biskupinn presti sínum, er Jón hèt, at veita sèr framfarar embætti; ok sem fram líðr at smurníngum, gerir hann klerkum sermonem mjök hjálpsamligan, en eigi langan, þvíat málit var erfitt sakir máttleysis; skipar síðan þeim erindum kirkjunnar ok kristinsdómsins, sem hann skilr sèr heyra, þar til annarr kemr í hans rúm. Hèr með gerir hann sitt testamentum at fátækra manna sið, ok dæmi sjálfs græðarans, þat er at skipta klæðum sínum miðil sinna manna; þóttist hverr sem gulli gæddr, er þar þiggr nokkut af, þvíat engi maðr mátti hjartaligri verða sínum elskarum en herra Guðmundr var, sakir [þess] at hans lítillæti, heilræði ok mjúklæti samhaldit dag frá degi, sigraði náliga manns náttúru; því standa nú margir umbergis með tárum ok trega, þvíat hjartat sviddi innan svá sárt, sem skorit veri, at missa þvílíks faðernis, er allt var sætt ok sæmiligt sínum ástvinum. En ef sút ok sorg hefði lofat harmundum at hugleiða, hverja ván til guðs[1] þessi maðr biskupinn átti, ok ór hvílíkum harmkvælum hann var kallaðr, var meirr fagnanda en sýtanda yfir hans framför. Síðan talar hann svá til þeirra: yðr heimaklerkum mínum er

1) hann hafði, b. v. Hd.

kunnigt, segir hann, at ek hefir löngu fyrirsagt legstað minn í stúkunni syðri meðal presta tveggja, er þar liggja, ok þèr kennit vel; býð ek yðr þat, þjónustumönnum mínum, at þann tíma sem þèr sjáit dauðamörk færast á mik, setið líkamann bröt ór sænginni, ok hafit áðr tilbúna fjöl, dreifða með dupt, sem þèr megit á leggja, þvíat kristnum manni byrjar í moldu deyja. Hèr má nú sjá á sínum síðastum tímum annan Martinum, var ok í þeirra lífi heilli sæmd hins sæla Martini stórliga mart samkvæmiligt, lítillæti, hreinlífi, fátækt ok píslarvætti, með allskyns harðlífi ok bindendi; hèr með líktust þeir í veizlum heilags anda, þvíat hann hvíldist yfir hvárntveggja meðr eldsloga, sem þeir fluttu guðs embætti, ok skrifat stendr í lífssögum þeirra; þat ok, er Guðmundr biskup græddi mann af eitrblæstri, er eptirlikíng sancti Martini, sem fleira annat, en hèr setist með langmæli. Sem hèr er komit, býðr biskupinn klerkum sínum at veita sèr friðarkoss; gekk þat verk svá nauðuliga fram, at húsit þaut með gráti; lyktast síðan þjónustan; vill þá biskupinn þat eina tala, sem nauðsynjar vóru berligar; líðr svá hèðan fram yfir sunnudaginn, at máttinn dregr brott ór limunum stund af stund, en ei því síðr framdi hans guðligt lítillæti ok blezuð túnga sitt vanaligt embætti með lofgjörðum almáttigs guðs án afláti. Snimma mánadags morgūninn sjá þjónustumenn biskupsins, at hann mun lítið draga, þvíat limir hans hafa þá fengit opinber dauðamörk; þó var æ bænin í hans munni, meðan hann hèlt lífinu. Hefr hann upp, sem menn heyrðu síðast, Kyrieleison ok þar með Letaniam með sinni skipan, ok[1] sem fram kemr í postula tölu, hefr hann upp sína hægri hönd yfir sik með blezan, svá ágætliga ok stórum einkanligá, sem þeir váttuðu er nær vóru, at rètt mark heilags kross stóð þar eptir sýniliga í loptinu, sem höndin hafði farit. En er handleggrinn seig niðr at búkinum, sjá fyrrnefndir hans ástvinir, Þorkell ok Helgi, at hann er með öllu leiddr at andláti, ok því hefja þeir hann ór sænginni á þá fjöl dupti dreifða, sem hann hafði boðit. Ok rètt í þeirra höndum gekk sú blezaða sál, sem trúist, til eilífs fagnaðar út af myrkvastofu þessa heims ok leirligu keri líkamans, krúnandi með þeim er hundraðfaldan ávöxt taka ok úhaltir fylgja lambit, hvert er þat gengr fyrir. Hann leið fram af leirbúð heimsins xvij. kalendas

1) er ok, b. v. Hd.

Aprilis, þat var hans prestsvígsludagr; hann fór fram secunda feria á fjórðu stundu dags á sjautugta ok sètta ári síns aldrs, þá hafði hann lifað í biskupligri tign xxx. v ár; þat var á dögum virðulegs herra Gregorii noni, er næstr var eptir fyrrnefndan Honorium tertium, ok Sigurðar erkibiskups áttanda Nidrosiensis, ok Hákonar konúngs Hákonarsonar. Þá var liðit ꝏ. c. c. xxx ok vij ár frá holdgan drottins várs Jesu Christi, er samjafn guði feðr í einíngu heilags anda gleðr sína valda menn án enda.

73. En er ástvínir herra biskups fyrr nefndir sá hann viðrskildan, kystu þeir sætliga með sútfullum tárum þann ljúfa líkam, er þegar var ólíkr andlausu holdi flestra framfarinna manna fyrir ágætligt yfirbragð, ok alla þekkni til nákvæmdar; rètta þá líkamann ok semja limuna, at allir færi sem fagrligast; kemr þar þá saman öll klerkasveit kirkjunnar, með skipuðu bænahaldi ok sálmasöng; stendr í sama stað líkaminn samdægris, ok er þar náttsett[r] vakrliga, geymdr með ljós, svá at aldri fèll sálmasöngr um alla nóttina; en á þriðjadags morgin er hann til kirkju borinn ok skrýddr á börum sunnan kórs með venum skrúða kirkjunnar; fannst þá þegar öllum, er sá, mikil dásemd í hans yfirbragði, þvíat engi maðr á sínum dögum hafði fyrri litið dauðs manns hold svá hvítt ok þekkiligt. Þat bar yfir, at andlitsmeinsins sá þá engi merki; kom þeim slíkt allt saman lítt á úvart, sem næst honum höfðu gengit, ok mesta kynníng fengit hans ágeta lifnaðar. Segir sira Jón kapellanus commendacionem, ok síðan virðuliga sálumessu. En sakir þess, at þegar á mánadaginn vóru menn gjörvir tveggja vegna í bygðir, at bera þessi tíðindi, samþykkir þat klerkum kirkjunnar, at bíða fólks framan til festum Cuthberti, er þá stóð sètta dag vikunnar; gengr þat ok svá til, at til Hóla kemr múgr manns á þeim dögum, var í meðal þeirra sæmiligr maðr, sira Eyjólfr at nafni, er síðan varð ábóti at Múnkaþverá; hann offrar hendi biskupsins vænt fíngrgull til graptar. Er þá komit festum sancti Cuthberti, ok því fara þeir fram til graptar embættis; var þat gert með öllum greinum sem framast vóru föng á; klerkar allir í sloppum, en hríngt ok súngit sem orkaði; þótti þat skýrum mönnum merkiligt þegar í fyrstu í hans graftarþjónustu, at hrörnandi stöpull kirkjunnar bar þá betr hríngíng allra klukkna í senn en tvennra fyrr eða síðarr, ok svá hafa skilríkir menn flutt, at áðr upp

gafst hríngíngin væri smíðit með öllu skjálftalaust. Yfir grefti virðuligs herra Guðmundar góða gerir einn klerkr, prestr at vígslu, þvílikan sermonem sem stendr skrifaðr:

74. Sælar væri kristinna manna sálur, ef þær atgeymdi iðuliga, hvílík verðlaun góðr maðr tekr fyrir sína hjartaliga þjónustu á síðasta degi, sem guð slítr manninn sundr í tvá luti ok skilr með líkama ok sálu, eða hversu ógurligt áfelli með ávaxtalausum harmi fordæmanda sál þröngvir með eilífri skömm ok bótlausri pínu. Ok þá mundi maðrinn þenna dag sèr fyrir hjartans augu leiða, svá sem hinn heilagi Jeronimus segir sik gert hafa, svá skrifandi: sive comedi sive bibi [sive] aliquid aliud facio, semper est in auribus meis illa tuba horribilis insonuisse, quæ dicit: surgite mortui, et venite ad judicium, þvíat ei mundi maðrinn svá úsæmiliga auðga sik með ferligri fjárágirni, at kirkjurnar veri sínu gózi ræntar ok kennimannligr stèttr eðr biskupsstólarnir sjálfir at herfangi gjörfir, ok ei heldr mundu þeir dirfast heiptugar hendr at leggja á kirkjunnar þjónustumenn með meizlum ok limaláti, eða dirfast með öllu út at hella þeirra banablóði, ok enn síðr sjálfa biskupana at angra með ánauð ok útlegð, með rán ok rifs, þrjózku ok þrúgan, ok með því, sem ei má utan með sorg segja, sem er bardagar ok beinbrot ok margháttaðar meingjörðir, þær sem þessi guðs vin Guðmundr biskup góðrar minníngar hefir þolt af sínum undirmönnum úbrigðiliga tíma alls síns biskupsdóms, ok öllum er auðsýnt, at herbergi síns hjarta hefir eigi yfir sand sett, heldr grundvallat yfir sterkan stein, sem er Kristr sun guðs lifanda, þvíat hans stöðugleiki var æ því sterkari með öllum guðs rètt eptir fremsta megni, sem hans var fleira vega freistað í herfiligri hræríngu marghåttaðra meingjörða; megum vèr fagrliga huggast, er vinir hans vórum, af ván þess verðleiks, er vèr trúum hann hafa munu af guði fyrir sína einkanliga þolinmæði, þviat trúligt er, at hún mun hann hafa sælan gert at eilífu, eptir því sem skrifar Lúkas guðspjallamaðr: in patientia vestra possidebitis animas vestras. Er þat ok auðsýnt á allri hans framferð, at hann hefir sinn dauðadag fyrir augum haft sannliga, ok ei sik fyrir óeinörð undan dregit hvílíkan enda hans óvinir hefði á hans dögum gjört; ok þótt hann vyrði eigi í síðustu vápnum veginn, er ei því síðr auðfundit hans píslarvætti, þvíat hann ástundaði ekki

annat en þola til þess eymd ok ofsókn heimsins, at hann mætti sem beztr dæmast ok sem sælastr verða í ókomnu lífi, ok þat þiggja sem sæll Johannes evangelista skrifar in Apocalipsi: beati mortui, qui in domino moriuntur. En hversu megu vèr þat fá, at deyja í Kristi, utan tempra alla vára framferð heimliga sem líkast þessum guðs vin, er í öngu sýndist baldinn nè öfundsjúkr, í öngu reiðinn nè guðlatr, í öngu ofneyzlufullr nè síngjarn, þvíat fyrr plágaði hann biskupsstól sinn með fátækt, en hann vildi nokkurs hlutar óhreinliga afla. Fátækum guðs ölmusum veitti hann svá mikit, at hann hugði mjök svá ekki at hvat eptir var, þvíat mildin, úbaldin af sínku, sýnist veröldinni með öllu forsjálaus ok úvitr; til þess vildi hann ok bera lèttlig klæði, ok sitja yfir órikum rèttum, at því framarr mætti hann miðla guðs ölmusum fyrir hans nafn ok elsku. Hreinleika síns kjöts geymdi hann í fagri fèhirzlu síns líkama, undir hinum trausta lási trúligs skírlífis, sem hinn mætasta gimstein er aldri skyldi brotna. Þetta ok allt annat gott, þat er hann gjörði, trúum vèr guð hafa ávaxtað honum til eilífrar sælu framfaranda af veröldinni með þvílíkum dygðum, hvíldan ok frjálsaðan af öllu heimsins erfiði ok i Kristi dáit hafa, svá [sem] einn lim áfastan þeim líkama, sem guð drottinn gerir af allri sinni almenniligri ok heilagri kristni, ok sjálfr hann er höfuðit, með því blezaða mannligu kjöti, sem hann tók í sínum getnaði af signaðri frú sancta Maria sinni mæðr, oss til lífs ok leiðrèttu eptir genginn veg þessar veraldar; hyggjum vèr því biskupinum rèttliga þat lof heyra, sem Davíð skrifar in psalterio: beati immaculati in via, et cet. Hvað er várr vegr, utan heimsins dagar meðan þeir vinnast eru þvíat eins góðir, at vèr starfim í guðs lögmáli til nytsemdar, ok forðim oss við ferligri framferð saurugligs líkama, eptir því sem vèr heyrum dæmi til þessa signaða guðs vinar, þvíat í þeim sama sálmi segir litlu síðarr: non enim qui operantur iniquitatem, et cet. Í upphafi þessarar skýringar segir svá heilagr Augustinus til allra samt, ok sèrhvers kristins manns: scio quid velis, beatitudinem queris; si vis esse beatus, esto immaculatus. Þat er oss kunnigt, at æskja sèr sælir at vera, en [hvat] hverr vill til vinna sýnist mjök úlíkt, þvíat í mörgum stöðum auðgar hinn ríki sik meðr því, at hann rífr til hinn fátæka; baldinn neytir ok sinna vápna, þar sem sönn er auðmýktin fyrir honum; forsfullr vandar eigi at

seðja sína reiði á meinleysi dúfunnar, ok þeir, sem svá fara fram í slíku eðr öðru þvílíku, fá eigi jafna sæluna, þvíat eigi eru allir flekklausir. En þeir eru sannliga sælir er fátækir eru í andanum, auðmjúkir syrgjandi þessa heims, miskunsamir ok þeir, er gott iðuliga girnast, hreinhjartaðir, friðsamir ok þolinmóðir, ok þeir sem ofsóttir verða þessa heims munu ná sínum rèttindum fyrir guðs augliti. Mun svá sýnast framferð þessa manns, hins ágæta Guðmundar biskups, sem hèr er nú jarðaðr, at hann hafi mjök svá þessa alla luti í sèr hafða með öðrum fleirum góðum lutum, ok því biðjum hann allir samt, at svá miklu góðu sem hann orkaði þessa heims, árni hann oss allra þarfligra luta i þessu lífi, en því liðnu endalausa gleði með guði ok hans helgum mönnum. Þat veiti oss sá sami guð, er lifir ok rikir einn í heilagri þrenníngu per infinita secula. Amen.

75. En hvat má [greinast] af þeirri grátligri eymd ok aumkan, er kvaldi guðs ölmusur ok aumíngja á þann dag, er þeirra hjálp ok huggan, herra Guðmundr biskup, var út hafinn, þvíat alla sína daga var hann, sem lesit er, fátækra faðir ok vàlaðra viðrhjálp. Því rennr nú flokkum þat auma fólk með þvílíkri kveinan: hvað mun af oss verða? hverr mun oss hugga? nú er þess manns hold hulið mold, er oss fæddi, huggaði ok klæddi meðr sínu huggæði, ok ei varð um aldr í því fundinn, at hann fyrirliti fátækan mann; fyrir vára skyld þoldi hann húngr ok kulda, únáð ok útlegð, hatr ok harmkvæli, grimd ok ágang sinna úvina, þvíat hann var styrkíng veykra ok vanmáttugra, eflíng ekkna ok faðir föðurlausra, huggan harmþrúnginna, snauðra ok sælla. — Hverr fannst honum miskunsamari ok hreinni, lítillátari ok mildari? hverr hittist honum staðfastari í góðum verkum, ok hugarkrapti ok sönnu þolinmæði? — Hverr bar betr skapraunir, eðr hverr skriptaði sèr framarr með allskyns harðlífi? — hreinlífr, svá at þat eitt var aldri af hans úvinum talat, at hann lýtti sinn lifnað; viljugliga fátækr, at hann yrði fullríkr með guði; hófsamr ok örr, bliðr ok hógværr, svá at heimrinn var ei lengr makligr þvílíku lífi. Hó, hó, drottinn guð! segja þeir, hugga þú oss mildr faðir, þvíat bótlaus er ella vár sút; vèr biðum aldri bata þessa manns, þvíat ei fæðist honum likr á várum dögum; faðir miskunna, guð allrar hugganar, er hverjum geldr sín verk, ömbona þú honum i eilífu lífi þat er hann gerði fyrir þínu nafni,

gleð þú hann, þvíat hann gladdi oss; veittu honum væna borg, himneska Jerúsalem, fyrir þat er hann herbergði oss; láttú hann, drottinn, hvárki húngr þola nè þosta, þvíat hann saddi oss ok slökkti várn þorsta! — þvílíkar harmtölur var at heyra eptir þenna dýrðarmann, ei at eins þar er hann jarðaðist, heldr of allar bygðir, hèruð ok hálfur, sem þessi tíðindi frèttast, svá at líksöngr hans í trega ok tárum vannst mörgum meirr en vij nátta. Ok aldri meðan Ísland byggvist mun hans ölmusugæði gleymíng taka, heldr frægiliga boðast ok boðanliga frægjast af hverri túngu, þvíat eigi siðr andaðr en lifandi stendr hann í ölmusugjörðum til beggja handa, þá er öreiginn þiggr fyrir hans blezaða nafn. Ok sakir þess, at hann [er] yfir megn til frásagnar, skulum vèr hlýða hversu spásaga herra Guðmundar fylldist með Þórði Sturlusyni, vin hans, at ei mundi langt þeirra í millum verða.

76. Magnús vestfirzki, er kom til herra Guðmundar lítlu áðr hann tæki banasótt, sem greint var, fór hann til sinna hèraða ok heim á búgarð Þórðar, berandi honum, sem boðit var, kærliga kveðju herra Guðmundar biskups. Um kveldit sezt Þórðr á einn þverpall, ok kallar til sín son sinn, er Sturla hèt, er síðan varð riddari Magnúsar konúngs Hákonarsonar, ok lögmaðr, ok með hans ráði ok tillögu skrifaði konúngrinn fyrstu lögbók til Íslands síðan landit gekk undir konúngs vald; kom með þessa bók út herra Þorvarðr Þórarinsson í Austfjörðum, ok stóð hún um xv ár, þar til er optnefndr Magnús konúngr skrifaði aðra bók eptir tillögu herra Jóns Einarssonar, hefir sú staðit síðan með ýmisligum rèttarbótum konúnganna tillögðum; hefir þessi sami Sturla skrifat marga merkiliga hluti af herra Guðmundi biskupi. Sami Sturla ok Magnús koma fyrir Þórð, talar Þórðr við Magnús: hefir þú nökkut eyrindi til mín af hálfu Guðmundar biskups? — Magnús svarar: þat bað hann mik segja þèr, at þit mundit finnast í vár. — Þórðr svarar: satt mun hann segja, en hvárgi okkarr þykki mèr likligr til langferða, þvíat mèr [er] sagt at hann gerist mjök vanfærr sakir sjónleysis ok mikils krankleika, en ek mjök ellimóðr; ætla ek ekki mína ferð til norðrsveita; því seg, hvílíkar skynsemdir hann talaði fyrir þèr af högum höfðíngja eða sinna mótgangsmanna! — [Magnús svarar]: Öll hans mál vóru af skynsemi full, en fá vetr kvað hann líða mundu áðr hans ofsóknarmenn mundu sjálfir hendr á leggjast ok

þeirra afkvæmi drepast niðr; kvað hann þar ok skjótast mundu eptir verða sem mestr var uppgangrinn. Þórðr bað Sturlu hyggja vel at því er þeir töluðu, ok virða með sjálfum sèr, hvárir betra hlut völdu sèr, þeir er sik hèldu í vináttu hins góða Guðmundar biskups, eðr honum risu í mót með yfirgirnd sinnar öfundar. Nú skal greina framkvæmd þessa hlutar. Skammt leið áðr frá grepti Guðmundar biskups en hans andlát fluttist um alla landsins fjórðúnga. En er Þórðr Sturluson spurði þau tiðindi, endrminnist hann hvat er Magnús hafði sagt af orðum biskups, ok tekr svá til orðs: seint bíðum vèr bætr þvílíks mannskaða, er land várt hefir fengit í fráfalli þvílíks manns, en farin sýnist mèr nú sú vón, at við finnimst líkamliga í vár, ok sakir þess ek fann engan trúlyndara í fyrirheitum, — þvíat engan tíma brást mèr þat er hann játaði mèr, — trúi ek, at þat vanabrigði, er ek hefir tekit á þessarri föstu, fari hèðan af vaxanda, ok því mun ek viðr því búast eiga, at mínir lífdagar verði eigi langir, en því ráði guð, hvelíkr verðr fundr okkarr Guðmundar biskups, en þess væntir ek, at hans vinátta muni mèr ok mörgum öðrum at gagni koma. Síðan kallar Þórðr til sín sonu sína, frændr ok vini, skipar sitt ráð at öllu, sem hann eigi við dauðanum at búast. Eptir þat vex krankleikrinn, ór hverjum hann andast fjórða Idus dag Aprilis á hinum sama mánaði ok Guðmundr biskup; er þat trúanligt, at þeir hafi fundizt í andligu lífi á því sama vári, sem sjálfr hann fyrir sagði.

77. Nú er þar komit þessu máli, at blezaðr biskup herra Guðmundr er undir lok liðinn ok í jörð laginn, ok má þat rèttliga segja, at hans lífsbók, er lesin var, finnst optarr angrlig en mjög gleðilig, ok því svá, at hans veraldar vegr líkist lægra hlut þess viðar, er pálma heitir, sem Davíð sannar, at rèttlátr mun blómgast allt eitt ok pálma, hvat sæll Gregorius greinir með þeirri glósu, at pálma náttúrast einsligra vexti en engi viðr annarr, fyrir þá grein, at hann er minnstr í sèr við rótina, en æ því megnari sem ofarr meirr líðr, þar til hann breiðir listugar rásir sinna lima með fögrum flúrum ok venum ávöxtum, bæði súrum ok sætum. Þat er annat hans náttúra, at næst jörðinni setr sik næfrin með berkinum skarpast inn at trènu, en gerir sik æ því liðugari sem viðrinn vex ok feitin þróast upp at limunum. En þótt margir guðs ástvinir beri rèttliga

mynd þessa viðar eptir lögtekinni skýríng, mun þessi glósa sýnast herra Guðmundi nálægri ok eiginligri en flestum öðrum, þvíat grannvaxinn pálmviðr nær jörð merkir þá fyrirlitníng er hann veitti jarðneskum hlutum, at svá sem hann gjörðist fátækr ok lítill í líðandum hlutum, vyrði hann í efri glósu viðarins mikill ok ríkr með himneskum auðæfum. En stríðan sú, er næfrin veitir viðinum í neðanferð, merkir föstur ok bindandi, meizlur ok kvöl ok þröngvíngar, er sagðr guðs maðr þoldi í veraldligu lífi með útlegðum ok údæmlignm meingjörðum, sem beinbrotin sjálf bera vitni, því blómgast hann nú göfugligr í hærra stað með fullum flúrum ok feitum ávextí mildinnar, frjáls ok fyrir utan alla þröngvíng sinna úvina. En því er viðarins ávöxtr bæði súrr ok sætr, at biskupinn veitti sínum undirmönnum tvenna bergíng, þá er hann hirti suma með mjúkum ok blíðum bænarorðum, sem steypandi feitt olenm með fögrum fortölum í þeirra opin sár þeim til sálubótar ok syndalausnar. En þeim, er el vildu hlýðnast heilagri kirkju, heldr æ grimmast mót henni, sparði hann eigi þeirra sárum súrt vín ok sára lækníng með bitru banni ok beisku áfelli. Í þriðju grein skýrir sæll Gregorius grannleik viðarins fyrir tempranligt upphaf góðra verka, þvíat sá maðr, sem vitrlíga byrjar, þrotnar ei allt til síðasta enda, sem gjörði guðs maðr Guðmundr biskup, er þróaðist frá góðu til betra, þar til hann tók, sem váttar evangelium, eilífa heilsu fyrir sína staðfesti. Nú sem um er runnit hvat pálma merkir með sínu formi, má vitr maðr hèðan af þveru vel skilja, hvað skógviðrinn hefir þýða, er mestr ok megnastr vex við rótina, þat er í fám orðum öll ástundan til veraldar, en mínkan ok þurðr til himneskrar föðurleifðar, ok svá hver grein fyrra viðinum er mótstaðlig; má þá glósu rèttliga eignast Sighvatr ok hans eptirlíkjarar; er þessi staða mjök ólík, önnur sýnist [há] í upphafi, en eyðist öll ok verðr at öngu, en herra Guðmundr fór langt í veröld vaxandi með hæð hjálpsamligs ávaxtar sèr ok öðrum til fagnaðar. Nú kann vera, sakir fjölskyldu eðr vanfæri, at maðr orki eigi svá miklu erfiði, at ræta upp með rótum þenna pálmam, ok bera til herbergis, þá mun hann ei svá latr eða vanmegn, at hann vili eigi saman lesa sèr í hönd flúr af viðinum, síðan þau eru hvárki dreifð um eyðimörk nè fljótandi fráskilliga yfir hafsmegin, heldr hvert hjá öðru sem hægast til samlestrs. Sá

maðr rætir upp pálmam ok flytr með sèr, sem tekr kærliga[1] alla lífssögu herra Guðmundar, en sá bleðr flúr eða frukt af trènu, sem fyrir ástar sakir við biskupinn skrifar þann óð minníngar, er samhaldinn boðar blóm ok birti andligrar miskunnar, er hann þá í hárri stöðu himneskrar kurie, því at lágr lífs vegr öðlaðist eilífa hæð. [Í aðra grein má þat orðfelli flúr heita, sem fegrat stendr með stuðlum ok hljóðstöfum; birtist ok einkar vel í slíku, hversu ástin er vellandi til þessa manns, herra Guðmundar biskups, er hver túnga þykkist nýjum fagnaði gefin, ef hann kann lofa, hvárt heldr með sundrlausum orðum eða samföstum; því heyrum í fyrstu, hvat skáldit kvað í fyrstu af undirstöðu viðarins en síðarr af bruminu, at sama veg leiðist skáld ok skýríng. Öll þau tákn, sem hèr til hafa kveðin verit, vann herra Guðmundar miskunn þann tið hann var í dauðligum líkama, ok því merkir þetta mál fyrir lægri stöðu viðarins. En nú, sem trúist, at hann hafi sótt í hæð himinríkis, sækir glósan upp í trèit, þvíat fylgjandi tákn vann öll eptir veraldar lífit, en magn ok mergð ávaxtar þess, er pálmviðrinn berr, fær engi maðr letrum lukt eða í frásagnir fert, sem actor váttar, þá er hann svá segir[2]:

Táknin öll hve lýði læknar[3] (o. s. frv.).

Ok enn segir hann svá til viðarins:

Líti þjóð í lofsmíð mætri[4] (o. s. frv.).

78. Nú skal í fyrstu segja þá sýn, er fyrir sagði þá sókn til herra Guðmundar, sem hann hefir nú öðlazt af öllum áttum. Nokkurum vetrum eptir andlát Guðmundar biskups sýndist í svefni merkorðum manni, at prestr, er Símon hèt, kæmi til hans; prestr sá var vígsluson ok kjötligr frændi herra Guðmundar biskups. Sem prestrinn sýnist honum standa fyrir sænginni, kennir hann hverr kominn var, ok greinir þat með, at sá er framliðinn; því segir hann svá: Símon minn! seg mèr nokkuð úr öðrum heimi, þvíat ek veit at þú ert framliðinn.

1) letrliga, 398. 2) 398 hefir þenna kap. síðastan, og lykr þannig, frá [: (lífs vegr öðlaðist himneska hæð) ok eilífan heiðr með almáttigum guði án nokkurra endimarka. Hafi nú þeir, sem sagða hluti góðfúsliga heyrðu, frið ok fagnað með guði, en framliðnir hvíld eilífa! Amen.

Me dispone pia post mortem virgo Maria
pontificis mundi sub præsidium Godemundi.

3—4) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna. v. 50, 40.

Prestrinn svarar: hvers viltu spyrja? — þess, er mèr er mest forvitni á, segir hann. Hvat er þat? segir hinn andaði. — At þú segir mèr nökkut frá herra mínum ok andligum [föður], Guðmundi biskupi. Prestrinn svarar: margt ok mikit er þar af talanda, þvíat Guðmundr biskup er hinn dýrligsti guðs ástvin, ok þier menn eru sælir, er undir hans biskupsdómi hafa með hlýðni verit, ok þeirrar hlýðni nýt ek síðan ek leið bröt af þessum heimi, þvíat hans ölmusur ok píslarvætti með heilagri bæn ok hreinlífi steig upp hátt í augliti drottins, sem þat reykelsi samtemprat himnesku thimiamathe, er í sínum ilm má ei orðum skrífast, ok þar mun koma, sem tímar líða, at engi maðr á öllu Íslandi mun þurfa þess spyrja, hverr Guðmundr biskup er með guði, þvíat til hans mun sótt verða af öllu Íslandi, sakir þeirrar gezku, er guð veitir honum til heilsubótar ok hjálpar öllu mannkyní, ok trúandi mönnum; mun þaðan af landinu mest megin í sókn, sem biskupinn var optast bezt tekinn í sínni útlegð, þvíat guðs blezan er þeim öllum, er vel gjörðu svá vökrum hans vin. Vit ok þat með, at sá maðr, sem guðs [móður] Marie ok mínum herra Guðmundi biskupi vill gera þægja ölmusu, fæði hann fátækan mann á hvert laugarkveld; skaltú þenna hlut segja sem flestum, þvíat góðfúsir menn munu þat gjarna heyra vilja; mun þeim ok betr endast sinn kostr, er þessa ölmusu gera; nú mun hvat ek sagði þèr, þvíat þat þarnast eigi framkvæmd á sínum tíma. Ok hversu þat er nú fyllt í dag, sem prestrinn fyrir sagði í sýninni, segir actor:

Heilagr blómgast hölda skýlir[1] o. s. fr.

Nú fyrir þá skynsemd, at lífssaga herra Guðmundar ok lofligt vitorð mannanna vel váttar, hversu heit ok háleit var vinátta þeirra guðs móður Marie, skal þat upphaf tákna biskupsins eptir lifit, er hann var í ferð með henni ok vann hennar boð, þvíat þessi er hans hin æzta tígn, at vera hennar þjón bæði lífs ok liðinn.

79. Arnbjörg hèt ein úrík kona, hún var í Skálholts biskupsdæmi, í því bygðarlagi sem Fljótshverfi heitir; hún var kviðug at barni, svá at þess fæðíngartími var kominn vikum eðr nærri því; fæddi hún eigi þat barn á því hausti, ok á vetri stóð

1) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna v. 39.

hennar hagr meðr slíkum [hætti] fram um jól ok svá til langaföstu. Með iðulign ákalli kvaddi hún sèr til hjálpar móður allrar miskunnar, júngfrú Mariam, ok hennar virðuliga vin, hinn góða Guðmund biskup, hafandi náttliga vatn úr þeim brunni, sem [hann] hafði blezat, hjá sinni sæng. Sem þessi tími kom, fèllu at henni mikil uhægindi af digrleika ok margkyns meinlætum, at hún fèkk sik ekki upp rètt eðr gengit annan hátt, en hún dró sik fram með tveim stöfum; hèt hún þá mörgum [smáhlutum] til júngfrú Marie ok hins góða Guðmundar biskups; þoldi hún þá pínu jafnan framan til Maríumessu í föstunni, en hana bar þá upp á skírdag. Ok svá sem sól var í landsuðri á þann dag, sagði bóndinn, at hann vildi sækja nóntíðir, en hún bað með gráti, at hann flytti hana í bænarhús, sem þar var á garðinum; gjörði hann ok svá, ok kastaði undir hana einni dýnu frammi fyrir altari, mátti hún þá öngvan veg liggja nema á rygginn, ok hváriga hlið víkja sèr, grèt hún þá sárliga sína kvöl ok baðst fyrir til guðs, bergjandi vatni hins góða Guðmundar, ok síðan rann á hana svá sem höfgi. Gömul kona ok góðfús ok sjónlaus var hjá henni, ok ekki fleira manna. Þenna tíma vóru snjófar svá miklir á jörð, at menn kómust varla bæja millum. Sem Arnbjörg þóttist sofnuð vera, fyllti allt húsit með ljósi; þá kendi hin gamla kona þvílíkt, sem bjartr eldr veri borinn fyrir hennar augna staði, ok því hèlt hún þar fyrir báðum höndum, en Arnbjörg sá eina júngfrú standa hjá sèr, ok karlmann með kennimanns klæðum. Júngfrúin talaði til hans: sit at herðum henni, Guðmundr biskup! meðan ek geri mitt starf. Síðan lagði þetta blezaða blómstr sínar signuðu hendr á hennar sjúkdómsfullan kvið, ok strauk svá fast, at þar af þóttist hún þola mikinn sárleika, ok með þeim sama fæddi hún barn. Drottníng himins ok jarðar talaði svá: þú hefir fæddan pilt ok hefir ek hann á brot með mèr, en ef nökkurr grunar, at þèr sè þessi miskunn veitt, þá seg þat fyrir sem úvorðit er, at sakir minnar tilkvámu skal þenna snjó svá skjótt af taka, með linum vindi ok sólar hita, at allr fènaðr skal hafa jörð ínóg á páskadag; ok svá varð. Þrjá hluti vil ek at þú gerir: vatnfastir fyrir mína þessa hátíð æfinliga, ok lesir dagliga engilliga kveðju vij sinnum, meðan þú lifir: Ave Maria. Úheimilan mann fyrirbýð ek þèr at taka hèðan af, en eigi at eig[i]ngiptast. Arnbjörg svaraði þá, svá hátt at heyrði

hin gamla kona: fegin skal ek svá gera, Maria mín sæl! Síðan vaknaði hún, með mjófum vexti, mjög svá alheil; ok þá er menn kómu til hennar, ok höfðu hendr at henni, hittu þeir klæði hennar með blóð, ok barns fylgju eptir líkindum. Lofuðu allir guð þeir sem sá ok heyrðu, ok guðs móður Mariam, ok hinn góða Guðmund biskup, ok hèr um kvað herra Arngrímr vísu:

Heilagt blóm kom brínga Naumu[1] (o. s. frv.).

Ok enn kvað hann hèr af:

Sínar lagði hendr en hreina[2] (o. s. frv.).

80. Þórný hèt kona, sú er með barni kviku þóttist vera, var ván at þat fæddist móti sumri, en at jólum fyrir um vetrinn tók hún blóðföll, ok hafði þau í hverjum þrim vikum, framan til Þorláksmessu annan vetrinn, ok þá hèt hún á hinn sæla Þorlák, ok þótti henni þýngja við sitt heit. Á kyndilsmessu hèt hún á vára frú, ok fór sömu leið. Frjádaginn fyrsta í langaföstu bar hún mál á, ok þurfti þá um sik iij álnar ok þvera hönd; stendr með því framan til Guðmundardags; ok næsta dag fyrir leggst hún í sæng sína, meðr fárligri sótt ok svíðanda harmi sinnar vesaldar; byrjar hún þá sitt ákall til [guðs], ok einkanligum bænastað til hins góða Guðmundar, ok heitr at ganga til Hóla þrjá vetr hina næstu ok gefa eyri vax, ok láta sýngja þrjár sálumessur fyrir sál föður hans ok móður, ok síðan sofnar hún. Henni sýndist þá maðr standa fyrir sænginni í myrkblárri kápu, ok horfði á hana um stund, ok talaði síðan: dylst ekki við, at ek er Guðmundr biskup, ok efn heit þín sem bezt, ok leyn ei hvað miskunn þú fær. Síðan tók hann sinni hægri hendi á brjósti henni, en vinstri undir herðar, ok strauk allan hennar líkama niðr til knjá; varð henni við hans átök gott, ok þó mjök sárt, ok því líkast sem kona fæðir barn með skemstum sjúknaði; ok eptir þat lá hún svá sem örviti af meginleysi, ok vissi eigi hversu maðrinn hvarf eða braut fór. Um morguninn, sem hún vaknaði, var hún alheil, ok svá mjó, at hún þurfti eigi meira um sik en alin ok spönn; þat fylgði ok hèr með, at hún hafði haft kveisusull undir hendinni, var hann þá gróinn með öllu, ok hennar limir allir svá liðugir ok mjúkir, sem hún hefði alldri þess kyndis mein haft, utan fætr niðr frá knjám, þeir vóru mjög stirðir, þvíat á þá hafði hans blezaða handatak eigi komit. Þat fylgði ok hèr með, at þá er menn kómu

1-2) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna v. 54, 55.

at henni, ok skynjuðu, at öll hennar klæði hittust þurr ok flekklaus, sem heillar konu, sór hún þessa jartegn fyrir sira Þorsteini officiali, heima at Hólum, ok þessa jartegn vita allir góðir menn sanna vera. Ok er þat eigi efanda, at þessi signaði biskup skínn háleitliga upphafiðr í himinríkis höll ok samsæti annarra heilagra biskupa, svá sem segir herra Arngrímr hèr um:

Sóttir græðir allra átta
uppi og niðri, ok þar í miðju,
bót fær hverr er biskup ítran
beiðir þess er samir greiða.
Öllum bergr sá er eyðir villu
ormbóls hötuðr fegri sólu;
lúti gjörvöll landsbygð sætum
lim stýranda bjartra himna.

Ok enn kvað hann:

Ilmar slíkt um allan hólmann,
Ormr biskup veldr þeirri forman,
beiðist hann með björtum kvæðum
biskups heiðr at víða reiðist;
verðr Guðmundr efri jörðu
elsku Baldr ef þyrma valdi,
drottinn efli hann mildr og máttugr
mána hjarls til slíkrar vánar!

81. Þorgerðr hèt kona gömul, köllut kráka, hún var skaphörð mjök, ok þó trúföst í öðru lagi; hún hafði verit hjá Guðmundi biskupi, þá er hann var í Odda hjá Sæmundi, ok sagði marga góða luti af hans framferð ok háttum, sem sannir mundu allir vera. Þá er hún var fimtög at aldri ok þrim vetrum meirr, tók hún augnaverk svá sterkan, at bæði hennar augu sukku meðr sprúngnum sjáldrum, ok fór úr vágr ok holdfúi; varð hún með öllu steinblind, ok stóð með því um xxx ára. Hún hafði hjá sèr dagliga vatn Guðmundar biskups, ok bar þat upp í skoltana, ok þóttist linan af fá, er kalt var; með hjartaligu ákalli ok áheitum bað hún til hins góða Guðmundar biskups sèr miskunnar ok vægðar síns meinlætis. Margan tíma sótti ek, bróðir Arngrímr, henni þetta vatn í mínum barndómi, því at hún var með feðr mínum fimtán vetr, ok þar andaðist hún, sem hún hafði lxxx ára ok þrjú ár. Fèkk hún sýn sína á Guðmundardag, ok var skygn, svá at hún sá mann á hesti

um hálffjórðúngs veg; prófaði þetta faðir minn ok margir aðrir dugandi menn, en hún lifði tvá vetr síðan. Má þat sýnast nökkuð einkanligt, at þessum góða guðs viu líkaði at lækna svá gamlan aldr ok til litillar nytsemdar færan eptir manna ásýn. Hér um segir herra Arngrímr svá fallit:

Vèlheptir gaf vísum krapti[1] (o. s. frv.).

Hèr næst skal setja annað tákn sæmiligt í grein ok öðru lagi sem ólíkast, at þat birtist kristninni með eilífri frægð, hversu þessi blezaðr biskup fremr sik háleitan í völdum verðleik, hvar er hann hjálpar fyrir heit blautu barns beini eðr örvasa aldri, sem nú [var] áðr litlu lesit.

82. Í Vestfjörðum, er opt vóru nefndir, var kona sú, er átti brjóstbarn í reifum vafit, þat sama barn varð fyrir ströngum augnaverk, at með æsiligum harmi sprakk út augasteininn annarr, svá at móðirin tók hann með öllu fráskildan sjáldrinu, ok vafði í einum klút, lèt svá niðr í læsta kistu, ok gekk aptr til barnsins, með svá hjartaligri sorg, sem móðirin kann hafa með sitt blóð ok bein, því at hún sá æfinlig örkyml á barni sínu, en þat til auka, at þat grét svá sárt, at engi huggan mátti nær koma. Móðirin snýr þá hug sinn til almáttigs guðs, ok til traustsvirðuligs herra Guðmundar biskups, með þeirri framjátan, at hún skal sækja hans legstað, með offri þvílíku sem hún nefndi til; ok án dvöl, eptir þetta staðfast, fellr grátrinn í kyrt, ok hægr svefn kemr í staðinn, svá at á næstu nátt hefir barnit beztu náð; ok um morguninn eptir, sem hún tekr þat upp til brjósts at gefa því mjólk, sèr hún svá signaðan lut, ok hverri túngu lofligan, at barnit er albætt, með aptr goldnum augum ok heilsu. Móðirin grèt í fagnaði, ok rennr hvatliga til þeirrar kistu, er hún hafði augasteininn lukt í klútinum, ok sèr þar annan hlut mjök merkiligan ok einkanligan: knútar allir vóru kyrrir, en steinn í bröttu; ok til marks um, at hann hafði þar legit, lá eptir ein blóð-drák í þurru lèreptinu; sýndi hún þetta knýti skynsömustum mönnum í því hèraði, ok þar með tvá vátta: fagra heilsu barnsins ok blóð-drákina. Yfir þenna dýrmæta hlut segir svá Einarr Gilsson:

Verk tók jóð sem orka,
ósmátt var þat, mátti,
sorg, í sjónar bergi,

1) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna v. 56.

svall óðliga móður,
enn af angri stinnu
út sprakk á kinn þrútið,
Hörn sat beint yfir barni
baugs grátandi, auga.

Ok enn segir hann svá:

Veit ek at vafði klúti,
valtúns, röðul brúna,
læsti ok Lofn í kistu
linns vannliga sinni;
gulls nam á Guðmund kalla
grund mjúkliga stundar
heldr at hann hjálpa skyldi
hress aumíngja þessum.
Brátt nam barns at vitja
brík foldsíla ríkis,
öls leit ennis sólir
eik hrafnskygnar leika;
hægs var horfit auga
Hristar els ór kistu
braut, en blóð í klúti
bíðendr litu síðan.

83. Í Vestfjörðum var kona nökkur öreiga, er dóttur átti mjök gálausa ok hègómafulla; móðirin elskaði hana heitt ok hjartaliga ei því síðr. Enni ýngri bar svá til, at hún sagði sik þyrsta eitt kveld; móðir hennar gengr til brunns, ok berr inn vatnið ok gaf henni, en in ýngri drakk. Eptir lítinn tíma æpti hún hátt, ok er móðirin heyrir þat, spyrr hún hverju gegni. Únga kona svarar: mik skerr innan svá sárt, segir hún, at ek veit at nokkut hefir verit í vatninu mjök úhreint. Meðr þessum orðum heldr hún at sèr höndunum sem fastast, ok veltir sèr á ymsar hliðar ok æpir mjök sárt. Móðir mín, segir hún, heitum við á hinn góða Guðmund biskup! — ok þær gera svá með föstu heiti; at þær báðar skulu ganga til Hóla sem fyrst verða þær liðugar, gefa eyri söluvoðar ok sýngja nökkurum sinnum Pater noster. Ok sem þat er gjört, leggst stúlkunni fyrir brjóst, ok setr at henni spýju mikla, ok sem ljós er til borit, ok leitað sem gjörst, ef nökkut fyndist kvikt í því er hún upp seldi, ok fannst þat meðr engu móti. Eptir þetta

leitaði móðirin henni hægìnda, þvíat stúlkan var þá mjök meginlaus ok lítt haldin; liggr hún þannveg þar til um kveldit koma heimamenn hverr í sína sæng, utan móðir hennar, hún vakir yfir dóttur sinni, biðr henni hjálpar með gráti. Mærin segir, at hún hefir mikinn sárleik fyrir brjóstinu, en þykkist ei kenna skurðarins síðan er hún spjó. Ok sem á leið nóttina sofnar hún; í þeim [svefni] birtist henni tíguligr maðr í dökkri kórkápu með bjartri ásjónu, hann talar svá: mjök undra nálægir menn krankdóm þinn, en hann kom þèr til makliga sakir gáleysis, er þú hefir á margan hátt, en sjá nú hvern gest þú hefir viðtekit. Hann rètti þá fram höndina, ok sýndi einn vatnorm, er lá í hans lófa. Ormrinn vildi hrökkvast til hennar, en þessi hinn ágæti læknir reist einn hríng í lófa sèr með fíngrinum, ok hröktist ormrinn þar innan í, en þorði alldri á at ráða hrínginn. Þessi talar þá: því gleyptir þú þenna orm at þú gleymdir krossmarki ok gjörðir þat ei fyrir þèr[1], þar er þú máttir ekki sjá í myrkrinu hvat er þèr var borit; en nú, þótt þú sèr heil gjör, nýtr þú ekki þín at því, heldr guðs miskunnar ok trúfesti móður þinnar, þvíat hún hèt til mín með hjartaligri góðfýsi; en ek er Guðmundr biskup Arason frá Hólum. Eptir þetta leggr hann sínar hendr á hennar líkam, þar sem sárastr var. At þessu lyktuðu hvarf hann af hennar augsýn, en hún vaknaði með feginleik, ok sagði mæðr sinni ok mörgum öðrum, ok lofuðu allir guð. Þær mæðgur fóru til Hóla eptir heiti sínu, en hin únga kona lagði af leikinn ok lausúng, ok elskaði mjök Guðmund biskup með[an] hún lifði. Hèr um kvað herra Arngrímr:

Svelgdist ormr með vatni vörmu,
varð hann innanbrjósts, leiknum svanna,
síðan fèkk hún sótt með æði,
sútum grèt þat móðir þrútin;
henni birtist heilagr kennir
hófs sýnandi snák í lófa,
eyðir þorðit yfir at ráða
jarðar hríng, þar er merkt var fíngri.

Ok enn kvað hann:

Slíkt veitir vín sætum
valdr heimsalar tjalda

1) er, b. v. Hd.

enn at aukist minni
öld, at starfa gjöldum:
sá er lastauðgum leysti
lýð, en djöflar flýðu,
áðr var í eymd en auðnar
allr heimr ok kyn beima.

Anno domini ∞. ccc. xl°. iij kom sú kona til Hóla ór Vestfjörðum, er Ýngvildr Magnúsdóttir hèt; henni bar svá til, at hún gekk til brunns eptir dagsetr á langaföstu, ok tók sèr vatn meðr úhreinni fötu ok drakk skjótliga, ok í sylgnum þóttist hún kenna þvílíkt, sem hún gleypti hár eðr nokkurs háttar strá með vatninu. Eptir þat sèst hún um, ok finnr á barmi fötunnar liggja einn vatnorm lítinn; önnur kona, sem gekk með henni, sá þetta sama, ok vildi þar fyrir eigi drekka. Ok eptir páska um várit fann hún með sèr, at hún var stúngin innan, því líkast sem þá er maðr pikkar sjálfs síns kjöt með nálarodd, var þetta optarr ok meirr sem á leið várit, ok þar til hún digraðist meirr ok meirr af þessu, á þann hátt sem höfn vex með konu. En hvað þarf þetta orðum drýgja? hennar þessi krankleiki vex með svíðandi kvöl ok sárligri pínu, ok hennar líkami þrútnar svá, at hún hafði digrleika til þótt hún gengi með tveimr börnum; þá var hún hörmuligast innan skorin er hún fastaði, en helzt þótti henni til linanar at drekka sem optast. Ferr slíku fram, sem nú var sagt, um hennar hag sex misseri, þar til sem hún leggst í kör at þrotum komin; en er hennar þíngaprestr lítr þat, heitr hann í fyrstu fyrir henni á himneskan föður himinríkis, með fulltíngi várrar frú ok hins góða Guðmundar biskups, at þessarrar konu eymd yfirlúkist á einhvern hátt af þúngri kvöl. Ok sem hún játtar at ganga til Hóla þegar hún verðr fær, með þeirri ölmusu, sem hennar fátækt mætti vel offra. Með þessu heiti dreypir prestr beinavatni Guðmundar biskups á varrar henni, ok er þat niðr rennr, þykkir henni nökkvat þröngvast upp í kverkrnar með miklum sárleik, svá at hún spýr blóði. En er prestrinn sèr þat, tekr hann með sínum fíngrum bröt af hennar kverkum þann vatnorm, er með henni fæðzt hafði, á vöxt sem lítill silúngr spannar langr; hann hefir bæði bægsl ok sporð. Sem þetta kvikvendi var út dregit ór hennar munni, fær hún langt úvit, ok ór því er dreypt á varrar henni, nærist hún þá, ok þó mjög harðla seint, svá at hún verðr eigi heil innan

næstu xij mánaða; fèkk hún þó fulla heilsu um síðir ok lofaði sannan guð ok hinn góða Guðmund biskup. Yfir þessa jartegn segir Einarr Gilsson:

Rökk fór drós at drekka,
drakk hún eigi hreint nakkvat,
gengu þorna þúngru
þúng strið í búk síðan,
skar með firna fári
fárgjarñ um kvið sáran
hvalr gullrendrar grundar
grund fagrvita mundar.

Snót lá þessi þrútin
þrota mædd, en þat Gotnar
fox bert sögðu saxa,
sex misseri vissu;
þöll nam sveigs at svella,
svellt þurfti hún belti,
linnr hjó sjúkan svanna,
svanninn átta spanna.

Lýðr vann biskup blíðan
blíðr kallandi síðan
sætu böls til bóta,
bót fengu þeir skjóta:
prestr lèt í munn mætri
mætr beinavatn gætis
lindi grafþvengs grun[dar]
grandlauss fira andar.

Skreið ór hreindu híði
híðs biflykkja síðan
hann ok elda unnar
unnar bröt af munni,
seið litu drengir dauðan,
dauð var sorg ok nauðir,
hríss, kendi dygð, drósar,
drós Guðmundar ljósa.

Strengs leit álnar anga
angrfirð hnefa langan
öld þann er fæddi foldar
fold á sínu holdi;

dýrð skulu himna hirðis
hirðendr framast virða,
viðum sómir þat, sæma
seims í öllum heimi.

84. Þat er góðum mönnum kunnigt, hversu margar jartegnir ok dásamligar guð allvaldandi hefir virðzt at vinna fyrir ákall þessa síns vinar, hins góða Guðmundar biskups, sem skinit hefir í skærri trú heilags siðferðis andaliga ok líkamliga, sem hinn bjartasti gimsteinn ok geisli skinandi sólar; er þat eigi undarligt, þótt hann hafi syndugar sálur frelstar fyrir sitt iðuligt ákall með algjörri skynsemd, endrgetnar fyrir vatn ok helgan anda þeim til lausnar ok leiðréttu. En hitt er yfirvættis mildi, at hann hefir heiðnum hólpit, ok þeim, er ekki hafa kunnat [at] biðja fyrir sèr; ok til þess at þetta sannist, þá heyri þat er eptir ferr. Þat bar til í einum stað á Íslandi, at tveir menn, karlmaðr ok kona, höfðu at fara með heiðit barn til skírnar; lá þeirra vegr yfir á nokkura; var þetta vetrartíma. Ok er þau komu at ánni, þá sá þau, at hún var í leysingu ok jakaför á allmikil; þau töluðu með sèr, at illt var yfir ána, ok karlmaðrinn sagði, at hann vænti at duga mundi, ok veðr yfir ána, ok aptr í mót konunni, ok tekr honum vatnið í beltisstað. Hann talar til konunnar: leys af þèr skikkju þá, er þú berr barnit í, ok skal ek setja hana upp á herðar mèr, síðan vað hjá mèr forstreymis, ok halt undir belti mèr! — ok með þessu vaða þau á út. Sem þau koma á miðja ána, þá losna fætrnir undir konunni, ok í þessu sèr hann at rekr at þeim mikinn ísjaka; þykkist þá sjá, til hvers at draga mun; verðr þat þá fyrir, at hann skýtr skikkjunni ok barninu upp á ísbrúnina, en jakinn færir þau í kaf bæði, rekr þau ofan eptir á bæði, ok svá jakann. Ok með því, at guð vildi lengja líf þeirra, þá rekr þau aptr til sama lands. Ok sem þau koma þar ok fá upp staðit, sjá þau hvárki jakann nè barnit, enda dimmaði þá af nótt. Þau felldu bæði tár fyrir slys sitt, ok kómu heim til sama bæjar. Faðir ok móðir, sem þau heyrðu, kærðu hörmuliga sína sorg ok grètu sárliga dauða barnsins. Móðirin mælti þessi orð [með] hræðiligum gráti: veittu nú, hinn blezaði biskup Guðmundr, at barninu verði þessi á at skírnarvatni, en ei kom þeim til minnis at heita, því at þeim sýndist þat yfir megn. Líðr svá nóttin. Um morguninn talar faðir-

inn til þessa manns: förum til árinnar! — Ok sem þeir fram kómu í þann stað, sem þau höfðu fyrr til ráðit, sjá þeir þar eigi glíkligt til gleði, ganga síðan ofan með ánni, þar til sem þeir koma út at ósi, lá þá fyrir víðr sjór; stóðu við ósinn naust nökkur ok þar í sjáróðrar skip. Húskarlinn talar til bóndans: ek sè jaka stóran ok svarta brúgu ofan á, en ei fær ek greint sakir fjarska hvat er, má líkast þykkja at selr liggi uppi. Ok með guðs vilja ýta þeir einum bát af naustinu ok róa til jakans; má þar sjá mikit miskunar-tákn græðara várs, fyrir ákall síns ynniligs vinar herra Guðmundar; þar liggr barnit í skikkju, lífs ok heilt um vetrlanga nótt, ok sýgr fíngr sinn. Taka barnit með fagnaði ok færa til skírnar. Hèr yfir segir Einarr Gilsson vísu:

Barn rak út frá ýti
unnflóðs í haf móða,
vátr nam Guðmund gætir
Gjallar eims at kalla;
fann þá er öld rèð unnir
annars dags at kanna
sveit á ísi úti
jóð lífligast móður.

85. Til lofs ok dýrðar almáttigum guði, ok þessum góða guðs vin Guðmundi biskupi til heiðrs, eru at segja tveir dásamligir hlutir af vatni ór þeim brunnum, sem herra Guðmundr biskup hafði vígt í sínum biskupsdómi: hefir vatnið í hvárumtveggja stað um vendat sinni náttúru í annat efni, en líkanligt mátti verða eðr náttúruligt. Bar svá til í öðrum stað, í Hornafirði á Íslandi, at menn vildu taka bragðals-eld millum tveggja trjá, ok lá þeim harðla mikit við at hafa eldinn; þeir vóru at lengi ok fengu eigi, ok vissu eigi hvat þeir skyldu til taka. Þá talaði einn af þeim: viti menn, sveinar! segir hann, at ek sè ráðit; vèr skulum taka hnjóskinn ok reka niðr í vatn Guðmundar biskups, ok þá trúir ek at vèr fáim eldinn; þeir gjörðu svá, ok settu hnjóskinn nýdreginn ór vatninu framan í bragðalinn, ok drógu litla hríð áðr þeir höfðu eld inóg; sýnist oss ok öðrum góðum mönnum slíkir hlutir mjök [dásamligir], því vèr sjám ei nokkuð ólíkara i sinni náttúru en vöku vatnsins ok þurku hnjósksins. Í öðrum stað bar svá til í Vestfjörðum, sem mjök er títt í því landi, þó at ei sè vel, at menn tefla kvátru; var hèr ok svá, at tveir menn sátu yfir taflit ok pantaðu þar við eitt ok

annat, af því sem þeir til höfðu; gekk öðrum merkiliga verr, þvíat honum dugði eigi teníngr, en þat er ónáttúra þess tafls, at því meira sem hann lætr þar í, þeim mun síðr vill hann af lètta, ok þar kom sem þeim brast lýsi; var þá ei kostr annars en hetta taflinu, þviat þetta gjörðist á myrkri nátt; undi sá þá allilla við, er látið hafði, ok mælti fyrir munni sèr: vili nú hinn góði Guðmundr, at ek vinni aptr þat sem ek hefir látið, þá skal ek minnr leggjast í þessa ónytjugjörð hèðan af en híngat til. Síðan talar hann til þess, er hlotið hafði: kumpán, viljum tefla lengr! — Hann svarar: hversu megum við þat, þar er við höfum ekki at lýsa? — Eigi er svá, sagði hinn, okkr hindrar aldri lýsi; stendr upp frá borðinu, tekr sèr eitt ker, ok gengr til Guðmundar-brunns, ok berr heim vatnit í kerinu ok steypir í lampann; síðan setjast þeir til ok tefla, ok brennr vatnit sem hit skírasta lýsi. Lofuðu allir nærverandi sannan guð ok hinn góða Guðmund biskup. En sá, sem vatnit bar til, lagði af kvátruna ok þakkaði guði, sem honum gaf aptr vinna allt þat, sem hann hafði tapað í þessi ógá. Sjám vèr eigi úlíkara vatnsins náttúru en hèr varð í tveim stöðum, þar er þat snerist í feiti ok þurku, gefandi svá næríng ok tendrau eldinum móti náttúru. Svá kvað herra Arngrímr:

Vættu þeir er þurfa þóttust[1] (o. s. frv.).

86. Svá er sannliga skrifat, at í eystra hluta lands fór einn maðr stóran fjallveg; rak hann fyrir sèr hest klyfjaðan með bukkavöru, ok sakir þess at hann hafði úsnöggvar bundit klyfjarnar, slær sik eitt horn at auga hestsins svá furðuliga snart, at stikillinn stíngr þat brött ór koppinum niðr í leir. Svá rekr hann til bygðar, ok þat fyrsta sem hann náir brunnvatni herra Guðmundar biskups, berr hann þat í augastaðinn. Hèr má nú líta dýrligt guðs verk: at tveim dægrum liðnum var hestrinn alheill ok jafnskygn báðum augum; var þessi jartegn með eiði sönnuð af tveimr skilríkum mönnum, hefir hann ok svá optliga, at varla fær með túngu talt, grætt ei síðr með guðs miskunn skynlausa skepnu en menn, þóat fátt af mörgu skrifist i þessi bók þar af. En til þess at þat auðsýnist satt vera, þá berr svá til í einhverjum stað, í syðra biskupsdæmi, at einn maðr fór um fjallveg með klyfjahesta nokkura, ok sem hann rekr þeim[2] fyrir

1) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna, v. 52. 2) þá, 219.

sèr víkr einn af veginum, er hann gengr hjá honum fram, ok ætlar at snúa honum aptr í veginn með broddstaf, en þat verðr eigi betr en svá, at broddrinn kemr í augat, ok hleypr þat út ok ofan á skoltinn ok hèkk þar, ok meðr því gekk hann til bæjar suðr af fjöllunum. En með því at vetrar tími var ok frost mikit, þá sá menn augat alfrosit liggja ofan frá augastaðnum, ok með því var hestrinn lauss látinn, ok gaf engi gaum at honum, ok liðu svá nökkurir dagar. Þar á garðinum var brunnr hins góða Guðmundar biskups; þar til gengr einn vinnumaðr, ok ætlar at bergja á vatni hins blezaða Guðmundar biskups, ok þar hjá brunninum sèr hann standa þenna sama hest, mjök svangan, hengjanda höfuðit, sem hann vildi drekka, ok mátti eigi, þvíat hlaðit var um brunninn. Þessi maðr var hjartagóðr, ok þóttist illa gört hafa, er hann hafði meitt hestinn, ok því fyllir hann eitt horn, er hann hèlt á, ok með vatni, ok steypir í augastaðinn; síðan vætir hann allan hestinn með því sama vatni, biðjandi hinn góða Guðmund biskup með fullri [trú], at hestinum batni. Síðan gengr hann braut. Eptir fá daga liðna sèst hestrinn á biti bress ok alheill, báðum augum jafnskygn. Lofuðu allir guð, þeir er sá, ok þenna hans vin Guðmund biskup. Hèr yfir segir actor:

Augun gaf, sá er engi mýgir,
allt ok þiggr þótt niðri liggi,
biskup sæll með birti fullri
brennanda ljós, hestum tvennum;
veittu, Kristr! at sjáim vèr sætan
slíkan mann í vígðu ranni,
fagna mundi flest hin gegna
ferðin þín, með glæstu skríni.

Rædda ek sízt við reglur Eddu
ráðin mín, ok kvað ek sem bráðast
vísur þær, sem ek vilda at ræsi
vel líkaði himnaríkis;
stirða hefir ek ár til orða,
ekki er ván at slíkt megi þekkjast,
mála gnótt nema mjúkast[1] drottinn
mína efli krapti sínum[2].

1) getg.; virðiz, Hd. 2) sbr. drápu Arngríms, v. 2.

87. Nú höfum vær heyrt um stundir, hversu frægðarfull verk herra Guðmundr fremr fyrir sín vötn; því skulum [vèr] heyra þessu næst, hvað hann vinnr með sjónum. Í því kapitulo öndverðrar sögu, er greindist Íslands náttúra, segist, at almenníngr þeirrar jarðar fæðist með búnyt ok sjádreginn fisk; en sá dráttr er svá laginn, at menn róa út á víðan sjá, ok setjast þar, sem[1] fjallasýn landsins merkir, eptir gömlum vana, at fiskrinn hafi stöðu tekit; þesshåttar sjóreita kalla þeir mið; skal þá renna lèttri línu út af borðveginum niðr í djúpit, ok festa stein með neðra enda, at hann leiti grunns; þar með skal fylgja bogit járn, er menn kalla öngul, ok þar á skal vera agnit til blekkíngar fiskinum; ok þann tíma sem hann leitar sèr matfanga, ok yfir gín beituna, grefr oddhvast ok uppreitt[2] járnit hans kjapt, síðan fiskimaðrinn kennir hans viðrkvámu ok kippir at sèr vaðinum, dregr hann svá at borði ok upp í skip; er þessi fjárafli svá guðgefinn, at hans tilferð er ei greiðari en nú var greind, ok þó allt eins verðr svá mikit megn þessarrar orku, at öreigar verða fullríkir; má ok öll landsbygð sízt missa þessarrar gjafar, þvíat þurr sjófiskr kaupist ok dreifist um öll hèruð. Hèðan leiðir svá til, at menn reru til fiskjar af Grímsey, er opt var nefnd í söguuni, ok einn kumpána gefr sitt færi fyrir borð, svá óforsjáliga, at hann gleymir þá festíng efra endans, sem sjómönnum er títt at hafa, ok því strýkr í einum rykk allt hans snæri út í bládjúp. En sakir þess, at maðrinn var úríkr ok átti ekki lín, en lá við aflastund ok sumartími, harmar hann skaða sinn ok kallar til hugganar virðuliga tign herra Guðmundar biskups. Ok hann blezaðr byrgir ei sitt eyra, þvíat á næsta dag eptir dregr einn sjómaðr á öðru skipi þetta snæri með öngli sínum upp at borði. Kenndu þá kunnir menn fyrir stein ok öngul, at þat hafði tapazt fyrra dag. — Svá berr til í öðrum stað sunnanlands nokkut líkt[1], þar heita Vestmannaeyjar, at maðr rennir djúpshöfn ok bítr stórr flatr [fiskr], er þeir kalla flyðru; er þat hans náttúra, sakir afls ok mikils vaxtar, at ef hann tekr fornám í drættinum, dugir ei snærinu at þreyta með hann, ok því skal g[er]a liðugt færit honum til rásar, svá opt sem hann beiðir, þar til hann mæðist ok verðr svá dreginn í síðöstu. En hèr berr eigi til giptuligar þeim fátæka manni, en hann

1) 398; með, Hd. 2) = uppriett (upprètt).

gleymir á líkan hátt efra enda, sem fyrr var lesit, ok því ferr fiskr brött með allt hans færi. Tekr ok þessi maðr sama ráð, í minníng göfugligs föður, herra Guðmundar; ok ei varð honum sín ván at váljúg, þvíat tveim nóttum síðarr dró annarr sjómaðr þann sama stórfisk, svá at snæri fátæka manns var þar heilt ok haldit; vóru þar þrjár vikur sjófar í millim, er fannst ok tapaðist. Lofuðu þessir báðir menn guðliga mildi, ok miskunnsaman játara herra Guðmund Hólabiskup. Hèr yfir segir herra Arngrímr:

Ýtar frá ek út rèru báti[1] (o. s. frv.).

88. Fyrr í sögunni er greindr sá fjárafli, er menn fara í björg til fyglíngar, ok því gengr hèr svá til efnis, at einn þesskáttar manna mætir svá bráðum lífsháska, at hann stökkr í berginu, kemr höfuðit á grjót, sem ván var, ok lemr hausinn, en líf hans hèlzt með þeirri guðs skipan, at hinnan var heil fyrir innan; sv[á] er hann heim fluttr á bygð einnar húsfrú, er guðhræzlu hafði með góðri kunnastu, at hjálpa þurfandum; hún skerr umbergis hausbrotið, ok tekr skeljarnar, er muldar vóru í smátt, fægir síðan sárit ok hreinsar, sem hún þorði framast, allt niðr á hinnuna; er þat verk þann tíma hægjast, eptir samlíkri heims ok manns náttúru[2], sem flóð er sjófar, þviat þá gengr heilinn með hinnunni allt upp undir heila-bustina, en at fjöru er langt í milli. Var nú opit svá mikit i höfðinu, sem þriggja fíngra hvern veg. En hvað er hèr at tala um áburð eða smy[r]sl til lækidóma, nema húsfrúin tekr vatnmosa ór brunni herra Guðmundar ok fyllir með sárit, bindr síðan um, ok leysir ekki til fyrr en liðnar eru þrjár nætr, ok er hèr at greina svá dýrligan hlut, at alldri kom óðaverkr í, en mosinn var gróinn niðr í hausinn, svá sem múteraðr í beins náttúru, ok er frá leið tók jafnvel hörundslit, en var í þeim stað nökkuru linara átaks en í öðrum stað; var hann innan fárra daga alheill maðr. Hèr yfir segir herra Arngrímr, hversu skepnan veik sinni náttúru, eptir drottins boði ok bæn herra Guðmundar:

Vægja hlýtr fyrir valdi mætu[3] (o. s. frv.).

89. Nú til þess at fyllist minníng heilagrar þrenníngar, þó at fátt sè skrifað af mörgu, því at ef nökkurr með góðfýsinnar

1) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna, v. 51. 2) ok, b. v. Hd.
3) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna, v. 53.

uppkveyking vendi sínu erfiði til þeirrar nytsemdar, at skrifa heilagar jartegnir þessa háleita lampa heilagrar kristni, hins góða Guðmundar biskups, mundi öllum auðsýnt verða, at hans bænir hafa svá kærliga hljóðat fyrir himna konúnginum ok hans signuðum eyrum, er á landi hefir skepnan umvendat sinni náttúru í allt annat mát, en henni var sett í skapan heimsins, ok náttúrat með heilags anda forsögn. En sjórinn, til kúgaðr fyrir hans blezaða bæn, hefir æ vorðit laust at láta þat herfang, sem hann hefir til sín dregit meðr gráðugri ágirni, ok þar til skulum vær heyra eina dásemdar jartegn merkiliga. Prestr einn bjó í Vestfjörðum, í Árnesi, hann var lítill vin Guðmundar biskups, heldr sýndist hann meðr flokki hans öfundarmanna í sínu umtali, bæði um hans vatnvígslur ok jartegnagjörð, ok ei síðr þau málaferli, sem gjörðust á hans dögum millum hans ok annarra manna. Þat bar til einn tíma, at þar sem hann bjó prestrinn [kómu] saman margir menn, meðal hverra var bóndi sá ok, er frægði með kærri vináttu signaðar gjörðir ok framferðir herra Guðmundar biskups, hvar af svá gerist á þeim sama mannfundi í prestsins bæ, at til biskupsins verðr talat, ok bóndinn eptir vana heldr fram hans rètt í sæmiligum veg biskupligrar einarðar ok kristiligs siðferðis ok fagrligs lifnaðar; hnyss hann við prestrinn, segir villu ok vantrú at lofa slíkt, sem eru vatnsvígslur hans eða enn fleiri framferðir, kallar þá menn aftrúast, er þvílíkum hlutum veita sinn trúnað. Fór þat makliga, at prestr varð sama dag þar at krjúpa, sem hann hafði áðr örðigr staðit, at ei bæri hann með sèr í annat líf þann umlestrs glæp ok afvirðíngar, sem hann setti sjálfs síns önd fyrir atmæli várs drottins vinar. Þar ferr svá til, at prestrinn á tvá syni, er heita Þorgils ok Kálfr; þeir leika sèr meðr sjá, er nær liggr bænum, rètt samtíða, sem faðir þeirra prestrinn fæst í umlestri; þeir koma fram at skerjum nökkurum, er lágu lágt við landit, svá at í fráfalli sjófarins vóru þau ber, en gengu vágar mjófir miðil þeirra, svá at víða mátti stíga yfir; sjá piltarnir, sem sólin skín á, at einn fiskr liggr dauðr utarliga á skerinu, ok því ráða þeir til, sem æskan beiðir, fara út yfir smáskerin, þar vágasogin vóru smæst, ok því skeri næst, sem fiskrinn liggr á, var sogið miklu breiðast, svá at annarr piltrinn fyrirdjarfast. En sá er Kálfr hèt, ok þeirra þóttist gildari, ræðr til ok stökkr yfir, tekst þat eigi betr en svá, at hann missir

skersins, ok hleypr niðr í bládjúp, svá at honum skýtr á öngvan veg upp, þar til bróðir hans tekr á rás heim til bæjarins; var þat eigi skemmri vegr en stórt hestskeið. Inn kemr hann í stofu hlaupandi með hávaða, ok með þessu orðtaki til prestsins: dauðr er kursi, faðir! — Prestr svarar: þat eru lítil tíðindi, frændi, þótt einn kálfr deyi fyrir okkr. Piltrinn svarar: Kálfr bróðir minn er dauðr. Ok hverjum dauða? segir prestr. Drukknaðr hèr út í váginum, segir piltrinn. Prestr rennr þá fram af stofunni ok út at sjónum; fór meðr honum margt fólk, til vitnisburðar hvat mikit herra Jesús Christus vann fyrir sinn játara á þeim degi. Sem þeir fram koma á næsta sker, þar piltrinn hafði dauðasteyt fengit, sjá [þeir] brátt hvar líkaminn liggr í kafi, ok þó upp flotnaðr af mesta djúpinu. Þeir bera hann á þurt land, ok sjá engi lífsmörk meðr honum. Bóndinn er vèr greindum, góðr vin Guðmundar biskups, segir þá prestinum, at sá dagr meðr sonar dauða er makliga yfir hann kominn, fyrir þá dirfð ok dóm, er hann setti drottins vin, herra Guðmundi biskupi; segir, at þessi mun hans úgræðilig kvöl, nema hann snúi til iðranar ok bæti, ok leiti þar hjálpar, sem áðr hafði hann til sekta unnit. Prestrinn þiggr nú heila kenníng, þó at leikmaðr gæfi; tárast nú meðr iðran, ok heitr sik æfinliga til heiðrs herra Guðmundi, ef hann fær huggan. Sem þetta er gört, gefr bóndinn ráð, at brunnvatn herra Guðmundar þar nær bænum sè til borit, ok hellt í andlausan líkamann. Svá gera þeir, setja kníf í miðil tannanna ok lypta höfuðit, at vatnit mætti niðr leita í brjóstið, ok litlu síðarr koma íbláir flekkar á hörundit hèr ok hvar. Síðan væta þeir líkamann, ok roðna æ flekkarnir sem vatnit berst yfir, þar til at fagr roði kemr í báðar kinnr, ok því næst hrærast fíngr framanverðir, en í síðöstu lýkr hann upp augu ok rennir til sýnar. Lofa allir nærverandi menn várn guð ok græðara drottinn Jesum Christum, er fjórdagaðan Lazarum reisti af gröf, en þenna sjódauðan til lífs fyrir sinn játara ok ynniligan elskara herra Guðmund. Er þetta verk svá víðfrægt, at aldri mun fyrnast meðan Ísland byggvist. Hèr yfir segir herra Arngrímr til eilífrar minníngar:

Sökkva frá ek við sjófar bakka[1] (o. s. frv.).
Gotnar steyptu vígðu vatni[2] (o. s. frv.).

1—2) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna, v. 57, 58.

90. [1]Þessi blómganlig fegrð ok frægilig verk, sem um stund hafa lesin verit til dýrðar herra Guðmundi, er vart svá mikit sem minnsti smákvistr með sínum flúr af þeim tíguliga pálma, er fyrr var upp reistr, ok svá breiðir sínar limar, at út berr langt yfir allar hálfur ok hèruð þeirrar jarðar, er sá einvalinn vin himnakonúngsins prýddi sínu líkams lífi, meðr ágætum ávexti ynniligrar atferðar. Ok því má hans loflig verk engi hönd í letr setja, at hann blómgast sem pálma, en miklast eðr margfaldast sem cedrus í Libano. Cedrus er ágetr viðr, ok hefir, sem sæll Jeronimus skýrir, fjórar náttúrur: þá fyrsta, at hann kann ei fauskr verða; þá aðra, at hann ilmar sætliga; þá þriðju, at feiti þess viðar er svá mikillar yfirvættis dygðar, at hún græðir sjúka limu ok drepr þá maðka, er sárum spilla; þar með í fjórðu grein hefir hún þann krapt með sínum ilm, at höggormar ok eitrflugur mega ei þola, ok leggja undan á flótta. Greindar náttúrur cedri þjóna viðrkvæmiliga herra Guðmundi: sú fyrsta dygð, er cedrus skrifast óspilliligr, þýðir ágæt verk hrein ok heilög þessa manns ok guðs vinar, er öngvan flekk eða fölnan taka með rás tímanna, heldr standa þau í guðs augliti óbrigðiliga án enda, hvar fylgir ilmr mikill, því at hunan[g]lig frægð af fyrgreindum verkum sæls Guðmundar flýtr víða ok inn gengr í skilníngarvit kristinna manna. Af svá blezuðum viði gengr sá sveiti, er græðir sjúka limu ok drepr þá maðka, er sárum spilla; þat er sú ilmandi prèdikan, er fyrr greindist í siðferðis kapitulo sira Guðmundar, er útlægði lýtin frá lífi sálnanna, ok veik til gróðrsamligrar gezku guðdrottins boðorða. Hèr meðr í fjórðu grein cedri flýja ormar ok eitrflugur, þvíat helvízkir andar, lastanna yfirboðar, taka flótta frá sínu herfangi fyrir bæn ok blezan, vald ok verðleika, þessa guðs ástvinar; því mun hans frægð aldri svæfast, heldr æfinliga boðast ok berast, at hans rèttlæti vel kunnigt guði ok góðum mönnum sè með úendiligri minníngu, sem trúist, í kennimannligum stóla himinríkis. Uppá þenna skilníng, rèttliga glóseraðan til herra Guðmundar góða, setr actor svá fallinn verka:

De cedro:

Cedrus vex í foldar faxi (o. s. frv.)[2].

De quatuor naturis cedri:

---

1) þenna kap. v. í 398. 2) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna, v. 44.

Cedrus fèkk svá at eyðist ekki (o. s. frv.)[1].

De virtute inputre[s]cibilis cedri, quæ comparatur æternitati Sancti:

Guðmundr líkist enn skal auka (o. s. frv.)[2].

De odore cedri et fama cujuslibet Sancti:

Liðit er nú sízt hann var hèðra (o. s. frv.)[3].

De odore predicandi vermesque perimendi:

Orð guðs kenndi ágæt virðum (o. s. frv.)[4].

De presencia Sancti et fuga demonum:

Færir fram svá at hverr megi heyra (o. s. frv)..[5]

De laude sancte trinitatis:

Skínandi sitr sonr hjá sínum (o. s. frv.)[6].
Föður jafn sitr á háfum himni (o. s. frv.)[7].
Bergr ábóti hefir birtan margan (o. s. frv.)[8].

---

# VIÐBÆTIR

(úr AM. 398. 4to).

Margar eru þær jartegnir ok dásemdar tákn, at guð allsvaldandi veitir hversdaglega fyrir bænir ok árnaðarorð þess signaða föður, herra Guðmundar biskups, í öllum álfum ok landsins fjórðúngum, er þessi hans ástvin hvílir, ei at eins á mönnum, sem áðr er skrifat, heldr ok jafnvel á skynlausum kvikvendum, sem til bar sunnanlands, at prestr einn átti ferð langa fyrir hendi at fara til vistar sinnar, sem væri gildar ij dagleiðir. Hann lèt sèr til ferðarinnar járna ij hross, ok tekst eigi betr, en annat hrossit var járnat svá mjök í kviku, at næsta morgin eptir, er járnat var, mátti þat ei ganga at mat sèr fyrir helti, ok hvergi úr sporum hrærast á þann dag; ok annan var eigi betr, heldr var þá fótrinn svá blásinn, at ekki studdi við, ok hugðu menn, at hófinn mundi af reka, en prestrinn varð þenna dag at fara í veg; var þat in octava ascensionis, hinn fyrsta fardag. Honum þótti nú hvorgi góðr: láta eptir bækr sínar ok klæði, eðr koma ei til kirkju sinnar at hvítasunnudegi, er þá var nálægr. Þessi prestr hafði jafnan með sínum orðum fyllt

1—8) Sjá drápu Arngríms aptan við söguna, v. 45—49; 59—60; 42.

þeirra manna flokk, er mótsnúnir vóru þessum guðs ástvin, Guðmundi biskupi, ok nú sem hann ræðst um, hvat hann skal af taka, gengr hann til kirkju, ok þar komandi talar hann svá fyrir munni sèr: þú Guðmundr biskup! ef þú mátt nokkut meirr en sjálfum þèr, láttu batna hrossi mínu, svá at ek komast megi nauðsynjaferð þessa, ok ef svá verðr skal ek jafnan víðfrægja þína dýrð ok mikilleika; ok með þessum orðum heitr hann at gefa eyrisvirði matar fátækum mönnum á ártíðardag Guðmundar biskups, ok at skrifa þessa jartegn, ef hrossit yrði fært. Ok at þessu staðfestu gekk hann út ór kirkjunni, ok þangat sem hrossit stóð, ok sló við beizli, ok mátti hvergi leiða. Hann bað setja söðul sinn á hrossit, en á hest, er hann átti, lèt hann upp stórar klyfjar ok lèt fara í veg fyrir; síðan stè hann sjálfr á bak því halta hrossi, ok mátti þá ganga, ok þó seint. En svá skjótt mýktist þat, með guðs miskunn ok krapti þess góða biskups, at albætt ok úþrotið var þat sama kveld, ok aldri var því í þeim fæti verra en í öðrum þaðan frá; mátti sjá þar mikla dýrð þessa hins blezaða biskups, þótt heldr tjáðist á skynlausri skepnu en mannligu eðli. En at þessi prestr meðkenndist því framarr dýrð ok verðleik þessa guðs ástvinar Guðmundar biskups, bar svá til, at þessi prestr tók strangan augnaverk, ok lá þó meirr í vinstra auga; verkrinn var svá æstr, at hann mátti önga ró nè svefn fá. Hann lèt sækja sèr vatn í þann brunn, er Guðmundr biskup hafði vígt, ok bar á augun þrimr sinnum, ok las meðan Pater noster; ok þegar eptir hneigði hann sèr ok sofnaði lengi, en vaknaði með því, at augun vóru bæði verklaus, en annan dag alheil; lofaði hann guð fyrir heilsubót, ok hinn ágæta guðs vin Guðmund biskup, sem verðugt var.

Eptir andlát virðuligs herra Guðmundar biskups Arasonar náði hann sannmæli af allri alþýðu, svá lærðum sem leikum, at hann vildi heldr í sínum biskupsdómi þola útlegð ok pínur allskyns á sínum líkama, dauða ok harmkvæli vina sinna ok frænda, með hverskyns meiðslum ok harðindum, er hann sá optliga sèr fyrir augum, en samþykkjast framferðum ranglátra guðs úvina; fengu flestir hans mótgangsmenn skjóta hefnd af guði, sumir voveifligan dauða, aðrir vóru drepnir, sem Sighvatr ok þeir synir hans Sturla ok Kolbeinn ok Markús, á Örlygsstöðum í Skagafirði, skjótt eptir fráfall herra Guðmundar biskups. Kygri-Björn prestr var ok skjótt kallaðr, hvern Norðlend-

íngar sendu utan til biskups kosnings, ok postuleruðu hann, þótt hann væri[1] laungetinn. Var hann mest af lærðum mönnum í mótgangi við herra Guðmund biskup. Var Kygri-Björn mikilsháttar klerkr, sem auðsýnast má í því, at hann hefir samsett Maríu sögu. Viljum vèr með sannligri frásögn gjöra minníng þeirra biskupa, sem verit hafa at Hólum eptir Guðmund biskup, fram í minni þeirra manna sem nú lifa, þvíat mörg góð eptirdæmi vitra höfðíngja ok góðgjarnra, þeirra sem með hófsemd hafa stýrt guðs kristni, mega leiða margan uppvaxanda mann í heiminum á rèttan veg.

Á næsta ári eptir andlát Guðmundar biskups var sendiboði með brèfum gjörr af Sigurði erkibiskupi í Hóla biskupsdæmi, at leysa þá presta sem í bann höfðu fallit. Aðrir af þeim höfðu verit forboðaðir af Guðmundi biskupi, sumir höfðu verit nálægir vígaferlum ok manndrápum; var þessi sendiboði nefndr Hildibrandr múkr. Á næsta sumri eptir var vígðr Bótólfr biskup til Hóla, var hann bróðir af Helgisetri, góðr maðr ok einfaldr, ok eigi mikill klerkr; fannst þat brátt í brèfi því, sem hann skrifaði aptr til erkibiskups, sem hann var út kominn til Íslands ok heim á Hóla, at Norðlendíngar vildu gjöra honum litla lotníng, þvíat þeir sögðu, at þat mætti hvárki sjá á höfði nè hendi, at hann væri biskup, ok svá var hann fátækliga út sendr. En erkibiskupinn skrifaði aptr, at hann þóttist skyldugr at vígja biskupa í Niðaróss kirkju provincia, en eigi at gefa þeim gull ok kveif; var biskupinn eigi svá mikils metinn af sínum undirmönnum, sem verðugt var sakir biskups tignar, sem heyrast má í einni lítilli frásögu. Svá bar til einn tíma á Hólastað, at jólum, at tveir djáknar tefldu skáktafl, var annarr djákninn örorðr ok uppivöðslu-mikill; kom þá herra Bótólfr biskup inn í stofuna, ok settist niðr á einn knakk þar framan at sem klerkarnir tefldu, lagði hann til með öðrum klerkinum, tók þá at hallast taflit, svá at öðrum var komit at máti, mest af tillögum biskups; reiddist klerkrinn, sá er verr gekk taflit, svá segjandi til biskups: betra er þèr, bróðir Bótólfr! at fara út til kirkju ok sjá yfir ræðíng þinn, er þú átt at lesa í nótt, þvíat þú last allt rangt í fyrri nótt; starfaði ok Guðmundr biskup, sem fyrir þik var, meirr í bænahaldi ok ölmusugjörðum en í

1) þt h' vr (þvíat hann var), 398, líklega afbakað.

taflbrögðum. Þá svarar herra Bótólfr biskup djáknanum aptr í gegn, betr ok hógværligar en til var talat: haf þökk fyrir, djákni minn! þetta þitt heilræði skal ek hafa, at fara til kirkju, segir þú þat ok satt, at mart ok mikit mun skilja herra Guðmund ok mik. Var herra Bótólfr biskup í öllum hlutum hógværr ok lítillátr, ok kom eigi stjórn á við sína undirmenn sem hæfði; var ok á hans dögum lítill gaumr at gefinn, at halda upp jartegnum Guðmundar biskups. Var hann Hólabiskup um viij ár, ok fór utan, ok andaðist í Niðarósi ok hvílir at Helgisetri.

---

# GUÐMUNDAR DRÁPA HÓLA BISKUPS,

sem bróðir Arngrímr orti

1345.

---

1. Ræsi heiðra ek lopts hins ljósa,
lífs stýranda fugla ok dýra,
jarðar gróðr þann er eykr, ok fæðir
alla kind, ok temprar vinda:
mæta sýni miskunn ýtum
mána valdr, svá at eigim vánir,
heilagr gefi þat hölda skýlir,
himinríkis ok sannrar líknar.

2. Rædda ek lítt við reglur Eddu
ráðin mín, ok kvað ek sem bráðast
vísur þær, er vil ek ei hrósa,
verkinn erat sjá mjúkr í kverkum;
stirða hefir ek ár til orða,
ekki má af slíku þekkjast,
arnar leir hefig yðr at færa,
emka ek fróðr hjá skáldum góðum.

3. Vendi ljóst þú, voldugr andi,
vilda ek þiggja þat, himna tiggi,
harðan stein, sem hölkni er vorðinn
harða líkr, í minnis garði:
svá at renni oss rètt at sönnu
ramlig tár við iðran sára,
glæpa full en gjörvöll skrípi,
gangi á braut, fyrir sorgar þrautir.

4. Sættu oss við son þinn ítran
sólar þengils skrín ok engla
ítarlig, sú er allt má veita,
yfirdrottníngin heims ok gotna;
allir hræðast þik illskufullir
andar þeir, sem mektar fjandi,
láta verða lymsku fljótir
leikun sín fyrir bænir þínar.

5. Heyrðu nú til afbragðs orða
yfirmaðr várrar kristni saðrar
þetta lof, þvíat þat er með váttum
þèr Guðmundr löngu fundit;
treystumst vèr, at hafir þú hæsta
himna vist ok nærri Kristi,
þó at þú liggir enn lágt meðal veggja
lýðum virkr í Hóla kirkju.

6. Mæra vilda ek skuggsjá skýra
skrautvaxinnar dygða brautar
orðum þann, er á gaf fyrðum
eptirdæmin glæpi at hepta.
Hoskr bjargi oss Hólabiskup,
hann er líf ok vón þurftarmanna,
Guðmundr fèkk af guðdóms anda
grandleysis krapt lífs ok andar.

7. Ýtar sækja af öllum sveitum
Ísalands, þeir er Guðmund prísa:
blindir, daufir, beggja handa
bót þiggjandi eða svá fóta,

höfuðverkjarins angr ok orku,
augna rætr ok líkþrá bætir,
dauðum aflast líf viðr leiðu,
lætr engi hèr biskup mætra.

8. Sútaukinn las sálna bætir
söngva bækr, ok vakti löngum,
allar upp með elsku fullri
júngfrú Maríe fylldar tárum;
heilagt vers tók hann sem hnossir
hlítar kænn ok virkta bænir,
henni sendr af helgum anda
hyggju bragðs, þat er Gabríel sagði:

9. Blíð heilsa ek þik mær ok móðir
miskunnar full hjartans brunni,
venastr hann er buldr með hreinu
holdi þínu skapari foldar;
blezuð vertu, sem hneyktir hvassan
höggorms gráð, yfir kvenna náðir,
signaðr er þinn sonr í megni
sannr græðari allra manna.

10. Fæddist upp, sá er illu eyddi,
öllum þekkr guði ok rekkum,
vèlrýrir tók vígslur dýrar
veldis stóls af Brandi at Hólum;
prestr hafði sjá púsu hæsta,
prúða valdi hann sèr til brúðar,
meðr njóta þess margir aðrir,
móður guðs, sem blóm er fljóða.

11. Háleita vann opt með ýtum,
ok er rètt um þat sannar frèttir,
sóttir græddi hann allra átta,
jartegnagjörð mjúku hjarta;
djöfla keyrði hann út meðr afli
óða, hvar sem beiddust þjóðir,
flýgja urðu fúnir draugar,
flögðin gjörvöll undan lögðu.

12. Brandr öðlaðist blíðan enda,
biskupsdóm er hèlt með sóma,
æskiliga, með aldri röskum,
andláts tíð ok gröpt hinn fríða;
lofstyrkan kom lýðr ok klerkar,
ljóst mál er þat, hirði at kjósa,
greiddist ór með góðum ráðum,
Guðmund hafa þeir allir fundit.

13. Sína ferð bjó sannleiks reynir,
sem mun verða allt at greina
þessa ferð hve hins hyggju hvassa
hindra kunni stormr ok vindar,
heilum kómu stýrendr stála
stafna elg til kaupangs hafnar,
Eiríkr vígði auðnu nægðan
erkibiskup geymi klerka.

14. Lestir mæddi fárs í föstum
fagran aldr ok bæna haldi,
mæta sýndi miskunn ýtum
meinabrjótr í dæmum hreinum;
mjúklátum var mönnum veitinn,
mildr ok blíðr, en grimmr við stríða,
rètta vildi hann ranga háttu,
rann frægð af því, undirmanna[1].

15. Aptr vitjaði sorga sviptir
Snjólands á vit fram til Hóla,
lýðrinn allr með lofsöng prúðum
lèt biskupi fagnat mætum;
ílags þáttr kom illra vætta
einsett í hug mjök Kolbeini
yfrit baldr sá er eiga vildi,
illt verk[2] er þat, dóm yfir klerkum.

16. Veitull þótti ástvinr ýta,
illa líkar þat bóndum ríkum,

1) sbr. kap. 24 (bls. 53—54). 2) bætt við eptir getg.

þýða þeir at öllu eyði
auð miðlandi fólki snauðu;
eigi lèt fyrir illsku gautan
eljangjarn því heldr varna,
aumum þegar hann hafði heima
hlítar kost, þótt fèin sè lítil.

17. Hríðin gjörðist hörð er óðu,
hermenn saman flokkum tvennum,
biskup bauð at bragnar röskvir
berðist ei með hvössum sverðum;
þreyttir gengu saman á slèttu,
svá er Víðines kallat síðan,
kvíða mátti hann kröppum dauða,
Kolbeini varð grand at steini.

18. Beiðist hann, sem búinn var dauði,
blíða lausn, en hett var stríði,
allan gaf hann sik orðum fullum
einum guði í þrennum greinum;
feginn veitti þat seggja sættir
síðan skjótt með allri blíðu,
biskup sæll, þvíat banni fullu
bröt kastaði þúngra lasta.

19. Engi skal, þótt illa gangi,
örvilnan sik láta skilja
dauða stig þvíat dæll er at vægja
dýrligr frá þèr himna stýrir;
mætri eru guðs ok miklu betri
miskunnar verk glæpum sterkum,
María ok Pètarr megu þat skýra
merkiligast ok dýrir klerkar.

STEF.

20. Styrki oss til allrar orku
yfirdómari himna ljóma,
orðaskortr svá at engi verði,
íðvandliga stefið at smíða:

*Allar fèkk af engla stilli*
*yfirmannkosta dygðir sannar;*
*Guðmundr fèkk af guðdóms anda*
*gnógligt vald með dýrð um aldir.*

Fyrsta stefjamál:

21. Stirfinn æsir Sturlu arfi
stól settan á biskup Hóla
grimdar flokk, en geymir ekki:
guðligt vald hve þat má haldast;
blóði dreifðu bragnar reiðir,
barðist herr í kirkjugarði,
saurgut var þá móðir margra
mikilvirk í sèr Hóla kirkja.

22. Ítran færðu í útlegð stirða,
allskyns rán þeir gjörðu hánum,
blindri sál af biskups stóli
bannsverk gjörðust fleiri á klerkum;
ríða varð fyrir rugli hörðu,
reitíng er þat, vestr í sveitir,
Snorri bauð þá sínum herra
smeykinn heim í holtið Reykja.

23. Síðan neyddu, sárum saddir
syndum, þat var daufligt yndi,
lærða menn, at leyfa gjörði,
löng stund var sú, messusöngva,
þá er bannaði beint at sönnu
biskup mildr at heyrast skyldi,
aumir vóru þeir allan tíma,
enn sanna ek þat gjarna, þenna.

24. Mannrauna bar mesta pínu,
mætt reiknast þat píslarvætti,
oss er ljóst at hann unni Kristi
allra mest í gjörðum flestum.
*Allar fèkk af engla stilli*
*yfirmannkosta dygðir sannar,*
*Guðmundr fèkk af guðdóms anda*
*gnógligt vald með dýrð um aldir.*

Annat stefjamál:

25. Frètt hefir öld, at flagðit sótti
frjófan mann, en pínir annan,
yfrið stórum jarðar hári
á köstuðust þau með löstum;
fjandinn villti fyrst með blindi,
fèkk hann mót staðit síðr en ekki,
signast skyldu seggir hyggnir,
Selkolla lèk þá til heljar.

26. Heilagr maðr fór hitta vèlin,
hosan af fæti tók at losna,
heiðna laust hann höndum báðum,
hvarf fjandinn þá niðr í granda;
vígði hinn er vandist dygðum,
varð bót af því, dreyra jarðar,
selskrípit hlaut sannra glæpa
sökkvast fljótt í myrkr hit dökkva.

27. Tírprúðr setti tvenna ok fjóra
tókst hnoss af þeim, ættar krossa,
ýlandi stökk illsku skóli
ólmligr í sèr brott frá Hólmi;
síðan fluttu seggir skratta
sútaukinn í líki knútu,
ymrinn get ek at heyrist heima
helvítis vist fjarri Kristi.

28. Optliga vann sá er geymdi giptu
grandlauss maðr á árum fjanda
háfan sigr með hollri gæfu,
hann er leiðsagi valdra manna.
*Allar fèkk af engla stilli*
*yfirmannkosta dygðir sannar,*
*Guðmundr fèkk af guðdóms anda*
*gnógligt vald með dýrð um aldir.*

Þriðja stefjamál:

29. Biskup sótti skrín hit skreytta,
skildi hann þat sannan vilja

Ólafs konúngs, enn skal stæla,
erkibiskups, nýjan verka.
þórir tók, en þýtr at eyrum
þúngligt róg af mörgum túngum,
heilagan mann með heiðri ok sælu,
hans, vildi svá guðlig mildi.

30. Eptir spurði eflir krapta
elsku kunnr, hví hann vígði brunna:
orðit leikr á yðrum gjörðum
allra mest um vígslur presta;
svá skýrðar vann sínar gjörðir
sannfróðliga röksemd góðri
hygginn maðr, at hvárutveggja
hann þakkaði eyðir banna.

31. Fjórir báðu fremdar stýri
fátækir menn blítt með gráti,
rakkur hafði raunar ekki
ráðum hollr nema af silfri bolla;
margveitinn bað Máríu brjóta
mjök jafnstóra parta fjóra,
fundna bæn af foldar tönnum
feginn reiddi hann þeim er beiddust.

32. Veiti oss nú mær hin mæta
María at hjálpist sálur várar,
sanna sætt við sárum ótta,
syndalausn ok náðugt yndi.
*Lúti gjörvöll landsbygð ítrum*
*lim stólkonúngs bjartra himna,*
*drottinn, heyrðu nú mildr ok máttugr*
*mína bæn, at hann hvíli í skríni!*

Fjórða stefjamál:

33. Geysiligt tók upp at æsast,
illsku, róg af fjandans plógi,
þórir hlýðir enn á eyði,
erkibiskup, faðir klerka;

embættið tók allt í brottu,
ólst sorg af því, biskups Hóla,
hugsar hinn at huggan vaxi
heilagr maðr af skepnu deili.

34. Braut sendir hann beggja handa
bersnauðan prest, sviptan auði,
fáklæddan í skarpri skryddu,
skelaust kunni hann ekki að mæla;
Romam hitti rekkr hinn aumi
ráða snjallr, ok Pettars hallir,
brèfi kom hann þó brott at hófi
bjálfa skrýddr fyrir páfann sjálfan.

35. Aptr vitjaði auðar sviptir,
undrlaust var þat, Noregs grundar,
bullam hafði hann beint með öllu,
bilar alls ekki drottins vilja;
aptr fengit var geymi giptu
guðlegt vald, at hann skal halda
allan, svá at um megi stilla
engi spell, eða láta ella.

36. Drottinn lætr þú dýrar stèttir
drambferðugar lágar verða,
auðmjúkan vilt jafnan rækja
aldr gramr með hærra valdi.
*Lúti gjörvöll landsbygð ítrum*
*lim stólkonúngs bjartra himna,*
*drottinn, heyrðu nú mildr ok máttugr*
*mína bœn, at hann hvíli í skríni!*

Fimta stefjamál:

37. Heim skundaði hyggju geymir,
hrósa mátti hann sigri ljósum;
ónáðir fèkk ærnar síðan,
úngligt var [þat], af Sturlúngum;
snillíngrinn þolir snarr um alla
sína æfi líkams pínu,

honum aukaðist hár af slíku,
handvíst er þat, verðleikr andar.

38. Særir fèll í sjúkleik stóran
sunda báls, er fram liðu stundir,
megnit þverr en minntust varrar,
minn lausnari, bæna þinna;
miskunnar bað sálu sinni
snildar drengr, en trúi ek at englar
hana[1] ferði heim af stirðum
hans líkama í guðligt ríki.

39. Heilagr blómgast hölda skýlir,
hann líkist við pálmam, slíkum
dýrðar verkum drottins orku
dægra stalls, um landsbygð alla;
blindum veit ek at sýnin sendist,
sjúkir gleðjast með heilum búkum,
mælti dumbr þá er hljóp hinn halti,
henda líf í eldi brendir.

40. Líti þjóð í lofsmið mætri
lundar hress á pálme þessa,
ýta mun þat elsku bæta
öll í senn hve flúrin renna.
*Lúti[2] gjörvöll landsbygð ítrum*
*lim stólkonúngs bjartra himna,*
*drottinn, heyrðu nú mildr ok máttugr*
*mína bæn, at hann hvíli í skríni!*

SLÆMR:

41. Máttugr gef þú í slæm hinn slètta
snildar orð, af þinni mildi

---

1) hæna, Hd. 2) Síðari vísuhelmingr er þannig í sögunni sjálfri í Hd. (kap. 77, bls. 165):

Vorðinn er sá frægr meðal fyrða
fæðir slíkr ok andar græðir,
inna vil ek upp fyrir mönnum
jartegna vöxt hjarta fegna.

æztri blómast allir heimar,
albróðigr mèr, faðir þjóðar,
sönn ein vilda ek segja runnum
snillíngs verk, eða dýrðleg merki,
háleit þau, sem hann gefr ýtum,
Hildar serks, fyrir drottins mildi.

42. Bergr ábóti hefir birtan margan
biskups heiðr í máli greiðu:
inna rèð hann allar sannar
jarteinir hans mjúku hjarta;
eigi er veitt at víða hittist,
vandi er slíkt, í þessu landi
túngan nein, at svá muni sýngja
sanna dýrð af einum manni.

43. Setti hann í sínum þætti:
samlíkjandi biskup ríkan
feitust Cedro fjórum mætum
fyrirrennandi krapta þrenna:
trú ok vón þær treystu hreinan,
til má ást, þat er rètt at skilja,
satt mun flutt af slíks manns háttum,
slitna aldri þessur vitni.

44. Cedrus vex í foldar faxi,
fjallit hefir at merkja allra
birting þeirra er hreinum hjörtum
haldi líf með skírleiks valdi;
þýðir líkams enn í óði
allegorice rètt at kalla
allsráðanda einka brúði
oss tæjandi kristni frægja.

45. Cedrus fèkk svá at eyðist[1] ekki,
allar fjórar dygðir stórar:

1) þann. áðr (bls. 184); endaz, hèr, Hd.

eina þá, sem ei má fúna,
ilman helzt þótt viðrinn eldist,
feitin drepr með magni mætu
maðka þá er í sárum spraðka,
ormar flýja eitri fermdir,
efalaust er þat, sætleik traustan.

46. Guðmundr líkist, enn skal auka
efnat lof, þat er ei mun rofna,
einu trè, því er ei má fúna,
eldi lestr þótt heimrinn bresti;
allír treysta hann í hæstri
himna vist með sjálfum Kristi,
fundinn verðr þess engi endir
eilífs valds, er þar er at halda.

47. Liðit er nú sízt hann var hèðra
hundrat ára, svá höfum fundit,
aukast þar til enn at líku
átta vetr, sem ritníng váttar;
aldri þverr í efrum öldrum,
einart vex fyrir sannar greinir,
frægðin hans ok fagrar dygðir,
finnast þar til sögur ok minni.

48. Orð guðs kendi áget virðum
elsku kunnr af spektar brunni,
fyrir því varð, sem frægt er orðit,
feyjandi sár maðkr at deyja;
síðan sleikti sæll ok mýkti
synda þúnga linri túngu,
feiti smurði ástvinr ýta
öllum trúr, ok víni súru.

49. Færi ek[1] fram, svá at hverr megi heyra,
hróðrar smíð, er launar hljóði
auðar hlunnr, hve yfirmann þenna
eitrspýjandi snákar flýja;

1) þann. Hd. hèr, en áðr: (bls. 184) færir.

djöflar hafa sik út með afli,
á hrindast þeir járna tindum,
hverr setr öðrum, hvar sè mætra,
horn í síðu púka fornra.

50. Táknin öll hve lýði læknar
lofðúngs vinr, þess stýrir englum,
engi fær þau talt með túngu
tíðast maðr, þótt lofgjörð smíði,
einkar [hátt] því at allar stèttir
Íslands vilja nú Guðmund prísa,
heita menn til Hóla gætis,
hann er lífgjafi sjúkra manna.

51. Ýtar frá ek at[1] út rèru báti
ár spennandi í stöðum tvennum,
týndu þeir, sem ei má undra,
angr kærandi sínum snærum;
fundu aðrir fjarri landi,
fèkk Guðmundur heiðr af rekkum,
drógu neðan ór djúpum ægi
dorgar bönd, en lokit var sorgum.

52. Vættu þeir, er þurfa þóttust,
þunnan hnjósk í vígðum brunni,
því tókst þeim í einu eiki,
elris grand, á kalda landi;
vatnit brann, svá at skildist skötnum
skýrligt verk með krapti dýrum,
tírsæll gaf því túngla stýrir
til þess afl, hjá kvátru tafli.

53. Vægja hlýtr fyrir valdi nógu[2]
várs biskups, hann græðir sára,
sjálf náttúran sett af hilmi
sunnu stóls, þess er ríkti at Hólum;

---

1) þessu orði bætir Hd. hèr við, sbr. bls. 180.
2) þann. hèr Hd.; mætu, áðr (bls. 180).

almáttugr því at Jesús veitir,
undrlaust er þat, bæn Guðmundi,
skepnan öll verðr skyld at halda,
skil ek gjörla þat, sínum vilja.

54. Heilagt blóm kom hrínga Naumu,
hátíð sína þröngða pínu
hitta, sú var himna drottins
höll tignari meyjum öllum;
henni fylgði hreinn meðr sönnu
hennar vinr, sem ritníng kennir,
þetta lof þvíat þeir hafa váttað
þat Guðmundar löngu fundit.

55. Sínar lagði hendr en hreina
himins drottníng á megni þrotna
þrúði, náði hún þegar at fæða,
þráða, pilt at Jesú ráði,
braut höfðu þau börr ok sæta
barn með sèr, en hún vaknar gjarna
harðla skjótt, fyrir heilsu veitta
hvítr sprakki rèð báðum þakka.

56. Vèlheptir gaf vísum krapti
vífi sýn, því er hlaut að reyna,
vetrum fyrr en væri betra
vel þrim tigum ef rètt skal telja,
augun strauk sín opt í hreinu
áðr batnaði, signdu vatni,
Kráka var þá ára eikin
áttatigi ok þriggja váttuð.

57. Sökkva rèð[1] við sjófar bakka,
sveinn drukknaði í geima hreinum,
arfi prests þess er opt hefir lastað,
undrligt er þat, siðu Guðmundar;
síðan hèt meðr geystum gráti
guðs játara af meingjörð láta,

1) þann. hèr Hd.; frá ek, áðr (bls. 182).

hnuggit líf ef hans mög þægi
heilagr maðr af skepnu deili[1].

58. Gotnar steyptu vígðu vatni,
vann Kursa þat jartegn sanna,
inn í munn þeim únga manni,
ítarligt er slíkt at líta;
hneigir veit ek at upp lauk augum
unnar bliks með krapti miklum,
síðan stóð svá at seggir náðu
sókndeilanda at fagna heilum.

59. Skínandi sitr sonr hjá sínum
samheldr ok jafn feðr í veldi
hverja stund, ok heilagr andi,
hendir slíkt, en ei verðr endat;
þessum öllum hin hyggjuhvassa
hölda sveit er skyld at veita
allan heiðr með elsku fullri
einum guði í þrennum greinum.

60. Föður jafn sitr á háfum himni
hæstr í dýrð með valdi glæstu,
söngr heyrist þar sætr af englum,
sonr eingetinn vífs hins hreina;
allir lofa þar ástar fullir
anda guðs, er oss firrir grandi[2],
heimrinn allr með helgu blómi[3]
haldi slíkri dýrð um aldir.

---

1) Hèr setr Hd. upphaf á tveim vísum:
1) Síðan hèt með geystum gráti. —
2) Hneigir veit ek at upp lauk augum; — þetta eru upphöf að síðari vísuhelmíngum í 57. og 58. erindi.

2) þann. Hd. á fyrra staðnum, í niðrlagi sögunnar (bls. 184); andar guðs sem firri oss grandi, Hd. á þessum stað.

3) þann. Hd. í niðrlagi sögunnar (bls. 184), en hèr: helgum blómum.

# GUÐMUNDAR DRÁPA HÓLA BISKUPS,

sem bróðir Árni Jónsson orti,
ábóti á Múnkaþverá
1371—1379[1].

1. Almáttugr sè dýrðar drottinn
dyggr ok bjartr í mínu hjarta,
upp slítandi öll með rótum
illsku klúugr, er þat hafa stúngit;
sárnat brjóst af synda þyrnum
svá smyrjandi mýktar anda,
sæðis jörð at sannleiks orði
síðan megi þar verða fríðust.

2. Eitt þat ljótt með höggorms heiti
hefir sprúngit mèr fram af túngu
orða far, þá er allskyns flærðum
ek blandaða ok fúlu grandi,
líknarfúss þvói lýti þessi
lifanda vatni heilagr andi,
mèr veitandi mjúka ok sæta
mála grein en skilníng hreinan.

3. Meyðr[2] vár ok mjúkust móðir,
megindrottníngin himins ok gotna,
höfuðmeistari á hverskyns listir,
hófsamligast ef vildir prófa:
kenndu mèr at velja ok vanda
vegleg orð, með stuðlum skorðut,
þýðr at mætti þannveg heiðrast
þinn ástvinr af túngu minni.

4. Mildíngur sèr mána foldar
manna verk, sem gjörvallt annat,
greinir hann því glöggt hvat þjónar
gumna hverr í Pèturs knerri,

1) eptir AM. 398, borið saman við AM. 721, 4. (frá v. 44), og AM. 713 4. (frá v. 58). 2) = mær (magd).

stundum þarf til stjórnar senda
sterka menn í bylgjum þrennum,
hindrar eigi heimr ok fjandi
hold veykast í freistni kveykja.

5. Drottinn lítr af sínu sæti
sjófargang ok bárur strangar
ólmast fast á einum hólma
enda heims er kalla beimar,
borðval tveir er beztir stýrðu
báðir sofa at Jesús ráði,
veðr er hvast, því vekr hinn þriðja
vagna gramr, at skipmenn fagna.

6. Sá ríss upp með sigr ok höppum
sæmdar maðr á nyrzta jaðri
ýta fróns, þar er Ísland heitir,
úngr ok vænn, sem rós hjá klúngrum;
skírðr var þegar fæddist fyrða
fríðr ættstuðull, ok nefndur síðan
Guðmundr, er þá giptu hendi
gott at elska en hafna spotti.

7. Bernsku stètt, þvíat brá til ættar,
blíðkar hann, ok gildra manna,
sýndist nokkut sveinn í lyndi
sèrlátur með æsku máta;
læríng fèkk þó skjóta ok skýra
skatna vinr með siðanna batnan,
æxlaðist honum við aldr ok vígslur
eljun sterk til góðra verka.

8. Kennidóms fèkk sæmdir sannar
siðbætir ok vígslu mæta,
prestur sá var prýddr af Christo
pálmvið líkt, er getr í psálmi:
rót er sterk, en leggur lítill,
listug flúr ok grænir kvistir,
giptufullr í gæzku kröptum
Guðmundr hefir svá vaxa fundizt.

9. Háttprúður var hann ok iðinn,
harðla dyggur, merkr ok hygginn,
söngvinn, hógværr, trúr í túngu,
tíri gæddr ok lífi skíru,
stöðugr, góðgjarn, sterkr ok væginn,
stilltur bezt við þjóðir villtar,
fylldr af ást ok mjúkri mildi,
maðr ágætr í lítilæti.

10. Unni heitt, sem verkin vátta,
víngarðs eflir drottni sínum,
boðorða hald ok blezuð mildi
bera hitnandi elsku vitni,
næst virðandi kærum Christi
kjöri Guðmundr gimstein sprunda
sèr unnustu góðleik glæstan,
guðs móður fremst helgra þjóða.

11. Alla framdi eyðir villu
embættisgjörð fögrum hætti,
messur skýrt af mjúku hjarta
mest vandaði hann guði til handa;
skatna kindum skína vitni
skilríkust, at drottni líkar
atferð hans með reglu rèttri,
raun sannar þat fjölda manna.

12. Inniligum sást eldr af munni
út líðandi heilags anda
kenniföður í messu miðri,
mikill vegr er [þat], sólu fegri,
lengi stóð um lágasöngva[1]
ljós minniligt öðru sinni
giptumanns yfir limu af lopti
líkt álfröðuls geisla sjálfum.

13. Sèn var enn yfir sofanda skína
sól rèttlætis krapta skóla,

1) langa söngva, Hd.

halr snertandi himna birti
handarmeins þá lækníng hreina;
snæfurt sýndist snjóhvít dúfa
snara gegnum ræfur þegni
af dýrðarmanns öxl ok herðum,
andi guðs hann læra vandist.

14. Tákn frægðust fyrir vötn er vígði,
vinrýrir, ok söngva dýra,
gagn sem heilsa greiddist brögnum,
grand firðist ok vælar fjanda;
sètna menn, en búfè batnar,
boginn rèttist, en hrjúfir slèttast,
sloknar eldr, en verkir vikna;
veitist sýn, en dauði týnist.

15. Mikils er vert at María birtist
mellíngs boða til hjálpar þellu,
en meira þat, er sjálf hún svinnum
svá mælandi presti hælir:
dygðugr þat sem vinr minn vígði,
vatn Guðmundur fái þèr sprundi,
hann þykki mèr hölda kunna
hátt líkastan beint á slíku.

16. Ágætt tákn vil ek ýtum reikna
enn vorðit fyrir guðs vin þenna:
seggir eyði Sváfnis bryggju
senn tveim stöðum þóttust kenna,
víst sýndist hann vestr á Ströndum,
Vatnsdal bygði hold hit bazta,
drottinn þenna virðum veitti
veg sjaldan mjök himna s[k]jaldar.

17. Spádómur nam sælan sæma
sira Guðmund á hverri stundu,
nær greinandi fyrir sem fjarri
fyrst lunduðum hvat verða mundi;
öngum raufst enn hreyti hrínga
hálft þat orð er hann sagði forðum,

því kölluðu vel þenna allar
þjóðir Guðmund prest hinn góða.

18. Kænasta dró Kolbeins rúnu,
Christs vildi þat leyfa mildi,
grimmlundaðs ór greipum fjanda
guðs játtari, sem margir vátta,
lind[1] almeidd af greypu grandi
glymrastar kom aptur fasta
snöruð ok kreist, en beinin brostin,
bauga þöll var dauð með öllu.

19. Önnur bæn af Kolbeins kveini
knúði sárt hit milda hjarta
kennimanns at hjálpa hranna
háttprúðastri[2] lindi búða,
dýrðarfull hefir jartegn orðit,
aptr skipaði drottinn krapta
þjónara síns fyrir verðleik vænan
víf í heim með óskalífi.

20. Satt höfum spurt, at sýndi drottinn
sætust laun fyrir starfa mætan
Guðmundi, þar er góðar andir
gagnauðigstar sælu fagna:
leidd var ein ór líkam sínum
langminnigrar sála kvinnu,
hann mærðu þeir heiðurs orðum
helgir menn, sem fylgðu henni.

21. Hèr váttuðu hirðmenn dróttins
hann dygðugir um várar bygðir
traustan þeim sem trú hefir fasta
tænaðar-[3] mann í fögrum bænum;
ítran sögðu ei munu sitja
Íslands blóma sælum Thomæ,
ljúft var heit, í lægra sæti
lofsælir menn Guðmund þenna.

1) kind, Hd. 2) - prúðast til, Hd. 3) trúnaðar, Hd.

22. Hverr finnst nú, sá er heyrði fyrri
hrínglestir, at af einum presti
þvílík tákn sè ritin ok reiknuð
rètt fáganda valdar stèttir.
Sannast var þat, er allir unnu
Íma hljóðs á nefndum tíma
íslenzkir menn eyðirunni
ágætum at vizku mætir.

FYRSTI STEFJABÁLKR.

23. Hollvin guðs bið ek styrkja ok stilla,
stefja bálk mun ek þangat hefja,
mælsku tól at mærð ok elsku
mætti gjörast af fögrum hætti.
*Máríu unni sætt at sönnu*
*sæll Guðmundr um allar stundir,*
*honum veitir nú heiður mætan*
*himins drottníng, svo aldri þrotnar.*

Fyrsta stefjamál:

24. Áður hefir ek átt at heiðra
allgóðan vel prest í hróðri,
biskups mun ek nú brátt hins röskva,
boða stórmerki sæmdar verka;
stefligum má þat ýtum afla
andar gleði ok sorg til handa,
bæði ætta ek fólki fríðu
feginn ok ríkr af slíku segja.

25. Brandr öðlaðist bjartan enda
bæði lífs ok stjórnar-mæðu,
bragnar kjöru til biskups hyggnir
brátt Guðmund, er þjóðir fundust;
móti stóð af lítilæti
lengi hann, þótt bæði drengir,
guðs mann kalla gumnar þenna
Gregorio líkan stórum.

26. Vígði þenna valinn at dygðum
virðuligastan klerka hirði

erkibiskup ítr ok styrkti
Eiríkr, hans var gipta at meiri;
bátrinn fèkk nú blezaðs Petri,
björt, ljósan, þat kristni glósast,
nýr hölda sem nefnda ek fyrri
niðjum stjórnarmann hinn þriðja.

27. Sælastur kom heim til Hóla
heiðraðr svá sem skyldan beiðir[1]
fýra drottinn af fremsta mætti,
fagnaðr var þá yfrinn bragna;
bæði var sá biskup lýðum
blíðr ok örr, en tregr at stríða,
sætr ok góðr, en svinnr í ráðum
sæmiligum, ef rètt skal dæma.

28. Líknar æðr ok lifandi prýði,
ljós þjóðanna, Jesú móðir,
veittu oss fyrir verðleik þessa
vinar þíns bót á meinum ljótum.
*Máríu unni sætt at sönnu*
*sæll Guðmundr um allar stundir,*
*honum veitir nú heiður mætan*
*himins drottníng, svo aldri þrotnar.*

Annat stefjamál:

29. Eigi týndi vænstum vanda
váttur guðs í fögrum háttum,
heldr þróaðist honum með valdi
hamíngja sterk til kraptaverka;
setti hann, at siðirnir bættist,
sannan rètt miðil guðs ok manna,
áður gekk yfir bjarta brúði
berr ósómi andlangs[2] herra.

30. Kirkjan þoldi hneyksl af höldum
harðla sterk, ok rèttur klerka,
burgeisar því at mundi ok margar
mjök spentu þá hennar rentur;

1) byðr, Hd. 1) andlaugs, Hd.

lærða dæmdu leikmenn fyrða
lastauðigir und meiðsl ok dauða,
sárt hrygði slíkt signat hjarta
sæls Guðmundar um langar stundir.

31. Hjarðir sèr nú vörgum verða
virðuligr at bráðum hirðir,
skæðum, er[1] þær draga til dauða
dreifandi með grimmum anda;
sæmiligr man sauða geymir
sverði Petri bregða verða,
refa ljóta með röksemd mætri
rekandi brott frá sauðum[2] drottins.

32. Guðs riddari, er gæzkan studdi,
gjörir enn svá sem spektin kennir:
smíðar sèr á bergi breiðu
bygð, er sjau var studd með dygðum,
því gröndoðu ei vötn nè vindar,
vèl nè hríð í þrennu stríði
lýða meistara greina góðum,
grundvöll at hann fèkk sterkan fundit.

33. Margt fyrir elsku mjúka birti
móðir guðs ok vináttu góða
jafnlyndum í sýn eðr svefni
svinn merkiligt geymi klerka.
*Máríu unni sætt at sönnu*
*sæll Guðmundr um allar stundir,*
*honum veitir nú heiður mætan*
*himins drottníng, svo aldri þrotnar.*

Þriðja stefjamál:

34. Búníng átti biskup vænan
blíðr at hafa í guðligu stríði:
bitrligt sverð með hjálmi hörðum,
hraustan skjöld ok brynju trausta;

---

[1]) ei, Hd. [2]) sæðum, Hd.

spjót ok boga sem spora, ok skeyti,
spentar hosur, at fótum henta,
maðr er traustr á mjúkum hesti,
máttuligt beizl, þat er ek skal vátta.

35. Guðs orð líkir glósan sverði,
gilda trú hinum sterka skildi,
blezaða ást fyrir brynju trausta,
bjartlig ván sem hjálmur skartar,
bitrligt spjót fyrir bænir mætar,
brynhosa þröng fyrir heilagar göngur,
heit vel sendir hjarta skeyti
hverr sá maðr er lærir aðra.

36. Skynsöm önd er riddari reyndar
röskr ok dýr, er búknum stýrir,
hestur mjúkr ok holdit veyka
hlýða þeim, sem temr með prýði,
víst eru sporarnir vökur með föstum,
vænast beizl fyrir tempran kæna,
gott skýrist fyrir glósu setta
Guðmundar líf allar stundir.

37. Hann settist fyrir húsi drottins
hlíf ok vörðr í sóknum hörðum,
drengrinn stóð, með dýra slöngu,
Dávíðs kóngs á múri háfum,
bræður varði ok milda móður
mál hvessandi Samson þessi,
segja hlýtur þúngar þrautir
þær sem lýðrinn at honum færir.

38. Lýða næríng lífs, ok móðir
lifanda guðs, frá öllu grandi
bjartar oss fyrir bænir þessa
biskup[s], leið til hvíldar greiði!
*Máríu unni sætt at sönnu*
*sæll Guðmundr um allar stundir,*
*honum veitir nú heiður mætan*
*himins drottníng, svo aldri þrotnar.*

Fjórða stefjamál;

39. Hræðist eigi heitan þjóða
herra bjartr, er svá var í hjarta
kraptauðigr, sem fyrr í fræði
fagurt skýrðist mjök til dýrðar;
fram leiðandi fyrst með blíðu
fyrir ritníng ok laganna vitni,
áminnandi aptr at venda
af ranginda venju langri.

40. Settu þeir, er svinnir þóttust,
sjálfir illt, en vóru spilltir,
metnaðarfullir móti drottni
margt höfðíngjar ráð á þíngum;
þat gjörir statt með þrjózku mætti
þeirra vald at fram skal halda,
röngum styrk, en ræna kirkjur
rètt sínum ok klerka pína.

41. Kolbeinn reisti flokk í fyrstu
forljótastan sínum móti
herra, þeim sem honum vann fyrri
hjartans náð fyrir táknit bjarta;
síðan grimmdist öld með æði
á meinlausan föður ok hreinan
langan aldr í þótta þúngum
þrjózku sterk ok eymdar verkum.

42. Æsiliga tók grim[d] at geysa,
griðníðingar þorðu striða
fláráðir við föður ok móður,
flærða meistarinn slíka lærði;
hvorki rèð at hlífa kirkjum
hörðust öld nè þeirra gjörðum,
rændu klaustr en pyndu presta,
plágur holdsins klerkar þágu.

ANNAR STEFJABÁLKR.

43. Ferskeyttur þó formi slèttu
fagurskygðr er sá steinn með dygðum,

hann prýðir vel hæsta smíði
himna kóngs, sem glósar ymni.
*Drottinn mildr, er elskar aldir,*
*ágætustum virðíng mæta*
*Guðmundi fyrir gæzku reynda*
*gefr eilífliga stjörnum efra.*

Fimta stefjamál:

44. Útlægðu þeir enn til stygðar
ágætustum meina bæti
vini ok frændr, er víst í raunum
vildu fylgja herra mildum;
meiðíngar eðr máttkan dauða
margir þoldu honum til bjarga,
hyggju vær at þeir muni þiggja
þýða vist með sjálfum Christo.

45. Færa enn yfir sektir sárar
siðverstir menn glæp hinn mesta:
leggja hendr á lækni anda
limir púkans af illsku sjúkir,
þröngdu fast svá at beinin brustu,
blezat hold var dregit á foldu,
meiðsl ok háð sem brigzl ok bræði
bar fagnandi stýrir bragna.

46. Sè nú hverju synirnir launa
sínum föður, er þann veg pínist,
mildi verkin mörg[1] við hölda,
mjúka bæn ok græðíng sjúkra;
kenníng sæta, líkn á lýtum,
leiðíng undan Jesú reiði;
lýður sá var líkur Júðum,
lagði grimd fyrir elsku sagða.

47. Gjörði þessi góður hirðir,
Guðmundur, sem til var stundat,
steypandi fyrir stóra glæpi
sterkast bann yfir fjölda manna;

1) mjög, Hd.

sveit bætti þá sína háttu:
sumir spilltust ok gengu villtir,
svá bíðandi sárligs dauða,
sviptir náð ok allri giptu.

48. Svá prófaðist sjálfr í lífi
sæmiligr til eptirdæmis:
gull jafnan sem glaðast í ofni
grandalaust kemr smiðum til handa.
*Drottinn mildr, er elskar aldir,*
*ágætustum virðíng mæta*
*Guðmundi fyrir gæzku reynda*
*gefr eilífliga stjörnum efra.*

Sjötta stefjamál:

49. Síðan ráku sviklar þjóðir
sólstillis vin burt af stóli
útlægðan fyrir elsku dygðir
ok rèttlæti guðs hit mæta,
heilög móðir, hneyst af lýðum,
haldast tók í myrkra valdi,
góz hennar sást glæpamönnum
gefit ok veitt, er Christi neittu.

50. Útlegð frá ek at engi sveigði,
ekkí stríð nè veraldar blíða,
böls neittara frá boðorðum drottins
bjarta siðu ok ágætt hjarta;
erkibiskup örfan styrkti,
æ hverr vald er þat nam halda,
bróður sinn með beztum ráðum,
baldin sveit þó mýktist aldri.

51. Stærðu svik, þá er stefndir urðu,
Sturlúngar mjök illskufullir,
sendu brèf ok rægðu reyndar
rèttara sinn í Þrándheim slèttan;
þrjátigir saka í þessu letri
Þórir biskup dæmdi stórar,

víst Guðmundur virðum sýndist
valdi sínu trautt mega halda.

52. Sendi þá til Róms sá er reyndist
röskan prest með fátækt mestri
gæfufullur góðum páfa
Guðmundur, sem margr hefir fundit;
erindi hans varð einkum vandat
allri list, en kóngar mistu,
gull ekki sást gefit með öllu,
gott er traust at elska drottinn.

53. þrennan[1] sigr gat þessi unnit
þrennum[2] kóngi spektar kennir,
því árnuðu hans þrennar fórnir
þjóðum hjálp af Christi góða.
*Drottinn mildr, er elskar aldir,*
*ágætustum virðíng mæta*
*Guðmundi fyrir gæzku reynda*
*gefr eilífliga stjörnum efra.*

Sjöunda stefjamál:

54. Páfinn skipar í björtu brèfi
blezaðr vald at æ skal halda
Guðmundr, nema hann vili hrinda
háfum stètt, ok byrði lètta,
biðr ok þess, at allir aðrír
í kristninni væri slíkir
formenn rètt at dygð við drottinn[3],
dómur fèll svá honum til sóma.

55[4]. . . . . . . . . . . . . . . . .

56. Styrkr í anda stýrir klerka
stól sinn tók þá brátt at Hólum,
þoldi jafnan þúngar höldum
þó meingjörðir skýrleiks blómi;

1) þrennar, Hd. 2) 721; þrennan, Hd. 3) drottni, Hd.
4) í stefjamál þetta vantar eina vísu, en óvíst er hver hún hefir verið í röðinni, er það sett hèr eptir ágizkun.

laganna hald ok máttug mildi
mest gafst honum at skuld af flestum,
allt þat fólk, er eigi villtist,
elskaði hann sem guðs vin sannan.

57. Heitust ást við himna gæti
hjartanu veitti styrk svá bjartan,
aldri stökk hans fótr á foldu
furðu rèttr af boðorða stèttum;
röðuls brautar má rèttliga heita
riddari frækn ok góður læknir
mildíngs[1] slíkur maðr, er aldri
mæddi stríð, en hjörtun græddi.

58. Prúður herra písla nauðum
plágaðist þrátt, sem letrin vátta,
gullig mun því gefin með öllu
glöðum kóróna Jesús þjóni.
*Drottinn mildr, er elskar aldir,*
*ágætustum virðíng mæta*
*Guðmundi fyrir gæzku reynda*
*gefr eilífliga stjörnum efra.*

SLÆMR.

59. Beimum vann í biskupsdómi
bæði holds ok andar græðir
fleiri tákn, en ferðum reiknist,
fagr ok merkr, í litlum verka:
sundur sprakk fyrir signan handar
sjófar grímr, er langan tíma
prúða gat með prettum lýði
plágat mest í Hjörúngavági.

60. Ýta brygðu sárar sútir,
Selkolla því mögnuð olli,
meiðíng, blindi[2], mein ok dauða
menn röskvastir fengu af henni,

---

1) 721; mildíng, Hd. 2) 713; blijda, Hd.

Guðmundur þeim[1] grimmleiks fjanda
greypiligum í jörð nam steypa,
óvættur sú aldri mátti
aum síðan við drengi stríða.

61. Örlátur nam biskup brjóta
bjartan sundr í marga parta
silfurbolla, er síðan allir
sjáligum reyndust jafnir í[2] skálum;
hreinar varð fyrir herrans bænir
harðast torf at slátri jarðar,
hamragrjót at[3] fæðu feitri,
fríður kostr or bjargi síðan.

62. Flýðu tröll ok fjándur leiðir
fyrir mætustum sálna gæti,
lygnir vinda, lægir þagnar,
læknast drótt af öllum sóttum;
dofnar eitr, en dauðir lifna,
drjúgum öll varð skepna kúguð:
hlýðni at veita herra sætum
heiðr ok gagn, nema illir bragnar.

63. Sæll biskup tók sótt í elli,
sól at hyrfi jarðar hjóli,
hreinust fórn ok heilög smurníng
honum greiddist þegar nauðsyn beiddi;
siðreynir gaf sèr ok öðrum
síðast harðla blezan fríða,
eptir þat stóð ljóss í lopti
lengi kross fyrir augum drengja.

64. Leiðir svá með dýrligum dauða
dygðarmann frá veraldar hrygðum
mulins[4] stjórnari, ok honum á hlýrni
hugar staðfesti galt fyrir mesta:
hundraðfaldan heiðr ok yndi,
háleitt vald í friði um aldir

1) 721; með, Hd. 2) sl. Hd. 3) af, Hd. 4) musins, Hd.

fagnaðar með ástsemd[1] eignast
allt þat gott, er skapaði drottinn.

65. Oss mun rangt at efast í þessu,
er guðspjöllin vátta öllum
þeim heitið, sem þann veg sæma
þrennt einvald í boðorða haldi;
en mannkosti fyrðar flesta
fundit hafa þá með Guðmundi,
lofða sveit er[2] les at hefði[3]
líf annara helgra manna.

66. Dauður svá sem lifandi lýðum
líknar hann, er bæði sannan
heilagleik ok mildi mjúka
mátt ok vilja góðan váttar,
heim sækir því hann með sóma
hundruðum sveit, at biskup veitir
holds græðíng ok hjálp í nauðum,
hverr sem biðr með trausti ok iðran.

67. Sunnu skeiðs hefir mörgum manni
mildíngur þat birt, at skyldu
bragnar þenna biskup tigna
bjartan rètt af öllu hjarta;
ástleysi mun várt at vísu
valda því, með synda gjaldi,
hátíð bæst[4] með söngvi sætum
sæmir ei þat, er guð[5] vill dæma.

68. Íslands ertu göfugr geisli,
Guðmundr, ok hjálp ímunlunda,
lýðs kóróna, lækníng þjóða,
lifandi brunnr af helgum anda:
siðanna form ok huggan harma,
heimsins blóm ok klerka sómi,
forstjórar mega skuggsjó skýra
skraut aldar þik fyrir sèr halda.

1) 713; ást sem, Hd. 2) ei, Hd. 3) 713; hofði, Hd.
4) vor, 713. 5) 713; gull, Hd.

69. Skírlífis með skýru prófi
skjallhvít lilja máttu kallast,
þolinmæðis ok rós hin rauða,
ramlig stoð við kristni gamla,
skært ljósker með brjándi[1] birti,
blezat fjall, er styrktir alla,
hlýskjaldar þá er heiðra vildu
heims landreka, en skirrast fjanda.

70. Heita máttu heilagt sæti
heims stýris með formi dýru,
sól skínandi sigri vænum,
sannur gimsteinn lærðra manna;
musteri guðs í múri traustum,
mildr, svá at þú ekki vildir
spara láta, þegar aumir ýtar
atvinnu sèr þurftu finna.

71. Frægðar áttu fjórar dygðir
feiti ok ilm, er cedrus veitir
hæðarfullr ok hvergi spillist,
heiðrinn vikr at þèr í slíku;
framar lýsir þín fegrð at vísu
fullu túngli skerðíngs Ullum,
morgunstjarna mæt á[2] hlýrni
mjök sæmir þik fögru dæmi.

72. Gullker máttu geðligt kallast,
glæst ok valit af smið hinum hæsta,
ítarliga þat innan skreyta
allskyns steinar dygða hreinir,
mönnum skenkir milsku[3] sunnu
mjúka drykki hjartasjúkum,
hunang ok mjólk i veraldar válki,
vínkjallara buðlúng úr sínum.

73. Guðs engil munu Guðmund skilja
gumna sveitir vel mega heita,

1) Hd.; berandi, 713, 721. 2) 713; at, Hd. 3) 713; með því, Hd.

drottins boðaði dyggur þjóðum
dýrð ok nafn sá biskup jafnan,
hægri ferð meðal himins ok jarðar
hefir þenna flutt elsku tvennrar
stigi sendimann stórvel reyndan[1]
sterkr af fjölda mildiverka.

74. Grasanna lykt hefir myklar mektir[2],
mætir viðir ok jurtir sætar
oleum rètt sem ritníng váttar,
rósablóm ok cinnamómum,
balsamum ok bezt reykelsi;
berr enn þó sá góði herra
hundraðfaldan ilm í anda
yfir sæmilig þessi dæmi.

75. Þýðust var honum María móðir,
mjök lystilig þar með systir,
faðir ágætr er eflir ýta
Jesús góðr ok sætur bróðir,
hann var þeim á hverjum tíma
hlýðinn sonr, með ástar þýðu,
höldum vær því hvat sem vildi
heiðurs maðr af guði til reiðu.

76. Jesús er nú váttr at vísu
vorðinn sterkr í dygðar verkum,
himins drottníng berr háleitt vitni
helgir menn ok þar með henni,
lopt ok jörð, sem legir ok firðir,
líf ok nauð hins grimma dauða:
hæst at líf sem heiður mestan
hlaut Guðmundr, ok sigr í þrautum.

77. Heilög fagnaðu: hirði sælan,
Hóla kirkja, fegra sólu,
veittan þèr af valdi drottins
víst Guðmund á hverri stundu;

1) 713; sendan, Hd. 2) 713; maktir, Hd.

allur lýðr af hjarta heiðri
hann íslenzkr ok mæli[1] þannig:
sættu oss við sannan drottinn
sannr elskari[2] guðs ok manna!

78. Líttu mildr á ljóða háttu
ljósa, þá er ek hefi glósat,
drottins vin! þó at dul sè þetta
djarflig mín, af heiðri þínum;
mildur vartú fyrr á foldu,
furðu mætr í lítillæti,
vel þiggjandi sæmd at seggjum,
svá mun enn nú verka þenna.

79. Yfirmeistorum mun Eddu listar
allstirður sjá hróður virðast
þeim er vilja svá grafa ok geyma
grein klókastra[3] fræðibóka;
lofi heilagra lízt mèr hæfa
ljós ritnínga sætra vitni,
en kenníngar auka mönnum
engan styrk nè fagnað myrkvar[4].

80. Biðjum enn með elsku sannri,
einni raust ok fullu trausti
Guðmund, oss at hann giptu sendi,
gagn ok hjálp, sem andar fagnað:
sína hjörð með björtum bænum
bazt hlífandi í þessu lífi,
inn leiðandi eptir dauðann[5]
alla senn í drottins hallir.

---

1) mælir, Hd. 2) elskogi, 721. 3) 713; kloka ytra, Hd.
4) þann. (myrknar) 713; myrkra, Hd. 5) 713, 721; dauða, Hd.

## ÞÁTTR AF JÓNI BISKUPI HALLDÓRSSYNI[1].

Nú skal nefna virðuligan mann, er heitir[2] herra Jón Halldórsson, hinn xiijdi biskup Schalholtensis[3] í Íslandi, hann var hinn sæmiligasti maðr í sinni stètt, sem lengi mun lifa á Norðrlöndum; sú var hans æfi lengst, at hann fór, síðan hann hafði gjörzt prèdikari í Noregskonúngs ríki, at studium mjök úngr allt út í Paris ok um síðir út í Bononiam; kom hann svá aptr af skolis fullkominn at aldri, at hann var sá vísasti klerkr, er komit hefir í Noreg; því var hann vígðr ok kosinn biskup Skálholtensis af Eilífi erkibiskupi; en hverr mun greina mega hverr hans góðvili var at gleðja nærverandis menn með fáheyrðum dæmisögum, er hann hafði tekið í útlöndum, bæði með letrum ok eiginni raun, ok til vitnis þar um munum vèr harðla smátt ok lítið setja í þenna bæklíng af því stóra efni, því at sumir menn á Íslandi samsettu hans frásagnir sèr til gleði ok öðrum; munum vèr í fyrsta [setja] sinn æventýr af hvorum skóla, Paris [ok Bolon, er gjörðust í hans náveru. Þann tíma sem hann var í Paris[4] nýlega kominn, gekk hann inn í skóla þann er æztr var til, var hann þann tíma úngr ok lítið skiljandi hjá því sem síðar; byrjaðist þá þegar þat, sem lengi hèlzt síðan um hans daga, at guð gaf honum mikla mannheill alla götu, einkanliga af þeim, er æztir vóru ok vitrastir, því leggr höfuðmeistari ok allr safnaðr skólans mikla blíðu ok góðar virðíngar á sveininn, sem í því lýsist er eptir ferr[5]: Svo gekk til einn dag, at yfirmeistarinn sèr á

1) eptir Á. Magn. 624. 4to. (skinnbók), samanborið við 764a-b á skinni og Additam. 46. 4to. merkt B. 2) hett, 764 b. 3) þá er Grimr Skútuson (Skurð-Grimr) liklega talinn einn í röðinni, Sbr. Safn til sögu Ísl. I, 1. 4) [b. v. B. 5) í stað þessa hefir ÁM. 764 a: Ab incarnatione Domini M. ccc. xx. v. kom til Íslands herra Jón biskup Halldórsson, hann var hinn sæmiligsti maðr í sinum stètt; hans góðvili var til þess at gleðja nærverandi menn með fáheyrðum ok skemtilegum dæmisögum. Ein af þeim var þessi: Þann tima sem hann var í París nýliga kominn, var hann þá þegar vel vinsæll; því leggr yfirmeistarinn mikla blíðu á piltinn, sem í því lýsist sem eptir ferr. (Svá gekk til o. s. frv.).

sína bók, er mjök var stór í vexti, ok sem hann beiðir at lètta sèr út af skólanum, leggr hann opna bókina niðr í hásætið áðr hann gengr út; ok án dvöl forvitnar hann piltrinn, er vèr nefndum, hversu greitt hann man lesit fá eitthvert capitulum af bókinni hans meistara, því rennr hann upp gráturnar, er lágu fyrir hásætið, ok les þegar þat sem honum bar fyrir augun; ok sem hann hefir lesit eitt capitulum, brestr á húsinu brakandi þytr með æðistormi, sem allt mundi úr lagi fær-ast, ok jafnbrátt lúkast upp hurðir; en er Jón heyrir þat, ok skynjar at meistari mun [inn] ganga, flýtir hann sèr eptir megni aptr til sætis síns. Sem meistari kemr inn farandi, segir hann, ok sver um viðr nafn hins hæsta guðs, at ef stormr þessi gengr til aptans, mun hann þurka öll þau stöðu-vötn sem í eru Franz, eðr hvat er segir hann, hefir engi gletzt við bók mína síðan ek gekk? Nú var sveinninn Jón svo vel kendr, at eigi einn vildi segja eptir honum, ok því sá ek nú, sagði hann Jón biskup, at setið var meðan sætt var, fèll ek þá fram sálugr, játandi hvat ek hafði gert, en meistari svaraði mèr svo: líkna man ek þèr, Jón, sagði hann, en þó skaltu hafa augu fyrir þèr hvat þú kant lesa, meðan þú skilr eigi betr. Síðan skundar meistari upp til bókarinnar, ok veltir henni á aðra hálfu. Sem þar les hann eitt capitulum, sagði herra Jón biskup, þótti mèr vonligt at þat væri nærri því langt sem ek hafði áðr lesit, ok án dvöl, sem capitulum var úti, fellr stormr-inn svo snögt, at með öllu varð vindlaust; má af slíku marka, sagði biskupinn, hverjar listir lifa í bókunum, þótt heimrinn gjörist gamall.

2. Af Bolonia sagði hann svo fallinn æfintýr, er gerðist í hans þarvist: þar voru tveir skólabræðr undir sama nafni, var annarr kynjaðr allt vestan af Englandi, ok þar var svo skipat nöfnum þeirra til auðkennis í skólanum, at annarr var kallaðr Johannes Nordmannus, en annarr Johannes Anglicus. Þat þarf í söguna, at dómkirkjan sjálf í Bononia var svo fallin á sitt form, at í sjálfum kirkjudyrunum eru ij leonshöfuð stór, sinn veg hvort, sem þau gægist at með gapanda gin. Nú berr svo til einn dag, at þessir skólabræðr, er vèr nefndum, gengu báðir samt með fèlagskap út úr kirkjunni, ok sem þeir ganga út af dyr-unum, lítr hann aptr Jón enski til annars ljónshöfuðsins, ok talar brosandi til hans nafna síns: þat var undarligt, er fyrir

mik bar í nátt, sagði hann, ek þóttumst gánga þenna veg, ok rètt sem ek kom í kirkjudyrnar sjálfar, þótti [mèr] lifna annat leonshöfuðit ok bíta burt af mèr höndina hægri; nú seg mèr, kompan, hvat þetta skal þýða, þvíat þèr Norðmenn ráðit vel drauma. Bróður Jóni þótti undarligr fyrirburðrinn, en svaraði engu meira en vanalegum orðskvið, at ljótr draumr er opt fyrir litlu. Síðan ganga þeir kríngum kirkjuna, talandi millum sín eitt ok annat, víkja síðan til suðrs ok aptr fyrir kirkjudyrnar, ok rètt sem þeir hugsa inn at gánga, rèttir hann Jón enski höndina hægri með reistum fíngri í gapit leonsins annars ok talar svo: þetta sama leonit þótti mèr bíta af mèr höndina í nátt; ok á sama augabragði, sem hann hefir svo talat, tumbar hann inn á kirkjugólfit, sem drepinn væri; var þat ok satt, því at hann tók aldri til andar; en hvat þessum undrum volli prófaðist svo með vísra manna rannsaki, at inn í leonshöfuðit í ginit, þangat sem myrkrit var, hafði skriðit höggormr sá er Aspis heitir, hann hefir svo dauðligt eitr, at hverr mannsins limr, sem snertr framanverðan halabroddinn á honum, er þat svo bráðr dauði sem með spjótum sè skotið í gegnum hjartað, sem sagðr hlutr bar vitni um.

3. Eigi er þat gleymanda í sæmd þessa manns, Jóns biskups Halldórssonar, at þeir voru skólabræðr hans utanlands, sem síðan urðu cardinales, birtist þat ok í því efni, at nokkrir af þeim sendu honum sín brèf allt norðr á Ísland, svo sem nokkut harmblandin af svo mikilli fjarlægð þvílík[s] föður ok fèlaga; var þat eigi undarligt, því at engi maðr þvílíkrar stèttar mátti framar fella sik til huglèttis ok gleði, ok fyrir þá grein [at optliga] voru eigi allir með einum hug, er hann heyrðu, þá samdi hann sik eptir því, at allir mætti gleðjast af hans orðum; því voru frásagnir hans sumar bæði veraldligar ok stórorðar, svo at sumir menn lögðu honum til lýtis, en virtu nú því framar hversu þat brjóst var krapt[a]uðigt, eða hver ástundan þar var fyrir til elsku náúngans, at vel fylldist með honum þat sem postulinn segir, at þeim er guð elskar snýst allt til hægri handar. Sannliga virðist þat fyllt, svo sem flyzt af þeim blezaða biskupi, er hèr tignast með ótalligum táknum, bæði viðr sitt leg í Björgvin ok víðara annarstaðar, ok svo má rèttiliga tala, at guð sýndi þat fyrir, áðr hann fór síðast burt af Íslandi, þvíat næstu [nótt] fyrir, áðr en hann steig á skip, bar fyrir hann merkiliga sýn, at hann

þóttist vera kominn í Björgvin, millum bræðra sinna at prèdikara klaustri ok kirkju, ok þóttist beðinn at gera sermonem; ok sem hann kemr upp á kórinn, hefir hann þenna thema: beati mortui, qui in domino moriuntur; hèr af þykist hann prèdika, ok eptir þat sèr hann um sik, stendr þá sinn maðr til hvorrar handar honum, ok þykist hann kenna báða: Eilíf erkibiskup, vígsluföður sinn, ok Magnús konúng Hákonarson; vóru þeir báðir framliðnir. En svo sem hann hefir endat sermonem taka þessir tveir til hans, sína hönd hvor, ok leiða hann upp á kórinn, verðr þá stigi fyrir þeim, er lá upp í gegnum kirkjuráfit, ok þar eptir ganga þeir allan veginn upp úr húsinu, sèr þá annan veg yfir bustina sæng búna, sem honum sýndist, ok þar skyldi hann hvílast. Þenna draum sagði hann um morguninn eptir einum sínum heimoligum vin, ok sá svaraði til: þar munu þèr vera, sagði hann, hærri ok æðri en allt þat er hefst í þeirri kirkju. En biskup leit í móti honum mjök reiðuliga ok bað hann þegja, þvíat sá er háttr guðs þjónustumanna, at geyma framar lítilæti en fagrt gull. En þat sem honum sýndist við sinn enda, sem hann prèdikaði guðs erendi, mun þat þýðast mega rèttiliga, at fyrir þessháttar [embætti man guð[1] hafa veitt honum fagra hvíld, þvíat í hans ættlandi ok utan þat hafði eigi maðr þvílíkr verit til þeirrar gjafar í manna minnum. Skulu vèr greina þessu næst eitt æventýr, er hann setti sjálfr í sína prèdíkan, þá er hann var biskup Skalholtensis, Þorláksmessu um sumarit í Vestfirðínga fjórðúngi, á þeim bæ er á Staðarhóli heitir, ok hversu rèttlátr hinn sæli Þorlákr var ok vandlátr at geyma guðs lög, setti hann fram tiltekin dæmi svo fallin sem hèr stendr.

4. Nokkurr stórburðigr maðr ok stórliga ríkr sat í einhverjum stað, ei var hann hærri nafnbótar en riddari, hafði hann þó sakir ríkdóms ok kynferðis marga þá undir sínu valdi, er voru sömu nafnbótar ok sjálfr hann. Þessi herra var harðla rèttlátr ok stjórnsamr í sínu valdi, sem lýsast mun í sögunni, at hann virði jafnan meira málaefni en mútur eðr manna mun, hvort í hlut átti náinn eðr óskyldr. Á hans garði ok at hans borði var einn úngr maðr, systurson hans at frændsemi, er honum þjónaði dagliga millum annarra hæverskra manna, er bæði voru

---

1) B; embættis m^n^, Hd.

margir ok af göfgum ættum. Þessi staðr var harðla ríkr ok fjölmennr, var þar biskup innan borgar. Nú byrjar þar frásögn til efnis, at nefndr herra tekr sótt, þá er hann leiddi síðan til bana, þjáist hann lengi, því at sjúkdómrinn ferr ekki ákaft, var þar hús svo fallit, sem hann lá í, at þar vóru samt tvau hús eðr herbergi, lá hann í innra, en síðan eitt þili í millum húsanna með lokaðri hurð. Svo berr til einn dag, sem fátt er um hann, at í fremra herbergit heyrir hann krut nokkurn, þann er honum gazt illa at, ok sem hans heimuligir menn koma inn farandi spyrr hann þá, hver óþekt ok umfang verit hafði í fremra húsit; þeir sögðust óvitandi, at nokkut hafi þat gerzt, at frásagnar sè vert. Hann talar þá: ek býðr, uppá þá hlýðni, sem þèr erut mèr skyldugir, at þèr segit satt, en hvat þèr leynit mik sanns eðr ljúgit at mèr, fel ek uppá yðr alla ábyrgð viðr guð, ef þat er óhefnt fyrir yðvarn vondskap er stórrar pínu væri fyrir vert í lögunum, [þvíat nú ferr eigi at prófinu[1], ef þèr vilit mèr ódygð veita. Meðr svo föllnum ok öðrum atlögum knýr hann þá, þar til er þeir segja með harmi hugar, at úngi maðr frændi hans þröngdi[2] þar eina konu með fullri nauðúng. Sem herrann heyrði þat svo fallit mál, kveðr hann til nefniliga þann af sínum þjónustumönnum, sem rèttinda vald stýrði síðan hann lagðist, bjóðandi honum án dvöl at pína eptir stríðu[3] laganna svo fallna útlegðar sök rètt upp á þess háls, sem þat vann; ok sakir þess, at öllum var kunnigt rèttdæmi hans ok ríklyndi, þorir engi í móti að mæla fyrir [hans] ásjónu, þótt dómrinn þætti harðr, ok því ganga þeir út af húsinu þegar í stað, með þeirri ástundan, at fullgera þat er boðit var, en þann tíma sem [þeir] fara í ráð, víkja þeir af nokkut, þvíat þeim sýnist óbæriligr skaði, at tapa svo kynstórum manni [ok] vænum til höfðíngja; staðfestist þat með þeim, at þeir skulu hafa hann í leynum, en segja sínum herra, at hann sè af lífi tekinn, ok bíða svo í von, ef sótt ok líkams dauði skilr með þeim. Þessu fara þeir hvorutveggju fram, líða svo margir dagar, at herrans sjúkdómr snýst í kröm, leiðist þá únga manni at hafa leyni, ok gengr[4] dag frá degi nokkru djarfara, þar til er hann hugsar reiði frænda síns af runna, ok því tekr [hann] þat upp á sik einn dag at vitja hans, svo sem til prófunar. En svo framt sem hann kemr inn, ok þeir

1) [því at nú fer (= fær) ek eigi atrekist prófinu, 46.
2) hann, b. v. Hd. 3) B; stríði, Hd. 4) B; ganga, Hd.

kennast, talar ríki maðr svo sem brosandi til hans: ok þú ert þar, frændi! segir hann, gakk híngað til mín! — Úngi maðr hugsar, at [hann] mun vilja friðmælast við [hann] með mýktarkoss, ok taka sik aptr í fullan kærleik, ok því lýtr hann upp yfir sængina at honum; en þar er annat fyrir: herrann spennir, sem afl vinnst til, annarri hendi, þrífr annarri tálguknif, er lá við sængarstokkinn, ok setti í gegnum barkann, skar síðan fram úr holinu ok hrindr honum frá sèr dauðum niðr á gólfit, en þær tölur, er hann setti síðan sínum undirmönnum, vóru stríðar ok stórorðar, hverja lymsku þeir höfðu sýnt bæði lögunum ok svo herra sínum. Liðr nú svo tímum ríka manns, at sóttin herðir sik með svo mikilli stríðu, er hann þykist skilja fyrir víst enda sinn nálgast, ok sakir þess at hann var konúngs jafníngi, þótt hann bæri lægra nafn, heyrir sú þjónusta biskupinum einum til, at smyrja hann; ok sem þat boð kemr til biskupsins, býr hann sik ok sína klerka með allri sæmd, skrýðist sjálfr [ok] einkanliga þeir ij lærðir menn, sem honum gengu næst, bar annarr þeirra vors drottins líkama en annarr crisma-ker; sem þeir inn farandi koma ok hafa heilsazt sín á millum, segir ríki maðr, at hann vill játa sik fyrir biskupinum áðr hann þjónostast, fór þá fylgdin öll í hit fremra húsit, hurðin aptr strengd, ok er ríki maðr hefir gjört fyrir enda sinnar játníngar sem hann hugði at standa mætti, þegir biskup ok gefr hvorki bæn nè absolutionem, utan talar eptir þagnar stund: skal hèr standa játníngin? segir hann. Herrann svarar: standa skal hon í því öllu, er yðvart faðerni sèr at muni gagnast, en þar sem mín gleymska ok fávizka vanmegnar hana, biðr ek yðr fyrir guðs nafn, at þèr vísit mèr á heilsuveg þar um. Biskupinn svarar: undarliga má sýnast um svo vitran mann, at þèr látið sem þèr þurfit áminníng annars manns yfir þeim hlut, er svo litlu gjörðist, at engi gleymska eðr fyrnd má fólgit hafa fyrir yðr. Hverr er sá hlutr? minn herra, segir ríki maðr. — Sá rètt, segir biskup, ef þú vilt af mèr til heyra, at þú níddist á frænda þínum, ok skart hann á háls. Hèr í móti brosir ríki maðr: já, já, minn herra, sagði hann, ef þèr kallit þessa mína sök mjök ljóta, þá mun ek svo djarfr gjörast, rètt þar sem nú ligg ek, at bjóða þessu máli undan yðr fram fyrir dómarans knè, er allar greinir vegr rèttiliga. Viðr þessi orð forsar biskupinn ok lætr upp ganga hljóðin, segir, at honum skal ekki embætti veitast, utan hann gefist á

kirkjunnar dóm fyrir manndrápit; ok sem launmæli eru í burtu, gengu þeir inn sem úti stóðu, talast nú opinberliga þeirra áskilnaðr, en hinn ríki maðr lágmæltr ok þó svo einarðr, at hvergi hvikar, þar til at biskup stökkr upp ok biðr alla sína menn burtu verða. Sjúki maðr [talar]: herra minn, segir hann, þótt yðr misliki svo mjök til mín, at þar fyrir skal ek missa allrar þeirrar þjónustu, sem guð hefir skipat kristnum mönnum til hjálpar á síðustum tímum, biðr ek yðr, at þiggja svo mikit, at þèr sýnit mèr vors herra líkama áðr þèr víkit [í brott]. Ok sakir þess, at svo fallit efni þótti mörgum manni sorglegt, játar biskupinn með góðra manna tillögum at veita þat er hann bað, ok þann tíma sem hann hefir afloka[t] propitiatorium ok línskautann sundr rakit, tjást þar eigi guðs líkami, þvíat kerit er tómt, slær þetta biskupinn ódæmiligum ótta, ok alla [þá], er skýrt vissu jafnfram honum, at þeir lètu oblacionem í kerit áðr þeir gengu af kirkjunni; ok er ríki maðr sèr undrun þeirra, talar hann svo: hverr ótti hefir yðr gripit, segir hann, eðr hvat hafi þèr at tala? Biskup svarar, segir at fórnin er í burtu úr umbúnaðinum. Ríki maðr talar: ef hon er eigi þar, þá má vera með vilja drottins at hón sè hèr; ok er allir menn sá til hans, lýkr hann upp munninum, ok tjást þá fyrir allra manna augum, at fórnin hvít ok hrein liggr á túngunni; verðr nú skjótt umskipti: biskup fellr fram ok biðr guð sèr líknar ok svo ríka mann sèr fyrirláts um rángan skilníng móti guðs dómi; veitir hann síðan allt embætti með tárligri góðfýsi þeim góða manni; luktaði ríki maðr daga sína af þeirri sótt ok greftaðist því sæmiligar ok af öllum góðfúsligar, sem gjör var vitað hvern veg guði sjálfum hefir virzt hans einorð ok rèttvísi. Endar nú þar þessa dæmisögu.

5. [1]Sem biskup Jón kom til Noregs ok sat í Bergvin um vetrinn at prèdikaraklaustri, er hann hafði fyrst inngengið þegar í barndómi, tók hann krankdóm eptir jólin, ekki mjök ákafan í fyrstu, en svo sem leið fram undir Purificationem sanctæ Mariæ, var hann þjónustaðr ok at öllu búinn til framferðar af vígslubróður sínum Hákoni, þann tíma Bergvinnar biskupi. Ok er Maríumessa kom, tók honum at þýngja mjök; í allri sinni sótt var hann viljugr ok merkiligr at lesa sínar tíðir, at hvorki dag nè

1) Heðan frá er tekið eptir Additam. 46. 4to. og AM. 764. b.

nótt fèll úr fyrir honum. Árla um morguninn á sjálfan messudaginn les hann út allar tíðir vorrar frú guðs móður, ok sem út líðr yfir príma mál, gjörir hann orð priorinum á klaustrinu, at hann lesi honum Maríumessu með lágasöngum de festo, þar í herberginu sem hann liggr. Ok meðan messan flyzt, liggr herra biskupinn nokkut örðigr viðr hægindit í sænginni ok gefr blezan priornum fyrir Evangelium; en er fram líðr yfir bergíng, heyrir priorinn til hans svo sem nokkurn lítinn hryt eðr lèttan svefnhöfga, stendr þat svo þar til er hann hefir endat embættit, ok nú jafnfram líðr af herra biskupi þúnginn, svo at fagrliga skýrt gefr hann benedictionem eptir messuna; ok þegar benedictio er úti ok fyr en priorinn les Evangelium Johannis: In principio, gengr frá altarinu í öllum skrúðanum ok víkr fram fyrir sængina biskupsins; má þat trúast meðr guðs vilja orðit hafa, at hann gengr svo skjótt, því at nú var eigi löng málstund eptir sem brátt prófaðist; hann talaði svo: minn herra, sagði hann, hvort sofnuðut þèr fyrir litlu? — biskupinn svaraði: eigi veit ek þat gjörla, hvort þat var öngvit, ómegn eðr svefn, en þó sá ek nokkut. Hvat sáut þèr? minn herra, sagði hann priorinn. Svo sýn[d]ist mèr, sagði hann, sem ein júngfrú góðmannlig ok vel klædd gengi híngat í herbergit, helzt á þann veg búin sem góðar nunnur eru vanar, hún hafði sitt loganda kerti í hvorri hendi ok veik híngat fyrir sængina, þar til hún leið upp í loptið í gegnum þakit, ok þat ætla ek at hún færi til himins. Priorinn svarar: hvat ætli þèr þetta þýða? minn herra. — Biskupinn svarar: eigi er ek þar viss um, en ef svo væri eigi, sem ek má hræddr um vera, at sála mín væri þýngd stórum syndum, þætti mèr eigi ólíkligt, at hennar mynd hefði mèr hèr sýnd verit, ok þangat væri hennar vegr, sem hún fór fyrir. Eptir svo talat hneigir priorinn sik til blezunar at lesa evangelium Johannis, ok biskupinn blezar með þessum orðum: dominus sit in corde tuo et in labiis tuis. Þat þýðist svo: drottinn sè í hjarta þínu ok vörum þínum! — Þessi orð talaði hann síðast í þessari veröldu, þvíat um sjálft guðspjallit lèt hann málit, en gaf út anda sinn sem hríngdi tertiam á höfuðkirkju í bænum á þann signaða dag vorrar frú guðs móður. Var hans líkami jarðaðr með allri sæmd í kirkju þess sama klaustrs, sem hann í fyrstu inn gekk ok síðan þjónaði undir prèdikara lífnaði.

---

# UM GOTTSKÁLK KENIKSSON OG HÓLA BISKUPA[1].

## Ætt Gottskálks fyrra Hóla biskups.

Chænik riddari í Noregi Gottskálksson; hans son biskup Gottskálk á Hólum, ríkti IX ár; hann lèt smíða upp miðkirkjuna og allan múr í kríngum kirkjuna á Hólum; hann varð bráðkvaddur í laukagarðinum[2] þar, og sagði það síðasta orð: „kirkjan mín, drottinn minn!" — Hann var svo mektugur, og Rögnvaldur bróðir hans, að þeir skyldu eiga þriðja part Noregs. Hann bauð kónginum til gesta við D manns; sendi kóngur hálft liðið í bæinn, hálft heim; sendi hann eptir öllu liði kóngsins og hèlt honum mánaðar veizlu; hann gaf kónginum fiól, og vildi ekki það boð þiggja er kóngur bauð honum; sendi kóngur hann til Íslands, því biskuplaust var eptir....[3]

Biskup Jón skalli var föðurbróðir Chæniks.

1) Þessi grein er prentuð eptir brèfabók með hendi sira Eyjólfs á Völlum, í safni hins íslenzka Bókmentafèlags, Nr. 67. 4to., fol. 100b—101; sbr. Keysers norske Kirkehist. II, 888—889. — Finnur biskup (Hist. Eccl. II, 586—590) kallar Gottskálk biskup hinn eldra Gottskálksson, og hefir hann að líkindum ekki þekkt þessar frásagnir. — Kenik er hin íslenzka mynd nafnsins, í brèfum og í nafnaskrá sira Eyjólfs á Völlum, en er nú úrelt.

2) „laukagarðurinn" var á Hólum fram á daga Jóns biskups Arasonar, en hann lèt smíða hús af timbri í laukagarðinum, og var það kallað „salur". Um þessi nöfn hefir Guðbrandur biskup rannsakað ítarlega útaf falsbrèfunum um Jón lögmann Sigmundarson, og tekið vitnisburði elztu manna, sem votta, að „salur" hafi ekki verið kallaður á Hólum fyr en í tíð Jóns biskups Arasonar, en áður hafi þar verið laukagarðurinn á þeim sama stað sem salurinn var bygður.

3) eyðulaust í handritinu. Það er rètt, að biskuplaust var á Hólum 1437—1444, eptir Jón biskup hinn enska, sbr. Safn til s. Ísl. I, 6 athgr. 1.

Biskup Ólafur Rögnvaldsson Chænikssonar ríkti 37 ár; hans bróðir Nikolás.

Biskup Gottskálk Nikolásson; hans móðir var Herborg Bárðardóttir; hennar systir Geirríður, þeirra föðurbróðir sá er glímdi við jötuninn, og hafði höfuðið yfir D menn. Synir Herborgar Pètur og Guttormur. Sá Guttormur átti Guðríði, dóttur Finnboga lögmanns, (og bjó) á Grund; hún andaðist barnlaus. Hann sigldi síðan til Noregs og varð þar lögmaður. Hann átti aldrei barn við sinni eiginkonu, en son átti hann framhjá konu sinni, er hèt Níels.

Jón mannskapur hèt maður og átti Mannskapshól; hans dóttir Valgerður, móðir Kristínar Gottskálks dóttur biskups hins síðara.

---

SÖGU-ÞÁTTUR

UM

# SKÁLHOLTS BISKUPA

FYRIR OG UM SIÐASKIPTIN.

---

## UM SKÁLHOLTS BISKUPA FYRIR OG UM SIÐASKIPTIN[1].

### Um biskup Stephán.

Biskup Stephán var Jónsson, sonur Jóns Egilssonar, sem í lánga tíma var bryti í Skálholti, og með því hann var ekki víðförull maður, er eptir honum sagt, að einusinni, þá hann kom að Álptavatni, hafi hann spurt, hvort sjórinn mundi stærri en það, — af hverju merkja má hans einfaldlegleika. Hallbera Egilsdóttir var systir hans, kona síra þorbjarnar Íngimundarsonar; þeirra sonur var Ólafur, faðir síra Einars, afa síra Jóns í Hólum[2]. Íngiríður Jónsdóttir var skilgetin systir biskups Stephâns; hún var móðir herra Marteins Einarssonar.

Biskup Stephán átti og marga bræður, og er þeirra afsprengis ekki getið, því það sem eptir er af þeirri ætt er lángt fram komið og nálega úrættis.

Hann var mikið ljúfmenni við alþýðu, en harður við flysjúnga og sakafólk, og við mikilmenni, sem sig settu á móti honum.

Ríki-Torfi í Klofa og biskup Stephán áttust mikið við, því Torfi var óhlýðinn biskupi bæði um kirkjureikníng og tíundarhöld; item skaut hann skjóli yfir sakafólk og hèlt marga í biskups forboði. — Var biskup Stephán biskup í XXX ár, að sögn gamallra manna, og var kallaður grjót-biskup af mönnum sínum, því hann lèt gjöra allar girðíngar í Skálholti, og líka gaungustèttina suður yfir Hundapoll; lá hann ekki ört viku sjúkur, andaðist hann þriðjudaginn fyrstan í vetri, en stóð uppi til laugardags, þar til ábótinn frá Viðey kom, biskup Ögmundur. Voru þá alls 16 menn lærðir, með prestum,

1) ritgjörð þessi er samin í Skálholti 1593 og þarumbil, tekin eptir frumriti í AMagn. safni 236. 4to (bls. 15—37 og 1—13); sbr. Safn til s. Ísl. I, 640—42, 652—54.

2) þ. e. síra Jóns Egilssonar, sem ritaði Biskupa-annála; í annálum síra Jóns er talið öðruvísi en hèr (sjá Safn til sögu Íslands I, 52).

klerkum, djáknum og smádjáknum á staðnum, iiij af hverju tagi, því prestar voru þá sóktir til dómkirkjunnar hvar sem á lá, en skóli var enginn[1]; lágu þá Vestmannaeyjar til Skálholts, og lángt framyfir það.

## Um biskup Ögmund.

2. Biskup Ögmundur Pálsson var mikill maður vexti, bæði hár og þykkur, geðmenni mikið, gulur á hár og fagureygður, smáeygður, kríngluleitur, en lítt hafði hann verið uppá skartsemi, og hirti ekki hvernig það trassaðist, svo sagt er hann hafi ekki optsinnis bundið leggböndin. Hann var harðfenginn maður, stórorður og álagasamur, svo hann strýkti optsinnis menn sína svo sem önnur typtunarbörn, og kallaði hórusyni ogskækjusyni ríka sem fátæka, þá honum fannst ekki til. Hann hèlt fyrst Breiðabólstað í Fljótshlið; þaðan var [hann] vígður til Viðeyjar, og var kjörinn og kallaður til biskups eptir fráfall biskups Stepháns; sigldi hann strax sumarið eptir, og var utan tvö ár; varð honum mikið fyrir að fá biskupsdæmið, því hann hafði mótfallið Norska þá þegar hann var prestur á Breiðabólstað; var þá Ólafur skrifari fóveti yfir landið; lèt síra Ögmundur drepa af honum tvo menn, en þriði var skemmdur. Þetta kom fram við biskup Ögmund eptirá, þó kom hann út með biskupsdæmið, og hèlt því í lánga tíma með mikilli stórmennsku og höfðíngskap og allsháttaðri velgengni.

Hann lèt gjöra skútu eina vestur í Vatnsfirði, svo það var gott hafskip, og lèt búa það sem vantaði þá það kom vestan; hljóp það til Noregs árlega tvisvar: að öndverðu sumri eptir fardaga, og strax aptur eptir Þorláksmessu, einkum í þrjú ár, meðan mest lá á. Honum var og bifölud hirðstjórn yfir allt landið, og hèlt þeirri magt í tvö eður þrjú ár, sendi hann fram skatta og kóngs skyldur, og fór svo með, að honum varð ekki gjald að, heldur skildist hann þar vel við; hann var og skipaður administrator Hóla biskupsdæmis af erkibiskupi og capitulabræðrum í Þrándheimi, eptir fráfall biskups Gottskálks, á meðan milli varð biskupanna.

Á þeim tímum lá skip í hverri höfn fyrir sunnan, og sum-

1) Þess er getið áður (Safn I, 656) að það er ekki rètt hermt að enginn skóli hafi verið í Skálholti á dögum Stepháns biskups.

staðar ij: þýzkir víðast, utan í Grindavík lágu Engelskir. það bar eitt til á dögum biskups Ögmundar, að Engelskir lágu eitt ár í Grindavík á fimm skipum, og voru ómildir við Íslenzka, svo fólkið gat ekki það liðið; rèð fólk engu sínu og fèkk ekki fyrir sitt; voru fyrir mönnum þeirra ij Jónar, kallaðir ýngri Bragur og eldri Bragur; tóku Íslenzkir sig þá saman og riðu til Bessastaða, kröfðu höfuðsmann (Didrich van Minden) liðveizlu móti svoddan illmennum, varð hann vel við og sendi strax í alla kaupstaði, því Íslenzkir hefði látið illa að honum sjálfum, ef hann hefði ekki við orðið; skipaði hann þýzkum að finna sig við þórðarfell, sem er hjá Grindavík; komu þar saman að kveldi dags í tilsettan tíma LXXX menn annars hundraðs, og gengu þaðan í Víkina fyrir sólar uppkomu, höfðu Engelskir búizt við og gjört sèr virki með torf og grjót, en þeir höfðu litið gagn af því; hlupu þeir í sín skip sem gátu, og sigldu út með iiij skipum, fimta[1] gátu þeir þýzkir náð, og drápu XViij Engelska, en Vij lètu þeir lifa og áttunda pilt; fylgdu þeir engelska skipinu til Bessastaða, með þeim þýzkum, sem á það voru látnir, en eitt af hinum fjórum forgekk á Víkinni strax í útsiglíngu, og sökk það þar strax, svo ekki neitt náðist af því.

3. það bar og til, að Didrich van Minden reið frá Skálholti nokkru sinni heim um Hvannavöllu fyrir neðan Hellisskarð, og sáu þar væn alinaut; ráku þeir þrjú með sèr, hin beztu, til Bessastaða; eitt átti biskup Ögmundur, annað Eyjólfur mágur hans á Hjalla, þriðja þorvarður nokkur í Flóa. þá biskup spurði það, skrifaði hann strax suður, sýndist Didrich þá það af, að borga nautin fullu. — En margt fèll biskup Ögmundi til mótgángs um sína daga, ekki sízt það, að dómkirkjan brann; hafði hann þá ekki verið margt ár í Skálholti (vj ár eða vij eður þar um); brann hún um þingtíma, Maríumessu sjálfa, og vissi enginn gjörla tilefnið, utan gátur voru að Ásbjörn klerkur hefði farið ógætilega með glóðarker, þó var það ekki bivisað, en húðina misti hann optar en einusinni, og fèkk aldri æðri heiður; brann kirkjan frá nóni á[2] Maríumessu og til miðsaptans, því fólk var mjög fátt á staðnum, þó bjargaði það, meir en eptir líkindum, kistum og háfum kirkjunnar, og þorláks skríni og klukkum, sem það gat við hjálpað — hinar runnu niður —

1) fimtu, *hdr.* 2) til, *hdr.*

og því sem laust var í kirkjunni og bjargað varð, hitt brann allt að ösku, kopar af kirkjunni og allt það sem ekki varð hjálpað, item klukkur. — Var norðan veður þá eldurinn kom í kirkjuna, en sneri veðrinu frá staðnum, svo að sunnan gjörði, og lagði bálið norður í Traðir og brendi upp Reiðíngahúsið og allt það þar var inni. Þá búið var að brenna, fèll í ösku og fölskaðist allt saman, svo ekki varð par úr; voru þetta haldin mikil býsn og fyrirburður. Á þetta sama þíng fjölmenntu þeir báðir, biskup Ögmundur og biskup Jón Arason hnálega, því þeir voru sundurþykkir; hafði biskup Jón IX° manna en biskup Ögmundur xiiij°; var þá saman dregið með þeim og öðrum ríkismönnum. Eru nú 66 ár síðan, anno [1593][1]; því sá Egill, sem eg[2] skrifaði þetta eptir, var þá fjögra vetra, en nú 70.

## Um höfuðsmennina og um atrekanda um siðaskiptin og attektir í Viðey.

4. Þar er fyrst til að taka í þessum kapítula, að Bessastaður var lánga tíma einstæðíngs jörð, utan kirkjan þar átti tvö kot: Bárugseyri, lögbýlis jörð, og Lambhús, heimaland þar í túninu; var það þó aðsetur þeirra fóvitanna, svo þeir höfðu engin ráð önnur eða athvarf hèr á Íslandi, hvorki jarðir nè óðul, og aldri riðu þeir frá Bessastöðum nokkurstaðar um landið, utan upp á alþíng á sumarið, en flestir sýslumenn riðu heim til Bessastaða með sinn reikníng af sinu sýslugjaldi fyrir alþíng; en þá þeir höfðu nokkur erindi við biskupinn, þá fundust þeir hvorutveggju jafnan á Reykjum í Ölvesi, því biskup hafði þar bú.

Nú þó hèr skyldi með rèttu ínn skrifast um hvern höfuðsmann og hirðstjóra eptir annan, þá verður það ekki gjört, því eg hefi enn ekki fengið þar um fullkomlega undirvísun, svo mèr ánægi, utan Didrich Píning er einn af þeim, sem hèr hafa helzt nafnfrægir orðið; lengra muna menn ekki fram. Hann var gagnsamur maður í mörgu, og leiðrètti margt það sem illa fór, svo sem menn má nokkuð til líkinga ráða af þeim dómi, sem kallaður er Píníngs dómur. Einn er og nefndur

1) *eyða fyrir ártalinu. Sönnun fyrir ártalinu 1593, sjá Safn til s. Ísl.* I, 659 athgr. 5, og hèr síðar, bls. 212.

2) Þ. e. höfundurinn, sem menn halda verið hafi Oddur biskup Einarsson.

Tíll, en hann var ekki rèttur höfuðsmaður, því hann hafði logið sig inn í landið með falsbrèfum, og kom út snemma og safnaði öllu því hann gat inn í Hólma; en þá hann var að þessu, kom rèttur hirðstjóri með kóngs erindi; tóku þeir Tíl þá, og son hans, og leiddu þá báða austur yfir Bessastaði og hjuggu þar af þeim höfuðið; kallast Tílshóll síðan. Hannes Eggertsson var og höfuðsmaður, faðir Eggerts, og segja sumir að Eggert hafi komið til á Bessastöðum. En Didrich van Minden kemur helzt við þetta efni: hann hèlt sig vel í fyrstu, því þeir höfðu þá ekkert um að vera, og voru þá aðalhirðstjórar svo sem nú eru umboðsmenn; en síðan tóku þeir að smá-dirfast, báðu þeir kónginn um Viðey, það væri einn klèn hestahólmi, svo sem vera mætti fyrir eina tvo hesta eður þrjá, og fengu kóngsbrèf þar uppá, að þeir mætti hana að sèr taka, kom Didrich sjálfur út með það brèf, því Claus Marvitz sendi hann, en sat sjálfur um veturinn á Bessastöðum. Reið Didrich til fundar við biskup í Ölvesi og las fyrir honum önnur kóngsbrèf, en þetta ekki, hafði biskup þó heyrt hop á, að það brèf mundi út komið; hèlt Alexíus Pálsson klaustrið í Viðey; höfðu vinir ábótans utanlands skrifað honum til, að hann mætti taka sig í vakt, því þetta væri á ferðum, hafði Eggert það brèf hínagað um vorið, því það skip kom fyrst til landsins, sem hann var á; fèkk Eggert síra Einari Ólafssyni í Görðum brèfið, en presturinn sendi það ábótanum með Egli syni sínum; gaf Alexíus sig þar ekki að, utan hafði sig á land i tíma.

En á hvítasunnu-morgun fyrir sólu — bar þá hvítasunnu á sunnudag eptir fardagaviku — anno 1540[1] tóku þeir Didrich sèr bát í Laugarnesi, áttæríng, og ryru til eyjarinnar xiiij saman, með einum íslenzkum, sem var Ólafur Íngimundarson, hestamaður þeirra — var ábótinn í landi í sínum fardögum eður útvegum — ráku þeir burt fólkið, slóu og börðu og hröktu mennina, svo það tók stóran tólfæríng, er hèt Thumáskollur, og flúðu í land strax, hvert mannsbarn, og fèkk sèr vistir hjá fólki sínu, eður þar sem hver fèkk athvarf. Annað skip var kallað Maríusúð í Viðey, það var teinæríngur; en ábótinn fór til Hóla í Grímsnesi, því það var klausturjörð, og sat þar. Var tekinn dagur seinna um sumarið, eptir alþíngi, því ábótinn

1) rèttara: 1539.

beiddist síns hjálpræðis upp yfir alla á alþíngi af höfuðsmanninum; var sá dagur í Görðum; ekki kom biskup þángað; var Alexíus þá skipaðir Hólar í Grímsnesi, og tileinkaðar jarðir, og þær skyldi hann hafa í sína lífstíð, en þær skyldu hníga aptur til klaustursins eptir hans dag; andaðist hann í Hólum og liggur þar; hafði hann áður haldið þíngvöll, þá hann var prestur. Aldrei fèkk hann neitt af því sem hann átti í Viðey. Margt ár var hann þar ábóti, en þeir Dönsku tóku að sèr Viðey og allar hennar eignir, uppá það brèf sem fyrr var getið, og höfðu þar ekki annað privilegium til; settu þeir síra Jón Bárðarson til ráðamanns í eyna, sem áður hafði Gufunes kirkju, og var sem þíngaprestur ábótans og hans útsendari áður; item lètu þeir þángað iiij þýzka og sína vinnumenn frá Bessastöðum, því þeir fengu öngva aðra; rúðu þeir allt það í kirkjunni var, en brutu hana niður sjálfa; varð þá margur óskapa arfur kirkjufjánna. þótti þetta mörgum miklar attektir.

## Um biskupa skipti.

5. þegar biskup Ögmundur var nú mjög hniginn á efra aldur og uppgefinn maður (LXX eða svo), því mest gekk að honum sjónleysi, kjöri hann annan sèr til meðhjálpara og í sinn stað eptir sig: það var Sigmundur, systursonur biskups Ögmundar, sonur Ásdísar Pálsdóttur og Eyjólfs á Hjalla, bróðir þórólfs bónda Eyjólfssonar; hann hèlt Hítardal vestur, og þótti vel að sèr, var hann kjörinn á prestastefnu til biskupsdæmis eptir biskup Ögmund, frænda sinn, sigldi hann og vígðist, en lifði fá daga í biskupsdæminu, ekki fleiri en XIX, liggur hann í þrándheimi; hann hafði fengið fótarmein og lysti upp í líkamann; þetta skeði nokkrum árum áður en Viðey var tekin.

Eptir það kjöri biskup Ögmundur í sinn stað síra Gizur Einarsson sèr til meðhjálpara, því biskupinn hafði látið menta hann austur hjá abbadísi Halldóru; höfðu þessir þrír verið í Skálholti nokkur ár: Gizur Einarsson, Gísli Jónsson og Oddur Gottskálksson; höfðu þeir fengið allir utanlands smekk af rèttum evangelii lærdómi, en þorðu ekki láta biskup Ögmund vita. Sendi biskup Ögmundur síra Gizur utan, og kostaði hann að öllu og fèkk honum reiðupeninga sem hann þurfti, og sigldi hann það sama ár sem Viðey var tekin. Var Egill þá 17 vetra, en stendur nú á LXX, anno 1593. Ekki hafði biskup Ögmundur

neina grunsemd um annað, en hann mundi verða sèr hollur og trúr, svo sem sjálfum sèr, en hefði nokkur þenkt annars, þá hefði prestar aldri samþykt að láta hann sigla. En hann launaði honum ekki betur en fleiri aðrir, sem biskup Ögmundur hafði margt gott og mikið til góða gjört. Næsta sumar þar eptir kom herra Gizur út með þeim Haf[n]firðíngum, því hann sigldi með þeim; reið hann strax heim í Skálholt frá Görðum við fjórða mann, tók biskup Ögmundur honum vel, afhenti honum staðinn strax, en hafði sig burt; var það í vikunni fyrir fardaga að herra Gizur kom út, en biskup Ögmundur kom til Hjalla miðvikudaginn í fardögum, og hafði þá farið alfarið með öllu úr Skálholti.

Litlu síðar kom kóngsskip í Hólminn, þar voru þeir á sem bífalníng höfðu að sækja biskup Ögmund[1], því herra Gizur hafði það fram borið fyrir kónginn og ráðið, að sèr mundi ekki neitt takast að framkvæma í evangelio meðan biskup Ögmundur lifði, því var riddarinn híngað sendur með ij$^{c}$ fólks, hèt hann Christophor, og með honum Otti Stígsson. Strax þá herra Gizur spurði, að riddarinn var kominn, skrifaði biskup honum til og settu dag með sèr á Kópavogi, var sá dagur á þriðjudaginn eptir fardagaviku, voru þeir á eintali allan daginn, en að því enduðu beiddust þeir hesta inn í Hólm og þaðan í Skálholt (ekki fleirum en viij); kvað biskup þetta upp þess erindis, að riddarinn vildi gjöra sèr umskipti: taka smjör og vaðmál fyrir drykk; voru lèðir viij hestar (en öngvan grunaði enn hvað undir mundi búa, svo þeir skyldu vera strax á miðvikudags morguninn með sólu komnir inn í Hólminn, en þá þeir skildu á Kópavogi reið biskup til Garða, en riddarinn aptur í Hólminn, og með honum einn af biskups sveinum, Eyjólfur Halldórsson, sem lengi hafði verið sveinn biskups Ögmundar, var hann leiðarvísirinn; hann hafði verið í Sveinstaðareið norður, og var honum kennt um víg Árna Bessasonar, sem var bróðir Þorbergs Bessasonar, en biskup skaut skjóli yfir hann og hjálpaði honum. Á miðvikudags morgni ríða þeir úr Hólminum x Danskir og þessi Eyjólfur, eptir

1) aðgætanda er, að höfundurinn lætur Ögmund biskup vera tekinn 1540, sama árið og Gizur biskup kom til stólsins, en hann var ekki tekinn fyr en árið eptir, 1541.

miðmunda, og riðu alla nóttina, komu svo til Hjalla á fimtudaginn fyrir dag mál; voru þar ekki heima fyrir nema ij karlmenn, en biskup lá í baðstofu. Eyjólfur bóndi var ekki heima. Hlupu þeir ij Íslenzkir (sem voru menn biskups Ögmundar) og földu sig fyrir hræðslu. Gengu Danskir strax inn í baðstofu, og tóku biskup höndum og leiddu hann í einni skyrtu fótsíðri út á hlað, því þeir hafa ekki þorað lengi að vera í bænum; lètu síðan sækja klæði hans. Hljóp Ásdís að, og vildi halda honum, en þeir slitu hana af honum; settu þeir hann þá í söðulinn og höfðu jafnsnart með sèr, og höfðu hann strax út í skip, bjuggu þar sæng og lètu hann þar liggja; segja þeir þá hann skuli laus verða ef hann fær þeim allar jarðir, sem hann varð eigandi að meðan hann var biskup, og gaf hann þar já til ef hann yrði laus, og voru þar brèf um gjörð; þá varð hann ekki að heldur laus. Lofuðu þeir þá að láta hann lausan ef hann fengi þeim allt sitt silfur; því lofaði hann, og sendi riddarinn eptir síra Einari Ólafssyni að sækja silfrið; fór prestur í Hólminn, en vildi ekki fara eptir silfrinu utan biskupinn gæfi sitt brèf og innsigli, að það væri sinn vili, og það skyldi vítalaust vera; fóru þá vj Danskir með síra Einari, og áttundi Egill sonur hans, til Hjalla, og sögðu þetta Ásdísi; lèt hún strax til lyklana, sópuðu þeir öllu því sem var í kistunni í einn línsekk, bæði dölum, nóbel, rínsk gyllini, skálir, staup etc., slóu líka beitir af hornum og höfðu með sèr, smátt og stórt, svo þar var ekki einn lýbikur[1] eptir. En eitt nister var þar með, kostulegt, lýsti Ásdís það sína eign og því gáfu þeir það laust, og með það fóru þeir; gaf riddarinn síra Einari einn dal fyrir ómakið, en biskup varð ekki laus að heldur; vildu þeir þá hafa neslið með, ef hann skyldi laus verða. Lèt biskupinn þá skrifa til systur sinni um það, fóru þrír Danskir eptir neslinu og fengu það; samt sat biskup fánginn og var hann fluttur sams árs í Danmörk og settur þar í eitt klaustur, hvar hann lifði í góðu haldi í nokkur ár, til þess hann andaðist, og er þar grafinn í kirkjunni og þessi orð klöppuð á miðjan legsteininn: «*Ögmundus episcopus Schalholtensis*»[2]. Það er endíng á hans æfisögu.

1) lýbikur, þ. e. lýbskur smáskildingur.

2) Pètur Resenius hefir það eptir Brynjólfi biskupi, að hann hafi sèð legstein yfir Ögmundi biskupi í klausturkirkjunni í Sór, með þessu letri:

## Um slag Danskra í Skálholti.

6. Á sama því ári sem þeir Danskir tóku Viðey, sem var árinu fyr[1] en biskup Ögmund var tekinn, sat Didrich um kyrt á Bessastöðum fram á sumar, en áliðnu sumri gjörði hann sèr ferð austur, og vildu ferðast austur á klaustrin; sendi hann frá sèr ij menn undan til Odda: Pètur Spons og Juren Funch, en hann reið í Skálholt og kom þar kveldið fyrir Laurentiusmessu, setti hann tjald sitt í portinu í biskupsgarðinum, vildi biskup ekki hann væri, en hann sagðist skyldi vera, hvað sem sá dívelz blindi biskup segði, og slíkt talaði hann bæði kveld og morgun; lèt biskup þó veita honum öllu heiðarlega í timburstofu; var síra Jón Björnsson, faðir Ólafs, sem nú[2] er á Felli, sem þá hèlt Torf[a]staði, settur til að skenkja, en ráðsmann, [síra Jón Hèðinsson í Hruna[3], sendi eptir fólki á báðar síður, út í Grímsnes og austur í Hreppa, svo biskup vissi þar lítið eður ekki af; þó grunaði hann það, og lèt segja Didrich að hann vildi hann færi, því von væri manna, hann skyldi fá með sèr hvað hann vildi; en Didrich sat þess heldur. Þá kemur fólkið, á sjálfan Laurentíusmessu [dag] og þusti strax inn í port, varð Didrich þess var í timburstofunni, að ys var í garðinum, og leit út um glugginn og spurði hvað þeir skyldu með svo margan hellbor, og stökk upp við borðið og hafði úti daggarð og vildi slá prestinn, sem skenkti, en prestur brást við út, og sló aptur stofunni. Voru þeir þá inni Didrich og einn hans maður, og þriði piltur xiiij vetra, en hinir voru úti iiij, því vij voru alls, með hestamanninum Ólafi Íngimundarsyni, sem heim riðu til staðarins; voru þeir strax drepnir sem úti voru i garðinum, en síðan var veitt atgánga að stofunni: gánga að Jón Sigurðsson og Sveinn Þorsteinsson og Jón Jónsson, ráðsmaður frá Hömrum, kallaður Hamra-Jón, var Didrich þar lagður til bana strax í stofunni, og maður

„Hic sepultus est Augmundus Islandiæ episcopus". Pontoppid. Marm. Dan. I, 148; sbr. AMagn. 361 Fol., bl. 321—22.

1) rètt. tveim árum, því Viðey var tekin og Diðrik drepinn 1539, en Ögmundur biskup var tekinn 1541.

2) þ. e. 1593.

3) frá [ hefir fyrst verið merkið |—o—| í 236, sem sýnir að sá sem ritaði hefir ekki vitað nafnið, en það er ritað á spáziu síðar með annari hendi.

hans, en drengnum var líf gefið; en Ólafur hestamaður var drepinn í gaungunum hjá biskupsstofunni, sögðu þeir hann mætti fylgja Dönskum nú, hann hefði fylgt þeim lengi; voru þeir strax dregnir út og hafðir austur í Söðlahól; en vegna þess að vatnið í brunninum, sem var milli herbergjanna og hituhússins, saurgaðist af blóðinu, skipaði biskup að gjöra brunninn blindan, og svo lagðist hann af; fór fólkið strax aptur hver til síns, en sá danski drengur var hèr um vetrinn og umsat hann að vita hverir að víginu höfðu verið, og að því komst hann, en ekki fengu þeir nein gjöld fyrir það; þótti mönnum þetta mikil og góð landhreinsun. Þessu næst var strax sendur maður til Odda til Pèturs Spons og Jurins, með þann boðskap, að þeir skyldu finna Didrich í Hruna, en þá þeir komu þar, og höfðu tjaldað fyrir neðan kirkjuna, þá komu menn strax og sögðu: Didrich hefði beðið að heilsa þeim, húsbóndi þeirra; og gáfu strax í, eltu þá og drápu; hètu þeir Jón Magnússon og Sigurður Bernharðsson, sem fyrirliðarnir voru að þessu verki; voru þeir grafnir utangarðs, eins og hundar. Strax sem þau tíðindi spurðust suður, tóku þeir sig saman sem Danskir höfðu misþyrmt um vorið í Viðey, og fóru fram í eyna og komu þar með sólu í þessari sömu viku, og drápu þá iiij sem þar voru af Dönskum, og grófu þá austan undan klaustrinu, þar í Gaunguskarði, þá gengið er upp að Gufunesi. Höfðu þeir allir Danskir, sem tekið höfðu Viðey, verið dæmdir rètt dræpir á alþíngi um sumarið, en þeir duldust við það; voru þeir alls xiv með piltinum, en nú eru xij af og pilturinn þrettándi, en fjórtándi hèt Jóachim, var hann út á Strönd á Áslákstöðum veturlagsmaður, og drápu klausturmenn úr Viðey hann þar um veturinn, þá þeir fóru í ver; fóru þeir í Vatnsleysu á skipi, en gengu þaðan um nóttina til Áslákstaða og drápu Jóachim. Síra Jón Bárðarson sá um í Viðey, og var þar lánga tíma úr því, og líka sá hann til á Bessastöðum til vorsins, og stóð svo allt þar til riddarinn kom út um sumarið eptir, svo landið var höfuðsmannslaust, en riddarinn setti Eggert Hannesson til hirðstjóra yfir, og sat hann á Bessastöðum og var þar nokkur ár, en eptir hann kom síra Pètur Einarsson, og var höfuðsmaður nokkur ár, þá kom Lavrantz Múl, þá Otti Stígsson, en hann setti Christian

eptir fóvita í sinn stað. Liðu IX ár[1] frá því að Didrich var drepinn og til þess að þessi Christian var drepinn suður á Kirkjubóli á Miðnesi, tveim dögum fyrir kyndilmessu um veturinn eptir líflát biskups Jóns.

## Nokkuð ágrip um gömlu siðina.

7. Óttusaungur var kallaður það sem fyrst var súngið á morgnana; en prím það sem súngið var fyrir prédikun; en tertia það sem súngið var í messunni, en nóna það sem súngið var eptir allt embættið, og var þetta kallað þriggja lestra hald; voru þrír Davíðs sálmar í hverjum parti. Bænardagar voru þá engir haldnir, en letanía var súngin og vij sálmar á skírdags kveld og á föstudags kveldið hið lánga, aldri endrarnær, utan stundum í gagndaga[2] viku.

Á gagndaginn eina, sem var miðvikudagurinn fyrir uppstigníngardag, var haft það embætti sem aldri var haft endrarnær: var þá gengið kríngum túngarða, fyrst frá kirkjudyrum í þá átt sem miðsmorguns átt er, svo um kríng allt í náttmála átt, þaðan réttsýnis til kirkju aptur; var borið vígt vatn undan, og upphalds stíka, en í engum var prestur þá messuklæðum, utan litlar stólur á hálsi og bera handbók sína; stóð sinn kross í hverri átt á túngörðum, í miðsmorgins stað, dagmála, hádegis, miðmunda, nóns, miðsaptans, náttmála stað; ekki var þá súngið utan það prestur las sjálfur, en allt fólk gekk með honum, og þetta var gjört á hverju bygðu bóli, þó prestur væri ekki, því prestur bauð hann, og skipaði fólki (á sunnudaginn fyrir) svo að gjöra, að lesa sín fræði og bænir sem það kynni, og bífala sig guði.

Aldri gekk fólk innar utan einusinni á ári (utan í dauðstíð); tók það til eptir miðföstu, eptir fólksfjölda, og gekk innar alla daga í efstu viku, utan á föstudaginn lánga, svo allir höfðu innar gengið á páskadaginn, sem í sókninni voru.

Vatn var vígt hvern einn sunnudag, en ekki á öðrum helgum dögum, og bar fólkið heim frá sóknarkirkjunni hvern sunnudag það vígða vatnið úr vatnspottinum í könnum, kopp-

[1]) rétt. ellefu (XI) ár, eða því nær, því Didrich var drepinn í August 1539, en Kristján skrifari í Januar 1551.

[2]) giegn daga, *bjagað*, 236.

um, staupum, hornum etc., því vatnspotturinn var settur fram yfir kórsdyr, að hver mætti hafa þar af sem vildi, og stökktu þeir þessu vatni um sín hús, þá þeir komu heim.

Item á laugardaginn fyrir páska var slökktur gamli eldurinn á hverjum bæ, og sleginn aptur annar nýr hjá prestinum, og sóktur þángað; því presturinn varð að vígja hann, annars átti hann ekki að duga.

Item var pálminn vígður á pálmadag, og brenndur síðan á altarinu, á altarissteininum, og askan látin í línpoka eða skjóðu, og geymd svo til annars öskudags, og þeirri ösku var þá dreift á fólkið á öskudaginn eptir messu í kirkjunni; gekk maður eptir mann til prestsins, en prestur stóð í kórdyrum og stökkti með bustakorni á hvern fyrir sig, og las eða tautaði eitthvað á meðan. En þá hann dreifði vígðu vatni á fólkið fór hann svo að, að hann vígði vatnið fyrir embætti hvern sunnudag, og gekk síðan fram í kirkju, og hafði svo sem kýrhala lítinn, í kross lagðan, í skapti, og gekk djákninn eptir honum með vatnspottinn, en prestur stökkti á allt fólkið aptur og fram, og las þetta úr Davíðs psaltara: „*aspergis me Domine hysopo*" — síðan tók hann til embættis.

Í prócessíu var gengið fyrir messu á pálmadag og páskadag, var fyrst borið undan vígt vatn í potti, þar næst gekk prestur eða djákni með upphaldsstiku, hún var vel há, og iij pípur upp úr og þar í iij ljós; þá gengu ij eptir henni, sem súngu, og enn aðrir ij næst presti, ef til voru, höfðu þeir ermalaus rykkjulín, en prestur hafði sjálfur serk og bar hann írskan kross, sem krossmark var á (gjört af leiri og smeltir í steinar); súngu þeir *de tempore:* á pálmadag „*de introitu Christi in urbem*", en á páskadag „*de resurrectione*".

Með breiða enda á stólnum klekkti prestur í koll á þeim sem skriptuðust, einkum á frillulífisfólki, en þeir sem stærra brutu voru leystir með lausnarvendi, sem þar var til gjörður. Item, eptir það prestur hafði skriptað gekk hann fram í kirkju, eða út, ef margt var, og las sálminn: „*miserere mei Deus*", og seildist til með lausnarvendinum, til þeirra sem innar ætluðu að gánga og skriptazt höfðu, og laust þá í höfuðið eitt högg hvern, og þá sálmurinn var úti tók hann til aptur og gekk eins um kríng og fyr, og sagði þá við sèrhvern: „í nafni föður og sonar" og „í nafni föður og sonar og anda heilags",

og þá fèkk hver þeirra sem skriptazt höfðu iij högg af lausnarvendinum, en djákni bar tölur eptir presti, og taldi, svo ekki skytist, hversu mikið helga þyrfti fyrir bergingina, las prestur góða játníng af daglegum syndum, og fólkið skyldi lesa eptir honum. Önnur áminníng var ekki.

Fjórir voru tímar þeir á ári, að presta skyldi vígja, helzt í ímbruvikum sjálfum; þær voru fjórar: fyrsta var á haustin, næst eptir krossmessu, önnur í þriðju viku jólaföstu, þriðja var í annari viku lángaföstu, fjórða í fjórðu viku eptir páska[1], var það kallað í hvítadögum; það voru þá kallaðir hvítadagar allt frá páskum til hvítasunnu.

Dýridagur ætla menn verið hafi um dominica trinitatis[2], því um heilaga þrenníng hafði talað verið.

## Um herra Gizur Einarsson.

8. Herra Gizur var mjög hár maður vexti og bjartur, nokkuð ljósleitur, lítt lotinn í herðum, grannvaxinn; ekki voru þeir líkir, hann og þorlákur.

Hann breytti fyrstur messu embætti og tók af alla pápista siðu, óttusaungva, prím, nón og tertiur og aptansaung, en sneri því öllu öðruvís og stytti þetta; hann tók og af þær gömlu prestatíðir, sem þeir voru vanir að lesa, item þær processiur, sem áður voru hafðar á pálmadag og páskadag, en aldri endarnær, sem áður er sagt, og það gamla embættið lèt hann klárt af leggja; þá tókust og upp prestagiptíngar, og giptist herra Gizur sjálfur. Um haustið, á öðru ári eptir það hann kom út[3], fèkk hann Katrínar Hannesdóttur, sem var skilgetin systir Eggerts, og gipti Eggert hana, og móður[4] hennar, og var haldið brullaup þeirra í Skálholti. þau áttu engin börn. En áður en herra Gizur fèkk þessa Katrínu, var honum handlögð Guðrún Gottskálksdóttir, systir Odds Gottskálkssonar, og keypti hann hana og sigldi með það nokkra sinna erinda, en setti Eystein prest þórðarson officialem hèr og kirkjuprest, að

1) rèttara: í vikunni eptir hvítasunnu.

2) Dýridagur er fimtudagur eptir Trinitatis, eða festum corporis Christi;

3) Árni Magnússon hefir ritað ártöl utanmáls, fyrst „o. 1541", síðan dregið það út og sett „1544", svo dregið það út aptur og sett „1545". samt mun það rètt, að biskup hafi haldið brúðkaup sitt 1544.

4) þ. e. móðir.

sjá til á stólnum með móður biskupsins Gunnhildi; en Eysteinn prestur lá með þeim báðum um veturinn og barnaði Guðrúnu, svo hún ól þríbura um sumarið eptir, var herra Gizur þá út kominn, því hún varð lèttari á liðnu sumri. Þá biskup spurði það skyldi hann hafa sagt: „Það var hlaup og það var hofmannshlaup; eg skal taka Gunnu mína í sætt aptur"; en hún vildi aldri; fór hún þá híngað og þángað, því hún vildi ekki heldur aðhyllast hann bróður sinn, var hún þversinnuð kona; dó hún þó á Reykjum, hjá Oddi heitnum Gottskálkssyni, í Ölvesi, og erfði Pètur Oddsson hana. En þessi sira Eysteinn Þórðarson var skemmdur í stórustofunni í Skálholti, undir borðum, *fám dögum eptir það biskup* var út *kominn, þá* hann spurði hið sanna. Voru að því verki bræður biskupsins, Þorlákur Einarsson og sira Jón Einarsson og Halldór Einarsson — hann var þá ekki enn vígður —; varðist prestur vel og lengi við borðið, þar til hann fèkk taparhögg í höfuðið; hafði hann síra Eysteinn upp á sèr höggsleddu, stökk þá um síðir fram á gólfið, og þar fèkk hann skemmdirnar mestar, þar til hann var sem dauður og fèll, gengu þeir þar frá honum. Var hann hafður þaðan til Laugaráss, og greri allvel, en aldri tók biskup hann í sætt; þó komst hann seinna til prestsstèttar, og giptist vestra; ekki átti hann börn við konu sinni, erfðu hann bræður hans.

Eptir það að herra Gizur var giptur, þá giptust prestar bæði úngir og gamlir, svo þá voru stöku brullaup; urðu þeir þessu fegnir, því þeir höfðu áður orðið að gjalda biskupi ij eða iij hundruð fyrir hverja barneign.

Hægt hafði herra Gizur við allt, því hann hræddist að þeir mundi mótfalla sig, og taka sig upp á móti sèr, því margir voru tregir að taka við svoddan breytni, en sumir fylgdu henni strax og urðu glaðir við, því þeir höfðu aldri komizt á lopt í tíð biskups Ögmundar, þó þeir vildu. Fèllu þeir helzt í sið með herra Gizuri biskupi: síra Gísli Jónsson, sem þá hèlt Selárdal, því biskup Ögmundur hafði vígt hann og haft hann fyrir kirkjuprest, þá Oddur Gottskálksson var hèr sveinn og skrifari biskups Ögmundar; item síra Björn Ólafsson í Hruna og síra Jón Bjarnarson á Breiðabólstað, og Oddur Gottskálksson, og síra Pètur Einarsson og síra Marteinn Einarsson á Stað á Ölduhrygg; tóku þar margir aðrir eptir.

Þorlákur Einarsson, bróðir herra Gizurar, fèkk aðra systur

Eggerts, og að henni andaðri giptist hann Vigdísi, dóttur þórólfs Eyjólfssonar, og bju[ggu] á Núpi í Dýrafirði.

Síra Halldór Einarsson, bróðir herra Gizurar, var faðir síra Teits í Gufudal og síra Bjarna Halldórssonar.

Síra Jón Einarsson, bróðir herra Gizurar, hèlt Garða stað á Akranesi; hann giptist Guðríði Sigurðardóttur; þeirra sonur er síra Böðvar í Reykholti. þótti biskupi síra Jón hafa fengið auðvirðilegt giptarmál, og var honum ekki um síra Jón fyrir það, því Sigurður faðir Guðríðar var einfaldur kotúngsmaður.

Herra Gizur lagði hèr fyrstur út Catechismum, með útskýríngu, hvern margir meðtóku og lærðu, en sálma lagði hann út fá eður öngva; stóð svo allt annað kyrt svo lengi sem hann lifði; var hann ekki biskup utan vj eður vij ár, og andaðist úr sótt heima í Skálholti, og átti ekkert barn eptir; fór Katrín kona hans þá vestur til Ögurs til Eggerts, og móður sinnar Guðrúnar Björnsdóttur.

## Um herra Martein Einarsson.

9. Hans faðir var síra Einar Snorrason[1], sem hèlt Staðarstað á Ölduhrygg allt til ellidaga. Móður[2] hans hèt Íngiríður Jónsdóttir, skilgetin systir biskups Stepháns. Syskin herra Marteins voru þessi: Pètur Einarsson, Brandur Einarsson, þorvarður Einarsson og Nikolás Einarsson, Guðrún Einarsdóttir; og voru þau öll sammædd og samfædd: Marteinn, þorvarður og Guðrún, en Brandur og Pètur voru sammæddir, og hèt móðir þeirra Gróa. þorvarður var ýngstur þeirra bræðra, hann stúdieraði í Danmörk og varð Bachalavrius, og andaðist áður en [hann] varð meistari.

Herra Marteinn sigldi IX vetra með Engelskum, og var IX ár samfleytt í Englandi; sigldi hann fyrst með Robert (eður Hobert), sem hèr fèkk systur hans, Guðlaugu Einarsdóttur; var þessi Robert veturtökumaður hjá síra Einari Snorrasyni á Staðarstað í ij ár og giptist henni, var brullaup haldið í Rifi á kost Engelskra, lètu Engelskir til sína tunnu víns af hverju skipi; þar lágu þá IX skip; stóð veizlan hálfan mánuð; sigldu þau það sama sumar og herra Marteinn með þeim; gekk hann í engelskan skóla og iðkaði síðan málverk; eptir það var hann

1) vel Íngimundarson, 236 utanmáls. 2) þ. e. móðir.

ij ár kaupmaður í Grindavík, til þess hann var tvítugur, vildi þá faðir hans ekki leyfa honum það lengur, og beiddist herra Ögmundur eptir honum, svo var hann hèr málari og málaði kirkjuna gömlu. Hann var mjög ljúfur maður, ekki síður en herra Gizur. Vígðist hann nokkru síðar og tók Staðarstað eptir föður sinn, til þess hann var kjörinn til biskups eptir fráfall herra Gizurar; var hann kjörinn á almennilegri prestastefnu, og sigldi það sama sumar, og kom aptur annað ár; með honum sigldi síra Þórður Marteinsson og síra Þorvarður, sem eptirá hèlt Setbergs stað. Síra Þórður, sonur herra Marteins, var vel lærður maður og kostulega máli farinn, vilja sumir halda að hann hafi lagt út þá sálma, sem nú kallast Marteins sálmar. Stóð nú enn allt kyrt, svo sem komið var, í tíð herra Gizurar, svo að Danskir höfðu öngvar meiri tiltektir.

Síra Pètur Einarsson, bróðir herra Marteins, sigldi bæði í Þýzkaland og Danmörk, og framaðist mjög í þessum siglíngum; hann hèlt fyrstur Reyninessstaðar klaustur eptir abbadísirnar; item var hann ráðsmaður í Skálholti eitt ár; hann var og nokkra stund umboðsmaður á Bessastöðum, því hann var lengi vel látinn af Dönskum, og halda sumir hann hafi lítilega verið hollur landinu. Síðan fèkk hann Hjarðarholt fyrir beneficium og vígðist gamall, hann hafði og Stapasýsluna og keypti Stapann að Dönskum, og á meðan hann hafði Stapann lèt hann setuprest vera á Hjarðarholti. Síðan tóku Danskir aptur Stapann af honum fyrir alls ekki, utan þeir lèðu honum Fagurey vestur hjá Hvammi, og nokkrar kóngsjarðir, meðan hann lifði. Kona síra Pèturs var Íngiríður Guðmundardóttir, systir Daða bónda Gvendssonar; þau áttu engin börn, utan Katrínu Pètursdóttur, sem Teitur í Ásgarði eignaðist.

Brandur Einarsson bjó í Hítarnesi og á Snorrastöðum, keypti hann Snorrastaði í Kolbeinsstaða hrepp; kona hans Halla Ólafsdóttir, dóttir síra Ólafs, sem hèlt Saurbæ á Hvalfjarðarströnd. Börn Brands þessi: síra Þórður í Hjarðarholti, síra Ólafur á Kvennabrekku og Bjarni og Guðrún. Hann Brandur sat að sínu, og hafði engin sèrleg völd nè störf. Hálfbræður herra Marteins að móðurinni voru: Erlendur, Nikulás og Magnús. Faðir þeirra var Jón smiður, Auðunnarson, bjó vestur á Öndverðarnesi, manna hagastur á allt (utan silfur). — Erlendur Jónsson átti ekki börn, utan Íngiríði vestur í Túngu í Staðarsveit; Nikulás

Jónsson var faðir síra Ásmundar í Miklholti; og nokkur fleiri. Magnús Jónsson var faðir síra Bergs, sem var í Vestmannaeyjum.

Guðrún Einarsdóttir, systir herra Marteins, var kona Daða heitins Gvendssonar í Snógsdal. Þeirra börn voru Einar og Þórunn. Einar andaðist heima í Snógsdal, í landfarsótt, þá hann stóð í giptíngum, og tók sóttina degi fyrir áður hann skyldi ríða í sitt brúðkaup til Sigríðar Þorleifsdóttur vestur á Skarði, og andaðist þann sama dag sem brullaupið skyldi vera; lá ekki utan iij eða iiij daga. — Þórunni Daðadóttur giptist Björn Hannesson, bróðir Eggerts, þeirra sonur er Hannes Björnsson.

## Um viðskipti þeirra herra Marteins og biskups Jóns[1].

10. Þá herra Marteinn var kjörinn, og hann var sigldur[2], mislíkaði biskupi Jóni að hann skyldi verða biskup í Skálholti; kom það til af Daða Gvendssyni, mági herra Marteins; og um vorið[3], áður herra Marteinn kom út, fyrir alþíng, komu þeir feðgar til Skálholts með tvö hundruð manns, og Ísleifur bóndi með þeim. Komust þeir ekki lengra en á kvíabólið, því síra Jón Bjarnarson officialis hafði njósn af þeirra komu, og hafði látið gjöra virki fyrir norðan kirkjugarð, og voru þar settir menn til varnar með byssur; var og mikið fjölmenni á staðnum af kotúnga fólki, svo hinir treystu sèr aldri á að ráða, og nær einn af þeim hreyfði sèr til atgaungu, þá stóðu hèr upp fimm eða tíu, svo þeir sáu það hrökk sèr ekki, lágu því ekki utan tvær nætur eður þrjár hjá stöðlinum með tjöld sin, og sneru þá af út á alþíng; lýsti biskup Jón þar, að hann ætlaði sèr að setjast að Skálholti, herra Marteinn þyrfti ekki við það að dyljast, og aldri skyldi hann þar vera. Var þá hvorki út kominn biskup Marteinn nè höfuðsmaður, því þeir komu einatt seint á þeim timum, en eptir alþíng komu þeir báðir.

## Hvernig biskup Jón tók herra Martein[1].

11. Á [ öðru eður þriðja[5] ári biskupsdæmis herra Marteins safnaði biskup Jón miklu fólki, og ætlaði með makt að

1) ártölin, um hèr eru sett í athugagreinir, eru með hendi Árna Magnússonar utanmáls í handritinu.

2) 1548. 3) 1549. 4) 1549. 15 . . (rifið úr blaðinu. — 1550?)

5) [þannig hdr., en »fyrsta« yfir línunni með annari nýjari hendi; hèr er talað um aðra ferð, en þá sem fyr var nefnd (1549 um haustið).

taka herra Martein í Skálholti, hvað sem gilti. En þá sá flokkur var á ferð kominn, spurðu þeir að herra Marteinn væri riðinn vestur; lèt þá biskup Jón fólk frá sèr heim, utan fátt eitt; riðu þeir svo með þann selskap vestur um heiðar og fóru á nætur, en lágu um kyrt á daga, og hver sem þeim mætti hann varð að snúast í ferð með þeim, svo engin fregn flaug eður njósn kæmist undan, komu svo á óvart öllum vestur, og tóku herra Martein og síra Árna í Hítardal, fluttu þá norður og höfðu í haldi allt til þess biskup Jón og þeir feðgar voru fángnir á Sauðafelli; en síra Jón Bjarnarson, staðarins ráðsmaður og officialis, hèlt staðinn í Skálholti á meðan biskup var þar í haldi fyrir norðan.

## Um líflát biskups Jóns[1].

12. Þá þeir höfðu nú tekið herra Martein og haft hann norður, þá riðu þeir allir í Skálholt með miklu föruneyti og tóku þá að sèr staðinn allan, skipuðu og skikkuðu öllu, bæði um embætti og erviðisfólk, sem þeim leizt, sátu svo hálfan mánuð í sínu meðlæti og riðu síðan vestur í Dali og voru þar teknir á Sauðafelli. Var Ormur Stullason þá lögmaður þar vestra, og lèt strax gánga dóm af tveim tylftum, að þeir voru dæmdir til kóngsins náða, og skyldi herra Marteinn hafa einn þeirra feðga til vörzlu, en Daði annan og höfuðsmaður Christjan á Bessastöðum hinn þriðja; var sent strax eptir höfuðsmanninum, reið hann vestur og vildi gjarnan ekki par hafa með þá, þó varð hann á einu með þeim herra Marteini og Daða, því herra Marteinn kom norðan þá þeir voru teknir. Var svo riðið í Skálholt, og þar var einn þeirra bivaraður í hverju húsi, svo þeir feðgar sáust ekki, og voru tveir menn fengnir hverjum til þjónustu. En fyrst þá þeir komu í Skálholt voru þeir nokkra daga allir til samans, en þeir höfðu þá nokkur samtök og heitingar, ef þeir yrðu lausir, því voru þeir aðskildir. Hèlt höfuðsmaður þá ráðstefnu í Skálholti við herra Martein og Daða, og varð það af, að þeir skyldu af takast, heldur en að ábyrgjast þá eður eiga þá yfir höfði sèr, því ekki skeytti Daði dóminn Orms[2] Stullasonar; fylgði og síra Jón Bjarnarson mjög að því, að láta drepa þá, og það varð af.

1) 1550. 2) *Ólafs, handr.*, og er það ritvilla.

Var sent eptir böðli til Bessastaða, svo þeir voru hálshöggnir á föstudaginn fyrir allra heilagra messu, en hún var á laugardaginn þar eptir; voru þeir hálshöggnir með öxi fyrir austan kirkjugarðinn, þar í lautunum, austur undan virkinu; var sínu sinni leiddur hver þeirra, hver úr sínu húsi, svo enginn þeirra sá annan, var annar ekki leiddur fyr en annar var hálshögginn. Böðullinn hèt Jón Ólafsson, herfileg kind, sunnlenzk, hafði ekki rèttað utan einn mann áður.

Sakramenti fengu þeir allir um morguninn fyrir, svo þeir vissu þá hvað fyrir mundi liggja, en ekki fyrri; allt fólk staðarins gekk austur þángað að höggstaðnum. Böðli gekk illa að höggva prestinn síra Björn, beiddi hann sèr lífs og fèkk ekki; martieraði hann af honum höfuðið með öxinni. Fóru þeir allir í eina gröf í kirkjugarðinum og var ekki haft mikið við yfirsaungva; svo var þeim kastað niður sem þeir voru komnir til, hvorki gjörðar kistur nè líflægjur[1]. Reið síðan hvor þeirra heim til sín, höfuðsmaður og Daði, svo og var um kyrt um stund.

## Um danska slagið og hefndirnar.

13. En í vikunni eptir Pálsmessu um veturinn[2], þá höfuðsmaður reið suður um Nes og var búinn að skipa niður[3] fólki, og hann var kominn heim í veg inn til Kirkjubóls á Miðnesi, og hann hafði verið þar nótt; og um morguninn eptir, þá hann sat undir borði, þá komu xxx norðlenzkir menn, öllum ókunnugir, því þeir höfðu hettur og höfðu stytt upp; voru þetta útsendarar Þórunnar Jónsdóttur, af sveinum þeirra feðga, sem hún [hafði] fengið til þeirrar ferðar; var svo fyrir lagt, að ekki skyldi öðrum en Dönskum mein gjöra.

Nú sem þessir xxx komu að bænum, umkríngdu þeir hann; var þá sagt Dönskum, að ófriður væri fyrir höndum; hlupu þá út tveir Sefrínar, því þeir ætluðu að forða sèr, en voru strax drepnir. Þá kallaði einn Norðlenzkur að dyrum, og spurði, hvort þar væri síra Sveinn inni Finnbogason, og síra Jón Bárðarson; þeir vildi þeim ekki illt og mætti þeir út gánga; gengu þeir þá út, en Christjan hèlt sig inni; beiddu hinir þá bónda leyfis, að þeir mætti rjúfa bæinn; hann kvað þeir skyldi bæta það þeir bryti. Voru þá strax rofin húsin og einn Danskur

1) þann. = líkblæjur. 2) 1551. 3) miður, *hdr.*

drepinn undir rúminu, en höfuðsmaður komst út og var svo lagður með lensu; var það bróðir Christjans, sem veginn var, og hèt líka Christjan. Síðan drógu þeir þá upp yfir túngarð, og dysjuðu þá þar, en seinna voru þeir upp teknir [og] aptur grafnir heima hjá hálfkirkjunni á Kirkjubóli. Einn af þeim Norðlenzku tók strax hest höfuðsmannsins og hest hans bróður með söðlum, og reið norður til Grundar, en hinir fóru í ver og tóku sig þó snemma í vakt um vorið, svo þeir fóru allir heim viku fyrir vertíðarlok; vissi enginn hverir þetta verk höfðu unnið, fyr en laungu seinna. Sumir af þeim fleipruðu sèr til óliðs sjálfir.

En áður en þessir morðíngjar komu til Kirkjubóls, sem sagt er, fóru þeir til Másbúða snemma um morguninn áður þeir drápu Christjan, því þar voru tveir Danskir; náðu þeir öðrum úti og drápu hann, en hinn komst inn; rufu þeir hús á hann, en hann skauzt út og drap einn af þeim xxx; tóku þá Íslenzkir að stumra þar yfir landa sínum, en hinn Danski slapp út á meðan; eltu þeir hann, en hann setti á þá tómar byssurnar, og lèzt mundi drepa þá; voguðu þeir þá ekki [að] að gánga, og það skildi með þeim, en hann fór til herra Marteins og var þar um veturinn. Þessi tíðindi spurðust strax inn á Strönd, voru þar og þrír Danskir, forðuðu þeir sèr með ráði prestanna síra Sveins og síra Jóns og komust í Skálholt, og voru þar um veturinn, og Másbúða-Pètur.

Fyrirliðar að þessu verki voru þeir Þorlákur Sveinsson og Jón Sveinsson, bróðir hans, item Gvendur Andrèsson úr Húnavatns þíngi, og Gvendur Magnússon, frændi Eyjólfs bónda austur í Dal. Jón Sveinsson sigldi strax með Engelskum um sumarið, og kom aldri aptur, en Þorlákur var sem umsjónarmaður Þórunnar á Grund. En þeir Gvendarnir voru teknir af Dönskum um haustið eptir, þá lestir gengu suður, og sátu í járnum á Bessastöðum allt til laugardagsins næst fyrir jólaföstu; var [Gvendur] Andrèsson mikill hörkumaður, gaf sig ekki í fángelsinu, át og drakk og kvað og var lystugur, en hinn bar sig miður; gátu þeir smeygt af sèr járnum sjálfir þá á tók að líða, en lètu þau á sig á morgna, svo ekki mætti neitt merkja. Með járnkarli losuðu þeir þak á ónshúsinu þar í litlu skraddarabaðstofunni, en treystu sèr aldri út, fyr en þetta kveld, þá háttað var, hlupu þeir út í myrkrið; datt Gvendur Magnússon

í gröf þar hjá lambhúsinu, og stóð í vatni allt að mitti, kallaði til hins og bað hann hjálpa, en hann bað hann í guðs nafni þegja og forráða hvorugan þeirra; skildi það með þeim. Gvendur komst norður. Danskir urðu samstundis varir við, og hlupu með ljós og lyktir; fór Gvendur eptir það úr gröfinni, og komst í helli nokkurn og var þar tvær nætur, fór síðan austur til Dals; lèt bóndinn Eyjólfur halda hann á laun og varð sekur fyrir það tíutigi hundraða þá uppfýst[1] varð, en hinn Gvendur Andrèsson rèri út um haustið eptir og fór sjálfur heim til Bessastaða og fèkk forlíkun, skyldi vera þeirra formaður kauplaust svo lengi sem hann rèri út, og gjalda ein xv hundruð fiska.; og lýkur þar þessu.

Um veturinn eptir andlát biskups Jóns, á lángaföstu, voru menn sendir í Skálholt norðan að, að grafa upp þá feðga; höfðu þeir með sèr kistur og umbúnað allan; var góður vetur, svo þeir höfðu komizt Kjöl norður og norðan, og komust fyrir páska norður aptur. Þar er úti um þà.

Strax um vorið eptir komu fjögur stríðsskip: tvö fyrir norðan, í Eyjafirði, og eitt í Straumi, og fjórða í Hafnarfjörð; voru tvö hundruð fólks á því í Straumi, en þrjú hundruð manns á hinu í Hafnarfirði. Otti Stígsson var fyrirliði hèr syðra, fór hann með tvö hundruð manns til alþíngis, en eitt var eptir við skipið. Páll Fúsason var þá lögmaður fyrir austan, en Ormur fyrir norðan. Aldri vildi Páll sverja fyrr en Otti hafði...[2] á þínginu, fór þá ekki annað fram en eiðar og svardagar.

## Enn meira um biskup Jón og herra Martein.

14. Strax á fyrsta ári[3], sem herra Marteinn kom út og var riðinn vestur til Staðarstaðar, þá kom þar biskup Jón öllum óvart, og lèt taka herra Martein þar og síra Árna í Hitardal; fèkk síra Þorvarður að fara með honum norður, en enginn annar; — sá Þorvarður hafði og siglt með herra Marteini; — og ekki fèkk hann neitt með sèr að hafa utan sín visitaziufaung.

Strax í norðurferðinni í Skagafirði fèkk Ari heitinn, að herra Marteinn skyldi vera hjá sèr um veturinn á Möðrufelli,

1) þannig, þ. e. uppvíst.

2) eyðulaust í handritinu, en mun þó vanta í nokkur orð.

3) 1549.

og sá síra þorsteinn, sem var biskupsins smásveinn. Viku seinna fèkk herra Marteinn af Halldóru heitinni, húsfreyju Ara, að Jón Marteinsson, sem þá var x eður xj vetra, mætti koma norður; var þá sent vestur, og fór hann norður, var svo þar um veturinn[1] hjá föður sínum í góðu yfirlæti. En biskup Jón sendi eptir Einari Marteinssyni, og lèt hann vera á Hólum um veturinn og lèt kenna honum. Sama vetur andaðist húsfreyja Halldóra, kona Ara lögmanns, af landfarsótt.

En um vorið[2] skipaði biskup Jón Jóni Marteinssyni vestur aptur, og var honum fylgt til Mels og svo til Snóksdals; en herra Marteini var skipað til Hóla; síra þorvarður var og norður skipaður. Svo var herra Marteinn einn saman sinna manna á Hólum, og fengnir til menn að hafa vörð á honum; var hann fyrst í góðu haldi passaligu. En nokkru sinni gat hann komizt á burt, fram á Hvammsdal, einn saman; var þá strax leitað; sagði maðurinn til hans, að hann hefði til sín komið, og því fundu þeir hann skjótt, síðan var hann hnepptur í Lángabúr á Hólum, og gjörð kytra undir smjörpallinum, og þar sat hann hálfboginn heilan mánuð, svo hann gat ekki rètt sig; er sagt Helga Sigurðardóttir hafi mælt honum þá líknarmál, svo hann komst þaðan, en allan þann tíma var honum lítið eður ekki gefið, utan nokkur prófentu-kerlíng gjörði honum gott og gat rètt honum nokkuð um einn glugga, en hann hafði ekki lyst stóra, sem von er. Hverja þvingun hann hafi hèr af fengið, má til líkinda ráða; var hann þá tekinn aptur til betra halds, og var svo fram yfir fardaga, var þá hafður til Múla norður, sem biskup Jón hafði meðgjörð með, og síðan var sent eptir kvinnu biskups Marteins, Íngibjörgu, og Jóni Marteinssyni og þórði Marteinssyni (sem það sama sumar kom út). það var að liðnu alþíngi, þau komu norður, var það í ráði, að biskup Jón mundi vilja veita herra Marteini Múla fyrir Staðastað; leið svo fram milli Maríumessu og Krossmessu, var þá á Grenjastöðum haldið brullaup hjá síra Sigurði Jónssyni, þorgríms Oddssonar í Haga og þórunnar; þángað var herra Marteinn og boðinn; þar var hustrú þórunn etcet. En þegar hún var komin að Einarstöðum, eða svo, þá komu boð vestan, að þeir feðgar væri teknir; sendi hún strax til

1) 1549—50. 2) 1550.

Grenjastaða samdægris, miðvikudaginn í brullaupsvikunni; reið þá síra Sigurður annars dags heiman með xx menn, og lèt herra Martein fara með sèr, og hans fólk. Í Eyjafirði komu til xx menn með þorleifi Grímssyni; hann lagði alltíð herra Marteini gott til, því hann hafði með síra Sigurði siglt og svarið. Item sendi hustrú þórunn xx menn, en frá Steinunni Jónsdóttur komu á veginn xtygir menn. Item kom hundrað eður meir frá Hólum, svo fólkíð varð vel þrjú hundruð alls etc.

Svo riðu þeir allt í Hrútafjörð, voru þetta vildustu ríkismenn að norðan: síra Björn Gíslason og Jón bóndi Magnússon; riðu svo allt að Melakoti í Hrútafjörð. En sama dag, þá ofan kom af Hrútafjarðarhálsi, komu í móti þeim iij Danskir, sendir með brèf frá umboðsmanninum til síra Sigurðar, að hann skyldi láta biskup Martein lausan; hèlt síra Sigurður þá ráðstefnu við höfðíngja, lögðu sitt til hvorir, þorleifur Grímsson og aðrir, að ekki væri vert honum að halda, því hann væri saklaus, og svo varð á morni ályktað þeirra á milli, að herra Marteinn reið vestur Haukadalsskarð til Snóksdals; item síra Björn Gíslason og Jón bóndi Magnússon voru sendir með honum, að bjóða boð fyrir þá feðga; vildu Danskir ekki taka neinum boðum, lýstu þá landráðamenn [og] drottinsvikara; fóru þeir síra Björn svo búnir; reið þá herra Marteinn í Skálholt, en [þeir] feðgar voru iiij nætur eða svo þar í Snóksdal úr því herra Marteinn kom.

Tólf sveinar herra Marteins höfðu um veturinn verið hjá Daða, sendi herra Marteinn nú tvo af þeim undan, og lèt segja síra Jóni Bjarnarsyni, að von væri á fjölmenni til staðarins. Allan veturinn hèlt síra Jón Bjarnarson xtygi[1] manns til varðhalds á staðnum, og vöktu sinn tíma nætur hvorir xxx.

Hèr er endir á því.

---

þórður Marteinsson varð hèr síðan skólameistari tvö ár, til þess hann giptist Katrínu, systur Eggerts, sem herra Gizur heitinn hafði átt; fèkk hann strax mein í lærið af völdum nokkurrar galdrakonu, sem ein píka i Danmörk keypti til að gjöra honum mein, hafði hann það mein tvö eður þrjú ár, og

1) þannig handr.; rèttara kannske níutygi.

andaðist af því á Breiðabólstað; hèlt hann Hruna tvö ár, en Breiðabólstað hálft þriðja.

Simili morbo est affectus dominus Enerus Martini primo tempore nuptiarum, et decubuit annum circiter post nuptias[1].

## Um aðtektir biskups Jóns í Árnanesi.

1. Skýrsla Indriða Ketilssonar[2].

Svo felld verk lèt biskup Jón Arason gjöra og hans synir, Ari og síra Sigurður og þeirra menn flestir, sem í þeirra reið voru, mèr Indriða Ketilssyni.

Item ráku saman og burt úr minni jörðu og heim til Bjarnaness tuttugu annars hundraðs ásauðar og xx kýr, og sveltu inni í fjögur mál og var komið að köfnun[3], ráku kapla úr minu landi alla, svo eg hafða ekki eptir af þrjátíu nema þrèvett hross og þrèvetran hest, og þó var hann í láni; tóku fimm undan heyflutníngi þar á hlaðinu við viðinn, skáru í sundur beizl og gjarðir, hinn sjötta tóku þeir við viðinn undan syni mínum, að eg senda hann heim, og varð[4] farlama eptir, riðu þeim[5] aptur og fram um sveitina, töfðu verkin[6] fyrir fólki minu, gistu þar átta, var þar fyrimaður síra Ólafur Hjaltason

1) neðanvið er rituð vísa þessi með hendi síra Torfa Jónssonar í Gaulverjabæ:

> Varpar hann sig í Viðeyjar klaustur,
> víða trúi'eg hann svamli
> hinn gamli;
> orðinn er hann af elli mæddur
> aldri trúi verði hræddur
> þótt þrautir kanni.

Þessi vísa er eignuð Jóni biskupi Arasyni, eins og kunnugt er, en orðuð venjulega nokkuð á annan hátt, og rèttara en hèr stendur.

2) Þessi skýrsla og hinn eptir fylgjandi vitnisburður standa í handritinu Nr. 236. 4to, bls. 11—13, með sömu hendi og frásögurnar, og mun höfundurinn hafa ætlazt til að skjöl þessi væri í stað frásagnar um Bjarnanesreið Jóns biskups; þessvegna látum vèr þau hèr fylgja. Þau eru annars áður prentuð í Finn. Job. Hist. Eccl. Isl. II, 735 sq. með útleggíngu á Latínu.

3) þann. H. Eccl.; kofn, 236. 4) var hann, H. Eccl. 5) þeir, Hist. Eccl. 6) verkum, H. Eccl.

og hans fylgjarar, síra Högni, síra Illugi Guðmundsson, síra Ketill Hallsson. En þá þeir í burt riðu, þá tóku þeir minn fènaðarmann, er hann flúði undan þeim sem fènað tóku, og reið hann í móti þeim sem úr hlaðinu riðu og fluttu hann heim til Bjarnaness um þverbak hans sjálfs fènaðar kapli, hèldu honum nauðugum, færðu hann úr sínum fötum, ógnuðu honum með vöndum, byssum og vopnum, lètu hann fara nauðugan suður yfir Fljót og þar um sveitina; þóttist hann þar af þvíngan fengið hafa, af þeirra vondri meðferð.

Item sendi biskupinn þángað sína tvo sveina, til að varðhalda þar, hverir voru með piltayrðum og svo gjörðum, sem var síra þorkell Ólafsson og Ólafur Tumásson, hver að var með piltskap; lagði það biskupinn ályktarorð, að hann skyldi senda þángað sína tuttugu sveina, að eyða og uppeta minn kost, sem Ari auðsýndi sig í því, að hann reið af stað og ætlaði til mín, og fèll af baki í heimalæknum á blákaf, og varð að taka klæðaskipti, og hnekkti það [hans ferð[1] að því sinni.

Item tóku og gripu síðan xx kapla í burt með sèr, xi hesta: tveir bleikalóttir, annar kosta hestur, þrír rauðir, allir vænir hestar, einn glóföxóttur, stór og roskinn nokkuð; þrír jarpir og voru tveir graðir, tvö hross stór og úng, annað ljóst en annað bleikalótt, tvö folöld; hefi eg þessa kapla aldri aptur[2] fengið, nema folaldið annað, en hin þrjú hrossin með folöldunum fèkk eg eigi fyr en um allra heilagra messu; er hèr til vitnis allt mitt heimafólk og allir í þeirri sveit.

Reið hann við seinasta með allan sinn flokk, hvar heldur stóð ógn af; var eg þá riðinn upp til Stafafells. þeir ötluðu mig upp að ríða.

Hafa þeir þessa penínga í öngvu mínu frelsi, hvorki fyrir mèr nè mínum erfíngjum.

2. Vitnisburður um þetta.

það meðkennumst vèr Alexandur Hafliðason, Árni Eyjólfsson, Jón þorsteinsson, heimilisbúðar[3] vitni, síra Oddur Ívarsson, Einar Pètursson, Einar Ormsson, þórarinn Hinriksson.

1) [ferð hans, H. Eccl. 2) slepp. H. Eccl.
3) þannig handritið, en mun eiga að vera: heimiliskviðar.

Anno Christi ↀ d xl vij: að vèr vorum við staddir í Árnanesi og Bjarna[nesi] í Hornafirði, sáum og heyrðum svo feldan verknað biskups Jóns Arasonar og hans sona, Ara og síra Sigurðar, og margra annara þeirra fylgjara: síra Ólafs Hjaltasonar, Ólafs Tumássonar, með þeirra fylgjurum, að þeir gripu og ráku alla lifandi peninga, sem þeir náðu og fundu, naut og sauði og kapla Indriða bónda Ketilssonar frá Árnanesi, með soddan aðburðum sem þessi fyr rituð skrá inniheldur, inn settu og sultu í fjögur mál, svo að kofnað komið var. Hèr með hefir hann aldri aptur fengið tólf hesta og tvær hestamæður.

Hèr með vissum vèr ekki annars, en hann mundi kúgaður og nauðugur[1] í burt hafður, hefði hann náðst.

Hèr með var hans heyskapur skaðlega hindraður, etc.

Hèr eptir viljum vèr sverja ef þurfa þykir.

Og til sanninda hèr um setjum vèr vor innsigli fyrir þetta vitnisburðarbrèf, skrifað í Einholti xvi. dag Maji mánaðar, nokkrum árum síðar en fyr segir.

---

1) nauðgaður, H. Eccl.

# ÞÁTTUR OG ÆTTARTALA

# ÖGMUNDAR BISKUPS PÁLSSONAR

## Í SKÁLHOLTI.

---

# ÞÁTTUR UM ÖGMUND BISKUP Í SKÁLHOLTI.

## Historian af biskup Ögmundi Pálssyni[1].

Biskup[2] Ögmundur hafði fyrst verið prestur og hèlt Breiðabólstað í Fljótshlíð, og síðan varð hann ábóti í Viðey, og þaðan var hann kjörinn til biskups í Skálholt eptir biskup Stephán Jónsson[3], en biskup Stephán andaðist anno 1519; það hafði skeð um þríhelgar, fyrir Andrèsmessu á þriðjudegi, en hann var jarðsettur á laugardegi; var sent eptir ábóta Ögmundi í Viðey að sýngja hann til moldar[4]. Þeir voru samtíða biskup Stephán og biskup Gottskálk á Hólum. Biskup Stephán var mikill lítilætismaður; [segir annállinn[5] hann hafi

1) eptir handriti í safni Árna Magnússonar, Nr. 236 í fjögra blaða broti, bls. 43—54; sbr. við 255 í arkarbr. bls. 1—10; 254 í sama br., bls. 225—233; handr. í Rasks safni 52 í 4 bl. br., bls. 233—245; handrit í Stokkhólmi 64 í arkarbr., bls. 167—187; handrit í safni hins íslenzka Bókmentafèlags Nr. 46 í 4to. Æfisaga Ögmundar biskups á Dönsku eptir Jón Ólafsson frá Grunnavík er í Danske Magazin III, 338—352; á Latínu í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. II, 521—570.

2) í 52 er þetta sett framanvið, og er einúngis málbreytíng: „Biskup Stephán Jónsson kom til Skálholts staðar og stiptis anno 1494, og hèlt Skálholt í 25 ár og á hið sjötta. Hann var mikill lítilætismaður og gjörði árlega sitt testamentum, áður hann reið í visitaziur; en hann andaðist, að sagt er, 1519 um þríhelgar fyrir Andrèsmessu á þriðjudag. Var sent eptir ábóta Ögmundi Pálssyni í Viðey, að sýngja hann til moldar. Samtíðis biskup Stepháni í Skálholti var biskup Gottskálk á Hólum; hann andaðist á sama ári og biskup Stephán, 1520; var þann vetur mikill peningadauði og fellir.

3) „sagt er, að faðir hans væri Egilsson", bætir við 236 og hin; þ. e. faðir Stepháns biskups. 4) því að, b. v. 236.

5) [stendur í annálum, b. v. 254, 255. Af því má ráða, að þetta sè

árlega gjört sitt testament áður hann reið í visitazíur. Hann kom til stólsins 1494, og hèlt Skálholt í [tuttugu og fimm[1] ár og á hið sjötta. Biskup Gottskálk andaðist sama ár og biskup Stephán, 1520; var þann vetur mikill fellir af peníngum.

Eptir fráfall biskups Stepháns var ábóti Ögmundur kjörinn til biskups í hans stað, og biskup Stephán hafði kjörið hann sjálfur að sèr lifandi. En honum gekk ei vel sín siglíng; þeir urðu fyrir stórum hrakníngi og sjóvolki, hröktust undir Grænland[2] og hindraðist hans vígsla eitt ár eður nærri tvö; en hvort electus hefir þá haft með stólinn eður vígslugjörð nokkra, veit eg ei.

2. Anno 1522 kom Ögmundur út með biskupsvald til stólsins, og hèlt hann í xix ár[3]. Hann hafði mikla makt hèr í landi; hann var ekki alleinasta biskup, heldur og einnig hirðstjóri og hafði hirðstjórnarvald hèr í nokkur ár, svo sem hans brèf og gjörníngar útvísa[4]; hann hafði og mikla höndlun í Noregi, hann átti sjálfur haffært skip. Hann hafði verið x ár biskup[5] þegar kirkjan í Skálholti brann í annað sinn; — hún hafði áður brunnið í tíð biskups Árna[6]; — og brann hún á Maríumessu sjálfa visitationis[7] anno 1532[8] af óvissu tilfelli, því menn vita ei hvort það hefir skeð af lopteldi eður voða eldi

---

tekið úr Biskupa-annálum Jóns Egilssonar, sbr. Safn t. s. Ísl. I, 60—61.

[1]) [fimtán, 236, en það sem á eptir kemur sýnir, að höfundurinn hefir ætlað að setja tuttugu og fimm. Í rauninni er samt þetta rángt, því Stephán varð biskup 1491 og andaðist 1518, svo að hann var alls biskup 27 ár.

[2]) 236 o. fl. hafa »Grikkland« (!).

[3]) eiginlega 21 ár, frá því hann var vígður og til þess hann var tekinn og fluttur utan.

[4]) í þrjú ár takandi skattgjald; finnst og víst á því ári 1531. Það sama datum er á landsvistarbrèfi Björns Þorleifssonar, b. v. 52, sbr. hèr nokkru siðar.

[5]) þessi tala er bygð á því, að Ögmundur hafi komið til stólsins 1522 og kirkjan brunnið 1532, en vèr vitum af öðrum rökum, að kirkjan brann 1526, og það ár var þíngið fjölmenna eða »stóra þing«, sbr. Finn. Joh. Hist. Eccl. II, 526—527; Espólín Ísl. Árb. III, 82—83.

[6]) 1309 um veturinn eptir Pálsmessu, b. v. 255 utanmáls, sbr. F. Joh. Hist. Eccl. II, 57; Ísl. Árhæk. I, 28.

[7]) á Pètursmessu stendur í sumum annálum, b. v. 255; á veturinn, stendur í sumum máldögum (!), 236, 64.

[8]) rèttara: 1526, sem áður er sagt.

og ógætilegri meðferð; kom eldurinn upp á miðjum aptni, en kirkjan var öll brunnin á náttmálum.

3. Á því sama sumri, sem kirkjan brann, höfðu biskuparnir svo mikið fjölmenni [til alþíngis[1] af sínum ofmetnaði og óvild sem var á milli þeirra, að biskup Ögmundur skal hafa haft xij eða xiij hundruð manns, en biskup Jón Arason IX hundruð, og það var kallað stóra þíng. Þá var datum 1532[2]. Hafði og staðurinn í Skálholti verið í stórum háska, því logann lagði fyrst á prestaskálann. Vindur var af útnorðri; síðan sneri vindurinn [sèr] til suðurs, svo logann lagði norður hjá Viðarmanna húsi, annars hefði skaðinn orðið meiri. Eptir það hafði komið ógnarlega mikil dögg, sú er slökkti allan þenna eld; sú skúr stóð þó ei lengi yfir. — „Mörgum þókti eg málug", sagði kerlíng, „þó gat eg þagað, þegar Skálholts kirkja brann"[3]. En maður var sendur úr Skálholti að kunngjöra biskupi Ögmundi þenna skaða og tíðindi; var hann þá kominn heim á leið til Gjábakka, og hafði fallið þrisvar sinnum í ómegin, þá hann spurði þessi vondu tíðindi, að kirkjan var brunnin.

4. Biskup Ögmundur hafði haft stórt vald og álit, og hafði allt lukkusamlega gengið framan til. Í þrjú ár hafði hann um landið haft hirðstjóra vald[4], og tekið allt skattgjald um það leiti, og skikkaði því djarflega um eitt og annað; finnst[5] víst á því ári 1531; það sama datum er á landsvistar brèfi Bjarna[r] Þorleifssonar. Í þann sama tíma er sagt, að Ari Guðmundsson[6] og Þórdís Gísladóttir hafi gefið Bæ á Rauðasandi til beneficium, en biskup Ögmundur tók þann stað að sèr, og fèkk hann Sigurði Ormssyni sveini sínum, en sá Sig-

1) [b. v. eptir 255. 2) rèttara: 1526, sem fyr er getið.

3) sbr. Árbæk. III, 84. Þessi staka hefir gengið meðal alþýðu um kerlínguna í Skálholti:

Margir kalla mig málugan mann —
mælti kerlíng orðskvið þann —
þagað gat eg þó með sann
þegar hún Skálholts kirkja brann.

4) þannig hin; hald, 236. 5) finn eg, 255.

6) á að vera Ari Andrèsson, Guðmundarsonar, sbr. Safn til s. Ísl. I, 63—64, 123. — í brèfi frá 1550 vottar Jón prestur Erlingsson, að „Ari Andrèsson og kona hans Þórdís Gísladóttir hafi gefið Skálholts kirkju Bæ á Rauðasandi". Afskriptir íslenzkra brèfa í safni Árna Magnússonar, Nr. 135S.

urður fèkk Bæ Erlíngi Gíslasyni, frænda sínum, en Ormur og Jón, [synir] Erlíngs, voru sveinar Eggerts Hannessonar, og þeir seldu honum, að sagt er.

5. Biskup Ögmundur hafði mörg önnur jarðaskipti við stólinn og kirkjurnar, eptir vild sinni, og mikið brjál um jarðakaup. Hvern mann kallaði hann skækjuson og hóruson, þá honum fannst ekki til. Hann komst yfir stórar eignir í landinu, og gaf lítið fyrir, enda gaf hann og ríflega sínum vinum og venzla-mönnum. Hann hafði haft Hjalla í Ölvesi af Oddi heitnum Halldórssyni fyrir nokkur lögbrot, sem honum þótti vera á móti christinrètti, sem þá gengu lög í landi; aðrir segja hann hafi haft[1] Hjalla af þeim bræðrum síra Oddi og Snæbirni Halldórssonum. Biskup Ögmundur hafði tekið Ásdísi systur sína að sèr, með öllum hennar peníngum, sem hún hafði átt [og erft[2] eptir Þórólf[3] Ögmundsson móðurbróður sinn og biskups Ögmundar, því biskup Ögmundur mátti ekki erfa, og öngvir prestar eður ábótar eður reglubundnir menn í þann tíma, úr því þeir voru vígðir. Þessi Ásdís Pálsdóttir var erfíngi eptir biskup Ögmund, því hann átti ei börn; hann hafði gipt hana Eyjólfi Jónssyni, og fèkk [henni Hjalla og það hún[4] vildi.

6. Haustið eptir, sem kirkjan brann, var smíðuð stór kapella í Skálholti. Úr því biskup Ögmundur fèkk þenna skaða hafði honum margt mótkastazt; hann var alltíð sjónlítill á öðru auganu, en sljófgaðist sýnin meir og meir, svo hann varð um síðir sjónlaus með öllu. Hann hafði verið á förnum vegi á reið sinni undir[5] Íngólfsfelli, þegar hann misti sjónina og spurði að í heiðbjörtu veðri, hvort nú tæki að kvelda, því [þá sýndist honum[6] svo dimmt. „Nei herra", sögðu sveinarnir, „því nú er heiðríkt og glaða sólskin." — „Nú", sagði hann þá, „far vel veröld! því þú hefir mèr nógu lengi þjónað"[7]. Hann var biskup úr því nokkur ár. Eyjólfur Jónsson og Ásdís Pálsdóttir áttu mörg börn til samans: einn þeirra son hèt síra Sigmundur,

1) keypt, 255. 2) [þannig hinir; ógipt, rángt, 236.

3) þannig hinir; Þorleif, rángt, 236.

4) [þann. 255 o. fl.; honum H. og það hann, 236.

5) 254; undan, 236; hjá, 255, 52, 46. 6) [mèr sýnist, 255, 254, 52, 46.

7) Hinn flokkurinn handritanna (255, 52, 46) hefir orð biskups þannig: „nú nú, far þú vel veröld, þú hefir mèr nógu lengi þjónað!"

hann átti eitt barn, Katrínu, móður síra Jóns Egilssonar[1], hún var fædd 1532, en var v vetra þá síra Sigmundur, faðir hennar, sigldi; hafði biskup Ögmundur kjörið þenna sinn systurson til biskups eptir sig með prestanna samþykki, og sigldi hann anno 1537, vígðist, og var ekki biskup nema xix nætur, því honum vildi það til, að hann fèkk mein í fótinn strax eptir það hann var vígður, var það kallað jötunoxi, eður átumein. Hann andaðist í Noregi. Með honum sigldi síra Árni Arnórsson í Hítardal, sem var hans prestur, hann hafði og líka fengið snert af þessu meini strax eptir afgáng síra Sigmundar, en engelskur maður nokkur hafði gjört að því[2]. Eptir það kjöri biskup Ögmundur síra Gizur Einarsson með prestanna samþykki, að hann skyldi sigla eptir biskupsdæminu; var datum 1540[3] þá hann sigldi; tók hann við nýjum siðum, og kom út aptur ári seinna, 1541[4], með presta giptíngar; gaf biskup Ögmundur upp við hann staðinn, og fór sjálfur á bú sitt til Haukadals. Sira Gizur hafði gengið til skóla ut[an]lands, og var vel kunnandi, þar með var hann rètt evangeliskur maður, og framfylgdi [guðs orða rèttum og klárum ceremonium[5] eptir Danmerkur ríkis ordinantiu svo lengi sem hann lifði. [Sturlaði það ei biskup Ögmund all-lítið, og sagðist ei hafa kjörið hann til þess, að mótstanda þann gamla forfeðranna lærdóm; en hann hlaut að hafa það svo búið, og guðs vili og ásetníngur hlaut fram að gánga, og nú var tími til kominn það guð vildi hreinsa sína kristilega kirkju, og frelsa sitt fólk frá pávans setníngum og djöfla lærdómi og yfirgángi[6].

## Um danska slagið í Skálholti, sem dróttað var að Ögmundi Pálssyni.

7. Á því ári sem síra Gizur Einarsson sigldi, sem var anno 1540[7], tóku Danskir að sèr Viðeyjar klaustur og komu óvart

[1]) þ. e. síra Jón, sem ritaði Biskupa-annála, sbr. S. t. sögu Ísl. I, 74. 17; Esp. Árbæk. III, 115. Hún var móðir síra Jóns Egilssonar, sem hèlt Hóla í Hreppum, og síra Olafs í Vestmannaeyjum, sem hertekinn var af Tyrkjum, ásamt sinni síðari konu Ástu Þorsteinsdóttur, og komu þau bæði aptur, 52.

[2]) því sem eptir er af kapítulanum sleppir 52.

[3]) rètt. 1539. [4]) rètt. 1540.

[5]) [guðs orði hreinu og kláru og christilegum ceremonium, 255, 46.

[6]) [á sèrstökum miða viðfestum í 255.

[7]) á að vera 1539, sem áður er sagt.

sjálfan hvítasunnu morgun, svo sem brèf og dómar útvísa. Ábóti Alexíus Pálsson var þá ei heima, sem þá hèlt klaustrið, því hann var riðinn í fardaga sína. Hirðstjóri, sem hèr var þá, hèt Didrich van Minden, einn Handborgari[1], og hafði verið hèr umboðsmaður í margt ár; hans bróðir var[2] sá gamli Cordt van Minden, sem lengi var kaupmaður í Hafnarfirði og síðan hans synir eptir hann.

Eptir það þeir höfðu svo lagt Viðey undir sig, reið Didrich heiman frá Bessastöðum um sumarið tveimur dögum fyrir Laurentiimessu, og ætlaði austur á Síðu, að taka að sèr hin klaustrin, þykkvabæ og Kirkjubæ. En sem hann kom að Kotferju [beiddist hann að ríða af, og ríða í Skálholt og finna biskup Ögmund[3], en hafði ekki gjört ráð fyrir því fyr en búið var að leggja á hesta þeirra, en sent sína tvo menn undan sèr yfir um til Odda, sem hètu Pètur Spons og Hans Witt. Þá var síra Jón Hèðinsson ráðsmaður í Skálaholti og hèlt Runa stað; voru þá strax send boð til nokkra staðarins landseta, sem öruggastir voru, að mæta þeim Dönsku, og komu þeir viljuglega[4], voru þá þessir fyrirliðar: Jón Sigurðsson refur, hann bjó á sinni jörðu Gröf í Grímsnesi, en eptirá á Búrfelli; item Sveinn Þorsteinsson, búandi á Bitsfelli[5]; item Jón Snorrason, ráðsmaður á Hömrum; item Núpur vinnumaður á Hömrum, og hafði verið vinnumaður í Viðey um vorið, þá þeir tóku klaustrið, og hafði þá verið illa leikinn af þeim, sleginn og barinn með svipum og köðlum, svo hann þóttist sín eiga í að hefna; item Ögmundur briti; þessir eru helztir til teknir, að verið hafi atvistarmenn að drepa þá Dönsku. En síra Jón Bjarna[r]son, sem þá hèlt Torfastaði, og verið hafði áður í nokkrum sökum[6], hann var settur til að skenkja þeim í timburstofunni, og þeir fengu að drekka hvað þeir vildu. Hafði Didrich farið tvisvar eður

1) þ. e. Hamborgari; Didrich var annars ekki hirðstjóri, heldur fóveti, þ. e. umboðsmaður hirðstjórans Claus van Merwitz.

2) þá, b. v. 236.

3) [leizt honum að finna fyrst biskup Ögmund, og sneri því af í Skálholt, 255, 52, 46.

4) velviljuglega, 255, 254, 52, 46.

5) þ. e. Bildsfelli (og þann. leiðrètt í 46), sbr. Dipl. Ísl. I, 409.

6) stórum, b. v. 255, 52, 46.

þrisvar fram í biskups stofu til biskupsins, og gefið honum mörg vond orð, kallaði hann bæði blinda-biskup, hundvott[1] og öðrum skemmilegum orðum, trássað og sagt, hann vildi vinna allt Ísland með sjöunda mann. En biskup Ögmundur sagðist ei vilja láta gjöra honum neitt illt, en bað hann góðmannlega að víkja burt af staðnum, hann skyldi[2] fá mat og drykk, og hvað hann þyrfti upp á veginn, en Didrich trássaði því meir, og voru þeir uggalausir um sig og óhræddir, og vissu ei fyr til en þeir Íslenzku komu fyrir portið með sínar lensur og arngeira. En sem Didrich sá vopnin út um gluggann, strauk[3] hann upp og spurði, hvað þar væri á ferðum; en skenkjarinn, síra Jón Bjarna[r]son, sagði, það væru ei annað en vinnumenn staðarins; [þeim hefði[4] verið gefið nokkuð öl til virðíngar og heiðurs við hirðstjórann; og með það skauzt síra Jón á dyr, og kastaði af sèr kápunni, er hann haföi yfir sèr haft, og kastaði[5] timburstofunni í lás, en bændur gengu að og brutu upp dyrnar, hafði Didrich lengi varizt, en Jón refur vann á honum með krókalensu þar í stofunni; voru tveir danskir drepnir út í portinu, en fjórir eða fimm í timburstofunni, og einn íslenzkur, hestamaður þeirra, hann hèt Ólafur Íngimundarson, hann var drepinn fyrir framan biskupsstofu dyrnar, en bað um líf, því hann væri[6] íslenzkur, og svöruðu þeir honum, að fyrst hann hefði fylgt þeim lifandi, þá mætti hann ogsvo fylgja þeim dauður. Svo voru þeir þá annaðhvort vij eður viij, er drepnir voru í Skálholti. En einn úngur piltur smaug undir borðið[7], vildu sumir láta drepa hann, en sumir úrtöldu það, og svo komst hann undan með lífi, hann hèt Jakob og varð seinna locator í Skálholti á dögum herra Marteins.

Þá þetta slag var yfir staðið voru búkarnir hafðir austur yfir Söðlahól og hestar þeirra í hel grýttir, síðan mennirnir, hestarnir og öll þeirra reiðtygi þar urðað og grafið. Þetta hafði tilborið á

1) hundsvott, hundsfott, hundsspott, *hin*.

2) gjarnan, b. v. 255, 46.

3) stökk, 255, 52, 46.

4) [þann. 254, 61; þeim hafði, 236; þeir væri að gamna sèr, því þeim hefði, 255, 52, 46.

5) sló, 255, 254, 52, 46.

6) þann. 255, 254, 52, 46; var, 236.

7) í timburstofunni, b. v. 255, 52, 46.

sjálfa Laurentiusmessu anno 1539[1]. Eptir þetta var maður sendur til Odda, og átti að segja Pètur Spons og Hans Witt, hverja hirðstjórinn hafði sent austur yfir Þjórsá[2], að hann ætlaði frá Skálaholti að ríða norður Kjalveg, því brá Pètur við og reið strax til Runa, hann hefir verið sagður mestur[3] skálkur af þeim öllum, og voru þeir drepnir báðir í Runa, Pètur og Hans; svo voru þeir alls x eður xi, sem drepnir voru.

Mannslagið í Runa skeði tveim eður þrem nóttum eptir[4] Laurentiusmessu; kom þetta mál síðar til dóms, og voru þeir allir óbótamenn dæmdir[5] Didrich og hans fylgjarar, en þeir allir saklausir, er á þeim höfðu unnið. [6]Þessi tíðindi spurðust strax i Danmörk, því hèlt síra Gizur Einarsson sig i Handborg[7] og þorði ekki að hætta á kóngs fund, og meinti hann mundi eiga að gjalda þessa mannslags, en supliceraði fyrir kóng og afsakaði sig, og fèkk svo náðugt brèf um frelsi[8], sem kallast litteræ salvi conductus. Svo vígðist síra Gizur til biskups, og kom út með prestagiptíngar, evangeliskan lærdóm og aðra nýja siðu anno 1540[9]. Hann var sá fyrsti evangeliski biskup á Íslandi; hann hèlt stólinn í sjö ár.

## Hvernig biskup Ögmundur var tekinn á Hjalla.

8. [10]Eptir það herra Gizur var út kominn með biskupsdæmi og kóngsbrèf fyrir Skálholts stifti, var honum afhentur staðurinn, og allt það sem þar stóð saman, en biskup Ögmundur hafði haft sitt í burtu, á sitt bú, sem hann hafði í Haukadal. En um fardaga leitið[11], eður eptir fardaga, var hann á

1) þann. hèr 236, 64, 255; 1540, rángt en þó samkvæmt því sem 236 hefir áður, 254, 46 (og er 1540 gjört úr 1539).

2) Þjótsá, 236, 64.

3) b. v. eptir hinum; vesti, 254.

4) 255, 254, 52, 46; fyrir, 236, 64.

5) dæmdir óbótamenn og rètt tækir (rèttlausir, 52, 46), 255, 254, 52, 46.

6) 52 sleppir því sem eptir er kapítulans.

7) þ. e. Hamborg (hin handritin).

8) fríleiði, 255, 46.

9) í 236 er 1540 gjört úr 1541, sem fyrst hefir staðið, og svo hefir 64; svo stendur einnig í hinum, þó rángt sè.

10) anno 1541, b. v. 52, en á að vera að rèttu 1540, því eitt ár leið frá því Gizur biskup kom út og til þess Ögmundur biskup var tekinn.

11) 1541, Árni Magnússon utanmáls í 236.

Hjalla hjá Ásdísi systur sinni. Biskup Ögmundi var kennt um danska slagið; þar fyrir, þegar kóngsins skip var komið syðra, bjuggu þeir sig til að taka biskup Ögmund, en hversu fjölmennir þeir voru veit eg ekki til sanns, — sá höfuðsmaður, sem þá var, er sagt að heitið hafi Christoffer Hvitfelld, og hafi verið einn riddari; hann fór sjálfur að sækja biskup Ögmund, — sumir segja þeir verið hafi XL, sumir LX, sumir lxxx. Þeir höfðu látið fyrst, að þeir vildu gjöra eina lest í Skálholt eptir vaðmálum og öðru, því sem þeir vildu kaupa af biskup Ögmundi, og báðu þarfyrir um hestlán suður um Nes, og svo höfðu þeir fyrst verið xiv í ferð og fimtándi þeirra vegvísari, sem hèt Eyjólfur Halldórsson; hann hafði áður flúið að norðan, því honum var dreift við vígsmál í norðurstiktinu (þó það bevísaðist ekki); en biskup Ögmundur hafði skotið skjóli yfir hann. Svo var það eitt sèrlegt óþakklætis dæmi, að[1] hann var fyrirliði þeirra sem biskupinn tóku. En honum hafði verið orðið illa við biskup Ögmund fyrir það, að Didrich van Minden var drepinn í Skálholti, því Didrich hafði tekið að sèr frændkonu Eyjólfs til fylgilags; riðu þessir Bessastaðamenn fyrst að Viðeyjarseli og austur Ólafsskarð, og svo rètt ofan að Hjalla í Ölvesi komu þeir snemma morguns, er biskup Ögmundur lá í sæng sinni; þar tóku þeir hann og báru út úr bænum í einsamlri[2] skyrtunni. Hann hèlt svo fast að[3] belti sínu og púngi, þar hans signet var í, að fjórir voru að draga af honum og gátu ekki, fyr en það gekk í sundur. Ásdís systir hans hafði breidt sig ofan yfir hann, þá hann var út kominn; tóku þeir hann þá og færðu hann í sín klæði; eptir það var hann látinn á hest, og teymdi einn strákur undir honum. Þeir gjörðu sèr síðan aðra ferð eptir því sem hann átti. Biskup Ögmundur hafði látið geyma einn kistil fullan af silfri í jörðunni[4] hjá Hjalla, var þeim vísað á hann, því þeir lofuðu Ásdísi að hann skyldi verða laus, ef þeir fengi allt hans silfur og hennar með; en þetta hèldu þeir ekki. Síðan tóku þeir að sèr allar hans

---

1) eptir hinum handritunum; en, 236, 64.

2) einri samri, 251; einni saman, 255, 52, 46.

3) á, 255, 52, 46.

4) i urðinni, 255, 254, 52, 46.

jarðir, bæði í Borgarfirði, sem er allt Heynes umboð[1], þar voru eignir biskups Ögmundar, og víðar annarstaðar; á Vestfjörðum hafði hann átt XXX jarðir eður meir, og galzt þar af lest fiska. Árinu fyrir hafði biskup Ögmundur eið unnið á alþíngi — áður en hann var tekinn[2] — að Didrich og hans fylgjarar hefðu hvorki af hans vilja nè ráðum drepnir verið. Síðan fluttu þeir hann með sèr í Danmörk, og hafði kónginum það illa líkað, að þeir höfðu ónáðað hann, svo gamlan mann og blindan; var hann þá látinn til Sór klausturs[3], og var þar í góðu haldi og þar andaðist hann. Sumir segja hann dáið hafi á sama vetri, en aðrir halda hann hafi verið þar tvo eða þrjá vetur áður, og liggur grafinn til Sór; stendur út höggvið á hans líksteini: „Augmundus Islandiæ episcopus." Ásdís fór þá seinna á alþíng, og sór sèr xiiij jarðir í Borgarfirði, en Danskir höfðu að sèr tekið, er hún sagðist aldri hafa gjöfum gefið eður sölum selt nokkrum manni, að frá tekinni hálfri fjórðu jörðu[4], er hún sagðist fengið hafa biskup Ögmundi. En það hjálpaði ekki, hún náði öngvu þar af, og svo hefir síðan staðið. Voru þær jarðir eptir það fengnar Skálholti til eignar fyrir Nesjajarðir suður, svo sem brèfin þar um útvísa. Þá var datum 1541, þá eð biskup Ögmundur var tekinn. Katrín móðir síra Jóns Egilssonar var þá níu vetra, en hún var fædd anno 1532.

Anno 1542 gekk dómur á alþíngi um það mál, hvar Ásdís skyldi eiga aðgáng síns móðurarfs, er hún þóttist eiga í garði biskups Ögmundar — les þann dóm, og þann eið, er hún sór á alþíngi fyrir herra Gizuri Einarssyni og báðum lög-

1) Heynes umboð var eitt af umboðum Skálholts stóls, eptir að Páll Stígsson hafði skipt við stólinn og tekið það sem hann átti á Suðurnesjum fyrir jarðir í Borgarfirði, sjá skiptabrèfið í Safni til s. Ísl. I, 131—132.

2) eptir þetta höfðu þeir biskup Ögmund á alþíng, og sór hann fullan bókareið, b. v. 255; en þetta er rángt, því það sumar sem Ögmundur biskup var tekinn kom hann ekki til alþíngis, en það var hið fyrra sumarið (1540) sem hann var á alþíngi og sór eiðinn, eins og hér segir rètt á undan.

3) klausturs Soor, 255, 254, 52, 46; stór klausturs, 236, 64.

4) í Espól. árbókum (III, 135) stendur »fjórum«, og hefir það verið rángt lesið (úr iiij nl. $3^1/_2$).

mönnum — því kallaði Páll Pálsson á Hjalla til Ásgarðs og annara jarða, sem Ásdísi fèllu til erfða[1].

9. Þetta eptir skrifað góz liggur á Vestfjörðum og var eign biskups Ögmundar, og geldst af lest fiska[2]:

Með Atlastöðum ij kýr, landskuld x aurar;
með Túngu ij kýr, landskuld x aurar;
Glúmstaðir í eyði;
með Rekavík[3] ij kýr, landskuld x aurar;

1) Handritin 236 og 61 skjóta inn eptirfylgjandi grein:

Þessar eptir skrifaðar línur standa i öðrum annálum: »Þá Gizur biskup var vígður og sór sinn eið, og hafði tekið við smekk af lúterskum lærdómi, sagði Gizur biskup, að sèr mundi ekki að etja reformatiunni fyrir ráðríki biskup Ögmundar, meðan hann lifði; kom þeim því saman, að herskip skyldi sigla hingað, á hverju að var Gizur biskup, og fyrir ráði Christoffor riddari. Reið Gizur strax í Skálholt, og tók út staðinn af Ögmundi biskupi. Strax þá Ögmundur var í burt, reið Gizur biskup aptur til riddarans; er mælt, að þeir hafi tekið sín ráð saman, og hafi verið tveir á tali lengi af degi. Þar eptir sendi Gizur um hæl eptir fylgð og fararskjótum fyrir riddarann. Svo skildi biskup við riddara þá hann reið að Hjalla, en herra Gizur í Skálholt. Eigi var bóndinn Eyjólfur, maður Ásdísar, heima, þá þeir tóku Ögmund biskup; er mælt, að hann hafi mælt þetta erendi fram, þá hann skildi við Ásdísu systur sína á hlaðinu:

Hugsaðu um það, hringa lâð,
hvað hlauzt af vilja þínum;
köld eru jafnan kvenna ráð,
kemr að orðum mínum.

Í fyrsta sinni lofaði riddarinn Ögmundi lausn, ef hann legði sèr í vald allt sitt silfur, hvað brèfað var; er mælt, að þá hafi verið sókt hálf tunna silfurs, og þeir menn, sem það sóktu, sáu vænt silfurnisti hjá Ásdísi, og lofaði riddarinn biskupi Ögmundi lausn, ef hann skrifaði eptir silfurnistinu; og þó það kæmi, hjálpaði ei. Síðast kúguðu þeir af biskupi Ögmundi, að hann brèflega játaði undir kónginn án dóms og laga undan sèr allar sínar jarðir. Þetta hefir herra Oddur Einarsson upp skrifað eptir skilvísum manni.

En hèr um skrifar Arild Hvitfeld: Var Christoffer Hvitfeld lènsmaður á Þrándheimsgarði; bífalar Kgl. Maj. þessum Christoffer að halda til Íslands og fánga biskup Ögmund og færa til Danmerkur, og láta landið sverja kónginum eið, hvað og skeði, sbr. Annála Björns á Skarðsá I, 128—130.

2) með jarðaskrá þessari sbr. Safn til s. Ísl. I, 126—127.

3) Reikiavík, 236, og sleppir kúgildum.

með Stakkadal ij kýr, landskuld x aurar;
með minni Miðvík ij kýr, landskuld lxxx álnir;
með stærri Miðvík ij kýr, landskuld j^c;
með stóra Hjarðardal í Önundarfirði v kýr, landskuld j^c;
með Brekku v kýr, landskuld j^c;
með Villíngadal iiij kýr, landskuld LXXX álnir;
með Arnanesi ij kýr;
með Gerðhömrum ij kýr,
Biartstaðir[1] eyðijörð;
með Kúlu v kýr, landskuld j^c;
með Laugabóli vj kýr, landskuld j^c;
með Horni vj kýr, landskuld j^c;
Klúka, Móberg, Gröf, } eru í eyði, liggja á Rauðasandi;
með Siglunesi ekkert kúgildi, landskuld j^c;
með Skálanesi ekkert kúgildi, landskuld x aurar;
með Íngunnarstöðum v kúgildi, landskuld LXXX álnir;
Gjögrar, liggur í eyði;
með Middals-Gröf ij kúgildi, landskuld x aurar;
með Fjarðarhorni[2] iiij kýr, bygð til hýsíngar þrjú ár leigulaust;
með hálfum Haukatungum ekkert kúgildi, landskuld LXXX álnir.

Summa með öllu umboðinu LX kýr misgildar. Skrifað eptir brèfabók Árna heitins Gíslasonar, í Skálholti 1609.

## Enn meira um biskup Ögmund og hans ættfólk.

10[3]. Biskup Ögmundur var Pálsson, Guðmundsson[ar]; hann[4] var leikmaður nafnbótalaus, og bjó fyrir vestan. Móðir biskups Ögmundar hèt Margrèt Ögmundardóttir, hún hafði verið af miklum ættum.

Bróðir þeirrar Margrètar hèt Þórólfur Ögmundsson[5]; hann var búandi vestur í Laugardal í Tálknafirði; hann átti miklar

1) Þ. e. Bjarnastaðir, Birnustaðir í Dýrafirði.
2) Fjarðarbotni, rángt í 236.
3) Þessi kapítuli er miklu styttri, efnið dregið saman og mörgu sleppt í 52.
4) Þ. e. Páll Guðmundsson, faðir Ögmundar biskups.
5) leiðrètt eptir 255, 254, 46; Þorleifur Guðmundsson, rángt, 236, 64.

eignir, og hafði bú í Hvammi í Hvammssveit; þó hafði hann Hvamm að léni, en ekki eign. þessi þórólfur[1] var að auknafni kallaður biskup; hann átti ei neitt barn þá hann andaðist, erfði Ásdís Pálsdóttir hann, skilgetin systir biskups Ögmundar, því biskupar og ábótar máttu öngvan arf taka í þann tíma, úr því þeir voru vígðir, og öngvir reglubundnir menn, eptir kirkjunnar lögum, sem þá gengu í landi.

11. þessi voru systkin biskups Ögmundar[2]:

| | |
|---|---|
| Síra Eigill Pálsson. | Elín Pálsdóttir. |
| Ásdís. | Salný[3]. |

Eigill Pálsson átti eina dóttur, sú hèt Halla; hennar dóttir er Íngveldur, hennar son Jón þórisson[4] í Flóa; hans son Kaupa-þórir.

Elín Pálsdóttir; hennar son Jón þórðarson á Hvoli í Saurbæ, sem átti Sigríði, dóttur síra Halldórs Tyrfíngssonar, prófasts á Vestfjörðum — eg meina hann væri síðar ábóti á Helgafelli. — Biskup Ögmundur hjálpaði Jóni þórðarsyni til giptíngar, því hann var bæði náskyldur honum og þar með var hann sveinn hans; gaf biskup Ögmundur honum Brekkur báðar í Saurbæ til konumundar, sem var XL hundruð.[5] þar til taldi Jón sèr hálfa Saurbæjar fjöru fyrir xx$^{c}$; þar til þrjár eyjar: Líney, Trèsey og Galtarey fyrir XVj$^{c}$, þar til XLiiij$^{c}$; alls eitt hundrað hundraða. En Sigríði var talinn Hvoll fyrir L$^{c}$, þar til x hundruð. Kaupvottar: Ólafur Guðmundsson, Páll Ólafsson prestar, Stulli þórðarson, þorleifur Pálsson, Sigurður Narfason og Sigurður Oddsson, anno 1524. — Enn síðari maður Sigríðar var Erlendur Jónsson.

Jón þórðarson var mikill kvennamaður og sóaði mjög sinu gózi í illum lifnaði, með því þeir andlegu gengu þá hart eptir þeim andlegu sökum og sektum. Síra Halldór Tyrfíngsson var prófastur 1502; hann hafði haldið Staðarhól svo sem beneficium, og var

1) þorleifur, 236, 64 (rángt).
2) ættartala þessi er að nokkru leyti í Espól. Árb. III, 79.
3) Sólný, 236, 64 (rángt).
4) þórarinsson, 236, 64.
5) 60 hundr., 236, 254, 64 (rángt).

þar xxvij ár. Anno 1544[1] og þar fyrir var hann ábóti á Helgafelli. Tómas Oddsson seldi biskupi Ögmundi Staðarhól fyrir xxxiiij hundruð í kirkjureikning, og þar til jörðina Gilsfjarðar-Múla fyrir xxx hundruð, með vj kúgildum; það [gjörðist] á Staðarhóli 1524; þar eptir hefir síra Halldór fengið Hvol.

12. Jón þórðarson átti ix börn, sem til nokkra ára komust; önnur ix á úngum árum í hurt sofnuð:

Guðmundur, Bjarni, Jón, þórður, Eiríkur,
Ögmundur, Guðrún, Helga, Orný hálfvita.

Guðmundur (Jónsson) bjó á Hvoli, og erfði hann, eða fèkk eptir móður sína Sigríði; hann var mikill lagamaður haldinn og vann optast mál á þíngum; hann var lögrèttumaður í tíð Orms Stullasonar lögmanns, líka síðar, og var einn í Stóradómi. Hann hafði lengi umboð herra Gísla Jónssonar á Vestfjörðum, og var hans góður vinur, svo sem hans brèf og qvittanzíur útvísa.

Anno 1547 í Eskholti gaf Oddur Tumásson Jón þórðarson kvittan fyrir fullt nægelsi, uppborið um það tilkall, sem hann haft hafði til garðsins Hvols í Saurbæ. — Guðmundur Jónsson var haldinn spakur maður og nærgætinn um allmargt; hann hafði vitað og sagt fyrir um dauðadag sinn; — hann andaðist á Hvoli 30. Octobris Anno 1595; — og sagt fyrir andlát Síra Lopts Narfasonar, sem andaðist í Hítardal fjórum dögum fyr; hann gjörði ráðstöfun á öllu sínu húsi, og gaf sínum ættmönnum ymsar gjafir.

13. þorleifur Svartsson átti Reykhóla, og margar aðrar eignir; hans sonur var Ólafur tóni; hans dóttir Guðrún Ólafsdóttir, hennar maður hèt Geirmundur; hans synir Sigurður og Ólafur; [son Sigurðar Oddur[2], hann átti Hvol og bjó þar þegar hann andaðist, 1506.

Sigurður faðir Odds var einn í þeim tólf manna dómi, sem þorleifur Björnsson lèt út nefna á Staðarhóli 1470[3] um arfleiðslu Stephàns Loptssonar. Oddur hefir átt tvær konur: sú fyrri hèt Orný[4] Finnsdóttir, — meina menn verið hafi systir

1) Halldór var orðinn ábóti á Helgafelli 1533, en hann var andaður 1550. Finn. Joh. Hist. Eccl. IV, 75.

2) [b. v. eptir 255; slepp. 236, 64.

3) rèttara: 1479.

4) Oddný, 255, 254, 46.

Arnórs Finnssonar, því Arnór var einn í arfaskiptum eptir Odd heitinn og skiptabrèfið var skrifað á Ökrum í Hraunhrepp; þeir voru og lengi samtíða Arnór og Sigurður, og standa þeirra beggja nöfn til samans í fyrgreindum Staðarhóls dómi; en seinni kvinna Odds var Helga, dóttir Sigurðar; þeirra börn Sigurður og Gúðrún, en við Ornýju hefir Oddur átt Tumás; hann hafði fyrst umboð Sigurðar og Guðrúnar, systkina sinna. Tumási skiptist að erfðum Hvoll og eyjarnar, eg meina þær afi hans átti: Eyjólfsey, Heiðarey[1], Hvítabjarnarey, Álfhildarey, Æðisker, og eru það xx hdr. eða xv hdr. Í þeim erfði Tumás hálft eptir afa sinn, Sigurð heitinn Geirmundsson, þar til xiv hdr. í Hvoli; item þar í x hdr. eptir móður sína (sem var tilgjöf hennar), hitt[2] eptir föður sinn. Guðrún Oddsdóttir erfði Efri-Brunná, xvj hdr. — Í þessum arfaskiptum var Jón Oddsson, Ari Andrèsson, Guðmundur Finnsson, Jón Jónsson, Egill Jónsson og Arnór Finnsson, á Hvoli anno 1506, á Laurentii messu.

Tumás Oddsson átti laundóttur[3] ríka Fúsa á Borg, Þórðarsonar; þeirra son Oddur.

Oddur Tumásson giptist Ceceliu Ormsdóttur, Einarssonar, í Saurbæ, bróður síra Þórðar í Hítardal.

Þeirra börn: Bjarni Oddsson; — Ragnhildur, sem átti Orm Jónsson, föður síra Jóns á Kvennabrekku; — Íngibjörg, átti Jón Oddsson; þeirra son Páll, hans dóttir Sigríður[4], sem á Árna Jónsson hvalara; þeirra börn: Jónar tveir[5]; meinast og [af hennar kyni síra Þórður[6] og Þorsteinn Íngusynir; hennar son Rögnvaldur, faðir Jóns Rögnvaldssonar. — Katrín Oddsdóttir, giptist Guðmundi: þeirra son Þorsteinn, [Þóra, Björg[7].

Systkin Sigurðar Oddssonar voru Tumás Oddsson og Guðrún Oddsdóttir; móðir Sigurðar[8] hèt Helga Sigurðardóttir; hann

1) 236, 254, 64; Leiðarey, 46; Búðarey (Heiðarey), 255.
2) sleppir (óvart) 236, 64.
3) Guðrúnu, dóttur, 46.
4) nafninu (Sigríður) b. v. 255, 46.
5) Sigríður átti ekki neitt barn við Árna hvalara, 255 utanmáls.
6) [afi hennar . . . síra Þórðar, 236, 64.
7) [þann. 255, 46; Þorbjörg, (rángt), 254, 236, 64.
8) Sigríðar, rángt, 255.

fèkk að erfðum eptir föður sinn og móður (Odd heitinn Sigurðsson á Hvoli) Víðidalsá xxiv hundruð og xx hundruð Minna-Kropp, og xx hundruð í lausafè; þar til fèkk hann vj[1] hundruð ofan á jarðirnar, við þann mun sem Víðidalsá var slæmari en Hvoll að jöfnum dýrleika.

14. Kvinna Guðmundar á Hvoli hèt Þórunn, dóttir Sigurðar bónda Oddssonar í Búðardal, og Steinunnar, Sturla Þórðarsonar dóttur. Börn Guðmundar og Þórunnar voru:

Síra Jón, Halldóra og tvær Helgur,
og Orný[2] Guðmundsdóttir hjábarn.

Síra Jón stúderaði vel utanlands og innan; hann var þrjú ár í Bremen skóla [og v ár[3] í Danmörk, hann fèkk þar kóngsbrèf fyrir Hítardal, og var promotus Baccalaureus artium; síðan var hann sveinn hjá herra Gísla sálnga Jónssyni, og fjögur ár skólameistari í Skálholti; hann var einn í biskupskjörum með herra Oddi sáluga Einarssyni 1588[4], en Anno 1590 tók hann við Hitardals stað af síra Lopti Narfasyni. Anno 1595 giptist hann Guðríði sálugu Gísladóttur, dóttur Gísla Þórðarsonar lögmanns og Íngibjargar Árnadóttur á Ytra-Hólmi á Akranesi; taldi síra Jón sèr ij hundruð hundraða, en henni voru [talin LL hundraða[5], en þá arfur jafnaðist fèkk hún meir en hundrað hundraða alls, þar í Indriðastaðir og hálfir Lambastaðir, en sira Jón átti Hvol og fleiri aðrar smájarðir. Síra Jón var prófastur yfir Borgarfjarðar sýslu; hann var sjónlaus seinustu vij ár og andaðist kristilega í Hítardal 7. Februarii anno 1634[6], hafði þá LXXVI[7] ár. Erfíngjar síra Jóns og Guðríðar lètu þar eptir flytja út legsteina[8] úr Hollandi yfir beggja þeirra leiði; [kostuðu báðir[9] XL dali, og liggja þau í Hítardals kirkjugarði[10], með þessari yfirskript og latínuletri á steinana klöppuðu:

1) þann. 255, 46; LX hundruð, 236, 64.
2) Oddný, 255, 46
3) [og var, 236, 254, 64.
4) 1595, rángt, 236, 64.
5) [gefin 51 hundr., 236, 254, 64.
6) þannig 52, 46; 1624 hin, og er það rángt.
7) eptir legsteininum varð hann 75 ára gamall.
8) líkstein, 236, 254, 64.
9) [kostaði, 236, 64.
10) kirkju, 236, 64, og hætta þessi handrit þar með, og slá í botninn, en það sem eptir kemur er tekið eptir 255 og 254.

Saxo sub hoc jacet Dominus Jonas Gudmundus Islandus Ecclesiae Hitterdalensis Parochus.

Ecclesiarum in Borgarfiord in patria praepositus. Vir pietate doctrina & authoritate excellens. Ex ecclesia militante in triumphantem vij Februarij Anno Christi MDCXXXiiij Ministerij XLiiij Ætatis LXXV. Avocatus.

Hic sita est Gudrida Gislavi filia Jonæ Gudmundi uxor. Fæmina pietate, pudicitiâ & stirpe clara. Rebus humanis exempta & in cælestem patriam translata est X. Calend. Januarij Anno Christi MDCXX. Ætatis XLiij.

Conjugii XXV.

Guðríður hafði á sínum seinustu árum þúngan kránkleika, sem kallast elephantiasis, það er ein spitelsku tegund; hún andaðist anno 1620.

15. Börn síra Jóns Guðmundssonar og Guðríðar, sem til manns komust:

Guðmundur, Helga, þórunn, Guðrún,
Kristín, Gísli og þórður;

item launsynir: Gísli og Bjarni, honum kenndir áður hann giptist Guðríði.

Guðmundur stúderaði og lærði vel utanlands, í Bremen og í Kaupinhafn, og var vel framaður; faðir hans hafði og hjálpað honum til, fyrir meðalgaungu höfuðsmannsins, að fá kóngsbrèf fyrir Hitardal, en Guðmundi auðnaðist ekki að njóta þess, þar hann dó í Kaupinhafn anno 1617, og fèkk heiðarlega jarðan.

Helga, giptist anno 1634 Jóni Sigurðssyni frá Einarsnesi, sýslumanni yfir Mýrasýslu; þeirra börn: Jón (dó barnlaus) og Guðríður (hún dó úng), bæði önduð.

þórunn giptist anno 1632 síra Gunnari Björnssyni frá Hofi á Höfðaströnd; síra Gunnar hèlt Höskuldsstað, þau áttu tvær Guðríðar; sú fyrri andaðist; [sú önnur varð kvinna Magister Gísla Vigfússonar; þeirra barn Vigfús[1].

Guðrún, giptist anno 1636 síra Sigurði Oddssyni, prófasti yfir Mýra sýslu, sem hèlt Stafholt; þeirra á milli var

1) [viðbætir eptir Sigurð lögmann Björnsson í 255.

þremenníngs frændsemi, og hafði síra Sigurður lagt út ij hundruð dali, að fá kóngsleyfi fyrir þessu giptumáli. Þeirra börn þessi: Oddur, Gísli, Sigurður, Guðríður, Hólmfríður. Guðrún og Torfi önduðust úng. [Gísli giptist Þorbjörgu Vigfúsdóttur, en síra Sigurður giptist Sigríði Hákonardóttur frá Bræðratúngu; Guðríður giptist Ólafi Hallgrímssyni, Halldórssonar; þeirra barn Ólöf. Hólmfríður átti Ólaf Jónsson skólameistara; þeirra börn: Sigurður, Vigfús[1].

Kristín giptist anno 1645 Sigurði Jónssyni, syni Jóns Sigurðssonar og Ragneiðar Hannesdóttur. Sigurður var skólagenginn maður, en gaf sig þar frá og hafði Stapa sýslu, [síðan Borgarfjarðar sýslu, síðan varð hann lögmaður. Þeirra börn: Jón, Ragneiður, Jón, Guðmundur; en Guðríður andaðist barn. Jón eldri giptist danskri konu, Bente Tuesdóttur[2], sem þènt hafði herra Axel Wrop, og hofmeisterinden Sitzel Grubbe; þeirra börn: Axel Friderich, Setzelia, Christin, Guðríður. Ragneiður giptist Sigurði Björnssyni. Jón ýngri giptist Ragneiði, dóttur síra Torfa Jónssonar prófasts í Gaulverjabæ, og Sigríðar Halldórsdóttur; þeirra börn: Þóra, Sigurður, Jón, Helga, Christín, Margrèt, Halldóra, Ragnheiður, Ragnhildur, Rannveig[3].

Gísli giptist Þóru, dóttur Jóns Jónssonar og Þórdísar Jónsdóttur, sem voru undir Staðarhrauni. Gísli var geðmenni, framaður og fallega lærður, en lítill lukkumaður; hann giptist fyrst móti ráðum föður síns, hann henti og önnur slys; [hann seldi Indriðastaði og Gröf fyrir Öskholt[4]. Börn hans og Þóru: Gvöndar tveir, Guðríður, [Sigríður, Halldóra, Guðrún[5], Ínga[6]; eitt launbarn: Guðrún[7]. [Guðmundur ýngri sigldi, en sá eldri átti Kristínu, dóttur Bjarna Jónssonar fýsikamps; þeirra börn: Ólafur, Guðríður, giptist Tumási, syni síra Jóns Brands-

1) [viðbætir eptir Sigurð lögmann Björnsson í 255.

2) Hansdóttur, Espól. Árb. VII, 88

3) [viðbætir eptir Sigurð lögmann Björnsson í 255.

4) [hann forsá sig illa með týfíveri, varð þó fengin fyrir hann náð af kóngi og frelsisbréf. Þau bjuggu fyrst á Indriðastöðum, jörðu hans, og seldu hana fyrir Öskholt, og bjuggu þar lengi, 254.

5) [slepp. 251.

6) Íngiríður, 251.

7) [Gísli átti eina laundóttur við vinnukonu í Hítardal áður hann giptist; hèt Guðrún; hún átti launbarn við Ásgrími Björnssyni sterka, 251.

sonar í Hítarnesi; þeirra börn Gísli o. fl.[1] Ínga giptist Ásmundi [Narfasyni í Hraundal[2].

Síra Þórður sigldi og stúderaði í Kaupinhöfn tvö ár, fékk attestationem og síðan kóngsbréf fyrir Hitardal; var vígður af herra Oddi Einarssyni anno 1630, Dominica 22. post Trinit., en giptist anno 1642, Helgu, dóttur Árna Oddssonar lögmanns á Leirá, og Þórdísar Jónsdóttur. Síra Þórður fékk Hvol að erfðum, en keypti Sauðafell og margar jarðir; Helgu var gefin heiman Leirá mestöll. Þeirra börn: Jón, dó úngur, Þorsteinn, Guðríður. [Þorsteinn giptist Arnfríði, dóttur Eggerts Björnssonar og Valgerðar Gísladóttur á Skarði; þeirra börn: Eggert, Elen[3], Ragneiður, Karítas — Guðríður var kvinna Magister Jóns Vigfússonar; þeirra börn: Þórður, Gísli, Magnús, Vigfús, Sigríður, Þórdís, Helga, Sigríður[4].

16. Gísli launsonur síra Jóns Guðmundssonar var lítill auðnumaður, svallaði og var lauslátur; hann giptist fyrst Þorbjörgu Nikolásdóttur; faðir hennar Nikolás Jónsson, móðir Guðrún Jónsdóttir, systir Karítasar, sem var móðir Halldóru Sigurðardóttur í Ljáskógum; þeirra börn: Sigmundur, sem drukknaði í Borgarfirði, barnlaus; Herdís, hún átti launson Sigmund; — Guðrún, hún giptist Íngimundi Sigvaldasyni fyrir vestan Jökul; — Gísli Gíslason; — Guðrún ýngri Gísladóttir. Aðra konu átti Gísli Jónsson, hét Helga Einarsdóttir. Þriðja kona Gísla hét Íngigerður Þorvaldsdóttir; þeirra börn: Þorvaldur[5], Þorkell.

Bjarni Jónsson, bróðir Gísla, giptist Guðrúnu, dóttur síra Jóns Jónssonar frá Staðarhrauni og Þóru Högnadóttur; þeirra börn: Finnur, Guðlaug, giptist Snorra[6] Jónssyni, Þóra, Þorbjörg, Guðmundur, Jón. Bjarni átti nokkur launbörn, einkum tvö við Þóru Oddsdóttur[7]: Íngiríði, hún dó barnlaus og varð úti 1633 í fyrstu viku vetrar; — Jón Bjarnason giptist Signýju, dóttur Gísla Ketilssonar og Þrúðu Steingrímsdóttur.

---

1) [viðbætir eptir Sigurð lögmann Björnsson í 255.

2) [syni Árna Guðmundarsonar og Þorgerðar Tyrfingsdóttur, b. v. 254.

3) þau (ɔ: Þorsteinn og Arnfríður) áttu mörg börn: meðal annara Elenu, ektakvinnu Bjarna Péturssonar frá Staðarhóli; Ragnheiði, ektakvinnu Orms Daðasonar frá Gufudal, og Sigríði, sem enn lifir ógipt, b. v. 52.

4) [viðbætir eptir Sigurð Björnsson lögmann í 255.

5) Þorvarður, 254. 6) Bjarna, 254. 7) Jónsdóttur, 254.

17. Halldóra Guðmundardóttir, systir síra Jóns Guðmundssonar: hún giptist síra Guðmundi á Stað á Reykjanesi, syni síra Jóns þorleifssonar í Gufudal og Sigriðar Guðmundardóttur; þeirra börn: Tyrfíngur, síra Einar, Bjarni, Guðrún, Jón dó barnlaus, þórdís, Svanborg, [Guðrún[1].

Tyrfíngur Gvöndsson, stúderaði utanlands[2] og dó barnlaus.

Síra Einar Gvöndsson[3] giptist fyrst þóru Finnsdóttur Jónssonar í Flatey og Ragnhildar Torfadóttur; þeirra börn: Tyrfíngur, Guðmundur og Kristín, kvinna síra þórðar í Bitru. Síðar giptist síra Einar Sigríði Erlendsdóttur Magnússonar og þórdísar Henreksdóttur[4]; þeirra börn: síra Erlendur, Hannes, þorleifur, Gvöndur. þessi síra Einar kom í illt klamarí við Magnús bónda Arason á Reykhólum, og misti bæði staðinn og embættið (eg veit ekki æruna), og bjó á Kleifum[5] í Gilsfirði, sinni jörðu, anno 1640.

Bjarni Gvöndsson giptist Helgu, dóttur Ólafs Jónssonar[6] og Íngibjargar Fúsadóttur; hann átti Klett í Kollafirði og bjó þar; hans börn: [Guðmundur, Helgi, Íngibjörg, Halldóra, Ástríður, Sigríður. Guðmundur, skólagenginn, prestvígðist til Árness kirkju, giptist Guðrúnu Arngrímsdóttur frá Lángárfossi; Helgi var ogsvo skólagenginn, andaðist ógiptur og barnlaus; Íngibjörg, hennar maður Ívar Jónsson, Halldórssonar; Halldóra, á Erasmus Arngrímsson; Ástríður, hennar maður síra Jón Torfason frá Gerðhömrum, á Stað í Súgandafirði[7].

Guðrún Gvöndardóttir giptist síra Halldóri Jónssyni á Ferjubakka; þeirra börn: Halldóra, þóra, Sigríður. [Halldóra var þriðja kvinna Gísla Ólafssonar á Bæ í Breiðafjarðardölum[8].

þórdís Guðmundardóttir giptist síra Arnfinni, syni Sigurðar Arnfinnssonar (Guðmundarsonar), undir Staðarfelli. Arnfinnur

---

1) [og launbörn síra Guðmundar: Gunnar, Guðrún, Valgerður, 251.

2) var með þeim commissariis Fridrick Fris og Jurgen Vind 1618; sigldi svo aptur með þeim, og átti að fá þar prestakall, en andaðist þar áður en hann komst til embættisins, b. v. 251.

3) hafði siglt; hann fékk Stað eptir föður sinn, b. v. 251.

4) gerkens, b. v. 251.

5) inn til Kleifa flutti sig og þá fór ver;
enginn veit sina æfi fyr en öll er, b. v. 251.

6) frá Svarfhóli í Laxárdal, b. v. 251.

7) [b. v. 251. 8) [b. v. 251.

Gvöndsson átti Prestbakka, og var hans kvinna Helga systir Hrólfs Bjarnasonar[1] í Skagafirði. [Síra Arnfinnur Sigurðsson var nokkur ár kirkjuprestur í Rauðasands þíngum, eptir síra Sigurð austfirzka. Börn síra Arnfinns og þórdísar: síra Einar, Sigurður, Tyrfíngur, Vilhjálmur, þóra, Ragnhildur, Helga. Síra Einar Arnfinnsson, ógiptur, á Stað í Hrútafirði, átti eina dóttur áður en vígðist, Guðrúnu. — Sigurður Arnfinnsson, hans kvinna Margrèt Sigmundardóttir Gíslasonar frá Fagradal. — Vilhjálmur Arnfinnsson, hans kvinna þorkatla, dóttir Bjarna þórissonar; Vilhjálmur bjó á þóroddstöðum í Hrútafirði, var um nokkur ár sýslumaður yfir hálfri Stranda sýslu[2]. — þóra Arnfinnsdóttir giptist síra Teiti Einarssyni frá Stað í Steingrímsfirði; þeirra börn: Sigurður, Halldóra, tvær Sigríðar, Helga. — Ragnhildur Arnfinnsdóttir, hennar maður Ólafur Nikolásson frá Bæ í Hrútafirði. — Helga Arnfinnsdóttir, hennar maður Magnús Árnason Hrútfirðíngur[3].

Svanborg Guðmundardóttir giptist Bjarna Guðmundssyni frá Dúnk; þeirra börn: síra Guðmundur, austur[4] í Laugardælum í Flóa, sem átti Ástu Ormsdóttur [Vigfússonar, frá Eyjum í Kjós; þeirra börn: þórunn, Svanborg[5]. — Annar Gvöndur, giptist Ragnhildi Ásbjarnardóttur vestan af Rauðasandi, [föðursystur síra Jóns Ólafssonar, sóknarprests þar; þeirra börn: þórunn, Jón, Guðrún; þau fóru austur til Laugardæla að mistum sinum foreldrum. Guðmundur þessi átti og tvo launsyni: Hall og Jón, önduðust báðir barnlausir[6]. þriði Ólafur [Bjarnason, var hækjumaður; hans kvinna Guðný[7]; þórunn, sem átti Einar, son Gvöndar í Ólafsvík og Sigrúnar þórðardóttur; þeirra son Guðmundur [giptist Guðrúnu, dóttur Gísla Ólafssonar á Ánastöðum laungetinni, norðan af Vatnsnesi[8]; [milli manna átti hún barn við Jóni Hallkelssyni, sem heitir Jón, barnamaður, sem býr á Bjarnatúngu á Vatnsnesi[9]; seinni maður þórunnar var Einar, son Marteins Halldórssonar á Álptanesi[10]; þeirra börn:

---

1) þann. 254; Bjarnarsonar, rángt, 255. 2) um 1670; † 1675.
3) [b. v. 254. 4) b. v. (eptir Sigurði lögmanni Björnssyni?), 255.
5) [b. v. 254. 6) [b. v. 254. 7) [b. v. 254.
8) [b. v. 254. 9) [b. v. 255, eptir Sigurði Björnssyni lögmanni.
10) þórunn giptist aptur Einari Marteinssyni á Hvassafelli, nafnfrægum manni víða um Ísland, 254, og bætir við á öðrum stað: átti xx° í Hvassafelli, og bjó þar.

Bjarni, andaðist úngur, og Marío; [hana tóku Jón þórðarson á Glisstöðum og Orný Styrsdóttir, og ólu hana upp[1]. — Ragnhildur giptist Jóni [á Hafrafelli í Króksfirði[2], syni Odds Tumássonar og Íngibjargar Jónsdóttur; þeirra barn: Marío.

18. Helga Guðmundardóttir, systir síra Jóns Guðmundssonar, giptist Árna Loptssyni í Sælíngsdalstúngu; hann átti Ytra-Fell og Vík í Hrútafirði og Breiðabólstað. þeirra börn: Pètur, Guðmundur, Loptur, þuríður; Kristín, Sigríður og Hallfríður dóu barnlausar. Annar Guðmundur Árnason var sveinn hjá Birni heitnum Magnússyni, andaðist tvítugur barnlaus.

þuríður Árnadóttir átti við Nikulási Oddssyni laundóttur, Margrètu. þessi þuríður Árnadóttir átti Ólaf, son Jóns Óttarssonar [og þorbjargar Pálsdóttur frá Klúku í Hvolsdal, og bjuggu á Fellsströnd[3] og Skarðsströnd; þeirra börn: Gvöndur, þorsteinn, Árni, Guðríður og Kristín; Guðríður giptist Tumási á Eyri í Bitru.

Pètur Árnason átti tvær konur, sú fyrri var Margrèt Halldórsdóttir frá Hvammsdal, þeirra dóttir Guðrún, kona Jóns þorvaldssonar frá Auðbrekku norður. Seinni kona Pèturs var Kristín, dóttir þorleifs Jónssonar undir Múla vestur[4] og Hallbjargar Björnsdóttur, þeirra dætur þrjár: Halldóra, Sigríður, Ránka.

Guðmundur Árnason [bjó á ymsum jörðum í Saurbæ, fèlaus maður; hans kvinna var Elizabeth Bjarnadóttir frá Eyri í Tálknafirði; faðir þess Bjarna[5] var Jochum Griel Hamborgari; móðir Elízabeth hèt Sigríður, dóttir Jóns, systir Gvöndar á Haugi; þeirra börn: Sigmundur, Árni, Jón, Ólafur, Bjarni, Agnes, Arneiður[6], Setselja, Sigríður, Helga. — Sigmundur, giptist Valgerði, dóttur Nikolásar Árnasonar og Margrètar Jónsdóttur úr Saurbæ; — Bjarni giptist Solveigu, dóttur Jóns Hallssonar í Hrútafirði; — Helga giptist Steinólfi, syni Jóns Einarssonar í Bjarneyjum; þeirra börn: tveir Jónar.

Margrèt, dóttir þuríðar, átti Jón, son Gottskálks Jónssonar í Hundadal, sonar Jóns Gíslasonar á Tjörnum norður; móðir

1) [b. v. 254. 2) [b. v. 254. 3) Felli, 254.
4) b. v. 254. 5) Bjarnar, 255 (sumstaðar).
6) 254; í línunni í 255 stendur „Augmundur".

Jóns var Margrèt, dóttir Ólafs; þeirra börn: Ólafur, Jóhann, Árni, Snorri, Jón, Valgerður, þuríður og Guðrún[1].

Loptur Árnason í Sælíngsdal, hann átti fyrst þórunni, dóttur Bjarna Björnssonar á Læk og Setselju, sagðrar Sigurðardóttur, en kvisaðrar Eggertsdóttur; þeirra börn: Árni, Jón[2]. Síðar átti Loptur Helgu, dóttur síra Gísla Einarssonar, sem hèlt fyrst Vatnsfjörð og síðan Stað á Reykjanesi; hans kvinna var þórný Narfadóttir, sunnan frá Reykjavík.

19. Önnur Helga Guðmundardóttir, systir síra Jóns Guðmundssonar, giptist Eiríki Steinþórssyni frá Ökrum í Hraunhrepp; hann átti Lángárfoss. Móðir Eiríks var Sètselja Eiríksdóttir, systir Einars Eiríkssonar á Hvanneyri; þeirra börn: Jón Eiríksson, Steinþór, Vigfús, Ragnhildur.

Jón átti hálfan Lángárfoss, ólst upp i Hítardal, hjá síra Jóni frænda sínum, giptist þaðan og fèkk Guðlaugu Halldórsdóttur, Marteinssonar, frá Álptanesi og Herdísar Nikolásdóttur; þeirra börn: síra Halldór, Eiríkur, Helga. Síra Halldór átti hálf Miðhús, og fèkk til ekta Guðrúnu, dóttur Tyrfíngs Ásgeirssonar og þórdísar Hallsdóttur[3] frá Hjörsey; þeirra börn: Helga, Steinþór, Sigríður, Randalín; [hún þjónaði Mattíasi á Stapa[4]. Eiríkur Jónsson átti hálfan Lángárfoss og bjó þar; hans kvinna var Steinunn, dóttir Sigurðar heitins Ásgeirssonar[5] í Álptartúngu var, og Setselju Einarsdóttur; þeirra börn: Ásgeir, Sigurður, Ari, Jón. — Helga Jónsdóttir.

Steinþór Eiríksson giptist Hallbjörgu, dóttur Jóns þorleifssonar á Bæjarnesi og Helgu Bjarnadóttur[6], systur Andrèsar[7] á Melgraseyri; þeirra börn: Eiríkur, Helga.

Vigfús Eiríksson átti hálfan Lángárfoss; hann giptist Guðlaugu, dóttur Björgólfs í Ási Ásgeirssonar og Setselju Hallsdóttur[8]. Vigfús hafði verið sveinn hjá Ara Magnússyni og Pètri Pálssyni á Staðarhóli; hann keypti Stóra-Ás í Hálsasveit fyrir fasteign sína og konu sinnar, og bjó þar lengi; hans börn: Eiríkur, Ólafur, Jón, Steinríður, Halldóra; — Eiríkur

---

1) [af honum (Guðm.) er komið mart fátækt fólk um Saurbæ, 254 (annarst.).
2) síra Árni og síra Jón, 254.
3) Halldórsdóttur, 254.
4) [b. v. 254.
5) Arngrímssonar, 254.
6) þann. 254; Bjarnardóttur, 255.
7) saungmanns, b. v. 254.
8) Halldórsdóttur, 254.

iðkaði sig[1] og varð skólagenginn og vígðist; [var fyrst kapellán síra þórðar Jónssonar í Hítardal, og þar eptir fèkk hann Hjarðarholts stað, og varð prófastur um Dala sýslu; hann giptist Guðrúnu ýngri Steindórsdóttur, Finnssonar[2]; — Ólafur; — Jón; — Steinríður giptist Vigfúsi þórðarsyni, [sonar] síra Böðvars Jónssonar; móðir Fúsa var Guðrún Teitsdóttir frá Ásgarði. — Halldóra Fúsadóttir giptist Hannesi, syni Daða Gíslasonar og Íngunnar Sveinsdóttur.

Ragnhildur Eiríksdóttir giptist fyrst Einari, syni þorleifs Jónssonar undir Múla á Skálmarnesi og Hallbjargar Björnsdóttur; þeirra son hèt Einar eptir föður sínum; dó tvítugur barnlaus; varð úti á Hallruna um haustið 1632, krossmessu[3]. Seinna giptist hún Árna, syni Gísla Jónssonar frá Galtardalstúngu og þuríðar Fúsadóttur; þeirra dóttir Ragnhildur, giptist Jóni syni Björns Guðmundssonar frá Stóra-Skógi og Margrètar [Bjarnadóttur[4] Sumarliðasonar og Gyðríðar þorláksdóttur; þeirra börn: Gísli, Björn, Guðbjörg, Ragnhildur[5].

20. Orný hjábarn Guðmundar Jónssonar á Hvoli giptist síra Magnúsi, syni Pèturs prests Árnasonar, og hèlt Hvamm í Hvammsveit; móðir síra Magnúsar var Guðrún þórólfsdóttir; hafði sá þórólfur verið náskyldur biskup Ögmundi; því gjörði biskup honum jarðaskipti, fèkk honum fyrst Svínahól, þá fyrir hann Húsafell, og seinast fyrir það Brennistaði. Eptir því sem þórólfur græddi fèkk hann æ betri og betri jörð af biskupinum, og erfði svo Guðrún Brennistaði eptir föður sinn og bróður. Síra Magnús seldi Brennistaði fyrir Bæ í Miðdölum, bjó þar og hafði Dala þíng; hans dætur og Ornýjar: Guðrún og Helga.

Guðrún giptist fyrst síra Jóni, syni síra Nikolásar Narfasonar fra Hítarnesi og Íngigerðar Guðnadóttur; sá síra Jón hèlt Hitarnes eptir föður sinn og hafði Kolbeinstaða þíng; hann drukknaði með bróður sínum í fiskiróðri frá Hitarnesi; þeirra börn: Nikolás, Íngiríður, Kristín, Orný.

1) vel, b. v. 254. 2) [b. v. 254.

3) í krossmessusjúkinu, tvítugur, barnlaus, og erfði svo Ragnhildur Skáleyjar, 254. 4) 254; Bjarnardóttur, 255.

5) [þann 46; Halldóra Árna d., 255; Halldóra Árnadóttir andaðist ógipt anno 1648, 254.

Helga giptist Guðmundi, syni síra þórðar Brandssonar, sem hèlt Hjarðarholts stað, og þóru Guðmundardóttur; þeirra börn: þórður, Bjarni, Elín, Guðrún, Jón, annar Bjarni, Magnús, Guðmundur, Orný, Oddbjörg[1]. — Elín giptist Rögnvaldi Ólafssyni, frá Gröf í Miklaholtshrepp, móðir hans hèt Guðrún, dóttir síra Narfa Nikolássonar, en Ólafur maður hennar var Pètursson; sá Pètur átti Guðrúnu dóttur síra Bjarna; þeirra börn mörg: Sigríður, sem átti síra Ásmund í Miklaholti. — Guðrún, giptist Jóni Ólafssyni frá Gröf, bróður Rögnvalds.

21. Bjarni Jónsson, bróðir Guðmundar á Hvoli, giptist Guðrúnu dóttur Arnfinns Gvöndssonar og Helgu Bjarnadóttur[2] í Bæ í Hrútafirði; þeirra börn níu, sem til ára komust: Arnfinnur, [tveir Ögmundar[3], Gísli, Gunnlaugur, þorkatla, Sigríður, Björg, Orný.

Kvinna Arnfinns var Valgerður, dóttir Tumásar Jónssonar á Tindum í Geiradal og þorgerðar Jónsdóttur; þeirra börn átta á lífi: tveir Bjarnar, Ögmundur, Jón, Steinunn, Munnveig, Guðrún, Björg; — Munnveig, Steinunn, Björg, Bjarni barnlaus. — Bjarni giptist Sigríði, dóttur Sigurðar Sigurðssonar og Steinunnar Bernharðsdóttur; þeirra son Jón. — Ögmundur átti Íngveldi, dóttur Klemusar þorleifssonar í Húsavík, og Margrètar Bergsdóttur; þeirra börn: Bergur, Bjarni. — Jón Arnfinnsson giptist Sigríði Gvöndardóttur og Guðlaugar Ólafsdóttur frá Fagradal, af Herseyjar ætt. — Guðrún Arnfinnsdóttir giptist Bjarna Klemussyni, bróður Íngveldar; þeirra son: Ögmundur.

Ögmundur; hans kvinna var Guðrún, dóttir Böðvars Sigmundssonar í Purkey og Guðrúnar Sveinsdóttur af Skarðs ætt, þorleifs lögmanns; þeirra börn sjö: Böðvar, Bjarni, Jón, Ögmundur, tvær Guðrúnar, Sigurður. — Jón bjó á Efri-Brekku, og átti Sigríði, dóttur Jóns Bjarnasonar[4] á Ketilstöðum og Dorotheæ Halldórsdóttur frá Fróðá, þeirra börn fjögur: tveir Bjarnar, þorsteinn og Guðrún. — Guðrún giptist Halldóri, syni Jóns Ögmundssonar og Halldísar Aradóttur frá Brunná; þeirra börn þrjú.

---

[1]) b. v. 254.

[2]) þann 46, 255 (Bjarnardóttur); Hrólfs dóttur Bjarnasonar, 254.

[3]) [þann. 46; Ögmundur, 255, 254.

[4]) þann. 254; Bjarnarsonar, 255.

— Ögmundur annar, hans kona Guðrún, dóttir þorvalds Jónssonar, sem bjó í Saurbæ, og Helgu Björnsdóttur; lètu eptir sig eitt barn, Guðbjörgu, sem giptist Sturla Pèturssyni á Brekku í Saurbæ.

Gísli, hans kona fyrri hèt Steinunn, dóttir Ara og Margrètar Jónsdóttur, systur síra þórðar á Tindum; þeirra dóttir þorbjörg, barnlaus. Seinni kona Gísla hèt Guðrún þorsteinsdóttir, og áttu þau ekkert barn. Guðrún var og dóttir Gísla, hennar maður var Ólafur, sonur Gunnlaugs úr Skagafirði; þeirra börn: Ari, Gunnlaugur, Jón, þorbjörg.

Gunnlaugur prestur, hann giptist fyrst Sigríði dóttur Orms Jónssonar; hún dó barnlaus; síðan átti hann Íngveldi Sigurðardóttur frá Hlið í Hörðudal. Hann hafði Saurbæjar þíng og bjó á Hvoli.

þorkatla (Bjarnadóttir); hennar maður var Bjarni, sonur þórðar Jónssonar, bróðir Tumásar, Margrètar og Ástu; þeirra börn: Jón, Steinunn, Guðrúnar tvær, Ásta, Jóhanna, Ólöf. — Jón, barnlaus; — Steinunn átti þorlák, son Árna þorlákssonar og Valgerðar Nikolásdóttur; þeirra börn: Jón, Arnoddur, þorsteinn, þórður, Guðrúnar þrjár, Setselja, Hildur, Guðríður. — Jón þorláksson á Björgu, dóttur Bjarna Jónssonar og Guðríðar Jónsdóttur; þau búa í Saurbæ; — Arnoddur giptist Katrínu Sigurðardóttur úr Steingrímsfirði og Guðrúnar Atladóttur; þeirra börn: þorgerður, giptist vestur í Ísafjörð. — Börn þorkötlu: Guðrún, giptist Sighvati, syni Magnúsar og Helgu Ögmundardóttur, laungetinnar systur þórðar og Jóna. — Önnur Guðrún á þorgeir, norðlenzkan; þau [voru vestur í Ísafirði[1]; þeirra börn fimm. — Ásta, giptist þórarni af Ströndum og bjuggu í Grunnavík; þeirra börn tvö. — Jóhanna, átti Pál Gizursson Arnbjarnarsonar, úr Dala sýslu; þau bjuggu á Skarðsströnd; þeirra dætur þrjár. — Ólöf, átti Pál Magnússon, af Flateyjarætt, og bjuggu á Ósi í Steingrímsfirði; þeirra synir: Árni, Bjarni, Jón. — Guðrún (þriðja), giptist Hrómundi, syni Gunnlaugs, sveitarkarls í Dala sveit, og Guðríðar; þeirra börn sex.

Sigríður Bjarnadóttir[2], hennar maður var Jón þórðarson, bróðir Bjarna, sem átti þorkötlu; hans móðir Guðrún. — þeirra börn: Tumás, Margrèt, Guðrún, Bjarni. — Setselja, Kolbeinsdóttir hèt kvinna Tumásar; hans dóttir Íngibjörg, [kvinna Tyrfíngs

1) [bjuggu á Eyri í Mjóafirði vestur, 251. 2) Bjarnardóttir, 255.

Einarssonar[1]. — Bjarni Jónsson dó barnlaus. — Margrèt Jónsdóttir, hennar maður hèt Jón, sonur Jóns Ásgrímssonar[2] í Saurbæ og Guðbjargar Hallvarðsdóttur; þeirra dætur: Valgerður og Þórdís. — Guðrún, dóttir Sigríðar og Jóns Þórðarsonar[3], átti Pál Ketilsson í Belgsdal, Óttarssonar, og Guðrúnar Sveinsdóttur; lèt eptir sjö börn: Guðmund, Pètur, Björn, Guðrúnar tvær, Sigríður, Guðlaug.

Orný Bjarnadóttir[4] átti þrjá menn: Jón, Erlend, Ara; við þeim tvö börn: Erlend, Ara; þeir dóu úngir.

Björg Bjarnadóttir; hún dó barnlaus.

22. Jón, Þórður, Eiríkur, bræður Guðmundar á Hvoli, þeir dóu barnlausir.

Ögmundur, hann var 15 vetra þá hann drukknaði á Gassaskerjum á Breiðafirði með öðrum fleirum, af Páli Jónssyni og í hans ferð; lèt eptir eina dóttur, Guðrúnu; hennar maður var Jón Hjaltason í Saurbæ; þeirra börn: Sigríður og Philippus; hann dó barnlaus. Sigríður giptist Guðmundi, syni Sigurðar; þeirra börn: Jón, Bárður, Philippus, Sigurður, Þórður.

Guðrún Jónsdóttir, systir Guðmundar á Hvoli, átti Jón, son Pèturs í Saurbæ; þeirra börn: Halldór og Jón. Halldór átti Guðrúnu, dóttur Einars Jónssonar í Saurbæ; þeirra börn: Einar, Jón, Guðrún, önnur Guðrún, Elen. — Einar átti Guðrúnu, dóttur Bjarna Magnússonar á Melgraseyri, og átti þá jörð; þeirra börn: Halldór, Guðrún, Þuríður, Þóra; — Jón Halldórsson dó barnlaus; — Guðrún átti Bjarna, son Þorsteins Einarssonar á Skarðsströnd; þeirra börn fjögur í Bjarneyjum: Halldór[5], Guðrún; — hin önnur Guðrún dó barnlaus; — Elen átti Ögmund, son Magnúsar Jónssonar í Saurbæ, bróður Sighvats; þeirra börn: Halldór, Ögmundur, Guðrúnar tvær. — Jón bróðir Halldórs, en sonur Guðrúnar Jónsdóttur, giptist Björgu Sveinsdóttur; hans börn: Sveinn dó barnlaus; Bjarni, Guðrún, Helga, laungetin, barnlaus. — Bjarni átti Guðríði, dóttur Jóns Sveinssonar, sem var sveinn hja Daða í Snóksdal; þeirra börn:

---

1) [b. v. 251. 2) Arngrímssonar, 251.

3) Þorlákssonar hefir verið gjört úr Þórðarsonar í 255.

4) Bjarnardóttir, 255.

5) sem strýktur var fyrir galdur, b. v. 46

Steinþór, Jón, Björg. Steinþór Bjarnason átti fyrst þuríði Gunnarsdóttur, hennar dóttir Guðrún; aptur giptist Steinþór Guðrúnu Jónsdóttur vestan af Vestfjörðum. — Jón Bjarnason[1], bróðir Steinþórs, giptist Guðrúnu Erlendsdóttur. — Björg Bjarnadóttir[2] á Jón þórláksson í Saurbæ. — Guðrún (Jónsdóttir), átti þorstein Jónsson Böðvarssonar utan úr Helgafellssveit, og Guðrúnar þorsteinsdóttur; þeirra börn: Jón, Ólafur, Guðrún, Íngigerður, voru í Saurbæ.

23. Helga Jónsdóttir, systir Guðmundar á Hvoli, átti Jón, son Björns, sem seldi Gvöndi Jónssyni Múla neðri; þeirra börn voru: Björn, barnlaus; Guðmundur á Gufuskálum, sem átti Sigríði, dóttur Halldórs Ormssonar og Sunnefu; þeirra dóttir þuríður, giptist Vigfúsi, syni Sigurðar þorbjarnarsonar og Sigríðar Stephánsdóttur; þeirra börn: Helga, Guðmundur. — Eiríkur átti Guðrúnu Gunnlaugsdóttur, og bjuggu á Reykjanesi; þeirra börn: Tumás, giptist Guðríði, dóttur Eyjólfs Helgasonar og Ólufar Jónsdóttur; þeirra börn: Eyjólfur. — Auðunn Eiríksson átti Helgu, dóttur Böðvars Árnórssonar, sem hann átti við Kristínu, dóttur síra Árna í Látrum. Sunnefa giptist Jóni, syni Oddgeirs í Steingrímsfirði.

24. Af Jóni þórðarsyni, systursyni biskups Ögmundar, er þetta talið; [en hans systkin og þeirra afsprengi fylgir nú á eptir[3].

Elín þórðardóttir, systir Jóns þórðarsonar á Hvoli, hún átti Jón; þeirra börn: Guðrúnar tvær, Halldóra, Orný. Guðrún sofnaði í guði í elli sinni; skildi eptir einn son, hèt Jón Pálsson; hann átti mörg börn, sem hröktust á fátæki með síuum börnum um Laxárdal og Hrútafjörð; hans kvinna hèt Guðríður. — Önnur Guðrún átti Ara; eina dóttur, að nafni Halldís, hennar maður Jón Ögmundsson á Brunná, hennar börn vinnufær í Saurbæ, Halldór og Guðrún; Halldór býr nú í Saurbæ og á Guðrúnu Ögmundardóttur. — Halldóra, hennar son Bjarni, hans börn á hreppum tvö: Oddur og Guðrún. — Orný, hennar dóttir Íngibjörg, sem átti Gunnar Guðmundsson á Reykjanesi,

1) Bjarnarson, rángt, 255.
2) Bjarnardóttir, rángt, 255.
3) [b. v. 254.

launbróður síra Einars Guðmundssonar, og bjargast þau vel; þeirra börn: Jón, Oddleifur, Ínga; — [Jón Gunnarsson, bjó að Hóli í Saurbæ; — Oddleifur Gunnarsson, bjó á Hamralandi á Reykjanesi; hans kvinna Jóhanna Gísladóttir[1].

25. Ásdís Pálsdóttir, önnur systir biskups Ögmundar; hennar maður hèt Eyjólfur Jónsson á Hjalla; þeirra börn voru: síra Sigmundur Eyjólfsson, Þórólfur Eyjólfsson, Páll Eyjólfsson, Ólafur Eyjólfsson, Sturli Eyjólfsson, Ormur Eyjólfsson, Óluf Eyjólfsdóttir.

Síra Sigmundur Eyjólfsson átti ekki barn, utan Katrínu, hennar móðir var Þuríður stóra, móðir Jórunnar og Þórunnar. Síra Sigmundur fèkk Hítardal eptir síra Þórð andaðan og tók svo Þuríði með staðnum. Biskup Ögmundur hafði með prestanna samþykki kjörið þenna sinn systurson til biskups eptir sig og sigldi hann anno 1537, vígðist, og var biskup xix nætur, því honum vildi það til, að hann fèkk mein í fótinn strax eptir það hann var vígður, var það kallað jötunoxi eður átumein; svo andaðist hann í Noregi. Með honum sigldi síra Árni Arnórsson í Hítardal, sem var hans prestur, hann hafði líka fengið snert af þessu meini strax eptir afgáng síra Sigmundar, en engelskur maður nokkur hafði gjört að því.

Katrín Sigmundardóttir, hún var fædd anno 1532; hennar son síra Jón Egilsson, sem hèlt Hóla í Hreppum, og síra Ólafur, sem var í Vestmannaeyjum; Einar Egilsson, sem bjó á Bergbyl; Eyjólfur Egilsson, sem bjó lengstum í Borgarfirði; Sigmundur Egilsson fyrir austan. Eignarmaður Katrínar var Egill Einarsson, sem átti alla Snorrastaði í Laugardal. — Síra Jón Egilsson[2] átti Þórdísi, dóttur [Bjarna Einarssonar[3]. Þeirra son síra Páll, sem hèlt Klausturhóla; hans kona var Þorgerður, dóttir Þormóðs Ásmundssonar og Íngibjargar Þorsteinsdóttur; þeirra börn: Árni Pálsson á Skúmstöðum á Eyrarbakka, sem átti Ástu, dóttur Sigurðar[4] Ólafssonar, sem átti Bakkarholt. — Sigríður Pálsdóttir, sem var á Hrauni í Ölvesi, sem átti Björn, son Ólafs á Tannastöðum: þeirra börn tvö; hún átti og

1) [b. v. 254.
2) Þ. e. síra Jón, sem ritaði Biskupa-annála, sbr. Safn til s. Ísl. I, 17—20.
3) [b. v. 254. 4) Sigmundar, 254.

eitt barn við sínum fyrra manni, síra Halldóri[1] Jónssyni[2]. — Íngibjörg Pálsdóttir á Ólaf, bróður Álfs Gíslasonar á Reykjum. — Síra Jón Jónsson, bróðir síra Páls, var prestur í Vestmannaeyjum anno 1649. — Síra Brandur Jónsson, sem var í Guttormshaga í Holtum; hans kvinna [Guðný, dóttir Jóns Magnússonar á Núpi, bróður Erlends Magnússonar og Guðrúnar Jónsdóttur; þau áttu mörg börn: Erlendur, Kristín, Brynhildur, þórdís. — Erlendur,[3] sem kviksetti með öðrum úngum mönnum pilt nokkurn í blautum sandi [í Rángárvalla sýslu[4], og lèt síðan úti eitt hundrað í samníngi þar fyrir, þá hann var kominn til lögaldurs. — Sveinbjörn (Brandsson), dó barnlaus. Katrín (Brandsdóttir), kona Diðriks þorsteinssonar. — Einar Egilsson átti Guðrúnu, [bjuggu á Berghyl[5]. — Síra Ólafur Egilsson átti fyrst Helgu Árnadóttur; þeirra dóttir Sigríður, sem átti síra Gísla þorvarðsson á Torfastöðum, sem var seinast í Vestmannaeyjum; þau áttu mörg börn; önnur kvinna síra Ólafs var Ásta, dóttir síra þorsteins Einarssonar og Guðrúnar þorsteinsdóttur; [síra þorsteinn var hálfbróðir síra Gvendar á Stað, laungetinn[6]. þau voru bæði hertekin af Tyrkjum og komu bæði aptur; þeirra dóttir Helga, sem átti Finn Guðmundsson í Snjallshöfða.

26. þórólfur Eyjólfsson giptist Margrètu, dóttur Erlends lögmanns þorvarðssonar; hennar móðir hèt Íngveldur Jónsdóttir, frilla Erlends lögmanns. þeirra börn: þorvarður, Sigmundur, þórunn, Vigdís og Jarðþrúður, kvinna síra Jóns Krákssonar. — þorvarður þórólfsson giptist Vilborgu, dóttur herra Gísla Jónssonar og Kristínar Eyjólfsdóttur, þau bjuggu lengstum á Suður-Reykjum; þeirra börn: Erlendur, Magnús, Gísli, Kristín; þórður og Jón dóu utanlands.

Erlendur giptist Katrínu, dóttur síra Einars þórðarsonar og Guðrúnar Marteinsdóttur; þau bjuggu á Suður-Reykjum; þeirra börn, sem á legg komust: þórður, Vilborg, Guðrún, Einar, þorvarður, Guðrún (önnur), Arnbjörg og Ólöf. þórður Erlendsson giptist Íngibjörgu, dóttur Eiríks Magnússonar og Guðfinnu; [hann varð lögrèttumaður; hans son Ísleifur, og á

1) þann. 255 upphaflega, og 46; Oddi, 251, 255 utanmáls.
2) frá Miklagarði norður, b. v. 251.
3) [251; þau áttu fjögur börn, einn þeirra son var Erl., 255.
4) [b. v. 251. 5) [b. v. 251. 6) [utanmáls 255.

Önnu Markúsdóttur frá Ási í Holtum; þeirra börn: Einar, Kristín, Rannveig, Guðfinna[1]. — Vilborg átti síra Fúsa Egilsson, sem var skólameistari á Hólum [og síðan kirkjuprestur[2]; hún andaðist barnlaus anno 1644. — Óluf, átti Sigurð Núpsson frá Esjubergi, Sigurðssonar; móðir Sigurðar var Guðrún Jónsdóttir. — Guðrún Erlendsdóttir átti síra Jón, son þorsteins Diðrikssonar og Vilborgar þorleifsdóttur. — Einar Erlendsson [giptist Gunnhildi frá Hvammi í Kjós, Jóns dóttur Hannessonar; þeirra börn: þórður, Hannes, þormóður, Guðni[3]. — þorvarður Erlendsson[4].

Magnús þorvarðsson giptist þóru, dóttur Sigurðar Jónssonar í Einarsnesi og Ragnhildar Ásgeirsdóttur; hann átti Guðnabakka, Skaga, Innstavog; þeirra börn: þorvarður, Sigurður, þuríður, Kristín, Guðrúnar tvær, Vilborg, þórunn. Eldri Gunna á Jón Benediktsson í Lángholti; þeirra börn: Sigurður, Ásbjörn, [Sigríður, Guðrún, Guðríður[5]. — Ýngri Guðrún á Pètur Árnason á Guðnabakka; þeirra börn: Árni, [þóra, Ursala, Gróa[6]; [Kristín á Nikolás Einarsson frá þíngnesi: þeirra barn Gísli: hans kvinna Helga, dóttir þórðar Ormssonar og Íngibjargar Guðmundsdóttur[7].

Gísli þorvarðsson hafði þúngan krånkleika, kom ofan yfir hans höfuð; hvarf hann svo um síðir burt, að hann varð ekki fundinn.

Kristín þorvarðsdóttir var önnur kvinna Jóns heitins Fúsasonar, þorsteinssonar, og Önnu Eyjólfsdóttur í Dal; hún varð veik og andaðist barnlaus.

27. Sigmundur þórólfsson á Hofi á Rángárvöllum átti Margrètu, dóttur Björns þorleifssonar á Keldum; þeirra börn: Ögmundur, Örnólfur, tveir Pálar, tvær Kristínar, Helga, Ásdís, þuríður. Ásdís átti Guðmund Eyjólfsson á Hofi; þeirra börn: þórólfur, hann á Guðrúnu, dóttur Magnúsar, sonar síra Gvöndar í Gaulverjabæ og Önnu; þeirra barn Magnús. — Finnur, hann á dóttur síra Ólafs Egilssonar, sem áður segir, Helgu Ólafs-

1) [utanmáls b. v. 255. 2) [b. v. 254.

3) [b. v. í 255 eptir síra H. B. S. (Hannesi Björnssyni?).

4) giptist Solveigu, dóttur Magnúsar Ísleifssonar og Helgu Oddsdóttur frá Saurbæ, b. v. 255 eptir síra H. B. S., en síðan dregið út aptur.

5) [utanmáls eptir S(igurði) B(jörns) S(yni) í 255.

6) [þannig utanmáls 255; í textanum hefir staðið: (Árni), Jón, Gísli, en dregið í. 7) [þannig utanmáls 255.

dóttur. — Björn, hann bjó á Flagellu, hann átti Guðríði, dóttur síra Erasmusar Vilhatssonar. — Sigmundur Gvöndsson; [hann átti Helgu Eiríksdóttur, ættuð af Síðu[1]. — Örnólfur (Gvöndsson), hann bjó á Hellum á Landi; hans kvinna hèt Hallbera, norðlenzk. — Örnólfur (Sigmundsson) trúlofaðist dóttur síra Hinriks í Villingaholti 1610, og voru saman nokkur ár. — Páll (Sigmundsson) átti Kristínu Erasmusdóttur frá Breiðabólstað, og áttu ekki barn. — Magnús Guðmundsson, [ógiptur, velgáfaður í handverki, bjó á Skarfanesi; dó á alþingi bráðlega[2]. — [Kolbeinn Guðmundsson[3].

Þórunn Þórólfsdóttir giptist síra Erasmusi Vilhatzsyni á Breiðabólstað austur, og var hans seinni kvinna; þeirra börn: Helga, Margrèt. [Helga giptist Eiríki, syni síra Árna Gíslasonar; — Margrèt, móðir Solveigar Árnadóttur, kvinnu Ámunda Þormóðssonar í Skógum[4].

28. Jarðþrúður Þórólfsdóttir átti síra Jón Kráksson í Görðum á Álptanesi; hans faðir var Krákur Hallvarðsson, en móðir Helga Jónsdóttir; þeirra börn: Síra Ólafur, sem hèlt Garða stað suður og var alla æfi ógiptur[5]; Sturli Jónsson [var ættleri, hans kvinna Guðrún, dóttir Jóns Magnússonar í Hróarsholti lögrèttumanns[6]; hans börn: síra Böðvar, Jón, [Jarðþrúður, Ása, Þóra. Síra Böðvar Sturlason var locator í Skálholti, fèkk síðan Valþjófstað; hans kvinna var dóttir síra Einars, sem hèlt áður þann stað[7]. Jón Sturlason [á dóttur Jóns barskera Sigurðssonar[8]; [Þórður Sturlason[9] eignaðist Guðrúnu Einarsdóttur af Úthlíðar ætt[10].

Margrèt (Jónsdóttir) sem átti Gísla lögmann Hákonarson í Bræðratúngu; þeirra börn:

Þórður, hann andaðist barnlaus.

Vigfús, hann var sýslumaður og átti Katrínu Erlendsdóttur[11],

1) [sl. 254.

2) [þann. 255 utanmáls eptir Sigurði Björnssyni; dó barnlaus, 255.

3) [sl. 254, en hnýtir við: þessir Gvöndssynir voru mestu hreystimenn á sínum dögum haldnir.

4) [b. v. 254, en hefir þó: „Margrèt, kvinna Ámunda", sem er rángt.

5) var skírlífur maður, b. v. 254. 6) [b. v. 254. 7) [b. v. 254.

8) [b. v. í 255 eptir Sigurði lögm. Björnssyni.

9) býr í Laugarnesi, b. v. 46.

10) [b. v. í 255 eptir Sigurði Björnssyni lögmanni, og sama stendur í 16 að efni til.

11) hafði Rángárvalla sýslu og sat að Stórólfshvoli, 254.

á Stórólfshvoli; þeirra börn fimm: Gísli, tveir Jónar, Sölvör, þorbjörg.

Hákon Gíslason lögmanns, giptist Helgu Magnúsdóttur, og bjó í Bræðratúngu og hèlt Árnessýslu; þeirra börn: Vigfús, andaðist barnlaus; Elen, Sigríður, Jarþrúður. — [Vigfús andaðist vel tvítugur eptir að út kom úr siglingu; — Elen kvinna síra Guðbrands Jónssonar, prófasts í Vatnsfirði; þeirra börn: Vigfús, Jón; — Sigríður, kvinna síra Sigurðar Sigurðssonar prófasts á Staðarstað; þeirra börn: Oddur, Helga, Jarþrúður, kvinna Magnúsar Sigurðssonar í Bræðratúngu[1].

Kristín Gísladóttir lögmanns giptist herra þorláki Skúlasyni biskupi á Hólum; hann var góðlátur höfðíngi; þeirra börn: Gísli, Skúli, Guðbrandur, Jón, þórður, Elen.

[Herra Gísli biskup á Hólum átti fyrst Gróu, dóttur þorleifs Magnússonar á Hlíðarenda; þar næst átti hann Íngibjörgu, Benedikts Haldórssonar dóttur; þriðja hans kvinna var Ragneiður Jónsdóttir frá Vatnsfirði; hann andaðist anno 1684. — Síra Skúli[2] prófastur á Grenjaðarstað, átti fyrst Guðrúnu, Benedikts Halldórssonar dóttur, þar eptir Elenu Sigurðardóttur fra Skútastöðum. — Guðbrandur[3] átti þórunni, Benedikts Halldórssonar dóttur; þeirra börn: Ragneiður. — Magister þórður[4] biskup í Skálholti; hans kvinna Guðríður Gísladóttir Magnússonar, þeirra börn: þorlákur, Brynjólfur. — Jón[5], hans kvinna Setselja Hall-

1) [b. v. utanmáls 255, eptir S. B. S. (Sigurði Björnssyni lögmanni).

2) sigldi úngur, var til skóla í Kaupinhafn, stúderaði þar einnig, var hèr síðan skólameistari á Hólum, b. v. 254.

3) var og í skóla, sigldi þar eptir til Hamborg, b. v. 254.

4) sigldi einnig, eptir það útlært hafði í Hóla skóla, kom aptur, og var skólameistari á Hólum um þrjú ár; sigldi aptur og var lengi utan, til Roskild og víðar; fèkk gradum magisterii; kom út aptur á Eyrarbakka með biskups embætti yfir suður stiptinu, að ennþá lifanda Mag. Brynjólfi Sveinssyni, sat herra þórður vicebiskup þann vetur á Hólum, hjá bróður sínum herra Gísla, voru þá þrír biskupar á Íslandi; hann tók aldeilis við stólnum þá Mag. Brynjólfur af gekk 1675, um sumarið eptir alþing, b. v. 254.

5) sigldi ogsvo, og þènti hirðstjóranum Admiral Henrik Bjelke; kom síðan hingað og fèkk Möðruvalla klaustur, hvert áður fengið hafði af umboðsmanninum á Bessastöðum, Tómasi Nicolai, Jón Eggertsson, hvaraf með öðru misklíð varð og sundurþykki hans og Hólafólks á milli; en Jón þor-

grímsdóttir frá Glaumbæ. — Elen, kvinna þorsteins þorleifssonar sýslumanns[1]; [þeirra barn: þrúður[2].

Valgerður Gísladóttir lögmanns giptist Eggert Björnssyni, sem átti Skarð á Skarðströnd og Bæ á Rauðasandi; hann var göfugmenni og hafði með Barðastrandarsýslu og átti miklar eignir; þeirra börn: Daði, Gísli, deyðu báðir barnlausir, dætur: Guðrúnar tvær, Arnfríður og tvær Helgur. [Guðrún var kvinna Björns Gíslasonar, Magnússonar; — Arnfríður kvinna þorsteins þórðarsonar[3].

Vigdís þórólfsdóttir giptist seinna þorláki Einarssyni vestur á Núpi í Dýrafirði; hann var bróðir herra Gizurs Einarssonar í Skálholti; þorlákur var einn í lögmanns kjörum með þórði Guðmundssyni og Gísla heitnum Sveinssyni; þeirra börn: Jón þorláksson lögrèttumaður anno 1649, [bjó lengi í Kerlíngarfirði; hans kona þóra Eyjólfsdóttir[4].

29. Páll Eyjólfsson á Hjalla; hans kvinna var Guðrún Fúsadóttir, laundóttir Fúsa lögmanns, en hálfsystir Páls Fúsasonar lögmanns; þeirra börn: Páll Pálsson á Hjalla, hans kvinna Birgit; þeirra börn: Björn, Birgit, Guðrún, Halldóra; — Björn Pálsson í Arnarbælishverfi, hans kvinna Guðrún, dóttir Erlíngs Gíslasonar og Sigríðar, sem átti Fjall í Ölvesi; þeirra börn: Páll. — Birgit Pálsdóttir, átti þorstein eldra Erlíngsson í Fjalli. — Guðrún Pálsdóttir, átti Ólaf, son Brands Brandssonar, bjó á Hrauni í Ölvesi; þeirra börn: Brandur. — Halldóra Pálsdóttir átti þorstein yngra Erlíngsson áðurnefnds, og bjuggu í Ölvesi.

Ólafur Eyjólfsson bjó á Bakkarholti; hans sonur Sigurður, sem þar bjó í tíð herra Odds Einarssonar.

Sturli Eyjólfsson, sem átti Laugardal í Tálknafirði, hans [kvinna Guðrún; þeirra[5] son Gottskálk, sem erfði Geirseyri[6] og[7]

---

láksson hèlt og hafði síðan klaustra skipti við systurmann sinn þorstein þorleifsson á Skriðu austur, b. v. 254.

1) og Setzelju Björnsdóttur, b. v. 254. 2) [b. v. 255, eptir Sigurði Björnssyni.

3) [b. v. 255, eptir Sigurði Björnssyni lögmanni. — Björn, Vigfús, Elín, Ragneiður, þorbjörg, Sigríðar tvær, önduð; alls fjórtán, b. v. 251.

4) [b. v. 254. 5) [b. v. 251.

6) þann. 254; Gesteyri, 255 með nýjari hendi.

7) héðan frá og fram undir endann í 31. kap. er tekið eptir 254, en vantar í 255, svo þar er einúngis: „hans son Gísli", og þar næst talin Ólaf Eyjólfsd. (sjá bls. 301).

flutti sig þángað að sunnan, vestur í Patreksfjörð; hans kvinna Gyríður, dóttir síra Árna á Þíngvöllum og Vedísar; þeirra börn: Gísli, Jón, Sturli, Ólöf, Guðrúnar tvær, Þórdís; hún átti Sigmund Einarsson fálkafángara. — Gísli Gottskálksson fèll með systurdóttur sinni, dóttur Ólöfar, átti að takast, en varðist á laun hjá frændfólki sínu um nokkur ár, sigldi síðan í England og dó þar; kom hèr opt á fiskiduggum; — Jón Gottskálksson giptist Gunnhildi, dóttur Ólafs laungetna, Björnssonar, Eggertssonar lögmanns; móðir Gunnhildar var Íngveldur Þorláksdóttir undan Núpi; þeirra börn: Þórólfur, Gottskálk, Íngveldur. Þórólfur Jónsson bjó á Vatneyri, eignarparti sínum, hans kvinna Helga, dóttir Jóns Ívarssonar og Sigríðar Bjarnadóttur; þeirra börn: Ívar, Sturli, Bjarni. Þórólfur var reppstjóri í Rauðasands sveit, einn frómur góður maður; hann andaðist 1674, 27. Decembris, í taksótt. — Gottskálk Jónsson var misjafnari haldinn, sigldi í England, kom ei aptur. — Íngveldur Jónsdóttir, giptist Helga Þorlákssyni. — Þorlákur Jónsson dó barnlaus. —

30. Sturli Gottskálksson bjó á Geirseyri lengi, hans fyrri kvinna var Herdís, dóttir síra Magnúsar Eyjólfssonar, hverja áður átt hafði Ívar Eyjólfsson, sá er drukknaði. Sturli og Herdís áttu engin börn meina eg, voru ei lengi saman. Sagt er eptirmynd þess dauða hafi lagzt fyrir ofan hana þá Sturli lá fyrir framan, en þá fyrir framan er Sturli lá fyrir ofan. Geymi vor drottinn fyrir djöflinum! — Sturli giptist aptur Sigríði, dóttur Björns Konráðssonar, Jóns sonar Íslendings; þeirra dætur tvær: Gyríður, kvinna Einars Egilssonar á Geirseyri, og Arneiður, kvinna Halls Björnssonar í Kvígyndisdal. Sturli og Sigríður áttu og Bjarna, Jón, Guðrúnu, barnlaus. Sturli átti launson við Guðrúnu, hèt Jón; hann sigldi í England, kom aptur og giptist Sigríði, dóttur Odds Jónssonar, í Kollsvík bjó lengi; hennar dóttir eða þeirra beggja er Guðrún, sú er Hallur Björnsson fèll með fyrri framhjá konu sinni Arneiði; stúlkan heitir Sigríður.

Ólöf Gottskálksdóttir; hennar maður Jón Jónsson; þeirra börn: Steinunn. Steinunn var seinni kona Gvöndar Jónssonar, á Hnjóti lengi bjó; — Jón, faðir Gvöndar, var bróðir Odds í Kollsvík; — þeirra börn: Jón, Þorsteinn, annar Jón, Guðrún, Sigríður, Ásdís (en ekki Hjalla-Dísa), Þorgerður.

Jón eldri Gvöndsson giptist Hergerði, dóttur Jóns Svartssonar og Sigríðar Þorsteinsdóttur, Ormssonar, Erlíngssonar.

þau búa á Hnjóti í Höfn; þeirra börn: Guðrún, Jón, þorsteinn, Helga, Ólöf. — þorsteinn Gvöndsson drukknaði í mannskaðabylnum 1665. — Jón ýngri Gvöndsson, kallaður pretinn, drukknaði þá líka. — Guðrún Gvöndardóttir, veik, ógipt. — Sigríður Gvöndardóttir var síðari kona sira þorbjarnar Einarssonar, eptir Helgu sálugu Arngrímsdóttur; barnlaus. — Ásdís stóra, kumluð, veik, ekki til giptínga. — þorgerður, óviðfellin, mun ei giptast.

Guðrún önnur Gottskálksdóttir, giptist Páli, syni Gunnars Borgarssonar og Kristínar Ketilsdóttur; — sá Borgar er sagt væri sunnan að, kom vestur þá síra Gísli Jónsson, sem síðar varð biskup, hélt Selárdal, því hann var skyldur honum að sögn. Borgar drukknaði fyrir Lokinhömrum á farmaskipi Eggerts lögmanns Hannessonar, er fóru úr kaupstað. — Börn Páls og Guðrúnar: Borgar, Bjarni, Gunnlaugur, Guðrún, Gyríður.

Borgar Pálsson, giptist Guðrúnu, dóttur Jóns Ívarssonar.

Bjarni Pálsson, giptist Salgerði, dóttur Jóns Hafliðasonar; þeirra börn: Jónar tveir, Guðmundur, Kristín, Guðrún.

Gunnlaugur Pálsson, giptist Helgu, dóttur Egils Bjarnasonar og Jórunnar Ólafsdóttur. Gunnlaugur krenktist; máttu lítt, fór trössulega; þeirra börn: Egill, Helga, Jórunn.

Guðrún Pálsdóttir, giptist Stóra-Jóni í Túngu í Höfn, syni Jóns (murta, kallaður var) Jónssonar, og Guðrúnar Björnsdóttur Konráðssonar; þeirra börn: Eyjólfur, Andrès, þórdís, Guðrúnar þrjár, Hólmfríður, Sigríður, Elín.

Gyríður Pálsdóttir, giptist Jóni, syni þórðar Jónssonar og Sigríðar Diðriksdóttur, systur Lassa, er brendur var; hún var hans fyrri kvinna, andaðist af barnför; en Jón giptist aptur þórunni, dóttur Ólafs Hannessonar.

31. Guðrún önnur Gottskálksdóttir, giptist Borgari Gunnarssyni, bróður Páls. þeir bræður Páll og Borgar bjuggu báðir í Breiðavík, og drukknaði Borgar þar. þeirra börn: Árni, Valgerður, Setzelja, þorgerður.

Árni Borgarsson sigldi með Dönskum á Vatneyri eitt ár; giptist síðan Guðrúnu; þeirra börn: Jón, Borgar, Steinunn. Árni giptist aptur Guðlaugu Jónsdóttur, af Skarðströnd ættaðri, systur Indriða, hreppstjóra á Skarðströnd. þeirra dætur tvær: Guðrún og Björg.

Valgerður Borgarsdóttir giptist Ögmundi ditt, syni Jóns Andrèssonar úr Arnarfjarðardölum; barnlaus.

Setzelja Borgarsdóttir, giptist fyrst Torfa Andrèssyni; hann meina eg kominn væri af Guðrúnu ýngri Björnsdóttur, Rúnku; þeirra börn: Borgar, Guðrún kvinna Pèturs Loptssonar, Hallssonar. Setzelja giptist aptur Lopti Hallssyni lögrèttumanni, föður Pèturs. — Þorgerður Borgarsdóttir giptist Jóni, syni Odds í Kollsvík. Jón drukknaði 1658 og tveir aðrir, en Gunnar son þeirra komst af og giptist Gyriði Bjarnadóttur og Þorgerðar Sigurðardóttur. — Sigríður Borgarsdóttir giptist og, hennar maður Dagur Jónsson, Indriðasonar; þeirra börn: Böðvar. Item Guðrún Dagsdóttir, hennar maður Þormóður Jónsson; þeirra börn: Jón; — Helga Dagsdóttir.

Gísli Sturlason (Eyjólfssonar) drukknaði á Suðurnesjum. — Eyvör Sturladóttir var móðir lærða Gísla og Jóns, Jónssona. — Guðrún Sturladóttir; hennar maður hèt Snæbjörn, sonur síra Erlends; þeirra börn: Eyjólfur, kom vestur með móður sinni, giptist Ólöfu Þórðardóttur; — þeirra börn: Erlendur Eyjólfsson, sem brendur var fyrir galdur 1669; hans kona var Solveig, dóttir Eyjólfs af Skarðströnd og Lilju. Þeirra börn: Valgerður, Jón; hin dóu. — Item launbarn Erlends Eyjólfssonar Þuriður, er Þórður Halldórsson hefir átt börn við, hennar móðir hèt Guðrún Bjarnadóttir. — Erlendur átti barn áður giptist við Guðrúnu Ásbjörnsdóttur ýngri, heitir Eyjólfur, búandi á Stokkum. — Snæbjörn Eyjólfsson hjáleigumaður á Rauðasandi, kvinna Þorgerður; þeirra börn: Jón, Aron, Íngveldur. — Guðrún eldri (Eyjólfsdóttir), móðir Vilborgar í Vatnsdal. — Guðrún ýngri (Eyjólfsdóttir) í Tálknafirði; hennar son Jón Oddsson, item dætur: Sigríður, Valgerður, item Eyjólfur.

Óluf Eyjólfsdóttir giptist Eiríki Snjólfssyni austur í Ási.

32. SALNÝ PÁLSDÓTTIR kvinna Snjólfs bónda Brandssonar austur í Ási í Hèraði er sögð systir biskup Ögmundar; af þeim eru komnir Ásmenn. Eptir afgáng Snjólfs Brandssonar eignaðist Torfi bóndi Þorgrímsson Salnýju; hann fèll framhjá henni, og svallaði sínu fè.

Eiríkur bóndi Snjólfsson er sagt átt hafi Ólufu Eyjólfsdóttur, item hans kona hafi heitið Þuríður, austur í Ási, Þorleifsdóttir; móðir hennar Solveig Hallsdóttir frá Möðruvöllum; þeirra dóttir kona Magnúsar Björnssonar, Halldóra Eiríksdóttir, og Ólöf, kona Magnúsar Fúsasonar austur.

## Ættkvísl Ögmundar biskups og systkina hans.

I.




1) systkin Guðmundar Jónssonar á Hvoli (§ 12):
Bjarni Jónsson (§ 21). Jón Jónsson (§ 22). Þórður Jónsson (§ 22). Eiríkur Jónsson (§ 22). Ögmundur Jónsson (§ 22). Guðrún Jónsdóttir (§ 22). Helga Jónsdóttir (§ 23). Orný Jónsdóttir (§ 12)).

2) systkin síra Jóns Guðmundssonar í Hítardal (§ 14):
Halldóra Guðmundardóttir (§ 17). Helga Guðmundardóttir (§ 18). Helga önnur Guðmundardóttir (§ 19). Orný Guðmundardóttir, laungetin (§ 20).

3) systkin síra Þórðar Jónssonar í Hítardal (§ 15):
Guðmundur Jónsson (§ 15). Helga Jónsdóttir (§ 15). Þórunn Jónsdóttir (§ 15). Guðrún Jónsdóttir (§ 15). Kristín Jónsdóttir (§ 15). Gísli Jónsson (§ 15). Gísli Jónsson, laungetinn (§ 16). Bjarni Jónsson laungetinn (§ 16).

## Ættkvísl Ögmundar biskups og systkina hans.

### II.

Ásdís Pálsdóttir (§ 25) ⌣ Eyjólfur Jónsson á Hjalla í Ölfusi.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Sigmundur, vígður biskup † 1537 (§ 25). | Ólafur (§ 29). | Þórólfur Eyjólfsson (§ 26) ⌣ Margrèt Erlendsdóttir lögm. | Páll. (§ 29). | Sturli. [sjá III]. | Ormur. | Ólöf. (§ 31). |
| Katrín Sigmundardóttir (§ 25) ⌣ Egill bóndi Einarsson á Snorrastöðum.<br>\|<br>Jón pr. Egilsson í Hrepphólum (§ 25).<br>Ólafur pr. Egilsson í Vestmannaeyjum † 1639 (§ 25). | | Jarðþrúður Þórólfsdóttir[1] (§ 26. 28) ⌣ Jón pr. Kráksson í Görðum.<br>\|<br>Margrèt Jónsdóttir (§ 28) ⌣ Gísli lögm. Hákonarson † 1631.<br>\|<br>Kristín Gísladóttir[2] (§ 28) ⌣ Þorlákur Skúlason bisk. á Hólum † 1656.<br>\|<br>Þórður Þorláksson, biskup í Skálholti † 1697 (§ 28) ⌣ Guðríður Gísladóttir.<br>\|<br>Brynjólfur Þórðarson á Hlíðarenda (§ 28) (sýslumaður í Rángárvalla sýslu. † 1762 ⌣ Jórunn Skúladóttir.<br>\|<br>Þórður Brynjólfsson í Teigi.<br>\|<br>Skúli Þórðarson Thorlacius Rektor í Khöfn † 1815). | | | | |

1) systkin Jarðþrúðar Þórólfsdóttur í Görðum (§ 26. 28): Þorvarður Þórólfsson á Suður-Reykjum (§ 26) ⌣ Vilborg Gísladóttir biskups. Sigmundur Þórólfsson á Hofi á Rángárvöllum (§ 27). Þórunn Þórólfsdóttir á Breiðabólstað (§ 27) ⌣ Erasmus pr. Villadsson. Vigdís Þórólfsdóttir á Núpi í Dýrafirði (§ 28). sbr. Safn I, 611. Frá þessum systkinum má rekja margar ættir til merkisfólks fyr og síðar.

2) systkin frú Kristínar Gísladóttur á Hólum (§ 28): Þórður Gíslason (§ 28). Vigfús Gíslason sýslumaður (§ 28). Hákon Gíslason sýslumaður (§ 28). Valgerður Gísladóttir á Skarði (§ 29).

## Ættkvísl Ögmundar biskups og systkina hans.

III.

Ásdís Pálsdóttir (§ 25) ⌣ Eyjólfur Jónsson á Hjalla.

Sturli Eyjólfssson í Laugardal í Tálknafirði, sjá töflu II. (§ 25. 29).

Gottskálk Sturlason á Geirseyri (§ 29)[1] ⌣ Gyríður Árnadóttir.

Jón Gottskálksson (§ 29)[2] ⌣ Gunnhildur Ólafsdóttir.

Þórólfur Jónsson á Vatneyri, hreppstjóri † 1674 (§ 29)[3] ⌣ Helga Jónsdóttir.

Ívar Þórólfsson (§ 29).
Sturli Þórólfsson (§ 29).
Bjarni Þórólfsson (§ 29).

---

1) systkin Gottskálks Sturlasonar (§ 29): Gísli Sturlason (§ 31). Eyvör Sturladóttir (§ 31). Guðrún Sturladóttir (§ 31).

2) systkin Jóns Gottskálkssonar (§ 29): Gísli Gottskálksson (§ 29). Sturli Gottskálksson á Geirseyri (§ 30). Ólöf Gottskálksdóttir (§ 30). Guðrún Gottskálksdóttir (§ 30). Guðrún önnur Gottskálksdóttir (§ 31). Þórdís Gottskálksdóttir (§ 29).

3) systkin Þórólfs Jónssonar á Vatneyri (§ 29): Gottskálk Jónsson (§ 29). Íngveldur Jónsdóttir (§ 29). Þorlákur Jónsson (§ 29).

# KVÆÐI UM ÖGMUND BISKUP[1],

ort 1539 eða 1540.

---

1. Bragsmið er mèr bágt að næra,
beint er ekki mælskan greið,
þó vil eg svinnum seggjum færa
sónar bland á orða leið,
svo það megi lýðir lesa og læra;
ljóðum hlaðin er Suptúngs skeið.

2. Í skjótu máli skýri eg þetta:
Skálholt veit eg stoltan stað,
þýðust skal það þjóðin frètta,
þar hef' eg hugað svo gjörla að,
efldr var hann til alls hins rètta,
einatt megu vèr sanna það.

3. Stýrt hafa þessum stólnum fríða
stoltir margir herrar nú,
bæði lètu byggja og smíða,
buðu þeir allir helga trú,
það hefir flogið svo furðu víða,
fremd er varla meiri en sú.

4. Stephanus biskup stýrði lengi,
stoltan vissa eg herra þann,
nefndum stað og nýtu mengi,
nú hefir drottinn kallað hann:
að fram um dyrnar dauðans gengi,
sá dróttum kenndi rètt og sann.

---

1) Kvæði þetta er prentað hèr eptir skinnbók, sem er rituð 1549 eða þarumbil, í safni A. Magn. 713. 4to. bls. 96—99, sbr. við afskript með hendi Árna sjálfs i 236, 4to. bls. 61—79; i afskriptinni kallar Árni það „Kvæði um Ögmund biskup".

5. Ýtar völdu eptir þenna
ítran mann, sem nefna skal,
Ögmund mega hann allir kenna,
er til þess að rètta skjal;
saman tók hann sæmd að spenna,
því siðanna hefir hann ágætt val.

6. Bragnar þegar með biskupsefni
bjuggu sig, og lètu í haf,
unna dýr í austur stefni(r),
ekki frá eg þeim byrina gaf;
Vestmannaeyjar víst eg nefni,
þar virðar lögðu farminn af.

7. Virðar þegar með vegsemd góða
vinda upp sitt flæðardýr,
Ögmundur með ýta fróða
inn á land sem skjótast snýr;
allir honum með æru bjóða,
hann er sig bæði vitr og skýr.

8. Víst hefi eg spurt að virða gæti(r)
vetrinn eptir allan þann
í Skálholti með skýrleik sæti
og skikkar öllum rètt og sann,
á því var bæði ment og mæti
mátann bezt á slíku kann.

9. Sagt var mèr, að síðar hóti
sigldi hann með enskri þjóð,
voldugum gekk það víst á móti
að vöskum seinkar laganna bjóð,
göfugr frá eg giptu hljóti
því gjörðist hans reisan einkar góð.

10. Biskups vígslu og blíðan fróma
beint fèkk (hann) með æru og plag,
auðnu sæmd og allan sóma,
uppá Símons messudag,
hèr með allan heiðurs blóma
hamíngjan gaf honum ágæt(t) lag.

11. Bjó sig hann er bóka gætti,
beint vill nú til Íslands hann,
við Hjaltland kom þá herra hinn mæti,
hefi' eg það spurt með fullan sann,
ráðið trúi' eg hann rekka bæti
rausnarfullur heiðursmann.

12. Listugr þegar á land upp vendi
lýðnum bar til heillin sú:
hann biskupaði börn og kvendi
og bauð þeim öllum rètta trú;
guð minn þessa giptu sendi,
greinir það eð sanna nú.

13. Seggir þaðan um saltan ægi
sigla þegar að byrina gaf,
vindrinn trúi' eg svo virðum bægi,
þeir verða' að leggja suðr í haf,
vindur var þá varla hinn hægi,
víst nam gánga kornum[1] af.

14. Ýtum burt frá Íslands grundu
æði stormrinn bægði þá,
allt svo garpar Grænland fundu,
gjörðist nú heldur nauðin á,
lágu þar um litla stundu,
láði kunnu ekki að ná.

15. Dagana átta dróttin blíða
drengir ekki byrina fá,
blakki unnar bragnar ríða,
bar þá heldur landi frá,
kæta mundi kappa fríða
ef kynni nokkur Ísland sjá.

16. Er mèr sagt í Arnarfirði
að ýtar tæki síðan land,
Drottinn trúi' eg vaskan virði,
hann verndar honum með sinni hand:
að blíður þessi bóka hirði(r)
beið hann hvorki skaða nè grand.

---

1) kor = kúrs (cours) = rètt leið á sjó.

17. Heim til stóls kom stýrir dáða
og stofnar þegar hið bezt(a) lag,
tekur svo til röskra ráða
reynir fólkið nátt sem dag,
semr svo fljótt til sannra[1] náða,
sóma má það kalla plag.

18. Bragnar áttu brátt að fagna
blíðum herra Ögmund þá,
koma mun vítt[2] [til] klókra[3] sagna
kærleiks verk þau gjörði hann tjá,
siðanna bót að semja og magna,
sæmdir mun hann af slíku fá.

19. Sæmdi hann með sæmd og prýði
sína alla undirmenn,
ávallt gladdi hann auma lýði
þó að honum kæmi margir senn,
og kenndi þeim, þeir Kristi trýði
og kærleiks verkin ræki þreun.

20. Með fremdum frá eg hann fènu býtti
fátækum og ríkum þá,
af öllum hèr til iðju nýtti,
auðinn gjörði veita og fá,
engan þeirra lýða lýtti
er löstum vildi hverfa frá.

21. Vinnur allt með vizku ráðum
voldugr þessi herrann dýr,
fylgir jafnan fremd og dáðum
friðrinn honum í hjarta býr,
hann er gæddur himna sáðum
og höldum burt frá villu snýr.

---

1) roskra, skinnb. 713 — þar hefir verið ritað „roskra raða", síðan leiðrètt, og gjört naða úr raða, en gleymt að breyta roskra, og hefir A. M. sett sannra, sem nauðsynlega leiðrètting.

2) ultt, handr. 713.

3) í handr. ritað: klrkr$^{n}$ = klok$^{r}$.

22. Árin sex að eyðir meina
áður stýrði stólnum sjá,
höldum bar til hörmúng eina
hèr mun verða' að inna frá,
kirkjan brann, sem kann eg greina,
þá kær var herrann þíngi á.

23. Harmaði þetta herrann prúði,
að húsið slíkt í eldi brann,
hjálpaðist allur hennar skrúði,
himna drottinn þvílíkt vann,
ítran biskup ángurið hnúði,
og upp vill reisa heilagt rann.

24. Litla kirkju lèt hann smíða
svo lofið guðs mætti fremja þá,
stærri skyldi stundar í bíða
er stórum viðunum kynni að ná,
fyllt var upp innan fára tíða
sem friðarins gætir setti uppá.

25. Skipa brot og skaðarnir fleiri
skýrum vildi næsta til,
auðnan hans var æ þess meiri
og er það mesta lukku skil,
engu trúi' eg hann illa eiri
og ekki lætr á ferðum bil.

26. Stuttar áður stundir líða,
en stærri kirkju lèt hann þá
bragna láta byggja og smíða
og búa til allt sem fljótast má,
virðar urðu viðanna bíða
og var þeim ekki fljótt að ná.

27. Reist var þetta rannið fríða,
ráðin lagði' hann gjörvöll á,
og þar eptir ýtar smíða,
allir mega það gjörla sjá,
en þó að leiti yfrið víða
aðra kann ei slíka' að fá.

28. Kopar og eir lèt kaupa og smíða,
kom hann því öllu bezt í hag,
hèrmeð þakti húsið fríða,
hagaði svo með ágæt(t) lag,
og fèkk til sjálfur furðu víða
að forma hana með sóma plag.

29. þessa kirkju plagaði' og prýddi
prúður herra allt hann má,
einnig þarmeð efldi og skrýddi
unzt að hún var fögr gjör þá,
víst og þar[til] vegsemd þýddi,
að virðing mætti hún alla fá.

30. Vígði hann síðan vandað smíði
voldugum guði til dýrðar þá,
trú' eg þannveg tíminn líði;
tel eg það harm að skýra frá:
sýn nam missa biskup blíði,
bót kann varla' á slíku að fá.

31. Mörgum þótti mein að slíku
mönnum, þeim er skildu rètt,
fátækum sem fólki ríku
og fjölda manns í hverri stètt,
má það verða lagt að líku
sem land vort væri í útlegð[1] sett.

32. Síðan tók að seinka smíði
sagðrar kirkju þaðan í frá,
hygg eg seinna betur bíði
blíður staðr sem vel má sjá,
ætla eg heldr að enda líði
eptir því sem bækur tjá.

33. Svinnur herra sagði af höndum
siðanna stjórn og gjörvöll ráð,
kirkju og stað með kotum og löndum,
klerka sveit, sem nú mun tjáð,
auð og sæmd, með orma söndum,
sem áður hefir hann stýrt með dáð.

1) utlegt, hdr.

34. Fèkk hann þar til formann annan,
[fyrðar nefna Gizur þann
Einarsson, að auðnu sannan,
ærlegan segjum vær þennan mann,
blíðr og vitr að bóka kannan,
brögnum líkar vel við hann.

35. Gizur þessi er gætinn næsta
gumna sveit að firra nauð,
elskar hann jafnan orðið hæsta
en aktar minna um veraldar auð,
get eg það vera gæfu stærsta
að geyma því sem drottinn bauð.

36. Að sèr biðr hann alla læra,
og eggjar oss á gæzku hót,
lýðir skulu með lysting næra
lítilætis alla bót,
hógværi með hreysti að færa,
en hvergi þýðast verkin ljót[1].

37. Ögmundur með ærinn sóma
átján vetr að stólnum sat,
bar hann af flestum frægð og fróma,
furðu mildr að auð og mat,
með biskups tign og björtum blóma,
beint ei annan frægri gat.

38. Veitti' honum guð með virðing og prýði
vald og makt í heimi hèr,
heiðr ávallt og holla lýði,
sem herra ríkum sómdi og ber,
eptir lífið efli og skrýði
í æztri vist með sjálfum sèr.

---

[1]) vísur þessar frá [prent. með danskri útlegg. í ritgjörð Harboes: Om Reformationen i Island, í Vidensk. Selsk. Skrift. V, 299.

39. Meinin heims á [margan stríða[1],
mönnum er það kunnugt nú,
fátækt verður fólk að líða,
ferlega lastast heilög trú,
siðirnir vondir vaxa víða,
varla er meiri eymd en sú.

40. Heimrinn jafnan hölda tælir,
hefir hann lítinn gæzku plóg,
vondum mönnum veröldin hælir
þeir vèlin[2] kunna og slægð ínóg;
segir það hver að sannleik mælir,
sá er borinn í illan róg.

41. Mannslög taka magnast víða,
margur girnist annars fè,
skatnar af því skaðana bíða
skeyta hinir þó það sè,
fyrðar verða fals að líða,
flærðarmenn þeir dragast í blè.

42. Auma menn vill enginn fæða
eptir skyldu og laganna bett.
af því missa garpar gæða[3]
að gjöra slíkan lymsku prett,
heldur vilja hata og hræða
hinn, sem talar það fyr var sett.

43. Hórdómur, með heipt og bræði,
hvinnska' og stuldur, lygar og rán,
haldin eru það heimsins gæði,
heitan vond og önnur þján,
dóma rof með dálegt æði,
dramb og fors og orða smán.

---

1) [mörgum striðir, 713; mætti lesa: at mörgum striða.
2) veilin, 713.
3) gæði, 713.

44. Dýrlegr þetta drottinn bannar
ef dróttir hyggja gjörla að:
orð og verk hann allra kannar
ýta hvers í sínum stað,
ritníng slíkt með rèttu sannar,
rekkar hugsi opt um það[1].

---

1) Lýsíng á siðleysi og trúarvillum kemur fram í mörgum ritum, brèfum og kvæðum frá siðabóta tímunum og þar á undan og eptir. Frá þeim tímum eru til mörg kvæði, sem kölluð eru „Heims ósómar", „Boðorða vísur", „Synda visur" o. fl., og eru sum af þeim kvæðum prentuð vísnabók Guðbrands biskups (Hólum 1612. 4to). Í sumum stöðum er í ritum þessum blandað saman siðleysi og trúarvillum, sem menn kölluðu þá kennslu Lúters, meðan kathólsk trú var drottnandi. Merkilegt er í því efni brèf Ögmundar biskups til allrar alþýðu í Skálholts biskupsdæmi, ritað á Gregoriusmessu (12. Marts) 1539, þar sem hann áminnir alla menn og aðvarar þá við nýjum villulærdómum og siðleysum. „Oss ángrar stórlega", segir hann, „sú stóra villa og vantrú, sem öflgast í þessu fátæka landi fram úr öllum máta með afskaplegum illvirkjum, sem allsmegtugur guð vinni bót á. Undrar oss stórlega, að góðir kristnir menn, sem tekið hafa heilaga trú, þá sem grundvallað hefir guð sjálfur með sinni bitru pínu og blóðs úthellíngu, hèrmeð útsent sína heilaga postula að prèdika sömu trú um alla kristnina, eptir því sem móðir vor, heilög kirkja, heldur .... En nú af öðrum parti höfum vèr heyrt, að upp hefir risið einn grámúnkur, og prèdikað nýja villu og vantrú, eigi síður í þessu voru fátæka fósturlandi en annarstaðar, út sent sína sendiboða, hverir að mjög fjarri standa guðs postulum og þeim heilugu doctoribus, sem útskýrt hafa heilug guðspjöll og guðs boðorð; finnum vær það hvergi, hvorki í guðs lögum nè manna, að þessari villu sè hlýðanda í neinn máta, því að hún hefir upphafið illt og efnislaust, miðdykið málalaust og endann afskaplegan. Því með beztu manna ráði, sem nærri oss hafa verið, lærðra og leikra, segjum vèr í guðs nafni amen fyrsagða villu og vantrú ónýta og að engu haldandi, og fyrirbjóðum öllum og sèrhverjum í Skálholts biskupsdæmi að halda með fyrsagðri villu á móti guðs lögum, svo lengi og þartil að híngað í landið kemur opið brèf af páfalegu valdi og keisaralegu majestate. — .. Því áminnum vèr yður alla og sèrhverja ... að þèr standið fast hèr eptir í heilagri trú, sem guð sjálfur hefir sett og postularnir hafa kennt, en forbjóðum strengilega allar nýjúngar eða siðleysur ... o. s. frv. (ísl. brèfasafn Árna Magnúss. Fasc. xlix, nr. 18; sbr. Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 227 athgr.). — Höfundur kvæðisins sýnist hafa verið ekki eins ákafur páfatrúar maður eins og Ögmundur biskup sýnir sig í þessu brèfi, því

45. Guð [minn] auki gæzku vóra
en glæpi alla taki af oss,
fyrir þá plágu og pínu stóra,
pústra slög og dreyra foss,
og nistíng þeirra nagla fjóra,
að negldr vartú á helgan kross.

46. Fyrir dauðann þinn og dýra pínu
drottinn! sè þèr eilíft lof,
sem hlauztu og leiðstu á holdi þínu
[hvergi gerist[1] í nokkut rof;
endi eg þannig orða línu
að eigi kann slíkt að talast við of.

47. Gef þú oss lukku og gæzku alla
göfugr herra drottinn minn!
lát oss ekki' í löstu falla,
en ljósan elska viljann þinn,
heldur opt af hjarta' að kalla
háleit(t) nafn þitt mörgu sinn. Amen.

hann hælir Gizuri biskupi Einarssyni allt að því eins og Ögmundi, enda er og kvæðið ort áður en Gizur biskup fór að fylgja fram siðaskiptum fyrir alvöru.

1) [hu'gizt, 713.

## I.

# FRASAGNIR MAGNÚSAR BÓNDA BJÖRNSSONAR
UM JÓN BISKUP ARASON.

---

[1]**Historia af biskup Jóni Arasyni, sem sat að Hólum,** svo sem hún er samin og diktuð af hans [sjálfs niðjum og eptirkomendum[2].

Anno Mcdlxxxiv fæddist biskup Jón Arason, og ólst upp [á Grýtu og Laugalandi[3], til þess hann var xxiv ára. Hans faðir var Ari Sigurðsson, sonur príors Sigurðar á Möðruvöllum. Móðir hans hèt Elen Magnúsdóttir; hún var systurdóttir ábóta Einars Ísleifssonar á Múkaþverá; vann biskup Jón fyrir móður sinni á Laugalandi, þá hans faðir var látinn[4], til þess hann hafði [xxiv vetur[5]; þá fór hann til Hóla og vígðist til prests, og var skikkaður til Helgastaða í Reykjadal; þar fèkk hann sína barnamóður Helgu Sigurðardóttur. Annað ár síns prestsdóms fèkk hann Hrafnagils stað, og hèlt þann stað til þess hann var kjörinn til biskups. Á þeim tíma sigldi hann tvisvar til Noregs fyrir biskup Gottskálk; í fyrra sinni kom hann út með kirkju við, hver sett var við Kolbeinsós, eins að gjörð og timburstofan að Hólum, utan hún var öll af trè; en annan tíma fór hann með ix merkur gulls, og lèt þar úr smíða gullkaleikinn góða, sem Danskir höfðu frá Hólum.

---

1) Frásaga þessi er prentuð hèr eptir afskript af ættartölubók sira Jóns Ólafssonar á Lambavatni, prests í Rauðasands þingum (1669—1703); afskript þessi er í A. Magn. safni Nr. 254 í arkarbroti, bl. 54—59, og samanborin við Nr. 255 í arkarbr., bls. 70—74. Kapitula tölunni er bætt við.

2) [niðjum og eptirkomendum sjálfum, 255.

3) [hjá móður sinni, 255.

4) andaður, 255.

5) [fjóra um tvitugt, 255.

2. Á meðan hann var á Hrafnagili, hafði hann fyrst þrjár kirkjur; eptir það varð hann prófastur og officialis eptir biskup Gottskálk dauðan; þar næst var hann kjörinn til biskups af öllum prestum, nema Pètri Pálssyni, sem síðar var ábóti á Múkaþverá. Sat hann þar á Hólum um veturinn, því ei var fært að sigla um haustið, þá hann var kosinn.

Á sama hausti kom út biskup Ögmundur, anno Mdxxij, vildi hann þá hafa ráð yfir öllu landinu, bæði um biskups kjörin og allt annað, og vildi ekki líða að síra Jón Arason yrði biskup, heldur vildi þar til velja sinn prest, sem hèt síra Jón Einarsson, þess vegna, að hann skyldi sèr verða undirdanigur[1], og sló sökum uppá síra Jón Arason, og sendi með forboðsbrèf sira Ólaf Gilsson[2] að lesa yfir honum, en sá síra Ólafur þorði ekki að fara lengra en til Víðirness, og sendi síra Jóni Arasyni boð[3] að finna sig þar. Hann lèzt koma mundi annan dag. Hann tók þá til sín síra Þorstein Gunnason[4], og lèt leggja yfir hann sín klæði og húfu með strút, sem þá var vísa, og lèt hann gánga til fundar við Ólaf með alla sína sveina, og Ara son sinn, úngan pilt. Þá þeir nú fundust, meinti Ólafur það vera mundi biskupsefni, og hneigði honum mjög, stakk sínum hatti undir sína hönd, leitaði púngsins og tók upp brèf Ögmundar biskups og fèkk Þorsteini presti; fèll þá niður hans hattur, en Þorsteinn skipaði Ara af valdi, að taka upp hans hatt, og það gjörði hann; skildu þeir með það, og lofaði [Þorsteinn] svari aptur að morgni. Aldrei sá biskup Jón brèfið, því Þorsteinn sá ráð fyrir því; skrifaði svo til biskup Ögmundi afsökunarbrèf, og fyrir neðan brèfið vísu, hver svo endast:

setti niður sinn hatt
og sveininn fann hann Þorstein.

Merkti biskup Ögmundur, að þá voru brögð í tafli, og líkaði stórilla. Eptir það sendi hann síra Pètur fyrnefndan; var honum fylgt í Arnarstofu og beið þar til þess hann reið þaðan.

1) undirdanugur, 255.

2) þann. 255 o. fl.; Gislason, 254. — Sira Ólafur Gilsson var síðan prestur að Reykholti, og kemur víða við brèf og gjörnínga.

3) orð, 255.

4) þannig hafa önnur handrit; Gunnarsson, 254, 255.

Síðan sendi hann síra Jón, sem biskup Ögmundur vildi til biskups hafa, tók Jón prestur Arasón hann heiðarlega og gjörði honum veizlu og hans mönnum. Eigi varð enn af brèfalestrinum, og reið svo í burt og vildi eigi lesa brèfið.

3. Á móti páskum sendi síra Jón Arason Ólaf Ormsson, í Dal var, svein sinn, í Skálholt með friðarbrèf [til biskups Ögmundar[1]; hann tók honum vel og lèt setja honum drykkju um páskana í einni stofu, og tvo sveina hjá honum; á fjórða í páskum hvurfu sveinarnir frá honum, en um morguninn eptir frètti hann af ófróðu fólki, að biskup Ögmundur hafði riðið í gær með fjölda manns norður um land til Hóla. Hann náði sínum tveimur [fylgjuhestum seint[2], riðu þó hver sem meira mátti, náði hann biskupi í Mælifellsdal og framhjá þeim yfir um Vötnin[3] að Þverá, [og svo heim til Hóla[4], og sagði hvað um var. Reið síra Jón Arason þá strax ofan í Kolbeinsárós[5] til skips. Þá hann reið hjá Ási, [þá reið biskup Ögmundur, og með honum[6] ccc manns, frá Skúfstöðum; þrengdi hann þá Hólaprestum að kjósa sira Jón Einarsson til biskups; tóku þá allir aptur sína fyrri kosning[7], nema tveir prestar, var annar ráðsmaðurinn, hèt Nikolás, og kirkjupresturinn sira Tumás, sem ábóti varð eptirá[8] seinna á Múkaþverá; fór ráðsmaðurinn fyrir háaltarið og lèt staðarlyklana upp á skrínin, og tók sinn stóran mathníf í hvora hönd sèr, en þeir báru að honum þófa, og tóku hann svo og drógu út af kirkjunni, og höfðu hann í burt í hesttagli fram í Mælifellsdal, en aldrei gekk hann þeim á hendur, og slepptu honum svo þar.

4. Síðan sendi biskup Ögmundur þeim þýzku boð ofan í Ós, og fyrirbauð þeim að flytja hann út, ellegar skyldi hann koma sjálfur og skammfæra bæði hann og þá. Þeir sendu honum aptur boð[9], að það mætti ske þeir þyrði vel að finna hann, og spara honum hvorki krúð nè lóð. Því[10] lèt hann

1) [b. v. 255. 2) [fylgjurum, 255. 3) þann. 255; Vötn inn, 254.
4) [þann. 225; fram Vindárdal að Kjarvalstöðum til Hóla heim, 254.
5) Kolbeinsós, 255.
6) [sá hann reið biskups Ögmundar; reið hann þá með, 255.
7) sína fyrri kjör, 255. 8) sl. 255. 9) orð, 255.
10) úr því, 255.

vaka yfir sèr tólf sveina, en biskup lá í Arnarstofu. Eina nótt sendi síra Jón Arason Magnús klerk[1] við þriðja mann, og lèt hann stefna biskup Ögmundi fram fyrir erkibiskupinn. Magnús var kunnugur, fór [efra um[2] Hóla svo enginn vissi af fyr en hann kom á Arnarstofu glugg og stefndi biskup Ögmundi; var þá uppi fótur og fit; fèkk hann mönnum [sínum] stefnuna, og skipaði þeim að fara sama veg, en hann strauk inn í stöpul og beið þar til þess kirkjunni var upp lokið, [komst hann svo inn[3] í kirkju og allt inn í[4] biskups capellu, og hèlt sig þar; hafði hann nóg að gjöra, að verja sig fyrir þeirra ásókn. En meðan máltíð gjörðist, voru menn til settir að geyma stöpuldyrnar, en hann læddist og komst upp stigann á stöpulloptið[5], og gátu þeir þá ekki haft hans meir[6]. Um nóttina eptir var varðhald haldið á[7] kirkjunni; komst Magnús þá út um gluggann og rendi sèr ofan eptir stoðinni og svo slapp hann.

5. Gekk þá út boð af biskup Ögmund, að enginn skyldi dirfast að fá þeim kost nè neina hjálp, og svo fóru þeir kostlausir nærri því, fengu stóra storma og rak[8] undir Grænland, og þaðan komust þeir með stórum áheitum til Húsavíkur innan xiv daga, og fengu sèr kost hjá Þorleifi, föður Þorgríms á Nesjum[9], og sigldu með það til Noregs. Þar kom umboðsmaður biskups Ögmundar, síra Jón Einarsson, með allar sakargiptir, dóma og forboð; var [ein sakargiptin[10] sú, að síra Jón Arason hefði stolið öllu kirkjunnar silfri frá Hólum og haft með sèr, en hann hafði þar á móti vitnisburði ráðsmannsins og kirkjuprestsins, að það væri allt í Hóla kirkju niður grafið, og með svoddan móti eyddi síra Jón Arason öllum sakargiptum biskups Ögmundar, svo biskupar þrír og [allir kanúkar[11] dæmdu ónýtar allar klaganir biskups Ögmundar, sem sá dómur útvísar[12]. Fèkk síra Jón Arason þá biskupsdæmið,

1) prest, 255. 2) [yfirum, 255. 3) [strauk, 255. 4) á, 255. 5) stöpulsloptið, 255. 6) meira, 255. 7) í, 255. 8) ráku, 255.

9) Núpum, 255, og kann vera það sè rèttara, en þó hefir Jón Espólín kannazt við hitt.

10) [fyrsta sökin, 255. 11) [fleiri, 255.

12) „útskript af honum er í lögbók Pèturs Magnússonar í Hólum; getur

en Odda stað fyrir síra Jón Einarsson, og voru þeir ástvinir til ellidaga.

6. Anno ⅭⅮxxv kom biskup Jón út með biskupsdæmið, og ríkti á Hólum xxvj ár; sat hann eitt ár í kyrðum í sínu embætti[1]. Á öðru ári [síns biskupsdæmis[2] fjölmentu báðir biskuparnir til alþíngis; hafði biskup [Jón] þá með sèr ix hundruð [að norðan[3], en Ögmundur xiv hundruð manna[4]; sættust þeir þá biskuparnir, fyrir meðalgaungu ábótanna og höfuðprestanna[5], og hèlzt meðan þeir lifðu. En þá þeir skildu sáttarfundinn, þá kom boð frá Skálholti, að kirkjan væri brunnin, og fèkk biskup [Ögmundur með það aungvit[6], og annað þá hann kom [að staðnum[7]. Eldurinn kom í kirkjuna [á kvöldsaungstíð[8], af þeim reykelsis eldi sem þá var hafður.

7. En þá siðaskiptin komu eptir Ögmund[9], þá sendi biskup Jón út Sigurð[10] son sinn, að fá fríun af kónginum, að hann mætti blífa við sína gömlu siðu og eið, meðan hann lifði, hvað hann fèkk, og alltíð var hann kóngsins vinur, og í vingan við fógetann[11], þartil að Marteinn var tekinn, og stundum veittu þeir honum allar kóngsins sýslur í Norðlendínga fjórðúngi, að hann mætti fá þær til [lènis þeim sem[12] hann vildi.

Eigi veit eg gjörla hvað þeim biskup Jóni og Marteini bar á milli, utan siðaskiptin, og honum þótti hann linur [við Daða, að ávíta hann um sína hórdóma[13] og frændsemisspjöll, sem hann lá í að jafnaðl, [sem eg get bevísað seinna[14]. Aldrei hefi eg heyrt, að biskup Jón eður synir hans hafi tekið góz eður peninga af nokkrum manni með ofríki, án dóms og laga. Tvær reisur[15] reið hann í Bjarnanes, og tók það að sèr eptir kóngsbrèfum og dómum, sem dæmdir voru um Teit Þorleifs-

---

Jón bróðir minn yfir hann komizt (segir sá er þetta hefir saman skrífað)'', innskotsgrein í 254 og á innfestum miða í 255.

1) biskupsdæmi, 255. 2) [slepp. 255. 3) [manns, 255.
4) manns, 255. 5) prestanna, 255. 6) [þá óvit, 255.
7) [í ásana, og hann sá heim á staðinn, 255. 8) [um kvöldsaung, 255.
9) biskup Ögmund dauðan, 255. 10) síra Sigurð, 255.
11) fóvitana, 255. 12) [lèna hverjum, 255.
13) [að ávíta Daða fyrir hans hórdóma, 255.
14) [slepp. 255. 15) reiðir, 255.

son; útskript af öllum þeim [brèfum er hjá erfíngjum síra Sigurðar heitins, því eg sá þau öll á einni bók hjá þeim, en aldrei kom faðir minn í Bjarnanes eður nokkurstaðar í Austfjörðu[1].

8. Eitt brèf skrifaði biskup Jón til páfanum í Róm, með Úlfi[2] Hanssyni, og bað hann skrifa sèr til hvað hann skyldi gjöra af þeim Rómaskatti, sem fèlli í sínu biskupsdæmi, því þá var enginn erkibiskup í þrándheimi að taka við honum, sem áður hafði vani til verið; en hann fèkk það andsvar aptur af páfanum, að hann skyldi gefa það fè fátækum; en ekki bjó undir því brèfi annað, og engin landráð, þó það væri sagt, því eg sá það brèf hjá síra Sigurði heitnum í pjátur-koffri, og var ekki meir en þrjár línur. Og eigi vissa eg biskup Jón gjöra neitt í móti kónginum, nema það hann vildi ei leggja af klausturin og kirkjurentur, og það, að Marteinn var tekinn.

9. Tvær reiðir reið biskup Jón í Dali, til þess að koma lögum og stefnum yfir Daða[3] fyrir þau brot er hann fèll í, en engan hernað lèt hann þar gjöra, og það var undirrót þeirra óvinskapar, að hann fann að hans ósiðum og illgjörðum, en að sinni get eg það ekki brèfsett; seinna megi þèr það fá, ef þèr girnist.

þriðja og síðasta reið biskups Jóns og hans sona með honum, Björns og Ara, í Dali, skeði anno 1550; riðu þeir þá til Sauðafells, og var þar þíng sett af Ormi lögmanni í millum þeirra biskups Jóns og Daða. Kom hann þar með herfólk, x tyger manns. Biskup gekk til kirkju, og þeir bræður, og menn þeirra nokkrir, og luktu kirkjuna að sèr; hinir skutu þar inn byssum. Biskup stóð fyrir altari. þeir rufu þá kirkjuna á bak við altarið, og brutu í burtu bjórinn[4], en slóu og skammfærðu í[5] kirkjudyrum þá sem ekki komust inn; en þeir, sem í kirkjunni voru, hlífðu sèr með þófum fyrir skotunum. Sagt [er og[6] hefir verið, að einn stór kompán, kallaður Dala-Markús, hafði dregið biskupinn frá altarinu, þar hann hèlt á helguðu brauði, hvert niður fèll, en einn prestur tók það upp með

1) [dómum var hjá síra Sigurði Jónssyni og hans erfíngjum, 255.
2) stýrimanni, b. v. 255.
3) Guðmundsson, b. v. 255.
4) bjórþilið, 255.
5) fyrir, 255.
6) [slepp. 255.

munninum; en þá hann hafði dregið biskupinn upp á vegginn, þá sló sami Markús hann, svo úr honum [féllu þrjár tennur[1], og þá er sagt, að Daði hafi slegið sama Markús aptur. Eptir það brutu þeir þilið framan undan kirkjunni; skipaði Daði þá þýzkum dreng, að drepa síra Björn með skoti, og hann skaut hann í handlegginn að hans skipan, en hann sat fyrir á [kistunni fyrir kórdyrunum[2]. Ari ætlaði að skjóta Daða, en byssan vildi ekki laust láta, og þá sló Daði Ara til blóðs.

10. Og þá þeir voru fángaðir, lèt Ormur gánga dóm, og dæmdi þá friðhelga til kóngsins náðar[3], og með það voru þeir hafðir til Snóksdals, en þeirra menn fóru allir norður sárir og meiddir; voru þeir fángaðir 2. dag Oktobris 1550. Reið síra Sigurður þá í Hrútafjörð, og sendi þaðan tólf menn með friðar boðum[4]; var síra Gottskálk [formaður fyrir þeim[5]. Hann fèkk litla stund að tala við biskupinn, Daða hjáverandi, en ei fengust þeir lausir hvað sem í boði var; sneru þá Norðlendingar aptur, því þeir vildu ei fylgja honum lengra vestur; sendi Daði[6] eptir umboðsmanni til Bessastaða, og kom hann, riðu síðan á stað til Reykholts með [allan herskarann og[7] þá feðga, og [Marteinn var þar með[8]; keypti Ari þá af hestamanni umboðsmannsins, er Christjan hèt, að visa sèr að bezta hesti, og það gjörði hann; Ari komst á bak og ætlaði í burtu, en hesturinn varð[9] þá staður. Síðan fluttu þeir hann í Skálholt, og þá [hina báða[10].

11. Fimta dag Novembris vildi umboðsmaðurinn ríða frá Skálholti, og vildi ekki hafa par með þá feðga, og stè hann á bak; þá drakk Daði honum til [af silfurstaupi[11] og gaf honum það, en Marteinn af[12] silfurskál og gaf honum hana líka, og báðu[13] hann í staðinn að láta forvara þá feðga til þess að skip kæmi, því þeir þóttust ekki menn til að [láta forvara[14] þá fyrir Norðlendingum, og hertu mjög að honum. Hann

1) [brutu þrjár tennurnar, 255. 2) [kistu fyrir kórdyrum, 255.
3) náða, 255. 4) friðarbrèf, 255. 5) [fyrir þeirri ferð, 255.
6) þá, b. v. 255. 7) [sl. 255. 8) [biskup Marteinn, 255.
9) var, 255. 10) [feðga, 255. 11) [silfurs(t)aup, 255.
12) slepp. 255. 13) bað, 255. 14) geyma, 255.

stè þá aptur af baki, og [sagði jörðin kynni vel að forvara þá[1], og næsta dag þar eptir lèt hann aflífa[2] þá: Ara fyrst, og gaf hann böðlinum sinn hatt til þess, að hann skyldi [sig hreinlega í einu afhöggva[3], og það skeði svo.

Eptir það var síra Björn úthafður í annan stað[4], og var höggvinn miklu sári, og [þó baðst hann[5] lífs vegna[6] sinna margra barna, og gjörði þá fagran formála og lángan, og þá varð stans á; þá gekk Daði að með hast, og skipaði böðlinum að aflífa hann, [svo hann talaði ekki meira, og þá var það gjört[7].

Síðast var biskupinn útleiddur í þriðja stað, var honum þá sagt líflát hans sona, gekk hann með glöðum[8] yfirlit út, og hafði kross í hendi, sem [kvæði Ólafs útvísar[9]. Er það sögn sumra manna, honum hafi þá líf verið boðið, en hann hefði[10] sagt: fyrst synir sinir hefði verið með sèr, og farið, þá vildi hann fara með þeim; og er hann gekk fram hjá Daða, [þá upphóf hann sína hægri hönd og rètti hana að honum[11] með signíngarmarki[12] þegjandi. Og í þriðja axarslagi sagði hann: In manus [tuas domine[13], og heyrðu menn hann síðast það tala; en í sjöunda höggi tók af[14]. Hefir mælt verið, að danskur maður einn hefði[15] sagt, að hvít dúfa hefði uppá kirkjuna flogið þá Ari var látinn, og önnur þá Björn fór, og þriðja þá biskup lèzt, og flugu allar upp í lopt, svo lengi sem hann sá til, og hann grèt[16] beisklega.

þeir feðgar höfðu messu hvern dag á meðan þeir voru í haldi, og gaf biskup sèr og þeim guðs líkama hvern dag, og líka þann seinasta sem þeir voru til samans. Segi eg þetta að sögn gamallra dándismanna[17], en ei veit eg sannindi önnur á þessu, því eg var þá níu vetra, er þetta skeði.

1) [sagði: jörðin kann vel að geyma þá, 255.
2) lifláta, 255.
3) [höggva sig hreinlega af í einu, 255.
4) hèr á inn vísa biskups Jóns, b. v. 255 utanmáls.
5) [þá bað hann, 255.
6) sakir, 255.
7) [og það var gjört, 255.
8) huga og, b. v. 255.
9) [vísur Ólafs hljóða, 255.
10) hafði, 255.
11) [rètti hann að honum hönd sína, 255.
12) signingarmerki, 255.
13) [slepp. 255, þ. e. Drottinn, í þínar hendur (fel eg minn anda).
14) höfuðið, b. v. 255.
15) hafi, 255.
16) af þessu, b. v. 255.
17) dánumanna, 255.

12. þá umboðsmaðurinn kom til Bessastaða, drap hann böðulinn, og sagði hann væri ei verðugur að bera hatt Ara. En vermenn[1] drápu umboðsmanninn eptir jól, sem norðan að komu[2], og xij með honum aðra, og hefir sagt verið hann hafi aptur gengið, og á hnè komizt; var hann þá afhöfðaður.

Um vorið eptir lèt síra Sigurður sækja þá alla feðga til Skálholts xxx menn, og voru þeir jarðaðir í Hóla kirkju hver út af öðrum. Var þá mikill harmur á Hólum þá líkamarnir að staðnum komu, en öllum klukkum var hríngt þá fyrst sást til þeirra niður hjá Lángskálaholti, allt til þess þeir voru í dómkirkjuna bornir; en kennimenn allir og kirkjulýður gengu út yfir tröð á móti þeim[3] feðgum, og lètu bera líkamana heim[4] með miklu fjölmenni. — En fyrir þessu gekk öllu og fyrir sagði [sá sálugi og góði mann síra Sigurður, biskups Jóns son[5]. — Hverir nú hjá eilífum guði hvílast [í eilífri dýrð[6] og himnaríkis vist, en þeir, sem þetta skemdarverk[7] gjörðu þessum Jesu Christi vinum, befölum vær niðjar og eptirkomendur þessara loflegu sálugu[8] manna almáttugum guði á himnum og þeirri heilögu þrenníng, fyrir það sára manntjón og fjandskap, smán og mínkun, sem vèr fátækir þeirra eptirkomendur höfum orðið að líða. En þó þökkum vèr almáttugum guði fyrir allan þann heiður, sem hann hefir oss síðan gjört, og fyrir hans vernd og varðveizlu. M. B. S.[9]

---

## UM BISKUP JÓN ARASON AÐ HÓLUM,

eptir því sem sálugi herra Oddur hefir það uppteikna látið eptir skrifi Magnúsar heitins Björnssonar, sonarsonar biskups Jóns, er þá var IX ára er þeir sálugu feðgar lètust[10].

ANNO MCDLXXXIV fæddist biskup Jón Arason í Eyja-

1) Norðlenzkir, 255. 2) rèru, 255.
3) sálugu, b. v. 255. 4) alla, b. v. 255.
5) [sálugi síra Sigurður, son biskups Jóns, 255.
6) [og munu vera komnir í eilífa dýrð, 255.
7) og þenna dauða dag, b. v. 255. 8) slepp. 255.
9) þessir undir settir stafir M. B. S. munu merkja, eptir því eg ræð, Magnús Björnsson, son M. Björns biskupssonar, b. v. 254.
10) þessi frásögn er að efninu til hin sama sem hèr er á undan, og

firði[1]. Hans faðir hèt Ari, sem var sonur priors Sigurðar á Möðruvöllum; hans móðir hèt Elen Magnúsdóttir, hún var systurdóttir ábóta Einars Ísleifssonar á Múkaþverá. [Ólst Jón Arason biskup upp í Eyjafirði[2], og eptir það faðir hans var andaður vann hann fyrir móður sinni, sem þá bjó á Laugalandi i Múkaþverár sókn, til þess hann hafði fjóra vetur[3] um tvítugt; eptir það fór hann til Hóla til biskups Gottskálks, því ábóti Einar lagði honum gott til, og hann hafði látið kenna honum hjá sèr í hans uppvexti. Siðan var hann á Hólum til þess hann var vígður til prests af biskup Gottskálk. Eptir það hann var vígður var hann skikkaður til Helgastaða í Reykjadal, en hann var þar ekki utan eitt ár. Og á meðan hann var þar fèkk hann sina barnsmóður, Helgu Sigurðardóttur. En á öðru ári sins prestlegs embættis var honum veitt það beneficium Hrafnagil í Eyjafirði, og litlu síðar var hann kjörinn til prófasts í þeirri sýslu, og hèlt þann stað allt til þess hann var kjörinn til officials embættis eptir afgáng biskups Gottskálks. En á meðan biskup Gottskálk lifði sigldi hann tvisvar til Noregs fyrir bón biskupsins; í fyrra sinni kom hann út með viði til Hóla kirkju, og kom það skip[4] í Kolbeins[5] ós og var öll kirkjan gjörð af trè. [Magnús heitinn: Í fyrra sinni kom hann út með kirkju við, hver sett var við Kolbeins ós,

---

Magnús Björnsson hefir samið, en orðfærið er breytt, líklega eptir fyrirsögn Odds biskups Einarssonar. Þessi sagan er prentuð eptir afskript með hendi sira Torfa Jónssonar í Gaulverjabæ, sem nú er í safni Árna Magnússonar Nr. 236. 4to., bls. 281—312 (A); önnur afskript með hendi Árna sjálfs, eptir sira Jóni Erlendssyni i Villíngaholti, er í sama handriti (236. 4to.) bls. 179—260, rituð á aðra hvorja blaðsíðu (B). Enn eru aðrar afskriptir ýngri, og er ein þeirra í safni Rasks, Nr. 52 í 4to, bls. 73—83, og kallað „skrif Björns Magnússonar" (þ. e. Magn. Björnssonar); þar sem þess er getið er það hèr kallað C.

1) B hefir fyrirsögn: Um biskup Jón Arason. Fyrst um hans foreldra. — En frásögnin sjálf byrjar svo: Hans faðir hèt Ari, o. s. frv. — C hefir fyrirsögn: Framburður og skrif Björns Magnússonar (!) um biskup Jón; en byrjar frásögnina eins og A.

2) [Jón Arason var barnfæddur í Eyjafirði og þar ólst hann upp, B.

3) sl. B. 4) út, b. v. B. 5) [ár] b. v. B.

eins að gjörð og timburstofan á Hólum, utan hún var öll með trè[1].

Enn í annað sinn sigldi hann með níu merkur gulls, og lèt hann smíða úr því gulli utanlands þann góða gullkaleik[2], sem Danskir tóku frá kirkjunni á Hólum og höfðu í burt anno 1551[3], eptir það biskup Jón var af tekinn.

2. En meðan hann var á Hrafnagili hafði hann fyrst[4] þrjár kirkjur, [áður en hann varð prófastur[5].

En eptir afgáng biskups Gottskálks var hann skikkaður til officials embættis yfir Hóla stikti, og eptir það var hann almennilega kjörinn til biskups af öllum prestum í Hóla stikti, nema af síra Pètri Pálssyni, sem seinna varð ábóti á Múkaþverá, og sat hann þá á Hólum um veturinn, því ekki var fært að sigla um haustið, þá hann var kjörinn; þá var Datum 1522.

Á því sama hausti, 1522, kom út biskup Ögmundur Pálsson, Skálholts biskup, og vildi hann þá hafa ráð yfir báðum stiktunum, og ráða svo bæði biskups útvalníngu og öllu öðru; en hann vildi í engan máta líða nè samþykkja, að síra Jón Arason skyldi verða biskup á Hólum, heldur vildi hann kjósa þar til einn prest úr Skálholts stikti, sem hèt síra Jón Einarsson, því hann vonaði, að hann mundi verða sèr undirdánugur; og þar fyrir sló hann nokkrum sökum uppá síra Jón Arason, og skrifaði eitt opið forboðs brèf, og sendi einn sinn prest með það norður til Hóla, sem hèt síra Ólafur Gilsson; hann átti að lesa það brèf yfir síra Jóni Arasyni. En þá fyr nefndur prestur síra Ólafur kom norður, þorði hann ekki að fara heim til Hóla, heldur fór hann á næsta bæ, sem heitir Víðirnes, og beið þar, og sendi einn mann heim til staðarins, og bað síra Jón Arason að finna sig þar, hvað hann lèzt mundi gjöra, og sagðist vilja koma þángað á eptirfylgjandi degi. En hann

---

1) [sleppir B.

2) í A er þessi athugagrein utanmáls: „Kaleikur þesse seigest forærdt verid haffa aff May[t] Grotfurstanum aff Muschou. H. Th." — Höndin á þessari athugagrein er síra Torfa í Gaulverjabæ. Stafirnir H. Th. er óvíst hvað þýði (Herra Thorlákur = Þorlákur biskup Skúlason? — eða Hannas Torlevius = Hannes Þorleifsson?).

3) eyða fyrir ártal. í B. 4) sl. B. 5) [sl. B.

hafði hjá sér einn prest, sem hèt þorsteinn Gunnason, þann kallaði hann til sín, og lagði yfir hann[1] sín klæði og setti uppá hann múkahúfu með strút[2], svo sem þá var siður til, og lèt hann svo fara gángandi til fundar við síra Ólaf. Og hann lèt alla sína sveina fara með honum, og Ara son sinn, sem þá var enn úngur piltur. En þegar þeir fundust, meinti síra Ólafur að það væri sjálfur officialis og biskupsefnið, og hneigði sig mjög fyrir síra þorsteini, og stakk hatti sínum undir hönd sèr, [og tók upp brèf biskups Ögmundar úr púngi sínum[3], og fèkk síra þorsteini. En í því sama bili datt hans hattur á jörð; þá skipaði síra þorsteinn Ara Jónssyni af valdi að taka upp hatt prestsins, [og það gjörði hann[4], og svo skildu þeir með það. Síra þorsteinn lofaði að senda honum svar aptur annars dags; en síra Jón Arason sá aldrei það brèf biskups Ögmundar, því síra þorsteinn sá ráð fyrir því; og fór sira Ólafur Gilsson erindislaust heim aptur til Skálholts. En síra Jón Arason skrifaði biskup Ögmundi til seinna afsökunar brèf, og neðan á brèfinu eina vísu sextánmælta, sem svo endaðist:

Setti niður sinn hatt,
sveininn[5] fann hann[6] þorstein.

þá hið fyrsta formerkti biskup Ögmundur, að þar hefði verið brögð í tafli, og líkaði honum þetta mjög illa. Eptir það sendi biskup Ögmundur fyrnefndan síra Pètur Pálsson til Hóla, og fór hann líka erindislaust. Honum var fylgt í Arnarstofu og þar beið hann til þess hann reið þaðan aptur. [Biskup Ögmundur gefur síra Jóni Arasyni þá sök í Reykja dómi, að hann hafi út sent týgjað fólk fyrir biskupsins sendiboða, og látið taka síra Pètur Pálsson, sem settur hafi verið officialis af herra biskupinum, og byrgt í húsi um fimm nætur eða meir[7].

Síðan sendi biskup Ögmundur síra Jón Einarsson norður til Hóla, hvern hann vildi láta útvelja í stað biskups Gott-

1) þ. v. B.
2) sernot, B.; sbr. Finn. Joh. Hist. Eccl. II, 652 athgr.
3) [leitaði brèfapúngsins með mestri hæversku, C.
4) [hvað Ari gjörði með mikilli reverentíu, C
5) sveinninn, B. 6) sl. B. 7) [sl. B, C.

skálks; tók síra Jón Arason honum[1] heiðurlega, og hèlt honum stóra veizlu og hans mönnum, en ekki varð af brèfalestrinum heldur nú en fyrri[2], því síra Jón vildi ekki lesa brèfið, og svo reið hann í burtu.

3. En á móti páskum sendi síra Jón Arason til Skálholts einn sinn svein, sem hèt Ólafur Ormsson, sem var í Dal, til biskups Ögmundar, með friðsamlegt forlíkunar brèf. Biskup Ögmundur tók honum vel, og lèt tvo sína sveina vera hjá honum í einni stofu um páska hátíðina, og lèt hann fá nóg öl að drekka.

En á fjórða dag í páskum hvörfu báðir sveinar biskupsins frá Ólafi Ormssyni, svo hann vissi ekki hvað af þeim varð. En um morguninn eptir [spurði hann af almúga mönnum[3], að biskup Ögmundur hefði riðið í gær með mikinn fjölda manna, og ætlaði að ríða norður í landið til Hóla. Ólafi varð þá ekki gott við, og honum varð seint um að ná þeim tveimur fylgju[4] hestum, sem hann hafði, en þá hann hafði náð þeim[5], reið hann sem mest hann gat, og náði biskup Ögmundi og hans mönnum í Mælifellsdal, og reið fram hjá þeim yfrum Hèraðsvötn og að Þverá, og svo fram [Vindárdal[6] að Kjarvalsstöðum og heim til Hóla[7], og sagði hvað títt var. Reið síra Jón Arason þá strax ofan að Kolbeins[8] ós til skips; en þá hann kom að Ási, þá reið biskup Ögmundur frá Skúfstöðum heim að Hólum og með honum þrjú hundruð manna. Þrengdi hann þá Hóla prestum til að kjósa síra Jón Einarsson til biskups, og tóku þeir allir aptur hina fyrri kosníngina, nema

1) hann, B. 2) fyrr, B.

3) [fèkk hann njósn af því, þó leynt ætti að vera, C.

4) fylgi, B. 5) tveimur fylge hestum, b. v. B.

6) „Þetta: fram Vindárdal, getur ekki staðizt, og má vera einhvern veginn rángt. Vindárdalur liggur aptur úr Hjaltadal, og snýr botninn á honum í austur eða suðaustur. En af ferð þessa manns er auðsèð, að hann hefir riðið almenníngs veg út eptir Skagafirði, og svo yfir Hrísháls, það bevísa Brekka og Kjarvalstaðir, hefir hann svo ekki komið nærri Vindárdal". athugagrein Árna Magnússonar við B.

7) [eptir Hjaltadal að Hólum, C.

8) [ár], b. v. B.

tveir prestar, annar þeirra var Hóla ráðsmaður, sem hèt Nichulás, en annar var kirkjuprestur, sem hèt síra Tumás, hann varð seinna ábóti á Múkaþverá. Ráðsmaðurinn fór þá[1] fyrir há-altari, og lèt staðarlyklana uppá skrínið, en tók sinn stóran mathníf í hvorja hönd, en menn biskups Ögmundar báru að honum þófa, og tóku hann svo, og drógu hann út af kirkjunni. Og eptir það höfðu þeir hann[2] frá staðnum í hesttagli, og fóru harðlega með hann, en hann vildi aldrei gefa sig nè gánga á hönd biskup Ögmundi, og þá þeir komu fram Mælifellsdal, sleptu þeir honum þar.

4. Síðan sendi biskup Ögmundur þeim þýzku í Kolbeins[3] ós boð, og fyrirbauð þeim að flytja síra Jón Arason, og þeir skyldu láta hann lausan, ellegar hann skyldi koma sjálfur og láta slá þá. En þeir sendu honum aptur þau boð, að þeir þyrði vel að finna hann, og það mætti ske, að þeir spörðu honum hvorki lóð nè krúð, eða púður. Eptir það lèt hann xij sveina vaka yfir sèr, á meðan hann var á Hólum, hann lá í Arnarstofu. En eina nótt sendi síra Jón Arason einn sinn mann, sem hèt Magnús klerkur, og tvo menn með honum, og lèt hann stefna biskup Ögmundi fram fyrir erkibiskup. Þessi Magnús var alkunnugur, og fór efra um Hólana, svo enginn vissi af honum fyr en hann kom upp að gluggnum á Arnarstofu, og stefndi biskup Ögmundi, og fèkk sínum fylgjurum stefnuna, og skipaði þeim að fara sama veg aptur. En [hann fór[4] inn í stöpul, og beið þar til þess kirkjunni var upp lokið; þaðan fór hann inn í kirkju, og í biskups kapellu, og hèlt sig þar, var þá uppi fótur og fit, svo hann hafði nóg að gjöra að verja sig fyrir þeirra ásókn; og á[5] meðan verið var að máltið, voru nokkrir menn settir til að geyma stöpuldyrnar, svo hann kæmist ekki út úr kirkjunni. En hann [læddist og[6] fór upp stigann, og komst svo á loptið í stöplinum[7]. En um nóttina eptir var haft varðhald á kirkjunni; komst Magnús þá út um einn glugg, og ofan á útbrotið og rendi sèr ofan eptir

---

1) sl. B. 2) í burt, b. v. B. 3) [ár], b. v. B.
4) [hann gat ei svo fljótt í burtu komizt, komst. C.
5) þann. B.; að, A. 6) [sl. B.
7) svo þeir gátu þá ekki haft hans meira, b. v. C.

stoðinni[1], og [svo slapp hann, svo þeir gátu ekki haft hans meira[2].

5. Þá lèt biskup Ögmundur út gánga það boð, að enginn skyldi dirfast að fá [síra Jóni Arasyni nokkurn[3] kost, eða veita honum eður[4] hans fylgjurum nokkra hjálp, og svo fóru þeir nálega kostarlausir, og fengu stóra storma, og rak þeirra skip undir Grænland[5]. Þaðan komust þeir með stórum áheitum norður til Húsavíkur innan xiiij daga, og fengu sèr kost hjá Þorleifi, sem var faðir Þorgríms á Núpum, og með það sigldu þeir til Noregs. Þar kom líka síra Jón Einarsson, umboðsmaður biskups Ögmundar, með margar sakargiptir, dóma og forboðsbrèf á móti síra Jóni Arasyni. Ein sökin var sú, að Jón Arason hefði stolið öllu kirkjunnar silfri frá Hólum, og haft það með sèr til Noregs. En hann hafði þar á móti vitnisburði ráðsmannsins og kirkjuprestsins, að það væri allt niður grafið í Hólakirkju, og með svoddan hætti eyddi síra Jón Arason öllum sakargiptum biskups Ögmundar, svo að þrír biskupar og allir kanúkar dæmdu allar klaganir biskups Ögmundar ónýtar, svo sem sá dómur útvísar og inniheldur; [sá dómur finnst á lögbók Pèturs Magnússonar í Hólum[6]. Og fèkk síra Jón Arason þá biskupsdæmi, en Odda stað í Skálholts stikti fyrir síra Jón Einarsson. Og þaðan í frá voru þeir svo sem beztu ástvinir, allt til þeirra dauðadags.

6. Anno 1525 kom biskup Jón Arason til Íslands með biskupsdæmi; hann sat á Hólum xx ár og hálft sjötta, og sat hann um kyrt fyrsta árið. En á öðru ári hans biskupsdæmis fjölmentu biskuparnir báðir til alþíngis, og hafði biskup Jón þá jx$^{c}$ manns[7], en biskup Ögmundur xiiij$^{c}$[8]. Sættust þá biskuparnir fyri meðalgaungu ábótanna og höfuðprestanna, og sú sátt og forlíkun hèlzt á meðan þeir lifðu. [En eptir þann samfund, þegar þeir skildu, þá komu boð frá Skálholti til biskups Ögmundar, að dómkirkjan væri brunnin af voveiflegum eldi; fèll hann þá strags í aungvit. En sá eldur hafði

1) trjánum, C. 2) [slapp með það úr þeirra höndum, C.
3) [þeim í Ósinn eður síra Jóni, C. 4) og, B.
5) Grenland, B. 6) [sl. B. 7) manna, B.
8) al. xiij$^{c}$, A. M. í B; MD (= fimtán hundruð), C.

komið til af reykelsis eldi, sem þá var hafður í kirkjunni um kvöldsaungs tíma; en annað aungvit hafði biskupinn fengið þá hann kom svo nærri staðnum, að hann sá kirkjan var brunnin[1].

7. En eptir það Viðey var tekin, og siðaskiptin upp komin í Skálholts stigti, og biskup Ögmundur í burtu fluttur úr landinu, þá kóngsvaldið vildi þrengja biskup Jóni til að meðtaka ordinantiuna og þá nýju siði og evangeliskar ceremoniur, þá sendi hann son sinn síra Sigurð á Grenjastöðum til Danmerkur, að fá fríun af kónginum, að hann mætti vegna sins eiðs blífa við þá gömlu siði á meðan hann lifði; [og segja sumir[2] að hann hafi það fengið[3], og hann hafði alltið haft kóngsins hylli og vináttu framan til, og líka verið í vingan við hirðstjóra og við fóvitana, allt til þess að herra Marteinn Einarsson var tekinn. Og það er ein[4] bivísing þar til, að kóngsins lènsmenn veittu honum stundum allar kóngsins sýslur í Norðlendínga fjórðúngi, svo hann mætti skikka þær til forlèníngar út af sèr, þeim sem hann vildi.

En eg veit ekki gjörla, hvað biskup Jóni og herra Marteini bar á millum, utan það sem kom til af siðaskiptunum, og í annan máta, að biskup Jóni þótti herra Marteinn of linur við Daða Guðmundsson vestur í Snóksdal, og ekki straffa hann nè um vanda svo sem tilheyrði fyrir hans ókristilegan lifnað, hórdóma og frændsemis spjöll og blóðskammir, sem hann Daði lá í, og aktaði hvorki guð nè menn, svo sem seinna skal bevísað verða.

En það hefi eg aldrei heyrt með sannindum, að biskup Jón Arason eða hans synir hafi nokkurn tíma tekið að sèr góz og eignir eður penínga fasta eður lausa af neinum manni með ofriki, án dóms og laga; það vita gamlir menn, að hann reið tvær reiðir austur til Bjarnaness, og tók þann stað að sèr eptir kóngleg[rar] Mayts brèfi, og eptir þeim dómum, sem

1) þessu frá [um kirkjubrunann sleppir C.

2) „Magnus indubitanter asserit", [þ. e. Magnús segir það óhikað] með hendi síra Torfa utanmáls í A, og helir það tillit til þess, sem segir í ritgjörð Magnúsar hèr fyrir framan (bls. 321): „hvað hann fèkk" o. s. frv.

3) [hvað eg hygg hann fengið hafi, C.

4) sl. B.

dæmdir voru um Teit þorleifsson. Útskrift af öllum þeim brèfum vona eg finnist hjá erfingjum síra Sigurðar heitins Jónssonar; [því þau höfðu verið öll á einni bók hjá honum á Grenjastöðum, þá Magnús heitinn Björnsson var þar[1]; [en aldrei kom síra Björn heitinn Jónsson til Bjarnaness, eða nokkursstaðar í Austfjörðu[2].

8. Eitt sinn[3] skrifaði biskup Jón páfanum til í Róm, með Úlfi Hanssyni, og bað hann að láta[4] skrifa sèr til, hvað hann skyldi láta gjöra af þeim Rómaskatti, sem til fèlli í Hóla biskupsdæmi, því þá var enginn erkibiskup í þrándheimi í Noregi að taka við þeim skatti, svo sem áður hafði siðvani til verið. En hann fèkk það andsvar aptur af páfanum, að hann skyldi gefa það fè fátækum, og það brèf hafði líka verið hjá síra Sigurði heitnum Jónssyni á Grenjastöðum í pjátur koffri, og var það ekki utan fáeinar línur[5]. Ekki bjó annað undir því brèfi, þó það hafi verið sagt eða skrifað uppá biskup Jón, að hann hafi viljað ráða land undan kóngi, og ekki hefi eg heyrt, að biskup Jón hafi gjört neitt á móti kónginum í Danmörk, utan það, að hann vildi ekki [samþykkja að klaustrin eður þeirra góz og eignir, og kirknanna rentur[6], legðist af, undir kóngsvaldið; og það annað[7], að herra Marteinn Einarsson biskup í Skálholti var tekinn til fánga.

9. Tvær reiðir reið biskup Jón vestur í Dali, og var það hans erindi, að hann vildi láta stefna Daða Guðmundssyni og koma honum fyrir lög, fyrir þau brot, sem hann hafði í fallið; það var undirrótin og helzta sök og tilefni til þeirra óvináttu, að biskupinn ávítaði hann og bannsetti hann fyrir hans vondan lifnað og illa breytni; [en öngvan hernað lèt biskupinn þar gjöra. þetta verður allt bevísað, þó það sè ekki hèr inn sett að sinni[8]. Sú þriðja og seinasta reið biskups Jóns og hans sona, síra Björns og Ara, sem riðu með honum vestur í Dali, skeði

1) [þar sá eg þau öll á einni bók hjá honum, C.

2) [sleppir C. 3) brèf, C. 4) sl. C.

5) „Magnus heiten sa þar breffeð ey meir enn 3 lynur", utanmáls í A, með hendi síra Torfa.

6) riettur, B. 7) [leggja af kirkjurèttinn gamla, og, C. 8) [slepp. C.

Anno Christi 1550. Riðu þeir þá til Sauðafells, svo sem annarstaðar finnst með fleirum orðum uppskrifað, (hverir sem það girnast að vita). Setti Ormur Stullason lögmaður þar þá þíng á millum þeirra biskups Jóns Arasonar og Daða Guðmundssonar, kom þá Daði þar með tíu tygi[1] manna[2] hervopnaða. Gekk þá biskup Jón til kirkju þar á Sauðafelli, og þeir bræður Björn og Ari með honum og nokkrir þeirra menn, sem lokuðu að sèr kirkjuna, og báru fyrir hurðina það sem þeir gátu og laust var, en biskupinn stóð við altarið; skutu þá menn Daða með byssum inn í kirkjuna, og skemdu nokkra biskupsins menn, sem stóðu fyrir utan kirkjudyrnar og ekki komust inn í kirkjuna; en þeir sem í kirkjunni voru hlífðu sèr fyrir skotunum með þófum. Eptir það lèt Daði rjúfa og brjóta í burtu bjórþilið á bak við altarið og draga biskupinn þar út frá altarinu, en hann hèlt á helguðu brauði, hvert niður hafði fallið, en einn prestur tók það upp með túngu sinni. Og er sagt, að sá maður, sem biskupinn dró út uppá vegginn, hafi verið einn stór kompán, og kallaður Dala-Markús, og sá sami hafi slegið biskupinn svo hart, að úr honum hafi fallið þrjár tennurnar; og þá það var sagt Daða, hafði hann slegið þenna sama Markús aptur. Eptir það brutu þeir þilið framan undan kirkjunni; þá skípaði Daði einum þýzkum dreng að skjóta síra Björn Jónsson, og drepa hann, þar hann sat á kistunni fyrir framan kórdyrnar, og skaut sá drengur hann í handlegginn, en Ari Jónsson ætlaði að skjóta Daða, en hans byssa vildi ekki [laust láta[3], þá gekk Daði að honum og sló Ara til blóðs.

10. En þegar þeir feðgar voru fángaðir, lèt Ormur Stullason gánga dóm út, og voru þeir feðgar dæmdir friðhelgir til kóngsins náða; en það hjálpaði ekki. Síðan voru þeir hafðir til Snóksdals, og þetta skeði annan dag Octobris[4], að þeir voru fángaðir á Sauðafelli, en þeirra menn voru sumir særðir og illa skemdir, svo þeir lágu lengi í sárum, en hinir allir fóru norður, sem undan komust, og sögðu þau tíðindi, sem

1) þannig hefir án efa Magnús Björnsson talið (sbr. bls. 322), og svo hafa hèr B (xcx) og C (ll); en A hefir xv tigi.

2) menn, B. 3) [lossa, C.

4) Fimtudag næsta effter Michael, A (utanmáls).

gjörzt höfðu. þá safnaði síra Sigurður Jónsson að sèr nokkrum mönnum, og ætlaði að ríða í Dali, og fá þá feðga lausa; en hann reið ekki lengra en í Hrútafjörð. þaðan sendi hann xij menn með friðarboðum, og var herra Marteinn í ferðinni með þeim, og trúlofaði, að leggja það bezta til sem hann kynni, þó þar yrði ekki af; foríngi þeirra manna hèt Gottskálk; hann fèkk litla stund að tala við biskup Jón, Daða hjáverandi, en þeir fengust ekki lausir, hvað sem í boðum var. En þeir Norðlenzku sneru norður aptur, því þeir vildu ekki fylgja síra Sigurði vestur lengra.

En Daði sendi til Bessastaða eptir umboðsmanninum; en þegar hann var kominn, riðu þeir af stað frá Snóksdal með sinn herskara suður til Reykholts, og höfðu þá feðga með sèr. Herra Marteinn var þar líka með. Hestamaður umboðsmannsins hèt Christjan; að honum keypti Ari Jónsson í ferðinni, að vísa sèr að þeim bezta hesti, og það gjörði hann. Ari komst þá á bak, og ætlaði strax að ríða í burtu, en hesturinn [varð staður undir honum, svo hann komst hvergi[1]. Síðan fluttu þeir þá feðga [til Skálholts[2].

11. En fimta Novembris vildi umboðsmaðurinn ríða í burtu frá Skálholti heim aptur til Bessastaða, og sagðist ekki vilja hafa þar með þá feðga, en þá hann var kominn á einn hest, drakk Daði honum til [eitt silfurstaup[3], og skenkti honum það. Herra Marteinn drakk honum til [eina silfurskál[4] og gaf honum hana[. En þeir báðu umboðsmanninn inniliga[5], að láta forvara þá feðga á Bessastöðum, til þess skipin kæmi, því þeir þóttust ekki vera færir til að varðveita þá svo lengi fyrir Norðlendíngum; og þeir fylgðu sèr mjög að við hann. þá stè hann af baki aptur og sagði, að jörðin kynni vel að geyma þá. Og næsta dag þar eptir lèt hann aflífa þá[6], og var Ari

1) [var þá ramstaður, og fór ekki úr stað, C.

2) [með stóru varðhaldi í Skálholt, C.

3) [af silfurstaupi, C. 4) [af silfurskál, C.

5) [og báðu hann báðir í staðinu, C.

6) „1550. 7da Jdus Novembris (ɔ: 7. Novembr.) sem þá var fanstudagrinn næstr fyrir Marteins messo, var biskup Jon Arason halshöggvinn í Skalhollte. Vide Sigurdar Registr frá Hólum p. m. 19.“ athugagrein Árna Magnússonar í B.

fyrst út leiddur til aftökustaðarins, og gaf hann böðlinum sinn hatt, til þess að hann skyldi afhöggva sig hreinlega, svo af tæki í einu, og það skeði svo. Þar næst var síra Björn út leiddur, en þó í annan stað, og þá hann var höggvinn mikið sár, bað hann sèr lífs í guðs nafni, vegna sinna margra barna, með mörgum og minnilegum orðum, og varð þá stans á fyrir böðlinum; þá gekk Daði að, og skipaði böðlinum með hasti að aflífa hann strax, svo hann talaði ekki fleira, og þá var það gjört.

Síðast var biskupinn út leiddur í þriðja stað, og var honum þá sagt andlát hans sona, og gekk hann út með glöðu geði og góðum yfirlit, og hafði krossmark sèr í hendi[1], og segja sumir að honum hafi verið boðið líf, en hann hafði svarað og sagt: fyrst synir sínir hefði farið með sèr, þá vildi hann fara með þeim. Og þá hann gekk fram hjá þar sem Daði stóð, þá upplypti hann sinni hægri hendi, og rètti hana að honum [þegjandi, þó með signingar marki[2], og gekk svo með gleði til síns lífláts, og gjörði áður fagran og lángan formála með mörgum góðum orðum, og gaf öllum blessun. Og þá hann var höggvinn það þriðja axarslagið, sagði hann: In manus tuas Domine, etc. Það heyrðu menn hann seinast tala, en ekki tók af höfuðið fyr en í sjöunda höggi.

Einn danskur maður, sem þar var viðstaddur, hafði sagt, að þá Ari var andaður hefði ein hvít dúfa flogið uppá kirkjuna, og önnur þá síra Björn lèzt, og þriðja þá biskup Jón var af tekinn, og þær hefði allar flogið upp í loptið svo lengi sem hann sá til; og þessi maður hafði grátið beisklega.

En á meðan þeir feðgar voru í varðhaldinu, höfðu þeir hvern dag haft messu, og lètu hvern dag gefa sèr guðs líkama, líka þann seinasta daginn, sem þeir voru til samans. Sumir segja, að biskup Jón hafi sjálfur bæði gefið sèr og þeim sakramentið, en aðrir segja, að í sínu húsi hafi verið haldinn hvor þeirra, og sinn prestur og djákni hjá hvorjum, og þetta er sögn gamallra dándismanna, leikra og lærðra, sem þar vissu til. Menn mega lesa kvæði Ólafs um þeirra líflát.

1) sem kvæði Ólafs útvísar, b. v. C.

2) [með signuðu krossmarki þegjandi, C.

12. En þá umboðsmaðurinn kom heim aptur til Bessastaða, þá hafði hann drepið böðulinn, og bölvað honum, og sagt, hann væri ekki verðugur að bera [hatt Ara[1]; en það veit eg ekki með sannindum. Þetta skeði á því ári, þá datum skrifaðist 1550, svo sem áður er sagt.

En á sama vetri eptir jólin, þá norðlenzkir vermenn voru komnir norðan [að, suður á Nes[2], drápu þeir umboðsmanninn og [xij aðra[3] með honum, og er sagt, að hann hafi gengið aptur og komizt á hnè, og verið eptir það afhöfðaður.

En um vorið eptir [lèt síra Sigurður Jónsson sækja alla þá feðga til Skálholts, og sendi þángað xxx menn[4], og þegar líkamarnir[5] komu svo nærri staðnum, að til þeirra sást niður hjá Leikskálaholti, þá var hringt öllum klukkum allt til þess að líkamarnir voru komnir inn í dómkirkjuna, og allir kennimenn og kirkjulýður gengu út á móti þeim út yfir tröðina, og lètu bera þá heim með miklu fjölmenni, og fyrir öllu þessu gekk og fyrir sagði síra Sigurður sálugi, sonur biskups Jóns[6], og var þá mikill harmur á Hólum. En vèr efunst ekki, að þessir feðgar muni vera hjá guði, í eilífri dýrð og himnaríkis vist, og vèr óskum þess af þeim lifanda guði fyrir hans kæra son Jesum Christum, að hvenær sem vèr eigum hèðan að fara úr þessum auma heimi, þá megum vèr verða inn leiddir í þá eilífu dýrð og sælu, og finna þar þessa guðs vini með öllum[7] útvöldum. Það heyri guð himneskur faðir fyrir[8] Jesum Christum. Amen.

Vèr viljum einnin bífala þá menn almáttugum guði, sem valdir hafa verið af því lífláti þeirra sálugu[9] höfðingja; en þó þeirra niðjar og eptirkomendur hafi fengið svo stórt manntjón, og ofan á það orðið að líða mikinn fjárskaða og stóra minkun og foröktun, þá kunnum vèr aldrei að fullþakka þeirri heilögu þrenníngu fyrir sína guðdómlega vernd og varðveizlu, og fyrir

1) [svo góðan hatt eptir Ara, því böðullinn vildi ekki sleppa honum, C.
2) [á Suðurnes, B.
3) [xiv alls, C.
4) [sókti síra Sigurður, sonur Jóns biskups, með xxx menn, þá feðga til Skálholts, C.
5) líkmennirnir, B.
6) hèr hættir C, og setur nafn undir: „Björn Magnússon m. c. h."
7) guðs, b. v. B.
8) sinn elskulegan son, b. v. B.
9) og loflegu, b. v. B.

allan þann heiður og upphefð, sem guð almáttugur hefir oss síðan veitt, biskups Jóns niðjum og eptirkomendum, hvar fyrir guð sè lofaður og blessaður að eilífu. Amen.

Magnús Björnsson var níu vetra anno 1550; hann ólst upp hjá síra Sigurði Jónssyni, og hefir hann því gjörla spurt, hvernig það hafi allt til gengið. En biskup Jón hafði verið fæddur á því ári, þá datum skrifaðist Mcdlxxxiv.

---

II.

# ÆFISAGA OG ÆTTBÁLKUR JÓNS BISKUPS ARASONAR

OG BARNA HANS.

## [1]Historian af biskup Jóni Arasyni á Hólum,

og um hans ættfólk, niðja og tengdamenn.

FÖÐUR ætt biskups Jóns:
Sigurður prior á Möðruvöllum.

Móðurætt biskups Jóns:
Orný, skyrkerlíng kölluð.
Þóra Ísleifsdóttir, [kölluð brók[2].

Ari Sigurðsson átti Elínu Magnúsdóttur og Þóru; hennar son biskup Jón Arason. Elín móðir biskup Jóns bjó á kotinu Grýtu, nærri Múkaþverá, í ekkjulífi sínu, með litlum efnum. Svo eitt haust, sem ekki voru [matvelar á bænum[3], nema snemmbær kýr í vonum, og Jón [sonur hennar[4] þóktist líða sáran sult meðan kýrin þrokaði, þá talaði hann til eitt kvöld við móður sína, að hann yrði að skera einhverja ána úr innstæðunni heldur en líða neyð, þá af rèð Elín[5] honum það:

---

1) Þessi ritgjörð er prentuð eptir afskript af ættartölubók síra Jóns Ólafssonar, sem fyr var getið (bls. 317 athgr.) í safni Árna Magnússonar Nr. 254 í arkarbroti, bl. 1—52; og samanborin við Nr. 255 í arkarbroti, bls. 46—69. Kapítula talan er sett við. Á stöku stað er notuð ættartölubók í safni Bókmentafèlagsins, Nr. 46 í 4to.

2) [b. v. í 255 af S. B. S., þ. e. af Sigurði lögmanni Björnssyni.

3) [matvele (= matvæli), 255.

4) [sveingdist og, 255.

5) móður (= móðir) hans, 255.

hann skyldi fyrir guðs skuld eigi gjöra sig að sauðaþjóf, því ekki var neitt til borgunar, og sagði: senn bæri kýrin. Sama töluðust þau við annað sinn og þriðja. Og þar eptir, sem Jón hafði leidt heim ána og lagt niður, þá hljóp Elín út fyrst, að vitja um kúna, og hafði hún þá borið, svo varð ekki meira af sláturs starfinu; hafði biskup Jón opt minnzt á þetta. Ari og Elín bjuggu á syðra Laugalandi í Staðarbygð; var þessum Jóni Arasyni kennt, og hafður á Múkaþverá; hafði þá hreinsað fjós og hesthús, svo sem aðrir lèttapiltar, en líklegt er hann muni þar hafa numið það sem hann lærði í sínu úngdæmi í Norrænu, en Latínu kunni hann ekki, og ekki lærði hann Latínumál, og ekki þá hann var biskup.

Vísa[1]: Ýtar buðu Grund við Grýtu,
garðinn Fell og Möðruvelli,
ábótinn því ekki játar
nema aðalbólið fylgi[2] Hólar[3]. — vjc[4].

„Styði þèr biskups efnið!" hafði biskup Jón sagt, þegar hann var uppvagstar drengur og leiddi hest úr flagi á Múkaþverá; hafði hann riðið ofaná og sofnað, datt svo af baki ofan i keldufall eitt, og þó hann í grannleysi og án meiníngar þetta talaði, og aðrir hlægi þar að, þá kom þar þó á við [daginn um síðir[5]. Einar ábóti á Múkaþverá hafði og sagt stundum við drenginn Jón Arason: „hvernig sem fer, þá segir mèr svo hugur um að þú, frændi, munir verða meiri mèr". Einar ábóti bauð og heimulega múkum og sessunautum sínum, að sinn bíta skyldi gefa hver drengnum Jóni, sem þar sníkti stundum.

2. Kvinna biskups Jóns var Helga, dóttir Sigurðar Sveinbjarnarsonar. Sá síra Sveinbjörn hèlt Múlastað norður: hann hafði átt fimmtigi börn og alla hálfrefi[6] að auki. En þetta er Sveinbjarnar ætt:

---

1) sl. 254. 2) þann. 255; fylgðu, 254.

3) aðrir hafa vísu þessa nokkuð á annan veg, og rèttari.

4) þ. e. „hálft sjötta hundrað hundraða", og mun sú vera meiníngin, að svo mikið ætti að koma fyrir Grýtu í jörðum.

5) [b. v. 255. Því þann má enginn kefja, sem Kristur vill hefja, b. v. 46.

6) 255; hálferfi, 254.

Fyrst er síra Sveinbjörn. Hans móðir var þórdís, dóttir Finnboga gamla. Hans börn voru: Sigurður Sveinbjarnarson, Hallgrímur Sveinbjarnarson og Guðný Sveinbjarnardóttir.

Börn Sigurðar Sveinbjarnarsonar:

1) Auðun Sigurðarson, sem kallaður var Laga-Auðun: hans börn: síra Kolbeinn Auðunarson norður í Húsavík, og Margrèt Auðunardóttir norður í Garði, kvinna Hallsteins heitins Eiríkssonar. þórunn Auðunardóttir, hennar maður hèt Jón þórðarson, [austan frá[1] Valþjófstað; sá Jón þórðarson, þó hann hefði áður átt systur síra Kolbeins, þá tók hann þó frá síra Kolbeini Aldísi[2] fèlagskvinnu hans, sem var Sölvadóttir; sór hún börnin sitt árið uppá hvorn, til skiptis, síra Kolbein og Jón, og var sitt árið hjá hvorum, því kvinna Jóns var þá dauð.

Börn Hallgríms Sveinbjarnarsonar:

1) Síra þorlákur Hallgrímsson, faðir herra Guðbrands. 2) Síra Einar á Útskálum, faðir síra Gvöndar. 3) Síra Gamli, faðir síra Bjarna, síra Giznrar og þorkels Gamlasonar, Hóla ráðsmanns. 4) Guðmundur Hallgrímsson, faðir Hallgríms og Pèturs, föður síra Hallgríms, suður[3] í Saurbæ. 5) Guðný Hallgrímsdóttir, móðir síra þorláks, sem hèlt Eydali austur. 6) Halldóra Hallgrímsdóttir. 7) þorkell Hallgrímsson, faðir síra Odds þorkelssonar á Hofi í Vopnafirði, sem átti Íngibjörgu Fúsadóttur, eptir síra Bjarna Finnbogason; þeirra son Bjarni Oddsson á Bustarfelli.

2. Helga Sigurðardóttir, kvinna biskups Jóns Arasonar, hafði verið, áður en hún kom til hans, hjá síra Ólafi[4], og átt við honum þóru, sem hèlt við síra Tumás Eiríksson á Mælifelli í Skagafirði; þeirra börn Ólafur Tumásson, síra Björn, þóra, kvinna Jóns heitins á Ökrum, Rafn, faðir [Ástu, konu[5] Sveins í Húsey.

Börn Guðnýjar Sveinbjarnardóttur, sem hún átti með manni sínum Eyvindi, þórey Eyvindardóttir; hennar maður hèt Ólafur

1) [austur á, 255.
2) Ástdísi (= Ásdísi), 255.
3) sáluga, 255. — Síra Hallgrímur Pètursson, sálmaskáldið, andaðist 1674.
4) Daðasyni, b. v. 46 (með nýjari hendi)
5) eptir 255; eyða í 254.

Grímsson, hann kom vestan að fyri stóru pláguna[1]. Íngibjörg Ólafsdóttir; hennar maður hèt Sigurður; Guðný Sigurðardóttir; þá börn Guðnýjar. — Guðrún þýzka var Ólafs dóttir laungetin, hún var móðir Margrètar Sveinsdóttur. Item Óluf Ólafsdóttir, skilgetin, hún var móðir síra Ólafs á Hálsi. — þrúður Eyvindardóttir, systir þóreyjar, var móðir Eyvindar karls á Hólum, hann var Magnússon; haun var lengi á Höfða á Höfðaströnd, og hafði Fljóta umboð, var náskyldur herra Guðbrandi þorlákssyni, og gaf sína próventu þá hann var uppgefinn.

þegar biskup Jón var kosinn á alþíngi, var hann mótmæltur af einum presti, sem hèt síra Böðvar. Biskup Jón kvað þar um þessa vísu:

Látína er list mæt,
lögsnar Böðvar,
í henni eg kann
ekki par, Böðvar;
til nauða hefir nóg tjáð
nú þar Böðvar;
þótti mèr þó rètt
þitt svar Böðvar[2].

þorvarður smjörleppur, hafandi átta vetur um áttrætt 1609, sagði, að biskup Jón hefði haldið Hólastað og stigtið XXXI ár[3], en herra Ólafur Hjaltason XVIII ár.

4. Biskup Jón Arason var fyrst prestur á Hrafnagili, var kjörinn til biskups á Hólum anno 1524[4]; hann sigldi það sumar, og kom út anno 1525. Hann hèlt stólinn XXV ár, og hafði mikla magt. Hann var sá seinasti pápiski biskup á Hólum, og hèlt fast á sinni gömlu trú, ofsókti hina, sem þá lútversku trú og lærdóm höfðu meðtekið, bannfærði þá og tók marga með valdi, eða rak þá frá eignum. Hann gjörði sig í hið syðra biskupsdæmið, reið suður með miklu föruneyti að inntaka Skálholt. Daði bóndi Guðmundsson var þá aðkomandi

1) sú plága, sem hèr er nefnd, er sú sem gekk 1495.

2) síðari vísuhelmínginn hafa aðrir öðruvísi en hèr, og rèttari.

3) þessi áratala kemur heim, þegar talið er frá dauða Gottskálks biskups 1520.

4) rètt. 1522.

og fyrir í Skálholti, þegar biskup með sinn flokk kom að norðan, og varði Daði og hans sveinar með liði herra Marteins Skálholt fyrir þeim feðgum. Þá var sendur fyrst heiman frá staðnum Andrès Magnússon upp að Úthlið, að njósna um ferðir þeirra Norðanmanna. Þessi Andrès var þá heimilismaður í Skálholti, en var síðan lögrèttumaður í Ölvesi; hann hefir sagt frá einu og öðru, sem þá hefir við borið, og svo þessu, að nokkrir færleikar voru teknir þá fyrir bóndanum í Úthlíð, en hann mátti hvergi nærri koma, varð að halda sig á kirkjunni; sendi þarfyrir sína kvinnu til fundar við biskupinn og hans sonu, til að ná aptur sínum færleikum, þenkjandi, að henni mundi vera lofað að gánga með frelsi til og frá; en áður en hún komst á fund biskups og hans sona, þá höfðu nokkrir óráðvandir af biskups mönnum tekið kvinnuna, haft hana afsiðis, og framið sinn mótþróunarsaman[1] vilja við hana, einn eptir annan, svo hún var þar eptir með litlu viti. Item hafa sumir með höndum eitt lítið kvæði, sem fyrnefndur Andrès Magnússon skal hafa kveðið um greinda heimreið biskups Jóns og hans fylgjara að Skálholti[2].

Síra Jón Bjarnason[3] var fyrirliði í Skálholti, þá biskup Jón reið suður, og stóð vel í þann tíð með sínum biskupi; hann lèt taka síra Freystein Grímsson og leiða hann að viðarkesti í Skálholti, og lèzt vilja strýkja af honum alla hans húð, fyrir hans óhollustu við Skálholts biskup, þar hann fèll í sið með biskup Jóni; hèlt síra Freysteinn þá Stafholt, og var haldinn einn megtar prestur fyrir sunnan.

5. Anno 1543, eður litlu fyrri, þegar síra Gísli Jónsson hèlt Selárdal, sem síðar varð biskup í Skálholti, sendi biskup

1) mótþróanlegan, 255.

2) „Um þetta skrifar svo herra Oddur Einarsson: Þó þetta og annað þvílíkt hafi uppteiknað verið, þá vita menn þó engin sannindi á því, og er ekki ólíklegt, að óvildarmenn þeirra feðga munu hafa mörgu við aukið þeim til ófrægðar, sem annaðhvort aldrei hefir við borið, eður er skeð fyrir utan þeirra ráð og vilja. Von er flesta ól við slíkri óhæfu." — Þessari grein er skotið inn í 255, og hnigur án efa að því, sem sagt er um konuna frá Úthlíð.

3) Bjarnarson, hèr og víðar, 254, en Bjarnason er hið rètta.

Jón honum bannfæríngarbrèf[1] í Latínu, og lèt lesa það yfir honum. það brèf er sagt að sira Jón svenski hafi samsett fyrir biskupinn, því biskup Jón kunni ekki Latínu; og hefir það annaðhvort skeð vegna trúarbragðanna nýju, eður (hvað líklegra er) vegna giptíngar síra Gísla við Kristínu Eyjólfsdóttur, sem áður hafði fallið í óbótamál. En strax sem síra Gísli fèkk það brèf, ráðgaðist hann um við kvinnu sína, Kristínu, hvort hún vildi heldur vita sig [hèr í landi[2] undir ánauðar oki biskups Jóns og hans sona, eður utanlands[3] hjá vinum og kunningjum. En hún eggjaði hann á að sigla í nafni drottins. En sem síra Gísli var sigldur fyrir viku, sendi biskup Jón son sinn síra Björn til Vatnsfjarðar, og lèt dæma af síra Gísla prestskapinn[4], stað og heiður og alla hans peninga, eitt með öðru, og varð Kristín Eyjólfsdóttir að gánga í burt af Selárdal með sínum börnum. Vorið eptir kom síra Gísli út í Straumi með Otta Stígssyni, — í annálum stendur, hann hafi verið hirðstjóri anno 1544, — og voru þá orðin önnur umskipti. Brèf Dr. Petri Palladii var til hjá síra Stepháni, hvert hann skrifaði í þann tíma til Íslands Skálholts prestum til.

6. Undir eins ætluðu þeir síra Björn og Ari að ríða heim á Skarð á Skarðströnd, og taka það að sèr; en lögmaðurinn þorleifur var ekki varbúinn að mæta þeim, svo þeir sneru þaðan erindislaust. þar um er kveðið af biskup Jóni:

Riðu þeir heim á ríkan garð,
rausnarlítið erindið varð;
[höldar segja[5] höfuðból þetta heiti Skarð.
[kýmandi að þeim[6].

Um þetta leyti meina eg það skeð hafa, að síra Björn, biskups Jóns son, tók að sèr Staðarhól, hver áður um nokkur ár hafði haldinn verið beneficium eptir gjöf Lopts Ormssonar[7], í

1) Brèfið til síra Gísla er án efa hið sama, sem enn er til á Íslenzku, og er ritað á Hólum 1550 (síra Gísli kom ekki til Selárdals fyr en 1547), og er það stefnubrèf og forboðan, en ekki bannsbrèf, þó það sè svo kallað víða.

2) [sl. 255. 3) í Danmörk, 255. 4) prestinn, 255.

5) [þann. 255; heyrt hefi eg að, 254. 6) [sl. 255.

7) þann. 255; Orms Loptssonar, rángt, 254.

þann máta, ef hann ætti ekki skilgetið barn eptir sig. Loptur var þá utanlands og dó þar, en kona hans Steinunn ól hèr á sama ári barn, Pètur Loptsson, og eptir þeirri skilgetníngu og skilmála gekk Staðarhóll aptur undan dómkirkjunni, en þrír prestar höfðu haldið Staðarhól að biskups veitíng: 1) síra Ólafur Oddsson[1], sem dó í miklu plágunni anno 1495; [annar] síra Halldór Tyrfíngsson, afi Gvöndar Jónssonar á Hvoli í Saurbæ; þriði var síra þórður Ólafsson, afi Pèturs í Tjaldanesi, hvern síra Björn biskupsson rak í burt, en tók að sèr staðinn Staðarhól, og hèlt hann tvö eður þrjú ár, og hafði þar bú sitt, en hann bjó sjálfur á Melstað í Miðfirði. Síra Björn hèlt við Steinunni Jónsdóttur, og var hún svo sem hans eigin kvinna, en sagt var[2] að Pètur Loptsson, afi Steinunnar, skyldi hafa átt að gefa barni Steinunnar, [Teiti Björnssyni[3], eður Steinunni sjálfri, málstað uppá Staðarhól, og því þóttist síra Björn með rèttu taka hann að sèr. En eptir síra Björn tók Daði Gvöndsson að sèr Staðarhól í þrjú ár, eður svo; hann hafði þar bú. Síðan keypti Páll Jónsson málstaðinn að systur sinni Steinunni, og svo er Staðarhóll kominn í þá ætt.

7. Á sínum seinustu árum hafa þeir þrír feðgar, biskup Jón, síra Björn og herra Ari lögmaður, riðið um þetta Skálholts biskupsdæmi, tekið upp bú og eignir manna, og með valdi haft af þeim eptir vild sinni. þeir bræður, Ari og síra Björn, höfðu árinu fyrir[4] riðið í Hitardal, að taka síra Árna Arnórsson, en prestur var þá ekki heima, svo riðu þeir vestur til Staðar og komu óvart uppá síra Árna, er hann var í heimreið[5] og lá í tjaldi sínu á Stakkhamarsfitjum. þar tóku þeir hann naktan og fluttu norður til Hóla berbakt, sumir segja um þverbak, svo sem torfu; og sem hann var kominn norður, hneptu þeir hann undir smjörpall og fóru illa með hann, því hann blótaði þeim. Síra Jón Gíslason sagðist hafa legið þar[6] til fóta síra Árna.

1) þann. 255; Ólafsson, 254. 2) er, 255.

3) [þann. 255; sem hèt Teitur Björnsson hinn fyrri, 254 milli sviga.

4) þann. 255; þ. e. árinu fyrir að þeir voru teknir, eða 1549, sem og er rètt; 1518, rangt, 254.

5) heimleið, 255. 6) sl. 255.

Biskup Jón kvað:

þá tók til að kárna fyrir Árna:
þeir þrengdu' honum undir þiljur niður[1],
[þá tók[2] bæði brjóst og kviður
með síðum[3] sárna.

Item: þeir festu uppá hann fúlan kopp,
sem fyr var hafðr á[4] borðum
hjá skorðum;

með öðru háði og hrakníngum, sem þeir gjörðu honum[5].

8. Hverjar sakir þeir hafi gefið síra Árna, hefi eg ekki heyrt, utan hann var skyldur Daða Guðmundssyni og honum meðfylgjandi[6]. Í sömu umreið hygg eg þeir hafi tekið herra Martein Einarsson á Staða[r]stað. þegar þeir sátu nú á Staðarstað, reið um farinn veg maður Daða Guðmundssonar í Snóksdal og slapp hann óvart hjá þeim, og þó þeir léti ríða eptir honum, þá dró hans góður hestur þó svo ört undan þeim, að þeir höfðu hans ekki meira. En þessi maður var Jón Sigurðsson refur, og reið lífhesti Daða, Markúsar-Brún, hafði hann bundið hestinn á Stað í einu húsasundi á bak til við bæinn, gekk svo til stofu og sat yzt við dyr, og hlýddi á ráðagjörðir þeirra biskupssona, til þess að rökkva tók, læddist hann þá í burtu, en þeir söknuðu brátt mannsins, og spurði fyrimaðurinn, hver sá maður hefði verið, sem yzt hefði setið í dag svo hljóður, og væri genginn út; þeir sögðust hann ei þekkt hafa; [svo voru menn sendir út að kalla á hann, en þeir sögðust ei finna hann, en maður einn riði vakurt á brúnum hesti[7] á Staðarholti. Biskupssynir sögðu, það mundi vera einn maður Daða, sendur til njósnar, og skipuðu fjórum [mönnum]

1) þannig hefir 251 röðina, en 255 setur þessa hendíngu á undan hinni fyrri. 2) [því varð, 255. 3) beinum, 255. 4) að, 255.

5) Eptir það kom kvinna prestsins, og fékk hann lausan, og lagði út ótæpt af silfri, er hún með sér hafði, en Árni lofaði trygðum, að vera ekki mótfallinn biskup Jóni, b. v. 46, líklega eptir Annálum Björns á Skarðsá.

6) fylg,audi, 255.

7) [þeir sendu út, að kalla á hann, en hann fannst ekki. þeir sögðu maður riði vakurt á brúnum, 255.

að ríða [beztu hestum[1] eptir honum. Jón rebbi[2] reið suður flóa og var þá flæður[3] í flóann, varð hann því að ríða á sund, og við bakkann, þar hann stefndi á land, var djúpast; hann sló þá keyri sínu millum eyrna á hestinum, stökk hann þá upp á bakkann með Jón, og urðu hinir frá að snúa; en hann kvaddi þá með kallsi, reið svo upp að Hofstöðum, og svo inn Kerlíngarskarð og heim Skógaströnd, en menn biskupssona leituðu heim undir Hafursfell. Eptir það riðu þeir bræður, síra Björn og Ari, með miklu fjölmenni inn Rauðamelsheiði og Norðlíngaveg um Vestliðaeyri, en af því þeir formerktu, að Daði var við þeim búinn, þá riðu þeir ekki heim að Snóksdal, heldur tjölduðu nærri túninu, skrifuðu svo heim bréf með trássi, Daða til hugmóðs, að hann skyldi nú sækja þá út fyrir túnið, herra Martein og síra Árna, og þeim lægi nú meira á, en þá hann hefði verið fyrir hermanna flokki í Skálholti, og varið þeirra föður, biskup Jóni, dómkirkjuna þar. Guðrún Einarsdóttir, kvinna Daða, hafði gengið út til þeirra biskupssona, og beðið fyrir fimm undir Jesú Christi, að þeir gæfi lausan og í hennar vald herra Martein Einarsson bróður hennar, en þeir kváðu hana hafa barna skap. Hvorugir þorðu í það sinn að ásækja aðra, hvorki leitaðist Daði við að ná þeim fanguðu, né hinir heim að sækja að ná Daða. Þeir bræður voru með hundrað hermanna. Daði hafði sent um alla Dali, og kallað saman þá liðbeztu og öruggustu menn, svo þar komu saman í Snóksdal tvennir LXXX til liðsemdar við Daða, sumir vel útbúnir með sverð og hanzka, sumir með vopn, axir, lángskeptur[4] og lagvopn. Daði hafði og átt tygi á XXX menn sjálfur. Þessir allir stóðu með Daða vel útbúnir við veggi og skansa, með byssur líka, í kríngum staðinn í Snóksdal, þegar biskup Jón og hans synir riðu fyrir neðan, og voguðu þeir þá ekki heim, heldur stefndu þeir til Sauðafells og settust þar að. Daði átti þá Sauðafell og hafði þar bú sitt og mikla peninga. Þeir feðgar létu ríflegana slátra nautum og sauðum Daða fyri sitt fólk. Óvinátta millum Daða og Ara biskupssonar reis af því, að Ormur Sturlason lögmaður seldi eður veðjaði báðum Sauðafell, hvers að siðar getur í frásögunni.

1) [sl. 255. 2) refur, 255. 3) flæðer, 255.
4) axir og lángskeptur, 255.

9. Anno 1548 hafði biskup Jón verið stefndur og boðaður af kóng Christjan þeim þriðja, þeim guðhrædda og rètt lútverska herra, fram í Danmörk fyrir kónginn og ríkisins ráð, ellegar skyldi hann útlægur. Lafrans Múl var þá hirðstjóri. En biskup Jón skeytti því ekki, og er sagt hann hafi skrifað til Hollenzkum (sumir segja Engelskum), að þeir skyldu koma og inntaka landið, og það trúi eg hafa verið hæstu sök biskups Jóns, hvar fyrir hann var tekinn og síðan líflátinn, og hans eignir dæmdar undir kóng fallnar, svo sem þess, er ræður lönd og þegna undan kóngi sínum.

Annaðhvort á sama ári, eður árinu fyrri, en biskup Jón var tekinn, þá kom út kóngs brèf, í hverju kóngurinn bað og befalaði hinum yppurstu og mektugustu mönnum í Skálholts stigti (þar var Daði nefndur einn með öðrum og Pètur Einarsson sýslumaður), að þeir skyldu veita biskup Jóni og hans sonum mótstöðu í [þeirra þúngum[1] týrannaskap og yfirgángi, og taka þá til fánga ef þeir gæti. Því hefir biskup Jón og hans synir fengið hatur til [Daða eður[2] svoddan manna, og haft er eptir honum, að hann óttaðist ekki utan hálfan annan róndason á Íslandi. Það voru Pètur og Daði, [hvern hann kallaði hálfan[3] bóndason. Eptir það bannsaung Jón biskup Daða heima á Hólum áttadag sjálfan fyrir messu anno 1549, eptir því sem stendur í annálum, og var síðan lýst hans banni víða um Ísland. En þetta hygg eg tilefnið verið hafa: Daði Guðmundsson í Snóksdal átti nokkur börn við þeirri konu, sem var hans systrúngs barn (hvort sem þau börn voru ij, eður iij eður fleiri), en fyrr meir hèr í landi máttu þær persónur ekki giptast nè saman vera, sem voru fjórmenníngar að frændsemi eður mægðum, utan önnur persónan væri í fimta lið. Kvinna Daða Guðrún Einarsdóttir, systir herra Marteins í Skálholti, var á lífi þegar hann átti fyrgreind börn, og hann hèlt sínar tvær concubinas í margt ár, í tráss við sína eiginkonu. Euphemia hèt sú, sem var heima í Snóksdal, og hann virti hana ekki síður en eiginkonu sína, þó þau ættu ekki börn saman; en aðra lèt hann vera fyrir búi sínu á Sauðafelli; kvittaði hann sig við kóngs-

1) [þann. 255; þeim, 254. 2) [þ. v. 255.
3) [þann. 255; hverja hann kallaði hálfan annan, 254.

valdið um brotin og barnsektirnar, en leiðrètti sig þó ekki. Sá frómi herra Marteinn biskup leið þetta af sinni hógværð, eður hitt, að Daði sætti ekki hans umvandan og áminníngum, og treysti uppá sinn ríkdóm og mikilmennsku. En þá biskup Jón sá, að þetta gekk svo ókristilega og óskikkanlega til, vildi hann í engan máta líða slíkt framferði öðrum, og tók [sig því[1] til þessa vandlætis, án nokkrar befalníngar, heldur af hatri og illum vilja til Daða, og þess nýja[2] lútherska lærdóms, og bannsetti Daða nokkrum tímum[3] fyr en hann var tekinn af honum 1550 um haustið.

10. Í seinustu reið biskups Jóns úr Austfjörðum, sem kölluð var Bjarnanessreið, þá tók biskup Jón inn Skálholt, og lèzt hreinsa kirkjuna og vígja hana upp aptur; þá vígði hann og nokkra presta, og biskupaði mörg börn. Einn af þeim fjórum prestum, sem vígðir voru, var síra Jón Gíslason; hann hafði verið fatabúrs piltur, og var kallaður Jón hinn Maríulausi; allir voru[4] lítt lærðir, og voru skildir eptir á staðnum. Svo reið hann um Borgarfjörð og gisti í Þíngnesi; þar biskupaði hann Gísla Þórðarson, sem síðar varð lögmaður, og Ragnhildi Þórðardóttur. Jón bóndi í Bæ og sira Freysteinn í Stafholti snerust í ferð með biskup Jóni, og margmenni mikið, xl menn úr Borgarfirði. Svo riðu þeir allir inn í Miðdali til Sauðafells, og settust þar að. Víkur nú sögunni þángað[5], og þar að, hvernin biskup Jón var tekinn.

11. Biskup Jón og synir hans, með öllu sínu föruneyti, lxtíu eður xtíu manns, sátu á Sauðafelli í þrjá daga, og var það um haustið 1550. Daði hèlt og margan mann velbúinn með góðri varatekt í Snóksdal, til þess hann sá færi, ráðrúm og tækilegan dag til að læðast upp með Miðá, og koma þeim nokkuð á óvart á Sauðafelli. Reið svo heiman einn dimman þokudag, og lèt menn sína flesta [hafa yfir sèr grár síðhempur, samlitar[6] þokunni. En sem hann kom upp á teiginn fyrir neðan Hamraenda, bað hann þá eina að fylgja sèr, sem fullhuga væri og reiðubúnir við hverju sem á vildi bíta. Þá er

1) [þann. 255; svo, 254. 2) eina, 255. 3) tíma, 255.
4) þeir, b. v. 255. 5) þaðan, 255.
6) [vera yfir sèr i gráum síðhempum samlitum, 255.

sagt Daði hafi gjört samband við sína fylgjara, að ef þeir voguðu sèr til með honum og fengi nokkur bana í þeirri aðferð, þá lofaði Daði að annast þann og þess börn, sem í ómegð væri, en láta á sinn kost græða þá sem sárir yrði, og veita þeim og þeirra liðsemd alla sína daga. Sneru þá aptur frá Daða nokkrir, sumir segja einn, sem var landseti sjálfs Daða á Hörðubóli, Jón Ólafsson sterki, faðir eða föðurbróðir síra Steingríms, sneri aptur og þreifst aldrei síðan[1] nè hans afsprengi, en eru þó mannborlegir menn að sjá[2].

12. Daði hèlt fram leið sinni og lx eður lxxx manns með honum upp með Túnguá, svo ekki varð vart við hann nè hans menn, fyr en þeir komu norðan að bænum á Sauðafelli fyrir fellsendann. Það er og mælt, að þessir Daða menn hafi allir tvímennt, utan Daði, og biskups Jóns menn hafi sagt, að ekki væri mikið um flokk Daða. Voru þá Norðlendingar strax uppi með sverð og hanzka, byssur og vopn sín. Danskur maður var einn eður fleiri í liði biskups Jóns, og bauð[3] biskup honum að hann skyldi setja byssuna strax á móti Daða, [hvað sá Danski gjörði[4]; hann fór uppá bæjar ræfrið og lagði byssuna á skemmubustina og siktaði svo á Daða, en kallaði strax aptur til biskupsins, að byssan vildi ekki lossa. Daði reið allt upp á[5] Kötluhól, og tók sèr þar stöðu og hans menn, og lèt stinga upp garð, og leggja á byssurnar. Daði bað Sunnlendínga, sem voru í ferð og liðsfylgi við biskup, að gánga frá, og þeir skyldu þiggja grið sem vildu. Þá er sagt af biskupi hafi gengið nokkrir menn, xl eður þar um: Jón bóndi í Bæ, sýslumaður, og síra Freysteinn, og [þeirra fylgjarar aðrir borgfirzkir menn[6], en lxx[7] eður lxxx hafi[8] veitt mótstöðu og varið þá feðga, en þeir urðu strax að renna undan flokki Daða og flúðu á kirkjuna og læstu.

13. Sagt er, að Daði hafi boðið boð á Sauðafelli þeim feðgum, og einkum Ara, áður en þeirra viðskipti urðu, og hafi kallað heim af hólnum, hvort Ari heyrði orð sín: hann

---

1) vel, b. v. 255. 2) á að sjá, 255.

3) í öðrum annál segir, að biskup Jón hafi bannað að skjóta Daða, SBS. (o: Sigurður Björnsson), utanmáls í 255.

4) [sl. 255. 5) að, 255 6) aðrir borgfirzkir þeirra fylgjarar, 255. 7) lx, 255. 8) þann. 255; hafa, 254.

byði þeim feðgum eitt hundrað hundraða fyrir sig og allt sitt góz, að það[1] mætti vera í friði. Ari haf[ð]i sagt þetta föður sínum, en þess var ei kostur; bauð þá Daði tvö hundruð hundraða, og kvaðst þá Ari að þeim boðum gánga skyldu ef hann mætti um ráða, en síra Björn kvað ekki minna mega koma i friðkaupið, en eitt hundrað hundraða fengi hver þeirra feðga.

Daði hafði þá eggjað menn sína aðgaungu[2] með sèr, og er sagt að menn Daða hafi þá skotið inn um hurðina, þar er enn nú sú fjöl í miðri hurðinni, og er lóðsgatið á henni miðri; það skot kom í handlegg á síra Birni; lagðist hann þá fyrir i kirkjunni og lèt breiða yfir sig þófa. Ari lögmann stóð [fyrst í kirkjudyrunum[3] með steytta byssu, og tók helzt vara á Daða. Einn maður Daða sló undir byssuna í því Ari hleypti henni af, svo lóðið flaug fyrir ofan höfuð á Daða, og fólkið, en Ari fèkk skeinu á hökunni svo hún sprakk í sundur, en honum varð það um, að hann sagði það væri mark sitt, sílt[4]. Særðir voru nokkrir menn fyrir kirkju dyrum: Einar Gíslason, sveinn síra Björns, og Ólafur Tómasson, sem var með biskup Jóni, báðir þeir xviij vetra gamlir og fèllu óvígir. Einar var lagður í lærið, en Ólafur særður í andliti, flett ofan vángafyllunni á honum, og lèt Daði [bera þá inn í staðinn og græða þá síðan[5]. Síðan skipaði Daði sínum mönnum að brjóta upp kirkjuna, eður rjúfa kórinn, og var það gjört, því þar var þil fyrir en ekki veggur, var kirkjan rofin á kórbaki og þar voru út teknir þeir feðgar. Biskup hafði verið skrýddur fyrir altarinu, sumir segja, að hann hafi staðið á[6] altarinu og haft fyrir sèr Maríu líkneski þá þeir tóku hann. Biskup Jón kallaði upp: „gef grið Daði!", [eður: „gefðu grið Daði!"[7] — Daði gekk að, rètti honum hönd og sagði: „kystu á hanzka minn!"

Svo var hann tekinn og hans synir, en liðsmenn þeirra fóru hver sinn veg, utan tveir menn er sagt þeim hafi fylgt. Fáir menn fengu aðrir sár eður áverka í þessari Sauðafells heimreið og atför, en enginn bana.

---

1) þeir, 255. 2) að ganga, 255. 3) [fyrir kirkjudyrum, 255.
4) sýlt, 255. 5) [græða þá báða, 255. 6) uppá, 255.
7) [sl. 255.

14. þeir feðgar voru svo færðir ofan í Snóksdal, og settir þar í litlu baðstofuna, voru þar svo viku eður lengur í þraungu haldi, meðan Daði sendi til Bessastaða um þessa tilburði, til kóngs umboðsmanns, er Christjan hèt. Hann reið strax vestur í Dali; var þá dómur útnefndur af Ormi Sturlasyni, og honum afhentir þessir fángar, þeir þrír: biskup Jón og synir hans, síra Björn og Ari lögmann, en Daði dæmdur viðskila með xij manna dómi, og samþykt Orms Sturlasonar lögmanns og Christjans skrifara á Sauðafells þíngi. þann dóm hafði upp sagt þorleifur heitinn Einarsson á Hofstöðum, og voru þeir feðgar dæmdir þá undir kóngsins náð og ónáð; hafði Ari ansað, sèr líkaði það bezt fyrir sig og sín börn. þeir höfðu þó áður verið dæmdir friðhelgir til kóngsins náða, sumir segja í Dölum, eptir það þeir voru teknir; en sumir segja það hafi verið dæmt á alþíngi af þrennum tylftum sumarið fyrir, en það reynist[1] ekki satt. Sagt er, að Daði hafi boðizt til að varðveita Ara Jónsson til alþíngis næst komanda, ef nokkur vildi annast biskup og síra Björn; svo bauðst og herra Marteinn líka til að forvara[2] Ara, því báðum var vel til Ara, og hann hafði verið herra Marteini mjúkastur, en enginn vogaði að taka hina, því fóru allir þeir einn veg.

15. þegar þeir feðgar voru í haldi í Snóksdal, þrjár vikur og tvo daga meir[3], í læstu húsi og þraungu, höfðu þeir eitt sinn innt til orðs, að fögur væri veröldin, fengi þeir hana eitt sinn að sjá. Hafði Daði þá gengið til þeirra og spurt, hvort þeir vildu vera dyggvír og tryggvir[4], ef hann leyfði þeim út, og skyldu sitja í samsæti með öðrum, því þá var herra Marteinn þángað kominn [að norðan[5], og bað herra Marteinn helzt um Ara, að hann væri frí þann dag, og sæti hjá þeim. þeir lofuðu[6] trú og trygð, en sem aðfram kom reyndist öðruvís, því þá Ari sat til borðs með þeim, náði hann daggarði eður knífi, og seildist yfir um annan mann — herra Martein kannske — og ætlaði að stínga Daða, því voru þeir aptur inn settir og að skildir.

---

1) reindiz = reyndist, 255. 2) varðveita, 255.
3) sl. 255. 4) trúir, 255.
5) [sl. 255. 6) því, b. v. 255.

16. Christjan umboðsmann og Daði Guðmundsson höfðu þá svo eptir þetta í Skálholt. Herra Marteinn Einarsson var þá biskup, og hafði strax á Hólum verið laus gefinn; eins líka síra Árni frá Hítardal, þegar það spurðist norður, að biskup Jón væri fánginn. Svo var stefnt saman fólkinu í Árnes sýslu að heyra kóngsins brèf, og þær sakargiptir, sem þeim voru gefnar. Þeir umboðsmaðurinn Christjan skrifari, herra Marteinn og Daði, skutu hver af sèr þeim vanda, að geyma og ábyrgjast [þessa fánga[1] til vorsins, því þeir óttuðust mjög Norðlendinga og þorðu ekki að geyma þá lifandi — Ormur Ófeigsson á Hofi sagðist hafa lèð síra Jóni í Kálfholti [þá skrá[2], sem inniheldur sakargiptirnar. — En nokkrir duglegir menn höfðu einarðlega og djarflega sagt á ráðstefnunni í Skálholti, sem haldin var um þá feðga nokkra daga, að það væri ekki tilheyrilegt, ekki manndómlegt heldur hefndavænlegt, að taka slíka menn af án dóms eður laga; sèrdeilis höfðu þetta talað Magnús bóndi á Núpi í Eystra-Hrepp, og Arnór bóndi, sem þá bjó í Arnarbæli; en þetta hjálpaði ekki, og lá sem næst að þeir væri líka teknir, einkum Arnór.

17. Eptir lánga ráðslögun í Skálholti kvað Christjan umboðsmaður það upp, Daði segja sumir[3]: að jörðin geymdi þá bezt, og eptir því atkvæði voru þeir allir af teknir feðgar þrír á einum degi í Skálholti, föstudaginn næsta eptir allra heilagra messu anno 1550; sumir skrifa föstudaginn næsta fyrir Marteinsmessu[4]. Böðullinn hafði verið sóktur til Bessastaða á miðvikudaginn fyrir; hann hèt Jón Ólafsson, drengtötur[5]; þann böðul höfðu Norðlingar tekið síðan um veturinn, og hellt ofan í hann heitu[6] blýi og drapst hann svo[7]. Ari lögmaður bað einn mann Daða, Jón Halldorsson, sumir segja Jón

---

1) [þá fángana, 255. 2) það brèf eða skrá, 255.

3) Biskupa-annáll segir, að síra Jón Bjarnason hafi þeim orðum talað, S. B. s. (þ. e. Sigurður Björnsson lögmaður; sbr. Safn til sögu Íslands I, 95).

4) hvorttveggja er sami föstudagur (7. Novbr.) árið 1550.

5) drengtetur, 255. 6) sjóðandi, 255.

7) en í annari skrá stendur, að umboðsmaðurinn hafi drepið þenna sama böðul, fyrir það hann væri ekki verðugur að bera hatt Ara lögmanns, b. v. 255; sbr. bls. 325, 337.

Ólafsson, að höggva sig af[1], því Jón var hraustur maður; bauð Ari honum sinn bezta klæðnað í staðinn, en Jón vildi það ekki og svaraði: „Eg mátti ekki þá eg vildi".

Þann sama dag, sem þeir feðgar skyldu rèttast, tóku þeir allir þjónustu og sakramentum fyrir háaltari; var svo Ari fyrst út leiddur og líf boðið, með því móti að hann lofaði að hefna[2] aldrei, en hann kjöri sèr[3] heldur dauða, og sagði: „Nauðugur gekk eg til þessa leiks, en nú skal eg viljugur gánga út". Síra Björn hafði verst borið sig, en honum antignuðu allir. Biskup Jón kvað þessa vísu litlu fyrir sitt líflát[4]:

Vondslega hefir oss veröldin blekkt,
villt og tælt svo nógu frekt,
ef eg skal dæmdur af danskri slekt
og deyja svo fyrir kóngsins mekt.

Þá biskup Jón var út leiddur, var til settur sèrdeilis prestur að telja honum fortölur (eins hinum), sá hèt síra Sveinn; og sem biskup gekk fram úr kórnum vildi hann krjúpa niður fyrir María líkneski, en prestur bað hann að leggja af þá hèrvillu, og sagði meðal annara huggunar orða: „Líf er eptir þetta líf, herra!". En biskup Jón veik sèr við snögglega, og sagði: „veit eg það, Sveinki!".

Ari var fyrst [út leiddur og[5] af tekinn; þar næst síra Björn Jónsson. Sagt er, að biskup Jóni hafi þá verið boðið líf, en hann hafi heldur kosið sèr að deyja, og var hann seinast högginn. Sagt er, að drengnum hafi þá skeikað högg út á öxlina fyrst, en í öðru höggi hafi af tekið, en í fjórum eða fimm höggum hafði böðullinn marið höfuðið af síra Birni. Sinn var af tekinn í hverjum stað: einn hjá Þorlákssæti, hinir þar skamt frá, fyrir norðan túngarðinn; en sumir skrifa, þeir hafi allir verið hálshöggnir fyrir norðan traðirnar, ekki lángt frá stöðlinum, síðan voru þeir grafnir samdægris, bak við kórinn í kirkjugarðinum. Þar láu þeir um veturinn allir í einni gröf, frá vij nóttum eptir allra heilagra messu og til sumars.

1) Jón Ólafsson (Halldórsson?) átti Guðrúnu Árnadóttur (laungetna, b. v. 254), b. v. 254, 255.

2) hefnast, 255. 3) s!. 255.

4) utanmáls í 255 stendur með annari hendi: Vísa Jóns biskups, þá hann var út leiddur. 5) [b. v. 255.

Biskup Jón hafði verið vanur að skipta upp xx hundruðum með fátækum á Jónsdag og Gvöndardag árlega á lángaföstu, og þá hann var í haldi í Skálholti gat hann sent norður sitt signet af gulli, til sonar síns síra Sigurðar, eður til Helgu konu sinnar, Sigurðardóttur, og bað að láta skipta upp lx hundruðum eptir sig, og svo var gjört. Strax eptir hans afgáng var skipt upp á Hólum lx vættum smjörs, xij hundruðum fiska, átján staupum[1] flots, átta voðum vaðmáls og x húðum, og þartil gángandi fè, sem fátækum var gefið. Hèr að auki það, sem síra Sigurður Jónsson á Grenjaðarstöðum og Þórunn á Grund lètu upp skipta[2] hjá sèr árlega, svo lengi sem þau lifðu, um Marteinsmessu á veturna.

18. Eptir biskup Jón frá fallinn tók sonur hans síra Sigurður við Hóla stað, og hèlt hann svo með móður sinni um veturinn. Um vorið eptir, á lángaföstu eður um sumarmál, eða, svo sem vitnisburðirnir hljóða, annan dag páska, voru af síra Sigurði Jónssyni og Helgu Sigurðardóttur sendir frá Hólum suður í Skálholt xxiv eður xxx menn, þar fóru og með þeim ij eður iij prestar: síra Grettir Þorvarðsson á Siglunesi, síra Jón á Barði í Fljótum og Magnús klerkur[3]; þeir höfðu norðan að með sèr líkkistur og allan umbúnað, grófu þeir líkami þeirra feðga upp aptur úr Skálholts kirkjugarði og bjuggu um þá sem bezt þeir kunnu; þeim var og engin fyrirstaða veitt eða hindran nein. Þeir reistu með þessi lík um Borgarfjörð, og höfðu nætur stað í Stafholti, báru líkamana inn í kirkju þar með kirkjuprestsins leyfi og samþykki, og voru þeir þar þvegnir, því mennirnir vildu ekki tefjast við það í Skálholti. Síra Freysteinn Grímsson hèlt þá Stafholt; hann hafði alla tíma verið góður vinur biskups Jóns. Þaðan reistu þeir norður eptir, var sín klukka hengd[4] við hverja kistu og hríngðu sèr svo sjálfar á öllum veginum, tókst sú ferð öllu vel, svo ekkert settist fyrir. Hèraðsvötnin voru þá í leysíngu, og jafnsnart sem þeir voru yfir þau komnir, þá ruddu vötnin sig og ísbrúin hljóp af þeim, sem mennirnir höfðu á farið. Nokkrar manneskjur, sem áður voru sjónlitlar, segir að fengu sinn bata, þá

1) stömpum, 255. 2) heima, b. v. 255.
3) prestur, 255. 4) fest, 255.

þær snertu þessar líkkistur á leiðinni, því kepptist margur til að komast sem næst þeim, því þeim þótti verða linun á sinni veiki, og héldu þá feðga sannheilaga menn og guðs píslarvotta; og það er vonandi, að guð hafi gjört þá hluttakandi sinnar náðar og sáluhjálparinnar, þó þeir hafi misgjört í mörgu.

19. Eptir það biskup Jón og hans synir voru [af] teknir, þá tóku sig saman nokkrir norðlenzkir menn, sem suður réru, strax um veturinn anno 1551, og gjörðu atför að Dönskum á Kirkjubóli á Miðnesi, annaðhvort um pálsmessu eður kyndilmessu, þá Christjan umboðsmaður var riðinn suður, að skipa niður fólkinu til skips áróðurs. Voru þá drepnir vij[1] á Kirkjubóli, einn á Másbúðum og einn á Seltjarnarnesi, alls níu Danskir sem drepnir voru[2], en einn komst undan, sem kallaður var Másbúða Pétur, hann flúði í Skálholt og var þar um veturinn. Hann vildi skjóta þá Norðlenzku um vorið í Skálholti, sem grófu upp líkami þeirra feðga, en honum var því hamlað, svo hann kom engu tauti við. Hann varð í elli sinni víntappari hjá ráðhúsinu í Kaupinhafn og gjörði Íslenzkum heldur gott en illt. Einn af Norðlenzkum, sem drap þá Danska[3], hét Björn, hann var af tekinn fyrir það síðar, en engin hefnd önnur kom þar fyrir. Margir borguðu sig út. Guðmundur Andrésson, sem síðar bjó á Örlygstöðum, var einn, item Guðmundur Magnússon, lifðu þeir til ellidaga og voru formenn Danskra og fjáðir menn. Þeir tveir Guðmundar, sem voru atvistarmenn að drepa Danska, höfðu verið teknir árinu seinna og settir í fjötur í baðstofunni á Bessastöðum. Böðullinn kom þar inn áður kvöldinu fyrir, áður en þeir áttu að réttast, og brýndi öxi sína; þá skildu þeir hvað ásett var, og um nóttina komust[4] þeir út um ónshúsið[5] og í burt. Danskir sendu eptir þeim sporhunda að morgni, en þeir Gvöndar földu sig, annar undir árbakka, annar hljóp ofan í torfgröf, og fór í kaf alltjafnt þá hundarnir stukku fram á bakkann og geltu, og svo fluðu þeir menn, annar austur fyrst, en annar norður. Þá hann fór um Borgarfjörð var sumstaðar settur fram matur á bæjum, en[6] bannað að eta; hann

1) Danskir, b. v. 255.

2) en xiij segir í annálum að drepnir hafi verið, b. v. 255.

3) Dönsku, 255.

4) gróľust, 255.

5) ónstofuna, 255.

6) þeim, b. v. 255.

tók til sem áður. Þuríður, Halla, Eyvör voru dætur Gvöndar Magnússonar[1].

Þegar nú líkkistur þeirra feðga og líkin þar í komu norður til Hóla, þá var mikið fjölmenni saman komið á Hóla stað, og voru þeir feðgar, biskup Jón og hans tveir synir, síra Björn og Ari lögmann, virðulega greptraðir í Hóla dómkirkju fyrir framan kórdyrnar, þvert yfir frá kapellunni.

20. En um vorið eptir komu tvö kóngsins stríðsskip á Oddeyri í Eyjafirði, send eptir þeim feðgum. Þar voru á fyrirliðar eður höfuðsmenn Christoffor Thransson og Axel Juvl, herramenn, og tvö eður þrjú hundruð manns á hvoru skipi, útbúnir að stríða. En þá var allt búið um þá feðga, og eirðu stríðsmenn illa að þeir fengu ekki að stríða, illt af sèr að gjöra og ræna. Þetta var anno 1551. Síra Ólafur Hjaltason í Laufási kom út á öðru stríðsskipinu. Svo riðu höfuðsmennirnir heim til Hóla, og ransökuðu allt uppi og niðri, og tóku þar það þá girnti[2]; stefndu síðan þíng á Oddeyri og kölluðu saman yppurstu menn í landinu, sèrdeilis um Norðlendínga fjórðúng, og beiddust varna, ef nokkur vildi eður kynni að halda svörum fyrir þá feðga, biskup Jón eður hans syni, eður forsvara[3] að þeirra góz og eignir væri ekki rèttilega undir kóng fallnar, og var enginn sá, sem þar á móti [þyrði að ansa[4], hvorki Þorleifur Grímsson á Möðruvöllum, vegna sinnar dótturdóttur, Helgu Aradóttur, nè neinir aðrir, heldur báðu allir um náð vegna barnanna, svo þau væri ekki

---

1) Anno 1552 skrifaði kóng Christjan þriði Daða í Snóksdal til, og bað hann að taka þá, sem þá Dönsku hefði drepið; það brèf er til hjá mèr. Hann skrifaði einnig kónginum í Englandi til, og bað hann að láta taka þá menn, sem þángað höfðu siglt, og láta færa til Danmerkur; hvað Englands kóngur sagðist ei kunna gjöra, því þeir hefði flúið á sínar náðir, þeir mætti komast yfir þá hvar þeir kynni sjalfir, b. v. 46.

2) af dýrgripum stólsins, öðrum en þeim, er síra Björn Gíslason kom í geymslu. Þá er sagt gullkaleikurinn góði, sem vóg ix merkur klára gulls, hafi og farið, og hafi herramennirnir átt að segja: Ísland væri eigi verðugt til að bera svoddan þíng. Eg hefi heyrt, að hann sè nú brúkaður á Friðriksborgar slots kirkju í Sellandi, og má það sjá, hvert gersemi það hefir verið, b. v. 46; sbr. bls. 327 hèr að framan, athgr. 2.

3) þann. 255; forverjara, 254. 4) [mælti eður ansa þyrði, 255.

öllu svipt, og skikkuðu þá herrarnir börnunum þeirra líflátnu ríflega til uppfósturs[1].

21. Helga Sigurðardóttir, eptir lifandi kvinna biskup Jóns, flúði frá Hólum, strax stríðsskipin komu til landsins, og með henni Guðrún Magnúsdóttir, sonardóttir hennar, í fjallið hjá Ökrum í Skagafirði, sem heitir Glóafeykir, og þar voru þær með tjald allt til þess að skip voru sigld, og nokkrir menn með þeim. Þángað var til þeirra flutt það sem þær með þurftu. Síðan fór Helga til Hóla, og var henni leyft að hafa í burtu það hún átti, en hún hafði þó áður burt flutt þaðan það sem hún gat náð, af silfri og öðru. Eptir það fór hún til Akra, og var þar til síns dauðadags hjá Gunnari Gíslasyni mági sínum, og Guðrúnu Magnúsdóttur; en sumir segja hún hafi andazt norður á Grund í Eyjafirði, hjá hústrú Þórunni, dóttur þeirra biskups Jóns[2]. [Helga Sigurðardóttir var fyrst, áður en hún kom til biskups Jóns, hjá síra Ólafi, og átti við honum eina dóttur, sem hét Þóra. Sú Þóra giptist, eður sem þá plagaðist hélt við síra Tumás Eireksson á Mælifelli í Skagafirði. Þeirra börn Ólafur Tumásson, sem kveðið hefir minnisvísur um biskup Jón og sonu hans; item síra Björn Tumásson, Þóra, móðir Guðnýjar á Reynistað og Rafn, faðir Ástu, kvinnu Sveins í Húsey í Skagafirði[3].

22. Þessi eru börn og niðjar biskups Jóns Arasonar og þessarar sömu Helgu Sigurðardóttur, barnamóður hans:

1) Ari lögmann. 2) Síra Björn.
3) Síra Magnús. 4) Síra Sigurður.
Dætur þeirra: 1) Helga. 2) Þórunn. 3) Þuríður[4].

---

1) sem ávísar þessi eptir fylgjandi Oddeyrar dómur, b. v. 251; þar eptir fylgir í handritinu (bl. 11—13) afskript af Oddeyrar dómi og „almúgans eiður á Oddeyri". — Má þar um lesa Oddeyrar dóm og þá gjörninga, b.v. 255; og er Oddeyrar dómur og eiðurinn þar síðar í bókinni (bls. 81—83). Þessum skjölum er hér sleppt, því þau eru betri og fyllri annarstaðar, og heyra ekki upphaflega þessari sögu til.

2) Þessi missögn kemur án efa þar af, að Helga Sigurðardóttir, systir Ísleifs bónda, fór að Grund í próventu þegar hún var orðin ekkja.

3) [eptir 255, sbr. hér að framan bls. 317, 310.

4) þannig er röðin síðar talin, en her svo: Þórunn, Þuríður, Helga.

Ari Jónsson, kallaður biskupsson, giptist Halldóru, dóttur þorleifs bónda Grímssonar á Möðruvöllum og Sigríðar Sturladóttur. þau bjuggu á Möðrufelli[1] í Eyjafirði, og áttu mörg börn; þó komust ekki mörg á fætur, utan Helga og þóra.

Ari var kosinn til lögmanns anno ꝳdxxx, [og meina eg hann hafi aldrei sleppt því embætti fyr en með dauðanum, er hann var hálshöggvinn í Skálholti, ásamt föður sínum biskup Jóni, og síra Birni, anno 1550[2]. Hann hafði gipzt ꝳdxxxvi[3] og taldi sèr til kvonarmundar vj hundruð hundraða, og gaf þar úr fjórðúng.

Ari lögmaður hafði verið harðsinnaður maður, en þó örlátur; hann hafði átt að segja: vel vissi hann það, ekki gjörði faðir sinn rètt, en hann yrði að fylgja honum sem áður. Ari lögmaður hafði átt bæði Núpufell og Möðrufell, hvort um sig eitt hundrað hundraða, og Eyrarland; það fèll ekki, því Halldóru var það gefið; er það eins dýrt og [hvort hinna[4]. það er og mál manna, að Ari hafi aflatt föður sinn[5] að byrja Bjarnanessreið, og sagt, það kæmi ekki hans embætti við hversu að fram færi í Skálholts stikti; en biskup Jón sagðist gjöra það eptir páfalegri magt, hverjum hann sagðist vilja hollur reynast til dauðadags. Svo skildu þeir feðgar tal það fyrsta kvöld á Hólum með styttíngi. Að morgni gekk Helga móðir hans til hans í svefnherbergið, og hèlt á kvennaskauti; hann spurði, hvað hún vildi með það; hún kvaðst hafa átt von á syni, en ekki dóttur, þar hann væri, en nú væri sèr sagt, að hann teldist undan að fylgja föður sínum til rèttra mála, sem hann hefði beðið hann þó, og sagðist vilja, að hann lèti sèr ekki svo illa verða, með fleirum ummælum; og við þetta hafi Ari linazt, og sagt: „það má eg gjöra fyrir þín orð, móðir! að fara með honum ferð þessa, en það mun kosta allra vorra líf um það úti er"; og svo reið hann með þúngu geði frá Hólum heim til sín.

23. Helga, dóttir Ara lögmanns, ólst upp hjá þórunni Jónsdóttur á Grund, eptir það Ari var af tekinn og móðir Helgu önduð; og þar var Helga þángað til hún giptist Páli

1) Möðruvöllum, rángt, 255. 2) [sl. 255.

3) Kaupmálabrèfið Ara og Halldóru er í tveimur afskriptum síra Eyjólfs á Völlum með ártali ꝳdxxx, og er það ef til vill rèttara.

4) [hinar, tt. hundraða, 255. 5) það hann kunni, b. v. 255.

Jónssyni, sem síðan bjó á Reykhólum og Staðarhóli. Mikið þótti til Helgu koma, en sagt er það hafi verið gjört með leik, að Páll Jónsson fékk Helgu. Þau bjuggu fyrst á Eyrarlandi; Helga átti þá jörð. Lítt hafði Helga komið sèr við fólk, kom helzt þar fram, sem öðrum mátti verr gegna, og urðu margir fegnir þá hún burtu fór. Eitt sumar, sem Helga var ógipt, reið þorleifur Grímsson, móðurfaðir hennar, eptir vana sínum, og hans kvinna Solveig frá Möðruvöllum, þeirra heimili, ofan í kaupstað. Hallótta dóttir þeirra var gjafvaxta heima, og nokkur úngmenni, en fólk annað í seli. þetta spurði Helga til Grundar, og reið með fimta mann til Möðruvalla, þó ekki lengra en að túngarðinum, og sendi svo sína menn aptur, en hún var þar allan daginn í kirkjunni; leitaði hún, til þess að hún fann lykla þorleifs undir þilju gólfi, og lauk upp hans kistlum, og kistlum Solveigar. Skoðaði hún öll hans brèf og tók sitt úr hvorri kistunni, alls iij brèf með innsiglum, eitt með þremur, annað með tólf; það þriðja, sem var pappírsblað, reif hún í sundur og trað því ofan í gólfsþils holurnar með knífi. Hallótta vissaði fram og aptur um kirkjuna, og gætti ekki að, utan bað hjarta systurina sína að taka ekki brèfin. Hún svaraði: „Guð láti það satt vera, systir mín góð, að eg svíki þig ekki". — þar var Helga allan daginn til náttmála; komu þá aptur menn hennar og reiddu hana heim. þetta fèkk þorleifur aldrei að vita, en saknaði þó brèfanna, og gat Solveig komið því svo fyrir, að Helga skilaði þeim aptur þremur árum seinna, þá hún hafði látið eptir þeim skrifa, og varð svo brèfunum komið í kistu þorleifs, svo hann fann þau þar ófyrirsynju, og lofaði í staðinn guð og hinu milda Martinum, svo sem hans máltæki var, þegar honum gekk í vil: „Guð og hinn mildi Martinus sè lofaður, hann gefur oss nógu gott!"

24. Eptir þorleif látinn klagaði Páll Jónsson og aðrir upp á arfinn, og vildi halda öll börn þorleifs, sem hann átti við sinni seinni kvinnu Solveigu Hallsdóttur, laungetin og óarftæk. Sèrdeilis klagaði Páll upp á Möðruvelli, í því nafni, að þorleifur heitinn Grímsson hefði gefið Möðruvelli Halldóru dóttur sinni í heimanmund, á hennar brúðkaupsdegi, á móts við Ara Jónsson lögmann; en þorleifur vildi það aldrei meðkenna meðan hann lifði; en þó höfðu þeir hans brèf og innsigli, og hefir

margt verið þar um talað, hvernig þeir hefði yfir það komizt. Hafði Þorleifur Grímsson eitt sinn verið boðinn til biskups veizlu til Miklagarðs, og voru þeir feðgar þar þá allir þrír: biskup Jón, Ari lögmann og síra Björn, og meina menn þá sumir, að menn hafi þá komizt yfir hans innsigli með einhverju móti, og gjört svo uppá hann falsbréf um þessa Möðruvallagjöf. Svo náði Páll Möðruvöllum í tíð Christofors Walchindorfs höfuðsmanns.

Óástkært var með þeim hjónum, Páli Jónssyni og Helgu Aradóttur, og skildu þau um síðir samvistirnar, og hafði Páll viljað láta dæma sig frá henni. Hann stefndi henni til alþíngis fyrir tólf, sumir segja átján sakir, en með fyrsta, þá hann bað hennar Helgu, lèt hann dæma sig hennar jafnræði[1].

Þessi voru börn Páls Jónssonar og Helgu Aradóttur:

Pètur, Elín, Ragneiður,
og tvær hans laundætur.

25. Pètur Pálsson á Staðarhóli, hann átti fyrst Þorbjörgu, dóttur Bjarna Finnbogasonar og Íngibjargar Fúsadóttur. Þeirra börn:

Bjarni Pètursson á Staðarhóli, hafði Dala sýslu; hann átti fyrst laungetin börn við Guðrúnu, dóttur síra Gísla á Hrafnagili og Íngunnar Eiríksdóttur á Kúlu, og lifir ekki utan annað barnið, heitir Herdís; hún giptist Hákoni, syni Árna Guðmundssonar og Þorgerðar Tyrfíngsdóttur; en eiginkvinna Bjarna var Guðrún, dóttir síra Torfa Finnssonar og Guðríðar Jónsdóttur; — þeirra börn: Torfi, Pètur.

---

1) hèr setur 254 inn:

1) Brèf tólf manna, sem Þorbergur bóndi Bersason nefndi til á Skriðu þíngi fimtudaginn fyrir hvítasunnu um vorið 1556; álykta þeir, að Helga Aradóttir megi giptast Páli Jónssyni, með ráði föðurbróður síns síra Sigurðar Jónssonar, föðurmóður sinnar Helgu Sigurðardóttur, og föðursystur sinnar Þórunnar Jónsdóttur, ef hennar giptingarmaður Þorleifur bóndi Grímsson vill ekki svara því máli.

2) álitsbrèf fjögra presta og fimm leikmanna, ritað á Múla í Aðalreykjadal 1558, að síra Sigurður Jónsson, föðurbróðir Helgu Aradóttur, sè hennar bezt fallni svaramaður, þegar Þorleifur Grímsson vili ekki mæta.

3) Kaupmálabréf milli Páls Jónssonar og Helgu Aradóttur, vottað af fjórum prestum og átta leikmönnum (á Grund) sunnudaginn næsta eptir áttadag í jólum 1558. Þessi brèf eru hèr felld úr, því þau koma ekki sögunni við.

Helga Pétursdóttir átti Sigurð, son síra Jóns Magnússonar frá Ljósavatni norðnr. Móðir Sigurðar var Kristín, dóttir síra Jóns Gottskálkssonar frá Krossnesi; þau áttu eignir fyrir norðan. þeirra börn: Pétur, skólagenginn, andaðist í Skálholti.

Seinni kvinna Péturs Pálssonar var þóra, dóttir Ásmundar þormóðssonar og Íngibjargar Halldórsdóttur; þau voru saman fjögur ár og áttu engan lífserfíngja. þóra giptist mörgum árum síðar þorsteini Jónssyni frá Narfeyri.

26. Elín Pálsdóttir átti Björn, son Benedikts ríka Halldórssonar á Möðruvöllum í Hörgárdal og Valgerðar Björnsdóttur. þeirra börn: Magnús, Sigríður, Guðrún.

Magnús Björnsson, framaði sig vel utan lands og innan, og hafði Múkaþverár klaustur og Eyjafjarðar sýslu, þángaðtil hann varð lögmaður anno 1639; lagði hann þá af sýsluna. Hann átti Möðruvelli, Stórahól, Eyrarland, og miklar eignir bæði fyrir norðan, sunnan, austan og vestan, svo hann átti í jörðu xxvj hundruð hundraða anno 1646, því hann keypti jarðir á hverju ári. Hans kvinna var Guðrún Gísla dóttir þórðarsonar lögmanns og Íngibjargar Árnadóttur: þeirra börn:

Gísli, Björn, Helga, Jórunn, Solveig.

27. Gísli Magnússon var skólagenginn, framandi sig víða utanlands, bæði í Hollandi, um nokkur ár í Danmörk og víðar; giptist anno 1649 þrúður, dóttur þorleifs bónda Magnússonar á Hlíðarenda. Honum voru talin [sjö hundruð hundraða, en henni fjögur hundruð hundraða[1]. þeirra börn: Björn, þorleifur, Guðríður[2].

Björn Gíslason skólagenginn, forstandigur og vel framaður í Danmörk, Hollandi og Englandi; hann giptist 1675 Guðrúnu eldri, dóttur Eggerts Björnssonar á Skarði og Valgerðar Gísladóttur lögmanns Hákonarsonar; henni fylgði heiman Bær á Rauðasandi, hvar að þau settust sama ár. þau áttu tvö börn, kom það fyrra andvana, það síðara hét þrúður, varð hérum xj vikna. Björn sálugi hafði hálfa Barðastrandar sýslu; hann sálaðist í Bæ 20. Augusti 1679, að meðteknu áður sama dags

1) [bætt við eptir kaupmálabréfinu, að Hlíðarenda 16. Juli 1648, sem er til enn í bréfasafni Árna Magnússonar. Fasc. lxx, Nr. 31.

2) þessum nöfnum barnanna er bætt við í 255, en sleppt því sem hér er sagt frá um þau.

morgun heilögu sakramenti, hafði hann þá legið hálfa tíundu viku; var hann jarðsettur í kór í Bæjarkirkju karlmannamegin 25. August, en út hafinn 23. August; voru við hans greftran þessir göfugir menn: Eggert Björnsson, prófasturinn síra Páll Björnsson, hver eð hèlt hans líkprèdikun með loflegu og minnilegu máli, þorleifur Magnússon, Gísli (nú sálaður) Jónsson, síra Jóhann Jónsson frá Otrardal, Einar Guðlaugsson lögrèttumaður; einnig Andrès Andrèsson, systurson landsfógetans Jóhans Pèturssonar Klein, hver Andrès þá var eptirliggjari á Vatneyri, en nú sýslumaður yfir hálfri Barðastrandar sýslu; ásamt sóknarprestinum síra Jóni Ólafssyni[1]. En 31. Augusti sama árs, að morgni fyrir embætti, kom að austan frá Hlíðarenda til Bæjar sá loflegi landshöfðingi, faðir þess sálaða, Gísli Magnússon, og dvaldi þar til þess að kvöldi þess 17. Septembris; hann gjörði minnilega vel sinni sonarkvinnu bæði í atlæti og útlátum. — þorleifur Gíslason. — Guðríður Gísladóttir, hana ektaði Mag. þórður þorláksson, biskup í Skálholti; þeirra börn: þorlákur og Brynjólfur.

28. Björn Magnússon, sigldi anno 1649; hann giptist Helgu, dóttur Guðmundar Hákonarsonar á þíngeyrum. Björn hèlt Múkaþverár klaustur og Eyjafjarðar sýslu. þeirra börn: Guðbrandur, [Halldóra, Kristín[2].

Helga Magnúsdóttir, giptist Hákoni, syni Gísla Hákonarsonar lögmanns og Margrètar Jónsdóttur; hann hafði Rángárvalla sýslu fyrir Gísla Magnússon, og bjó í Bræðratúngu. þeirra börn: Vigfús, Sigríður, þrúður[3], Elín.

[Vigfús andaðist hèr um tvítugsaldur, barnlaus. — Sigríður giptist síra Sigurði Sigurðssyni á Staðarstað á Ölduhrygg 1680. — þrúður giptist Magnúsi, syni Sigurðar Magnússonar og Sigríðar Oddsdóttur frá Skútustöðum. — Elín, hana ektaði síra Guðbrandur í Vatnsfirði, son síra Jóns Arasonar og Hólmfríðar Sigurðardóttur[4].

Jórunn Magnúsdóttir, giptist Jóni, syni Magnúsar bónda Arasonar og þórunnar Jónsdóttur frá Reykhólum. Jón fèkk

---

1) það er sá síra Jón Ólafsson, sem hefir samið ættartölubókina.

2) [b. v. í 255 með nokkru nýjari hendi, eptir S. B. S. (þ. e. Sigurði lögmanni Björnssyni).

3) Jarþrúður, 255. 4) [st. 255.

Reykhóla og hafði með Stranda sýslu. þeirra börn: Magnús, Páll, Elín, Ragneiður.

[Magnús sigldi í Holland, varð síðan sýslumaður í Stranda sýslu; giptist Guðrúnu, dóttur þorgils[1] Jónssonar frá Völlum, og Ragneiðar Gísladóttur, Björnssonar prests á Miklabæ, Gíslasonar. Síðan var Magnús kosinn lögmaður á alþingi 1679, norðan og vestan á Íslandi, sat á sinu höfuðbóli Reykhólum.— Páll Jónsson, lærði í Skálholts skóla, sigldi, varð attestatus, fèkk Melstað í Miðfirði, og giptist þar dóttur síra Erlends Ólafssonar og þórunnar þorvaldsdóttur. — Elín, giptist síra Halldóri ýngra Jónssyni frá Reykholti; hann fèkk Stað í Grunnavík eptir síra Sigurð Gíslason. — Ragneiður, giptist síra Einari Torfasyni á Stað í Steingrímsfirði; hann misti prest og stað fyrir barneign með Guðrúnu Halldórsdóttur (fór illa)[2].

Solveig Magnúsdóttir, giptist 1647 þorkeli, syni Guðmundar Hákonarsonar á þingeyrum og Halldóru Aradóttur; þeirra börn: Hákon, Ari, [Guðmundur, Íngibjörg[3].

29. Sigríður Björnsdóttir (Benediktssonar) giptist Páli Guðbrandssyni frá Hólum; þau sátu á þíngeyrum; hann andaðist 1621 á Víðimýri. Honum voru talin til giptingar við Sigríði iiij hundruð hundraða, henni ij hundruð hundraða. Sigríður fèkk þúngan kránkleika með bólgu í holdinu, andaðist 1633. þeirra börn:

þorlákur, Benedikt, Páll, Björn.

þorlákur Pálsson átti Víðidalstúngu og bjó þar, og hafði svo með umboðsjarðir í Húnavatns þíngi; hans kvinna var Kristín, dóttir Jóns Sigurðssonar á Reyninesstað og þorbjargar Magnúsdóttur Fúsasonar úr Austfjörðum. þeirra börn: Páll, Jón.

Benedikt Pálsson, sigldi og varð barskeri, lærði fyrst í Hamborg, og sigldi til Spanien, en varð hertekinn af Tyrkjum og var hjá þeim i þrældómi hálft þriðja ár; síðan leystu frændur hans hann fyrir viij hundruð eður ix hundruð ríkisdali, og sem hann kom hingað, þá keypti hann þrimenníngsleyfi fyrir ij hundruð dali, og giptist Hólmfríði, dóttur Einars Hákonarsonar og Ragneiðar Magnúsdóttur; hún andaðist af sængurför 1645, átti ekki börn. — Benedikt giptist aptur Sigríði, dóttur Magnúsar Jónssonar frá Sjáfarborg í Skagafirði.

1) leiðrètt; Gísla, 251. 2) [slepp. 255. 3) [b. v. 255.

Páll Pálsson átti Mársstaði og bjó þar lengi ógiptur.

Björn Pálsson hafði Eyjafjarðar sýslu, og tók hana eptir móðurbróður sinn Magnús Björnsson, þá Magnús varð lögmaður. Hann átti Stórahól og Æsistaði í Eyjafirði. — Hans kvinna Ragneiður, dóttir Magnúsar bónda Arasonar og þórunnar ríku Jónsdóttur. [þeirra börn: Jón, Magnús, Sigríður, Íngibjörg, Hólmfríður, þrúður, Elín, Anna[1].

Guðrún Björnsdóttir giptist herra Gísla Oddssyni, som var biskup í Skálholti; hún átti eitt barn við honum og andaðist það strax; voru þau fá ár til samans, og andaðist hún af sængurför í Skálholti 1633, svo erfði Magnús Björnsson bróðir hennar hana.

30. Ragneiður Pálsdóttir giptist Gizuri, syni þorláks Einarssonar og Guðrúnar Hannesdóttur frá Ögri. þeirra börn:
Magnús, Jón.

Magnús giptist þorkötlu, dóttur síra Snæbjarnar Torfasonar og þóru Jónsdóttur á Kirkjubóli í Lángadal. Magnús var barskeri; barnlaus, bjó í Lokinhömrum.

Jón giptist þóru, dóttur Ólafs Jónssonar frá Hjarðardal og Íngibjargar, síra Jóns þorleifssonar dóttur frá Gufudal; hans son: síra Torfi, vel lærður maður, stúderaði utanlands, og varð kirkjuprestur í Skálholti tvisvar, fyrst 1647 og aptur 1649, er hann gaf upp Rafnseyri við síra Hall Árnason; hann giptist Sigríði Halldórsdóttur lögmanns frá Skálholti, og fèkk Gaulverjabæ í Flóa. þeirra börn: tvær Rönkur, þóra, Jón, Halldór, Katrín, þórunn, Sveinn[2].

Seinni maður Ragneiðar Pálsdóttur var síra Sveinn Símonarson, prófastur, sem hèlt Holts stað í Önundarfirði. þeirra börn: herra Brynjólfur og síra Gizur.

Brynjólfur stúderaði vel utanlands og innan um mörg ár; var conrector til Roskild, tók gradum magisterii, var síðan hèr í landi ófyrirsynju inn kominn og kosinn til biskups í Skálholti anno 1638, kom út með biskupsdæmið anno 1639; giptist fyrir norðan 1640[3], dóttur Halldórs lögmanns Ólafssonar og Halldóru

1) [b. v. 255 eptir Sig. Björnssyni.

2) [255 eptir S. B. S. telur börnin svo: síra Jón, síra Halldór, Sveinn, Ragneiður, þóra, Rannveig, Katrín.

3) [b. v. 255.

Jónsdóttur, Margrètu. [Hann hèlt Skálholt til þess hann deyði um sumarið eptir alþing 1675[1]; þeirra börn: Halldór, Ragneiður. — [Halldór andaðist í Englandi; — Ragneiður Brynjólfsdóttir átti barn, hèt Þórður Daðason; var ættleiddur af afa sínum magister Brynjólfi, eptir það bæði hans börn, Halldór og Ragneiður, voru sáluð. Síðan dó Þórður úngur[2].

Sira Gizur Sveinsson var prestur, hèlt Álftamýri [í Arnarfirði vestur[3]; hans kvinna var Guðrún.dóttir Finns Jónssonar og Ragnhildar Torfadóttur; hún andaðist barnlaus. Síðan átti hann Margrètu, dóttur Jóns Þorleifssonar og Helgu Bjarnadóttur; þau og barnlaus.

[Þóra, önnur dóttir Ara Jónssonar lögmanns, giptist Sigurði Þórðarsyni; þeirra börn: Jón í Kristnesi.

Þóra fèkk lítið eður ekkert af gózi eptir föður sinn og móður, því Ari arfleiddi Helgu dóttur sína til allra sinna eigna; en Helga Aradóttir, fyrir umtölur föðursystur sinnar Þórunnar Jónsdóttur, gaf Þóru Aradóttur systur sinni löggjafir sínar.

Jón, son Sigurðar Þórðarsonar og Þóru Aradóttur, giptist Guðríði Torfadóttur, systur sira Snæbjarnar Torfasonar, Jónssonar, og Þorkötlu Snæbjörnsdóttur gömlu. Þeirra börn: sira Sigurður, Þóra, Þorkatla.

Síra Sigurður átti Ólufu, dóttur Jóns Sigurðssonar lögmanns á Reynistað, og var hennar fyrsti maður. Hann fèkk Helgafells stað í Helgafells sveit. Þau voru ei lengi saman, því hann drukknaði um vorið, barnlaus, í vatninu þar hjá túninu, og tvær kvennsniptir með honum.

Þóra Jónsdóttir, giptist Páli Gíslasyni landskrifara, og var hans fyrri kvinna, og áttu saman fjögur eða fimm börn. Þau önduðust öll fyr en móðirin, nema eitt, sem hana erfði og Páll erfði það; síðan giptist hann Íngibjörgu Bjarnadóttur frá Stokkseyri.

Þorkatla Jónsdóttir átti Björn, son Hákonar Björnssonar í Nesi[4].

31. Björn Jónsson, annar sonur biskups Jóns, hafði Þíngeyra klaustur, hèlt síðan Melstað í Miðfirði, en hafði bú á Staðarhóli seinast, er hann var hálshöggvinn í Skálholti með

1—2) [slepp. 255. 3) [b. v. 255. 4) [b. v. 16.

föður sínum biskup Jóni og Ara lögmanni. Síra Björn hafði hjá sér kvinnu þá, er Steinunn hét, dóttir Jóns bónda Magnússonar og Ragneiðar[1] Pétursdóttur, systur Jóns lögmanns og Páls, því reglubundnir menn, biskupar, ábótar, klerkar og kennimenn giptust ekki í páfadóminum, en biskup Jón og síra Björn voru pápiskir, sem áður getur.

Börn síra Björns og Steinunnar voru mörg:

Jón og Magnús, sem ættleiddir voru, item Teitur, Bjarni, Árni, Halldóra, Ragneiður.

Jón Björnsson var ættleiddur af föður sínum; hann giptist Guðrúnu, dóttur Árna Gíslasonar frá Hlíðarenda og Guðrúnar Sæmundardóttur; þau bjuggu fyrst á þíngeyrum, þar eptir lengi á Holtastöðum, síðast á Grund í Eyjafirði. Jón var góður höfðíngi; [hann hafði Skagafjarðar sýslu 1597[2].

þeirra börn: Helga, tvær Halldórur, þóra, Kristín, Guðríður, Rannveig.

Helga giptist herra Oddi Einarssyni, biskupi í Skálholti; þeirra börn: [herra Gísli, biskup í Skálholti; herra Árni, lögmaður sunnan og austan á Íslandi; síra Sigurður, prófastur yfir Mýra sýslu; annar Sigurður, sem átti þórunni Jónsdóttur; Eiríkur á Fitjum; Margrét Oddsdóttir í Öndverðarnesi, hún giptist ekki[3]. — Helga Jónsdóttir lifði bæði mann sinn, herra Odd, og svo herra Gísla, son sinn; hún var þar í Skálholti er hann andaðist, eptir það fór hún til Árna lögmanns sonar síns til Leirár, og var þar mörg ár, og hvílist þar. [Hún andaðist 1662[4].

32. Halldóra Jónsdóttir eldri, giptist Halldóri lögmanni fyrir norðan 1606, syni Ólafs Jónssonar og þórunnar Benediktsdóttur; þeirra brúðkaup var haldið á Grund; voru Halldóri talin iij hundruð hundraða: Vindheimar og Laugaland, þar til smájarðir í ij hundruð hundraða; Halldóru var gefin hálf Grund lxxx hundruð til arfaskipta, en faðir hennar lofaði að selja henni eður láta selja henni hálfa Grund. Halldór hafði bæði Möðruvalla klaustur og Skagafjarðar sýslu. Hann tók sína banasótt á alþingi, eptir andlát herra Gísla Oddssonar, og var hann svo fluttur í Skálholt, og andaðist þar anno 1636, og er þar grafinn.

1) Ragnhildar, rángt, 255. 2) [b. v. 255.
3) [b. v. 255. 4) [b. v. 255.

þeirra börn: Benedikt, Hallgrímur, Jón, Guðrún, Margrét, Helga, Sigríður, Valgerður.

Benedikt giptist Jórunni, dóttur Hinriks Gíslasonar og Guðrúnar Magnúsdóttur á Innra-Hólmi. Halldór lögmaður hafði fengið og keypt leyfi fyrir börn sín, að þau mættu giptast þrimenníng sínum, gaf þar til þrjú hundruð dali; svo voru þau skyld Benedikt og Jórunn; hann átti Grund í Eyjafirði og hafði Skagafjarðar sýslu og hèlt[1] Reyninesstaðar klaustur og þar sat hann [lengstum; síðast á Seilu[2]. þeirra börn:

þórunn, Guðrún, Íngibjörg; [Ragneiður, dó ógipt.

þórunni Benediktsdóttur á Guðbrandur þorláks son biskups; — Guðrúnu Benediktsdóttur átti síra Skúli þorláks son biskups; — Íngibjörgu egtaði herra Gísli biskup þorláksson; átti ekkert barn[3].

Hallgrímur Halldórsson giptist Ólöfu, dóttur Jóns Sigurðssonar frá Reyninesstað; hún hafði áður verið skilin við sinn mann, Jón Arngrímsson; barnlaus. þeirra börn: Ólafur, Jón, þórunn.

Jón Halldórsson giptist fyrst Málfríði, dóttur Hallgríms Guðmundssonar og Halldóru Pètursdóttur. Málfríður andaðist tvítug í bólunni, barnlaus, anno 1636. — Jón Halldórsson giptist aptur Íngibjörgu, dóttur Jóns bónda Magnússonar sýslumanns og Ástríðar Gísladóttur. Síðan drukknaði Jón í Ölvisá, þá hann reið úr þorlákshöfn, og með honum drukknaði Böðvar, sonur Steindórs Finnssonar, skólapiltur, anno 1645. Jón Halldórsson var þá Skálholts ráðsmaður; en Íngibjörg kvinna Jóns ól barn um haustið eptir, þá datum var enn 1645. það barn bar nafn föður síns og andaðist það 1646; svo erfði Íngibjörg það barn, sem áður hafði erft föður sinn.

Margrèt Halldórsdóttir giptist Mag. Brynjúlfi Sveinssyni, biskupi að Skálholti, 1640.

Guðrún Halldórsdóttir giptist Vigfúsi, syni Jóns Sigurðssonar á Reyninesstað, og þorbjargar Magnusdóttur; bjuggu í Lögmannshlíð. þeirra barn eitt: Jón Vigfússon; giptist Helgu, dóttur Magnúsar bónda Arasonar og þórunnar Jónsdóttur, anno 1661; [hann var einbirni; þeirra einbirni þorbjörg,

1) þann. 255; hálft, 254. 2) [sl. 255. 3) [sl. 255.

kvinna Péturs Bjarnasonar Pèturssonar og Guðrúnar Torfadóttur á Staðarhóli[1].

Valgerður Halldórsdóttir, giptist anno 1645 Guðmundi, syni Torfa á Keldum og Guðlaugar Guðmundardóttur. Þeirra börn: [Jón, Torfi, Guðlaug, Þórunn[2].

Helga Halldórsdóttir, giptist síra Páli í Selárdal, syni Björns bónda Magnússonar og Helgu Arngrímsdóttur; síra Páll hafði vel stúderað og var attestatus Baccalaureus. Þeirra börn: [Elín, síra Halldór, Björn, Halldór, Helga, Íngibjörg, Þóra[3]. — Helga Pálsdóttir giptist síra Sigurði Jónssyni frá Vatnsfirði, syni síra Jóns Arasonar og Hólmfríðar Sigurðardóttur, Oddssonar biskups; hann fèkk Holts stað í Önundarfirði. — Halldór Pálsson eldri var lengi veikur, og enn nú 1680. — Halldór ýngri prestvígðist 1679 til föður síns. — Þóra. — Íngibjörg. — Björn Pálsson sigldi í Holland og England; kom aptur 1680.

Sigríður Halldórsdóttir, giptist síra Torfa Jónssyni í Gaulverjabæ.

33. Halldóra Jónsdóttir ýngri, Björns sonar prests, biskups Jóns sonar, giptist Þorvaldi Ólafssyni, bróður Halldórs lögmanns; þau bjuggu í Auðbrekku. Þeirra börn: Jón, Benedikt, Björn, Daði, Ólafur, og dætur: Guðrún og Þórunn. Þorvaldur átti Laugaland.

Jón Þorvaldsson giptist Guðrúnu, dóttur Pèturs Árnasonar í Hvammsdal, og Margrètar Halldórsdóttur. Þeirra börn: Jón, Þorvaldur, Halldór, Hallfríður[4]. — Benedikt Þorvaldsson átti Ástu, dóttur síra Torfa Þorsteinssonar á Gilsbakka og Margrètar Aradóttur; þar ekki barna von. Benedikt fór til vistar til sira Erlends Ólafssonar, og vildi ekki enda þar út sína vist, því bróðir hans Jón vildi eigi hann brjálaði sínum eignum. — Björn Þorvaldsson giptist Guðrúnu, dóttur Örnólfs Guðmundssonar frá Hofi og Hallberu norðlenzku. Þeirra barn: Elín, hana á sira Páll Ketilsson í Hvammi [í Hvammssveit[5]. Aptur giptist Björn Sigríði[6], dóttur sira Jóns Jónssonar á Fellsmúla og

1) [b. v. 255 eptir S. B. S. (Sigurði Björnssyni). 2) [b. v. 255.
3) [þannig hefir 255 röð barnanna, eptir S. B. S. — slepp. 254, en hefir aptur það sem eptir fylgir um börn síra Páls.
4) b. v. 255. 5) [b. v. 255. 6) b. v. 255.

Margrètar Hallsdóttur. þeirra börn: [síra þorvaldur í Holtum[1]. — Daði þorvaldsson, hans kvinna Steinunn, dóttir Pèturs Einarssonar lögrèttumanns og Sigríðar Gísladóttur frá Ásgarði og Hvammi. þeirra börn: tvær Sigríðar, Hildur, Halldóra, tvær Kristínar. — Ólafur (þorvaldsson), hans kvinna Guðrún. — Guðrún þorvaldsdóttir, hennar maður síra Stephán, son síra Ólafs Einarssonar og Kristínar Stephánsdóttur. Síra Stephán mikið skáld, heldur Vallanes austur. — þórunn þorvaldsdóttir, hennar maður síra Erlendur, sonur síra Ólafs Erlendssonar frá Breiðabólstað og Sigríðar þorvarðsdóttur. þeirra börn: [Sigríður, Halldóra, Guðrún, Steinunn; — Guðrún kvinna Páls Jónssonar, Magnússonar frá Reykhólum[2].

34. þóra Jónsdóttir giptist síra Snæbirni Torfasyni á Kirkjubóli í Lángadal vestur; sá Torfi var Jónsson, sat á Kirkjubóli og var sýslumaður. þorkatla Snæbjarnardóttir frá Keldum austan var hans kvinna. þau bjuggu fyrst á Árbæ, og seldu hann Gísla Árnasyni fyrir Stað í Aðalvík, en síra Snæbjörn son þeirra gaf þann stað til beneficium í veikleika sínum (hann varð ofstyrkur). þorkatla var rögsemdar kona og skartskona mikil. Börn síra Snæbjarnar og þóru:

síra Torfi, síra Björn, og þorkatla.

Síra Torfi hèlt Kirkjuból í Lángadal eptir föður sinn, og giptist Helgu, dóttur síra Guðmundar Einarssonar á Staðarstað og Elínar Sigurðardóttur. þeirra börn: Teitur, Snæbjörn, Einar, Páll, þorsteinn, Ragneiður og Margrèt. Síra Torfi fèkk deyfi á sínum efri árum, svo hann heyrði ekki par; flutti þó prestslegt embætti, svo sem það var.

Teitur Torfason sigldi, átti síðan börn nokkur; þar eptir giptist hann Helgu, dóttur Jóns prests Arasonar og Hólmfríðar Sigurðardóttur frá Vatnsfirði, anno 1668; var hann þá Skálholts ráðsmaður. Voru þau ei lengi saman; hann drukknaði í síki nokkru.

Snæbjörn Torfason átti og barn áður hann giptist, við Katrínu Grímsdóttur. Snæbjörn giptist síðan Helgu Eggertsdóttur Sæmundssonar frá Sæbóli á Íngjaldssandi; hann var

1) [b. v. 255.  2) b. v. 255 neðanmáls, eptir S. B. S.

lögrèttumaður, og sofnaði í heimreisu af alþíngi. þeirra börn: Eggert, þóra.

Einar Torfason lærði í skóla og sigldi, fèkk attestationem, en litlar viðhrifur hèr um nokkur ár; vígðist loksins, og fèkk Stað í Steingrímsfirði. Hann giptist Ragneiði, dóttur Jóns Magnússonar, Arasonar, og Jórunnar Magnúsdóttur frá Reykhólum. Átti hann barn um það leiti við Guðrúnu Halldórsdóttur, og fór málið ei rètt vel; misti því Einar staðinn.

Páll (Torfason) giptist Gróu, dóttur Markúsar Snæbjörnssonar úr Ási austur. Páll sat undir Núpi í Dýrafirði og hafði hálfa Ísafjarðar sýslu, en misti hana 1680 fyrir meðkenndan kaupskap við Engelska og Hollenzka.

þorsteinn Torfason drukknaði í Blöndu norður, á Sölvatúnguvaði, er hann reið úr skóla 1657.

Ragneiður eldri Torfadóttir átti barn við síra Snorra, syni síra Jóns Magnússonar á Eyri í Skutulsfirði, og andaðist af barnsför.

Ragneiður ýngri giptist Rögvaldi í Fagradal, syni Sigmundar Gíslasonar.

Margrèt Torfadóttir giptist Bjarna Gunnlaugssyni frá Stað á Reykjanesi; bjó á Arngerðareyri við Ísafjörð.

Björn Snæbjörnsson stúderaði utanlands og var lengi skólameistari í Skálholti. Hann giptist þórunni, dóttur síra Jóns Sveinssonar frá Holti og þorbjargar Guðmundardóttur; hann hèlt Stað á Ölduhrygg. þeirra börn: Snæbjörn Björnsson, sigldi, [Sveinn, Brynjólfur, tvær þorbjargir, þóra[1].

þorkatla Snæbjörnsdóttir, giptist Magnúsi Gizurssyni á Lokinhömrum, barnlaus.

35. Kristín Jónsdóttir, Björnssonar prests, biskups Jónssonar, lèt fallerast, fèll með Birni Magnússyni; þau voru bræðra börn og fengu kóngs náð. þar eptir giptist hún Daða Árnasyni, og bjuggu þau á Eyrarlandi. Hans faðir Árni var Oddsson, og átti útlenzka kvinnu Dorothe, og bjuggu í Miðgörðum í Staðarsveit; hann hafði lengi Dalasýslu. Hann andaðist í elli sinni norður á Eyrarlandi hjá Daða syni sínum. Daði var einn af þeim fjórum, sem sigldu vegna síns föðurlands þá taxtinn

1) [b. v. 255, eptir S. B. S.

danski var saminn 1619, og andaðist hann í siglíngunni[1]. [Sú hans siglíng kostaði 600 dali[2]. þeirra börn:

þorleifur, Árni, Daði, Margrèt.

þorleifur Daðason var barskeri, framaðist utanlands og dó þar barnlaus, þá hann sigldi aptur.

Árni Daðason var lögrèttumaður, bjó á Ásgeirsá, sem hann tók fyrir Stórahól í Eyjafirði[3]. Hans kvinna Elín, dóttir Pèturs Magnússonar og Elínar Björnsdóttur. þeirra börn: Daði, þorleifur, Magnús, Jón[4]. — Daði var skólagenginn og andaðist í Brúará, þá hann reið til vígslu. — þorleifur og skólagenginn, og prestur á Kálfafelli. — Magnús. — Jón[5].

Margrèt Daðadóttir giptist síra Jóni á Melum, syni síra Jóns þorsteinssonar, sem var prestur í Vestmannaeyjum og var af Tyrkjum saklaus í hel sleginn þar það ár 1628. Hans kvinna var Margrèt Jónsdóttir, var i sama máta hertekin með sínum tveimur börnum, Jóni Jónssyni og Margrètu Jónsdóttur. Síra Jón Jónsson hèlt Mela stað í Leirársveit, var prófastur í Borgarfirði fyrir sunnan Hvítá, vel látinn og veltalandi kennimaður og sálmaskáld, svo sem faðir hans. þeirra börn: Daði, síra þorleifur, [síra] Helgi, Jón, Halldóra, Margrèt, Guðrún[6]. — Daði sigldi fyrst úngur, lærði [snikkara verk[7], varð síðan sýslumaður í Kjósar sýslu; [giptist útlenzkri konu, Margrètu Pètursdóttur; þeirra börn: Jónas, Pètur, Sophía. Aptur sigldi Daði 1682, vegna málefna við Jón Eggertsson, kom ei aptur, hafði það skip forgengið[8]. — Síra þorleifur, [lærði í Hólaskóla[9], vígð-

---

1) híngaðsiglíngunni, 255. 2) [utanmáls í 255, eptir S. B. S.

3) en síðast bjó hann á Tindum á Ásum; hann varð yfrið gamall maður, deyði anno 1703, var þá 100 ára, b. v. 46.

4) Oddur, Jón, Guðrún, Elen, Málfríður, Sigríður, 46.

5) Oddur Árnason sigldi úngur, vandraði víða um Selland, þýzkaland, Polen, Austurríki og Ungarien, allt til Tyrkiríis; hann var xvj ár utanlands, forsókti snikkara handverk, giptist Ragneiði, dóttur Jóns Jóns sonar Sigurðssonar lögmanns. (Oddur drukknaði i Svartá hjá Bólstaðahlíð). þeirra börn: Benedikt, Guðlaug, Guðbjörg, Guðný. — Benedikt sigldi í Kaupinhafn, lærði þar snikkara handverk og er þar giptur; (deyði þar með öllu sínu húsi í pestinni miklu 1711), b. v. 46.

6) b. v. 255, eptir S. B. S. 7) [trèsmíði, 255.

8) [þann. 255 eptir síra H. B. S. (= síra Hannesi Björnssyni?); — á útlenzka kvinnu, 254. 9) [sl. 255.

ist og var fyrst kapellan hjá föður sínum 1658, en giptist 1660 dóttur Runólfs Sigurðssonar og Elenar Gvöndardóttur frá Brennistöðum, Solveigu. [Þeirra börn: Kristín[1]. — Helgi [lærði í skóla, fèkk Mela í Borgarfirði 1670, giptist ári síðar Ásu Torfadóttur sýslumanns Erlendssonar; þeirra börn tvö, bæði önduð. Hann andaðist um haustið 1682[2]. — Jón [lærði í skóla, auðnaðist ei vígsla þó vel mentur væri, andaðist ógiptur og barnlaus 1683 (corruptæ carnis)[3]. — Halldóra [giptist ekki; átti barn með útlenzkum manni nokkrum, það heitir Einar, en faðirinn nefndur Jónas[4]. [Sá hans faðir Jónas Espensson var hollenzkur ostindíafari[5]. — Margrèt. — [Guðrún giptist 1685 Jóni frá Galtarholti, Þórðarsyni, Ólafs sonar gamla, Jónssonar[6]. Daði Daðason á Gröf á Höfðaströnd; hans fyrri kvinna var Sigríður, dóttir síra Sigurðar Einarssonar í Saurbæ, prófasts þar. [Hún andaðist barnlaus[7]. Daði giptist aptur [Guðrúnu Jónsdóttur; ekkert barn áttu þau[8].

36. Guðríður Jónsdóttir, Björns sonar prests, biskupssonar, giptist í Skálholti síra Torfa Finnssyni, [Jónssonar úr Flatey[9], og Ragnhildar[10] Torfadóttur. Síra Torfi, vir bonus, pius, probus & eruditus, hafði lengi verið skólameistari, eptir það fèkk hann Hvamms stað í Hvammssveit, og bygði hann lengi, en hèlt þar hús meðan hann lifði. Þeirra börn: Jón, Guðrún.

Jón Torfason giptist Guðriði, dóttur Magnúsar bónda Jónssonar í Haga, og Þórunnar Þorleifsdóttur. Hann átti tvo hluti Flateyjar á Breiðafirði og bjó þar. Þeirra börn: Torfi, Páll, Eggert, Ástríður, Arnfríður, Íngibjörg, Rannveig, Þorkatla, Guðmundur[11]. — [Torfi Jónsson erfði þriðjúng úr tveim pörtum Flateyjar; giptist anno 1668 Ragneiði eldri, dóttur síra Jóns Arasonar frá Vatnsfirði. — Páll Jónsson ólst að mestu upp á Skarði á Skarðsströnd frá því faðir hans sálaðist, var lengi mjög veikur. — Eggert Jónsson fór barnúngur föðurlaus til afa síns og ömmu, Magnúsar Jónssonar og Þórunnar, og ólst

1) [b. v. 255 eptir S. B. S. 2) [b. v. 255, eptir síra H. B. S.
3) þ. e. holdsveikur; — [b. v. 255, eptir síra H. B. S.
4) [b. v. 255, eptir síra H. B. S. 5) [b. v. 255 eptir S. B. S.
6) [b. v. 255, eptir síra H. B. S.
7) [Þeirra dóttir Halldóra, 255. 8) [b. v. 255.
9) [b. v. 255. 10) Ragneiðar, 255. 11) b. v. 255.

þar [upp]. — Ástríður ólst einnig upp hjá fyrrnefndum afa sinum og ömmu; átti barn við sléttum almúgamanni, Nikulási Bjarnasyni, hèt Margrèt. — Arnfríður. — Íngibjörg fór norður til þíngeyra, til afasystur sinnar Íngibjargar. — Rannveig giptist Einari, syni síra Gunnlaugs Snorrasonar og Kristínar Gísladóttur, Einars sonar prests, Sigurðssonar. Einar er lögrèttumaður, býr á jörðu sinni Hrakstöðum á Barðaströnd. — þorkatla Jónsdóttir[1].

Guðrún Torfadóttir, kvinna Bjarna Pèturssonar á Staðarhóli, sonar Pèturs Pálssonar. Bjarni hafði fyrstur þriðjúng af Stapa umboði og lángvarandi Dala sýslu. þeirra börn: [Torfi, Pètur[2].

Rannveig Jónsdóttir, Björns sonar prests biskupssonar, giptist ekki; hún sat á Háeyri [með heiður og sæmd, og sofnaði í drottni[3] barnlaus, [ógipt mey, anno 1654 um veturinn á góu, jörðuð í Stokkseyrar kirkju að norðan[4].

37. Teitur Björns son biskupssonar giptist þuríði, dóttur síra Erlends Pálssonar og Bjargar Kráksdóttur, hálfsystur herra Guðbrands. þeirra börn: Árni, Gunnlaugur, Jón, Björg, Helga, Guðrún; Philippus laungetinn.

Gunnlaugur Teitsson, dó barnlaus, bjó í Bæ í Borgarfirði og varð úti í Geirþrúðar mannskaða byl[5] um veturinn á einmánuði; hann átti launbörn og dóu úng.

Jón Teitsson giptist Agnesi, dóttur Pèturs Magnússonar og Elenar Björnsdóttur. Hann átti stóra Dunhaga í Hörgárdal, og seldi hann fyrir smærri jarðir þorvaldi Ólafssyni; [þeirra börn: Sigurður Jónsson, var skólagenginn á Hólum; giptist dóttur Guðmundar Bjarnasonar á Steiná. Sigurður var lögrèttumaður. — Björg Jónsdóttir giptist síra þórláki, syni síra Arngríms Jónssonar og Sigríðar Bjarnadóttur. — Málfríður Jónsdóttir giptist Eiríki Jónssyni, bjuggu á Núpi í Miðfirði. — Guðrún Jónsdóttir. — Ragneiður Jónsdóttir[6] [giptist þórði frá Galtarholti þórðarsyni, Ólafs sonar Jónssonar[7].

Árni Teitsson á Hofi í Vatnsdal átti Setzelju Pètursdóttur, systur Agnesar, bjó lengi á Hoitastöðum. þeirra börn: Mál-

1) [sl. 255. 2) [b. v. 255. 3) [og dó, 255.
4) [b. v. 255. 5) þ. e. á Geirþrúðar dag, 17. Marts.
6) [þeirra börn mörg, 255. 7) [b. v. 255, eptir síra H. B. S.

fríður, þuríður, [Jón, og þorgrímur launsonur[1]. — Málfríður giptist Guðmundi, syni Jóns bónda Magnússonar og Ástríðar Gisladóttur; bjuggu í Hvammi á Barðaströnd. þeirra barn eitt: Árni. — þuríður Árnadóttir giptist Sæmundi, syni Eggerts heitins Sæmundssonar og Ragnhildar Steindórsdóttur. þeirra börn: Eggert, þóra. — Jón Árnason. — þorgrímr Árnason giptist anno 1678 þuríði, dóttur Jóns Finnssonar úr Flatey. — Árni Teitsson átti og önnur tvö launbörn, komust ekki á fætur; item eitt hjábarn, og dó það.

Björg Teitsdóttir giptist síra Gísla, syni síra Brynjólfs Árnasonar á Bergstöðum í Svartárdal, og dó hún barnlaus.

Helga Teitsdóttir giptist Jóni, syni Gríms á Guðrúnarstöðum, og átti Jón þá jörð; hans móðir var Ingibjörg Gvöndardóttir.

Guðrún Teitsdóttir, kvinna Magnúsar þorsteinssonar lögréttumanns. Hún hafði látið fallerast áður við þórði Sturlasyni. það var sá þórður, sem hestur þórláks þórðarsonar breytti steini í augað, svo hann misti sjón á því.

Philippus Teitsson [laungetinn, hans son Gunnlaugur, sem bjó á Sandhólaferju í Holtum; hann átti Katrínu Pálsdóttur, dóttur síra Páls Erasmussonar. — Hans dóttir var og[2] Auðbjörg Philippusdóttir, kvinna Einars þorsteinssonar lögréttumanns [á Felli í Mýrdal[3]; þeirra börn: Philippus, Ólafur, Gunnar, [Jón, Sigurður, þorleifur, Ísleifur, Guðmundur, Guðrún, kvinna þorsteins Eyjólfssonar á Háeyri[4].

38. Magnús Björnsson biskupssonar átti Halldóru, dóttur Eiríks bónda Snjólfssonar og þuríðar, þorleifs dóttur [og Solveigar Hallsdóttur[5] frá Möðruvöllum. þeirra börn: Björn, Eiríkur, síra Jón, þórdís.

Björn Magnússon féll með Kristínu Jónsdóttur, bræðrúngi sínum, og fékk náð af kóngi og því seldi Magnús faðir hans part í Grund Jóni Björnssyni bróður sínum; svo giptist Björn Ornýju, dóttur Jóns Einarssonar í Bólstaðarhlíð og Ragneiðar Egilsdóttur frá Skarði í Lángadal; sú Orný var áður trúlofuð Jóni ýngra Magnússyni Dan, en þó óviljug að hún bar fram;

---

1) [þorgrímur (launsonur hans) og Jón, 255.
2) [b. v. 255. 3) [b. v. 255.
4) [b. v. 255, eptir síra H. B. S. 5) [b. v. 255.

en Björn Magnússon sótti hana til Gunnsteinstaða í fjærveru Jóns föður hennar, og honum nauðugum; var því Björn klagaður og sekur dæmdur af Jóni lögmanni í Jóhans Buccholts umboði, ránsmaður, en á alþíngi síðar útlægur af þórði lögmanni, og svo hans föðurbróðir Teitur Björnsson, og Eiríkur Magnússon, bróðir Björns. þar uppá sigldu þeir Björn og Teitur sumarið eptir fyrir kóng. Börn Björns og Ornýjar: Síra Gunnar, Benedikt, Eiríkur, Rannveig, Solveig.

Síra Gunnar Björnsson, skólagenginn, sigldi og stúderaði í Kaupinhafn þrjú ár og varð svo prestur; giptist þórunni, dóttur síra Jóns Guðmundssonar í Hítardal og Guðríðar Gísladóttur[1]. Síra Gunnar átti Hof á Höfðaströnd, og bjó þar fyrst, síðan fèkk hann Höskuldstaði, og þaðan flutti hann sig aptur síðast til Hofs. þeirra dóttir Guðríður, [kvinna Mag. Gísla Vigfússonar frá Hvoli; þeirra einberni Vigfús[2].

Benedikt Björnsson giptist anno 1645 Guðrúnu[3], dóttur síra þorsteins Tyrfíngssonar og Jórunnar Einarsdóttur; [þau bjuggu í Bólstaðahlíð, síðan á Reyninesstað[4]; þeirra börn: þorsteinn, Björn, [Orný, Halldóra, Gunnvör[5].

Eiríkur Björnsson átti eina laundóttur, hèt Solveig.

Rannveig Björnsdóttir giptist Einari, syni Pèturs Gunnarssonar og Halldóru Gunnlaugsdóttur. Einar átti XL hundruð í Víðivöllum og seldi herra þorláki. þeirra börn: Magnús, Eiríkur, Halldórur tvær, Orný. — Magnús Einarsson. — Eiríkur [Einarsson giptist vestur á Skarðsströnd, Rósu, dóttur Jóns Ögmundssonar, Frakkaness-karlsins; bjuggu þau þar á ymsum jörðum og máttu lítt[6]. — Halldóra eldri giptist Einari Jónssyni frá Bjarneyjum; bjuggu fyrst þar, síðan í Fagurey; hann krenktist og dó fyrri. þeirra börn: Björn[7]. — Halldóra yngri, giptist Gísla yngra, syni Jóns heitins Halldórssonar og Guðnýjar Eyjólfsdóttur. þeirra börn: [Jón (dánumannsleysið), sem sigldi frá Birni sáluga Gíslasyni í Bæ, hverjum hann til siglíngar kom, og

1) sbr. bls. 281.
2) [þannig 255, eptir S. B. S.; er ektaði M. Gísli Vigfússon, 254.
3) nafninu sleppa 254 og 255, en það er í 46 og í Árbókum Espólíns.
4) [sl. 254. 5) [b. v. 255, eptir S. B. S. 6) [sl. 255.
7) mörg, 254.

fleira gott veitti[1]. — Orný [Einarsdóttir á síra Magnús, á Hörgslandi var[2].

Solveig Björnsdóttir giptist þorláki, syni þórðar þorlákssonar á Marðarnúpi[3] í Vatnsdal og Hólmfríðar Jónsdóttur. Hann átti Marðarnúp, en hún Gunnsteinstaði. þeirra börn: Halldóra, þórður, [Björn, Philippia[4].

39. Eiríkur Magnússon átti Guðfinnu, dóttur Ísleifs ýngra þorbergssonar á Hofi á Höfðaströnd. og Íngibjargar Gunnarsdóttur. Hann átti þorleifstaði í Blönduhlið, en hún Djúpadal, Lundarbrekku í Bárðardal og Mannskapshóla á Höfðaströnd. þeirra börn: Magnús, Ólafur, Sigurður, Gísli, Íngibjörg, Guðrún, þorbjörg, þuríður.

Magnús Eiríksson giptist Guðrúnu, dóttur Jóns Oddssonar í Vík suður og þórdísar Hinriksdóttur[5]; hann átti Djúpadal í Blönduhlið. þeirra börn: [síra Eiríkur, Jón, þórdís, Halldóra[6]. — Ólafur Eiríksson á þóru Sturladóttur, systur síra Böðvars á Valþjófsstað. [þau bjuggu á Syðstu-Grund í Skagafirði[7]. — Sigurður Eiríksson [giptist Guðrúnu, dóttur síra Stephans Hallkelssonar og Úlfhildar Jónsdóttur frá Nesi. þeirra börn: Eiríkur; Sigurður[8] bjó á þorleifsstöðum. — Gísli Eiríksson bjó á Silfrastöðum; hans kvinna Arndís, dóttir Jóns Özurssonar miðaldra, er drukknaði á vatninu, eður hvernig sem var. — Íngibjörg Eiríksdóttir; hennar maður þórður Erlendsson[9]. — Guðrún (Eiríksdóttir) giptist þorleifi, syni síra Ólafs Halldórssonar og Guðrúnar Jónsdóttur; [dó barnlaus; þorleifur giptist aptur Guðrúnu, dóttur síra Magnúsar á Kúlu[10]. — þorbjörg Eiríksdóttir. — þuríður Eiríksdóttir.

40. Síra Jón Magnússon á Ljósavatni giptist Kristínu, dóttur síra Jóns Gottskálkssonar frá Hvammi í Laxárdal og Guðnýjar Tumadóttur, sem átti Krossnes í Eyrarsveit. — Síra Jón átti Ljósavatn og fleiri jarðir. þeirra börn: Sigurður og

1) [sl. 255. 2) [sl. 255.
3) í 254 skrifað Mærðarnúpi. 4) [b. v. 255.
5) þann. 255 eptir S. B. S.; Hallkelsdóttur, 255 upphaflega.
6) [eptir 255; Eiríkur (og ekki fleiri), 254.
7) [sl. 255. 8) [b. v. 255.
9) sjá að framan bls. 294. 10) [b. v. 255.

þórunn. — Sigurður eignaðist Ljósavatn, og seldu þeir feðgar það Magnúsi Björnssyni lögmanni.. Sigurður kom í brennumál; hann bjó á Hóli í Kinn; hans kvinna var Helga Pètursdóttir [Pálssonar frá Staðarhóli, og þorbjargar Bjarnadóttur. þeirra börn: Pètur, hann var skólagenginn og dó barnlaus[1]. — þórunn Jónsdóttir átti síra Jón, son Guðmundar Illugasonar úr Reykjadal.

þórdís Magnúsdóttir átti Stóru-Lauga í Reykjadal; hennar bóndi var þorvaldur Jónsson á Reykjum í Túngusveit. þeirra einbirni Sveinunn, kvinna Eggerts Jónssonar; þeirra börn: Jón, Ragneiður. — Jón Eggertsson, hann giptist Sigríði Magnúsdóttur frá Sjáfarborg eptir Benedikt sáluga Pálsson[2]. — Ragneiður Eggertsdóttir sat lengi ógipt á jörðu sinni Reykjum í Túngusveit.

41. Árni Björnsson biskupssonar giptist Önnu, dóttur Björns Hannessonar og þórunnar Daðadóttur frá Snóksdal. þeirra börn: Daði, Birnir tveir, Íngvöldur, Kristín, Guðrún[3], þuríður; item Halldóra, meingetin.

Daði Árnason drukknaði á Hvítárísi, barnlaus, vildi draga uppúr hest annars manns; hann var þá sveinn Odds biskups. — Birnir báðir dóu barnlausir; annar á Staðastað xix vetra. — — Íngvöldur Árnadóttir giptist Narfa, syni Gvöndar Jónssonar. [þau áttu einn son, Árna, og dó hann x vetra.

Kristín Árnadóttir giptist þorleifi Bjarna syni Sumarliðasonar[4] á Fellsenda. þeirra dætur: Steinunn og Evphemia. — Steinunn þorleifsdóttir giptist norður Ólafi í Sölvatúngu Guðmundssyni. þeirra börn: síra þorleifur Ólafsson[5]. — Evphemia þorleifs-

---

1) [b. v. 255, sbr. bls. 361 að framan.

2) Jón hèlt Möðruvalla klaustur tvisvar, sigldi í þrjár reisur til sinna mála-útrèttinga, komst í ólempi utanlands og innan; að síðustu fór hann úr Danmörk í Svíaríki, og þar segja menn hann mætt hafi upphefð, og þar deyði hann. Jón var haldinn mætur maður í mörgu, og kostulega skynsamur, þó hann fengi ei svo góða áheyrslu að síðustunni, b. v. 46.

3) b. v. 255.

4) [tekið eptir 255; fallið úr í 254.

5) sem hafði Blöndudalshóla beneficium; hann bygði það, en bjó í Finnstúngu. Hann átti barn í skóla við Guðríði, vinnukonu föður síns, sem

dóttir giptist Pètri þórðarsyni[1], Brandssonar; þeirra börn: Bjarni, Kristín. — Bjarni Pètursson giptist Steinunni, dóttur Daða Gíslasonar. — Kristín Pètursdóttir lèt fallerast með Snjólfi Bárðarsyni[2]; dó það þeirra barn. Hún giptist þar eptir Símoni Gíslasyni, norðlenzkum; bjuggu vestur á Snæfellsnesi.

Guðrún Árnadóttir giptist Árna, syni Skúla Jónssonar og Halldóru Sveinsdóttur. þeirra börn: Árni, Sveinn, Íngvöldur[3], Halldóra, Kristín, Katrín. — Árni Árnason giptist Guðrúnu, dóttur Jóns þorvaldssonar og þórunnar Ólafsdóttur; þeirra börn: Daði, Skúli, Jón, Kálfur, Kristín, Halldóra, Guðrún. — Sveinn Árnason giptist Sigríði, dóttur Fúsa Gunnlaugssonar og Kristínar Fúsadóttur á Sleggjulæk; áttu ekki börn. — Íngvöldur[4] Árnadóttir átti þormóð, son Tuma Rögvaldssonar og Guðrúnar Guðnadóttur. þeirra börn: Setzelja, Skúli, Jón. — Katrín Árnadóttir giptist Halli, launsyni síra Gríms á Húsafelli, Jónssonar; hann varð spitelskur og skildu þau viljuglega; hún tók framhjá honum, og átti barn við Gunnari Bjarnasyni[5]; það dó úngt; eptir það giptist hún þorsteini Bárðarsyni; í þriðja sinn giptist hún Eiríki Björnssyni. — Kristín Árnadóttir giptist Tumási Narfasyni Fúsasonar og Solveigar Ólafsdóttur, dó barnlaus; en Tumás giptist aptur Ástu Jónsdóttur [og (átti) ekkert barn við henni[6]. Kristín átti síðar þorleif Bjarnason á Fellsenda. — Halldóra Árnadóttir giptist þorgeiri[7], syni Snorra í Bár og Elenar; þeirra börn: Snorri, Páll, Elen, Kristín.

þuríður Árnadóttir, Björns sonar biskupssonar, giptist Einari Ormssyni í Stóru-Hvestu: [þeirra börn: Ormur Einarsson, fátækur, í Dölum. — Björn Einarsson, faðir Jóns og Ara, Björnssona, hjá Selárdal[8].

Halldóra, hjábarn Árna Björnssonar við Valgerði þorkelsdóttur af Vestfjörðum, átti Magnús þorleifsson af Múla ætt; þeirra börn: Jón, Rannveig, þórdís. — Jón Magnússon í Hundadal. — Rannveig í Hlíð. — þórdís, giptist Reykhóla-Lopti.

hèt Jón; hann sigldi, og var utanlands tvö ár, síðar giptist hann Guðrúnu Árnadóttur, Daðasonar, b. v. 46.

1) syni síra þórðar, 255.
2) Brandssyni, 46.
3) Íngigerður, 255, 46.
4) Íngiríður, hèr, 254; Íngigerður, 255.
5) 255; Bjarnarsyni, 254.
6) [b. v. 255.
7) þorgrími, 255.
8) [sl. 255.

42. Bjarni Björnsson bjó vestur á Læk[1], og átti Setzelju, sagða Sigurðardóttur, en á mánudaginn í brúðkaupinu fastnaða Eggertsdóttur. Hennar móðir var Herdís, dóttir síra þorleifs Björnssonar á Reykhólum. þeirra börn:

þorleifur, Björn, Steinunn, þórunn, Herdís, Elín, Hallbjörg; item Einar, launsonur[2].

þorleifur Bjarnason átti Kristínu, dóttur síra Teits í Gufudal; hann drukknaði; dó barnlaus.

Björn Bjarnason, hans kvinna Halldís Hallsdóttir; þau bjuggu á Kambi í Króksfirði; hann seldi Læk fyrir Kamb. þeirra börn: Íngimundur, Hallur, Sigurður, Erlendur. — Íngimundur (Björnsson) giptist Guðrúnu Eyvindardóttur. þeirra börn: Guðrún og Ólöf. — Guðrún giptist Gunnlaugi, syni Jóns Özurssonar norðlenzka og Íngvöldar Gunnlaugsdóttur, vestfirzkrar. Gunnlaugur og Guðrún búa í Sauðlaugsdal í Patreksfirði. þeirra börn: Jón, Björn, Guðrún. — Ólöf Íngimundsdóttir. — Hallur Björnsson giptist Arneiði, dóttur Sturla Gottskálkssonar, bjuggu á Geirseyri[3] við Patreksfjörð, síðan í Kvígyndisdal, þau áttu ei börn svo lifði. — Hallur á laundóttur, Sigríði. — [Sigurður Björnsson býr í Króksfirði; hans fyrri kvinna Hólmfríður, dóttir Páls Björnssonar smiðs. — Erlendur Björnsson giptist þóru Gvöndardóttur; þeirra börn: Bjarni, Hallur, Pètur, Jón. — Bjarni Erlendsson drukknaði ógiptur í Tjaldaness ósum. — Pètur. — Hallur. — Jón Erlendsson hraustur maður, sigldi í England, var burt eitt ár[4].

Steinunn Bjarnadóttir átti þórð, son Eyjólfs Halldórssonar í Saurbæ og Solveigar Árnadóttur, og dó hún barnlaus. þórður giptist aptur Íngibjörgu, dóttur síra Jóns þormóðssonar; þau áttu og ekkert barn saman.

þórunn Bjarnadóttir giptist Lopti Árnasyni í Sælíngsdal[5]; hans móðir var Helga Guðmundardóttir frá Hvoli í Saurbæ; þeirra synir: síra Árni og síra Jón. — Síra Árni giptist Álfeiði, dóttur Sigmundar Gíslasonar og Guðrúnar Pálsdóttur frá Fagra-

---

1) Brjámzlæk, 255. 2) Elínu og Einari sl. 255.
3) Gestseyri, 255. 4) [sl. 255.
5) sbr. bls. 287 að framan.

dal; hann fèkk Dýrafjarðar þíng [og veik þaðan fyrir misklíð nokkra við sýslumanninn Pál Torfason, sem og aðra þíngunauta; Árni býr nú þjónustulaus á jörðu sinni Sælíngsdal[1]. — Síra Jón fèkk Hvols þíng í Saurbæ; [hans kvinna Sigþrúður Einarsdóttir frá Stað í Steingrímsfirði[2].

43. Herdís Bjarnadóttir átti síra Þorleif Bjarnason, bróður síra Brynjúlfs, [sem hèlt Hjarðarholt, og síra Torfa í Grunnavík[3], [móðir þeirra var Guðrún Jónsdóttir, systir Finns í Flatey[4]. Þeirra börn: síra Ólafur[5], Þorleifur, Bjarni, Jón, Kristín, Þórunn[6], Ólöf. — Síra Ólafur (Þorleifsson), fyrst kapellan hjá föður sínum, síðan hèlt hann Sanda. — Þorleifur (Þorleifsson). — Bjarni Þorleifsson, nú 1681 umboðsmaður Danskra í hálfri Ísafjarðarsýslu. — Kristínu Þorleifsdóttur á Magnús á Kúlu, sonur síra Guðmundar Skúlasonar og Dísar Bjarna dóttur, prests frá Selárdal. — [Þórunn (Þorleifsdóttir) giptist Árna, syni Magnúsar Sæmundssonar[7]. — [Ólöf Þorleifsdóttir, giptist Árna, syni Sæmundar bónda Árnasonar og Elínar Magnúsdóttur frá Hóli í Bolúngarvík[8].

Elín Bjarnadóttir giptist ekki, meina eg; andaðist í Miðhlíð hjá Magnúsi sáluga Jónssyni.

Hallbjörg Bjarnadóttir giptist ekki heldur.

[9]Einar Bjarnason átti Þorgerði, dóttur Jóns Konráðssonar. Þeirra börn: Jón, Guðrún. — Jón Einarsson, gamall maður örvasa nú 1681 í Rauðasandssveit; hans fyrri kona Þóra. Þeirra börn: Einar, Konráður, Þórunn. — Síðar átti Jón Ragnhildi, dóttur Þorvalds Ásmundssonar norðlenzka. Þeirra börn: Jörundur, Arnbjörn, Guðrún, óþjóðalýður. — Guðrún Einarsdóttir, giptist Jakob Lazasyni, skynsömum manni og margfróðum, lengi hreppstjóra í Rauðasandssveit; hann var af þýzkri ætt, sömu og Lazi, sem brendur var á alþingi 1675. — Börn Jakobs og Guðrúnar: Jón, Diðrik, Margrèt,

1) [sl. 255. 2) [sl. 255. 3) [sl. 255.
4) [b. v. 255. 5) hèðan frá sleppir 255, allt að Hallbjörgu.
6) b. v. 46. 7) [eptir 46; 254 heimfærir þetta til Ólufar, og bætir við: „og Sigríðar Þorleifsdóttur" (ɔ: konu nafni Magnúsar).
8) [eptir 46. 9) hèðan frá sl. 255, til enda kapítulans.

Helga. — Jón, giptist Helgu Jörundardóttur norðlenzkri, úr Húnavatnsþingi; hún fór þángað norður aptur, eptir það Jón drukknaði; þau áttu nokkur börn, sem með móðurinni norður fóru. — Diðrik, giptist Guðrúnu dóttur Jóns Gunnlaugssonar og Guðrúnar Ásbjörnsdóttur; áttu mörg börn; hann drukknaði ogsvo 1677. — Margrèt átti Sölmund Bjarnason; hann datt úr fjalli 1676. Þeirra dætur Guðrúnar tvær. — Helga á Böðvar Dagsson, aulatetur; eru í Patreksfirði. Þeirra son Bjarni. — Einar Bjarnason átti launson: Greip, við Þorgerði, dóttur síra Greips Þorleifssonar á Snæfjöllum.

44. Ragneiður Björnsdóttir (biskupssonar) giptist Sigurði, syni Bjarna Torfasonar og Íngibjargar Sigurðardóttur.

Þeirra barn: Bjarni. Hann giptist Sólvöru, dóttur síra Guðmundar Gíslasonar frá Gaulverjabæ og Önnu Þorláksdóttur.

Þeirra börn: síra Þorlákur, síra Guðmundur, Gísli, Markús, Magnús, Sigurður, Íngibjörg, Ragneiður.

Síra Þorlákur hèlt Helgafell, og átti Ólöfu, dóttur síra Guðmundar Einarssonar frá Staðarstað og Elínar Sigurðardóttur; þau áttu ekki börn svo á fætur kæmist.

Síra Guðmundur andaðist ógiptur. — Sigurður var ráðsmaður Rannveigar Jónsdóttur á Háeyri nokkur ár; hann var skólagenginn og dó barnlaus.

Gísli hafði fyrst þriðjúng af Stapans umboði og sleppti því vegna skulda. Hans kvinna var [Orný Grímsdóttir, dóttir Gríms Bergssonar af Kirkjubóli á Suðurnesjum. Þeirra börn: Bjarni, Helga. — Bjarni eignaðist Guðrúnu, dóttur Markúsar Snæbjörnssonar í Ási; — Helga átti Jón heitinn Guðmundsson frá Keldum[1].

Markús giptist Guðrúnu, dóttur Torfa Erlendssonar og Þórdísar Bergsveinsdóttur. Þeirra börn: [Bjarni skólagenginn, drukknaði barnlaus. — Guðríður, átti barn við dönskum eptirlegumanni Hans Vilhelmssyni; — Guðrún; — Þórdís[2].

Þessa bræður, Gísla og Markús, skammkól á höndum og fótum um veturinn 1629[3], er þeir riðu frá Fitjum austur yfir

[1]) [b. v. 255 eptir S. B. S.
[2]) [b. v. 255 eptir S. B. S.
[3]) 1628, 46.

fjall, svo af þeim voru sagaðar fæturnar á þíngvöllum, og voru þar lengi í græðslu; slíkt frost kom ekki í manna minni, sem þann sunnudag. þeir höfðu fyrst hleypt hesti sínum ofan í Grímsvatn, og vættu sig á höndum og fótum, er þeir voru að draga hestinn uppúr; eptir það drukku þeir brennivín sèr til hita, og fengu ógóða færð og dösuðust, svo sofnuðu þeir og vöknuðu við frosin bein; gátu svo með harmkvælum skriðið og velt sèr að þíngvalla koti, sem hèt Brandskot. Síðan, er þeir voru græddir, gengu þeir á trèfótum. Fíngurnar voru og af þeim flestallar, nema litlir stúfar fyrir sumum fíngrum, einkum á Markúsi; þó skrifar hann.

Magnús Bjarnason giptist Vilborgu, dóttur þorsteins Magnússonar, Árnasonar, og var lögrèttumaður; hann fèkk og á sínu seinasta ári, er hann lifði, Rángárvalla sýslu; hann bjó á Leirubakka á Landi. þeirra börn: Guðni, [Guðmundur, Sólvör, Anna, þórunn, Gyðríður, Íngiríður[1]. — [Guðni átti Ólufu Halldórsdóttur, dóttur síra Halldórs Ketilssonar frá Kálfafelli í Hornafirði. — Guðmundur átti Guðrúnu, dóttur síra Magnúsar Jónssonar á Breiðabólstað í Fljótshlíð. — þórunn eignaðist síra þorleif Clausson á Útskálum[2].

Íngibjörg Bjarnadóttir giptist Páli, syni Gísla þórðarsonar lögmanns og Íngibjargar Árnadóttur; þau bjuggu á Hvanneyri; Páll átti þá jörð; hann var lengi landskrifari, frá 1631. þeirra börn: Gísli, Sigurður, Hinrik, Jón, Pètur, þóra, Íngibjörg, Sólvör.

Ragneiður Bjarnadóttir giptist Einari Ólafssyni, syni Ólafs Árnasonar og Solveigar Einarsdóttur. þeirra börn: [Grímur, Sólvör, Guðrún[3].

45. Ragneiður Björns biskupssonar dóttir giptist aptur Markúsi Ólafssyni; þeirra börn: Sigurður, Rannveig, Margrèt.

Sigurður Markússon í Stóradal[4] í Skagafirði; hans kvinna Guðbjörg, dóttir Torfa Jónssonar (á Kirkjubóli) í Lángadal og þorkötlu Snæbjarnardóttur. þeirra börn: Steinunn, þóra. — Steinunn átti Magnús Jónsson á Sjáfarborg; þeirra börn: Jón, Sigríður. — Jón Magnússon, [átti Sjáfarborg; var aldrei við

---

1) [b. v. 255.
2) [b. v. 255 eptir S. B. S.
3) [b. v. 255.
4) Hèraðsdal, sama, 46.

konu kendur, þó vel kvennskur til matar meðferðar og skyrgerðar[1]. — Sigríður, kvinna Benedikts Pálssonar fyrri, en síðar Jóns Eggertssonar. — þóra Sigurðardóttir, kvinna Jóns Jónssonar á Svalbarði.

Rannveig Markúsdóttir átti Egil á Skarði, son Jóns Egilssonar og Guðnýjar Einarsdóttur; þeirra börn: Jón Egilsson lögrèttumaður, Markús, Gunnlaugur, Guðrún, [Ragneiður, Steinunn, Gunnvör[2]. — Jón Egilsson á Sigríði, dóttur Jóns ýngra Magnússonar Dan, og Íngvöldar Guðmundardóttur; þeirra börn: Halldór, Guðmundur, Jón, Ragnhildar tvær, þórdís, Guðrún. — Guðmundur var nokkur ár í Hóla skóla[3]. — Markús Egilsson. — Gunnlaugur [Egilsson bjó í Gullbrekku í Eyjafirði, og átti Guðrúnu, dóttur Ólafs Jónssonar í Miklagarði og Halldóru Árnadóttur. þeirra börn: síra Jón, Egill, þorvaldur, Ólafur, Björg, Halldóra. — Síra Jón vígðist og var tvisvar kirkjuprestur á Hólum í Hjaltadal; síðast var hann prestur á Mælifelli. — Egill Gunnlaugsson. — þorvaldur Gunnlaugsson ektaði Guðrúnu Gunnarsdóttur. þeirra börn: Gottskálk lögrèttumaður í Vaðla sýslu, bjó á Möðrufelli i Eyjafirði. Sigríður hèt hans kvinna. Hann keypti Hreiðarstaði í Svarfaðardal og bjó þar lengi. þeirra börn: síra þorvaldur, varð prestur á Miklabæ í Blönduhlíð, og þángað fór faðir hans og var hjá honum meðan síra þorvaldur lifði, en eptir hans afgáng gipti Gottskálk sig aptur, og bjó á þorleifstöðum í Blönduhlíð[4]. — [Guðrún Egilsdóttir átti Guðmund Gíslason í Sölvatúngu[5]. — Margrèt Markúsdóttir átti síra Snæbjörn í Odda, Stephánsson, Gísla sonar (biskups,

---

1) [b. v. 46. 2) [b. v. 255.

3) Guðmundur Jónsson fèkk Gunnsteinstaði eptir föður sinn. Hann var nokkra vetur í Hóla skóla, fèkk málleysi og fór úr skólanum, sigldi um einn vetur. Hann átti þrjú launbörn. Síðan giptist hann i elli sinni Sigríði, dóttur síra Jóseps Loptssonar og Rannveigar Magnúsdóttur. Voru ei saman fullt árið. Hanu var nokkra stund lögrèttumaður i Húnavatns sýslu. Jón bróðir hans erfði Gunnsteinstaði eptir hann. Launbörn Guðmundar: Guðný, Ásdís, Valka, b. v. 46.

4) [tekið eptir 46; það er ættleggur Alberts Thorvaldsens. — á Miklagarði í Eyjafirði, átti Sigríði, dóttur Ólafs, sonar síra Jóns Sigurðssonar i Laufási. þeirra börn: síra Jón Gunnlaugsson, 254 og 255.

5) [sl. 255.

Jónssonar). þeirra börn: Markús, Ragneiður, Helga. — Markús Snæbjarnarson giptist Kristínu Einars dóttur Hákonarsonar og Ragneiðar Magnúsdóttur. þeirra börn: Gróa, Anna, Kristín, Guðrún. — Gróa Markúsdóttir giptist Páli Torfasyni prests Snæbjarnarsonar. — Ragneiður Snæbjörnsdóttir giptist Hákoni, syni Bjarna Hákonarsonar og Katrínar Magnúsdóttur. þeirra börn: Torfi Hákonarson í Hollandi; Setzelja Hákonardóttir; Ragneiður Hákonardóttir, giptist síra Gísla Jónssyni í Villíngaholti. — Snæbjörn Hákonarson.

46. Halldóra Björnsdóttir biskupssonar átti Bjarna Pálsson. Páll var Grímsson og sonur Helgu Narfadóttur. Bjarni bjó á Skriðu í Hörgárdal; þau áttu xj börn á lífi þegar Bjarni drukknaði á Grímseyjarsundi. þeirra börn: Hallur, Jón, Margrèt, Bergljótar tvær og Guðrún; hún var á Reyninesstað lengi ógipt.

Hallur var lögrèttumaður og bjó á Möðrufelli; hans kvinna var Herdís, sú fyrri, dóttir Jóns Arnfinnssonar í Skagafirði og Guðrúnar Rafnsdóttur; þeirra börn: Bjarni, Teitur, Páll, Jón, Guðmundur[1]. Bjarni prestur Hallsson á Sigríði, dóttur Ólafs Jónssonar frá Núpufelli. — Teitur Hallsson sigldi; var gullsmiður; giptist Ragneiði, dóttur síra Fúsa á Setbergi. — Páll Hallsson var lókátur á Hólum um nokkur ár, síðast 1653, sigldi þar eptir og prestvígðist í Danmörk. — Jón Hallsson [sigldi, varð silfursmiður og dó barnlaus. — Guðmundur Hallsson, gjörðist tinsmiður, og dó utanlands barnlaus[2]. — Hallur giptist aptur Guðrúnu, dóttur síra Halls, sem var á Höfða í Höfðahverfi, og Rannveigar[3] Eireksdóttur. þeirra börn: Halldór, Magnús, Herdís.

Jón Bjarnason átti Ólöfu, dóttur Jóns Arnfinnssonar í Skagafirði; þeirra börn: Bjarni, Rafn, Pètur[4].

Margrèt Bjarnadóttir giptist síra þorsteini, syni síra Ásmundar þorsteinssonar í Vesturhópshólum. þeirra börn: síra Bjarni, Ásmundur, Málfríður, Guðrún, þórunn, þorbjörg.

Bergljót Bjarnadóttir átti síra Ólaf Arason [sem bjó á Vindheimum[5], son Ara Tumasonar.

---

1) b. v. 255, 46. 2) [b v. 46. 3) Ragneiðar, 255.
4) b. v. 255. 5) [b. v. 255.

Bergljót önnur Bjarnadóttir átti síra Sigurð í Goðdölum, son síra Jóns í Laufási; þeirra börn: þuríður, Sigríðar tvær, Steinunn, Ólöfar tvær. — þuríður átti Einar, son Skúla Einarssonar og Steinunnar Guðbrandsdóttur. þeirra börn: síra Jón, Skúli, Einar, Illugi, Bergþór, Helga, Halldóra, Bergljót, Björg, Ragneiður[1]. — Sigríður önnur, giptist Hallgrími, syni síra Halls í Höfða. — Sigríður önnur, giptist síra Magnúsi Pèturssyni, prófasti eystra, 1646, og var hans síðari kvinna. — Steinunn Sigurðardóttir á Rafn, dóttursson[2] Jóns Arnfinnssonar í Skagafirði. — Ólöfu átti Guðmundur, son Kolbeins Hjálmssonar, sem lengi var barskeri herra Guðbrands; þau bjuggu á Merkigili. — Ólöf önnur, átti Jón Jónsson, bróður Rafns lögrèttumanns, þau bjuggu á Hofi í Goðdölum. þeirra börn: síra Illugi, prestur í Grímsey.

47. Síra MAGNÚS JÓNSSON, þriði sonur biskups Jóns, hann hèlt Grenja(ðar)staði, og andaðist fyrr en biskup Jón var af tekinn. Hans kvinna var Kristín, dóttir Fúsa Erlendssonar lögmanns og Gúðrúnar Pálsdóttur. þeirra dóttir var Guðrún Magnúsdóttir á Ökrum í Skagafirði, eiginkvinna Gunnars Gíslasonar. Hann var lengi Hólaráðsmaður og hèlt Reyninesstaðar klaustur fyrstur, næst eptir Solveigu abbadís, þegar siðaskiptin urðu. þá var ekki klaustursafgjaldið meira en xxxv eður XL dalir og einn mannshlutur. Gunnar hafði aldrei sýslu. Jón Jónsson mágur hans tók undan honum klaustrið.

Börn Gunnars og Guðrúnar: Björn, Gísli, Páll,
Pètur, Íngibjörg, Solveig, Guðrún.
Stephán launsonur.

Björn Gunnarsson giptist Ragnhildi, dóttur þórðar Björnssonar austur á Eyvindará og Guðlaugar Árnadóttur. Hann bjó á Bustarfelli í Vopnafirði, og hafði nokkur ár Múlasýslu. Hann drukknaði í Jökulsá hjá Kirkjubæ í Útmannasveit, er hann vildi fara yfirum á ferju; hefir ei aptur fundizt[3]. þeirra börn: Jón, þórunn, Páll.

Jón Björnsson hèlt Skriðuklaustur; hann giptist Margrètu Oddsdóttur á Hofi í Vopnafirði í þrimennings meinum með

1) Helga, Halldóra, Björg, eptir 255; sl. 254.
2) son, 255. 3) jaki hljóp á ferjuna, b. v. 255.

leyfi Herluffs Dá, móti ráði biskupsins herra Odds[1]. [þeirra börn: Guðrún, kvinna Ásmundar Jónssonar. — Björn. — Guðlaug, kvinna Bjarna Jónssonar[2].

þórunn Björnsdóttir á Skriðuklaustri, giptist anno 1611 Bjarna Oddssyni, syni síra Odds þorkelssonar og Íngibjargar Fúsadóttur. Bjarni bjó á Hofi og á Bustarfelli, og hafði Múlasýslu. — þeirra börn: þorbjörg, [tveir Pètrar, Gróa, Sigríður, kvinna Bjarna Eiríkssonar[3]. — þorbjörg, giptist Eiríki á Fitjum, syni herra Odds biskups Einarssonar og Helgu Jónsdóttur; þeirra börn: Oddur, Helga, Gísli[4]. — Pètur Bjarnason giptist Elizabeth, dóttur þýzka Jukkums [á Keldunesi[5]. — Gróa, [giptist aldrei, og átti engin börn, var þó ágætis kvennval[6].

Ragnhildur þórðardóttir, ekkja Björns Gunnarssonar, giptist aptur vinnumanni sínum Snæbirni, syni þórðar hins afsetta, öðru nafni fjalla-þórðar.

Gísli Gunnarsson stúderaði í þýzkalandi og Danmörk, og þjónaði líka herramönnum, Dr. Páli Mattíassyni erkibiskupi í Kaupinhafn[7], og síðan einum þýzkum Licentiato juris, er hèt Christopher Sturtiades. Gísli andaðist í þýzkalandi.

Páll Gunnarsson sigldi, og drukknaði með öðrum á Hamborgar elfi.

48. Pètur Gunnarsson giptist Halldóru, dóttur Gunnlaugs Ormssonar í Leyníngi í Eyjafirði og Halldóru þorleifsdóttur. þeirra börn: Einar, Gunnar, síra Magnús, Guðrún.

Einar Pètursson giptist Rannveigu, dóttur Björns Magnússonar í Bólstaðahlíð. [Síðar átti Einar Ólöfu, konu Jóns Gíslasonar barskera; hún var dóttir Tumásar Brandssonar á Bægisá; hún var einbirni, einsýn, og settist í algjört bú eptir föður sinn á Bægisá[8].

Gunnar Pètursson giptist úr Vestmannaeyjum og átti þrjú börn við þeirri sinni fyrri kvinnu: Einar, þorgerði og þuríði; þeirra móðir hèt Guðný Einarsdóttir. Síðar giptist hann Önnu,

---

1) það dugði Herluf Dá að ruinerast, b. v. 255 eptir S. B. S.
2) [sl. 255. 3) [b. v. 255 eptir S. B. S.; Pètur, Gróa, 254.
4) b. v. 255 eptir S. B. S. 5) [b. v. 46.
6) [b. v. 46. 7) þ. e. Sjálands biskupi. 8) [sl. 255.

dóttur síra Jóns Erlendssonar í Villíngaholti og Steinvarar Íngimundardóttur; þeirra börn: Pètur og Gunnlaugur.

Síra Magnús Pètursson var prófastur eystra; hans fyrri kvinna var Margrèt, dóttir síra Einars Stephánssonar og Kristínar Grímsdóttur á Hörgslandi. Síra Magnús giptist aptur Sigríði, dóttur síra Sigurðar í Goðdölum í Skagafirði.

Guðrún Pètursdóttir átti fyrst Ólaf Markússon í Gilhaga. Þeirra börn: Markús, Þorbjörg. — Siðar átti hún síra Sigurð, son síra Jóns Bjarnasonar í Presthólum.

Íngibjörg Gunnarsdóttir giptist Ísleifi Þorbergssyni þeim ýngra á Hofi; áttu þau þrjú eður fjögur börn, en ekki komust til manns nema Guðfinna.

49. Solveig Gunnarsdóttir giptist fyrri síra Arngrími Jónssyni, Jóns sonar frá Auðunnarstöðum í Víðidal og Íngibjargar Loptsdóttur. Hún varð ekki gömul kona, og áttu þau ekki á lifi nema fjögur börn: Jón, Gunnar, Helgu, Kristínu[1]; hún dó úng. Solveig deyði 22. Juni anno 1627.

Jón Arngrímsson giptist fyrst Ólöfu, dóttur Jóns Sigurðssonar lögmanns á Reyninesstað og Þorbjargar Magnúsdóttur, og forlíkuðust illa, voru því skilin með dómi, propter impotentiam, að hún bar fram með eiði og hann meðkenndi; aptur giptist Jón Gunnhildi, dóttur síra *Ólafs* Jónssonar, síra Jóns Björnssonar syni og Guðrúnar Þórðardóttur frá Marðarnúpi. Jón bjó í Sælíngsdalstúngu, því hann fèkk þá jörð fyrir Stóru-Akra í Skagafirði af Eggert Jónssyni. Þeirra börn: Gunnar, Björn, Arngrímur, Solveig, Guðríður[2].

Gunnar Arngrímsson, giptist Íngibjörgu, dóttur Jóns Magnússonar og Ástríðar Gísladóttur; hann átti Sólheima í Blönduhlíð og var ekki árið útaf saman við Íngibjörgu, dó svo barnlaus, og erfði síra Arngrímur faðir hans hans góz, utan Holt í Fljótum L hundraða, það var tilgjöf hennar. — Laundóttur átti Gunnar Arngrímsson, Þuríði að nafni.

Helga Arngrímsdóttir giptist Birni bónda Magnússyni í Bæ á Rauðasandi, sýslumanni. Þeirra börn: síra Páll og Sigríður, [kvinna síra Þorleifs Jónssonar í Odda. Síra Páll, baccalaureus, vígðist 1645 til Selárdals á Vestfjörðum, giptist Helgu

1) um Kristínu eptir S. B. S. í 255.

2) nöfn barnanna eptir S. B. S. í 255.

Halldórsdóttur frá Skálholti[1]. — Helga Arngrímsdóttir giptist aptur, eptir Björn, síra þorbirni Einarssyni, fátækum sóknarpresti í Rauðasandsþíngum, er þeim þjónaði í xl ár; hann var ættaður úr Svarfaðardal, og hafði þènt herra Guðbrandi í hans síðustu veiki[2], og bjuggu í Kvígyndisdal; ekki áttu þau börn.

Guðrún Gunnarsdóttir var laungetin; giptist Halldóri Oddssyni Arnfinnssonar; sá Arnfinnur átti Guðrúnu, dóttur Steins Brandssonar.

Stephán Gunnarsson var laungetinn; hann sigldi og stúderaði utanlands og innan, varð skólameistari í Skálholti og giptist eptir það Guðrúnu, dóttur herra Gísla Jónssonar, eptir Gísla heitinn Sveinsson. Síðan varð Stephán Skálholts ráðsmaður lánga tíma, og bjó fyrst á Miðfelli í Ytrahrepp, en síðast í Oddgeirshólum.

50. Síra Sigurður, fjórði sonur biskups Jóns, hann hèlt Grenja(ðar)staði norður eptir síra Magnús bróður sinn af genginn. Hann var ekki samþykkur trúarbrögðum nè siðum föður síns og bræðra, heldur hafði hann þá lútversku trú, og var hvorki í ráðum nè dáðum, eður nokkrum tilgjörðum, að ofsækja þá kristnu með Jóni biskupi. Hann hafði siglt einusinni vegna föðurs síns fyrir kóng, og ásamt með Ísleifi á Grund, bónda þórunnar Jónsdóttur, svarið kóngi með knèfalli trúnaðareið, uppá hans religionem og ordinantiu. þá fèkk hann og kóngl. majest. beskermelsisbrèf, þar fyrir hèlt hann aldrei með föður sínum móti trúnni lútversku, eður kónginum. En sem biskup Jón var af tekinn, þá fór síra Sigurður til Hóla staðar, og var þar um veturinn svo sem officialis hjá móður sinni. þau sendu suður um vorið í Skálholt xxx menn, að grafa upp líkami þeirra feðga og flytja þá til Hóla. Eptir það var síra Sigurður Jónsson kosinn til biskups af flestöllum prestum í Norðlendínga fjórðúngi, og var það kosníngarbrèf innsiglað af xxiv prestum. En þá stríðsskipin komu fyrir norðan um sumarið, óttaðist síra Sigurður í fyrstu að gefa sig fram. þar með höfðu þeir Dönsku hatur og öfund á honum og biskups Jóns ættfólki og vildu ekki samþykkja þessa kosníng, uggandi, að síra Sigurður mundi falla aptur í sinna feðra sið. Sumir vildu þá hafa

1) [b. v. með síðari hendi í 255.
2) [b. v. eptir 251 á öðrum stað.

kosið til biskups prior Jón, sem þá hèlt Möðruvalla klaustur; hann var sonur Finnboga lögmanns; en síra Ólafur Hjaltason kom út á öðru stríðsskipinu, og var af kónginum skipaður til biskups á Hólum og settur inn í það embætti, annaðhvort það ár eður [hann hefir þá siglt eptir biskupsvígslunni og tekið við stólnum árinu seinna[1], og það hefir verið anno 1552, þó í Crymogæa[2] sè ekki getið herra Ólafs biskups fyr en anno 1553, og svo stendur í sumum annálum[3].

En eptir herra Ólafs afgáng, sem var anno 1570[4], var síra Sigurður Jónsson á Grenja(ðar)stöðum enn kosinn til biskups á Hólum, og það kosningarbrèf innsiglað af xxiv prestum. Var þá ekki par lagt til herra Guðbrands, sem þá var prestur á Breiðabólstað í Vesturhópi; en kgl. mayst. sendi eptir honum, hvort sem það hefir orðið anno 1570 eður 1571[5].

Kvinna síra Sigurðar Jónssonar var Setzelja, dóttir Pèturs Loptssonar og Sigríðar þorsteinsdóttur. þeirra börn Pètur og Halldóra; þau önduðust bæði barnlaus og ógipt, en voru þó komin til fulltíða aldurs hvort þeirra fyrir sig. Pètur fèll í þúngan kránkleika, sem var aðsókn og sinnuleysi, og úr því andaðist hann. Halldóra Sigurðardóttir systir hans andaðist úr sótt; hún var trúlofuð Jóni, syni Eggerts Hannessonar.

51. Síra Sigurður átti laundóttur, þuríði; hún giptist Magnúsi Árnasyni, syni Árna Pèturssonar, bróður Setzelju Pètursdóttur, og bjuggu þau í Stóradal í Eyjafirði. þeirra börn:

Árni, Pètur, þorsteinn, Björn, Guðrún, þrúða.

Síra Sigurður [hafði ættleidt sín dótturbörn[6]:

Árni Magnússon átti Sigríði Árnadóttur frá Hlíðarenda; hún átti Hraun í Ölvesi, xxx hundruð, x hundruð í Harlaugsstöðum,

---

1) [ári síðar, 255. 2) annálum, 255.

3) Í hyllingarbrèfinu frá Oddeyri 15. Juni 1551 stendur Ólafur Hjaltason fyrstur, og kallar sig „Byscob oc Superintendens wdi Hwole Stygt" (Geh. Arch. Island og Færöe Nr. 34). Konúngsbrèf sem setur Ólaf Hjaltason til superintendens í Hóla stipti er útgefið í Kaupmannahöfn sancti Galli confessoris dag (16. Oktober) 1551. Geheime-Archiv. Regist. paa alle Landene V, 536.

4) það er að skilja, að biskupskosning fór fram 1570; Ólafur Hjaltason dó 1569.

5) Guðbrandur biskup var boðaður utan til biskupsvígslu 1570.

6) [arfleiddi þessa sína dóttur þuríði, að hún skyldi taka jafnan hlut

Sámstaði xx hundruð, xl hundruð í Ey í Mýdal. — Hennar seinni maður var síra þorsteinn Illugason, norður í Múla í Aðaldal, og er þar öðrumegin [Solveig Grímsdóttir, Jón Einarsson son hennar, þá börn Jóns Einarssonar og Málfríðar Torfadóttur; en öðrumegin[1] Íngibjörg Grímsdóttir, hennar son Árni Gíslason, hans dóttir Sigríður. Börn Árna Magnússonar og Sigríðar Árnadóttur voru xij: þorleifur, Sigurður, þorsteinn, Halldórur tvær, þuríður, Kristín, Setzelja, Guðríður, Árni, þórunn, Guðrún.

þorleifur Árnason bjó í Ey í Mýdal austur, átti þar í xl hundraða; átti þuríði Stephánsdóttur [Gíslasonar frá Odda, og þorgerðar Oddsdóttur[2], systur síra Snæbjarnar. þeirra börn: Jón, Árni, Stephán, Guðrún, þorgerður, Guðríður. — [Guðrún giptist austur[3]. — þorgerður átti Einar á Núpstað. — [Guðríður giptist þórði, syni síra Jóns Magnússonar í Hólum undir Eyjafjöllum[4]. — Sigurður (Árnason) [átti Hraun xxx hundruð, og x hundruð í Harlaugsstöðum. Hann átti launson, sem hèt Eyjólfur; hann var húsmaður suður í Neshverfi. Sigurður átti[5] þórdísi, dóttur síra Bergsveins [Einarssonar og Guðrúnar Grímsdóttur. þau áttu eitt eða tvö börn[6]. þeirra börn komust ekki á fætur; erfði barnið föður sinn Sigurð, en þórdís barnið og giptist svo Torfa Erlendssyni. þeirra börn: [síra Sigurður, þormóður, Guðrún, Ása[7].

---

við Halldóru, skilgetna dóttur hans, og þá hann stóð í kirkjudyrunum, og hèlt á ættleiðíngarbókinni, gekk Halldóra dóttir hans út með reiðu bragði, og greip til bókarinnar, sem faðir hennar hèlt á, og sagði: „ei skal son ambáttarinnar taka arf með syni hinnar frjálsu". þá svaraði síra Sigurður: „Láttu svo vera, dóttir mín, þú fær nóg sem áður; guð veit hver nýtur", — og svo hèlt hann fram ættleiðslunni. En þuríður svaraði: „Guð eigi hana móður mína, hún valdi mèr svo góðan föðurinn"; — og svo fór hún að erfa bæði Pètur og Halldóru, 46. — Arfleiðslubrèf síra Sigurðar á Grenjaðarstöðum er til enn í afskriptum (skjalabækur síra Eyjólfs á Völlum í safni Bókmentafèl. 67. 4to. Nr. lxxviij, og í safni Magnúsar Stephensens, Nr. 60). það brèf er frá 1548 og skipar fyrir, að Pètur erfi tvöfalt við Halldóru, og Halldóra tvöfalt við þuríði. Mun því saga þessi vera smiðuð að nokkru leyti.

1) [b. v. 255. 2) [b. v. 255. 3) [b. v. 255.

4) [b. v. 255. 5) [b. v. 255. 6) [b. v. 255.

7) [b. v. 255 með nýjari hendi. — þormóður, sem hèr er nefndur, er hinn viðfrægi sagnaritari.

þorsteinn (Árnason) [var suður í Grindavík[1], átti dóttur síra Orms á Kálfatjörn Egilssonar, Guðrúnu, og Bergljótar Bjarnadóttur. þeirra börn: þorsteinn, Árni, Guðrún.

52. Halldóra yngri Árnadóttir [átti Skúmstaði í Landeyjum, xx hundruð; hún[2] giptist síra Páli Erasmussyni í Hólum. Hans faðir síra Erasmus var Vilhaðsson, á Breiðabólstað, officialis[3] (Vilhað útlenzkur). þeirra börn: síra Magnús, síra Erasmus, Helga, Guðlaug, Guðný, Katrín. — Síra Magnús hèlt Kálfholt; hans kvinna dóttir Magnúsar Guðmundssonar á Háfi. — Síra Erasmus á og Guðrúnu, dóttur Magnúsar Guðmundssonar í Háfi; hann hèlt Hóla. — [Helga Pálsdóttir, átti fyrst Torfa Eiríksson á Keldum, síðar síra Sigurð í Saurbæ norður[4]. — Guðlaug Pálsdóttir, kvinna síra Ketils Jörundssonar í Hvammi. þeirra börn: Páll, Guðrún, Halldóra. — Síra Páll Ketilsson í Hvammi giptist Elínu, dóttur Björns þorvaldssonar[5]. þeirra börn: Páll, Ketill. — Guðrún Ketilsdóttir, kvinna Magnúsar Jónssonar, Ormssonar. þeirra börn: Jón, Árni[6], Magnús. — Halldóra Ketilsdóttir. — Guðný Pálsdóttir giptist síra þórði Gvöndssyni á Kálfafellsstað[7].

53. Halldóra Árnadóttir sú eldri [á Svalbarði á Svalbarðsströnd[8] átti Ólaf, son síra Jóns Sigurðssonar í Laufási og Halldóru þorbergsdóttur; fèkk Hlýskóga xx hundruð. þeirra börn: Jónar tveir og Sigríðar tvær, Guðrún og þuríður. Ólafur bjó í Miklagarði. — Jón Ólafsson bjó í Skagafirði, í Gilhaga, á þorbjörgu, dóttur Ólafs Markússonar. — Jón Ólafsson annar á Guðrúnu, dóttur síra Sigurðar í Saurbæ, prófasts í Eyjafirði; [þau bjuggu síðar í Hraungerði í Flóa; þeirra börn mörg: Ólafur, Árni, Jón, Halldóra[9]. — Guðrún á Gunnlaug, son Egils

1) [b. v. 255. 2) [b. v. 255.

3) sem átti Helgu, dóttur herra Gísla Jónssonar, b. v. 255 neðanmáls, eptir S. B. S.

4) [sl. 255. 5) sjá bls. 368 að framan (cap. 33).

6) þessi Árni er Árni Magnússon, sem stofnað hefir hið mikla safn í Kaupmannahöfn.

7) Kálfafelli á Síðu, 255 neðanmáls eptir S. B. S., og er það rètt. Kálfafell á Síðu (í Fljótshverfi) er opt kallað Kálfafellsstaður, einsog hið eystra Kálfafell (í Fellshverfi eða í Hornafirði, eða í Suðursveit).

8) [b. v. 255. 9) [b. v. 255.

Jónssonar frá Skarði og Rannveigar Markúsdóttur; þau bjuggu í Miklagarði[1]. — Sigríður eldri giptist síra Jóni Guðmundssyni, sem var kirkjuprestur á Möðruvöllum í Eyjafirði. — Sigríður ýngri giptist síra Bjarna, syni Halls Bjarnasonar í Möðrufelli. — þuríður giptist síra Jóni Egilssyni, sem hèlt Velli[2] í Svarfaðardal.

þuríður Árnadóttir, kvinna Tuma Jónssonar.

Kristín Árnadóttir, hún átti síra Guðmund, son síra Bjarna Gamlasonar og þuríðar, og hèldu þau Grenjaðarstað; þeirra börn: þorlákur, þuríður, Magnús, Sigríður, þorsteinn. — [Ólöfu systur síra Gvöndar á síra Illugi í Húsavík, sonur Björns Magnússonar[3].

54. Setzelja Árnadóttir í Reykjadal átti Guðmund Jónsson á Laugum, son Jóns Illugasonar. Hún átti hálfa Grenivík. þeirra son síra Jón. — Síra Jón átti þórunni, dóttur Pèturs Magnússonar og Elenar Björnsdóttur; þau áttu engin börn eptir. Síðar giptist hún Jóni Árnasyni á Narfeyri.

Guðríður Árnadóttir bjó fyrir norðan, á Skriðu í Reykjadal; hún átti hálfa Grenivík, og keypti Magnús lögmaður. Hennar maður hèt Jón þorsteinsson, Illugasonar frá Múla. þeirra börn: Magnús, Árni, Jón, Steinunn, Málfríður[4].

Árni Árnason sigldi og lærði barskera embætti, hann hafði verið fyrir utan anno 1610 í fimm ár, giptist í Hamborg og átti þrjú börn. Hann seldi Páli Guðbrandssyni xl hundruð í Grýtubakka fyrir reiðugjald.

þórunn Árnadóttir átti þorleif, launson Jóns Sigurðssonar á Reyninesstað; hún fékk Hvamm í Höfðahverfi. þeirra börn: Árni, Kolbeinn, Sigurður, Helga, [Guðrúnar tvær og þuríður[5]. — [Kolbeinn átti Sigríði, dóttur Fúsa Ólafssonar frá Auðbrekku, launsonar Ólafs bónda Jónssonar[6].

Guðrún Árnadóttir átti síra Jón Einarsson, bróður herra Odds.

---

1) sbr. bls. 383 að framan (c. 45). 2) Vellni, 254.

3) b. v. 255; upphaflega hefir þar staðið „Sigríði", en „Ólöfu" sett fyrir ofan með nýjari hendi.

4) [b. v. 255 eptir S. B. S. 5) [þann. 255; Guðrún, 254.

6) [b. v. 255.

55. Pètur Magnússon í Vík á Svalbarðsströnd átti Elenu Björnsdóttur, dóttur síra Björns Gíslasonar og Málfríðar Torfadóttur. þeirra börn: þórunn, Elín, Setzelja, Agnes, Einar, Halldóra.

þórunn Pètursdóttir átti fyrst síra Jón Guðmundsson, og áttu ekki barn eptir; hann hèlt Laufásstað norður og varð sár; síðan átti hún Jón Árnason á Narfeyri. [þeirra börn: Jón, Halldóra, þuríður. — Jón Jónsson giptist Solveigu, dóttur síra Arngríms Jónssonar og Sigríðar Bjarnadóttur fra Melstað. þeirra börn: Jón, Guðrún. — Halldóra giptist Sigurði Runólfssyni frá Brennistöðum. — þuríður vanmeta ógipt[1].

Elín Pètursdóttir; hennar maður Árni Daðason á Stórahóli; þeirra börn: Daði, þorleifur, Magnús, Oddur, Jón.

Setzelja Pètursdóttir, hana átti síra Árni Teitsson á Hofi í Vatnsdal; [hann býr nú á Borg[2]. þeirra börn: Málfríður, þuríður, Jón[3].

Halldóra Pètursdóttir giptist Hallgrími, syni Guðmundar Hallgrímssonar; [þeirra dóttir Málfríður giptist Jóni, syni Halldórs lögmanns, dó barnlaus í bólunni[4].

Agnes Pètursdóttir giptist Jóni, syni Teits Björnssonar og þuríðar Erlendsdóttur; þeirra börn: Teitur, Sigurður, Björg[5].

Einar Pètursson átti Kristínu, dóttur síra Gísla Guðbrandssonar og Ráðhildar[6] Guðmundardóttur; þau bjuggu austur í Mýrdal. þeirra börn: síra Gísli á Helgafelli, Ráðhildur, Gróa.

56. þrúða Magnúsdóttir, systir Árna Magnússonar, giptist fyrst Einari, syni Gríms þorleifssonar og Guðbjargar Erlendsdóttur; þeirra börn: Grímur, Solveig, þórunn.

Grímur Einarsson í Teigi; hann taldi sèr eitt hundrað hundraða í jörðum og xx hundruð betur, með því sem móðir hans gaf honum, þar til tíutíu hundruð í lausafè, og bað margra ríkisstúlkna; en hann giptist Guðrúnu Torfadóttur frá Gilsbakka; þau áttu eitt barn og dó það úngt; faðirinn erfði

---

1) [sl. 255. 2) [b. v. 255.

3) sbr. bls. 373 að framan (c. 37). 4) [b. v. 255.

5) sbr. bls. 373 að framan (c. 37), þar er ekki talinn Teitur.

6) þannig 255, og 254 á öðrum stað, og var það ættarnafn um hríð; Ragnhildur, hèr, 254.

það. Grímur átti launbarn við Guðrúnu[1] Íngimundardóttur, sem hèt Íngimundur; hann ólst upp. á Strönd og Vogshúsum; hann giptist Úlfeiði[2], dóttur Vigfúsa Jónssonar á Bjarnastöðum í Selvogi og Gunnhildar Björnsdóttur Geirmundssonar; þeirra son Grímur; hann varð ársgamall og erfði Grím afa sinn, dó svo, og erfði þá Íngimundur XLV hundruð[3] í Strönd [og meir til fyrir norðan[4].

Solveig Einarsdóttir giptist Ólafi, syni síra Árna Gíslasonar í Holti, og Hólmfríðar Árnadóttur frá Hlíðarenda; var þeirra brullaup haldið í Holti 1607; báru prestar vaxljós undan brúðinni tvö kvöld. þeirra sonur Einar Ólafsson; hann giptist Ragneiði, dóttur Bjarna Sigurðssonar á Stokkseyri [og Sólvörar Ögmundardóttur[5]; bjuggu á jörðu sinni Gunnarsholti.

þórunn Einarsdóttir giptist Páli, syni Magnúsar Hjaltasonar og þórunnar Björnsdóttur. þeirra börn Hjalti og Björn í Teigi. — Hjalti átti hálfan Teig og bjó þar; hans fyrri kvinna var Dómhildur Ormsdóttir, [Fúsasonar frá Eyjum[6]. þeirra barn: þórunn. — Hjalti giptist aptur Elínu, dóttur Eiríks Sigvaldasonar frá Búlandi. þeirra börn: Páll, dó úngur. — Jón Hjaltason, lærði í Hólaskóla. — Dómhildur. — Björn í Teigi. — þrúða Magnúsdóttir giptist aptur Magnúsi Hjaltasyni í Teigi í Fljótshlíð.

57. þorsteinn Magnússon, sýslumaður og klausturhaldari fyrir austan, á þykkvabæ, skynsamur maður og veltalandi, einn af þeim fjórum, sem sigldu fyrir landsins gagn, þá taxtinn kom út anno 1619. — Hann giptist fyrst Guðríði Árnadóttur frá Holti undir Eyjafjöllum; þeirra börn: Magnús, Hákon, Einar; [þeir voru allir lögrèttumenn 1648[7]. — [Magnús þorsteinsson átti fyrst Guðrúnu Teitsdóttur Björnssonar[8]. Magnús giptist síðar Guðrúnu, dóttur síra Jóns Sigurðssonar og Kristínar Teitsdóttur. — Hákon þorsteinsson átti Ólöfu Teitsdóttur frá Gufudal, hún dó barnlaus. — Einar þorsteinsson átti Auðbjörgu Philippusdóttur Teitssonar; þeirra börn: Ólafur, Gunnar, þor-

1) Katrínu, 255, með nýjari hendi.
2) þórelfu, 255.
3) xiv hdr., 254.
4) [b. v. 255.
5) [b. v. 255.
6) [b. v. 255.
7) [eptir 254 á öðrum stað.
8) sbr. bls. 371, c. 37 að framan.

leifur[1]. — Önnur eiginkvinna þorsteins var Ásta Fúsadóttir Jónssonar á Kalastöðum, og Ragnhildar þórðardóttur lögmanns; hún giptist frá Steindóri Gíslasyni á Kneri anno 1614, en andaðist af barnsför barnlaus. — Seinasta kvinna þorsteins var Vigdís, dóttir síra Ólafs á Söndum vestur; hún var fyrst ráðskona hans; [þeirra son Árni[2].

58. Björn Magnússon á Laxamýri átti Guðríði, dóttur síra þorsteins Illugasonar frá Múla stað; þeirra börn: [Illugi, Magnús, Sigurður, Jónar þrír, Árni, Setselja[3], Steinunn, Málfríður[4].

Síra Illugi Björnsson í Húsavík, átti Sigríði[5], dóttur síra Bjarna Gamlasonar á Grenjaðarstað og þuríðar; þeirra börn mörg. — Síra Magnús Björnsson, var þingaprestur í Miðdölum, dó barnlaus. — Sigurður Björnsson, skólagenginn, var lengi djákni á Múkaþverá; henti það slys, að hann átti barn við böðuls konu, og fékk því ekki vígslu. — [Sigurður hafði viljað eiga þorlaugu Einarsdóttur; hann kom til Hèðinshöfða um haustið 1618, á þeim dögum eptir það þórður Hinriksson hafði keypt þorlaugu, en þau riðu albúin á suðurleið, mætti Sigurður og reiddi konu sína frá Húsavíkur kirkju bænadag: en hann bjó í Túngu á Tjörnesi; og í því bili fèll hestur undir þórði við jarðfall nokkurt, svo þórður hraut úr bryggjusöðli af Brún sínum, og kom niður á fótum, gekk til Sigurðar og rètti honum lófa sinn fyrir utan koss og handaband, svo sem í kveðju minning fáorða, steig síðan á hest og reið sína leið; en sveinn þorlaugar, Hannes Árnason, dvaldi eptir um stund, má ske að ríða á kveðjuna litlu brennivíni[6]. — Sigurður giptist Steinvöru,

---

1) þann. 251 á einum stað; en á öðrum stað Philippus.

2) [b. v. 255.

3) [b. v. 46.

4) [þessi börn eru nefnd í 251 og 255, en í 46 eru þar að auki talin: Halldór, þorlákur, Málfríður (önnur), tvær Guðrúnar, Svanhildur, laungetin, og Ástný (Ásný). — Guðnýju nefnir 251 (og 255 með nýjari hendi). Halldóra, sem 255 nefnir, mun vera misnefnd fyrir Halldór.

5) Ólöfu, yfir línunni með nýjari hendi 255.

6) [á innfestum seðli í 255 eptir Sira H. B. S., og bætir hann því við: „þá var eg (ɔ: Sira H. B. S.) ístaðsdrengur þórðar í þeirri ferð, xvij vetra.

dóttur síra Magnúsar Ólafssonar [í Laufási[1] og Agnesar Eiríksdóttur frá Kúlu. — þeirra son: Magnús, [sem síðar fèkk Kvíabekk[2].

Jón [eldri Björnsson, bjó á þverá í Laxárdal, giptist Sigríði Grímólfsdóttur; þeirra börn: Björn, Málfríður, Margrét, Guðríður. — Jón yngri Björnsson, bjó á jörðu sinni Túngu á Tjörnesi, giptist aldrei, átti einn launson, og annan Illuga; dóu barnlausir. — Jón þriði Björnsson dó barnlaus af nasablóði. — Árni Björnsson, bjó í Haga í Reykjadal, giptist þóru, dóttur Bergþórs Sæmundssonar Kárssonar úr Skagafirði; þeirra börn: Jón, Bergþór, Ólafur, Björn, Björg, Sigríður, Kirstín, Guðríður, Ragneiður[3].

Setzelja Björnsdóttir giptist þorleifi bónda Magnússyni á Hlíðarenda, og var hans síðari kvinna. þeirra börn: þorsteinn, Gróa. — [þorsteinn þorleifsson skólagenginn og vel framaður innan og utanlands, giptist Elenu, dóttur herra þorláks biskups Skúlasonar og Kristínar Gísladóttur. — Gróa þorleifsdóttir, fyrsta húsfrú herra Gísla þorlákssonar; sálaðist barnlaus 1660; hún var ljómi og ljós í húsi, var og maklega sárlega syrgð á Hólum af meiri sem minni mönnum[4].

Steinunn Björnsdóttir átti Ólaf Hannesson í Bár; áttu fjölda barna.

Málfríður Björnsdóttir, kvinna síra Guðmundar Guðmundssonar og Sigríðar Jónsdóttur. þeirra börn: Gísli, Magnús, tveir Jónar, Guðmundur, Solveig, Guðrún, Sigríður[5].

Guðný (Björnsdóttir).

59. [6]Guðmundur nokkur, er sig sagt hafði launson síra Sigurðar, biskups Jóns sonar, kom að norðan til Vestfjarða í tíð Eggerts sáluga Hannessonar, með tvö sín nokkuð vaxin börn, Ólaf og Helgu; hafði sagt sig þaðan farið hafa, að

---

1) [b. v. 46. 2) [255 eptir síra H. B. S.

3) [eptir 46; 254 er hèr ókunnug ættinni, og hefir einúngis: „Jón annar Björnsson átti launbarn við (vantar nafnið) .. — Árni Björnsson. — Jón annar Björnsson átti þóru, dóttur Bergþórs Sæmundssonar og Bjargar Skúladóttur; þeirra börn" . . . (ekki talin). — Kona Árna er því hèr gefin Jóni, og svo hefir líka 255.

4) [sl. 255. 5) börnin eru talin eptir 46.

6) þessi kafli (cap. 59) er ekki í 255.

mistri sinni konu, fyrir harðinda skuld, að eptir skildum jarðarparti.

Ólafur Gvöndsson giptist Arnfríði . . .[1] bjó í Raknadal í Patreksfirði á dögum Magnúsar sálnga Jónssonar, í Bæ var. Þeirra börn: Ásbjörn, Guðrún, Þóra; en tveir piltar Ólafs drukknuðu út af Patreksfirði, dóu barnlaus(ir).

Ásbjörn giptist fyrst Guðrúnu Ólafsdóttur, voru ei lengi saman. Þeirra dóttir Helga, hún fór austur annaðhvort með Katrínu eður Ragneiði Magnúsdóttur frá Sauðlaugsdal, þá þær giptust, og hefir sagt verið, að sú Helga Ásbjörnsdóttir hafi gipzt á Suðurnes. — Ásbjörn giptist aptur Ragnhildi Ólafsdóttur, sunnan úr Þverfjörðum; hennar systir var Gunnhildur Ólafsdóttir, föðurmóðir síra Bjarna Bjarnasonar á Læk. Börn Ásbjarnar og Ragnhildar þessi: [Ólafur, Ólafur yngri, Guðrún eldri, Guðrún yngri, Arnfríður[2].

Ólafur Ásbjörnsson, giptist norður í Skagafirði Höllu Jónsdóttur, er áður hafði átt Pétur bókbindara Engilbriktsson, Gamlasonar, af ætt herra Guðbrands biskups. Ólafur og Halla fóru til Vestfjarða, og bjuggu í Rauðasands sveit, lengst á Lambavatni og Látrum; síðan voru þau fyrir búi herra Eggerts Björnssonar í Bæ um ij ár, og bjuggu þar síðan xvj ár, þar til Ólafur andaðist, 1662. — Þeirra börn, sem á fætur komust, tveir Jónar. — Jón eldri giptist Guðrúnu Þorláksdóttur [Bjarnasonar, Halldórssonar, bróður Gizurar biskups Einarssonar[3]. — Jón yngri[4] prestvígðist, giptist Ragneiði Þorláksdóttur.

Ólafur yngri Ásbjörnsson misti sjón í stóru bólunni, sjö eður átta vetra, giptist, átti einn son, Þorfinn, búanda í Breiðavík.

Guðrún eldri Ásbjörnsdóttir giptist Greipi, launsyni Einars Bjarnasonar, Björns sonar prests, biskups Jóns sonar; þeirra börn örsnauð og voluð, lifir ei nema eitt, Þorbjörg Greipsdóttir.

Guðrún yngri Ásbjörnsdóttir átti Guðmund Jónsson; þeirra

1) eyða í 254 fyrir föðurnafninu.

2) [börnin talin eptir því sem þau eru nefnd hèr á eptir.

3) þetta frá [er talið nákvæmar í ættbálki Gizurar biskups Einarssonar.

4) þessi er síra Jón á Lambavatni, prestur í Rauðasands þingum 1669—1703, sem hefir samið ættartölubókina.

börn: Guðmundur Guðmundsson, búandi á Látrum, og nokkrar dætur um Rauðasands hrepp, giptar.

Arnfríður Ásbjörnsdóttir giptist suður í Fjörður Alexíus Magnússyni í Gröf í þorskafirði, vel megandi; eiga tvær dætur: Ragnhildur, Guðrún.

Ásbjörn giptist í þriðja sinn Guðrúnu þorsteinsdóttur. þeirra dóttir Ragnhildur, giptist suður í Króksfjörð Guðmundi Bjarnasyni; hann átti hálfan Bæ í Króksfirði. þeirra börn: Jón, þórunn, Guðrún. þau fóru öll suður til föðurbróður síns, síra Guðmundar í Laugardælum, er faðir þeirra andaðist. *Satis* hèr um.

60. Helga Jónsdóttir, fimta barn biskups Jóns; hún giptist austur, Eyjólfi Einarssyni í Dal, anno 1540, taldi hann sèr vj hundruð hundraða; gaf hann henni fjórðúngsgjöf, ef hún lifði sèr lengur, og LX hundruð í tilgjöf. Hans faðir var Einar lögmaður[1], hvers hustrú að var Hólmfríður, dóttir Erlends Erlendssonar lögmanns[2]. En Eyjólfur Einarsson í Dal var lögmaður 1490 fyrir sunnan og austan, en Finnbogi Jónsson fyrir norðan og vestan.

Börn Eyjólfs og Helgu voru mörg, xiij eður XIV:

Einar, Eiríkur, Magnús, Ísleifur,
Anna, önnur Anna, Hólmfríður.

Item launsonur Eyjólfs: þorsteinn.

Einar Eyjólfsson í Dal, giptist Vilborgu, dóttur Bjarna Erlendssonar á Ketilstöðum. þau áttu ekki börn saman; hann drukknaði í Fljótinu[3].

Magnús Eyjólfsson giptist aldrei; hans dóttir var Steinunn í Steinsholti, kona síra Eiríks Stephánssonar.

Ísleifur Eyjólfsson ógiptur; hann reið úr Höfn[4] og tjaldaði hjá Krýsivík, og drakk, svo hann var dauður um morguninn; hann átti einn son, sem hèt Jón.

Eiríkur Eyjólfsson bjó í Múla í Fljótshlíð, og átti Ólöfu

1) rèttara: Einar, sonur Eyjólfs lögmanns Einarssonar í Dal (Stóradal), sem var með að dæma Píníngsdóm.

2) Erlendur Erlendsson á Kolbeinstöðum var aldrei lögmaður sjálfur, en synir hans og bræður Hólmfríðar voru lögmenn.

3) þ. e. í Markarfljóti. 4) þ. e. þorlákshöfn.

Nikulásdóttur; þeirra börn: Magnús, Eyjólfur, Íngibjörg. — Magnús Eiríksson á Kirkjulæk í Fljótshlíð, og eignaðist Kristinu, dóttur síra Árna Gíslasonar og Hólmfríðar Árnadóttur í Holti; þeirra sonur Fúsi, sem átti Jórunni, dóttur Guðmundar Vigfússonar frá Mófellsstöðum og Guðrúnar Hannesdóttur. Þeirra börn mörg[1]. — Eyjólfur Eiríksson á Múla, hans kvinna Þórdís, dóttir Eyjólfs Halldórssonar í Saurbæ og Solveigar Árnadóttur. [Þeirra son Jón[2]. — Íngibjörg Eiríksdóttir í Bæ, kvinna síra Odds Stephánssonar. Þeirra börn: síra Sigurður, síra Vigfús, Nikulás, Þorgerður. — Síra Sigurður Oddsson, vel lærður maður, [hélt Arnarbæli í Ölvesi og átti Brynhildi, dóttur Ara Magnússonar, bróður Erlends Magnússonar, og Ragneiðar Hemíngsdóttur; þeirra börn: Páll, Íngibjörg, Stephán, dó úngur. — Síra Vigfús Oddsson, hélt Bæjar stað í Flóa eptir föður sinn; hans kvinna var Katrín, dóttir síra Gísla Bjarnasonar í Grindavík og Guðrúnar Pálsdóttur; þeirra börn: Bjarni, Arnór, Oddur, Íngibjörg. — Nikulás Oddsson, aðkvæðalaus maður, bjó í Holtum; hans kvinna Guðrún, dóttir Arnórs Jónssonar í Öndverðarnesi og Helgu Gvöndardóttur frá Bæ; þeirra börn engin. — Þorgerður Oddsdóttir; hana á Jón Arnórsson, son Arnórs[3] í Öndverðarnesi; þau búa í Háfholti í Hreppum. Þeirra börn: Arnór, Oddur, Guðmundur, Íngibjörg.

61. Anna Eyjólfsdóttir í Stóradal var önnur kvinna Fúsa Þorsteinssonar; þeirra börn: Þorsteinn, Jón, Þorbjörg. — Þorsteinn drukknaði á Hamborgarelfi í híngaðsiglíngu, þá hann hafði fengið brèf að koma stóra skattinum á Ísland. — Jón Fúsason átti þrjár konur: sú fyrsta var Íngibjörg, dóttir síra Björns Gíslasonar og Málfríðar Torfadóttur; þeirra börn: Helga, Þórunn, Hólmfríður. — Önnur kvinna Jóns Fúsasonar var Kristín, dóttir Þorvarðs Þórólfssonar á Reykjum. Jón Fúsason átti stórar eignir, og hafði Þíngeyjarsýslu; hann bjó seinast á Galtalæk og andaðist þar anno 1610 eptir dagsetur á föstudaginn næstan eptir[4] Maríumessu síðari, í faðmi móður sinnar, Önnu

1) b. v. 255. 2) [b. v. 255.

3) Arnór þessi hefir verið kallaður Laga-Nóri, b. v. 254.

4) þann. 254; fyrir, 255, 46.

Eyjólfsdóttur, og átti þá eptir þrjár dætur á lífi; ein var xj vetra, önnur xiv vetra, þriðja xv vetra; hann átti sjálfur xxxij jarðir alls, en þessar hans stúlkur[1] vj jarðir í sinn móðurarf; summa xxxviij jarðir, sem hann hafði sjálfur meðferðis, og allt lausafè að auki. Um þann sama tíma kom norðan að smjör á átta hestum, hákall á fimm, fiskur á þremur hestum, alls borið á xvj hestum eður xvij, með vaðmáli, dölum og öðru; item fé, eitt hundrað og xx rekið norðan að, og þessu gegndi hann öllu fyrir sitt andlát. Dætur Jóns Vigfússonar voru þessar og þeirra bændur: þórunn, Hólmfríður, Helga.

þórunn Jónsdóttir, af sumum nefnd ríka þórunn, giptist fyrst Sigurði ýngra, syni herra Odds Einarssonar og Helgu Jónsdóttur; þeirra dóttir Hólmfríður, sem giptist síra Jóni Arasyni, prófasti yfir Vestfjörðum; þau sátu í Vatnsfirði. þeirra börn: Magnús, Guðbrandur, Sigurður, Oddur, Ari, Helga, Ragneiðar tvær og Anna.

[Magnús Jónsson fèkk Ögur og Vigur; hans kvinna Ástríður, dóttir síra Jóns Jónssonar í Holti og Halldóru Jónsdóttur. — Síra Guðbrandur Jónsson, hèlt Vatnsfjarðar stað eptir föður sinn; hans kvinna Elen, dóttir Hákonar Gísla sonar lögmanns, frá Bræðratúngu, og Helgu Magnús dóttur lögmanns Björnssonar. — Síra Sigurður Jónsson fèkk Holts stað í Önundarfirði; hans kvinna Helga, dóttir síra Páls Björnssonar og Helgu Halldórsdóttur. — Oddur Jónsson, giptist fyrir austan á Keldum 1672 Guðlaugu, dóttur Guðmundar Torfa sonar Eiríkssonar[2] og Valgerðar Halldórsdóttur lögmanns; Oddur fèkk þareptir Reynistaðar klaustur og var Hóla ráðsmaður. — Ari Jónsson. — Helga Jónsdóttir giptist Teiti Torfasyni, og átti ekkert barn við honum. — Ragneiður Jónsdóttir eldri (heitir eptir Ragneiði Pálsdóttur), giptist Torfa Jónssyni frá Flatey. — Ragneiður Jónsdóttir ýngri (heitin eptir Ragneiði Eggertsdóttur), giptist herra Gísla biskupi þorlákssyni og var hans þriðja kvinna[3]. — Anna Jónsdóttir.

Síðan giptist þórunn Jónsdóttir Magnúsi bónda Arasyni sýslumanni, er sat á Reykhólum, þau voru saman xiv ár eður þar um; varð þórunn svo ekkja og fór norður. þeirra börn: Jón, Sigurður, Guðbrandur, Ragneiður, Helga.

[Jón Magnússon erfði Reykhóla eptir föður sinn og hafði

1) dætur, 255. 2) þann. 251. 3) [sl. 255.

Stranda sýslu; hann átti Jórunni, dóttur Magnúsar Björnssonar lögmanns frá Múkaþverá og Guðrúnar Gísladóttur. þeirra börn: Magnús, Páll, Elín[1], Ragneiður.

Hólmfríður Jónsdóttir giptist síra Sigurði eldra, syni herra Odds og Helgu, og andaðist hún barnlaus í bólunni; hún gaf síra Sigurði manni sínum Háeyri, xvj hundraða jörð á Eyrarbakka, í sína fjórðúngsgjöf, áður en hún andaðist.

Helga Jónsdóttir giptist Árna, syni herra Odds Einarssonar og Helgu Jónsdóttur; hún andaðist og í bólunni barnlaus á sama ári, en gaf bónda sínum Máná og Valadal á Tjörnesi. — þórunn Jónsdóttir erfði báðar þessar sínar systur, svo hún átti þegar hún giptist Magnúsi bónda Arasyni . . .[2]

62. þorbjörg Vigfúsdóttir giptist Hákoni bónda, syni Árna Gíslasonar á Hlíðarenda og Guðrúnar Sæmundardóttur; þau bjuggu á Reyni í Dal, og síðan í Klofa á Landi; þeirra börn: Gísli lögmaður, Einar og Bjarni.

Gísli Hákonarson varð lögmaður sunnan og austan anno 1614, deyði 1631; hans kvinna var Margrèt Jónsdóttir; þeirra börn: Hákon, Vigfús, Kristín, Valgerður; þórður og Jarðþrúður önduð úng. — Hákon Gíslason giptist Helgu, dóttur Magnúsar lögmanns Björnssonar; Helga Magnúsdóttir andaðist í Bræðratúngu 4. Nov. 1677.

Vigfús Gíslason; hans kvinna Katrín Erlendsdóttir, Ásmundssonar, þorleifs Pálssonar lögmanns launsonar; Vigfus hafði Rángárvalla sýslu og sat að Stórólfshvoli. þeirra börn: Gísli, Jónar tveir, þorbjörg, Salvör. — Gísli Vigfússon sigldi og framaði sig vel, fèkk meistara titil; var nokkur ár skólameistari á Hólum; giptist síðan Guðríði, dóttur síra Gunnars Björnssonar; áttu eitt barn. — Jón Vigfússon eldri sigldi einnig, fèkk Árness sýslu og giptist Helgu, dóttur þorláks Arasonar og Málfríðar Gísladóttur; hann sat að Stórólfshvoli eptir föður sinn. — Jón ýngri Vigfússon sigldi ogsvo, fèkk Borgarfjarðarsýslu, og hèlt henni eigi lengi; giptist Guðríði, dóttur síra þórðar í Hítardal, og Helgu Árna dóttur lögmanns Odds biskups sonar, sigldi síðan aptur og fèkk gradum Magisterii, og Vice-

---

1) [b. v. 255.

2) vantar í, en eyðulaust, hversu miklar eignirnar voru.

biskupsdæmi til Hólastiptis, eptir herra Gísla þorláksson; sat á Leirá. — þorbjörg Vigfúsdóttir; hennar maður Gísli Sigurðsson, Odds sonar biskups, frá Stafholti. — Salvör Vigfúsdóttir; hennar maður síra Sæmundur Oddsson, prestur í Hítardal.

Kristín Gísladóttir, ektakvinna herra þorláks Skúlasonar Hólabiskups.

Valgerður Gísladóttir, ektakvinna Eggerts Björnssonar á Skarði. þeirra börn: Guðrúnar tvær, Arnfríður, Helgur tvær, lifa; Daði, Gísli, Björn, Vigfús, Elín, Ragneiður, þorbjörg, Sigríðar tvær, önduð, alls xiv.

þorsteinn Eyjólfsson, launsonur Eyjólfs í Dal, hann átti xvij eður xviij börn; af þeim komust þessi á legg: Gunnar þorsteinsson, austur í Landeyjum, í Miðey. — Anna þorsteinsdóttir, kvinna Erlends heitins Magnússonar á Stóruvöllum. þeirra börn: Steinunn Erlendsdóttir, dó ógipt. — Anna Erlendsdóttir, kvinna Jóns Einarssonar austur á Skriðuklaustri, giptist 1608. — Guðný Erlendsdóttir, kvinna Bjarna Jónssonar á Sólheimum; [þeirra son: Erlendur Bjarnason í Sauðholti. — Torfi Erlendsson[1].

63. þÓRUNN JÓNSDÓTTIR, kölluð hustrú þórunn, sjötta barn biskups Jóns; hún giptist xiv vetra Rafni lögmanni Brandssyni. þau áttu eitt barn saman, sumir segja tvö, og átti að heita Ísleifur, er sagt, en hvorki var það svarið né satt gjört, að það hafi hlotið skírn og kristni. þessi Rafn[2] var veginn heima[3] í Glaumbæ 1529 af sínum eigin þénara, svo þau voru ekki saman utan tvö ár, og var þórunn ekkja xvij vetra gömul. Bræður Rafns lögmanns voru Árni Brandsson og Snjólfur bóndi Brandsson; því kallaði Eiríkur heitinn Árnason til arfs eptir Rafn föðurbróður sinn á alþingi í tíð Jóhanns Buccholts, en náði engu, og stendur svo enn í dag; lètust ei vita hver umboðsmaður þórunnar væri, og villtu svo sókn[4] fyrir Eiríki. Hustrú þórunn auðgaðist af bændum sínum, því hún fèkk Hof á Höfðaströnd, tiutíu hundraða, eptir Rafn lögmann, en eptir Ísleif fèkk hún Grund, tvenn lxxx hundruð. þórunn giptist aptur Ísleifi, syni Sigurðar Finnboga sonar lögmanns og hustrú Mar-

1) [b. v. 255. 2) bóndi, b. v. 255.
3) heim (= heima), 254. 4) sóknum, 255.

grètar ýngri á Eyðum. þegar Ísleifur gekk að eiga þórunni Jónsdóttur, þá átti hann alla Grund í Eyjafirði. Tók hann landfarsótt á miðvikudaginn fyrir skirdag, en andaðist annan í páskum og settur niður fjórða dag. Hann gaf þórunni hálfa Grund, að því þeir segja, en seldi henni hálfa, og voru þau saman Ísleifur og hún xxij ár, og áttu ekkert barn.

Vísa[1]: Í Eyjafirði uppá Grund,
á þann garðinn friða,
þar hefir bóndinn búið um stund,
sem barn[2] kann ekki að smíða.

[Nú dragast[3] erfíngjarnir um hálfa Grund við þórunni; systir Ísleifs og þeirra börn kölluðu þar til: Íngibjörg, amma Bjarna Sigurðssonar, og hennar niðjar fyrir sinn part; þó hafði hún látið fallerast einusinni eður tvisvar.

Í þriðja sinni giptist þórunn þorsteini, syni Guðmundar Andrèssonar og þrúðu þorleifsdóttur, vestan undan Felli í Kollafirði, og voru þau saman xvij ár að sagt er, dó [hann] svo barnlaus. —

Rafn minn var höfðíngsmaður mestur, sagði þórunn,
Ísleifur skartsmaður mestur,
en þorsteinn minn heimsmaður mestur.

þorsteinn var fyrst sveinn á Hólum, hjá biskup Jóni Arasyni; [meina eg um það leyti hafi það verið[4], að Rafn lögmaður var veginn, og eptir það, því þórunn fèkk orð af honum. þorsteinn var lèttleikamaður mikill, og er mál manna, að Ari bisk-

1) Eittsinn þá gleði var haldin á Grund í Eyjafirði, þá gekk bóndinn Ísleifur með öðru gleðifólki til vikivaka; en hustrú þórunn hafði undir lagt við stúlkuna, sem með honum gekk, að hún skyldi þetta eptir skrifað erindi uppá Isleif kveða:

Í Eyjafirði uppá Grund,
á þann garðinn friða,
hefir bóndinn búið um stund,
sem börn kann ekki að smíða.

þá svaraði Ísleifur við konu sína þórunni: „Kristur kann bezt börnin að smíða, kona mín!" — Fáleiki var millum Ísleifs og þórunnar, meðan samvista var auðið, 46.

2) börn, 255. 3) [eptir það drógust, 255.

4) [um það leyti, 255.

upsson hafi haft grunsemd á honum, svo þorsteinn var hræddur um sig og sitt líf, og forðaði sèr. Seinast, er Ari fann þau bæði á eintali, og þorsteinn var búinn til ferðar í burtu, hafði Ari sýnt sig í við þorstein; flúði hann þá á kirkjuna og komst uppá bitann, og hljóp bita af bita þar til hann komst í stöpulinn, og þaðan á hest, hvern abbadís Solveig hafði sent heim[1] á laun, og komst svo með hennar tilstilli vestur til föður síns; síðan giptist þórunn [að eg meina[2] Ísleifi, en þorsteini eptir dauða þeirra feðga.

64. ÞURÍÐUR JÓNSDÓTTIR[3], biskups Jóns sjöunda barn, hún var systir í klaustri á Reyninesstað og lèt þar fallerast, [meintu menn, hún hafði[4] og áður látið fallerast og hafði[5] því gengið í klaustrið.

---

1) hm̃ (honum 46), 255, 46. 2) [sl. 255.

3) Í 255 er bætt við eptirfylgjandi athugagrein með nýjari hendi: „þetta er misskrifað, því biskup Jón Arason átti ekki þessa Þuríði fyrir dóttur, og ekki vituast að hún hafi á Reynistað verið, *vide* vísur Ólafs Tumássonar, hvar börn biskups Jóns eru sex nefnd, en fleiri ekki". — En ættatölubókin 46 skýrir svo frá um Þuríði: „Þuríður, laungetin dóttir biskups Jóns, var sett til nunnu til Reynistaðar klausturs. Henni fèll eigi nunnustèttin, vildi heldur vera sjálfrar sinnar ráðandi; vildi Solveig abbadís ekki hafa hana í systra tölunni, en biskup Jón vildi hún væri, og þessvegna flúði Þuríður vestur til Skarðs, til Þorleifs Pálssonar; var það óvildar efni biskups Jóns og Þorleifs, svo biskup sendi um síðir til Skarðs, að taka Þorleif, þó ei tækist, sem lesa má í annálum".

4) [meintu menn hún hafi, 255. 5) hefir, 255.

# Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

I.

Jón Arason biskup á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Ari Jónsson lögmaður (§ 22—30)[1] ⌣ Halldóra Þorleifsdóttir.
† 1550. † 1518.

Helga Aradóttir (§ 23—24) ⌣ Páll Jónsson á Staðarhóli
(Staðarhóls-Páll) † 1598.

Ragneiður Pálsdóttir † 1636 (§ 24. 30)[2] ⌣ 1. Gizur Þorláksson á Núpi.
2. Sveinn Símonarson pr.
í Holti í Önundarfirði † 1644.

Brynjólfur Sveinsson biskup í Skálholti ⌣ Margrèt Halldórsdóttir
† 1675 (§ 30). † 1670.

Halldór Brynjólfsson † 1666 á Englandi (§ 30).
Ragnheiður Brynjólfsdóttir † 1663 (§ 30).
Sveinn Brynjólfsson.

---

1) Systkin Ara lögmanns Jónssonar (§ 22—30):
Björn Jónsson, pr. á Melstað (§ 31—46), sjá IV—VII.
Magnús Jónsson, pr. á Grenjaðarstað (§ 47—49), sjá VIII.
Sigurður Jónsson, pr. á Grenjaðarstað (50—59), sjá IX.
Helga Jónsdóttir í Stóradal (§ 60—62), sjá X.
Þórunn Jónsdóttir á Grund í Eyjafirði (§ 63).
Þuríður Jónsdóttir (§ 64).

2) systkin Ragnheiðar Pálsdóttur (§ 24. 30).
Pètur Pálsson á Staðarhóli (§ 25).
Elín Pálsdóttir á Múnkaþverá (§ 26), sjá II. III.

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

II.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Ari Jónsson lögmaður (§ 22—30) ⌣ Halldóra þorleifsdóttir.

Helga Aradóttir (§ 23—24) ⌣ Páll Jónsson á Staðarhóli (Staðarhóls-Páll).

Elín Pálsdóttir † 1638 (§ 26) ⌣ Björn Benediktsson á Múnkaþverá † 1617.

Sigríður Björnsdóttir (§ 29) † 1633. ⌣ Páll Guðbrandsson á þíngeyrum. † 1621.

þorlákur Pálsson í Víðidalstúngu (§ 29) † 1657. ⌣ Kristín Jóns dóttir lögmanns frá Reynistað.

Jón þorláksson í Víðidalstúngu (§ 29) ⌣ Hildur Arngrímsdóttir.

[Páll Jónsson Vídalín lögmaður † 1727 ⌣ þorbjörg Magnúsdóttir.

Jón Pálsson Vídalín, conrector á Hólum † 1726. ⌣ Helga Steinsdóttir biskups.

Jón Jónsson Vídalín, pr. í Laufási † 1767. ⌣ Sigríður Magnúsdóttir (systir Skúla fóveta) † 1767.

Geir Jónsson Vídalín, biskup yfir Íslandi f. 27/10 1761. † 20/9 1823. ⌣ Sigríður Halldórsdóttir Finnssonar biskups].

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

III.[1]

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Ari Jónsson lögmaður (§ 22—30) ⌣ Halldóra Þorleifsdóttir.

Helga Aradóttir (§ 23—24) ⌣ Páll Jónsson á Staðarhóli.

Elín Pálsdóttir (§ 26) ⌣ Björn Benediktsson á Múnkaþverá.

Sigríður Björnsdóttir (§ 29) ⌣ Páll Guðbrandsson á Þíngeyrum.

Þorlákur Pálsson í Víðidalstúngu (§ 29) ⌣ Kristín Jónsdóttir.

Jón Þorláksson í Víðidalstúngu (§ 29) ⌣ Hildur Arngrímsdóttir.

[Sigríður Jónsdóttir ⌣ síra Magnús Magnússon[2] í Hvammi í Hvammssveit (1692 † 1720).

Ástríður Magnúsdóttir ⌣ síra Þórarinn Jónsson í Hjarðarholti (1731—1752).

Árni Þórarinsson, biskup á Hólum ⌣ Steinunn Arnórsdóttir].
† 1787.

---

1) samanbr. ættartöflu II.

2) bróðir Árna Magnússonar (§ 52).

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

### IV.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Björn Jónsson pr. á Melstað (§ 31—46) ∾ Steinunn Jónsdóttir.

Jón Björnsson á Grund † 1613 (§ 31)[1] ⌣ Guðrún Árnadóttir frá Hlíðarenda.

Helga Jónsdóttir (§ 31)[2] ⌣ Oddur biskup Einarsson í Skálholti † 1630.

Gísli Oddsson[3], biskup í Skálholti (§ 31) ⌣ Guðrún Björnsdóttir (§ 29). † 1638.

---

1) systkin Jóns Björnssonar á Holtastöðum, síðan á Grund (§ 31).
Teitur Björnsson á Holtastöðum † 1619 (§ 37).
Magnús Björnsson á Hofi á Höfðaströnd (§ 38—40).
Árni Björnsson á Sauðafelli (§ 41).
Bjarni Björnsson á Brjámslæk (§ 42. 43), sjá VI.
Ragneiður Björnsdóttir í Hèraðsdal (§ 44. 45).
Halldóra Björnsdóttir á Skriðu í Hörgárdal (§ 46), sjá VII.

2) systkin frú Helgu Jónsdóttur í Skálholti (§ 31):
Halldóra Jónsdóttir eldri, á Grund (§ 32).
Halldóra Jónsdóttir ýngri, í Auðbrekku (§ 33).
Þóra Jónsdóttir á Kirkjubóli í Lángadal (§ 34), sjá V.
Kristín Jónsdóttir á Eyrarlandi (§ 35).
Guðríður Jónsdóttir í Hvammi í Hvammssveit (§ 36).
Rannveig Jónsdóttir á Háeyri (§ 36).

3) Sigurður Odds son biskups átti Þórunni ríku Jónsdóttur; þeirra dóttir Hólmfríður, er átti síra Jón Arason í Vatnsfirði; þeirra son Oddur Jónsson klausturhaldari á Reynistað; hans dóttir Guðrún, er átti síra Magnús Markússon á Grenjaðarstað; þeirra son Gísli biskup Magnússon á Hólum † 1779 (sbr. töflu IX).

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

### V.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Björn Jónsson pr. á Melstað (§ 31—46) ∾ Steinunn Jónsdóttir.

Jón Björnsson á Grund (§ 31)[1] ⌣ Guðrún Árnadóttir.

Þóra Jónsdóttir (§ 34) ⌣ síra Snæbjörn Torfason á Kirkjubóli í Lángadal (fyrir 1590).

Torfi Snæbjarnarson pr. á Kirkjubóli (§ 34) ⌣ Helga Guðmundardóttir.
† 1668.

Páll Torfason á Kirkjubóli, sýslumaður í Ísafjarðar sýslu † 1720 (§ 34). ⌣ Gróa Markús dóttir Snæbjarnarsonar frá Ási.

[Teitur Pálsson pr. á Eyri í Skutulsfirði 1707 † 1728. ⌣ Ragneiður Sigurðardóttir f. 1683 † 1758.

Jón Teitsson, biskup á Hólum f. $^{6}/_{8}$ 1716 † $^{16}/_{11}$ 1781. ⌣ 1) Halldóra Sigurðardóttir 1736 † 1753.
2) Margrèt Finns dóttir biskups].

1) samanbr. töflu IV.

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

VI.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

|

Björn Jónsson pr. á Melstað (§ 31—46)[1] ∾ Steinunn Jónsdóttir.

|

Bjarni Björnsson á Brjámslæk (§ 42. 43) ◡ Setzelja Eggertsdóttir.

|

Þórunn Bjarnadóttir (§ 42) ◡ Loptur Árnason í Sælíngsdal[2].

|

Árni Loptsson pr. í Aðalvík (§ 42) ◡ Álfeiður Sigmundardóttir.

|

[Jón Árnason biskup í Skálholti ◡ Guðrún Einars dóttir,
1722—1743. biskups á Hólum].

---

1) samanbr. töflu IV.

2) föðurætt Lopts Árnasonar í Sælíngsdal er í beinan karllegg frá Lopt Guttormssyni hinum ríka á Möðruvöllum, þannig:

Loptur hinn ríki ∾ Kristín Oddsdóttir.

|

Ormur Loptsson ◡ Solveig Þorleifsdóttir.

|

Loptur Ormsson ∾ Steinunn Gunnarsdóttir.

|

Pétur Loptsson ◡ Sigríður Þorsteinsdóttir frá Reyni.

|

Loptur Pétursson prestur í Vesturhópshólum.

|

Árni Loptsson í Sælíngsdalstúngu ◡ Helga Guðmundardóttir
frá Hvoli (sjá bls. 286).

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

VII.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Björn Jónsson pr. á Melstað (§ 31—46) ∾ Steinunn Jónsdóttir.

Halldóra Björnsdóttir (§ 46)[1] ◡ Bjarni Pálsson á Skriðu.

Bergljót Bjarnadóttir (§ 46) ◡ Sigurður Jónsson pr. í Goðdölum † 1662.

Steinunn Sigurðardóttir (§ 46) ◡ Rafn Jónsson lögréttumaður í Skagafirði (1645 † 1663).

[Stephán Rafnsson ◡ Guðrún Þorláksdóttir frá Merkigili.

Hjálmur Stephánsson á Keldulandi ◡ Helga Guðmundardóttir.

Sigríður Hjálmsdóttir ◡ Steingrímur Jónsson á Þverá.

Helga Steingrímsdóttir ◡ Jón Jónsson pr. í Holti † 1813.

Steingrímur Jónsson biskup yfir Íslandi ◡ Valgerður Jónsdóttir].
(f. 1769 † 1815)

1) samanbr. töfluna IV.

# Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

## VIII.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Magnús Jónsson pr. á Grenjaðarstað (§ 47—49) ∾ Kristín Vigfúsdóttir lögmanns.
† 1534.

Guðrún Magnúsdóttir (§ 47) ◡ Gunnar Gíslason á Ökrum í Skagafirði.
† 1627.

Solveig Gunnarsdóttir (§ 47. 49)[1] ◡ Arngrímur Jónsson lærði, officialis.
† 1648.

[Helga Arngrímsdóttir ◡ Björn Magnússon í Bæ á Rauðasandi sýslumaður í Barðastrandar sýslu † 1635.

Sigríður Björnsdóttir[2] ◡ Þorleifur Jónsson pr. í Odda † 1690.

Björn Þorleifsson, biskup á Hólum ◡ Þrúður Þorsteinsdóttir].
† 1710.

---

1) systkin Solveigar Gunnarsdóttur á Melstað (§ 47. 49):
Björn Gunnarsson á Bustarfelli (§ 47).
Gísli Gunnarsson (§ 47).
Páll Gunnarsson (§ 47).
Pètur Gunnarsson (§ 48).
Ingibjörg Gunnarsdóttir (§ 48).

2) bróðir Sigríðar Björnsdóttur var síra Páll Björnsson í Selárdal († 1706) § 32. 49; dóttur hans Helgu átti síra Sigurður Jónsson í Holti í Önundarfirði († 1713); þeirra dóttir Ragnheiður, kona síra Teits Pálssonar á Eyri í Skutulsfirði; þeirra son Jón biskup Teitsson á Hólum (samanbr. töflu V).

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

IX.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

|

Sigurður Jónsson pr. á Grenjaðarstað 1535—1595 (§ 50—59).

|

Þuríður Sigurðardóttir (§ 51)[1] ◡ Magnús Árnason í Stóradal í Eyjafirði.

|

Árni Magnússon á Grýtubakka (§ 51)[2] ◡ Sigríður Árnadóttir.

|

Guðríður Árnadóttir (§ 51—51)[3] ◡ Jón Þorsteinsson í Skriðu.

|

Steinunn Jónsdóttir (§ 51) ◡ [Geir Markússon pr. á Helgastöðum † 1665.

|

Markús Geirsson pr. í Laufási † 1682 ◡ Elín Jónsdóttir frá Laufási.

|

Magnús Markússon[4] pr. á Grenjaðarstað † 1733 ◡ Guðrún Oddsdóttir.

|

Gísli Magnússon biskup á Hólum † 1779 ◡ Íngibjörg Sigurðardóttir].

1) Guðmundur Sigurðarson (§ 59).

2) systkin Árna Magnússonar á Grýtubakka (§ 51): Pètur Magnússon í Vík á Svalbarðsströnd (§ 55). Þorsteinn Magnússon sýslumaður í Skaptafells sýslu (§ 57). Björn Magnússon á Laxamýri (§ 58). Guðrún Magnúsdóttir (§ 51). Þrúða Magnúsdóttir (§ 56).

3) systkin Guðríðar Árnadóttur í Skriðu (§ 51—54). Þorleifur Árnason í Ey í Mýrdal (§ 51). Sigurður Árnason (§ 51). Þorsteinn Árnason (§ 51). Halldóra ýngri Árnadóttir í Hrepphólum § 52). Halldóra eldri Árnadóttir í Miklagarði (§ 53). Þuríður Árnadóttir (§ 53). Kristín Árnadóttir (§ 53). Setzelja Árnadóttir (§ 54). Árni Árnason (§ 54). Þórunn Árnadóttir (§ 54). Guðrún Árnadóttir (§ 54).

4) systir síra Magnúsar á Grenjaðarstað var Kristín Markúsdóttir; hana átti Sigurður á Geitaskarði, Einars son biskups á Hólum; þeirra dóttir Sigríður, seinni kona síra Stephâns Ólafssonar á Höskuldsstöðum; þeirra son Sigurður Stephánsson, seinasti biskup á Hólum † 1798.

## Ættkvísl Jóns biskups Arasonar og barna hans.

X.

Jón biskup Arason á Hólum ∾ Helga Sigurðardóttir.

Helga Jónsdóttir í Stóradal (§ 60—62) ⌣ Eyjólfur Einarsson.

Anna Eyjólfsdóttir (§ 60—61)[1] ⌣ Vigfús Þorsteinsson sýslumaður í Þíngeyjar sýslu fyrir 1602.

Þorbjörg Vigfúsdóttir † 1631 (§ 62) ⌣ Hákon Árnason í Klofa, sýslumaður í Árnes sýslu † 1608.

Gísli Hákonarson lögmaður † 1631 (§ 62) ⌣ Margrèt Jónsdóttir.

Vigfús Gíslason á Hvoli † 1647 (§ 62)[2] ⌣ Katrín Erlendsdóttir.
sýslumaður í Rángárvalla sýslu.

Jón Vigfússon biskup á Hólum (§ 62) ⌣ Guðríður Þórðardóttir.
sjá ættkvísl Ögmundar biskups og systkina hans
I, bls. 302.

1) systkin Önnu Eyjólfsdóttur (§ 61): Einar Eyjólfsson í Dal (§ 60). Magnús Eyjólfsson (§ 60). Ísleifur Eyjólfsson (§ 60). Eiríkur Eyjólfsson í Múla (§ 60). Þorsteinn Eyjólfsson laungetinn (§ 62).

2) systir Vigfúsar Gíslasonar var Kristín Gísladóttir; hana átti Þorlákur Skúlason, biskup á Hólum; þeirra synir: Gísli Þorláksson, biskup á Hólum († 1684), og Þórður Þorláksson (Thorlacius), biskup í Skálholti († 1697); samanbr. Ættkvísl Ögmundar biskups II.; bls. 303 hèr að framan.

III.

# ÆTTBÁLKUR JÓNS BISKUPS ARASONAR

FRAM Í ÆTT.

A[1].

## Þessi er ættbogi biskups Jóns, uppeptir að telja:

1. Móðir biskups Jóns var Elín Magnúsdóttir; bróðir hennar var Einar ábóti á Múkaþverá, en systir þeirra Þórunn.
2. Móðir Elínar var Orný skerkerlíng.
3. Faðir Ornýjar var Brandur.
4. Faðir Brands var Eiríkur.
5. Faðir Eiríks var Einar.
6. Faðir Einars var Guðmundur hinn dýri.
7. Faðir Guðmunds var Þorvaldur auð(g)i.
8. Faðir Þorvalds var Ketill fljóti [r. Guðmundur].
9. Faðir Ketils [Guðmundar] var Guðmundur.
10. Faðir Guðmundar var Hjalti (Eyjólfur halti?).
11. Faðir Hjalta var Guðmundur hinn ríki.
12. Faðir Guðmunds var Eyjúlfur.
13. Faðir Eyjúlfs var Einar.
14. Faðir Einars var Guðunn rotinn.
15. Faðir Auðunnar var Þórólfur smjör.
16. Faðir Þórólfs var Þorsteinn skrefa (skrofa).
17. Faðir Þorsteins var Grímur kamban.

Móðir Guðmundar ríka var (12) Hallbera, dóttir (13) Þórodds hjálms.

Móðir Hallberu hèt Reginleif (13), dóttir (14) Sæmundar hins suðureyska; við hann er kend Sæmundarhlíð í Skagafirði.

Móðir (12) Eyjólfs, föður Guðmundar ríka (en kvinna Einars Auðunnarsonar) var (13) Valgerður Örnólfsdóttir[2]; hennar

---

1) eptir ættatölubókinni Nr. 254 Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 53. — Ættin upp frá Guðmundi ríka er talin hèr mjög líkt og í Njálu (1772) kap. 114.

2) Runólfsdóttir, Landnb. III, 16 (eptir Melabók) og Njála.

móðir (14) Vilborg; hennar móðir (15) Úlfrún hin óborna, dóttir (16) Ósvalds hins helga[1].

Móðir Einars, föður Eyjólfs var (14) Helga, dóttir (15) Helga hins magra, er nam Eyjafjörð.

Helgi hinn magri var son Eyvindar austmanns (16) og (16) Rauförtu, dóttur (17) Kjarvals Íra kóngs.

Móðir Helgu, dóttur Helga hins magra, var (15) þórunn hyrna, dóttir Ketils flatnefs (16) sonar (17) Bjarnar bunu (18) Grímssonar hersis úr Sogni.

Móðir Gríms var (19) Hervör, en hennar móðir var (20) þorgerður, dóttir [Háloga (21) kóngs af Hálogalandi[2].

Kvinna Guðmundar ríka hèt (11) þorlaug, dóttir (12) Atla[3] hins ramma, (13) [Eyjólfssonar, (14) Arnarsonar, (15) Bárðarsonar, (16) Járnketilssonar, (17) Refskiðasonar hins gamla[4].

Móðir þorlaugar hèt (12) Herdís, dóttir (13) Höfða-þórðar, (14) Bjarnar sonar byrðusmjörs, (15) [Hróalds sonar, (16) Hrollaugssonar hryggs[5], (17) Bjarnar sonar járnsíðu, (18) Ragnars sonar loðbrók(ar), (19) Sigurðar sonar hríngs, (20) Randvers sonar, (21) Ráðbjartssonar.

Móðir Herdísar (12) hèt (13) Friðgerður, dóttir (14) Kjarvals Íra kóngs.

Sonur Brands, lángafa Jóns biskups, var Magnús Svalbarði. Börn Magnúsar: 1) Arnfríður, kvinna þorsteins lögmanns á Víðimýri; þeirra dóttir Kristín, kvinna Helga lögmanns á Ökrum; — 2) Solveig, kvinna Sigurðar lögmanns 1376; þeirra son Guðni.

---

1) Vilborg Ósvalds dóttir konúngs og Úlfrúnar hinnar óbornu, dóttur Játmundar Engla konúngs, var kona þórðar skeggja landnámamanns, Landnb. I, 10; IV, 7.

2) [Eylaugs konúngs eða Eylaugs hersis úr Sogni, Landnb. I, 10.

3) þann. Landnb. III, 6; Ara, 254 (rángt).

4) [á að lesa svo, eptir Landnb. III, 6: Eilífs sonar arnar, (14) Skíða sonar ens gamla, (15) Bárðar sonar í Ál. þó er að sjá, sem ættartalan í 251 gæti verið komin frá handriti fornu, sem hefði haft ættina svo: „Eilífs sonar arnar, Bárðar sonar í Ál, Ketils sonar refs, Skíða sonar ens gamla".

5) [Hróalds sonar hryggs, Landnb.; Hróaldss. hr., Ásleikssonar, Hauksb. og Melab.

B[1].

## Ættartala frá Adam til Sigurðar á Grenjaðarstöðum.

1. Adam skapaði guð fyrst allra.
2. Hans son Set.
3. Hans son Enos.
4. Hans son Cainan.
5. Hans son Maleleel.
6. Hans son Jared.
7. Hans son Enoc.
8. Hans son Matusalem hinn gamli.

---

1) eptir skinnbókinni Nr. IX í 4to í de la Gardies safni í bókasafni háskólans í Uppsölum, bls. 177 (hönd frá hérumbil 1580—90). — Sama ættartalan kemur fyrir í ymsum afskriptum og stundum hætt við nokkrum liðum til ymsra: a) í bók frá hérumbil 1683 meðal handrita Magnúsar Stephensens Nr. 58 í 4to, taldir 86 liðir og engum við bætt. — b) í safni Árna Magnússonar Nr. 1 G í Fol.: „ættartala frá Adam til biskups Jóns Arasonar og hans afsprengis", taldir 89 liðir til Brynjólfs biskups Sveinssonar í Skálholti, rituð með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti. — c) í pappírshandriti í Árna Magnússonar safni Nr. 167 í 8vo.: „Ættartala frá Adam", 92 liðir til síra Gísla Bjarnasonar á Melum († 1771). — d) í safni Rasks Nr. 52 í 4to, bls. 113—114; fyrirsögnin er „Ættartala" og nær til síra Magnúsar Snæbjarnarsonar á Söndum (1736—1783) og Þorkötlu dóttur hans; bókin er með hendi síra Magnúsar sjálfs að mestu. — e) tvær ættartölur eru til á Latínu, bygðar á sama grundvelli, byrjar önnur á Óðni, og nær til Vigfúsar sýslumanns Gíslasonar (í safni Árna Magnússonar Nr. 1 G Fol., bls. 7—8); en önnur byrjar á Adam og nær til Jóns Vigfússonar yngra, sonar Vigfúsar sýslumanns, sem varð síðan biskup á Hólum; ættartala þessi er samin af Brynjólfi Sveinssyni, biskupi í Skálholti, hérumbil 1666, þegar Jón var stúdent í Kaupmannahöfn, og er nú í konúngs stóra bókasafni Nr. 3115 í 4to. (sbr. Nr. 1 í Folio í safni Árna Magnússonar). Þessar tvær ættartölur telja liðina frá Óðni til Hálfdanar snjalla í móðurætt Hálfdanar frá Sigurlama, en ekki í föðurætt hans frá Skildi.

Þess er að geta, að ættartala þessi er prentuð áður í ritgjörð Harboes um siðaskiptin á Íslandi, í ritum hins danska vísindafélags (Vidensk. Selsk. Skrift. V, 221—222), og segir hann að Jón Arason muni hafi samið hana sjálfur, eptir hans ætlun líklega í fordildar skyni; en síra Jón Halldórsson í Hítardal segir hana eignaða Ara lögmanni og því samsinnir Finnur biskup (Hist. Eccl. Isl. II, 645 athgr. e); hvorttveggja er tóm ágizkan. Í handritasafni Finns Magnússonar í Oxford (Bodleyan library), Nr. 58 í 4to og 98 í 8vo, eru taldar tvær ættartölur Jóns biskups, er önnur þeirra frá Sigurði Fafnisbana, en önnur sýnist vera sú sama eða áþekk þeim, sem hér voru nefndar undir staflið e.

9. Hans son Lamech[1].
10. Hans son Noe, [er örkina smíðaði[2].
11. Hans son Japhet.
12. Hans son Jafni[3].
13. Hans son Jotun[4].
14. Hans son Ciprus.
15. Hans son Cretus eða Denus[5].
16. Hans son Saturnus í Krít.
17. Hans son Jupiter.
18. Hans son Darius[6].
19. Hans son Oritonius[7].
20. Hans son Troas[8].
21. Hans son Ilus.
22. Hans son Hundan[9].
23. Hans son Priamus höfuðkonúngur.
Munnan eða Mennon hèt konúngur í Troio, hann átti dóttur Priami konúngs, er hèt
24. Troana.
25. Hennar son hèt Tror, er vèr köllum Þór.
26. Hans son Lorika er vèr köllum Hlóriða.
27. Hans son Eredia, er vèr köllum Indriða.
28. Hans son Vingeþór.
29. Hans son Vingener.
30. Hans son Modan.
31. Hans son Magi, er vèr köllum Magna.
32. Hans son Sesep.
33. Hans son Bedius[10].
34. Hans son Atra.
35. Hans son Trinan.
36. Hans son Heremot, er vèr köllum Hermóð.
37. Hans son Skjalldun, er vèr köllum Skjöld.
38. Hans son Beaf, er vèr köllum Beor.
39. Hans son Goðelfur.
40. Hans son Birta, er vèr köllum Finn.
41. Hans son Fjalafur eða Börkur.
42. Hans son Voden, er vèr köllum Óðinn, hann var Tyrkja konúngur.
43. Hans son Skjöldur[11].
44. Hans son Friðleifur.

1) þá var úti fyrsta öld, b. v. c. 2) [arkarsmiður, c.
3) Jafne eður Javan, b. 4) Jothum, b.
5) hans son Chelys, b. v. d; Chetus eða Telius, c. 6) Dardanus, d.
7) Erichous, d; þ. e. Erichthonius. 8) Ereas, d.
9) Hundaan, b; Laomedon, d. 10) þ. e. annarstaðar Beduig.
11) í staðinn fyrir þenna lið, og nokkra hèr á eptir (43—58), er talið svo í ættartölunum e:

Sigurlami, Rússa konúngur.
Svafurlami, Rússa konúngur.
Eyvör kona Arngríms í Bólmi.
Ángantýr berserkur.
Hervör er átti Höfund konúng á Glæsisvöllum.
Heiðrekur konúngur í Gotlandi.
Ángantýr konúngur.
Heiðrekur konúngur úlfhamur.
Hildur er átti Haraldur hinn gamli Danakonúngur.
Hálfdan snjalli o. s. frv.

45. Hans son Friðfróði.
46. Hans son Herleifur.
47. Hans son Hávarr hinn handrammi.
48. Hans son Fróði.
49. Hans son Vermundur hinn vitri.
50. Hans dóttir Óluf.
51. Hennar son Fróði hinn friðsami.
52. Hans son Friðleifur.
53. Hans son Fróði hinn frækni.
54. Hans son Hálfdan.
55. Hans son Hrói.
56. Hans son Valdar hinn mildi.
57. Hans son Haraldur hinn gamli.
58. Hans son Hálfdan snjalli.
59. Hans son Ívar víðfaðmi.
60. Hans dóttir Auður hin djúpauðga.
61. Hennar son Randver.
62. Hans son Sigurður hríngur.
63. Hans son Ragnar loðbrók.
64. Hans son Björn járnsíða.
65. Hans son Ásleikur.
66. Hans son Hróaldur hryggur.
67. Hans son Björn byrðusmjör.
68. Hans son Höfða-Þórður. Hann nam Höfða á Höfðaströnd, því hann var landnámamaður á Íslandi þá það bygðist.
69. Hans dóttir Herdís.
70. Hennar dóttir Þorlaug[1].
71. Hennar son Eyjólfur halti á Möðruvöllum.
72. [Hans son Guðmundur[2].
73. Hans dóttir Þuríður.
74. Hennar son Þorvaldur hinn auðgi.
75. Hans son Guðmundur hinn dýri.
76. Hans son Einar.
77. Hans son Eirekur.
78. Hans son Brandur.
79. Hans dóttir Oddný[3].
80. Hennar son Steindór.

---

1) kona Guðmundar hins ríka á Möðruvöllum, b. v. d. 2) [slepp. d.

3) Frá Brandi Eirikssyni er talið:

a) til Vigfúsar Erlendssonar lögmanns á Hlíðarenda:

Magnús á Svalbarði [bróðir Oddnýjar].
Eirikur riki.
Sophia.
Loptur ríki Guttormsson.
Þorvarður Loptsson.
Erlendur Þorvarðsson [rètt. Guðriður Þorvarðsdóttir, kona Erlendar á Kolbeinstöðum].
Vigfús Erlendsson.

b) til Benedikts rıka Halldórssonar á Möðruvöllum:

Magnús Svalbarði [bróðir Oddnýjar].
Eiríkur ríki.
Sophia.
Loptur riki Guttormsson.
Þorvarður Loptsson.
dóttir Þorvarðs Loptssonar (Íngibjörg, kona Páls Brandssonar á Möðruvöllum).
Grímur (Pálsson á Möðruvöllum).
Benedikt.
síra Halldór.
Benedikt riki († 1605).

81. Hans dóttir Oddný, skerkelling kölluð.
82. Hennar dóttir Elín. [Hennar son Einar ábóti á Múkaþverá].
83. Dóttir Elínar Þóra[1], systir ábóta Einars.
84. Hennar dóttir Elín.
85. Hennar son biskup Jón Arason.
86. Hans son síra Sigurður á Grenjaðarstöðum.
87. Hans dóttir Þuríður.
88. Hennar son Árni.
89. Hans son Þorleifur[2].

---

1) brók, b. v. d.

2) Þrír liðirnir seinustu eru ritaðir með annari hendi eða tveimur (87 með einni, 88 og 89 með annari). Þeir eru taldir í ættbálkinum hèr fyrir framan § 51, bls. 389—390 (Þuríður — Árni Magnússon á Grýtubakka — Þorleifur Árnason á Ey í Mýrdal).

Í b er svo talin ætt Brynjólfs biskups frá Jóni biskupi Arasyni:

LXXXV. Jón biskup Arason.
LXXXVI. hans son Ari Jónsson lögmaður.
LXXXVII. hans dóttir Helga.
LXXXVIII. hennar dóttir Ragneiður Pálsdóttir.
LXXXIX. hennar son M. Brynjólfur Sveinsson, biskup í Skálholti, sbr. § 22—24. 30, bls. 358—360. 361—365.

Í c er svo talin ætt síra Gísla á Melum frá Jóni Arasyni:

85. Jón biskup Arason.
86. hans son Björn prestur.
87. hans son Jón.
88. hans dóttir Helga í Skálholti.
89. hennar son Árni lögmaður.
90. hans son Sigurður [lögrèttumaður † 1690].
91. hans son Bjarni [á Heynesi, lögrèttumaður].
92. hans son Gísli [prófastur og prestur á Melum í Borgarfirði, prestur 60 ár. † 1771].

sbr. § 31, bls. 366.

Í d er talin ættin þannig til Þorkötlu Magnúsdóttur frá Jóni Arasyni:

Jón biskup Arason.
hans son Björn prestur.
hans son Jón.
hans dóttir Helga í Skálholti [kona Odds biskups Einarssonar].
hennar son Sigurður Oddsson [eldri † 1617].
hans dóttir Hólmfríður [kona síra Jóns Arasonar í Vatnsfirði. † 1680].
hennar son Magnús [Jónsson í Ögri † 1702].
hans dóttir Kristín [kona Snæbjarnar Pálssonar † 1712].
hennar son Magnús [Snæbjarnarson, prestur og prófastur á Söndum í Dýrafirði † 1783].
hans dóttir Þorkatla [kona síra Jóns Ásgeirssonar í Holti í Önundarfirði † 1810].

Í e eru þannig taldir liðirnir frá Jóni biskupi Arasyni til Jóns biskups Vigfússonar:

85. Jón Arason biskup á Hólum.
86. Helga [kona Eyjólfs í Stóradal].
87. Anna Eyjólfsdóttir [kona Vigfúsar Þorsteinssonar].
88. Þorbjörg [Vigfúsdóttir, kona Hákonar Árnasonar].
89. Gísli lögmaður Hákonarson.
90. Vigfús Gíslason sýslumaður í Árnes sýslu o. s. frv.
91. Jón Vigfússon stúdent í Kaupmannahöfn [1661, síðan biskup á Hólum].

sbr. § 62, bls. 401—402.

IV.

# SÖGUBROT OG SMÁÞÆTTIR UM JÓN ARASON,

BISKUP Á HÓLUM.

---

1.

## [1]Fragmentum historiæ Johannis Arii Episcopi Holensis.

Natus est hic Jonas in Islandia honestis parentibus, etsi tenuioris fortunæ. Matrem habuit Helenam, neptem Eineri abbatis ex sorore, ut apparet ex ejus familiæ genealogia. Hæc Helena vixit in parentum domo in sua virginitate ad annum quadragesimum plus minus, nec quicquid aliud constat de ejus educatione, quam quod honeste semper vixerit.

Porro circumfertur narratio de somnio illius quodam, quod ajunt eam vidisse aliquanto tempore antequam daretur nuptum. Sensit enim per somnum se in utero concepisse et gestare uterum, atque vermem vel serpentem parere, eundemque postea tanquam infantulum manibus palpare et gremio proprio fovere, præsertim quum sibi videretur minime esse terribilis, sed quasi

---

## Sögubrot um Jón Arason, biskup á Hólum.

Jón þessi er borinn og barnfæddur á Íslandi; foreldrar hans voru sæmdar hjón, en auðmenn engir. Móðir hans hèt Elín, og var systurdóttir Einars ábóta, sem sjá má á ættartölu þeirra frænda. Elín þessi var heimasæta hjá foreldrum sínum fram undir eða fram um fertugt; vita menn eigi annað af uppvexti hennar, en það, að hún hafði ávallt lifað heiðarlega.

Svo er sagt, að hana hafi draum dreymt[2] skömmu áður en hún giptist: hafi hún þókzt verða barns hafandi og gjörast þúnguð, og ala orm eða naður; þá þóttist hún fara höndum um hann, sem barn væri, og leggja hann í kjöltu sèr, því engi

---

1) eptir pappírshandriti í safni Árna Magnússonar, Nr. 236 í 4to, bls. 265—267, með hendi frá tímum Odds biskups Einarssonar (um 1600).

2) um annan draum Elínar sjá sögubrotið 7. í þessum flokki.

vitreo quodam colore et plano ac molli sed lubrico tergo. Quumque tali somnio occuparetur, sensit se audire quendam dicentem: huic serpenti destinatum et paratum esse nidulum[1] sub interiori choro in cathedrali templo Holensi. Hoc audito, illa expergefacta est. Et quum majorem in modum isto somnio esset perturbata, narravit matri suæ omnem visionem. Quæ præsagio quodam mentis divinabat, somnium istud non esse adeo mali ominis, ut illa existimaret, se enim arbitrari aliquando eum virum ex filia nasciturum, qui res ecclesiæ Holensis administraret, aut saltem caput Holensis [ecclesiæ] in aliquo dignitatis esset loco.

Postea data est Ario cuidam, viro bono et simplici laico, in matrimonium, qui pater fuit hujus Jonæ.

De istis conjugibus nihil lectu dignum aut memorabile extat, erant enim propter paupertatem obscuriores. Exempli tamen gratia visum est hic inserere hanc sequentem narratiunculam:

---

stóð henni ógn af honum; þótti henni glerlitur vera á honum, og slèttur á bakið að finna, og mjúkur og háll; og í drauminum þá var sem hún heyrði einhvern segja: „þessum ormi er fyrirhugað og búið hreysi undir innra kórnum í dómkirkjunni á Hólum". — Þá er hún hafði heyrt þetta vaknaði hún. Þessi draumur fèkk henni mikillar áhyggju, og sagði hún móður sinni allt það, sem fyrir hana hafði borið. Móðir hennar sagði sèr helzt í hug að spá því, að þetta vissi eigi til jafn ills og hún hygði, heldur væri það hyggja sín, að dóttir sín mundi einhvern tíma eignast son, sem fá mundi umsjá yfir Hóla kirkju eignum, eða að minnsta kosti komast í eitthvert tignarsæti á Hólum og verða höfuð fyrir Hóla kirkju.

Síðan var hún gipt Ara nokkrum, góðum dreng en slèttum leikmanni; sá var faðir Jóns þessa.

Um hjón þessi gánga engar sögur, þær er merkar sè, eða hafandi í minnum; gætti þeirra lítið, er þau voru snauð að fè. Þó má hèr setja til dæmis eina sögu, sem eptir fylgir:

---

1) hreysi, utanmáls með sömu hendi.

Arius pater hujus Jonæ erat vir oeconomicis laboribus admodum sedulus ac industrius, uxor vero otii et quietis magis amans, quæ singulis diebus quievit in multam lucem, quod quum alias tum vero tempore æstivo non erat familiæ et domui frugiferum. Quodam igitur die, quum paterfamilias suo more opus urgeret, et quum primus cubitu resurgeret, omnesque domesticos ad operas consuetas evocaret, remansit Helena suo more in lecto, neglectis mariti inclamationibus. Ipse igitur solito impatientior, quum bis terve eam frustra excitasset et ad opus vocasset, tandem correptis scopis bene grandibus uxorem excitavit, serio illam diverberans et flagellans pro suo arbitrio, spretis ejus miseræ supplicibus precibus et pollicitationibus emendationis; et ita castigatam stragulis, quæ in lecto erant, involvit, manibusque ac pedibus ligatam reliquit. Egressus igitur ancillæ primariæ dixit, matremfamilias imperare, ut continuo ad se veniat, is autem suo more alia agere perrexit, quasi nihil rei domi esset actum. Ancilla vero, hera visa et rebus ex omnibus circumstantiis satis intellectis, misera-

---

[1]þessi Ari, faðir biskups Jóns, var góðsinnaður og hóglyndur, en þó verksvalamaður mikill og þrifinn, en Elen var stórsinnuð og ráðrík, og ekki árvökur næsta, því hún hafði haft nokkuð sjálfræði hjá foreldrunum, og aktaði hún Ara lengi nokkuð lítils hjá sèr. En það bar til einn tíma á nokkru sumri, að gott heyveður var og Ari hnepti hnúum til heyskapar eptir vanda; en Elen gaf sig ekki að búsins nauðsynjum, heldur lá og dormaði í rúmi sínu, svo sem hún var vön, svo hvorki stóð hún upp að vinna búverk nè annað gagn að gjöra. Gekk þá Ari til hennar optar en einusinni, og bað hana að leggja af þessa ómennsku og þjóna búinu, en óþrifast ekki. En hún sætti því ekki. Svipar þá manninum um síðir, svo þessi góði Ari tekur sèr stóran vönd og strýkir af kellu húðina, og lèt hana svo liggja eptir, utan hann steypti yfir hana fati hennar og batt á henni bæði hendur og fætur, og sagði, hún mætti

---

1) saga þessi er í handritinu fyrst á Íslenzku, svo sem hèr stendur, og síðan á Latínu, einsog fyrir ofan, hvorttveggja með sömu hendi.

biliter primum lacrymari, deinde consolari eam cœpit. Helena autem confessa est, se vel gravioribus plagis fuisse dignam, nimis se abusam viri lenitate et indulgentia, posthac daturam operam, ne sua culpa ita sæpius vapulet. Ita docuit illud sangvinis balneum hanc matronam industriam et obedientiam et alias virtutes.

2.

### [1]Fragmentum historiæ Johannis Arii episcopi Holensis.

His inquam parentibus natus est. Porro de educatione ejus non satis constat, quamdiu apud parentes latitaret, et ubi potissimum rudimenta literarum perceperit, apud illosne, an apud alios, nullæ enim tunc temporis hic erant Latinæ linguæ scholæ, sed parentes vel a monachis vel ab aliis sacrificulis aut a quibusvis aliis peritioribus impetrabant, ut pueros docerent saltem Islandicam legere et scribere, quod sane tunc non minoris

---

nú liggja og sofa í náðum, gekk síðan til heyverka sinna, en skipaði ráðskonu heim til Elenar, og sagði hún hefði kallað á hana. En sem hún sá og formerkti, hvernig leikar höfðu með þeim farið, stumraði hún fyrst yfir sinni matmóður og aumkaði sig yfir henni af sinni kvennprýði, og gekk síðan vel á milli, svo þetta forlíkaðist, og var Elen eptir það hin ágætasta.

### Brot af sögu um Jón Arason biskup á Hólum.

Þessir voru foreldrar Jóns, sem fyr sagða eg frá. Um uppeldi hans vita menn ógjörla, hvorki hve lengi hann hafi verið í foreldra húsum, eigi heldur hvar hann hafi helzt verið til bókar settur, hvort það hafi verið í heimahúsum eða annarstaðar, því þá voru engir latínuskólar hèr á landi; urðu þá foreldrar að fá múnka eða aðra klerka af hinum lægri vígslum, eða einhverja aðra, sem fróðari voru en almenníngur, til þess að kenna piltum að lesa og skrifa Íslenzku, þó ekki væri meira;

---

1) eptir pappírshandriti í safni Árna Magnússonar, Nr. 236 í 4to, bls. 273—277, með sömu hendi og hið undanfaranda brotið.

constitisse accepimus, quam nunc constat institutio in linguis et artibus. Simul autem docebatur cantus Gregorianus, qui semper hic erat in magno usu. Accedebat etiam exercitatio legendi psalterium Davidicum et alios libros usuales, qui illo tempore in ecclesiis et monasteriis prorsus sine intellectu terebantur. Satis enim instructus ad quosvis ordines et honores subeundos vulgo credebatur, qui lecturam tantummodo et cantum usualem mediocriter novit. In quibus iste Jonas satis feliciter profecisse creditur, non enim deerat ei ingenium ad omnia illa, quæ tum docebantur, percipienda, quare non est dubium eum potuisse in admirabilem virum evadere, si ei fuisset data copia ejusmodi institutionis, qualis non tantum in hisce nostris trivialibus, verum etiam in exteris scholis et academiis juventuti nunc contingit.

Præter alias autem ingenii dotes maxime illum nobilitavit admirabile plane et divinum donum naturalis poëseos, quæ peculiare quoddam hujus Norvagicæ vel Noricæ linguæ est ornamentum. Illam tamen non admodum in juventute exercuit, sed demum in virili ætate, quum jam in honore constitutus

---

og kvað það eigi hafa verið kostnaðarminna, en nú er að halda pilt í skóla. Þá var og kenndur gregorianskur (grallara-)saungur, sem ávallt hefir hèr mjög tíðkazt. Mönnum var þá og kennt að lesa Davíðs saltara og aðrar tíðabækur, sem þá var venja að þylja fram í kirkjum og klaustrum, en allt svo sem í belg og biðu. Og svo þótti mönnum, að hver sá væri fullfær til að taka allar vígslur og gegna öllum klerklegum embættum, er skammlítt kynni lestur og saung að tíðum, sem til var sett; og það ætla menn, að Jón hafi numið sæmilega vel, því eigi skorti hann gáfu til að nema það, sem þá var kennt, enda er það eflaust mál, að hann mundi hafa mátt verða afbragðs námsmaður, ef hann hefði átt kost á slíkri kennslu, sem nú eiga úngir menn í latínuskólum hèr á landi, og þar að auki í útlendum skólum og háskólum.

Umfram aðrar gáfur er hann einkum orðinn frægur fyrir sína aðdáanlegu og guðlegu skáldskapargáfu, sem er sèrleg prýði þessarar norsku eða norrænu túngu. En lítt tamdi hann sèr kveðskap á únga aldri, og ekki fyrr en hann var orðinn

esset, multaque non tantum facete et ficte, verum etiam serio, prudenter, ornate, copiose, vere et pie composita reliquit, et inter alia historica etiam quædam non contemnenda; sed mixta hæc sunt somniis papisticis, ut illa tempora ferebant, quemadmodum apparet ex Historia passionis Dominicæ[1], et ex Cantione de lacrymis beatæ virginis[2]. Alioquin prorsus talia sunt illa sive poëmata sive fragmenta, quæ reliquerat, ut inde appareat illum facile cum quovis tam veterum quam recentiorum nostratium poëtarum certare, et paucis quidem inferiorem, plurimis antem superiorem extitisse, præsertim si in illam artem penitus incubuisset, ut nonnulli alii. Latinas vero literas, quemadmodum supra dictum est, non attigit, neque ullas alias peregrinas linguas ipsum calluisse audivi, nisi quantum tempore navigationum suarum didicit. Neque religionis studia nisi tantum modo papistice sectatus est, erat enim misera hæc insula sicut omnia fere loca in toto orbe habitabili papisticis tenebris nimis involuta et inversa[3]. Et solus monachatus vel vita monastica

---

roskinn, og kominn til metorða; kvað hann þá mörg kýmileg ljóðmæli og fyndin; en auk þeirra hefir hann og kveðið mörg kvæði alvarlegs efnis; skortir þar hvorki andríki nè orðgnótt, eða málskrúð, og eigi síður bera þau vott sannleiks og guðhræðslu. Sum af þeim eru sögulegs efnis og í enga staði lastandi, nema hvað þar kennir hindurvitna Pápista, sem við er að búast eptir þeirrar aldar brag; tek eg þar til dæmis Píslargrát og Maríugrát. Eigi að síður mun mega fullyrða það um kvæði hans og kvæðabrot, að hann standi vel jafnfætis öllum þorra skálda vorra að fornu og nýju, svo að fáir sè honum fremri, en allmargir hans eptirbátar; einna helzt, ef hann hefði lagt jafnmikla stund á skáldskap og sumir aðrir. Við latínu lærdómi gaf hann sig aldrei, og eigi hefi eg heyrt að hann hafi kunnað nokkrar útlendar túngur, nema hvað hann kann að hafa numið á utanferðum sínum. Aldrei stundaði hann guðfræði á annan hátt en þann, er tíðkaðist með Pápistum, því vor auma ey var þá, jafnt og nálega öll önnur bygð lönd

---

1) = Píslargrátur. 2) = Maríugrátur?

3) í þetta orð er dregið strik í handritinu.

in admiratione fuit et in summo pretio, nam cœnobia existimabantur esse vera fulcra reipublicæ religionisque columnæ. Unde tamen nihil aliud nisi omnis generis idololatria et sordes diabolicæ per totum universum spargebantur. Nam ut de impuro cœlibatu sacerdotum nihil dicam, neque de abominabili idolorum et simulachrorum cultu, vel de sanctorum mortuorum invocatione, de votis et peregrinationibus, et cetera, quæ omnia hic non minus vigebant, quam in ipso umbilico regni papistici. Omnes anguli repleti erant opinione de meritis operum et humanis satisfactionibus pro peccatis et facinoribus. Hinc delectus ciborum, item jejunia et varia carnificina, ac infinita alia, in quibus summa religio esse arbitrabatur, et quum aut nulli aut episcopi soli et abbates quidam (tamen non omnes) gustum quendam haberent vel Latinæ linguæ vel aliarum, illi potissimum, qui in Germania, Anglia vel Gallia aliquantisper erant versati; habuit enim Islandia etiam eos aliquando, qui Parisiis et alibi mediocriter studuerunt. Sed ii aut infecti erant artibus magicis, quibus tum temporis multum ubique tribuebatur, aut

---

jarðarinnar, vafin í villumyrkrum páfadómsins. þótti þá múnklifi eitt eða múnka lifnaður tignastur og mest metandi, því klaustrin voru talin rèttar máttarsúlur ríkjanna og stoðir trúarinnar; en þaðan spratt þó enginn annar ávöxtur, en allskonar afguðadýrkan og djöfullegur saur. Eg ætla ekki að orða hið sauruga einlífi klerkanna, nè hina andstygðarlegu skurðgoða og mynda tilbeiðslu, eða áheit á dauða menn helga, eða heit og pílagrímsgaungur o. fl.; þetta var hèr allt jafn rammt og líkt eins og í sjálfu aðalsetri páfaveldisins. Í hverri krá höfðu menn fullnaðartraust á verðleikum mannlegra verka til fullnustu fyrir syndir og glæpi. því fóru menn í matvöl, lögðu á sig föstur og ýmisleg meinlæti, og ótal annað. þóttust menn með þessu móti gjöra guði þæg verk. Engir sinntu bóknámi, hvorki Latínu fræðum nè öðrum túngum, nema einstöku biskupar eða ábótar, einna helzt þeir, sem verið höfðu nokkra tíma á þýzkalandi eða Englandi, eða Frakklandi; því við bar það, að Íslendíngar gáfu sig nokkuð við bóknámi í Parísarborg og annarstaðar. En þeir urðu annaðhvort hneigðir að kukli og fjölkýngi, sem menn lögðu þá mikinn trúnað á, eða svo blindaðir

erroribus hisce papisticis ita erant excœcati, ut nihil essent aliud, quam cœci cœcorum duces. Reliqui, qui in exteris regionibus non instituebantur, hic in patria vix ac ne vix quidem Donatum Latinum didicerunt, ex quorum numero certum est hunc Jonam fuisse. Existimabat enim, sicut multi alii, maternum idioma et hasce nescio quas domesticas artes sibi sufficere, neque unquam externas regiones adiit prius quam in episcopum esset ordinandus.

Adeo miserum est infelici tempore natum esse.

Quum autem a parentibus destinatus esset honoribus sacri ministerii, verisimile est ipsum aut in monasterio Mukaþvera apud abbatem Einerum (qui tum temporis fere solus in dioecesi Holensi Latinas literas novisse dicitur, quemadmodum abbas Sigvardus in diœcesi Schalholtensi) aut Holis fuisse educatum et more illius ætatis institutum, donec subiret illos papisticos ordines, quibus olim initiabantur antequam munus sacerdotale sibi committeretur.

Hoc equidem certum est, ei post ordinationem concessum fuisse beneficium quoddam in provincia Eyafiordensi, quod

---

af páfavilludómi, að þeir voru sannnefndir blindir blindra leiðtogar. Hinir, sem eigi fóru utan til náms, lærðu naumast eða ekki Dónatinn, og í þeirra tölu var eflaust Jón Arason. Hann lèt sèr einhlíta móðurtúngu sína, eins og margir aðrir, og þótti sèr borgið með innlendum fræðum, eg veit eigi hverjum, og aldrei fór hann utan fyr en hann skyldi sækja biskupsvígslu.

Slík eymd er að vera borinn á ógæfusamri öld.

En er það var ráðið af foreldrum hans, að hann skyldi leita sèr sæmdar í hinni helgu stètt, þá er líklegt að hann hafi verið settur til náms annaðhvort að Múkaþverár klaustri hjá Einari ábóta, — því svo er sagt, að hann kunni þá hartnær einn í Hóla biskupsdæmi Latínu lærdóm, og í Skálholts biskupsdæmi Sigvarður ábóti, — eða hann hefir lært á Hólum, eptir því sem þá tíðkaðist, þar til hann gat náð hinum lægri vígslum, sem menn urðu fyrrum að taka, áður en þeim væri falið á hendur prestlegt embætti. Víst er um það, að eptir vígslu sína fèkk hann Hrafnagil í Eyjafirði. Um þetta leyti tók hann til sín

nostra lingua Hrafnagil, Latine si interpreteris corvorum vallis nominatur.

Circa hoc tempus conjunxit sibi vitæ sociam castam et honestam fœminam. Helga Sigvardi ei nomen erat, quæ non tam ab opibus et divitiis quam multis præclaris dotibus et ornamentis, quæ fœmineum sexum inprimis decent, merito commendari poterit. Etsi autem in religione papistica serio fuerit interdictum conjugium sacerdotum, indultum tamen est a sanctis illis et religiosis patribus (qua sane epicleia nescio), ut sacerdotes concubinatu uterentur, et retinerent apud se quasi vice uxoris. Et quum officium sacerdotale illo seculo in multo majore esset æstimatione et dignitate, quam hisce exulceratis temporibus, haud difficulter impetrarunt sacrificuli filias, sorores vel cognatas optimorum virorum sibi in adjutorium, et accedebat utrinque honestus et legitimus consensus, tantummodo desiderabatur titulus et nomen matrimonii, quia nefas erat accedere illam sacram copulationem, quæ alias vulgo fit in templo sollenniter in facie ecclesiæ, sed liberali convivio, stipulatione aut desponsatione istam confirmare nemo vetabat.

Porro quamvis infelici illo seculo nimis multa edita sint

---

siðuga sómakonu; hún hèt Helga Sigurðardóttir; eigi átti hún auð eða nægtir, en hún hafði marga ágætis-kosti og atgjörfi, þá er konu mega einkum prýða; því þótt bannaður væri í páfadómi hjúskapur klerka, þá leyfðu þó helgir og guðhræddir feður klerkum (eg veit reyndar eigi með hverri heimild), að hafa hjákonur við hönd sèr í stað eiginkvenna. Og með því að þá á tíðum var prestsembætti í miklu meiri metum og sæmd, en nú, á þessum gjörspilltu tíðum, þá varð prestlíngum gott til kvenna, svo að þeir fengu jafnvel dætur, systur eða frændkonur höfðíngja sèr til aðstoðar, var sæmilegur og lögmætur sáttmáli gjör af beggja hendi, og skorti ekkert á hjúskap annað en nafnið eitt, því óhæfa þótti þeim að gánga undir hið helga hjónaband, sem annars tíðkast í kirkju fyrir augum safnaðarins; en engi meinaði að staðfesta sáttmálann með góðri veizlu, máldaga eða festaröli.

Á þessari eymdaröld voru að vísu mörg dæmi til ólögmæts

exempla illegitimorum divortiorum, quando sacerdotibus impune licuit pro arbitrio, has vice uxoris vel concubinas etiam levissimis de causis abjicere et alias in suam domum introducere, sicut interdum intemperantes, lascivæ et inhonestæ fæminæ a suis sacerdotibus impune ad alios vel sacerdotes vel laicos discesserunt, neque uno aut altero saltem contentæ erant.

Tamen nihil hujusmodi de istis duabus personis nunquam auditum est, sed toto vitæ tempore matrimonii jura fideliter servando temperanter et honeste simul vixerunt.

---

skilnaðar, þar sem prestar máttu að ósekju reka frá sèr fyrir litlar sakir þessar frillur sínar eða aðstoðarkonur, og taka til sín aðrar, eða þar sem þær, sem miklar voru heimskonur og lauslátar, hlupust frá prestum sínum til annara presta eða leikmanna, enda fengu sig þó naumast fullsaddar.

En aldrei hefir neitt slíkt spurzt um Jón Arason og Helgu; heldur lifðu þau saman alla æfi, og gættu trúlega hjónabandsskyldna, hófsamlega og heiðarlega.

3.

## Um Teit Þorleifsson hinn ríka í Glaumbæ og Sveinstaða reið[1].

Árni, son Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar; hans kvinna var Sophía, dóttir Lopts ríka á Möðruvöllum, systir hustrú Ólöfar. Þau bjuggu í Fagradal vestur, og varð Sophía varskipta í erfðum og eignum við Ólöfu systur sína. Síðar átti Sophía Bjarna bónda Svartsson[2].

Börn Árna og Sophíu voru þessi: Eiríkur og Þorleifur.

Þorleifur Árnason átti Kristínu, dóttur Teits ríka Gunnlaugssonar í Bjarnanesi, hver eð lèt drekkja biskup Jóni Geirrekssyni, biskupi í Skálholti, svenskum að ætt, og sökkva í

---

1) eptir ættartölubókinni í safni Árna Magnússonar, Nr. 254 í Fol., bl. 114—120, sbr. við Nr. 255 í Fol., bls. 158—162, og handrit síra Magnúsar á Söndum í Rasks safni Nr. 52 í 4to, bls. 369—379.

2) í einum annál segir, að Sophía Loptsdóttir hafi einnig átt Ívar Holm, föður Vigfúsa hirðstjóra; hún bjó og í Brautarholti, b. v. 255 eptir S. B. S. (þ. e. Sigurði Björnssyni lögmanni).

poka í Brúará anno 1433, þorláksmessu um sumarið. Hèr af kemur Bjarnaness rugl.

Sonur þorleifs Árnasonar og Kristínar Teitsdóttur var Teitur í Glaumbæ; hans kvinna hèt Ínga, dóttir Jóns Erlíngssonar, sem bjó undir Múla á Skálmarnesi, og Íngibjargar Árnadóttur, og andaðist Ínga barnlaus, því erfði hana systir hennar Íngibjörg, kvinna þorleifs Guðmundssonar í þykkvaskógi; klagaði þann arf sonur þeirra síra Jón þorleifsson í Gufudal og náði einu hundraði hundraða og xl hundruðum betur, og behèlt því í sinn hlut, en hans bræður, sem ýngri voru, náðu engu, þótt svo mikið bevísaðist á þeirra hlut ætti að koma, því eignir þessar voru víða brjálaðar um landið. Af Teiti er enginn kominn, og ekki af bræðrum hans, Sigurði og síra Árna þorleifssonum.

Teitur var lögmaður anno 1524[1], næst eptir Grím á Ökrum, en anno 1523[2] var Sveinstaða reið og slagið á fundinum milli Sveinstaða og Steinness; var þá veginn Árni heitinn Bessason og særðir margir menn, x eður fleiri. Teitur sjálfur fèkk skot í handlegginn og nokkrir menn hans særðir. Anno 1528 gekk Teitur af sínum eignum fyrir norðan. En 1537 andaðist Teitur bóndi þorleifsson. — Anno 1527 gekk Seilu dómur Rafns lögmanns, sem áþýngir og fellir Teit. — Anno 1525 kaupast þeir við, biskup Ögmundur og Teitur þorleifsson, um Bjarnaness eignir fyrir Ásgarð og vestur-jarðir, sem þeirra kaupbrèf greinir[3]. Datum skiptabrèfsins Teits og bræðra hans, Sigurðar og síra Árna: 1488 í Glaumbæ, mánudaginn næstan eptir krossmessu um vorið.

[það brèf og önnur kaup og vitnisburðir, Seiludómur Rafns lögmanns og önnur skilríki fyrir Teits gózum, er hèr í öðru kveri samanskrifað greinuglega og orðrètt þessum annál til styrktar[4].

1) þetta er að sönnu rètt, en Teitur var kosinn til lögmanns á alþíngi 1522 (Safn til sögu Ísl. II, 200).

2) þetta ártal er ekki rètt; Espólín setur Sveinstaða reið 1521, Finnur biskup 1522.

3) þann. 255, 52; sem og kauperfíngjarnir, 254.

4) [slepp. 52; í 255 er því bætt við síðar með annari hendi.

Ættfólk Teits ríka Gunnlaugssonar, hvers dóttursonur þessi Teitur var:




## Mál Teits Þorleifssonar í Glaumbæ og Sveinstaða reið.

Anno 1522 hafði þessi Teitur Þorleifsson sitt lögheimili og bústað á sínum erfðagarði Glaumbæ í Skagafirði. Honum og síra Jóni Arasyni, sem síðan varð biskup á Hólum, en var nú electus, kom þræta og kíf á milli, hvar um veit eg ei gjörla, þó er sagt það hafi komið til af einum þénara Teits, sem var fallinn í sakir, en Teitur vildi það ekki líða; manninum var stefnt til þíngs á Sveinstöðum í Húnavatns þíngi fyrir lögmanninn, sem þá var, — að meiníng manna Grímur á Ökrum. — Sýslu-

1) Biskup Ögmundur vildi gjöra þessa Guðrúnu að erfíngja Teits 1537, er Teitur dó. Hún var þá móðurbróður dóttir Teits Þorleifssonar, það er syskinaúngi við hann, en Árni bræðrúngur Teits þá gózin féllu 1527, athgr. í 251.

2) Sumir halda samörfum þurfi ekki að gegna fyr en gózin eru komin í ættina, því hver hljóti fyrir sína arfdeild að kíaga, b. v. 255.

maðurinn í sama takmarki var Rafn Brandsson, síra Jóns Arasonar dótturmaður, sem síðar varð og lögmaður eptir Teit fyrir norðan og vestan. þángað bjó sira Jón Arason sína ferð til þessa þíngs, samt með lögmanninum og sýslumanninum Rafni Brandssyni, með flokk manna, lx eður þar um. Teitur þorleifsson sókti líka þetta þing, og kom fyrr til bæjarins eður þíngstaðar en hinir, og var vel mannaður, hafði lx eður lxxx manns. Síra Jón Arason og lögmaðurinn, með sínum selskap, gistu á þingeyrum nóttina fyrir, og sem þeir komu nærri Sveinstöðum þá mættu þeim tveir prestmenn og viðvöruðu þá, segjandi að Teitur vildi verja þeim þíngstaðinn, og hamla, að þar skyldi nokkur lagavegur gánga þann dag, og Teitur væri mjög vel mannaður. [þeir] síra Jón Arason electus riðu ei að síður fram, til þess þeir náðu einum hól eður hæð þar nærri Sveinstöðum, numu þar staðar, og þar setti lögmaður þingið, þó það væri ekki vana þíngstaður. þegar Teitur fornam þetta, hafði hann sig þángað með sinn selskap og skipaði mönnum sínum að slá og stínga það mest þeir kynni, og sjálfur var hann sá fyrsti maður, sem hófst handa, og í því áhlaupi var í hel sleginn einn maður af síra Jóns fólki, Árni Bessason. Í sama máta voru þar margir menn sárir gjörðir af beggja fólki. Teitur sjálfur var og með byssu skotinn í handlegginn[1].

Hvort þar hefir nokkur lýst vígi á sig, að hafa drepið þenna Árna Bessason, veit eg ekki, en fyrst hvorki Teiti nè hans mönnum hefir verið til talað um morð og mannslag einkennilega, þá er líkast til að einhver mun hafa meðkennt sig sekan þessa manndráps.

Á næst eptirkomanda alþíngi anno 1523 var Teitur þorleifsson af lögrèttumönnum kvittur og klár ályktaður af greindu mannslagi, með því fororði og skilyrði, að ekkert bevísaðist uppá hann frekara í þessu máli en þá fram kom, nema það sýndist með skilríki, að hann hefði í sama stað gjört nokkur lagabrot með orðum eður verkum, herma þeir í Seilu dómi síðar, og var sami Teitur útvalinn til lögmanns á þessu

1) í annálakverinu stendur, að þessi fundur hafi orðið millum Sveinstaða og Steinness anno 1523, b. v. 254, 255.

þíngi[1] fyrir norðan og vestan, og því embætti hèlt hann iij eður iiij ár[2]. — Anno 1524[3] var síra Jón Arason útvalinn til biskups á Hólum, sigldi hann það ár og var vígður til biskups í Noregi, kom svo út með biskupsdæmið anno 1525, praktiseraði hann og fór svo klóklega að, að hans dótturmaður Rafn Brandsson mætti verða lögmaður, hvað og skeði anno 1526. þar nú þessir tveir, biskup Jón og Rafn lögmaður, voru komnir í fullmakt sína í þenna máta, þá tóku þeir báðir til að brúka valdið og halda rèttargáng eður hafa svælur uppá sagðan Teit þorleifsson. þar fyrir citeruðu þeir, og stefndi Rafn lögmann anno 1527 áður sögðum Teiti til þíngs á Seilu í Skagafirði næsta mánudag fyrir pálsmessu í Januario; þá gekk dómur, af sama lögmanni útnefndur og samþyktur, í hverjum Teitur dæmdist útlægur til kóngs myskunar, item tvöfaldar vígsbætur föður Árna heitins, sem drepinn var hjá Sveinstöðum og af mannslagaranum lx hdr., en af gózum Teits fyrir atvist og hernaðar uppreisn xxx hdr. Bessa, en kóngi þegngildi, góz Teits hálf fallin undir kóng, hálf undir erfíngia. þar um má lesa Seilu dóm, og það sem þar að lýtur, í öðrum stað. þann tíma var Árni Eiríksson erfíngi Teits þorleifssonar, og heyrðu honum því til hálfar eigurnar eptir þessum Seilu dómi. Sá Árni var Teits þorleifssonar föðurbróður son. Rafn lögmann sigldi sama ár 1527 fram fyrir kóng með coperaðan Seiludóm, og fèkk þar uppá kónglega staðfestu fyrir meðalgaungu höfuðsmannsins Jóhanns Pèturssonar, sem þá var hirðstjóri; þar með keypti hann helftina af gózinu, sem kóng Friðrik var dæmd, fyrir 300 rínsk gylliniguldeu. Datum á slotinu Gotterup 1527.

Anno 1528 kom Rafn lögmaður aptur híngað í landið með svo látandi kóngsbrèf, sem áður er sagt; því varð Teitur að rýma norðan að og gánga af eignum sínum, hverjar Rafn lögmann, með styrk biskups Jóns, tók allar undir sig og lagði ekki erf-

1) Teitur hafði verið kosinn til lögmanns á alþíngi árið fyrir (1522), sem fyr var sagt.

2) Teitur var lögmaður 1522 til 1525 (fjögur ár).

3) Jón Arason var kosinn til biskups á Hólum 1522, en 1521 var kosníng hans staðfest af erkibiskupi, en hann fór utan 1523, og var utan tvo vetur, en kom út 1525, eins og hèr segir.

íngjum Teits neitt eptir, nè gjörði nokkur lagaskipti á hans peníngum, hvað þó væri á móti hljóðan Seiludóms og lýsíng sjálfs kóngsbrèfsins. þetta sama ár betalaði Rafn lögmaður þau 300 gullgyllini; kóngleg Majestat gaf honum þar uppá kvittun, og unnti og til setur með sinu brèfi, að Rafn og hans erfíngjar skyldu njóta, brúka og behalda það sama góz, sem kónglegri náð var til dæmt af Teits þorleifssonar peníngum eptir dómsins hljóðan; Datum 1528. En anno 1525 gjörði Teitur þorleifsson kaup við biskup Ögmund í Skálholti um nokkrar jarðir og garða, sem það kaupbrèf útvísar. Nú uppá það, að Teitur hefði frið og ró fyrir biskup Jóni og hans mági Rafni, þá fór hann norðan að 1528, og settist að Hvammi í Hvammssveit, og þeim eignum, er biskup Ögmundur seldi honum fyrir Bjarnanes og eignir þar eystra, en Rafn tók að sèr allar eignir Teits fyrir norðan og svo lausagóz, hvað að verið hefir víst stór summa penínga, og svo sem sumir hafa til getið hèrum xij hundruð hundraða. þetta var aldrei virt, uppreiknað nè skrifað, og enn síður í sundur deilt milli kóngs og erfíngja Teits, því fengu þeir ekki hið minnsta hèr af.

Anno 1529 var sami Rafn lögmann í hel sleginn í Glaumbæ af sínum eiginn þènara. Síðan tók biskup Jón allt það góz undir sig, sem Rafn hafði tekið frá Teiti, og af því sami biskup Jón hafði áður brjálað og fengið í burt dómkirkjunnar jarðir, bæði börnum sinum og öðrum sínum vinum, þá borgaði biskup nú aptur Hóla kirkju með nokkrum jörðum af Teits eignum, sem var Glaumbær, Meðalheimur, Jelavogar, Vatnsskarð, Vatnshlið, Víkur partur, Hof í Dölum, Gil, þorljótstaðir; liggja þessar jarðir í Skagafirði, og er haldið að þær sè iij hundruð hundraða verðar; þar til með Ásgeirsá og Krossanes, hverjar tvær jarðir að eru j hundrað hundraða og iiij hundruð betur. þær aðrar jarðir og eignir, sem bændur nú halda af Teits eignum, og Rafn lögmann tók að sèr fyrir norðan land, burt seldi og brjálaði biskup Jón, meðan hann var á dögum, en þeir garðar og eignir, sem hann fèkk aptur i staðinn, fèllu síðan undir kóng, þann tíð biskup Jón og hans synir voru rèttaðir. Svo hefir nú kóngleg Majestat fengið af fyrskrifuðu Teits gózi fyrst þau 300 rínsk gullgyllini og svo allar fyrskrifaðar jarðir. þessa eptir skrifaða garða halda bændur nú af Teits eignum: Víðivelli,

Vatn, Vallholt ytra, liggjandi í Skagafirði og Lækjamót í Húnavatns þíngi, eru til samans eitt hundrað hundraða og lxxx hundruð.

Eptir því sem áður er sagt varð Teitur þorleifsson, eptir það kónglegrar Majestatis brèf kom híngað í landið uppá Seilu dóm 1528, að rýma frá sínum eignum fyrir norðan, og kom þarfyrir vestur að búa í Hvammi, og svo bihèlt hann ennþá þessum eptirskrifuðum eignum alla þá stund hann lifði, inn til anno 1537: Hvamm í Hvammssveit, það er nú beneficium, hálfum Gleraskógum, liggja undir sama beneficium, hálft Fjarðarhorn í Hrútafirði, [heyrir ogsvo undir kirkjuna[1]; er til samans í verði lxxxvij hundruð. Item behèlt hann sína lífstíð þessum eptir skrifuðum görðum og eignum, sem nú eru bænda eign: Ásgarði L hundr., Magnússkógum xxiiij hundr., Blöndubakka xl hundr., Hvammi á Vatnsnesi xl hundr., Seljanesi xxiv hundr.; summa ij hundruð hundraða Liiij hundruð. En summan á því gózi, sem kóngleg Majestat og klerisíið nú halda hèr af fyrir norðan og vestan, eru iiij hundruð hundraða og xiv hundruð betur. Eptir það sálugi Teitur deyði 1537 tók biskup Ögmundur í Skálholti nokkra deild á þeim jörðum, sem Teitur hafði haldið til síns dauðadags. það var Hvammur lx hundruð, hálfir Gleraskógar xv hundruð, og hálft Fjarðarhorn xij hundruð, undir kirkjuna í Skálholti, segja þeir, og meinti sig svó vel hafa þar til rèttugheit, sem sá annar týranni fyrir norðan, biskup Jón. Nokkra deild tók hann og í burtu, býtti til sinna frænda og vina, en rèttir erfíngjar fengu engan hlut þar af, utan eina hálflendu, xx hundruð, sem Einar Oddsson klagaði aptur með lögum, svo sem Vallholts dómur útvísar, sem gekk 1558, og má hann þar um lesa. Var og tekinn í proventu af herra Ólafi Pètur Oddsson, sem átti Helgu Árnadóttur, og gaf hennar part og tilkall ofur, sem það góz áhrærði, er undir Hóla kirkju var runnið; datum þess brèfs er 1556, á Röðugrund. — Síðan klagaði þorvarður Ara-faðir uppá eigurnar, og höfðu þeir Axel Jull og Christoffor Trundsson tilsagt honum Ásgeirsá (hún heyrði þá til Hóla kirkju), en hann slapp af henni, sem í þeirri skrá finnst, sem [inn] er færð í dóm þann, sem gekk á Leiðarhólmi 1619, og endíng gjörði á þessari arfs klögun, svo sem

1) [b. v. 255.

nú stendur í dag, 1660. — Ari hafði áður kvitt gefið og frá sèr lagt sín skjöl 1613 á alþíngi, og vildi ekki síðar meir þær kvittanir og sama halda, og klagaði sig fyrir kónglegrar Majestatis Commissariis Friderich Friis og Jurgen Wind anno 1618, og eptir þeirra tilskipun og aðfylgi Gísla lögmanns Hákonarsonar kom allt þetta arfsmál til dóms á Leiðarhólmi í Breiðafjarðar dölum, sem áður greinir, og finnst sú dóms trakteran hjá örfum Árna sáluga Gíslasonar á Ytrahólmi. Þar er vænzt hirðstjóra kvittun fyrir máli Teits anno 15...; item, að fram hafi verið lagt innsiglað brèf, að biskup Ögmundur hafi haldið Pál Gunnlaugsson löglegan erfíngja Teits Þorleifssonar, en Guðrúnu Gunnlaugsdóttur, systur Páls samborna, eptir hann, hver Guðrún að var amma Einars Teitssonar í Ásgarði, [afa sira Egils Helgasonar[1].

Rót og grundvöllur þeirrar klögunar, sem Ari Þorvarðsson hefir haft uppá helftina Teits eigna, og hans forfeður höfðu fyrir hann, skal hèr skrifast í stuttu máli. Þeir segja biskup Jón hafi verið sá fyrsti, sem vildi til friðs stilla þá Teits erfíngja, sem honum þóttu sèr nálægastir og hægastir við að eiga, og bauð þeim 1542 eina xx hundraða jörð, og þar til önnur xx hundruð í lausafè fyrir hálfpartinn af því gózi, sem dómkirkjan þá hafði undir. En þessi xx hundruð komu síðar undir kóng, þegar biskup Jón var aflífaður fyrir sína ógjörnínga, en erfíngjarnir fengu ekki par. Þar næst klagaði uppá þetta góz Pètur Oddsson, sem átti Helgu Árnadóttur, og það er sá Árni, sem þeir hèldu vera rèttan erfíngja Teits Þorleifssonar þann tíð hann var dæmdur útlægur á Seilu 1527. Herra Ólafur Hjaltason gjörði síðan sama við þenna Pètur 1556, en sá sami varð til ónýtis, hann tók og ekki yfir nema það góz, sem Hóla dómkirkja heldur. Síðan klagaði Þorvarður, áðurgreinds Pèturs son, Ara faðir. Honum var tilsagt af Axel Jull og Christoffor Trundssyni, þeim stríðsherrum sem fyrir norðan komu 1551, að hann behèldi og að sèr tæki Ásgeirsá; hún heyrði í þann tíma til Hóla dómkirkju. Herra Guðbrandur keypti hana síðan fyrir aðra jörð, Hvanim í Fljótum, en Þorvarður varð að sleppa þeirri jörðu og rýma þar frá, hèlzt þar

1) [slepp. 255.

að eins við í þrjár vikur; sami þorvarður fórst síðan í húngri og frosti, sem hans frændur lofa að bevísa.

Fjórði, sem klagað hefir uppá greint góz, eður hálfpartinn af Teits gózi, 1558, var Einar Oddsson, sem hafði til ekta Ólöfu, systur áðurnefnds Ara þorvarðssonar, og fèkk þar uppá Vallholts dóm og lögmanns úrskurð Orms Sturlasonar 1565; hefir sami Ari þorvarðsson árlega framflutt sama klögumál sín og sinna meðarfa vegna frá anno 1556. Anno 1605 fèkk hann þar uppá, fyrir aðstoð erligs velborins Envoldt Krus, þann dóm á alþíngi, að Ari þorvarðsson væri rèttur erfíngi til svo mikils af arfi Teits þorleifssonar, sem hann kynni sig til að leiða með lögum, þar til að annar lögiegri erfíngi reynist. Anno 1606 kom Herluf Dá, og fèll niður Ara klögun það ár. Anno 1613 lèt Ari frá sèr sín skjöl við höfuðsmanninn Herluf Dá, og tók þá sama við þá sem hann ákærði; svo hafði hann og fyrr með vottum og innsiglum kvittan gefið síra Hannes Björnsson og alla hans arfa um allt tilkall fyrir sig og sína uppá Teits peninga, sem hann hafði að halda, datum 1602.

Siðan klagar Ari þorvarðsson á ný, þá kónglegrar Majestatis Commissarii komu í landið anno 1618, og ber þetta fyrir þá. Um síðir urðu allir sýslumenn, hver í sinni sýslu, þar sem þær eignir liggja, vegna strángrar befalníngar áðurgreindra herra og aðfylgi Gísla Hákonarsonar lögmanns, láta málið endilega til dóms koma, hvar fyrir Jón Magnússon eldri lèt dóm gánga í Dala sýslu á Leiðarhólmi anno 1619. Hann er til, og það gjensvar og objectiones, sem Ara mótstandarar hafa í greindu máli [látið] þar inn færa. Eptir þann dóm varð Ari blindur, og andaðist síðan, og er hans málstaður svo niður fallinn.

þeir dómar og gjörníngar, sem hèr er vænzt, hafa allir til verið í einu lagi samanskrifaðir hjá erfíngjum Árna Gíslasonar á Ytrahólmi.

## 4.

## Um utanför og vígslu Jóns biskups Arasonar 1523—1524.

1523[1]. Ekki kom biskup Jón út híngað það ár. það skip, (sem Jón Arason biskupsefni fór á utan) hafði ratað í hafinu vorkulda, og máske aðrar raunir. Um siglíng sína þessa hafði biskup Jón Arason ort vísur, en [eg] kann þar ekkert af, nema þenna vísustuðul:

Fokkan vor var freðin nokkuð,
vær felldum hana og þýddum við eldinn, o. s. frv.

---

1524[2]. Jón biskupsefni mætti mótfalli biskups Ögmundar utanlands, og var Jón prestur Einarsson þar, og þótti betur lærður. Jón prestur Einarsson andaðist þar[3], en Jón prestur Arason var vígður til biskups. Er svo mælt, að Ólafur Hjaltason[4], sem biskup varð eptir hann, hafi með honum verið, og svarað til spurnínga erkibiskups, því hann hafi verið í skóla um vj ár í Björgvin í Noregi.

Svo er enn talað, þá biskup Jón var vígður og hann gekk frá erkibiskupinum, að af hans höfði hefði fallið mítrið eður vígslu-höfuðklæðið, hvert hans sveinar hafi með skyndi gripið og mælt: „það fór illa, minn herra, að svo tókst til"; en hann

---

1) eptir ágripi, sem Arngrímur prestur lærði er sagt hafi ritað upp úr annál 1643; handrit i 4to. — Annállinn heimfærir þetta til ársins 1523, en upphafið sýnist þó benda til, að höfundurinn hafi átt við það sumar, sem Jón biskup var utan (1521). Líklegt er, að hér sé talað um hrakníng þann, sem biskupsefni varð fyrir þegar hann lèt fyrst út frá Kolbeinsár ósi, og komst til Húsavíkur eptir hálfs mánaðar útivist (sbr. bls. 320).

2) Annálar Björns á Skarðsá (Hrappsey 1774, 4to) I, 96, við árið 1524. Sama hefir ættatölubók bókmentafèlagsins Nr. 46, tekið eptir Birni.

3) þetta er mishermt, en hin sagan er rètt, sem segir, að síra Jón Einarsson hafi fengið Odda.

4) það er satt, að síra Ólafur Hjaltason var með Jóni biskupi, þegar hann fór utan til vígslu, og er hann nefndur í brèfum Ögmundar biskups. Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 218.

sagði svo mundi með skyndi falla og niður detta biskupstign sín; en þeir óskuðu, að það skyldi ei verða.

Ekki kom biskup Jón út híngað það ár. —

## 5.

## Um prentsmiðju á Íslandi í tíð Jóns biskups.

1543[1]. Um þann tíma heldur Jón prestur Matthíasson staðinn Breiðabólstað í Vesturhópi. — Hann var barnfæddur í Sviaríki og kenndur þar við, og kallaður Jón svenski. Hann var skikkanlegur maður og vel siðaður. Hann hafði híngað í land fyrstur prentsmiðju, og hóf prentverk á Breiðabólstað á dögum biskups Jóns, prentaði þar Handbók presta, Sunnudaga guðspjöll og fleira annað. Jón svenski þótti nær yppurstum prestum norðanlands þann tíma. Hans sonur Jón, er prentverks iðju lærði að föður sínum og prentsmiðju eptir hann erfði, og herra Guðbrandur biskup, er hann til stólsins kom og prentsmiðju lèt á Hólum niður setja, lèt sagðan Jón bækur þrykkja, ásamt því loflega prentverki biblíunnar, og var hann nefndur af allmörgum Jón prentari; hann þrykkti og bækur á Núpafelli, hverja jörð kóng Friderich veitti honum um hans lífstið, þá hann biblíuna þrykkti.

---

[2]. . . Hvad det islandske Bogtrykkeri til Holum angaaer, da har jeg . . . (efter Thurah i Idea histor. Liter. Danor. S. 240) udgivet Biskop Gudbrandum Thorlacium for Fundator deraf, da han dog kun er Restaurator, men den sidste katholske Bisp Jon Aresön Fundator. I Nicol. Dalii Specim. Biogr. de Antiquar. Sveciæ, som recenseres Bibl. Lubec. Vol. II. 1725 pag. 331, hedder det:

Cum jam olim Svecos inter et Islandos, utut longe dissitos, commercium quoddam literarium obtinuerit, cujus insigne

---

1) eptir annálum Björns á Skarðsá. I, 134.

2) C. F. Wadskiær. Observationes om Bogtrykkerkunsten i Danmark, i Nye Tidender om lærde og curieuse Sager 1740, Nr. 16 (21. April), bls. 241—255.

testimonium est officinæ typographicæ apud Islandos instauratio omnium prima ab homine Sveco, Jona Matthiæ, qui tempore Jonæ Aronis, episcopi Holensis, typis propriis evulgavit Manuale Sacerdotum, Evangelia Dominicalia, aliaque, et cujus filius ac hæres Jonas Jonæ integram versionem sacrorum bibliorum Islandicam primus edidit.

Om dette Trykkeri har jeg consuleret den lærde og i de islandske Antiqviteter meget kyndige Islænder Mr. Jonam Olavium, Sal. Arnæ Magnæi Stipendiarium, som iblandt adskillige andre curieuse Skrifter arbeider paa en Hist. Litterar. Island., hvoraf han har meddeelt mig fölgende Efterretning:

Bogtrykkeriet i Island har först indbragt i Landet den sidste catholske Biskop paa Holum Jon Aresen, og brugt dertil den svenske Præst Hr. Jon Mathiesen, hvilken han confererede det Præstekald Bredebolstad i Vesterhoop, og der har været den förste officina typographica i Island, af hvilken jeg har seet Rudera. Af de Böger, bemeldte Biskop har ladet trykke, veed jeg ikke andre at navngive end Breviarium Niderosiense, som jeg in 4to har seet hos sal. Ass. Arn. Magnæus. (Jeg mener det maa være samme Bog, som Bibl. Lubec. kalder Manuale Sacerdotum).

Titulen er denne: Titulus libri.

Breviaria að usum ritumqve sacrosancte Holensis Ecclesie, jam prius impressa, impensis ac mandatis insignibus reverendi in Christo patris et Domini, Domini Joannis Arneri ejusdem Ecclesie Episcopi felix faustumqve adepta sunt exordium.

Finis libri:

Opus istud impensis ac industria plurimum reverendi in Christo patris Dni Joannis Arneri Sacrosancte Holensis Ecclesie episcopi faustum felicemqve sortitum est exitum finemqve optatum. In residentia sua impressum atqve adauctum Calendas Maji Anno salutis M D. xxx. IIII.

Item skal han have ladet trykke et Calendarium Romanum. . . . . .

---

[1]Typographia pedem vel sedem primo in Dania figit Aalburgi anno domini 1493, sed in Islandia anno 1523[2], auspiciis episcopi Johannis Aræ filii, ubi Breviarium Nidarosiense primum excussum fuit forma quarta, cantilenis latinis melodiarum pulcherrimarum, lemmatibus rubris distinctum, quod vidi.

Rudera primæ officinæ typographiæ hujus, sed jam parum conspicua, conspiciuntur Breiðabolstadi, austrum versus ad ædes juxta rivum ibi præterfluentem, ut mihi aliisque ibidem aliquando monstravit[3]..., dixitque esse locum primum Typographiæ primæ in Islandia.

In Islandiam vero typographiam primum illatam fuisse a Johanne Arasonio, ultimo episcopo Holensium in numero Catholicorum, testatur prima pagina Breviarii Nidarosiensis, editum Holis anno 1523 (*rett.* 1534) forma quarta. Ergo triginta annis serius in Islandia dignata est hospitari quam in Dania (ɔ: 1493), ibidemque boream versus ultimum sibi locum quietis elegit[4].

## 6.

## Vísa Sigurðar blinda til Jóns biskups Arasonar. 1547[5].

Jón biskup (Arason).... reið um haustið austur í Hornafjörð

1) eptir Jóni Ólafssyni frá Grunnavík í orðabók hans á Íslenzku og Latínu, Additam. Bibl. Univ. Hafn. Nr. 36 I Fol. s. v. bók. — Frásögn Jóns Ólafssonar sýnist vera svo að skilja, að hið forna prentsmiðjustæði sè að finna á Breiðabólstað í Vesturhópi, sunnan til við bæinn, hjá læknum.

2) Harboe setur ár 1530 eða 1531.

3) nafnið stendur ekki; líklega hefir það verið Páll lögmaður Vidalín, einsog Jón segir frá á öðrum stöðum, að hann hafi sýnt sèr og öðrum slíkar menjar.

4) sbr. Arngr. Jónss. Crymogæa, ed. Hamb. 1609 Libr. III, pag. 154; Arngr. Jónss. Athanasia Gudbr. episcop., p. 4. — Gunnar Pálsson, Historia typograph. Islandicæ, rituð 1751, í tveim handritum í bókasafni konúngs, Gaml. kgl. Saml. Nr. 1851 a-b. — Daði Níelsson hefir og ritað prentsmiðju sögu á Íslandi.

5) Vísa þessi er tekin eptir Árbókum Espólíns (IV, 17) að því leyti, sem hún er eignuð Sigurði blinda. Í Rask. Nr. 52 bls. 44 og 88, og í

á laun við Gizur biskup, og tók að sèr Bjarnanes, og eignir þær. Sigurður blindi var á Austfjörðum, hann kvað þetta við biskup:

Mart snýst mjög fort,
minnst tón, herra Jón!
er svo lukkan ókyr
um frón, herra Jón!
vultu kóngar, varð hált,
viss sjón, herra Jón,
skilið svo mitt skýrt tal,
skal bón, herra Jón!

## 7.

## Spámæli Jóns Magnússonar á Svalbarði
við Jón biskup Arason.

[1]Frásaga lítil um biskup Jón Arason.

Það er gamallra manna sögn, að einn tíma, sem biskup Jón reið norður um Vaðla og Þíngeyjar sýslu, kom til samfundar við hann Jón bóndi frá Svalbarði á Svalbarðsströnd; [hann] var höfðíngi mikill og vitur, og af mörgum haldinn sem nærgætinn og forspár. Biskup spurði hann að: „hvaða dauða meini þèr, Jón bóndi, eg muni fá?" — Jón þagði um stund, og mælti síðan svo: „Heyrt hefi eg sagt, að áður en þèr voruð fæddur hafi móður yðar dreymt einn draum[2], svoleiðis, að henni þótti sem hún fæddi af sèr eina örn; þá bar svo fyrir hana, sem sama örn flygi upp á bust kirkjunnar á Hrafnagili í Eyja-

Annáls handriti að vestan er sagt, að „Böðvar prestur" hafi ort þessa vísu í móti þeirri vísu Jóns biskups: „Látína er list mæt", og ætti það að vera 1522. Vísan sjálf er tekin hèr eptir því sem er í Rask. 52 og hjá Jóni Ólafssyni frá Grunnavík í orðabók hans (s. v. ó). — Bjarnaness reið Jóns biskups hin fyrri varð 1515, en hin síðari 1517, og hefði þá vísa þessi helzt átt að vera kveðin (sbr. bls. 260—262). Espólín heimfærir vísuna til 1514.

1) eptir bók Jóns Eggertssonar frá Ökrum í Skagafirði, í bókasafni Svía konúngs í Stókkhólmi: Islandica chart. Fol. Nr. 64, C. bls. 166.

2) annar draumur, sem sagt er móður Jóns biskups hafi dreymt, stendur í sögubrotinu hèr á undan, bls. 421—422.

firði, og settist þar; þá sýndist henni í svefni höfuð af þeirrí örn fjúka af bolnum; og til landsuðurs áttar".

Framar mælti téður Jón: „vaktið yður fyrir stórum umreiðum, herra". Biskup skyldi hafa svarað: „þann dauða kýs eg mèr, sem minn Patrón fèkk, en engan kerlíngar dauða". Enduðu þeir svo sína ræðu.

Sagt er biskup Jón hafi haldið fyrir sinn Patrón sancti Jóhann Baptista.

8.

## Um vígis bygging Jóns biskups á Hólum[1].

Með því fram í Danmörk tók að spyrjast stórræði biskups Jóns, og hversu hann mótfèll þann Lutheraniska lærdóm, citeraði og kallaði kóngurinn hann fram, en biskup vildi nú ekki út sigla nè koma fyrir kóng Christjan[2], heldur tók nú til að efla bygging og vígi upp frá kirkjunni á Hólum, sem hann kallaði slot, og var þar gjörður gröftur djúpur og veitt að vatni, og skyldi þángað byssur og stykki færa, sem á einn skans, og [gaung á lopti af múrnum á kirkju[3]. Svo og hafði þá biskup Jón mikil skipti við Engelska og Hollenzka, og vilja menn halda hann hafi tilskrifað keisaranum í þýzkaland, að eignast landið, og veita sèr styrk því að halda með sömu trúarbrögðum, hver brèf einn hollenzkur skyldi fram bera, en það hindraðist í þýzkalandi, og urðu svo brèfin síðar uppfýst. þetta nefna dómendur í Oddeyrar dómi, að hann hafi viljað gjöra landið og landsins innbyggjara með sèr fráfallna, og undir annarlega herra draga[4].

---

1) þetta er tekið eptir handritinu í safni Rasks, Nr. 52 í 4to, bls. 12, sbr. Annál. Björns á Skarðsá 1519. I, 154.

2) brèf konúngs er ritað 1548.

3) [þann. 52; gaung á l. af múr og kirkju, Ann. Björns í orðamun; gánga af lopti á múr og kirkju, Ann. Björns í textanum.

4) sbr. sögu Magnúsar Björnssonar kap. 8, bls. 322.

9.

## Viðskipti Jóns biskups Arasonar
við síra Ólaf Hjaltason[1].

Um þenna tíma hèlt Ólafur prestur Hjaltason[2] Laufás stað, hvern biskup Jón hafði honum veitt. Hann hafði meðtekið utanlands Lutheri lærdóm, þá Ólafur var þar, því sá lærdómur var fyrst meðtekinn i Danmörk, síðan í Noregi og síðast hèr. Biskup Jón vígði Ólaf til prests, og fèkk honum Vesturhópshóla; þar var hann i tvö ár, og gekk honum þar lítt búskapur, því tók biskup hann heim til Hóla og var hann þar kirkjuprestur nokkur ár. Um þann tíma þorði ekki Ólafur prestur í frammi að hafa annarlega kenníng, heldur hèlt hann við það forna, allt þar til hann fèkk Laufás stað; þá gjörði hann sig augljósan í því, að fram fylgja hreinu og kláru guðs orði, og bannar að trúa á helga menn: Pètur, Pál, Maríu eður aðra, hverir sem eru. Þetta flýgur fyrir biskup Jón, verður hann þá ákaflega reiður og stefnir þing í Eyjafirði, og boðar Ólaf prest þángað. Þegar Ólafur prestur veit þetta, fær hann sèr afsökunarmenn, að bera sig undan þessu, og menn megi þá gömlu kenníng hafa fyrir honum, og kemur svo til stefnunnar. Sem biskup Jón fornemur Ólaf saklausan fyrir þessu, tekur hann höfuðklæðið ofan og gjörir guði þakkir, að svoddan persóna hafi ei villt farið í sinum kenníngum; skildu síðan aldavinir og riður svo hvor á sitt heimili. Að litlum tíma liðnum kemur enn kvittur fyrir biskup, að síra Ólafur sè sannur að sök, þess tjái ekki að þræta, hann fyrirbjóði að trúa á helga menn; reiðist biskup þá enn miklu meir en fyr, og stefnir aptur þíng, og gekk þá málið á Ólaf prest, og er hann þá harðlega rekinn út af kirkjunni, svo hans fótur varð fastur i gáttinni og lestist illa, og bar hann það mein til dauðadags; flýr síra Ólafur þá á fjöll með annan mann suður, og bíður þar eptir Þorleifi bónda Grimssyni frá Möðruvöllum, og ríður með honum suður í Straum á Vatnsleysuströnd; þar lá skip, og sigldi hann með því, kom svo fram í Danmörk og segir hvað tiðinda sè á Ís-

[1]) eptir handritinu i Rasks safni Nr. 52 í 4to, bls. 15; sbr. Annál. Björns á Skarðsá 1550. 1, 162—164.

[2]) Hjalltalín, Björns annál., og er prentvilla, sem nærri má geta.

landi: Marteinn biskup sè í haldi á Hólum hjá biskup Jóni, eður hjá syni hans Ara, en hann segist vera út rekinn frá sínu kennimannlegu embætti og þori ekki að haldast við í landinu, fyrir það hann vili hreinu guðs orði fram fylgja, með öðru fleira, sem hann til finnur. Verður kóng Christjan reiður, sem brèf hans sýna, híngað í landið send; eru þá menn fengnir til og stríðsskip tilbúin, sem til Íslands skyldu sendast.

10.

## Sauðafells reið Jóns biskups og sona hans. 1550[1].

(Það er sagt), þá biskup Jón hafði komið vestan frá Helgafelli og í Dali, hafi hann ekki ásett sèr að finna Daða, nè ríða heim til Sauðafells, en þá hann kom á eyrarnar fyrir neðan Sauðafell, hafi svo sem verið kippt í tauminn á hestinum hans, biskupsins, og snúið hestinum heim að Sauðafelli, og það hafi hann virt og upp tekið svo sem *omen*, að hann mundi heim til Sauðafells eiga að ríða, hvað hann þá og af sneri. Þessa mun autor síra Ólafur, sonur Erlends prests Pálssonar[2], hver Erlendur þá var með biskup Jóni, hans handgenginn maður, ráðvandur og sannorður, hèlt Breiðabólstað í Vesturhópi nú á mínum dögum, sem nú heldur síra Ólafur sonur hans. Hann tóku þeir Axel Juul að sèr, og komu honum, þeim Erlendi, í skóla til Björgvin. — Það hefir verið *malus genius*, sem þá kipti í tauminn á hestinum, þegar biskup ætlaði hjá að ríða.

---

Um Sauðafells reið[3].

Frá Helgafelli ríður biskup Jón og synir hans tveir, síra

1) eptir annáls ágripi síra Arngríms Jónssonar á Melstað, rituðu 1643. — Síra Arngrímur hefir einnig þekkt Biskupa-annála Jóns prests Egilssonar, og kallar hann það rit Continuationem (ɔ: cont. Húngurvöku); þar segir hann ekki sè sagt frá því sem hèr stendur („quod sequitur, non habet Continuatio").

2) síra Erlendur Pálsson, prestur á Breiðabólstað 1571 til 1601 og enda lengur; sonur hans og eptirmaður síra Ólafur Erlendsson, næstur honum, † 1650.

3) eptir handritinu í Rasks safni Nr. 52 í 4to, bls. 17—20; sbr. Annál. Björns á Skarðsá 1550. I, 168—172.

Björn og Ari, í Breiðafjarðardali til Sauðafells; þar hafði Daði Guðmundsson bú, en sat í Snóksdal; vildi biskup Jón gjöra búið upptækt fyrir Daða, því hann væri í banni og eigi fjár síns ráðandi, fyr en úr því væri leystur af sèr eður páfanum í Róm.

Svo er mælt, að Daði hafi riðið til fundar við þá feðga að Sauðafelli með lxxx menn, og bauð biskup Jóni sættir, og eiga kvitta fjár upptekt að Hvammi og Sauðafelli, og svo vildi hann forðast mótgjörðir við biskupinn, ef þeir skildu þá vel. Þá mælti Björn prestur og prófastur: „Nú er vel boðið, faðir minn!" — Biskup svaraði: „Ertu hræddur, Björn frændi?" — „Nei herra", kvað sira Björn, „en um fleira er að hugsa en ákefð eina". — Daði sagði þá: „Sè svo, ekki náist sættir, skulu þið sjá mig og pilta mina innan skamms hèr á Sauðafelli". Svo reið hann burt, og sópaði að sèr mönnum, kom svo aptur með fjölmenni, og voru þar með skyttur nokkrar; er svo mælt, þeir hafi allir tvimennt neðan eptir dalnum, svo minna skyldi sýnast liðið, og hafi svo hálfu fleiri verið mennirnir en hestarnir. Biskup og þeir feðgar voru þar fyrir, og var lið þeirra ekki mart að norðan, heldur var þar með þeim mannflokkur Borgfirðínga; talaði Ari við föður sinn, að ekki væri mart þeirra lið og eiginlegra manna, því vildi hann senda norður eptir fólki, ef hann vildi ei undan snúa; en biskup sagði: Borgfirðíngar sínir dygði lengi vel. Daði kom þá heim með lið sitt, og stigu af hestum sínum, en biskupsfólkið var í kirkjugarðinum. Daði sagði þá, að hann skyldi enga óhlutvendni eða árásir gjöra þeim sem frá gengi, og ekki fyllti þann flokk að ræna fè sínu og faungum, með fleirum orðum, er hann þar um talaði, að menn skyldu um þenkja hvað eptir kæmi eður koma mundi. Eptir þetta gengu Borgfirðíngar úr kirkjugarðinum og vildu taka ráð sitt, hvað bezt væri, og hugðu eí mundi árásin svo fljótt verða af flokki Daða. Þá bjóst flokkur Daða manna til áhlaups, og var þá þunnskipað í garðinum kirkjunnar, en garðurinn næsta víður og ekki vel hár sumstaðar.

Mælt er með biskup Jóni hafi verið einn sá maður, er Gísli hèt og var Finnbogason, karlmenni mikið, og hèlt hann á byssu, og sagði til biskups: „Herra, skal eg skjóta til Daða? eg sè hann með rauða fjöður í hatti, má vera eg geti hann

nú vel hitt". — „Ekki skaltu skjóta", sagði biskup. — „Þá ber eg mig að láta þá vita það, eg hafi getað hitt hann", sagði Gísli, og skaut þá burt framan af fjöðrinni. Gísli þessi var móður-móður-faðir herra Þorláks Skúlasonar.

Menn Daða hjuggu þá og lögðu til biskups manna, en liðsmunur var mikill og bárust sár á norðan menn; komust þá Daða menn í garðinn, hinir hrukku frá; fór biskup Jón þá í kirkjuna og innar að altari, þar voru breiddir fyrir hann þófar, því þá var skotið á framþilið, og margir menn fengu þá stóra áverka. Þá gáfu menn biskups upp vörnina, og gengu til griða með handsali við Daða; en Borgfirðíngar höfðu riðið í burt um þann tíma, og gáfu sig aldrei inn í garðinn aptur, þar slagið varð. Síðan var biskup Jón handtekinn og synir hans, síra Björn og Ari lögmaður, fluttir svo til Snóksdals og þar sterklega varðveittir, en norðan menn riðu leið sína heim, hver eptir því sem fær var fyrir sára sakir.

11.

## Um aftöku biskups Jóns og sona hans[1].

Eptir dóm Orms Sturlusonar hafði Christjan skrifari þá feðga þrjá með sèr burt úr Snóksdal, riðu þeir suður um Borgarfjörð og fylgdi Daði Guðmundsson með, og þar með sá danski skrifari, og óttaðist hann þeirra mundi vitjað að norðan, lèt þá því ei fara til Bessastaða, heldur færði hann þá í Skálholt, og þá þar var talað um þeirra varðhald, sagði hann, það öxin og gröfin geymdi þá bezt, og var mjög á því, þeir væri strax líflátnir. Þetta ráðslag, hvað gjöra skyldi við biskup Jón og sonu hans, síra Björn og Ara, var haldið í Skálholti um allra heilagra messu, og eru tvennar sagnir og meiníngar um það, hvort þar hafi gengið endílegur dauðadómur yfir þeim, áður líflátnir voru. . .[2].

---

1) Eptir handritinu í safni Rasks, Nr. 52, 4to, bls. 31—35; sbr. Annál. Björns á Skarðsá, 1550. I, 171.

2) 52 setur hèr inn „Sakargiptir Christjans skrifara". Þar eptir fylgir þessi athugagrein: „Hèr vantar um fángelsisins ásigkomulag sèrhvers þeirra, því sinn var í hverju eyðihúsi innan staðar, og um sèrhvers þeirra háttu, breytni, bænagjörð og orð, hvað þó allt skal hafa verið markverðugt

Eptir þetta voru þeir biskup Jón og synir hans, Ari og síra Björn, af teknir í Skálholti. Og er svo talað, þá biskup Jón var út leiddur hafi hann sèð fyrir sèr norðlenzkan mann, einn af þeirra mönnum, og sagt til hans: „þar eg skal nú bjóða góða nátt þessari veröldu, en kanna aðra, með öðrum helgum mönnum, þá ber þú norður kveðju mína vinum mínum og vandamönnum, sèrdeilis síra Sigurði dóttur minni og þórunni syni mínum"; — og með það gaf hann öllum orð með grátlegri rödd, krossaði sig og kraup á hnè og sagði: „In manus tuas etc."; tók af sèr nátthúfuna og gaf hana Daða Guðmundssyni, sem þar var ei alllángt frá; en af hverju vinahjarta biskup hafi þetta gjört, eða hvort Daða hafi batnað þarvið kvilli sinn, má hver til geta sem vill. Biskup bauð Daða að leysa hann úr banni; en Daði svaraði: „þú sèr ekki meira bann á mèr en þèr".

[1] Hestamaður Ara lögmanns skal hafa með fylgt, og fáir aðrir, allt í Skálholt, og er mælt Ari hafi komið boðum til hans, að hafa við hest sinn þá út væri gengið, þegar þeir aflífast ættu, og svo gjörði maðurinn. Ari sá hestinn, því hann var auðkendur fyrir vaxtar sakir og atgjörfi, og hljóp Ari úr flokknum að hestinum og síðan á bak í einu kasti, hýddi hann þá fæti í hestinn, en hesturinn hnaus[2] þá áfram, því heptíngurinn var ekki af tekinn.

þessa vísu skal biskup Jón hafa kveðið þá Ari stökk á bak:

---

og frásagna vert". — „Orðaskil þeirra feðga hafa ei svo öllum borizt, þá þeir voru af teknir, hver vèr meinum þó allgóð verið hafa, en þó ófeilin uppá karlmannlega vísu og hreysti", Ann. Björns, og hefir hann ekki aðrar frásögur um orð þeirra feðga, en svar Ara til Kristjáns skrifara. (Ann. I, 174. 176).

1) Frásögn þessi sýnist vera blönduð málum; ef nokkuð tilhæfi er til hennar, þá sýnist betur eiga við, að hún hafi orðið í Borgarfirði þegar þeir voru fluttir suður feðgar, og sumir hafa sögu áþekka þessari um það (bls. 323). Vísan gæti þá verið ort. — Í annáls-ágripi sira Arngrims á Melstað (1613) er saga þessi hèrumbil eins orðuð, en vísan er hvorki þar nè hjá Birni á Skarðsá, og ekki nema í 52 svo vèr höfum fundið.

2) hnaut, Arngr.; hraut, Ann.

Eg held þann ríða úr hlaðinu bezt,
sem harmar engir svæfa;
hamíngjan fylgir honum á hest,
heldr í tauminn gæfa.

Stökk þá Ari af baki og aptur í veg til mannflokksins, og voru þeir þá komnir á leið nokkrir að vitja hans, og sagðist Ari hafa gjört það til sýnis, en ei það sig lángað hafi frá föður sínum og bróður; var þá gengið til aftökustaðarins.

---

[1]Mælt er, Ari hafi á föstudags morguninn, þann er var hinn sjöundi Novembris mánaðar . . . beðið Íngibjörgu, konu Marteins biskups, að láta sig fá hreina skyrtu, en hún hafi synjað, og kallað, að hann hefði nú ei fyrir öðrum að skarta en moldinni.

---

[2]Á föstudaginn um sólar uppkomu var Ari fyrst út leiddur; þá hann gekk út úr prestastofunni, mælti hann: „hèðan mun margur göfugur út gánga". Það hefir þókzt rætast síðan. Og er hann gekk lengra fram, sagði hann: „Nauðugur gekk eg til þessa leiks, en þó skal eg nú viljugur út gánga, og vildi eg að kálfshjartað úr síra Sigurði bróður mínum væri komið í mig, en mitt hjarta í hann aptur". Þá hann kom að höggstokknum, sagði hann: „Skal hèr nú staðar nema, minn herra?" „Já", sagði Christjan skrifari. — Ari mælti: „Svei þèr, þinn prakkari, aldrei kallaði eg þig minn herra, heldur talaði eg til míns drottins". Sagt er, að honum hafi þá verið boðið líf, ef hann lofaði að hefna aldrei þessa, en því hafi hann eigi viljað lofa. Hann gekk til fyrirmannanna flestra, kvaddi þá og sagði: „gef mèr til, Marteinn!" — „gef mèr til, Daði!" — og við Jón Halldórsson sagði hann, því þeir höfðu verið vinir: „Eigi þenkti eg þú mundir sitja yfir höfuðsvörðum mínum". Jón kveðst þess nú eigi sjálfráður.

1) Árbæk. Espól. IV, 70.
2) Biskupa æfir síra Jóns Halldórssonar.

## 12.

## Um hefndirnar eptir Jón biskup Arason og sonu hans[1].

Það hefir fyrir satt haldið verið og svo sagt, að hústrúin Þórunn, Jóns biskups Arasonar dóttir, hafi hefnda leitað eptir föður sinn og bræður, og hafi hún keypt af útróðrarmönnum norðlenzkum að gjöra upphlaup, og drepa XIV danska menn á Bessastöðum.

Það er og mælt, að hún Þórunn sjálf hafi riðið um vetrinn síðla suður, og setið uppyfir sjálf á meðan þrælar tveir nudduðu eður söguðu höfuðið af Christjáni skrifara, með hlandkjaralds eður kopps botni, honum til svívirðíngar. — En heyrzt hefir, að Daði úr Snóksdal hafi eptir viðskipti og skilnað þeirra biskups Jóns Arasonar orðið fyrir þúngum og illum sjúkleika, svo hold hans hefði rotnað og dottið í stykkjum af honum lifandi. Sumir segja, að ormar lifandi hafi lifnað og kviknað í hans lífi, og í þeim eymdum hafi hann útaf dáið.

## 13.

## Um vígið á Meyjasæti (?) við Hofmannaflöt.

[2]Mælt er, að Jón biskup Arason á Hólum hafi hælt vígi á stöplinum fyrir ofan Hofmannaflöt, á móts við Draugaháls, Goðaskarð og Þríhamra, næst Ármannsfelli fyrir ofan alþíng. Þar er nóg hnefagrjót uppi, en ei vatn, nema í leirflagi.

## 14.

## Vottur um píslarvætti Jóns biskups Arasonar og sona hans.

[3]Þegar að biskupinn Magister Jón Vigfússon var vígður í Skálholti af Magister Brynjólfi (1674), þá gjörði hann ágæta veizlu, og var af trúverðugum sagt, að biskup Jón hefði borið

---

1) grein þessi er í ágripi síra Arngríms (1643).

2) grein þessi er eptir Jón Ólafsson frá Grunnavík, í Addit. Bibl. Un. Hafn. Nr. 44, bls. 83.

3) eptir Annál Gísla Þorkelssonar á Setbergi, handriti í konúngs bókasafni Thott. Nr. 966 í Fol. (eptir Oddi á Fitjum Eiríkssyni?).

út ljós í döggu og stormi, hver ei sloknuðu, til að votta þarmeð um píslarvætti Jóns biskups Arasonar og hans sona, sem af teknir voru í Skálholti. Svo var undir skilið, að ef ljósin sloknuðu eigi, þá hefði biskupinn og synir hans saklausir líflátnir verið, og þetta gjörðist í fyrskrifaðri veizlu.

## 15.

## Um tiltektir konúngsmanna eptir siðaskiptin.

[1]Virti sálugi Assessor Árni (Magnússon) svo þetta allt fargan þeirra Bessastaðamanna (að taka jarðagóz undir sig eða konúng eptir siðaskiptin), sem þeir hafi viljað stunda að taka allan kjark og þrótt úr þeirri íslenzku nation, til að gjöra þá að þrælum hinnar dönsku þjóðar, og maktarlausa til að hrinda þeirra þrældóms oki af hálsi sèr...

Það studdi og hvað einna mest landsins ógæfu, að eptir reformationstímana voru duglausir eða duglitlir biskupar til að standa uppá rètt hinna andlegu: Gizur, og þó enn heldur Gísli og Marteinn... Oddur og hans sonur Gísli máttu þá þegja. En fyrir norðan Ólafur Hjaltason var og ei minni heigull í þvílíku, því sèð hefi eg brèf hans... og segir þar í að: „postularnir hafi ei átt eina jarðarþúfu". En sá merkilegi biskup Guðbrandur... útverkaði það, að vissar jarðir voru lagðar til stólsins.

## 16.

## Um göfugt afsprengi Jóns biskups Arasonar.

[2]Jón biskup átti öll börn sín með Helgu Sigurðardóttur, og varð hann mjög kynsæll. Hann hafði dreymt það í Skálholti, skömmu fyrir andlát sitt, að hann legði glófa sinn á altarið í Skálholts kirkju og skildi þar eptir. Það rèði prestur nokkur skynsamur þannig, að fimm biskupar mundu frá honum koma, eptir fíngratölunni, og eigi ólíkt allir í Skálholti; eru og frá

---

1) Jón Ólafsson frá Grunnavík í orðabók sinni á Ísl. og Latínu (Addit. Nr. 40 í Fol.) við orð. klaustur.

2) Espól. Árb. IV, 73 eptir síra Jóni Halldórssyni í æfi Jóns biskups, sbr. Rask 52, bls. 97—114.

honum komnir þar: Gísli Oddsson og meistari Brynjólfur í fjórða lið, meistari þórður í sjötta lið og meistari Jón Árnason í fimta lið, en doktor Hannes í áttunda lið; en þrír biskupar á Hólum, assessor Árni og margir lögmenn og annað stórmenni.

---

[1]Margir herrar og höfðíngjar þessa lands hafa komið af Jóni biskupi Arasyni og hans afsprengi síðan, sèrdeilis biskupar þessa lands í Skálholti og á Hólum.

Biskupinn herra Guðbrandur þorláksson, ásamt hans dóttursonur, biskup herra þorlákur Skúlason, voru komnir af Hallgrími Sveinbjarnarsyni, en bróðir Hallgríms, Sigurður, var faðir Helgu, kvinnu Jóns biskups.

Biskupinn herra Oddur Einarsson í Skálholti var skyldur Jóni biskupi Arasyni; hann var kominn af ábóta Einari Ísleifssyni, en Jón biskup af systur Einars ábóta, þóru Ísleifsdóttur. Herra Gísli biskup, sonur herra Odds, var kominn af syni biskups Jóns, síra Birni. Biskupinn Mag. Brynjólfur Sveinsson af Ara lögmanni, syni Jóns biskups. Herra Gísli þorláksson, biskup á Hólum, og Mag. þórður þorláksson, biskup í Skálholti, þeir eru komnir af Helgu Jónsdóttur, sem var dóttir biskups Jóns, hver eð eignaðist Eyjólf bónda Einarsson í Dal. Af sömu Helgu Jónsdóttur var og kominn Mag. Jón Vigfússon, biskup á Hólum. — Biskupinn Mag. Björn þorleifsson er kominn af síra Magnúsi á Grenjaðarstað, syni Jóns biskups Arasonar.

Húsfrúr margra þessara biskupa eru og komnar af biskup Jóni og hans niðjum, og margt annað göfugt fólk hèr á landi, sem og lögmenn þessa lands: herra Gísli Hákonarson, herra Árni Oddsson, herra Magnús Björnsson, og hans dóttursonur herra Magnús Jónsson, og margir fleiri.

---

1) eptir handritinu í Rasks safni Nr. 52 í 4to, bls. 112—113.

[1]þessir feðgar (biskup Jón, síra Björn og Ari) voru merkilegir menn í mörgum greinum, og í öllum manndómlegum háttum vel á sig komnir; er og margt afburðar fólk og göfugt hèr á landi af þeim komið, bæði karla og kvenna. Biskup Jón hefir og verið hèr hið bezta skáld á hans dögum. Hann orti þann merkilega kveðlíng, er hann nefndi Píslargrát, um pínuna drottins vors Jesu Christi, og er það kvæði eptir ritníngunni rètt ómeingað, án allrar hjátrúar, er þeir segja biskup Jón hafi kveðið skamt fyrir sinn dauða; item hefir hann kveðið það kvæði, er menn kalla Davíðsdikt, er í þeirri prentuðu vísnabók stendur; hann hefir og ort margar aðrar vísur, og er þetta ein, er hann mælti fram einn vetur, er menn komu til hans, og hann þóttist þá ei mjöð eður munngát hafa fyrir hendi, að veita sínum gestum:

Til hefi'eg tafl með spilum,
tölur, sem leggi og völur,
skák með sköfnum hrókum
skjótt, og kotru hornótta;
hörpu heldur snarpa
hresta með girnis neistum,
phón með fögrum sóni
fengið til lykla með strengjum.

Ari hans son var höfðíngi mikill og mjög vitur maður til lögmáls[2]; hann átti Halldóru, dóttur þorleifs Grímssonar á Möðruvöllum; þau áttu tvær dætur, Helgu og þóru. þóra giptist Jóni Sigurðssyni í Kristsnesi[3], norður í Eyjafirði; Helga Páli Jónssyni á Reykhólum, sýslumanni yfir Ísafjarðar sýslu. þeirra börn: Pètur Pálsson að Staðarhóli, hans son Bjarni Pètursson;

---

1) þessi grein er með hendi Árna Magnússonar í Nr. 236 í 4to í safni hans, bls. 119—122; hann kallar hana „interpoleraðar relationes" (sst. 123—124) og eru annálar Björns á Skarðsá undirstaða til hennar (Ann. Björns I, 176—178), svo hún er tekin nær orðrètt eptir Birni.

2) þannig leiðrètt, sbr. Ann. Björns í athgr.; lögmanns, 236; lögmanns kosinn, Ann. Björns í textanum.

3) þannig 236 og Ann. Björns, en er þó líklega rángt. Í ættartölubókum stendur (sbr. bls. 365) að bóndi þóru hafi heitið Sigurður þórðarson, aðrir segja Sigurður þorbergsson Bessasonar). þorbergur Bessason var sýslumaður í Eyjafirði 1548—1556) en sonur þeirra Jón í Kristnesi.

Elen Pálsdóttir átti Björn Benediktsson, þeirra son Magnús Björnsson lögmaður, en dætur Sigríður og Guðrún. Ragneiður Pálsdóttir átti fyrst Gizur Þorláksson, þeirra synir Jón og Magnús. Síðan giptist hún aptur síra Sveini Símonarsyni að Holti í Önundarfirði á Vestfjörðum; þeirra synir síra Gizur á Álftamýri og Magister Brynjólfur Sveinsson, biskup í Skálholti. Fleiri syni og dætur átti biskup Jón, sem göfugt fólk er útaf komið.

Síra Björn var og mannval mikið, hann átti mörg börn eptir og voru þau úng. Þeirra móðir var Steinunn, dóttir Jóns bónda frá Svalbarði, Magnússonar, Þorkels sonar prests, Guðbjartssonar. Steinunn var kvennval mikið. Þeirra synir Jón, Magnús, Teitur, Árni og Bjarni; dætur Ragneiður[1], Halldóra.

---

V.

## SAMTÍDA SKÝRSLUR OG FRÁSAGNIR

### UM ATHAFNIR JÓNS BISKUPS ARASONAR OG SONA HANS.

1. Brèf frá sonum Jóns biskups, síra Birni og Ara, til kansellera konúngsins Jóhanns Frijs, um framferðir mótstöðumanna þeirra, Marteins biskups og annara. Hólum á Laurentiusmessu 10. August 1550[2].

Náð og friður Jesu Christi sè með yður, herra Johann Frijs, míns náðugasta herra kóngsins Canziler.

---

1) Þann. leiðr., og svo hafa Annál. Björns (I, 178), sbr. bls. 366; nafnið sannast og á því, að kona Jóns á Svalbarði hèt Ragneiður (Ragneiður á rauðum sokkum); Ragnhildur, 236; Þóra, b. v. 236, og er dregið út aptur.

2) eptir handritinu í safni Árna Magnússonar, Nr. 234 í 4to, bls. 495—498; sbr. Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. II, 739—742 (með latinskri útleggíngu).

Við viljum yður vitanligt gjöra þá stóru tvídrægni og óvilja, sem hèr hefir verið nú í Íslandi, hvernig það kemur til, og það sem sannleikur skal með fundinn verða.

Í fyrstu höfum við með verið, þá fángaður var Marteinn Einarsson eptir dómi, fyrir sínar stóru ódygðir, sem hann gjörði hèr í landið.

Fyrst hljóp þessi Marteinn úr landinu með fölskum brèfum, sem hann lèt skrifa uppá XXIV kennimenn, að hann væri kjörinn að vera biskup í Skálholti, og þeir sem hann kjöru voru ekki meir en vj eða viij prestmenn, öllu landinu í móti og svo kóngsins rètti. Hèr ofan á lèt hann taka vort góz, og vildi forráða okkarn föður biskup Jón, og lèt hann og alla hans dóma og gjörnínga ónýta gjöra. Hèr til gaf hann Lafranz Múla penínga, að hann skyldi styrkja hann til svoddan vondra gjörnínga.

Item hefir sá hinn sami Lafrans Múli farið með órètti og lygum úr landinu, og inn aptur í landið, og látið mikið órèttferðugt góz og peninga eptir í landinu, eptir því sem dómur hefir áður á hann fallið á alþíngi. Eg trúi að hann hefði alldrei með lífinu komizt af landinu, hefði hann ekki notið vors náðuga herra Christians Fridrichssonar. Svo og eru hèðan hlaupnir nokkrir óærlegir menn með skipum af landinu, sem í fyrstu nefnist Pètur Einarsson, Brynjólfur Jónsson, Gunnlaugur Árnason múnkur, Ólafur Hjaltason. Þessir allir hafa fyrir sin vond orð, þjófnað og guðlastan, hlaupið út af landinu.

Nú höfum við skrifað yður rèttan sannleika hèr af, svo sem við viljum andsvara fyrir guði og mönnum; og ekki mundu þessir menn svo mörg kóngsbréf inn flytja í landið frá vorum náðugasta herra kónginum, ef þèr þekktuð þessa menn svo sem vèr Íslenzkir þekkjum þá; og vildu þèr svo vel gjöra og senda híngað einn mann, sem trúr og forstandigur væri, sem með sannleika mætti undirvísa náðugasta herra kónginum og yður, hver falskleiki og órèttur að hèr gengur í landinu, og nú allra mest, síðan Lafrans Múli skyldi fóveti vera, þvíað sá hinn sami Lassi Múli gjörir öngvan reikníngskap af mörgum eignum og gózum kóngsins, sem hèr hafa kónginum dæmdar verið, og margar þúngar sakir standa hèr og hafa lánga tíma

staðið ódæmdar, og sá hinn sami Lafrans Múli tekur þar fyrir Jóachimsdali uppá sína æru og trú, þar sem kóngurinn og þèr lítið af vitið.

Þar fyrir biðjum vèr yður fyrir guðs skyld, að kóngurinn og þèr trúið ekki þessara manna dárlegum lygum, því þèr finnið sannindin, sem vèr segjum yður uppá okkar trú og æru, að biskupinn Jón, okkar faðir, og við viljum vera trúir og hollir þènarar náðugasta herra kóng Christjans Fridrichs sonar og svo hans únga syni[1] Friderich styrkja til náðugs herra, svo að vèr mættum hafa náð og frið, og svo viljum vèr halda christilega trú og það helga evangelion, svo sem það hefir alla vega i Íslandi prèdikað verið síðan að sá náðugasti herra kóngurinn þar af skrifaði og skipaði.

Item biðjum vèr yður fyrir guðs skuld, að vèr mættum fá eitt opið kóngsbrèf svo hljóðanda, að lögmaðurinn og landshöfðíngjarnir með öllum almúganum hèr í landið[2] mætti sá biskup vera, að kjörinn yrði af öllu landsfólki, andlegum og veraldlegum, á alþíngi, og sverja þar kónginum trúan eið fyrir hans fóvita, og mættum með og eptir Norges lög ríki og rètti haldnir verða. Þar fyrir viljum við borgun setja, að þetta brèf skal leyst verða með peníngum svo að yður skal það gleðja, og lúkast í hendur yðrum umboðsmanni, sem það brèf ber og færir, og gjarnan viljum vèr gjöra yðarn vilja, það þèr viljeð okkur til skrifa, og til hjálpar vera[3], og öllum öðrum landhlaupurum, sem fyrir yður hafa komið hèðan af landinu, sem okkrum föður og oss eru mótfallnir.

En guð gefi oss öllum christilegum að vera.

Og að þèr vilduð oss tilskrifa eitt rètt andsvar með þeim hinum sama, sem yður þetta brèf færir, sem oss mætti til hjálpar og bata koma, sem við biðjum.

Og til meiri vitnisburðar og sannleika hèr um set eg Björn prestur Jónsson og Ari Jónsson okkar innsigli með biskups Jóns innsigli fyrir þetta brèf.

Gjört með góðra ærlegra manna ráði á Hólum í Hjaltadal í Íslandi, in die Laurentii anno 1550.

---

1—3) á þessum stöðum er án efa nokkuð afbakað eða úr fallið.

2. Dómur tólf manna, samþykktur af Ormi lögmanni Sturlusyni og Kristjáni skrifara, umboðsmanni konúngs, að Jón biskup Arason og synir hans Björn og Ari sè rèttilega fángaðir, og skuli mál þeirra gánga til næsta Öxarárþíngs. Snóksdal fimtudaginn næsta fyrir Símons messu 23. Oktobr. 1550[1].

Öllum þeim góðum mönnum, sem þetta brèf sjá eður heyra, sendum vær: Þorleifur Einarsson, Oddur Tumásson, Guðmundur Gíslason, Jón Grímsson, svarnir lögrèttumenn, Brandur Einarsson, Steinþór Finnsson, Erlendur Jónsson, Jón Ólafsson, Egill Jónsson, Illugi Sveinsson, Þorvaldur Einarsson, Þorsteinn Oddsson, kveðju guðs og vora.

Kunnugt gjörandi, að þá liðið var frá híngaðburði vors herra Jesu Christi m. d. l. ár, vorum vèr í dóm nefndir í Snóksdal í Breiðafjarðardölum, á fimtudaginn næstan fyrir Símonsmessu, af Ormi Sturlasyni, lögmanni norðan og vestan á Íslandi, sömuleiðis kóngsins umboðsmanni í Þórness þíngi, til að skoða og rannsaka og fullnaðar dóms atkvæði á að leggja um þá menn, sem Daði bóndi Guðmundsson hafði til fánga tekið eptir kóngsins náðarbrèfi og skipan, sem var biskup Jón Arason og hans synir Björn og Ari.

Í fyrstu grein kom þar fram fyrir oss, áðurgreinda dómsmenn, tvö kóngsins náðarbrèf með heilum og ósköddum hans náðar innsiglum áþrykktum, er svo hljóðandi voru, að náðugasti herra kóngurinn lýsti þessa menn útlæga og friðlausa fyrir öllum sínum trúlegum þènurum.

Sömuleiðis kom þar og fram kóngsins náðarbrèf með hans náðar áþrykktu innsigli, og svo hljóðandi var, að hans náð og herradómur og kóngleg Majestat tilskipaði Daða bónda Guðmundssyni, undir sína hlýðni, að hann skyldi fánga fyrgreinda menn, hvar hann kynni þeim að ná.

Í annari grein beiddist bóndinn Daði þar dóms á, hvað hann skyldi af þessum áðurgreindum mönnum nú gjöra,

1) eptir afskript með hendi Árna Magnússonar í handritinu Nr. 236 í 4to í safni hans, bls. 316—352; í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. II, 742—745 (með latínskri útleggingu).

eður [hverjum] í hendur fá til varðveizlu eður forsjónar til næsta Öxarár þíngs.

Hèr með vændust þessir menn brèfum og kvittunum, að þeir sögðust fyrir sèr hafa, út af kónglegu valdi útgefin.

Hèr með buðu þeir sig og appelleruðu sín mál til alþíngis, sakir þeirra kóngsins náðarbrèfa, sem þeir þóttust fyrir sèr hafa útaf kónglegu valdi.

Því, að heilags anda náð tillkallaðri og að svo prófuðu og fyrir oss komnu, dæmdum vèr fyrnefndir dómsmenn, með fullu dóms atkvæði, biskup Jón og hans syni Björn og Ara rèttilega fángaða hafa verið eptir kóngsins brèfi og alþíngis dómi.

Sömuleiðis þá dæmdum vèr Daða Guðmundsson og hans meðfylgjara saklausa vera kóngdómsins vegna, og eptir kóngsins skipan og boði gjört hafa verið.

Hèr með dæmdum vèr Daða Guðmundsson við skildan með öllu við þessa menn hèðan af. En Christjan, kóngsins umboðsmann, skyldugan við þeim að taka, og þá vel að varðveita til næsta Öxarár þíngs, með styrk og trúlegum tillögum beggja lögmanna, Orms Sturlasonar og Erlends Þorvarðssonar. Þar með leizt oss og virtist dómkirkjan í Skálholti og hennar formann, herra Martein Einarsson, skyldugan til að styrkja, svo að optnefndir menn verði vel bívaraðir til næsta Öxarár þíngs, utan kóngsins boð annað fyr til komi.

Hèr með dæmdum vèr öll þeirra brèf og skilríki skyldug að koma til alþíngis að sumri, með þeirra forsvarsmönnum, og þá mega eptir þeim skrifa opinberlega, eptir sínum vilja, svo hvað annað þeirra próf og skilríki, sem þeim má til gagns og bata koma.

En um þá menn, er til þess vildu sig hafa að veita nokkurn hernað eður ólöglegar áreiðir út af Norðlendínga fjórðúngi híngað í stiktið, og í móti landsins lögum, og kóngsins vilja og hans náðar brèfum og kónganna rèttarbótum: þá dæmdum vèr þá alla landráðamenn, eptir því sem lögmálið útvísar, og laganna rèttarbætur innihalda.

Samþykkti þenna vorn dóm áðurgreindur Ormur lögmann og Christjan skrifari, kóngsins umboðsmann, og settu sín innsigli með vorum fyrgreindra manna innsiglum fyrir þetta dómsbrèf, hvert að skrifað var í sama stað, ári og degi sem fyr segir.

3. Yfirlýsíng Orms Sturlusonar lögmanns, um framferðir Daða bónda Guðmundssonar á Sauðafelli, þegar Jón biskup Arason og synir hans, síra Björn og Ari, voru til fánga teknir. (1550)[1].

það meðkennunst eg Ormur Stullason, lögmann norðan og vestan á Íslandi, sömuleiðis kóngs umboðsmann í þórness þíngi, að eg talaði svoddan orðum uppá míns náðuga herra kóngsins Majestatis vegna, og eptir minni skyldu, og þeim eiði, er eg hafði svarið mínum guði og herra kóngi: að eg skyldi halda og gjöra hverjum manni lög og rètt eptir minni skynsemi og beztu manna ráði og tillögu, sem að eg óverðugur lögsögu yfir hefði, og sín mál fyrir mèr kærði, hvað biskup Jón Arason, Björn og Ari, það fyrir mèr kærðu og klöguðu, að Daði bóndi Guðmundsson hefði sig með ofurríki innsett í kirkjunnar vald, svo að þeir næði ekki lögum og rètti yfir hann komið (!) fyrir hans ofríki nè óhlýðni, og fyrir það misti kirkjur og kóngurinn síns rèttar.

Hèr með lýstu þeir, að minn herra kóngurinn ætti alla hans hálfa penínga, en kirkja hálfa, fyrir þær opinberlegar sakir og brot, sem þeir sögðu að hann þar til hefði, og sá dómur dandumanna útvísar, sem hann sagðist hafa látið gánga í Hvammi í Hvammssveit[2], hvað þeir sögðu að hann vildi hann ekki halda, heldur sig enn nú upptakandi, og niður þrykkjandi kóngsins rètti og kirkjunnar, viljandi sig svo undan lögum og rètti skjótande sèr (!). því sögðu þeir biskup Jón, Arí og Björn mig áðurnefndan Orm þar til skylda og krefja uppá kóngdómsins vegna, að láta hèr lög og rètt á gánga, og setja þar þíng til, dag og stað á Sauðafelli í Breiðafjarðardölum, en þeir þá lofuðu með hönd og munn á Helgafelli, að þeir skyldu til

---

1) eptir afskript Jóns Ólafssonar frá Grunnavík, í skjalasafni, sem hann kallar „Historia Lutheranismi in Islandia", handrit í 4to, bls. 114—116; sú afskript var eptir lausu blaði, með hendi síra Torfa Jónssonar í Gaulverjabæ Skjal þetta er prentað í latínskri útleggíng í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 712 not. a., en Íslenzkan er prentuð hèr í fyrsta sinn.

2) Hvammsdómur Jóns biskups, mánud. næstan eptir Mikaelsmessu (= 1. Oktbr.) 1518 er snúinn á Latínu og prentaður í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 676, not. b.

Sauðafells koma, þá eg þar þíng stefndi, og lögum fyrir sig svara, og þeim er þá vildi með lögum sækja.

Eptir lofun, bón og kröfu, þá lèt eg upp skera boð og þíng stefna á Sauðafelli, og skyldi þar þá hvorutveggi koma með sitt próf og skjal, sem þeim og þeirra málum mætti til bata koma.

En þá þeir og eg komum þar í nefndan stað og dag, en eg vildi þar þá þíng, lög og rètt gjört hafa með frómustu manna ráði, hlýddist mèr það þá ekki lög og rètt að gjöra, því áðurnefndur Daði Guðmundsson afsagði það í allan máta, að eg skyldi þar þing setja þann dag, og eptir þessi hans orð töluð gekk biskupinn til min, og sagðist leggja lög og dóm fyrir sig og sina menn, og lýsti sig undir kóngsins náð og frið; síðan bað hann mig að gefa sèr og sínum mönnum grið og frið uppá mins herra kóngsins vegna, inn til þess að lög gengi á þeirra mál, hvað eg þá svo gjörði, og svoddan orðum talandi, að eg sagðist lýsa hann, biskupinn, og hans menn undir míns herra kóngsins frið og grið, eptir því fremsta eg mætti það með lögum gjöra.

Hèr með fyrirbauð eg öllum mönnum að vekja þar víg eður vandræði, hvað Daði Guðmundsson vildi það ekki líða, heldur skipaði mèr burt frá kirkjudyrunum, þar eg vildi hafa stillt hans reiði, gángandi með sínum hermanna flokki að kirkjunni, þar biskup Jón, Björn og Ari, með sinum mönnum vorn, sèr til náðar og friðar, sömuleiðis til griða, talaði þá svo og skipaði Daði Gvendsson sinum mönnum, að þeir skyldu slá, drepa, skjóta optnefnda menn, biskup Jón Arason og Björn og Ara, og svo þeirra menn, og strax eptir þessi orð sló hann, og svo hans menn, hjuggu, skemdu og skutu optnefnda menn, svo svivirðilega brjótandi á þeim kirkjunnar frið og náðugasta herra kóngsins grið, í móti landsins lögum og rètti, þar þau svo segja, að hver hann kemst á kirkjunnar náðir, og leggur lög og dóm fyrir sig, skal friðhelgur vera undir dóm.

En hann mátti þá til fánga taka eptir náðugasta herra kóngsins brèfi án slags, því svo stóð í náðugasta herra kóngsins brèfi, að hans náð skipar að fánga hann, en hvorki slá nè drepa, og eptir þetta lèt Daði Gvendsson meðtaka það þeim til heyrði.

Og hèr eptir vil eg sverja.

4. SKÝRSLA UM, hvað CHRISTJAN SKRIFARI TALAÐI og færði til saka móti þeim feðgum, Jóni biskupi Arasyni og sonum hans, síra Birni og Ara lögmanni, daginn áður en þeir voru líflátnir í Skálholti, einnig um dauða og greptran þeirra feðga. (6. og 7. Novembr. 1550)[1].

ANNO 1550 þá talaði Christjan umboðsmaður á Bessastöðum þessi orð, öllu fólki áheyrandi í Skálholti, fimtudaginn fyrir Marteinsmessu[2].

Þèr dánumenn allir saman, sem hèr eruð saman komnir, yður gjöri eg vinsamlega kunnugt vegna kóngsins Majestat, að eg er ekki hèr kominn til nokkurs manns skaða eða fordjörfunar í nokkurn máta, heldur til hjálpar, að hver mætti öðlast það sem lögin og rèttindin útvísa og krefja, þar fyrir girnist eg af yður öllum, bæði leikum og lærðum, sem hèr nú eruð, að þèr kóngsins majestatis vegna vilið unna mèr hljóðs til nokkra orða, sem eg hefi hèr að segja, og dánumenn vilja taka þar skilníng af, og gefa þau enu beztu andsvör, sem guð gefur náðina til, svo að allt mætti komast til eins góðs enda og friðar, og að það vald, sú makt og týrannaskapur, sem hèr til hafa lánga tíma iðkað verið of mjög af landsins innbyggjurum, af biskupi Jóni og hans sonum, svo það mætti hèr eptir afleggjast og mínkast, og að guðs heilaga orð og evangelium mætti hafa hèr eptir sinn rètta framgáng, eptir því sem kóngsins Majestat og vors náðugasta Herra recess og ordinantian inniheldur.

1. Svo vitið þèr dánumenn flestir allir, að það kónglegrar Majestatis brèf, sem lesið var yfir biskup Jóni á alþíngi, anno 1548, hvert eð sama brèf hèr enn nú er sýnilegt og hljóðandi, að biskup Jón skyldi sjálfur persónulega finna hans náð, hvað hann ekki gjörði, heldur var hann hans náðar brèfi óhlýðinn, og vildi ekki finna hann, þó þann sama tíð hans náðar friðlegt,

1) eptir handriti frá 1650 eða hèrumbil, sem nú er í safni Árna Magnússonar Nr. 236 í 4to, bls. 163—175. Tölum við greinarnar er hèr bætt við.

2) þ. e. 6. Novbr. 1550, daginn áður en þeir feðgar, Jón biskup og synir hans, voru af teknir.

frjálst og náðarlegt leiðisbrèf[1], að hann skyldi hafa komið frí og frjáls fram og aptur til síns stóls óhindraður, hann og hans fylgjarar.

2. Svo eð sama, kærir vinir, vitið þèr og vel, að það kónglegrar Majestatis brèf, sem var lesið yfir biskup Jóni á alþíngi anno 49, hvert eð sama brèf hèr enn nú er, og hljóðar, að kóngleg Majestat, vor náðugasti herra, gjörir biskup Jón friðlausan og útlægan, og alla friðlausa með biskup Jóni, sem honum eptir þenna dag hjálplegir eður meðfylgjandi eru í nokkurn máta, hvað eg trúi að margur fátækur maður hafi sett sig í móti þeirra kóngi og herra, fyrir ekki annað, en biskup Jón hefir lofað þeim það hann aldrei kunni að halda, og hefir fært svo margan fátækan mann í stóran skaða þar með, utan að kóngsins Majestat vili þá náða.

3. Sömuleiðis, þèr dánumenn, á þessu árinu, sem nú yfir oss er, anno L, sendi hann ogsvo hans náðarbrèf hèr í landið, hvert brèf hèr ogsvo nú er, ef þess þörf gjörist, er svo hljóðar, að Daði Guðmundsson með *sína* vini og kónglegrar Majestatis trúa þènara tilstyrk skyldi grípa og fánga fyrnefndan biskup Jón og hans syni, og svo bívara þá, að þeir framar meir engan skaða gjöri eður fordjarfan í nokkurn máta.

4. Svo og, kærir vinir, er yður öllum kunnugt, hversu að biskup Jón og hans synir hafa með ofurvaldi áfallið þann góða mann, herra Martein Einarsson, útvalinn biskup til Skálholts, á sínum eigin garði, og með valdi burtfært hann með sèr, í móti sjálfs hans vilja, og haldið hann fángaðan tí daga miður en eitt ár, frá hans bífalníngu og embætti, sem konúngleg Majestat hafði honum bífalað og til trúað, hvað eg fyrir mig og minn part kann ekki annað til að segja, en vera drottins svik eptir þessum landslögum, fyrir utan allt annað, sem þeir hafa tekið og rænt frá honum, bæði hesta og annað, í móti öllum rètti og skjallegheitum.

5. Og framar meir gjöri eg sèrhverjum viturlegt, að þeir um hugsi, hvernig að biskup Jón og hans synir hafa haldið og enn nú halda kónglegrar Majestatis rèttindi, bæði skatta og tiundir og skiptolla hjá sèr, hartnær nú svosem í

1) vantar við: „væri honum veitt", eða þvílíkt, þó eyðulaust.

þrjú ár í kríng, bæði af Húnavatns þíngs sýslu og Eyjafjarðar sýslu, Skagafjarðar sýslu, Norðsýslu og Flatey, sem vel er upp skrifað hvernig það hefir farið ár eptir ár, og ei heldur kónglegrar Majestatis fóeti Lafrans Mule mátti nú í sumar engan máta byggja þessar sýslur fyrir þeim, eður nokkru öðru að ráðstafa kónglegrar Majestatis vegna, og dramba og segja, að þeir hafi ekki með neinn danskan kóng að gjöra, hvert að eg ekki réttara veit fyrir guði, en að það reiknist níðíngsverk eð mesta, að ráða svo land og þegna undan þeirra réttum herra og kóngi.

6. Svo er og mörgum dánumönnum vitnrlegt, hvernig að þeir biskup Jón og hans synir hafi skikkað sèr í móti þessum landsins innfæddum börnum, sem hafa til kostað og vogað sjálfum sèr yfir sjó og salt vatn, að sigla fyrir vorn náðugasta herra fyrir sín rètt erendi, og margir af þeim hafa fengið fyrir sína lánga reisu og ómak kónglegrar Majestatis brèf, sumir uppá klaustur, en sumir uppá kóngsins beneficia, hver enu sömu kónglegrar Majestatis brèf ekki máttu lengur duga eður haldast við magt í nokkurn máta, en svo snart, sem þau komu hèr í landið, hefir biskup Jón og hans synir hafa gjört kóngsins brèf ónýt og óhaldanda, og margur fátækur maður hefir haft sína lánga reisu fyrir ekkert og forgefins.

7. Og sömuleiðis hefir biskup Jón og hans synir tekið undir sig kónglegrar Majestatis bífalníngar, klausturjarðir og önnur konúngleg beneficia, sèrdeilis Bjarnanes, Odda stað, Hóla og svo Fjarðarhorn í Hrútafirði, og sömuleiðis Fljótstúngu, sem þorsteinn þorsteinsson[1] braut af sèr undir kónginn með sinni systur, er hann lá, með miklum öðrum kónglegrar Majestatis rèttindum, sem þeir alltjafnt hafa undir sig dregið með rètt og órètt, svo að það er nú komið hartnær svo lángt, að hver maður sem helzt ríður eða ferðast í Íslandi, og einn spyr annan að: „hver á þá jörð þar liggur?" — „Biskup Jón, Biskup Jón!" — „Hver á þá jörð þar liggur?" — „Ari Jónsson, Ari Jónsson!" — „Hver á þá jörð þar liggur?" — „síra Björn Jónsson", — og ekki annað; haf(a) svo nær dregið allt hálft landið undir sig, bæði fyrir kirkju og kóngi, fyrir utan hvað

1) rètt. þórðarson.

annað, sem þeir hafa plágað og þrykkt aðra landsins innbyggjara með rètt og órètt, svo að þeir eru orðnir ríkir, en margir fátækir þar í mót, og eru komnir á húsgáng bæði með hustrú og börn, svo að guð almáttugur má þeim myskun veita. Og margir skilvísir dánumenn vita vel í sannleika, hvernig að biskup Jón er kominn til biskupsdómsins, ef að þeir vilja og þora að segja hvernig það er. Svo og hvernig nú í sumar var við margan fátækan mann, bæði leikan og lærðan, að þeir neyðist til að fyrirláta hús og heimili, hustrú og börn, og sigla út af landinu, ekki fyrir annað en fyrir biskups Jóns og hans sona ofríki, og ekki þorðu að bíða hèr í þeirra eigin móðurlandi, heldur urðu að sigla í önnur lönd, þeim til mikils skaða og fordjörfunar, sem hver dánumann kann vel að skilja, ekki fyrir annað en biskups Jóns og hans sona heitíngar og umsátur, svo sem þeir alltjafnt [hafa] verið og ennú eru, ekki annað: en það allt, sem kóngleg Majestat vildi hafa með frið, þar hafa biskup Jón og hans synir alltjafnt stundað að vilja gjöra ófrið, sem opinbert er í einn og annan máta. þarfyrir er það ráðlegt hverjum manni, bæði leikum og lærðum, til að leggja eð bezta og ínn(i)legasta, sem þeim mögulegt er, að svoddan týrannar og valdsmenn mætti blífa straffaðir eptir lögum, sem svo ótilheyrilega skikka sèr við ríka og fátæka, og engan óttast, hvorki kóng nè kall, eða nokkurn yfirboðara, og hræðast hvorki guð nè menn, sem opinbert er og augljóst. þar með ogsvo eru og hafa verið rèttilegir mótstandarar guðs orða, svo að það kann aldrei að fá sinn framgáng svo lengi sem þeir mega svo ráða og regera, hvað að er ekki að stríða í móti mönnum, heldur í móti guði sjálfum, sem hver rèttkristinn í sínum huga kann rèttilega að hugsa.

8. Framarmeir nú, síðan að biskup Jón og hans synir eru nú fángaðir og yfirkomnir eptir kónglegrar Majestatis brèfi og bífalníng, þá er enn nú hver maður hræddur fyrir þeim, leikur og lærður, sem fyrir fjandanum í helvíti, helzt fyrir það, að þeir opinberlega með útþryktum orðum hafa sagt fyrir þeim í dánumanna náveru, að ef þeir verða lausir aptur, skuli þeir þar eptir vera og blífa nídublað verri, en þeir nokkurn tíma hafa verið áður, engum undanteknum, hvorki innlenzkum nè útlenzkum; sem vel opinbert er nú í sumar, að biskup Jón með

sínum sonum skrifaði mèr til, að eg og allir kónglegrar Majestatis þènarar, danskir menn, sem hèr þenna vetur í landinu eptir eru, skyldu straffast eptir Norigs lögum, hvar sem biskup Jón eða hans synir kynnu þeim ná; svo og hefir hann lofað og tilsagt þeim Hamborgar kaupmönnum, að hann og hans synir skyldi svo leika og spila við þá Danska, að hèr skyldi ekki einn finnast eptir lifandi að vori komanda, hvað það kostaði.

Fyrir svoddan spozk orð þá skyldi hann víst og hans synir vera útlægir og friðlausir menn, eptir kóngsins brèfs úrskurð, þá skulu þeir gjöra og brúka svo mikið þartil, að hver mann má segja þeim, að þeir sèu kóngsins friðlausir menn fyrir sèr og öllum sínum, ef þeir vilja og þora að segja sinn sannleik, hvernig það er, svo sem nú þegar allt til reiðu má sjá, að margir landsins innbyggjarar, bæði fátækir og ríkir, eru svo kúgaðir og þrengdir af þeim, og sèrdeilis lögmenn og nefndarmenn, sem tilsettir eru af kónglegri Majestat að hjálpa hverjum til laga og rèttar, fátækum sem ríkum, svo að enginn af þeim þorir bíkendur að vera sannleikans, eður satt að segja, fyrir þeim og þeirra týranni, sem þeir lángan tíma hèr til dags brúkað og iðkað hafa.

9. Sömuleiðis hafa þeir ogsvo sagt, að þau kóngl. Majest. bréf, sem híngað sendast í landið með Hans náðar befalníngsmönnum, eru ekki kóngsins brèf samt, þó að hans náðar nafn og hann undirskrifaður er, heldur segja þeir þau að vera lygibrèf, og þá stráka og landhlaupara, sem þau færir híngað í landið, ekki fyrir annað, en þeir vilja þar með upp vekja og upp egna almúgann í móti sínum herra og kóngi, og til ens sizta þeim sjálfum og öllum landsins innbyggjurum til ens versta skaða og fordjörfunar. Svo og hefir biskup Jón sagt opinberlega, að hann skal með sinna sona ráð og samþykki svo til sjá og ráðstafa, hvað það kosta vill, að Lafranz Múli, kónglegrar Majestatis fóviti og hann skuli ekki báðir vera landstjórnarmenn í Íslandi að vori komanda.

10. Sömuleiðis hefir hann og sagt (vottar og vitnisburðir eru nógir, ef þörf gjörist), að biskup Jón og herra Marteinn, villumaður, sem hann hann alltjafnt kallar, skuli ekki báðir vera biskupar í Íslandi að vori komanda, hvað það kostar, hvort það er kónglegri Majestat með eða mót.

11. Svo og á föstudaginn[1] nú seinast sagði biskup Jón opinberlega fyrir öllum þeim, sem vildu hlýða og hjá voru, að hvað sem hann lofaði nú, í þessari sinni neyð, skyldi hann aldrei halda lengur, en til þess að hann yrði laus aptur, heldur skyldi hann það griðarlega hefna, svo þar skyldi ekki öll veröld biðja fyrir.

12. Og yður dánumenn er vel vitanlegt, að eg í Snóksdal girntist dóms kóngsins Majestatis vegna uppá þessa kóngsins landráðamenn, fyrir sakir kóngsins rèttinda, sem þeir hafa tekið undir sig bæði í einn máta og annan fyrir utan kóngsins bífalning: þá fèkk eg ekkert annað svar kóngsins vegna, að hver sem einn skaut frá sèr og til alþíngis að vori komanda, hvað að mèr þykir að kóngleg Majestat skè ekki rètt, að enginn vill eða þorir að segja rètt yfir slíkum kóngsins friðlausum mönnum, samt þó að kóngsins brèf skipi sjálft þá friðlausa að vera fyrir sèr, og öllum sínum trúum þènurum.

13. En sá dómur sem dæmdur var, að þeir skyldu vera í minni varðveizlu og geymslu til vors komanda, með lögmannanna og biskups hjálp og styrk, þá er mèr það ekki mögulegt að geyma eða bívara svoddan kóngsins Majestatis stórbrotamenn, og eg þarfyrir skyldi gleyma kóngleg Majestat, sem mèr bífalað er að gjöra bæði í einn og í annan máta. Svo kann og hver fornumstigur maður vel að skilja, að ef biskup Jón og hans synir verða lausir aptur, þá nást þeir aldrei aptur mannslagalaust, hvert að má ske öllu landsfólkinu til fordjörfunar, og sannlega fyrir minn part þá trúi eg, að ef biskup Jón og hans synir lifa, þá verður hèr aldrei friður í Íslandi.

Þar fyrir girnist eg nú af yður öllum, kóngdómsins vegna, góð ráð og skjallegt samþykki, fyrst að hèr næst ekki lögmál yfir þessum mönnum, hvernig að yður sýnist hèr skuli fara með þá, svo að það mætti koma til góðs samþykkis, og landsins innbyggjurum til sannlegs friðar, og guðs heilaga orði til frambúðar og framgángs, guði til lofs og heiðurs og oss öllum saman til sáluhjálpar.

---

1) = 31. Oktober 1550.

Kóngsins majestatis rèttindi, sem biskup Jón og hans synir hafa haldið undir sèr ár eptir ár, sem hèr segir og eptir fylgir:

Item var biskup Jón skyldugur anno 41 af Skagafjarðar sýslu tvo menn til vers.

Og enn varð biskup Jón skyldugur anno 48 Ísleifs Sigurðssonar vegna átta skatta vaðmáls, sem hann tók af kirkjunni og seldi þýzkum.

Og enn varð biskup Jón skyldugur af samri sýslu anno 49: þrjátigi skatta vaðmáls og þrjá dali.

Item var Ari Jónsson skyldugur af Norður sýslu anno 48: tvo og tuttugu skatta vaðmáls og einn hest, sem hans brèf hljóðar.

Og enn bleif Ari skyldugur af Húnavatns þíng sýslu anno 49: fjörutigi skatta vaðmáls og einn frjálsan mann með öllum færum.

Og sama ár bleif Ari skyldugur af Norður sýslu fjóra og tuttugu skatta vaðmáls, og einn hest, og af Flatey sex dali, sem hans brèf hljóðar.

Og enn bleif Ari skyldugur fimm hundruð fyrir kóngsins þegn, er hann upp bar af Steini Gíslasyni fyrir Philippus þórðarsonar deyð.

Allt það eg gjöri í þessu vil eg vera bíkendur fyrir mínum náðugasta Herra kóngi.

Bið eg þorleif Einarsson, Jón Grímsson og Brand Einarsson, að fara með mèr til biskups Jóns, og heyra hvað eg tala við hann.

---

Síðan var hverjum þeirra fenginn prestur, og voru þjónustaðir og þar eptir burt leiddir, fyrst Ari, þá síra Björn, síðast biskupinn, og spurðir, hverjar afsakanir þeir hefðu um enu stærstu greinir, þær sem fyr skrifaðar eru, hverjar þeim virtust eigi afl hafa eður af miklu ráði, utan fyrir sjálfra sinna vilja og þótta. Var þá skipað öllum mönnum að vaka og vera á bænum þá nótt; vakti sinn prestur hjá hverjum þeirra, þeir sem bezt voru til fallnir, og gengu með þeim um morguninn eptir til lífláts þar austur af túninu; hafði síra Björn fastlega beidt um kirkjuleg; voru þeir um kveldið grafnir mitt að kórbaki, nærri kirkjunni, þó að óvilja Danskra; veitti þeim yfirsaung síra

Eyjólfur Grímsson með öðrum kennimönnum og klerkum, sem til staðarins voru heim komnir.

---

5. Sakargiptir, sem Christjan skrifari, kónglegrar Majestatis umboðsmaður í þann tíma, klagaði uppá kóngsins vegna yfir þeim biskup Jóni Arasyni og hans sonum, síra Birni og Ara, fyrir þeim dómi sem gekk um þeirra aftöku í Skálholti anno M. D. L.[1]

1. Sú hin fyrsta sök, að biskup Jón Arason vildi ekki koma fyrir kónginn, eptir hans skipun og kristilegu leiðisbrèfi, sýnandi sig svo í sannri óhlýðni.

2. Item annað ár þar eptir komandi var hann gjörður útlægur og friðlaus af kónginum sjálfum.

3. það þriðja árið skipaði kóngurinn að grípa Jón Arason, og hans syni Ara og síra Björn, hvar þeir næðist, svo hann neyddist ekki sjálfur til að senda útlenzkan her hingað í landið, þann sem ómildur mundi verða fátækum landsins almúga.

4. Item að Ari og Björn, synir biskups Jóns, hefði, að forlagi föður síns, sókt herra Martein Einarsson á hans heimili, brotið hús, barið og slegið menn, og rænt peningum og flutt hann sjálfan í burtu, og í fángelsi haldið meir en í xij mánuði, frá því embætti sem kóngurinn hafði honum tiltrúað og hann var rèttilega til kominn.

5. Item að þeir hefði haldið kóngsins sýslum, sköttum og skileyri fyrir norðan á landinu, hartnær í þrjú ár, segjandi, að þeir hefði ekki með danskan kóng, hvað hann reiknaði níðingsverk.

---

1) þessi afskript af „Sakargiptum" Christjans skrifara er í fyrstu eptir dómabók Gísla Árnasonar á Hlíðarenda frá 1621, í handriti í safni Árna Magnússonar Nr. 234 í 4to, bls. 490—492, og þareptir eru þær ritaðar með hendi Árna sjálfs í Nr. 236 í 4to, bls. 155—162. það sem getið er um „dóm" í Skálholti yfir þeim feðgum, er án efa mishermt af þeim, sem hefir ritað þetta í fyrstu, því það er bersýnilega ekki annað en ágrip af ræðu Christjans skrifara, sem hèr er næst á undan.

6. Item að þeir hefði ónýtt þau veitíngarbrèf, sem kóngurinn hafði með sínum brèfum skipað.

7. Item undir sig dregið Fjarðarhorn í Hrútafirði og Fljótstúngu í Borgarfirði, sem Þorsteinn Þórðarson forbrant við kóng og kirkju, með öðrum eignum og aðtektum.

8. Item að Jón Arason og hans synir lofuðu því Handborgurum nú í sumar, að þeir skyldu svo handtera, að öngvir Danskir væri hèr eptir að vori komanda.

9. Item að þeir hafi sagt, að þau brèf, sem kóngurinn sendir híngað í landið, sèu lygabrèf, jafnvel þó hann seti sitt nafn hèruppá með eiginlegri handskript.

10. Að þeir væri ekki utan landhlauparar og skálkar, sem þau hefði híngað.

11. Item að Jón Arason hafi sagt, að með tilsjá sona sinna skyldi Laurits Mule, kóngsins hirðstjóri, og hann, ekki vera báðir stjórnarmenn á Íslandi að vori komanda, hvað sem kostaði.

12. Item að nú í sumar urðu margir dugandi menn að rýma sitt föðurland, forláta konur og börn og allt sitt, og vera ókendir með ókendum þjóðum, sakir áður sagðra feðga ofbeldis.

13. Item að enn nú, þar þeir eru í fángelsi, óttast þá svo hver maður, að enginn þorir fulla einörð við að hafa satt að segja, eða neitt um þá að dæma.

14. Item sögðu þeir í dugandi manna hjáveru, að ef þeir kæmist úr þessu, þá skyldu þeir vera [tvislíkir verri[1] en fyrri, hvorki undanteknum útlendum nè innlendum.

15. Item sagði Jón Arason undir vitni, að hann og herra Marteinn (hvern hann kallar ætíð villumann) skyldu ekki vera báðir biskupar að vori komandi, einn fyrir norðan en annar fyrir sunnan, hvað sem kostaði, hvort sem það væri kóngi með eður á mót.

16. Item lýsti Jón Arason því nú á föstudaginn næstan fyrirfarandi fyrir öllum, að hverju sem hann lofaði nú í sinni neyð, það skyldi hann aldrei halda þá hann væri laus, og hann

1) þannig leiðrètt; „tiu slik verið", 234; „tiu slik verre" 236; í ræðu Christjáns skrifara stendur „nídubiað verri".

skyldi þess harðlega hefna, þó að öll veröldin vildi annars biðja.

17. Item að þessir menn hefði með öllu kappi staðið á móti guðs heilaga orði, og dæmdri kirkjunnar orðubók, seljandi sig svo berlega[1] á móti guði sjálfum, sem öllum velskiljandi mönnum er ljóst að vita.

Síðan spurði umboðsmaðurinn, hvort nokkur kynni á móti að tala þessum hans framburði. En það gat enginn gjört, eður þar í móti haft.

---

Þessar fyrskrifaðar greinir eru skrifaðar eptir dómabók Gísla Árnasonar anno 1624.

---

Nú nægir það ekki, að samansetja þvílíkan framburð og sakargiptir uppá nokkurn mann, heldur heimtast þar til lögleg próf, ransak og löglegar bivísíngar, eptir guðs lögum og manna. Þær komu hèr ekki neinar fram, og [vèr] höfum aldrei heyrt, að neitt af öllu þessu hafi verið svarið eður satt gjört. Þó voru fyrnefndir feðgar af teknir í Skálholti seint um haustið, fyrir þessar óbívísaðar sakargiptir, svo sem þeir væri sannir að öllu þessu.

[En því er miður, að mart er meir en satt[2].

---

6. Framburður og lýsíng Daða bónda Guðmundssonar í Snóksdal, um viðskipti hans við Jón biskup Arason og sonu hans (ritað 1548—1554)[3].

Svofelldan framburð og lýsíng hefi eg Daði Guðmundsson [að framsegja] um áreiðir og fjáraðtektir, sem þeir biskup Jón og hans synir gjörðu mèr í haust, þá þeir riðu heim

---

1) leiðrètting Árna í 236 utanmáls; heilaga, 231.

2) Þessi klausa frá [er bæði í 231 og 236, og hefir hún því annaðhvort staðið í dómabók Gísla Árnasonar, eða sá hefir bætt henni við, sem hefir skrifað eptir dómabókinni.

3) prentað eptir afskript með hendi Árna Magnússonar, sem er í handriti í safni hans Nr. 236 í 4to, bls. 323—352; til eru ekki allfáar aðrar afskriptir hèr og hvar í handritum, svosem í handriti í Stokkhólmi, Island. chart. Nr. 64 í Fol., C. bls. 131; Rask 52 í 4to, bls. 23—31 og víðar; prentað áður í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. II, 715—751, með latínskri útleggíngu neðanmáls.

í Hvamm í Hvammssveit á laugardaginn næstan fyrir Michaelis messu[1] Anno 1548.

Í fyrstu riðu þeir heim á mína þrjá garða, Sauðafell, Snóksdal og Hvamm, með sitt fólk tilreidt með vopn og tygi, spyrjandi að, hvar Daði væri, með mörgum blótsorðum og brúkunarskap[2], segjandi, að honum væri nú nær að vera heima og forsvara þær bannssakir, sem biskup Jón mætti til hans tala, og hefir mèr sagt verið, að hann hafi látið lesa stefnu uppá sínar sakargiptir.

Í annari grein klaga eg það til biskups Jóns og hans fólks, að um sumarið, áður en hann veitti mèr heimsóknina, lèt hann taka vj hesta fyrir mèr, og það góz sem á þeim var, á fimtudaginn næstan fyrir Pèturs messu og Páls[3]. Hèr með lèt hann slá mína menn, og handdraga af þeim verjur, og aðra þá peninga, sem eg hafði hugað mèr til þingskostar. Svo og lèt hann þá grípa fyrir mèr vj voðir vaðmáls úr kirkjunni á Þingvelli, í engri minni heimild, hver vaðmál að eg hefi enn ekki fengið aptur. En þá biskup Jón reið heim á þrjá mína áðurskrifaða garða, var eg í engan þann stað staddur, þá biskup Jón og hans menn þar komu, óttuðu þeir mína konu og mitt fólk. Hèr með höfðu hans menn burt úr áðurskrifuðum Hvammi ij bækur frá prestinum þar úr kirkjunni, síra Magnúsi Jónssyni, messubók og Davíðs psaltara, item brutu þeir upp birðu í kirkjunni og köstuðu henni fram í forkirkjuna, brutu hana sundur i mola. Var mèr sagt það hefði gjört Ari Jónsson.

Item voru mèr svoddan fjárupptektir gjörðar á öðrum peningum í sömu reisu: að upp voru brotin iij hús inni í staðnum, höfð í burt ein tunna skyrs, en spilltur hálfu meiri matur, og öllu rótað og úr lagi fært, sem kyrt átti að vera.

Item hafði mitt fólk hirt nokkra peninga i hrískestinum, svo þeir höfðu sjálfir virt það vij hundruð, og það höfðu þeir mest með sèr, sem þeim þótti peninga vert vera; höfðu þeir þaðan xij fjórðúnga smjörs, skóleður og klippínga, það sem til var, iiij færi og eitt skinnfæri fimtugt, mælisketil og fjórðúngsketil, xvj engli, undir x hesta járn eður fleiri, ný, svo mínir menn

1) þ. e. 22. September.
2) brúkaraskap, H. E. og hin.
3) þ. e. 28. Juni 1548.

sáu. Hèr með lèt biskup Jón leggja eld í hrísköstinn þar, svo þeir sögðu hann mundi hann að kolum brennt hafa, hefði góðir menn ekki sín ærleg orð tillagt.

Item eptir þessar heimreiðir og fjár upptektir hefir mèr sagt verið, að þráttnefndur biskup Jón hafi sent sína presta, og marga aðra menn, híngað í sveit og víðar annarstaðar í Skálholts stikti, að lesa yfir mèr og mínum mönnum forboð og bannsbrèf, svo og að sækja mig á mín lögheimili og færa mig norður til Hóla undir lausn og skriptir, hvað eg veit ekki betur, hvorki fyrir guði nè mönnum, en hann hafi engin andleg nè veraldleg ráð yfir mèr haft, hèr í Skálholts stikti; hefi eg [orðið] uppá penínga og annan kostnað, sem eg hefi vorðið að hafa, að halda styrk á móti hans uppsátri[1].

Að öðru sumri komanda, þá datum var 1549, vildi biskup Jón ríða á mitt heimili um vorið eptir páska; hèlt eg þá fram yfir fardaga LX menn, stundum LXXX eður fleiri. En þá hann vissi það, sneri hann af suður í Borgarfjörð, reið þá heim á mína jörð Signýjarstaði og markaði þar fyrir mèr IX málnytu kúgildi, og lýsti undir sinn lás og eign alla þá penínga, sem þar stóðu saman, svo þá, sem öðrum mönnum tilheyrðu. Eptir það, um haustið, sendi hann sína sonu, Björn og Ara, vestur fyrir Snæfellsjökul, og sóktu þángað herra Martein Einarsson, biskup af Skálholti, með hundrað hermenn eður fleiri; höfðu hann og síra Árna Arnórsson úr Hítardal heim til Snóksdals til mín, settu þar tjöld nærri túninu, skrifuðu mèr til heim með hugmóð og hofmóðigheit[2], að eg skyldi nú sækja þá upp yfir túnið, og þeim lægi nú meira á, en þá eg hefði verið fyrir hermanna flokki í Skálholti, og varið sínum föður biskup Jóni dómkirkjuna þar, svo hann hefði ekki mátt hreinsa hana af þeirri vondslegri saurgun og svívirðíng, sem henni hefði í lángan tíma gjörð verið ókristilega. Svo og hefði hann ekki til komizt að gjöra þar aðra biskuplega skyldu, sem væri kennimanna vígslur og krisma, barna fermíngar og annað fleira biskuplegt embætti að veita.

Item á þriðja ári, þá Datum var 1550, reið biskup Jón og hans synir heim á minn garð Sauðafell í Breiðafjarðar-

1) umsátri, H. E. 2) hofferdugheit, H. E.

dölum með xc[1] menn, settust þar á staðinn, gjörðu þá ráð til, að taka að sèr alla mína peninga, kvika og dauða, fasta og lausa; voru þar og þá með honum Björn og Ari; hafði Ari lýst sína eign Sauðafell. En þá eg spurði það, að þeir voru þar komnir, reið eg úr Snóksdal og upp til Sauðafells, og með mèr mínir menn, þeir sem eg þenkti að mèr mundi með trúfesti til styrks vera, á fimtudaginn næstan eptir Michaelis messu[2]. Og þá eg kom svo nær staðnum, gengu þeir bræður Björn og Ari með sína menn og biskupsins móti oss, og þá þeir sáu að vær mundum heim ríða, gengu þeir heim aptur, og stóðu þar við staðinn fyrir syðri staðardyrunum. En Ari og nokkrir menn með honum voru uppi á staðnum, og settu byssur á mig og mitt fólk; riðum vær heim á túnið, og tókum oss stöðu á einum hól á móts við þá. Var síra Björn þar hjá þeirra fólki, og sagði: „þèr er bezt að fara heim aptur og binda inn nautin". Þá sagða eg til síra Björns: „Þèr er bezt Björn, og biskup Jón, að hafa ykkur hèðan, því eg vil fullkomlega hafa minn stað, hús og heimili hèr á Sauðafelli frjálslega fyrir mig og mitt fólk, hvað það kosta vill, um það úti er dagurinn". Þá svaraði síra Björn mèr svo: „Svei þèr og farðu heim aptur Daði! því ekki áttú Sauðafell, og aldrei skaltu eigandi að því verða". Þá talaði eg til Orms Sturlasonar svo: „Ef þú ert einn dándismann, svo sem þèr byrjar að vera, Ormur Sturlason, þá segðu nú uppá þín sannindi, hvort þú hefir nokkrum manni selt eður veðsett Sauðafell öðrum fyr en mèr, eður hvort þú hefir nokkuð selt þessum mönnum það". Þá sagði hann þar þvert nei fyrir, að hann hefði þeim selt það, en sagðist það kennast, sem okkart kaup og gjörníngur innihèldi. Þá svaraði síra Björn til í annað sinn, og sveiaði mèr þá heim aptur í þrjár reisur, og sagði eg skyldi „aldrei Sauðafells njótandi verða, fjandans strákurinn", og spurði mig að, hvort eg vissi ekki hvernin eg væri getinn. Þá talaði Ari heitinn Jónsson til mín: „Þèr er bezt að fara heim aptur, Daði, því hèr verða æfintýr í dag, ef þú fer ekki heim aptur". — „Yður er bezt, Ari bóndi", sagða eg, „að hafa yður í burt af staðnum,

1) Árni Magnússon getur þess, að eitt handrit hafi „lx menn", sem sè rángt, en öll hin hafi xc.

2) þ. e. 2. Oktbr. 1550.

og þèr skuluð mega fara frí og frjálsir og óhindraðir fyrir mèr og mínum mönnum, hvort þèr vilið, og svo þeir dándismenn og dugandis sveinar, sem hèr eru með biskup Jóni og ykkur bræðrum, Birni og Ara, því fullkomlega ætla eg staðinn að hafa áður en úti er dagurinn; svo og skal hvorki biskup Jón nè síra Björn hèðan fara óhindraðir, utan þeir vili gánga að þeim boðum sem eg býð þeim, að þeir fari brott af staðnum viljanlega, og gefi mèr og mínum mönnum dag, og svo hvor öðrum, til alþíngis að sumri komanda, og eigunst vèr þar þá rètt lög við um það, sem hvorir mega þar til annara tala". Þetta bauð eg þeim í þrjár reisur, eður optar. Þá heyrða eg svar síra Bjarnar Jónssonar, en ekki biskupsins nè Ara; sagði síra Björn þá: „svei þèr Daði, óþokkastrákurinn, ekki ertu þess verður, að þèr sè nokkur dagur gefinn". Þá setti síra Gísli Finnbogason og fleiri menn aðrir á mig byssur, og mína menn; þá voru nokkrir af þeim, þeir sem með mèr fóru, að hlaða garð undir þær byssurnar, sem mèr til komu; kallaði eg að þeim, að þeir skyldu flýta sèr og vera snart búnir. Þá töluðu við mig nokkrir þeir dándismenn, sem voru í selskap með biskup Jóni; stóð eg þá tilbaka við mitt fólk á meðan. En þá eg kom heim aptur á hólinn, þá var mèr sagt, að biskup Jón og hans synir væri komnir upp í kirkjuna, voru þá byssurnar, þær sem biskupinum til komu og hans mönnum, komnar upp á kirkjugarðinn og á litla tópt, sem þar er hjá; var þá síra Gísli Finnbogason og nokkrir menn aðrir þar hjá byssunum, og settu byssurnar uppá mig og mína menn. Þá talaði eg til eins þeirra og spurða eg hann að heiti, hann sagðist Gísli heita. „Ertu þann sami Gísli Finnbogason", sagða eg, „sem setur á mig byssurnar?" — „Já", sagði hann, „það gjöri eg að skipun míns húsbónda, biskups Jóns Arasonar, og ekki munu þèr straffa mig þar fyrir". „Það er vel", sagða eg, „fyrst það er hans skipun". Stóðu þá biskupsins menn og þeirra bræðra með lagvopnum, uppdregin sverð og hanzka, og nokkrar byssur, í kirkjugarðinum fyrir framan kirkjudyrnar. Þá talaði eg til minna manna: „þèr skuluð bíða hèr hjá byssunum xxx eður xl, þeir sem ótýjaðir eru, en vær skulum gánga heim í kirkjugarðinn, eg og þeir, sem mèr vilja trúlega fylgja". Þá gekk eg heim fyrir sunnan kirkjuna, og nokkrir mínir menn með mèr, en sumir mínir menn gengu heim fyrir norðan kirkjuna;

og þá er eg kom heim fyrir kirkjuvegginn, þá setti Ari Jónsson á mig byssu, en einn minn maður sló neðan undir hana með lagvopni; þá lossaði hún fyrir ofan höfuðið á mèr; þá skaut og annar þýzkur maður alla leið hjá kinninni á mèr. Þá sagða eg, að minir menn skyldu gánga að þeim í fjandans nafni. Þá sá eg síra Björn Jónsson í kirkjudyrunum með nakinn korðahníf, og bað fjandann eiga mig, og sagði, að vær skyldum fundnir en ekki skildir, og: „vær skulum hitta þig í annað sinn". Var þá Ara bónda hrundið inn í kirkjuna. Nokkrir menn aðrir tráðust þá inn í kirkjuna, og lètu hana aptur, og báru fyrir hana kistur og annað, það sem í henni var; fengu þá nokkrir norðlenzkir menn ákomur í kirkjugarðinum. Minnist eg þá ógjörla, hversu fram fór um vor skipti upp frá því, utan það minnist eg, að Jón Jónsson í Bæ kom að mèr, og sagði, að sonur sinn Sturli væri í kirkjunni, og bað mig að hann skyldi ná honum burt þaðan; gekk hann þá að kirkjudyrunum og var þar lángan tíma, biðjandi að hann skyldi mega ná syni sínum í burt þaðan; var engin [gaum gefin[1] að hans svari; kom hann þá enn til mín aptur, bað mig fyrir guðs skuld að sjá nokkuð ráð til, svo hann næði sínum syni óhindruðum í burtu. Var ein fjölin í burt úr bjórnum framan á kirkjunni; þá skipaði eg að láta slá í burtu aðra, svo þessi dándismann fengi sína bón; þá fór hans sonur þar út, og nokkrir menn aðrir, þeir sem eg vissi ekki af að í kirkjunni voru. Eptir það lèt eg hafa hönd á biskup Jóni, hans sonum Birni og Ara, og nokkrum mönnum með þeim, lærðum og leikum. Hèlt eg þá í varðhaldi til föstudagsins[2], lèt eg þá þeirra menn lausa; en optnefndan biskup Jón og hans syni Björn og Ara hafða eg í haldi iij vikur og ij daga betur[3], og það þykist eg gjört hafa uppá trú og hollustu við minn náðugasta herra kónginn, eptir þeim brèfum, sem hans náð og herradómur hefir inn sent í landið í næstu iij sumur forliðin. Með það lèt eg þessa iij menn lausa með xij manna dómi, tillagi og samþykki Orms Sturlasonar, sem segir sig lögmann vera; sagða eg þá úr

1) [þann. 236; gaumur (rómur) gefinn, hin.

2) þ. e. til 3. Oktobers.

3) þ. e. til 25. Oktbr., að þeim degi meðtöldum.

minni ábyrgð fyrir vottum. Eptir það tók Christjan skrifari, kóngsins umboðsmann, þá í sína vakt, eptir þeim dómi, sem þar var um gjörður, og aldrei komu þeir í mína varðveizlu, nè minna manna, upp frá því þeir riðu úr hlaðinu í Snóksdal, sem mörgum dándismönnum er vel kunnugt, og eg trúi að mèr muni vitni að verða ef þörf gjörist.

---

7. Brèf Daða bónda Guðmundssonar til fylgðarmanna Jóns biskups og þeirra feðga við heimreiðina á Sauðafelli. Snóksdal [2. Oktbr. 1550][1].

Svo látandi brèfsorð senda eg Daði Guðmundsson þeim feðgum, áður en eg reið upp til Sauðafells:

Guð gefi yður góða og kristilega staðfestu í öllum nauðsynjum, ærlegir dándimenn, lærðir og leikir, sem nú til samans komnir eru á Sauðafelli í Breiðafjarðardölum, og heimilisfastir eru hèr í Skálholts stikti.

Yður vil eg kunnugt sè, að eg berst fyrir að ríða á mína eign Sauðafell nú í dag, að forfallalausu, með guðs tilsjá. Því er það mín bón og ráð, að þèr sláið yður ekki inn til nokkurs fylgis eða liðsinnis með biskup Jóni Arasyni og hans meðfylgjörum, því fullkomlega skal eg þángað minna húsa og heimilis leita, með öllum þeim styrk og manndómi, sem minn skapari vill mèr þar til veita; þurfi þèr ekki hèr í að efast.

Og fyrir það yður megi mín skrásett orð trúleg virðast, þá þrykki eg mitt signet á þetta pappírs blað, skrifað í Snóksdal nú í morgun.

Hèr með yður undir guðs náð bífalandi.

---

[1] „Með rèttu er þessi seðill Daða ætlaður Borgfirðingum til lestrar, þeim sem voru á Sauðafelli með Jóni biskupi", athgr. Árna Magnússonar í Nr. 236 í 4to, á seðli, sem er bls. 343—344. Brèfið sjálft er með hendi Árna í sama handriti, bls. 342—346; sbr. Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. II, 753—754, með latinskri útleggingu.

VI.

# KVÆÐI UM JÓN BISKUP ARASON

## OG SONU HANS.

---

1.

### Um heimreið biskups Jóns Arasonar í Skálholt

orti Andrès Magnússon[1].

1. Frètt hefi' eg til fyrða,
frīður gjörði' að ríða
norðan nýtur herra,
náðugr þótti' í ráðum:
i Skálholt skyldi' og vildi
skipta fólki giptu,
stillir hugði' að stýra
stól, sem norðr á Hólum.

2. Gjörði göfugr herra
gumnum ætlun kunna,
hvort skjöldúng skyldi halda
skýr með sínu liði:
suðr um land að sækja
svinna menn að finna,
rekka hreysti reyna
og ráða þá frá láði.

---

1) þetta kvæði er prentað eptir afskript með hendi Árna Magnússonar, í safni hans Nr. 236 í 4to, bls. 139—152, og hefir hann ritað það, sem hann segir, eptir pappírs handriti ekki alláreiðanlegu („ex charta quadam parum accurata"). — Annað kvæði um þessa Skálholtsför Jóns biskups, og setu hans á Fornastöðli, hefir verið til, eptir síra Jón Bjarnason, ráðsmann í Skálholti; fyrir það kallaði Jón biskup hann Stöðlaskáld (Safn til sögu Ísl. I, 91); það kvæði er nú ekki til, svo kunnugt sè, en síra Jón Egilsson hefir þekkt bæði kvæðin, það og þetta, hafa því bæði verið til snemma á seytjándu öld (Safn til sögu Ísl. I, 89—90). Hann heimfærir þessa för til 1549, en hún varð 1548. Jón Espólín (Ísl. Árb. IV, 32) ber Andrès Magnússon fyrir því, að biskupsmenn hafi nauðgað konu; það er ekki hèr í kvæðinu.

3. Þeysti þófa hundi
þjóð um dagana fjóra
*beint um brautir lángar*
brátt kom dægrið átta:
keyrðu Kjalveg norðan
kátir menn í máta,
beint í Biskupstúngur
bragnar hèldu' að kveldi.

4. Frètti' af ferðum þeirra
fríður reynir skíða,
sá eð stýrði stól fyrir sunnan,
starfaði mart til þarfa:
gjörði garprinn snarpi,
sá gáði' að hreystiráðum,
boð um bygðir næstar,
að brjótar yrði fljótir.

5. Frestaði' enginn fyrða
fljótt, þó að liði' að nóttu,
soltinn hrafn að seðja,
nè sverð í blóði' að herða:
bjuggust beint með öllu
beimar á staðnum heima,
þrjú hundruð var þegnar
þaktir stáli nöktu.

6. Eigi mun duga' að dylja,
drengir beiddu lengra
efna óðinn setta:
ef ýtar vildu nýtir
segja' af svinnum jöfri,
sótt bar dag sem nóttu
fyrir auð, og ærnum seimi
unna margir kunna.

7. Kom með kappa marga,
klerka' og þjóðir merkar
suðr, og sagðist vilja
seggjum gott ráð leggja;

trúði enginn liggja,
því tryggur hafði' ei fyrri
ýtum eyðir spánga
áður verið á láði.

8. Stefndi' að staðnum norðan
stýrir grettis mýrar,
halr með horska sveina
heitaðist við að veita
görpum grimmar hefndir,
ef gæfist til þess færi,
fyrir mun biskup bíða
á baulu stól frá Hólum.

9. Röskvir af reiðar dýri
rekkar stigu merkir
beint með bræði mesta,
búðuðu' af dýru skrúði:
síðan settu víða
sjónar tól frá Hólum
seggir á Sunnlendínga,
þó sveitum ervitt veiti.

10. Fló fyrir formann þeirra
frèttir ekki lèttar:
að höldar hefði heima
harðir á ríkum garði
byssur og bogana stælta,
brjótar þaktir spjótum,
því var hugrinn horfinn
harðan að kljúfa barða.

11. Gjörði geymir hrínga
garprinn hyggju snarpi
boð, það bragnar væri
í banni hver sem annar:
nema þeir vísi vildu
veita gistíng teita,
og þola þær þrautir allar
þjóð sem hann kann bjóða.

12. þegar að höldar heyrðu
hót frá geira brjóti,
var sem æstust ýtar
óðir, og vildu bjóða
geira hríð hinum gamla,
og gæða engri fæðu;
fyr trúi' eg biskup bíði
og borði fyrir garðinn norðan.

13. Eptir erindin fluttu
ýtar gengu nýtir
burt, og bergðu engu,
nema blunduðu augum stundum
uppá ymsar sveitir,
ótta slegnir og flótta,
bragnar að byssum þeirra
blíðir[1] hugðu víða.

14. Fundu fèlaga sína
fríðir og inntu síðan
göfugum gæti landa,
og greína' af siðunum heima;
bauð þar engínn bragna
bót, nema lag með spjótum,
beint fyrir breytni ljóta,
og byssur yðr að kyssa.

15. þá tók ríkr að reiðast,
rekkar máttu' ei merkir
orði ansa stilli,
ýtar sáu það nýtir;
báðum hleypti brúnum,
brjótr fèkk ánauð skjóta,
beint sem blóðið rauða
var bragð, og lengi þagði.

16. Hafi þèr hugað að gjörla,
hirðir svaraði virða,
hversu' að gram mun gánga
geira hríð, ef stríðir;

1) leiðr. vegna bragarháttarins; „blíðir að b. þ. — bragnar h. v.", handr.

sögðu siklíng engan
sigr í jeli vigra
ráðinn vera, þó ræsir
ríði heim til lýða.

17. Margur megni treystir
meiðir hyggju leiðar,
gripu sin vopn og gengu
á garð þann tún skal varða;
sáu það Sunnlendíngar,
seggi þurfti' ei að eggja,
lètu þeir ljóðar brúðir
lóðin þegnum bjóða.

18. Lysti engan lengra
laufa þór enn stóra
ferðum fram að halda,
nema flýðu allir lýðir,
beint yfir brekku eina
borgaði holtið stoltum,
beygðu byssur margan
þann er bráðr þótti í ráðum.

19. Niflúng nýtra bygða
nú var hryggr enn dyggvi,
svo vist eðr vínið mæta
vildi' ei halrinn gildi
kenna' eður krásir dýrar,
kreppan gjörði' að hreppa
nauðuga Norðlendinga,
náðu' ei ríku láði.

20. Sögðu dýrir drengir,
dróttin skalf af ótta:
betra' er burt að halda
og bíða' ei eptir stríði;
höfum vær helzt til lengi
húngr og raunir þúngar
þolað með þýðum jöfri,
þessu' er bezt að fresta.

21. Hvað er í heimi verra
en hreppa svoddan kreppu,
sem seggir sóktu þángað,
sigrinn mistu hinn digra:
fyr hefir aldri' í ferðum
frómur stýrir sóma
fengið forsmán slíka; —
fellir margan elli.

22. Þegar að seggir sáu
að svinnir máttu' ei vinna
sækja Sunnlendínga,
og sveitir voru þar teitar:
allir gjörðu' að eggja
ýtar fylkis nýtir,
ríða' í burt, fyrst rekkar
ráðum engum náðu.

23. Dægrin fimm að dvaldist
drótt sú þángað sótti
fram á fornum stöðli,
fríða trúi' eg um síðir
vistir vænar þrjóti,
vín eðr drykkinn fína,
húngrið hélt hart að nárum,
hljóðnaði þjóðin rjóða.

24. Flest vill fyrða þvínga;
fengu ekki drengir
víst nema vatn að drekka
og vonda stundum blöndu,
óbirgð allra handa
erfðu þeir í ferðum,
bragnar urðu' að brenna
beinum[1] og þurrum steinum.

---

1) beininn (beinum?), handr.

25. Eptir gistíng greinda
greiðir flakka leiðar
biðr í burt að halda
og búðum að svipta prúðum,
illan hafa því ýtar
orðróm þar fyrir norðan:
að hermenn híngað hleyptu
háðir að mínu ráði.

26. Sló þá ógn yfir alla,
sem áður höfðu' í ráði
rekka rýra' að vinna,
og ræna þíngum vænum;
spenntu sporana' að síðum,
spjótum tóku' að blóta,
höfðu handfátt næsta,
heyrði lángt þeir keyrðu.

27. Ei mun hægt að halda
heiðri' og grimmri reiði
ef hamíngjan hata vill drengi
og hirða ekki' um virða;
oss hefir hafið á heimi
hverskyns mekt og slektir;
nú trúi' eg drambið digra
drjúpi', og verði' að krjúpa.

---

## 2.

## Vísur um þá biskup Jón Arason og syni hans,

sem kvað Ólafur Tómasson, systurson þeirra biskupssona[1].

1. Margir hafa þá menta nægð
menn í þessu landi:
að kveða' um manna fyrri frægð,
með fögru berlings blandi
auka óðinn sinn;
en eg mundi annað tjá
ef orðin kynni' eg svinn:
væri mèr skyldast skötnum frá
að skýra' um fóstra minn.

2. Hann var nefndur herra Jón,
í hæsta biskups valdi
öllu stýrði' um ísa frón,
svo engum komu' að gjaldi
hans orð fyrir utan rètt;
en sem lögin lagði á,
lèt-hann auði flett,
vildi ekki víkja frá
því vitrir menn hafa sett.

1) Kvæði þetta er hèr prentað eptir handritinu í Árna Magnússonar safni Nr. 236 í 4to, bls. 87—113, sem er ritað eptir afskript með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti, með tilsettum orðamun með hendi Árna sjálfs eptir annari afskript, sem Árna þótti líkjast hönd Þorkels Guðmundssonar frá Þingeyrum, Hákonarsonar. Margar aðrar afskriptir eru til, svosem þessar: afskript frá 17. öld í pappírshandriti í safni Rasks, Nr. 88 a í 8 bl. broti, bls. 216—251; í Árna Magnússonar safni: Nr. 716 L. í 4to, frá hèrumbil 1600 eða fyr, nær fram í 26. erindi; Nr. 716 M í 4to, nær fram í 26. erindi, og hefir þar að auki 4 vísur úr niðurlaginu (ritað eptir 716 L. ?); Nr. 155 í 8vo frá hèrumbil 1680 (fram 34. erindi); ættatölubókin Nr. 255 í Fol. bls. 75—79; handrit með hendi síra Magnúsar Snæbjarnarsonar á Söndum í safni Rasks, Nr. 52 í 4to, bls. 45—53; brot í safni Árna Magnússonar Nr. 723 í 4to, bls. 69, og annað í Nr. 717 C. í 4to, einnig í safni Árna.

3. Hann var einn með herrum þeim
sem Hólum stýrðu lengi,
eignaðist bæði auð og seim
og æðstu tign hjá mengi
um alla Íslands bygð;
hann var bæði hýr og hægr,
hlaðinn með allri dygð,
á einn veg líka fróðr og frægr,
finnst það engin lygð.

4. Klaustra reglu' og kirkju frið
köppum skipaði' að halda,
föstur að efla' og fagran sið;
fyrða lèt hann gjalda
ef hèldu' ei helgan rètt,
sætlegar messur sýngja bauð,
með sönnu hefi' eg það frètt,
fátæka hann firti nauð
sem faðir himna' hefir sett.

5. Í mat og klæðum mildíng sá
miðlaði drottins sauðum,
fimtán hundruð frètti' eg frá
firti marga nauðum;
hvert ár hèlt hann það;
á dögunum tveimur til var sett
trútt að veita bað;
að auki tel eg það annað rètt,
er var á Hóla stað.

6. Veitt var jafnan veizla stór
með virðing heima' á Hólum,
þegar sveitin saung i kór
sínar tíðir á jólum
var stofan af fólki full;
hann rèð skenkja herlegt öl
hverjum vopna ull,
á flestri var þar fæðu völ,
frá eg það betra' en gull.

7. Gullkaleikinn gjöra lèt hann
með gæzku smíðið skýra,
af því rísa rógrinn vann:
ríkisfólkið dýra
hann girntist gjarnan fá;
merkur níu í metum stóð
margur þetta sá;
þau vóru' á Hólum þíngin góð
þegar hann fèll frá.

8. Skínandi var skrúðinn einn,
sem skenkti hann heim til Hóla,
með flugeli' allur fagr og hreinn,
flúraðr í þeim skóla
sem lángt í löndin er;
aldrei borið hefir annað slíkt
enn fyrir sjónir mèr,
veit eg fátt svo fólkið ríkt
að finni' hans líkann hèr.

9. Á Hólum er ein herleg brík,
sem híngað gjörði' að færa,
engin finnst nú önnur slík:
allir mega þar læra
hvað drottins dýrðin vann:
um híngaðburð og herrann Krist
hversu' að píndist hann,
flúruð öll með fagra list,
hún fræðir margan mann.

10. Hundruð sjö, eg herma skal,
hafði' hann valdra þegna
í sinni fylgð með seggja val,
sínum óvinum gegna
að svörum og sönnum rètt;
í Skálholt reið þá skýrðarmann,
skatnar hafa það frètt,
hèldu þeir sem herra hann
hugðu honum þó prett.

11.[1] Til alþíngs reið svo aldrei enn
Íslendíngum meiri,
að hefði ekki hundruð tvenn
hölda búna geiri,
stundum vóru þau þrjú;
skrautlegan tel eg þann feðga flokk,
firn það þætti nú:
búin var öll með brynju rokk
bragna sveitin sú.

12. Átt hefir sèr arfa sá
við úngri silki nönnu,
beint var öllum blóminn á,
birti' eg það með sönnu
þeir bæri' af brögnum hèr:
Björn og Ari bræður tveir,
bert var það fyrir mèr,
veit eg að öngvir virðar meir
vísdóm af þeim ber.

13. Björn var mildur, menn hafa spurt,
Melstað stýrði lengi,
hèlt hann sig með heiðri' og kurt,
og hverskyns megtar gengi,
mörgum manni kær;
æ var hann við bragna blíðr
bæði firr og nær;
en í styrjöld styggr og stríðr
ef sturlun nokkra fær.

14. Enginn prestr á ísa láð
átti slíku' að stýra,
með fofnis valla fagra sáð
fyrða marga dýra
fèkk hann í flokk til sín;
unnu honum því margir menn,
þá mæddi engin pín,
hann var að rèttu höfðíngenn,
það hermir vísan mín.

1) Árb. III, 132; Finn. Joh. Hist. Eccl. II, 695, not. a.

15.[1] Með hundrað manna halrinn víkr,
höldar mega það frètta,
til alþíngis rekkrinn ríkr,
ræði' eg allt af lètta
um rausnar-þegninn þann,
tygjað fólk í trausta ferð
tel eg að hefði hann,
hervopn góð, með hanzka' og sverð,
hver sig prýddi' hans mann.

16. Á Vatnsnesi er vænlegt ból,
að vísu gaf hann það einum,
er að sönnu ekkert hól:
öllum sínum sveinum
gæddi' hann gjöfunum mest;
hesta, klæði' og hervopn væn,
sem höldum þótti bezt,
aðrir fengu flesta bæn
með furðu litinn brest.

17. Ari var lærður einna bezt
af öllum leikum mönnum
á Látínu og lögmál flest,
lifði' í trúskap sönnum
við vini' og vandamenn;
ef leituðu nokkrir liðs til hans
hann lagði' út ráðin þrenn,
veitti jafnan virðum ans
þó væri' ei tignarmenn.

18. Með lýðum stóð í lögmanns stètt
sá listarmaðrinn frómi,
setti jafnan sakirnar rètt
með sönnum laganna dómi,
gekk þó gjöfunum frá;
ráni' og stuldi refsa vann,
sem rekkar mega sjá,
gaf þau dýrleg dæmin hann,
dróttin læra má.

1) Árb. III, 132; F. Joh. Hist. Eccl. II, 695, not. a.

19. Dygð og einörð drjúgum bar
af dróttum landsins öllum,
hægr, en þó í hjarta snar,
hýr hjá görpum snjöllum,
þá hann á þíngum stóð;
veitti jafnan virðum þrátt
vopn og klæðin góð,
öngvan hafði undandrátt
að efla sína þjóð.

20. Árna nefni' eg ítran mann,
örva þundum meiri,
hann einn gipta garprinn vann
og gumna aðra fleiri,
gaf hann þeim gózin stór:
sextíu hundruðum sæma rèð
svinnan málma þór,
herradæmi' og höfðíngs geð
hafði hvar sem fór.

21.[1] Lugu þá af honum lögmanns nafn
landsins vondir þegnar,
sá var ei að sæmdum jafn
er settr var til að gegna
lögunum landi í,
útlenzk þjóðin allra mest
ágirnd hafði' á því,
svo reika skyldu' hans ráðin flest,
reistu' upp klamarí.

22.[2] Til alþíngis ennþá reið
eyðir blárra skjalda,
í lögrèttu lagði leið,
lèzt þar mundi gjalda

1) Árb. IV, 2.
2) Árb. IV. 53; — F. Joh. Hist. Eccl. II, 696 not. a.

dalina danskri drótt:
kastaði silfri kappinn dýr,
það kom á nasir fljótt
hirðstjórans[1], en hringa-týr
hvergi fór þó ótt.

23.[2] „Et þú það nú, örva þundr!"
Ari nam hátt að greina,
hinn rèð skelfast hrínga lundr
þó hefði marga sveina
og hèldi hnífum á;
enginn þorði orðið eitt
aptr að greiða þá,
ellegar hefði lífið leitt
látið búknum frá.

24.[3] Hundrnð þrjú og hèrmeð hálft
höldar stóðu' í kransi
á eyrinni fyrir ofan sjálft,
öllum var búinn vansi
Ara' óvinum þá:
búnir allir björtum geir
ef bryddi illu á,
skyldu allir skatnar þeir
skeinu' í hausinn fá.

25. Nú skal dróttin dæma rètt,
hvort drengir finnast slíkir
að metorðum og manndóms stètt,
þó menn sè haldnir ríkir,
að hörku' og höfðíngsdóm;
eg mun sjálfur svara mèr til:
þó sýnist öldin fróm
enginn hirðir um annars spil,
nema' ei sè taskan tóm.

---

1) L. Harboe. Om Reformat. i Isl. i Vidensk. Selsk. Skr. VI, 61 not. — Harboe setur þetta 1550.

2) Árb. IV, 53; F. Joh. Hist. Eccl. II, 696 not. a.

3) Árb. IV, 53; F. Joh. Hist. Eccl. II, 696 not. a.

26. þessir feðgar, þèr hafið spurt,
þeir stýrðu' ísa láði,
með herradómi, heiðr og kurt,
og helzta góðu ráði,
með hreinni hjartans dygð,
svo yfirgáng skyldi enginn mann
Íslands veita bygð,
heldur mætti hver sem kann
haldast vel í trygð.

27. Fór nú enn sem áður fyr
afreksmönnum góðum:
þeir sem veittu virðum styr
og vörðu lönd sín þjóðum,
öfundin falsið fær;
svíkja gjörði sveitin aum
seggja dróttir þær,
sem sátu opt með gleði' og glaum
görpum harla nær.

28. Alexander var einn af þeim,
sem eitrið sterka kendi,
Julius annar út í heim,
sá öllum kóngum rendi,
sá ei svikunum við;
Pompejus hinn þriði þegn
þenkti uppá frið,
af sjálfs síns manni með sverði' í gegn
var særður í sinn kvið.

29. Ólaf nefni' eg öðlíng þann,
er átti Noreg stýra,
sjálfs hans fólkið svíkja vann:
svo vill bókin skýra
það harðar hefndir hlaut;
fyrir Sveini kóngi seggir þeir
af sínum eignum braut
keyrðir vóru', en komu þó meir
í kynja marga þraut.

30. Af Knúti helga heyrt hafið þèr,
hans menn sviptu lífi;
Tómas biskup taldur er,
tók við sára kífi,
þá dauður drengrinn lá;
er því líkast efnið það
sem áðan hvarf eg frá,
hver þeirri sögunni hyggur að,
hugsa mætti sá.

31. Hèr fór eins um herra þá
sem höldum fyr eg skýrði:
lymsku-þjóðin lífi frá
listar-mönnum stýrði
með svikum og sönnum prett;
öfunda gjörðu ýtar það:
að þeir vildu rètt
haldast láta í hverjum stað
hvern í sinni stètt.

32.[1] Pilta-Brynki og prestur einn,
píndur öfundar stríði,
þá var Pètur hinn þriði sveinn,
þessir sigldu' um víði
með ríkan róginn mest;
eptir vóru' í annan stað
þeir allra gjörðu verst,
lífinu rændu', og ljóst var það,
lymsku þjóðin flest.

33. Daða skal nefna darra meið,
dirfð bar slíka' að hendi,
til Sauðafells að seggrinn reið,
sinni lukku rendi,
þar sátu svinnir þá;
tíutíu' hafði talsins menn,
trútt vil eg segja frá,
fús var allur flokkurenn
að feðgum skyldi ná.

1) Árb. IV, 21 hefir fyrra helming.

34. Kennimenn með kristinn sið
kirkju hèldu hreina,
þeir hugðust mundu hafa þar grið,
en há ei hildi neina;
hinn bar harðan móð.
þrjátíu fylgðu feðgum enn,
frækin norðlenzk þjóð,
þó ekki gjörðu allir senn
að auka benja flóð.

35. Svo var öldin illsku fús,
eg mun verða' að skýra,
þeir öktuðu' ekki herrans hús,
himna kóngsins dýra,
heldr en hesta rann,
brutu niðr og börðu hátt;
beztur þóttist hann,
sem allan sýndi illsku mátt
og einhvern særði mann.

36. Fángaði síðan fyrða sveit
frægan stýri dáða,
hafði' í brott, sem hver mann veit,
hann og hlýra báða
heim í snóksins dal,
breyttu verst, sem vildu þeir,
við það þegna val,
ekki hirði' eg inna meir
um illskumanna tal.

37. Síðan fluttu suðr um land
sæmdum prýdda þegna,
trúi' eg enginn tæki á hand
að taka við þeim og gegna
allt um alþíng fram,
reistu' upp heldur ráðið það
sem rètt var mesta skamm:
Heimdalls fljóð þá halda bað
hart í sínum hramm.

38. Ekki hirði' eg inna það
um afgáng þeirra manna,
ýtum verður ángur að
ef allt er greint hið sanna
hvað skeði Skálholti' í;
hafi þèr áður heyrt til sanns
hvað hlauzt af efni því,
vinir og frændur vildarmanns
vóru þá sízt með frí.

39. þessir feðgar fóru heim
til föður himnaríkja,
virtu' að öngvu veraldar seim,
vildu heldur líkja
drottins dýrðar sveit;
herrann guð minn hafði þá
í hæstan himna reit,
gaf þeim alla gleðina þá
guðdóms elskan heit.

40. þá þessir stýrðu, það hefi' eg sèð,
þúsund var að greina,
fimm hundruð þar fylgja með
og fulla tuttugu' eina,
þá hófst upp hölda prís,
þrjátíu stýrðu árin enn,
svo öll var lukkan vís,
eptir það fóru allir senn
inn í Paradís.

41. Eitt vil eg segja' af seggjum þeim,
er svinna gjörðu' að fánga:
fljótlega fóru til heljar heim,
eða hrygð með ánauð lánga
áttu' um aldur hèr,
annars heims eg ekki veit
hvað ályktað er,
brjótist þar við bragna sveit,
byrgt er það fyrir mèr.

42. Í Hóla kirkju hvílist nú
herrann prýddur dáðum,
sæll og sterkr í sinni trú
með sínum örfum báðum,
allir í einum stað;
sæmdar prestur Sigurður hèt,
sá rèð vinna það,
suðr í Skálholt sækja lèt,
svo sem faðir hans bað.

43. Greindur stýrir faxa fróns,
frægðarmaðrinn góði,
hann var arfi herra Jóns
af harðla dýru fljóði,
sú Helga heita rèð;
af flestum kvinnum frægðir bar,
fegurð og handnirð með,
á ísa láð þá öngri var
auðgrund meira lèð.

44. Herra Jón og Helga sú,
heiðri prýdd og dáðum,
tel eg að ætti tvisvar þrjú
tigin börn í náðum,
sagt hefi' eg synina þrjá;
fjórði Magnús, fremstur einn,
eg fèkk hann ekki' að sjá,
gleðina alla gæfi' honum hreinn
greint var mèr svo frá.

45. Þenna prýddi, það hefi' eg frètt,
þegninn ment og æra,
heiður, prís og höfðíngs stètt
hafði' hann numið að læra,
helzt með hofmanns list,
unnu honum því allir menn,
elskaði Jesum Krist,
á úngum fór sá aldri enn
inn í himna vist.

46. Eitt var þórunn uppá Grund,
Eyfirðínga blómi,
önnur Helga hrínga hrund,
henni fylgði sómi,
sú var suðr í Dal;
Ísleif sá eg og Eyjólf með,
þær áttu bænda val,
mjög var þeim til manndóms lèð
margt, eg greina skal.

47. Síðan fór á ríngulrey
rèttr á ísa landi,
aldrei veit nær Óðins mey
öll er drifin í sandi,
svo hverfi góz og gras
lýðnum fyrir sín lymsku verk,
lygar og orða mas;
trauðlega finnst ein túngan merk,
trygðin er eins og glas.

48. Herranna' er nú hugsun mest
að haga svo sínu valdi:
að komast megi' undir kónginn flest
með klögun og sekta gjaldi
eða kosta kroppsins pín,
að útarma svo sitt eigið land,
ötlun er það mín,
svo eigi hafi það eptir grand
af öllum peníngum sín.

49. Sannur faðir með syninum nú
og sínum heilaga' anda
láti' oss halda helga trú,
hvað sem á mót vill standa
með hrygð í heimi hèr;
flyttu' oss alla, faðirinn dýr!
í friðarins faðm á þèr,
sonr þinn Jesús sætr og hýr
sjálfur gefi það mèr.

50. Ekki' eg binda orðin kann
í arnar klýju neina,
heldur skili hver sá mann
sem hefir til túngu hreina
og auki óðinn við;
frændur þeirra feðga nú
eg forláta mèr bið,
verð eg að hugsa' um börn og bú,
því byrgi' eg mærðar hlið.

51. Hríngrinn dökkr og höfnin hrein,
hverskyns gamanið fríða,
lofðúngs eign og leiðíng ein,
leit sá margan ríða,
er gerði gelmis sótt;
kæran ekki kallsi mig
þó kvæðið sè ekki frótt,
því valda fjúkin feiknalig
og frostin um bjarnar nótt.

---

3.

## Kvæði um Jón biskup Arason og sonu hans,

sem orti Oddur Halldórsson handi.

Biskups Jóns vísur[1].

1. Rögnis rósar minni
rekkum að eg inni;
beint af biskup einum
bragsmíð að vèr greinum;
norðr á Hólum náði
nýtr að herrans ráði
að stýra stoltu láði.

2.[2] Kendi' hann kristni fríða,
kirkjur reisti víða,
fjölda barna fermdi,
fólkið mèr það hermdi,
vaktaði vizku palla,
vígði klerka snjalla
með lestr og lof guðspjalla.

3. Synir hans með sóma
sannlega prýddir blóma
stólinn studdu lengi,
stóð þá villan engi;

1) prentað eptir afskript með hendi frá hèrumbil 1670—80 í safni Rasks Nr. 88 í 8vo, bl. 251—259 (37 erindi); afskript með hendi Árna Magnússonar eptir annari, sem var með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villíngaholti; afskript Árna er í safni hans Nr. 236 í 4to, bls. 125—136 (28 erindi); í ættatölubókinni í safni Árna, Nr. 255 í Fol. bl. 79-80, og er þar sagt, að „kveðið hefir Oddur handi Halldórsson, sem fyrst var prestur" (30 erindi); i handriti frá hèrumbil 1680 í Stokkhólmi, Island. chart. Nr. 64 í Fol., C. bls. 116-151 (28 erindi); í Rasks safni Nr. 52 í 4to, bls. 53—57 (30 erindi); í safni Árna Magnússonar Nr. 716 K í 4to, („vísur um afgáng herra Jóns biskups og hans sonar Ara lögmanns"), gömul afskript frá xvij. öld, 31 erindi). Orðamunur er töluverður, en hann er ekki hèr tíndur til, af því það handrit sem prentað er eptir ber það með sèr, að það er framar öllum hinum.

2) þessi vísa er felld úr í 236, 255, 64, 52.

lögbrot urðu' í landi,
sem lýðum komu' að grandí,
því olli óhreinn andi.

4.[1] Á föstudaginn fyrðar,
fréttir eru það styrðar,
kátir kjötsins neyta,
kappar illa breyta;
seggja dróttin svinna
á sunnudögum vill vinna,
enginn má að því finna.

5.[2] Maríu má hjá mengi
maðrinn nefna engi;
helga menn þeir hata,
og hyggja sèr slíkt til bata;
gjöra garpar þetta,
þeir gleyma veginum rètta,
því púkinn vill þá pretta.

6. Bjó einn bóndi ríkur,
burgeis var sá líkur,
hann vafði víf á armi
í vondum sifja karmi;
systrúngs barn var sæta,
svo skal málsins gæta,
þess tjáir ekki' að þræta.

7.[3] Um hjónaband hirðir hann ekki,
heldur gjörir því hvekki,
með penínga plógi röngum
plágar hann kotúnginn löngum;
ýtar ánauð hljóta,
ei gjörist mart til bóta,
friðarins fáir njóta.

---

1) þessi vísa er felld úr í 236, 61, 52.

2) þessi vísa er felld úr í 236; fjórar fyrstu hendingarnar ritaðar utanmáls í 716, með annari hendi.

3) þessi vísa er felld úr í hinum öllum.

8. Herrann bjóst á Hólum
heiman nærri jólum,
beint fyrir breytni ljóta
banni yfir þá skjóta;
reið með rekka fína,
rausnin tók að dvína;
döpur er dauðans pína.

9. Virðar veizlu magna,
voldugum herra fagna,
gera þeir orð úr gulli
og gáfu þau vopna ulli,
bjó þó annað í brjósti,
bólgnir hörðum þjósti
sem stórum steini ljósti.

10.[1] Þágu þar þegnar náðir,
þeir og synir hans báðir,
tel eg nú trygðir varla
traustar mega kalla;
lýða lúðrinn gelli
lèk á Sauðafelli
með nægðar nógu svelli.

11. Kappar í Dalina kómu
og knúðu harða rómu,
sveitin Sauðfellínga
sóktu' að höggva' og stínga;
hrottann gjörðu' að hnýja,
hvorugir vildu flýja,
með panzara' og plátu nýja.

12.[2] Biskup bar þann vilja,
bragnar máttu skilja,
mælti við mennina sína
sem mun eg verða tína:

1) Þetta erindi er fellt úr í hinum öllum.
2) Þetta erindi er fellt úr í 236, 255, 61, 52.

„þá ráðin er róman stránga
ráðum til kirkju gánga,
frið munum vèr þar fánga."

13. Skatnar skjótt að bragði
skildu hvað biskup sagði,
gengu garpar snjallir
glaðir til kirkju allir,
lagvopn lögðu niður
lengi var það siður,
þenktu þar mundi friður.

14. Aðrir eptir hlaupa,
ei má af slíku raupa,
höggva hart og leggja,
heiptin gjörir þá eggja;
drepa vilja þeir drengi
og dvelja ekki lengi,
letr þá lýða mengi.

15. Kotúngar kirkjuna brutu,
kvalarar byssum skutu,
þeir sem spjótin spenna
spíkur láta kenna;
meiddu mennina marga,
mun þá fátt til bjarga;
ill eru áhlaup varga.

16. Höldar herrann fánga
hugar með ánauð stránga,
og þá bræður báða
beint til öngra náða:
lètu lýði hreina
í litlu stofu eina,
þá var mart til meina.

17.[1] Rekkar gjörðu' að ræna
röskva drengi' og væna,
höfuðbúning og hnífa,
hvar sem náði' að þrífa,

1) þessi vísa er í Espól. Árbókum IV, 65.

völdu' um vænleg klæði,
vopn og tygin bæði;
það eru þúngleg gæði.

18. Gull og gripina fríða,
getið er þess svo víða,
sessur og söðla breiða,
sæmileg beizl og reiða,
feita' og fagra hesta
fyrða þurfti' ei bresta;
nú er naglhald versta.

19. Einn var allra verstur,
af ýtum nefndur prestur;
seggir þenna senda
suðr á burt að venda;
fór hann ferð svo hraða
fram til Bessastaða
með brèf, sem bragna skaða.

20. Danskir dvöldu' ei viður,
drengrinn þessa biður;
ýtar með illsku pali
æða vestr í Dali,
þángað sem þýðir sitja
þundar nöðru fitja
grimmir gjörðu' að vitja.

21.[1] Tvennir tíu vöktu,
trúi' eg þeir víða flöktu,
nauða nærri fóru
nýtum, þeim inni vóru;
bæði börðu grjóti,
byssum frá eg þeir skjóti
í húsið með hörðu blóti.

22[2]. Þá sonr hans sá nú þetta,
seggir mega það frètta,

1) þessi vísa er felld úr í 236, 255, 61, 52.
2) þessi vísa er felld úr í 236, 255, 61, 52.

hjálpaði herra sínum,
hræddist öngva pínu:
tók hann til og svipti,
trúi' eg það miklu skipti,
og öllu af þeim kippti.

23. Virðar vestan búast,
vilja til ferðar snúast,
fræga með sèr fluttu
feðga' á lífi stuttu;
lýðir láta meidda
ljótlega tilreidda
hesta' af höndum greidda.

24. Biskup fèll af baki,
beinin trúi' eg það saki,
kallaði kappa mengi
og kváðu' hann bíða lengi,
hótuðu hörðum dauða,
horfist það til nauða;
tjáir nú ekki að trauða.

25.[1] Ari við ýta sagði,
ekki' hann lengi þagði:
kvaðst ei kvíða dauða
þó kenndi sárra nauða:
„herrann á himna pöllum
hjálpi sálum öllum
nær sem vèr feðgar föllum".

26. Skatnar í Skálholt ríða,
skjótt mun tíminn líða,
byrgðu bragna' í einni
baðstofu, þeigi hreinni;
var þá allt hið versta
valið í húsið gesta;
prúðir beiddust presta.

1) þessari vísu sleppa 236, 255, 61, 52.

27. Greiða játníng glöggva
gjörðu', en ekki snöggva,
lásu' af lausnarans pínu
lofið með vörum sínum;
ýtar einkis neyta,
ekki um það skeyta
hvernig höldar breyta.

28. Á föstudaginn fína,
þá faðir vor lèt sig pína:
bragnar með bóndann Ara
burt af staðnum fara;
gekk með glöðu bragði,
góða nótt öllum sagði,
háls undir höggið lagði.

29. Hart nam hrævar þundur
hálsinn taka í sundur;
ýtar annan sækja
illsku fullir og klækja;
seggir sverðin reiða,
síra Björn þeir meiða,
guð mun veginn hans greiða.

30. Þá var sóktur hinn þriðje,
þó þess enginn biðje;
skatnar gjörðu' að skunda
skjótt til biskups funda;
lýðr ei laganna gætir,
þeir leiddu' hann út um stræti,
kvaddi' hann fólk með kæti.

31. Hèlt á helgum krossi
herrann prýddur hnossi,
fór með flýti og greizlu
fagnandi sem til veizlu;
biskup blessaði alla,
en bragnar á knè falla,
leit eg hans líkann varla.

32. *In manus* einatt sagði,
orðin fleiri til lagði,
hann gaf sig guði með þetta
og gjörði hálsinn rètta;
þrisvar þrautir gisti
af þeim sem öxina hristi,
en lofðúng lífið misti.

33. Einíng guðs tók Ara
allvel segi' eg það fara,
en heilög þrenníng herra,
hvorgi náði að þverra;
þeir er guðspjöllin gjörðu
gæzkuna öngva spörðu,
síra Björn sóktu' að jörðu.

34. Vetrinn virðum líður,
vorið kom ei að síður,
bragnar búa til kistu,
sem biskupinn sinn mistu:
heimanferðina hófu,
heldur lítið svófu
fyr en þá feðga grófu.

35. Skatnar í Skálholt fóru
skjótt með ángri stóru,
ljúfir líkin þvógu
og lèrept yfir þá drógu;
kappa' í kistur lögðu,
*commendationes*[1] sögðu,
þjóðir ekki þögðu.

36. Fluttu' úr fornum skóla
feðga norðr til Hóla;
sálutíðir sýngja
sumir, og klukkum hríngja;

---

1) þ. e. bænir yfir framliðnum.

prúðir pelli skrýddu,
prestar letrið þýddu. —
þeir hafi þökk er hlýddu.

37. Durnis dreggjar minni
dofnar fyrst að sinni;
geymi guð oss alla
og gleðje konur og karla! —
Hér skal hróðri létta;
hirði' enginn að frétta
þó eg klifaði þetta.

---

4.

## Vísur um Jón biskup Arason á Hólum.

Vísur síra Jóns Arasonar[1].

1. Borgfirðíngar biskup Jón
og bræður sviku forðum,
biðu af því böl og tjón,
blindaður var hugr og sjón
að þeir trúðu tálslegum þeirra orðum.

2. Kappar treystu' á kirkjufrið,
það kunni lítið stoða;
nú vissu þeir af nýjum sið
naum voru þar og lítil grið; —
feigur enginn forðar sèr við voða.

3. Höfðu feðgar hundruð þrjú
í heimreið Sunnanmanna,
en þeir hèldu öngva trú,
aptur heyktust við það nú
að þeir heyrðu bóndann Daða banna.

---

Blessaður sè hann biskup Jón
bæði lífs og dauður,
hann var þarfur herrans þjón
þó heiminum virtist snauður.

---

1) þessar vísur hefir ort síra Jón Arason í Vatnsfirði (1636—1673) og og eru þær teknar eptir handritinu Nr. 88 í safni Rasks (frá 1670—1680), bl. 263. Nafn höfundarins er skammstafað undir vísunum.

# VIÐBÆTIR.

## Kvæði Jóns biskups Arasonar.

### 1. PÍSLARGRÁTR[1].

1. Faðir vor Kristr, í friðinum hæsta,
form smíðandi allra tíða,
sonr í dýrð að síðan færði
sanna elsku og hjálp til manna;
heilagr andi á hverri stundu
hèr rennandi um heiminn þenna,
blási hann oss í brjóstin þessi
beztum ráðum guðdóms náða!

2. Heilaga þrenníng hèr megi finna
hjörtun hrein í sögðum greinum,
guðs almætti gefi með rèttu
grundvöll þennan oss að kenna;
skiptir hann til skilníngs mönnum

[1]) Kvæði þetta eigna allir rithöfundar samhljóða Jóni biskupi Arasyni. Björn á Skarðsá segir, að hann hafi ort kvæðið skömmu fyrir andlát sitt; þetta getr þó ekki rètt verið, því á einni skinnbókinni, sem kvæði þetta er ritað í, stendr ártal 1549, og sum handritin eru líklega eldri. Kvæðið mun því að líkindum ort vera heldr á ýngri árum Jóns biskups. Píslargrátr, sem einnig kallast „Krossgrátr" (A. M. 622 4to; Additam. 72. 4to), finnst í fjölda handrita, bæði á skinni og pappír. Á skinni er helzt að geta handrita í safni Árna Magnússonar 622 4to bls. 96—106, og 99 í 8vo. Ein skinnbók var til frá 1580—90, sem var eign Magnúsar Markússonar, rektors í Skálholti, en er nú undir lok liðin, nema eitt blað, sem Árni geymdi til sýnis (Á. Magn. 720. 4to). Pappírshandrit, sem kvæðið er á, þykir oss ekki þörf að tilgreina. það af þeim, sem einna bezt er vandað, er í safni Bókmentafèlagsins Nr. 105 í 4 bl. broti, ritað á Vatnshorni í Haukadal. Í vísnabókinni, sem prentuð er á Hólum 1612 í 4to (önnur útg. 1748. 4) er kvæði þetta prentað, en með nokkrum breytíngum; þar eru felldir úr sjö vísuhelmíngar, en settir inn tveir, því öllu kvæðinn er skipt í vísuhelmínga. Hèr er fylgt elztu handritunum, sem sjálfsagt er, einkum kvæðabókinni 622 í 4to í safni Árna, sem fyr var getið, en þó ekki allr orðamunr talinn.

skýríng um sinn guðdóm dýran;
einn og þrennur er hann að sönnu
æfinlega, sem trúnni hæfir.

3. Hreinast hold af mestri mildi
mennilegt í heiminn þenna
borið var eitt, sem bækur vátta,
blómið allra helgra dóma;
áður fyr og aldrei síðar
annar með svo guðdóm sannan
á jörðu fæddur ei hefir orðið
Jesú líkr að krapti og ríki.

4. Meistarar hafa með mörgum listum
minnilega í ræðu sinni
vandað margt með vizku kenda
versa smíð af Jesú þessum;
enginn kann með orðum inna
alla hans dýrð í letrum skýrða,
þó að hann fengi þúsund túngur
og þær allar á málið snjallar.

5. Enn hefi' eg þessum öllum minna
orða smíð og lærdóm fríðan,
þó bið eg að þetta kvæði
þjóðum verði allt til góða;
á treystandi árnað beztan
innilega í hugsun minni
Jesús dygð til elsku nægðar
upp hvessandi túngu þessa.

6. Vilda eg, eptir vorri skyldu,
vera minnugr pínu þinnar,
hversu þú þoldir í heimi þessum
harða nauð og sáran dauða;
Jesús gjörði lýð út leysa
lángminnugr og til sín vinna,
græðari heimsins gefr oss síðan
guðdóms blóðið kristnum þjóðum.

7. Á skírdags kveld, sem skriptir halda,
skýr ritníngin þannig vitnar:
gekk hann út í grasgarð nokkurn
grandhreinastr og lærisveinar;
sjálfr vissi og sagði þessum
sína fyrir þá beisku pínu,
holdið skalf á herra mildum
hugsterkum við dauðans merki.

8. Í fyrstu grein hann fèll til bænar
flóði sveitinu út með blóði
niðr á jörð með neyð svo harða
nú þenkjandi holdið krenkja;
guðdóms listin gjörði hrausta
græðarans önd í sorgar böndum,
líkama sinn með ljúfu kaupi
lagði hann fyrir sálir manna.

9. Samtíðis komu, sendir af Júðum,
sveitir þær að Jesú leita,
búnir honum til bráðra meina,
brynjað fólk með vopnum dynja;
þegar þeir heyrðu eitt hans orðið
allir hlutu á jörð að falla,
sína magt í svoddan greinum
sýndi hann þeim í þessum heimi.

10. Síðan lèt þá sjálfa ráða
sínum verkum illsku sterka,
því að hann vildi í þessu holdi
þola nauð og harðan dauða;
en þeir neyttu orlof þetta
að gángandi og Jesúm fánga,
bundinn drógu og börðu höndum.
Blessaðr þagði hann við þessu.

11. Lof og dýrð með lesníng orða
lífi' og sál að beztu máli
ættum vèr með elsku rètta

innilega í hjarta að minnast.
*Yfirvoldugri allri mildi*
*er skínandi Jesús pína,*
*hún gefr bezt þeim henni treysta*
*himneskt ráð til guðdóms náða.*

12. Inn leiðandi aumir Júðar
í þá borg með neyð og sorgum,
bundinn Jesúm síðan sendu
sínum herrum, búinn til pínu;
krossfestíng og kvalirnar stærstu
kalla þeir með ópi allir
verðugan þann er vann á jörðu
verkin bezt og nytsemd mosta.

13. Annas hèt, sá ei með sönnu
ákæru rèð fyrst að færa
uppá Jesúm, allt með kappi,
ógurlega með þeirra rógi;
forsvar rètt að faðir vor drottinn
fengið gat, því sök var engin;
höggið eitt sem harðast mátti
hann var sleginn í þessu ranni.

14. Þetta högg með þúngum hætti
þvíngan kendi af stæltri hendi,
lausnarans kinn að lamdist þannig
leysti bein í höfði hreinu;
marðist hold, en munnrinn mildi
móðr og sár hann fylltist blóði,
Jesús fèkk í Annas húsi
enga vægð til hvíldar nægða.

15. Júðar harðir Jesúm færðu
járnum bundinn, drógu og hrundu,
fyrir þann mann er Caiphas kennist
og kirkjuvaldið hafði' að halda;

yfirgyðíngar allir þángað
innan borgar komu að sinni,
er áðr höfðu um drottins dauða
diktað fund[1] á þeirri stundu.

16[2]. Allir þeir með ákefð fulla
enn kærandi á Jesúm þenna,
háð og spott með hrákum leiðum,
högg og bönd í þeirra höndum:
þoldi hann með þögn og mildi
þessa nótt, og allt til óttu,
ángr og pín með ymsum greinum
og enga náð af þeirra ráðum.

17[3]. Hugarins rásum hjörtun vísi
hrein að minnast þessar greinir,
innilega og elska kunna
allra mest hans pínur flestar.
*Yfirvoldugri allri mildi*
*er skínandi Jesús pína,*
*hún gefr bezt þeim henni treysta*
*himneskt ráð til guðdóms náða.*

18[4]. Gyðíngar þá með grimd og reiði
gjarnan vildu að Jesús skyldi
deyðast fyr en dragist til náða
dygðir hans í þeirra bygðum;
[5]þeir færa hann með flokki stórum
fyrir þann jall er Pílatus kallast,

---

[1]) þannig í sumum handritum:
„diktað og fundið", 622.

[2]) þetta erindi er ekki í vísnab. og ekki í 105. — Með því að sleppa úr 16. og 17. erindi og stefinu fer allt kvæðið úr skorðum, og svo er það í vísnabókinni.

[3]) þetta erindi er ekki í vísnab. og ekki í 105.

[4]) fyrri helmíngr er ekki í vísnab. og ekki í 105.

[5]) þessi vísuhelmíngr er 16. erindi í 105 og þar til sett sem síðari helmíngr aptari hluti af 19. erindi.

kváðu hann skyldu að keisarans valdi
kvelja þann, sem lögmál sannar.

19[1]. Pílatus kallar einn frá öllum
Jesús inn, og vildi finna
sakanna hæð með settu ráði
og sanna grein til slíkra meina;
[2]spurði hann þá með spèskaps orðum
spektarlaust í heimsins trausti:
ertu kóngur yfir því mengi
er þig leiða híngað reiðir?

20. Jesús svarar: jeg er að vísu
jafnan kóngr og í því nafni
býð eg rètt með beztum hætti;
banna eg syndir hverjum manni.
Ekki kom eg enn að dæma,
ei ríkjandi' í manndóms líki,
heldr er eg af hærra valdi
híngað sendr, og sannleik kenda.

21. Andsvar rètt að jarli þótti
Jesús halda í sannleiks valdi,
síðan gekk og sagði Júðum
svoddan grein með orði einu:
öngvar sakir að eg get fengið
ásannaðar þessum manni.
En þeir reiðir og með æði
illsku ljótir töluðu' á móti:

22. Villir hann lýð og víkur öllu
voru ráði sèr til náða,
gjörir hann tákn, með göldrum læknar,
guðlastandi trúnni kastar;

---

[1]) fyrri helmíngr vísu þessarar er ekki í vísnabókinni, og ekki í 105.
[2]) síðari helmíngr er settr saman eða næst við fyrra helmíng í 14. erindi í vísnab., en við síðara helmíng 18. erindis í 105 (svo sem 16b).

kóng hefir hann sig kallað lengi,
keisarans vill hann æru spilla,
því ætti hann, og þó með sönnu,
að þínum dómi á krossi pína.

23. Orðin vond og illar gjörðir,
ángr og hrygð af rógi og lygðum:
þoldi hann með þagnar haldi
þessar nauðir allt til dauða.
*Yfirvoldugri allri mildi*
*er skínandi Jesús pína,*
*hún gefr bezt þeim henni treysta*
*himneskt ráð til guðdóms náða.*

24. Jarlinn vondur Jesúm sendi,
jafnan haldinn stóru valdi,
kóngi þeim að kominn var þángað
kenna bækur Heródes þenna;
hann vildi með hyggju kalda
heyra kunna af drottins munni
tákn eðr nokkur tignar lækni
torfengin, en fekk þó engin.

25. Heyrast mátti að hèlt fyrir dára
Heródes illr í sinni villu,
hvítu klæði hann rèð skrýða,
háð merkjandi í þessu verki;
sendi aptr í samri stundu
svá fyrir jall, sem Júðar kalla:
krossfestu þann, að keisarann lastar
og kóng sig heldur móti hans veldi.

26. Pílatus vildi pínu halda,
plága í neyð, en ekki deyða
Jesúm, því að hann vissi að vísu
vera kláran af lífsins fári;
síðan lèt með svipunum meiða
svo flengjandi hart og lengi,

limirnir allir lamdir sullu,
leysti hreinast hold frá beinum.

27. Standa hlaut við stólpann bundinn
styggilega með ásján hryggva,
mátti hann varla af manndómshætti
meiri pínur þola' eðr fleiri;
kalla þeir, sem kvölunum ollu
kaldráðir með stóru háði:
krýnum hann, sem kóngi einum
kann að þèna' í augsjón manna.

28. Þyrnikórónu þángað færa,
þrengja og spenna' að Jesús enni
broddar þeir, með beiskum göddum,
bein og hold í gegnum skeina;
enn leiðandi út fyrir Júða
undum hlaðinn, en dreyrinn dundi,
sárin öll af sviðanum sullu:
sè hèr mann! sem ritníng sannar.

29. Lítum nú vorn lausnarann sæta,
lífin hrein í sögðum greinum,
sjáum það verð er hann gjalda gjörði
grandalaus fyrir vorar andir.
*Yfirvoldugri allri mildi*
*er skínandi Jesús pína,*
*hún gefr bezt þeim henni treysta*
*himneskt ráð til guðdóms náða.*

30. Jallinn sagði enn fyrir öllum:
eigi fann eg með þessum manni
sakanna grein, að svoddan pína
sè honum ei nóg, af yðrum rógi;
Jesús vil eg nú láta lausan
og lífi halda að mínu valdi,
ellegar beri þèr ábyrgð fulla
um alla hans nauð, sem písl og dauða.

31. Júðar svara með jöfnu æði:
jarlinn muntu kunna varla
landsins rètt með laganna hætti,
þú lætur þenna villu kenna;
kalla þeir með kappi öllu
að keisarans ríki vili hann svíkja
og máttú fyrir orðið þetta
eigi haldast í þínu valdi.

32. Jarlinn hræðist Júða reiði,
jarðlegt valdið vill hann halda,
dáðum horfinn dæmdi síðan
dauðann þeim, er leysti nauðir;
Jesúm leiddu Gyðíngar gladdir,
grimmlega hrundu, reipum bundinn,
út af borg með ángri mörgu,
enn hæðandi stórri mæðu.

33. Krossinn þúngan kvalarar fengu
Kristi að bera, með hörðum kvistum,
særðust hans enu sælu herðar
svo blæðandi hann fèll af mæði;
manndóms styrkur mátti ei orka
meiri pínu á holdi sínu,
því hann var lengi þreyttr af göngu
og þorsta mæddr í stóru frosti.

34. Síðan mætti' hann sinni móður,
svo fallinn hún kendi hann varla,
sverð hins gamla Simeons orða
sárlega snart þá hennar hjarta;
guðdóms styrkr gaf henni orku
grát að stilla vel í máta,
höfuðdúk sínum hún rèð sveipa
harmi vend um sonarins lendar.

35. Sonarins neyð og sorgir móður,
samblandað í hugarins landi,
ættum vèr með elsku rètta
innilega í hjarta' að minnast.

*Yfirvoldugri allri mildi*
*er skínandi Jesús pína,*
*hún gefr bezt þeim henni treysta*
*himneskt ráð til guðdóms náða.*

36. Færði Jesús fólkið harða
fram á leið, og gjörði reiðu
krossins pín í kvölunum þessum,
kvíðir hold, en undir svíða;
gadda stóra grimmum broddum
gegnum slóu Jesús lófa,
svo festandi sýnu[1] hastir
sigurmerkið á trènu sterka.

37. Í fætur slóu, sem fastast gátu,
fleini líkan nagla einum,
keyrðu hann með hamri hörðum
hans í ristr og gegnum nísta;
undum gjörði opt um venda,
æðum tók þá fast að blæða,
sinarnar togna, en sárin magnast,
sviði og mein í holdi' og beinum.

38. Móðir hans og margir lýðir
mjög ángraðir komu þángað,
sorgir hennar sýndust margar,
sonarins nauð og harður dauði;
Jón postuli evangelista,
oss kennandi, fylgdi henni,
bæði þau með beztu ráði
blóði rignd við krossinn stóðu.

39. Vín og sýru vondir færa
varla klárt og blandað galli
að munni Jesús, meinga þannig,
mátti' hann ekki af slíku drekka;

---

[1]) sinnu, 105 Vb.

þorstinn gjörði að þvínga brjóstið
þrauta mest og pínur flestar,
og því mátti ei fyrir þetta
öndin halda líkams valdi.

40. Lífsins styrkr og líkams orku
linaðist magn, en sálin fagnar,
öndin Jesús út því sendist
ógrönduð frá líkams böndum[1].
Sýngjum allir sætum túngum
samhljóðandi vilja góðum
hæsta lof, með heiðri mestum,
haldist dýrð í guðdóms valdi.

41. Hold og líf með himna valdi
hann hefir nú fyrir dýrðir sannar,
sonarins þrenníng svo má inna
samblandað með föður og anda.
*Yfirvoldugri allri mildi*
*er skínandi Jesús pína,*
*hún gefr bezt þeim henni treysta*
*himneskt ráð til guðdóms náða.*

---

[1]) hèr er skotið inn i 622 og í fleirum handritum og vísnabókinni þessum tveimr vísuhelmíngum:

40b. Sanctus faðir í sonarins blóði,
sanctus Jesús píndr í móði,
sanctus andi sendr hinn góði,
svo hefir kennt oss meistarinn fróði.

41. Líf og andinn lesi og ljóði,
lof þitt allri skepnu bjóði,
hugarins rásir hörmum[1] rjóði
[huggist hjörtun[2] tára flóði;
sýngjum allir o. s. frv.

En hèr er bæði breytt hætti, og stefjamálið gjört einni vísu lengra en hin; sýnir það hvorttveggja, að svo hafi ekki verið í kvæðinu upphaflega og sè þeim bætt inní.

---

[1]) hjörtun, 105.

[2]) og huggist rèttu, 105.

42. Vissu Júðar varla af þessu,
vildu þeir að Jesús skyldi
deyðast eptir dæmdu ráði;
dásöm undr á þeirri stundu
urðu þá yfir allri jörðu:
ógna myrkr, en sólin styrkva
geymdi sína geisla hreina
guði líkjandi' í himnaríki.

43. Blindi riddarinn, búinn til vonda,
bragða fljótur lagði spjóti
á síðu Jesús sett með ráði,
svo það snart í gegnum hjartað:
blóð og vatn af búknum dauðum
blessað rann, og veitti þessum
skæra sýn og skilníng hreinan,
skýrandi yfir kristni dýra.

44. Undan fellr í orða spjalli
allmörg grein af Jesús meinum,
því at fundíngum þori' eg ei blanda
þetta mál, eða fræða táli;
heldur vilda eg hafa það skyldast
heiðra' og treysta þeim er oss leysti;
rennum hug með röddu' og munni
yfir ræðu þessa og lítið kvæði.

45. Því gjörða eg íslenzk orðin
óglósuð í máli ljósu,
að greiðara hugða eg gefast til náða
góðviljugum, það allir skilja;
en þèr bæri að offra tárum,
öndin mín, fyrir Jesús pínu.
Píslargrátur plagi að heita[1]
prentað[2] vess um dýrðir þessar.

---

[1] plaga eg heiti, 72.
[2]) pentað, Vb., 105; p̄ntað, 72.

46. Biðjum vær þann bezt mun heyra:
blessaðr gefi að pínan þessi
ávallt renni oss til minnis
og styrki frá synda myrkri;
hennar[1] minníng hún fær unnið
hverskyns nauð og andar dauða,
þá að freistarinn fjúki lasta
fljótur kastar oss á móti.

47. Jesús lífið lýða leysi,
Jesús öndin eyði gröndum,
Jesús pínan oss gjöri hreina,
Jesús dauðinn frelsi nauðir!
Megnist ást þó að málið þagni
minn drottinn, á pínu þinni!
grátrinn fellr, en gef eg oss alla
guði' í vald um aldir alda.

---

[1]) vísuhelmíngnum 46 b. er sleppt í Vb.

## 2. LJÓMUR[1].

1. Hæstur heilagr andi,
himna kóngrinn sterki,
loflegr líttu' á mig!
signaðr á sjó og landi,
sannr í vilja og verki,
heyrðu, eg heiti' á þig!
forða þú mèr fjandans pínu díki,
svo feikna kvölunum öllum frá mèr víki,
mèr veittú það, Maríu sonrinn ríki!
að mæla kynni' eg nokkuð, svo þèr líki.

---

[1]) Kvæði þetta, sem af öllum er eignað Jóni biskupi Arasyni, er prentað eptir skinnbók í Árna Magnússonar safni 713 í 4to.bls. 66—71. Önnur skinnbók er í Lundúnum, í British Museum, en er ýngri (frá hèrumbil 1583). Afskript af kvæðinu eptir henni höfum vèr haft frá herra Eiríki Magnússyni, bókaverði háskólans í Kambryggju, fyrir góðvild hans. Kvæðið finnst og í fjölda pappírs-handrita, bæði eldri og ýngri, og eru helzt einkennileg tvö handrit frá hèrumbil 1690, annað 716h í 4to í safni Árna Magnússonar, annað 104 í 8vo í sama safni. Það er markvert í sögu kvæðis þessa, að það hefir verið lengi kunnugt á Færeyjum, og komizt þángað snemma, því Debes prestr getr þess í lýsíng sinni á Færeyjum 1673, að það var orðið þá alkunnugt á eyjunum. Færeyíngar höfðu mætr á þessu kvæði, og trúðu því, að illfiskar fældist ef það væri kveðið á sjó, og kölluðu það „hvalvers", en þar voru þær viðlögur, að enginn mætti hafa það allt yfir í einu, heldr yrði hann að halda eptir að minnsta kosti einu erindi; annars mundi hann „sjólátast" (verða sjódauðr). Fyrir þessa sök voru það brot ein af kvæðinu, sem gengu manna á milli á Færeyjum og hver lærði af öðrum, því ætíð varð að leifa vers, en þó hefir að síðustu fengizt mestallt kvæðið, með tilstyrk afskripta frá Íslandi, og er komið á prent í árriti hins konúnglega norræna fornfræðafèlags (Aarb. for nord. Oldkyndighed 1869, bls. 311—338). Nafn kvæðisins hjá Færeyíngum er einkennilegt, það heitir þar Lieumunar (Liömunar), þ. e. „Ljómurnar", og er þar af auðsætt, að það er misskilníngr þegar það er kallað „Ljómr" eins og karlkennt orð, í stað þess að kalla það „Ljómur" (kvennkennt í fleirtölu). Þetta sama má og ráða af kvæðinu sjálfu í 37. erindi. En merkíng nafnsins er eptir mynd orðsins öldúngis einstakleg, og getr ekki verið dregin af ljómi, sama sem hljómi, heldr af ljóma, sem sè guðdómlegri geisla-birtu af þeim dásemdum, sem kvæðið skýrir frá.

2. Á dögunum sex hinn dýri
drottinn minn! þú skaptir
allan heiminn hèr;
mjög sem Móyses skýrir,
af mjúkum dýrðar krapti,
svo var sagt fyrir mèr:
skírði loptið skaparinn allra kinda,
skjallega kunni hvað frá öðru hrinda,
tempraði síðan túngl og sól og vinda
tígulega sá allt kann leysa' og binda.

3. Alda-föður[1] vorn fyrsta
frá eg hann skapti af moldu
hèr sem hver mann veit;
lèt sig þar til lysta
að lífga þann á foldu
með sönnum sólar reit;
nú vil eg gjörla nöfnin þeirra inna,
nær sem mætti sorgum vorum linna:
Adam hèt, og Eva hans listar-kvinna,
æðri varla mátti tvö hjón finna.

4. Þeim var lagt það lèni:
að lifa með allri blíðu
svo prútt í Paradís,
veitti þeim hinn vèni[2]
vist án allrar kvíðu,
sú var sælan vís:
bannaði þeim að bíta einn eplis kjarna,
blessaðr kveðst þeim einkis annars varna,
þetta birti hin bjarta sjáfar stjarna[3]
bar hún í heiminn hjálparann Adams barna.

---

[1]) Adam föður v. f., 713; en nafnið er síðar í vísunni.
[2]) þ. e. væni.
[3]) sjáfar stjarna, stella maris, kenníng Maríu.

5. Fjandinn unir við illa
yndi þeirra og sælu,
vöxt og vænlegt skraut;
hann sitr um að svíkja og villa,
og sárlega þau að tæla
og leiða af líknar braut:
í ormi einum orðin frá eg hann innti,
aldrei frá eg hann þessu fyrri linnti,
beit hún epli, en boðorðum ekki sinnti,
af bönnuðu trè, og þar til Adam ginnti.

6. Refsíng með rèttum dómi
ríkur herrann veitti,
mjög sem maklegt var,
það var sár ósómi,
sælu vorri neitti
og lángt af lögunum bar:
hann rak þau bæði burt í heiminn þenna,
beiska neyð og ángist urðu að kenna,
ávöxtur nam upp af þeim að renna,
allir hlutu' í kvölum og píslum brenna.

7. Leið svo lángar stundir
um ljóta ánauð stránga,
tvo heims aldra traust,
bölvaðr bruggar undir
börnin þeirra að fánga
með öllu efunarlaust;
voldugr herra vill ei lengur bíða
að venda þegar eptir oss að stríða,
honum mun blóð úr breiðum undum svíða
að blessaðr vildi lètta vorum kvíða.

8. Dýrri dóttur Önnu
drottinn minn að sendi
einn af englum sín;
sagði henni að sönnu
og sætum orðum vendi:
hrein er holdgan þín!

ver þú mig, þó villan yfir mig drífi,
sem vænn og sterkur brynjaðr her í kífi,
heilagr andi skrýddist skæru vífi,
skapari minn var huldur hennar lífi.

9. Níu mánuði næstu
nú, sem spámenn játta,
oss í fagran frið,
bjartr í Bedleem hæstu
borinn, sem guðspjöll vátta,
af hennar helgum kvið.
Einn hèt Baltazar, offrar gull með höndum,
annar Melchior, mildr af ráðum vöndum,
Caspar[1] einn með reykelsi í höndum,[2]
austan kvómu kóngar þrír úr löndum.

10. Þrjú og þrjátigi ára
þengill himins og landa
lifði í heimi hèr;
öfundin óx hin sára
Jesús mínum að granda
grimmum Gyðínga her;
Júdas Skarjot einn var nefndr hinn fyrsti,
orðin talaði þau sem fjandann lysti,
falsið óx, en flærðin illsku bysti:
flýtið yðr og fángið þann eg kysti!

11. Þá kom ógn með ótta
upp af Gyðínga munni,
hver tók hlífa sèr;
flestir hèldu' á flótta,
flúði hver sem kunni
blessaðr í burt frá þèr:
nema þau María mild og Jóhannes bæði,
mikil var þeirra sorg og hjartans mæði,

---

[1]) Jasparius, 713.
[2]) öll handritin og eins Fær. hafa tvisvar „höndum".

óttast hvorki ógn nè neina bræði,
undir krossi frá eg þau fastast stæði.

12. Þrengd var þèr að enni
sem þyrnkórónan væri
reyrð með rauðan við;
holdið skarst fyrir henni,
hrörnar litrinn skæri,
dreyrinn dundi niðr.
Ágætt lof þèr englar fagrir súngu,
allir skyldu lofa með sinni túngu,
býsn voru mikil,[1] björg í sundur sprúngu,
bifaðist jörð, er naglar[2] guðs son stúngu.

13. Nóni sjálfu nærri
niflúng himins og landa
hann lèt sitt líf á kross;
rómar röddu skærri,
ríkur gaf sinn anda
hèr til hjálpar oss.
„Faðir, vorn anda fel eg á hendi þinni!"
frá eg hann talaði svofelld orð, sem eg inni,
hörmulegt er að heyra' og leggja' í minni:
heimrinn allur tapaði birtu sinni.

14. Nú vill hilmir herja
að hjálpa fólki sínu
enn með ágætt lið;
fjandur vilja verja
og veita oss lengri pínu,
bölvaðir bjuggust við:
lokurnar brustu, hann leysti fjandans ánga,
læknaði hann svo Evu aðferð ránga,
arınt helvíti opnast tók hið lánga,
inn rèð hann með sínu valdi gánga.

---

[1]) þá, b. v., í handr.
[2]) gaddar. handr.

15. Þá var óp og ótti,
að illi fjandi kvíddi,
hann sá helgan kross,
sæmilega til sótti
sjálfr guð minn stríddi
og náði öllum oss;
föður vorn Adam fyrst í burtu leiddi,
frá eg hann gjörði allt sem lýðrinn beiddi,
ára fjandans alla píndi' og meiddi,
Jesús Christus götuna vora greiddi.

16. Allt helvíti hann eyddi,
enn sem segir í versi,
Jesús Christus hreinn,
og svo snöggt hann sneyddi,
í snarpri herför þessi,
þó var eptir einn;
batt hann þann með blessuðum orðum vöndum,
bæði má það fregna' á sjó og löndum,
fjötrin liggja á fótum hans og höndum,
fjandinn svartur kremst í þessum böndum.

17. Þessi fylgdin fríða
fór með drottni mínum,
signuðum Jesúm Christ,
ei mun um aldur líða,
öllum lèttir pínum[1],
sætleg sælu vist;
súngið lof þèr sætt af hverri dróttu,
sjálfan guð vèr lofum dag og nóttu,
fögnuð þann er fríðir vinir hans sóttu,
frá eg hann reis upp páskadaginn í óttu.

18[2]. Kristr með kærleik dvaldist,
sem kantelenan váttar,

---

[1]) kvíða, handr.

[2]) þetta erindi hefir í sumum handritunum víxlazt á við hið eptirfylgjanda.

með hjálp og huggar þjóð;
trú' eg það svo taldist
tín og þrjátíu nátta
meðan hátíð heimsins stóð;
orð og verkin allt vær til hans köllum,
vèr unnum þessum höfuðkóngi snjöllum,
hann stè upp af jarðarinnar pöllum,
ásjáandi sínum postulum öllum.

19. Þar mun í sælu sitja
sólar kóngrinn frómi
með alla engla makt,
hann kemr víst að vitja
vor á efsta dómi,
svo hefir Davíð sagt;
koma þá undr og ógnir vorra lasta,
eldar brenna sólar plázið[1] fasta,
mílur teljast meir en þúsund rasta,
mun þá jörðin búkum úr sèr kasta.

20. Opnast allir himnar
af einu klukku hljóði
skýrt sem skaparinn tèr;
dauðleg duptin lifna[2]
af dýru holdi og blóði
því vær höfðum hèr;
talar hann þá með tignar orðum sínum:
trú-eg þèr sè vafin í synda línu,
eg var fús að frelsa yðr úr pínu,
fátt þèr gjörðuð[3] eptir vilja mínum.

21. Vænn í veldis hríngi
vísu kveðr hann snjalla
settr með sárum móð,
hann ber á breiðu þíngi

---

[1]) í skinnbókinni 713 er ritað placeð.

[2]) limna?

[3]) gjörðu þèr, handr.

blóðugan krossinn allan
og sýnir sinni þjóð;
Jesús talar við auma lýði og svarta:
alllítt hafið þèr stöðvað synda parta,
og er því líkt að líta hans ásjón bjarta
sem loganda sverð hans fljúgi' af munni og hjarta.

22. Hvar er sú fríða fæða?
faðir vor Kristur spurði
hinn lasna[1] lýðinn sinn;
eða þó helzt til klæða
með hreinum hjálpar burði
höfðuð þèr til mín.
Fátæka þèr fyrirnámust að rækja,
virtuð þeim til allra illsku klækja;
með göfugu valdi gjörði eg yðr að sækja,
þèr girutust aptr í fjandans villu að krækja.

23[2]. Þjáður var eg í þorsta,
þrengdur alls kyns mæði,
kvalinn og klæddr lítt;
lèt eg lífið kosta
að leggja út benja flæði
og frelsti svo fólkið mitt;
enga vilið umbun mèr fyrir veita,
hver vill öðrum illskuverkin þreyta,
fljótlega munuð þèr fánga pínu heita
sem fyrri gjörðuð mínum boðorðum neita.

24. Plágaðr var eg með pústrum,
píndr og hæddur löngum
mest fyrir yðra skyld,
lamdur þyrni og þústum
þar með svipum og stöngum,
sárin sviðanum syld,

---

[1]) auma, handr.

[2]) þetta erindi er ekki í annari skinnbókinni (713) og ekki í sumum öðrum handritunum.

stórlega barðr og steyptur þúngu grjóti,
strengdur fast, og vægt[1] með engu hóti, —
hvar er það gott þèr gjörðuð hèr á móti ? —
í gegnum lagður síðu mína spjóti.

25. Fóruð með fals og blygðir,
fögnuð engum æmtuð
og aldrei lètuð af,
svo með ljótar lygðir
lýði mína ræntuð
og allt það eg áður gaf;
hötuðuð mig sjálfan, hörmuleg var sú sneypa,
hver vill öðrum niðr í fjandann steypa,
dæmi þèr, hvað dýrt mundi' eg yður keypa.
dauðann þolda eg með píníng greypa.

26[2]. Hvar er það dreizið digra,
dramb eða hvers kyns læti,
er þèr höfðuð hèr?
lètust lýði sigra
litlu vildu bæta,
guð fyrirgef þú mèr!
hvar er nú heiptar hugrinn yðar hinn kaldi,
er höfðuð þèr, með stóru peníinga gjaldi,
eða sá styrkr af stóru sveina haldi?
stendr sálin nökt í fjandans valdi.

27. Trúi' eg í tvenna flokka
tiginn guðs son skiptir,
sem segir í sönnum óð,
ber svo blíðan þokka,
bragrinn pínu sviptir,
vist er væn og góð ;
til valdra manna víkr hann svo með blíða:
verðkaup skal eg gjalda yðr hið fríða,

[1]) ægt, handr.

[2]) þetta erindi er ekki í Færeyja útgáfunni.

sitið með föður, og sviptir öllum kvíða,
sæla' og dýrð mun aldri um aldur líða.

28. Enn til aumra manna
í annan stað ræðr víkja,
ljóst sem letrið tèr:
þèr munuð kvalirnar kanna
segir kóngur himnaríkja
og skiljast skjótt frá mèr;
dökkvir munu' yður djöflar illir granda
dæmdir í burt frá öllum guðdóms anda,
það mun út um allar aldir standa
að eilífu brennið þèr hjá leiðum fjanda.

29. Blessuð brúðrin tiggja
biðr í þessum váða:
háleitr, heyr þú mig!
lofa mèr lýð að þiggja,
láttu mig því ráða
svo hjálpist hver um sig;
eg veit það víst, þú villt mèr einkis neita
vegsamlegur, ef eg vil eptir leita,
það er mitt traust, að allt munir þú mèr veita,
minn einga son, fyrir þína ástúð heita.

30. Þar næst biðr hinn bjarti
blessaðr Jóhannes skæri,
hans er hjálpin þýð,
fagr með frómu skarti
frá eg hann standa næri,
tiginn talar fyrir lýð:
voldugr herra! virtu það vær tínum,
vegsamlegr hlýð þú orðum mínum,
eg var fúss að fylgja yðr í pínu,
flúða eg aldri undan krossi þínum.

31. Mildur svarar af mæði,
mjúkr í veldis höllu:
að vísu veiti eg þèr;

þið skuluð þiggja bæði
það þið vilið, með öllu,
svo fagurlega fylgduð mèr,
verði vili þinn, voldug hjartans móðir!
vegsamlegr, og svo þinn Jóhannes bróðir!
heyri' eg, þið vilið hjálpist allar þjóðir,
hvort það er heldur vondir menn eða góðir.

32. Þau frá eg þetta þágu,
þýð, og Jóhannes bæði,
mildust María frú,
fólk frá fyrri plágu
af feikna[1] grimd og æði
að leiða á líknar brú;
þeirra líkn[2] mun lengst um heiminn gánga,
þau linuðu þannig vora ánauð stránga,
síðan gjörir oss fjandinn aldrei að fánga,
fastr[3] í ánauð alla æfi lánga.

33[4]. Æztar engla sveitir
og ýta[5] fjöld um heima
lofar þig, lausnari minn![6]
og allt það eitthvað heitir
innan lands eða geima
sýngur sætleik þinn;
leystu oss frá löngum synda hnúti,
lifandi guðs son! bæði inni og úti,
svo að vèr hljótum skjól af skírnar klúti
skepnan gjörvöll herra[7] sínum lúti.

34. Öfund og allar syndir
eg hefi gjört með vilja,

---

[1]) mikilli, handr. [2]) bón, handr. [3]) hann sitr, handr.
[4]) í þessari vísu er fyrra hlutanum sleppt í sumum handritunum og síðari hluti settr við næsta erindi á eptir.
[5]) lýða, handr. [6]) lausnarinn hreinn, handr. [7]) skapara, handr.

og brotið svo boðskap þinn;
það eru þúngar myndir,
þess má eg[1] eigi dylja,
harðr er hagrinn minn;
stórlega hefir eg stefnt til þúngra nauða
og steypt mèr svo í fjandans villu snauða;
þú lagðir út þitt líf og blóðið rauða,
lát mig njóta, frelsari[2] minn! þíns dauða.[3]

35. Það eru mínar myndir,
má eg þess ekki þræta,
sem Kristi kunnugt er;
eyk eg einatt syndir
all-lítt vil eg mig bæta,
guð, fyrirgef þú mèr!
aumlega hefir mig illsku broddrinn stángað,
ávallt hefir mig þó til Jesús lángað,
það er mitt traust, að hjálpast muni eg þángað,
það má heita, að köllus[4] hafi mig fángað.[5]

---

[1]) eg má þess, handr.

[2]) drottinn, handr.

[3]) handr. 104. 8vo setr hèr inn þetta erindi (sbr. 33. er.).

Heyrðu mig dyggust drósa,
dáðum hlaðin og prýði
fyrir hæstan engla kór,
fögur sem fegursta rósa
fram yfir aðra lýði,
hæsta huggun vór,
leystu oss frá ljótum synda hnúti,
lifandi Jesús! bæði inni og úti,
svo vèr hljótum skjól af skírnar klúti,
skapari minn! þèr skepnan gjörvöll lúti.

[4]) köllus, þ. e. köllski.

[5]) þessu erindi er skotið inn í sumum handritunum eptir 35. er. (716h og 104).

Höllin heilags anda,
himna kóngsins móðir,
María mín mild og skær!
leystu lýð frá vanda
svo lífgist allar þjóðir,
sú er þèr nauðsyn nær,

36. Feginn og fús eg beiðist:
forða þú mèr pínu,
sem vænn og veglegr er,
að[1] þú eigi reiðist
orðum þessum mínum,
víst er eg valda þèr;
hugr kýs ömbun[2] hverju verka sinna;
himna dýrð mun aldri um aldr linna,
lát mig njóta Jesús orða minna,
svo yðrar náðir mætti sálin finna.

37. Æðar og sinar allar,
önd og sál með búki,
guð minn! gef eg þèr;
þá herrann hèðan mig kallar
hjálp, svo eigi púki
vinni[3] vald á mèr.
Dugi þú mèr þá, drottinn himna halla![4]
að dauðinn kemr á enda lífsins palla.
Þessar vísur þiggja nafnið valla,
þó vilda eg þær Ljómur láta kalla.[5]

38. Hèr má skýr orð skilja,
skatnar þenki fleira:
þú ert þrennr og einn,
þar með vitið og vilja

---

syndir hafa sárt að hjarta mínu
sannlega vafizt fast í lasta línu,
lifandi Jesús! lina þú ángri mínu,
láttu mig vera' undir verndarskauti þínu!

[1]) svo, handr.

[2]) sbr. skipanir Magnús biskups Gizurarsonar í Skálholti (1224), Diplom. Island. I, 436.

[3]) ekki púki eigi, handr. [4]) hallar, handr.

[5]) í handriti frá Magnúsi Jónssyni í Vigur, frá hèrumbil 1700, eru sett hèr inn nokkur erindi, sem eflaust munu vera síðar ort af öðrum, en ekki hafa upphaflega verið í kvæðinu:

vilda eg hafa til meira
að lofa þig, lausnarinn hreinn!
Leystu oss frá ljótu synda æði,
lifandi drottinn! og þið María bæði.
Orðgnótt fellur, úti er þetta fræði,
Amen amen! endir verðr á kvæði.

---

Hljómur skal það því heita
svo hljómi og hárómist
hróðrinn, herra! þinn;
það hljómi um hjartans reita
með hljómhvellasta rómi
svo vakni við lýðurinn;
það veki' upp þann, sem sefr í synda grómi
svo gæti hann að sèr strax í náðar tómi,
vekist hann upp af drottins orða ómi
svo vakna þurfi hann eigi fyrst í dómi.

Láttu mig, faðirinn frómi,
fyrir sonar þíns blóðið rauða
hitta náð þèr hjá,
í þínum dýrðar dómi
drag mig til þinna sauða
en hrektu mig ei þèr frá.
Haltu þá, Jesús, hjá þèr sálu minni
haltu henni hèr í viðurkenníng þinni,
blóðið þitt, sem blæddi í kvölinni
blæði á mig, svo blessun sálin finni.

Hróp, kallz og háreysti
heiðnir og Gyðíngar
höfðu hjá krossi þín,
meður gremjan geistri
þeir guðlausu heimskíngjar
þeir sinntu' ei vitjan sín.
Fyrir það hróp í frekju kvala þinna,
fríaðu mig við hróp fordæmíngarinnar!
láttu hrópið synda illsku minnar
aldrei hljóma fyrir eyrum sálarinnar.

### 3. DAVÍÐS DIKTR[1].

Heyr[2] mig himna stýrir,
herrann allra greina,
göfgust guðdóms magt!
allir englar skýrir
um þitt ríkið hreina
súngið fái og sagt:

---

[1]) þetta kvæði er eignað Jóni biskupi Arasyni einum, og engum öðrum, svo vèr vitum; það er ort útaf 51. sálmi Davíðs, sem í katólskri öld var hafðr við guðsþjónustuna, og lesinn á hverjum sunnudegi, eptir því sem skýrt er frá í „Ágripi um gömlu siðina" rètt á undan siðaskiptunum (Bisk. s. II, 248). Eptir siðaskiptin var þessi sálmr Davíðs snúinn á íslenzku optar en einu sinni, og prentaðr fyrst í sálmakveri Marteins biskups í Khöfn 1555, 97—98 sem líksálmr, með upphafi: „Nú bið eg guð þú náðir mig", 8 vers. Sá sálmr er síðan lítið breyttr í gröllurum, og nokkrum hinum eldri sálmabókum, svo sem Guðbrands biskups 1589 og 1619, Davíðs saltara 1662 og sálmabókinni 1742, sem sumir kalla „Prestavillu". Í þessari útleggíngu var sálmr þessi ætlaðr fyrir messu-upphaf á öllum „bæna- og samkomu-dögum", og prentaðr þannig í öllum gröllurum. þrjár aðrar útleggíngar eru í hinum eldri sálmabókum, ein í sálmabók Gísla biskups Jónssonar (Khöfn 1558. 8), og tvær (auk þessarar) í sálmabók Guðbrands biskups, sem fyr var nefnd. Í katólskum söfnuðum er sálmr þessi alkendr og kallaðr Miserere, því hann er nafnfrægr eptir upphafs-orðunum (Miserere mei Deus o. s. frv.). þegar maðr ber saman kvæðið við sálmana, og við biblíuna, þá er kvæðið miklu lengra og orðfleira en Davíðs sálmar, því fyrstu sjö erindin eru sett framan við, og sömuleiðis 4 hin seinustu aukin við, en allr miðkaflinn (8.—26. erindi) fylgir svo nákvæmlega Davíðs sálmi, að rekja má hvert erindi eptir honum. Í handritum verðum vèr ekki varir við neinar afskriptir, og er þess vegna prentað hèr beint eptir Vísnabók Guðbrands biskups (Hólum 1612 4to, bls. 269—273); fyrir því höfum vèr grun á, að hèr og hvar muni breytt vera, þó vèr getum nú ekki vísað á hvar það sè.

[2]) í Vísnabókinni er þessi fyrirsögn: „þetta er kuæðeð sem kallast Dauiðs dyctur, vt af Psalmenum Miserere, Lag sem Liomur, Byskup Jon".

æfinlega og andir helgra manna
anki jafnan þína lofgjörð sanna,
hjörtun vor bið eg helgan anda kanna,
hverskyns syndir burtu drífa' og banna.

2. Sendir sínar náðir
sjálfur faðirinn alda,
sem einn og þrennur er;
gefi oss guðdóms sáði
í grunni hjartans halda,
á himni og heimi hèr:
orðið Jesú og fyrir helgan anda
oss láttú í þinni þjónkan standa,
og leysi allan lýða voða' og vanda,
svo lífi' og sálu megi það ekki granda.

3. Loflegt ljósið hreina
lýðum híngað sendi
af hæstri heilla[1] dygð,
ást og eyðíng meina
í önd og líkam kendi
að hafa um heimsins bygð;
hver mann skyldi huganum til þess renna
helga trú og guðdóms skilníng þenna,
lífsins veginn læra' og öðrum kenna,
löstu' og synd með ást og iðran brenna.

4. Lausnarinn Jesús leiði
líf kristinna manna
á skýra skilníngs grein,
vorar vizkur greiði
að verka trúna sanna
fyrir utan ángr og mein;
með sannri ást og sætleik orða þinna
svo má þenna kærleiks grundvöll finna,
öll þín verk að elska' og á að minna
og öðrum jafnan guðdóms dýrð að inna.

[1]) hiella, Vb.

5. Heimsins skepnur haldi
himna ljósi skæru
sèr í sinnis bygð,
gæzku verkin gjaldi
guði með heiðri' og æru
af hreinni hjartans dygð,
á Jesús-nafnið jafnan skulum vèr kalla,
jeg er biðjandi kristna lýði alla:
að orðin hans megi aldrei úr minni falla
og sannleikur helgra guðdóms spjalla.

6. Kóngrinn Davíð kendi
með kærleiks dýrum anda
mönnum mjúka bæn:
sig frá syndum vendi
sottir af öllum vanda,
vizku verkin væn;
síðan megum vèr sálminn þenna kunna
sem spámannsins orðin akta' og unna,
vísar hann oss um væna skilníngs runna
vegsamlega' á klára mælsku brunna.

7. Biðjum vèr það bezta
blessað himna voldi
með allri ást og trú,
að gefi' oss miskunn mesta
í manndóms skírslu eldi
hèr í heimi nú:
svó fyrir máttkan mildloik þinnar stærðar
mætti vorar bænir drottni færðar,
andirnar í ást og náðum nærðar,
með iðran synda guðdóms gæzku hrærðar.

8. Fyrir[1] margar mildir þínar
og myskunsemdar náðir
oss veitandi er:
afmá þú illskur mínar

[1]) í 8 til 26. má rekja í hverju erindi vers úr sálmi Davíðs í röð.

sem óvin minn hefir skráðar
og mjög eru' á móti mèr;
eg vil nú af öllum syndum venda
að eg fái rèttu trúna kenda,
verkin góð og vizku orðin senda
í valdi drottins lifa fyr utan enda.

9. Breiði' út mínar bænir
með betran góðra verka
og hreina hugarins lund,
veit mèr vizkur vænar
að vernda trúna sterka
stöðuga hverja stund;
þvo mig drottinn þinni myskun meiri
af þvíngan holds og ljótum lasta leiri,
iðrun temprist orði' og hyggjan fleiri,
öndin klárist eins sem gull af eiri.

10. Veit eg vonzkur mínar
vera með mörgum hætti,
sem eg kann ekki' að sjá,
lèn mèr líknir þínar
af leyfðum guðdóms mætti
og skil mig skemdum frá;
þúngar syndir mèr í móti standa,
því er eg jafnan staddr í stórum vanda;
bið eg herrann himins og allra landa
að hörmúng þessi megi' ei sálu granda.

11. Almáttugum þèr einum
eg hefi gjört á móti
marga og mikla synd,
aumr í illsku greinum
og hinn lasta-ljóti
genginn frá góðri mynd;
þitt rèttlætið ræður þínar sæmir,
ráð og valdið vizku með sèr tæmir,
kraptur drottins kærleiks náðum næmir,
konst rèð vinna, því hann í myskun dæmir.

12. Svo í synda formi
sannlega er eg með vilja
getinn í girndar lyst,
í þessum þrauta stormi
þykjumst[1] eg kunna að skilja,
að mig bar móðirin fyrst;
eg hefi síðan aukið saurgan mína
aumlega lifað í holdsins lasta línu,
bið eg þig drottinn! fyrir blessaða myskun þína
að brjóstið mitt þú lát með iðran skína.

13. Svo elskaði hinn æðsti
alls rèttlætis veldi
sannlega sinni náð,
þrællinn þinn enn lægsti
þúngar syndir seldi,
þú gafst honum guðlegt ráð;
að læra' og kenna' af leyndri vizku þinni
lífsins veginn í hjartans dygða inni,
gæzku þessa gef þú öndu minni
guðs kærleikrinn hugarins rásir finni.

14. Yfir mig dreifi' ýsópó
með ást og kærleiks náðum,
drottinn, dýrðin þín!
forkláraðr og fegri snjó
eg fari af guðdóms ráðum
eyddur allri pín;
síðan gjöri' eg þèr sannlegt lof í hjarta,
svo með verk og orðaskýríng bjarta,
að megi' eg með það um mína æfi skarta
meir en sól um alla heimsins parta.

15. Minni heyrn gef þú marga
og mikla gleði að skilja
með fögnuð friðarins nú,
það mun þjóðum bjarga,

[1]) þikunst, Vb.

þeim sem girnast vilja
að vizku veitir þú;
bein mín öll þau blíðki drottins raddir,
með blessan þinni kristinn lýð þú kvaddir,
komi þèr allir kærleiks náðum saddir,
sem kennast vera í guðdóms miskun staddir.

16. Sjá ei syndir mínar
sætt rèttlætis veldi,
fyrir myskun má það ske,
mèr nægast náðir þínar
með nokkrum skírslu eldi
eða plágu píndur sè;
svo öll ránglætin afmáist mínu lífi,
að eg varist að vera í synda kífi,
og þó neyðin yfir minn líkam drífi
öndu minni bið eg að drottinn hlífi.

17. Skapa þú skýrlegt hjarta
með skilníngs nýjan anda
í mína brjóstsins bygð;
veit mèr vizku bjarta
í verki þínu' að standa
með allri ást og dygð;
helgan þína hugarins rásir finni
rètta trú að tala með túngu minni,
hverja stund af mildri miskun þinni,
svo kærleikurinn aldrei um aldir linni.

18. Ei kast mèr frá enn frómi
fríðri ásján þinni·
svo mjög sem maklegt er,
mèr í miklum dómi
myskun bið eg að finni
og hafi í heimi hèr;
andi heilagr aldrei frá mèr vendi,
eg mitt traust til guðdóms náða sendi,
hann stýri mèr með styrkri veldis hendi
frá stríði synda áðr en lífið endi.

19. Heilsan þinni[1] að halda
með hjartans gleðina mesta
mèr í minni tíð:
þig bið eg að gefa' og gjalda
guðdóms ráðið bezta
í friðnum fyr og síð;
höfðínglega því heilags anda spektir
um heiminn senda sannar vizku mektir,
en fyrir trúna eyðast vorar sektir
og fyrir myskun frelsast[2] allar slektir.

20. Vegana þína eg vildi
víslega öðrum kenna,
þeim sem þurfa nú,
að vondir venda skyldi
með vilja' og til þín renna
með allri ást og trú;
myskun þín er mönnum vís til náða,
margkunnig að eyða illsku bráða,
og kærleikurinn kristilegra sáða
kemr með hjálp og[3] veldi guðdóms ráða.

21. Leys mig burt af blóðum
og bræði harðra nauða
dýrlegr[4] drottinn minn!
að ei megi á illsku glóðum
andann líkaminn deyða
fyrir vondan viljann sinn;
heilsu minnar hreinsa þú túngu mína,
hef þú upp að tala um mildi þína,
rèttlæti og ráðin með vizku sína
röksamlega í guðdóms myskun skína.

---

[1]) þinna, Vb.

[2]) freslast, Vb.

[3]) og hjálp, Vb.

[4]) dyrlenur, Vb.

22. Drottinn, dýrðir þínar[1]
dragi mig burt úr vanda,
leysi líf og sál,
veiti að varir mínar
víst með helgum anda
út gefi allt gott mál;
og minn munnur ætíð lof þitt ræði,
og kunngjöri það guðdóms vizku sæði,
hversu mikil og margföld andar gæði,
mannsins líf fyrir[2] iðran öðlast næði.

23. Ef að þú vildir unna
að auka heilsan þína
mèr fyrir mál og trú,
þá munda' eg þiggja kunna
þig fyrir nauðsyn mína
að heyra í heimi nú;
ei muntú í offrum lystast neinum,
utan það gjörist[3] af hjartans vilja hreinum[4],
komi það með Krists kenníngum einum
með kærleiks vitni, kvitt af öllum meinum.

24. Helgun þína' að halda
holdið má með anda
ást og iðran fá,
og þèr offrið gjalda
orðin og viljann vanda
og vizku verk sem má;
ei[5] fyrirlítr[6] þú ángrað mannsins hjarta,
ásján drottins sendir geisla bjarta,
lífgar andir og lýsir myrkrið svarta
og leiðir í burtu vora villu parta.

25. Góðgjarnlega gjörði
guð minn sanur að vilja

---

[1]) dýrðar þinnar, Vb.
[2]) ást og, b. v. (ofaukið) Vb.
[3]) giörast, Vb.
[4]) hrinum, Vb.
[5]) eigi, Vb.
[6]) fryerlijtur, Vb.

við kristni kæra þèr[1],
láttu' oss lífs á jörðu
lýð þinn heyra' og skilja
hvað hæfir holdi hèr,
þó að ei þurfi þar til þjónkan mína,
því bið eg drottinn veiti myskun sína
upp að byggja borgar múra þína
með blessan guðs, að aldrei nái' að dvína.

26. Þú meðtekur mesta
manna helgun skæra
af allri ást og trú,
er það iðran bezta
offrið þèr að færa
hèr í heimi nú;
altari drottins auðmjúkt mannsins hjarta
upp[2] setjandi tólf trúarinnar parta,
þá má kalla kærleiks-kálfa bjarta
klárt eyðandi saurgun synda parta.

27. Davíðs dikt má kalla,
djörfúng mína sýna
í íslenzku' orðin sett,
eg er þess verðugr valla
versa smíði mína[3]
að auka nè yrkja rètt;
því mun eg biðja þá, sem vilja læra,
þetta mál til betra efnis færa,
að orðin góð megi andar lífið næra,
iðran synda gjörir menn Kristi kæra.

28. Á ljósar glósur lýði
leiði og greiði mína
eina og hreina art,
bænir vænar bíði

---

1) þir, Vb.
2) fyrir, Vb.
3) neina, Vb.

í blessan þess, er sína
í sælu velur skart;
þjóðir fróðar þessar vísur finni
þýði og prýði mjúkri mælsku sinni,
orðin gjörð að allir haldi' í minni,
ent og kennt í dyggu hyggju inni.

29. Dýr og skýr sá drottnar
dæmum sæmir allar
túngur og tigna líst,
hann er þann ei þrotnar,
þjóðir góðir kallar
í helga himna vist;
Jesú vísa oss fyrir krossins pínu
inni að finna með ráði ríki þínu,
mætti og ætti meira í máli mínu
minníng inna ætíð nafni þínu.

30. Endann víst eg vildi
vinna og finna hinn bezta
á minni mála grein,
skýra og dýra eg skyldi
skærum færa hið mesta,
væri mín vizkan hrein;
eyðist sneyðist orða smiðjan kalda,
inni og minni má því ráða og valda,
lát oss, drottinn, lífsins trúna halda,
lofið sè þèr um allar aldir alda!

---

## 4. NIÐRSTIGS VÍSUR.[1]

1. Djarfleg er mèr diktan,
drottinn minn! um sjálfan þig,
þar sem æpa og ikta
alla vega í kríngum mig
glæpa fjöldi og gleymíng boðorða þinna;
maklegan ángist mætti eg fá
ef minntist á
sárleik synda minna.

2.[2] Þegar eg hyggst að hefja,
háleit brúðrin! kvæðið þitt,
taka vondir að vefja
villimyrkrum hjartað mitt;
valda slíku vèlráð forna fjanda,
nema þú dugir mèr dýrust drós
og dags brún ljós,
höllin heilags anda!

---

[1]) Þetta kvæði eigna öll handrit Jóni biskupi Arasyni, og er það í fjölda handrita bæði á skinni og pappír, því kvæðið hefir verið mjög í afhaldi, og það eigi miður á síðari tímum, svosem á átjándu öld, heldr en fyrri. Nafnið er ýmist í handritunum „Niðurstigs (-stígs) vísur" (716 e. f. g., 720. 4to, 104. 8vo) eða „Niðrstigníngar vísur", eða „Niðrstignings vísur" (713). Það er prentað hèr eptir skinnbók í Árna Magnússonar safni, Nr. 713 í 4to bls. 63—66, sem er hið helzta handritið; önnur skinnbók er í sama safni 714 í 4to (723 b); hin þriðja er í sama safni 720 í 4to. Helztu handritin á pappír eru í safni Árna 716 e. og f. í 4to, og 104 í 8vo, þau eru frá síðara hluta seytjándu aldar og skjóta inn nokkrum erindum, svo sem getið er hèr á sumum stöðum. Röð erindanna er og breytt harla víða í sumum handritunum, en sjaldnar til bóta, svo hèr er að eins á stöku stað gefinn gaumr að þeim breytíngum, þar sem full nauðsyn þótti, því skinnbókin 713 er sýnilega ekki sem áreiðanlegust, hvorki að röð erindanna nè orðamun; ekki er heldr getið hèr orðamunar, að því leyti sem oss virðist honum ekki gaumr gefandi. Þessar tilbreytíngar eru líklega komnar af því, að kvæðið er í sumum afskriptunum ritað eptir minni, en ekki eptir bókum.

[2]) í 716 d í safni Árna er þessu erindi skotið inn, og er það annað erindi kvæðisins:

Það helzt er hèr í heimi
hefir ekki að þýða neitt,

3. Í dapran dauðans skugga
dálega hafa mig syndir fært,
fátt mun hjartað hugga
hörmulega var pínt og sært,
nema þú dugir mèr, drottins vífið mæta,
eilífs herrans ertu blóm
fyrir júngfrúdóm;
lofa mèr löstu að bæta![1]

4. Lofa mèr lausnarinn sæti!
að lesi' eg af þèr fræðið eitt,
þú hefir svo margskyns mæti
manneskjunni gefið og veitt;
skepnan öll er skyldug yðr að krjúpa,
virtist sjálfr að vitja vór
fyrir verkin stór,
í dauðans gröf svo djúpa.[2]

---

metnast margr af seimi
mannlegt lán ef honum er veitt;
meðan vær lifum látum oss ekki hræða;
hvar er þá vort dreiss og dramb
eði dárlegt ramb,
þá andir í eldi mæðast.

[1]) þessu erindi er skotið inn, og er hið sjötta, í 716. f:
Áví, Jesús móðir,
engla brúðrin fögr og blíð,
umfram allar þjóðir
ertu blessuð fyrir þitt líf.
Gratia plena! guðs engillinn sagði,
heilagr andi þèr hvílist nær,
mín helgust mær!
fyrir brjósti þínu að bragði.

[2]) þessu erindi er skotið inn sem hinu fimmta í 716e. í 4to og 104 í 8vo:
Æðsti engla herra!
æ þig lofi hver sem má,
löst minn láttu þverra,
leið mig öllu vondu frá;
þú ert heill og hjartans bezta yndi,
voldugastur veittu mèr
að vera hjá þèr,
frið þinn svo eg fyndi.

5.[1] Af lifandi líknar æði
lèzt þú berast í þenna heim,
fyrir utan ángr og mæði
júngfrú gleðst af burði þeim;
þeirrar brjóstin þínum sæta munni
móður þinnar, Maríu frú,
að mylktir þú
og fyrir allt fram unnir.

6. Yfir því helga húsi
háleit stjarnan skein svo glatt,
kóngrinn frægðar fúsi
fæðast lèt af meydóms krapt;
austan komu kóngar þrír úr löndum
með reykelsi, myrru og gull,
og mætin full
brúðar barni völdu.

7. Hart fyrir Heródes æði
hlaut Jósep að flýja land,
og mætust mæðgin bæði,
mörgum vann hann sveini grand;
fórtu sjálfr í fátækt heims og pínu,
kvinnan kom til Egipts ein
með úngan svein,
er bar hún á brjósti sínu.

8. Brátt til borgar einnar
brúðrin sig með Jósep fór,
fèkk sèr fæðu hreinnar,
fljóði veittist myskun stór,

[1]) í Á. Magn. 104. 8vo. er þessu skotið inn og er þar sjöunda erindi.
Jóachims barn og Önnu
jöfurs drottníngin þýðust þess,
fljótt fèkk hún að sönnu
fögnuð þann af Christi eg les:
með henni var mánuði fimm og fjóra,
út spratt síðan eðla blóm
af jómfrúrdóm,
fèkk því frægð svo stóra.

nú skal vakt til vista þeirra leggja,
júngfrú María eptir var
með eykinn þar,
og geymdi barna beggja.

9. Sveinn tók sárt að gráta,
sinnar hefir hann móður mist,
hann vill huggast láta
hjálpin sú, sem fæddi Christ;
lagði á brjóst sèr barn hins auma svanna,
þessi fèkk svo prúðan prís:
í Paradís
fór hann fyrstur manna.

10.[1] Hèr í heimi dvaldist,
húngur þoldi og meinin sár,
tiginn guðs son taldist
tuttugu vetr og þrettán ár;
grimmur tók þá gyðínga flokkrinn leiði
á dýrau girnast dreyra þinn,
þú drottinn minn!
fullir af falsi og reiði.

11. Nichodemus náði
nefnilegr að greina ljóst,
dýr sem drottinn spáði
Davíð kóngs fyrir munn og brjóst:
með próphetum og prúðum engla kóris
græðarans pínu að glósa tók
og gjörði af bók,
gesta salvatoris.[2]

12. Í grasgarðinn hreina
gekk hann sjálfur skírdags nótt,
ljúfr með lærisveina,
liðsmenn kvómu Gyðínga fljótt;

[1]) Þessi vísa er í 713 hin sjötta, en á að vera síðar í kvæðinu, hèrumbil svo sem hèr er sett.

[2]) Nikodemus evangelium, bók, sem kölluð var „gesta salvatoris" (gjörníngabók lausnarans).

Júdas Skariot, einn af selskap þínum,
gekk að þeim, er græddi oss,
og gaf honum koss,
mjúkum meistara sínum.

13. Jesús sagði öldum,
Júdas kenndi hann heilsa sig,
og með kossi köldum
komtu vinr! að selja mig;
þetta signum[1] setr hann þeim hið fysta:
farið í stað að falsarinn bað
og flýtið þèr að,
og fángið þann eg kysta.

14. Einn af Jesú sveinum
innangarðs að sverði brá,
öldúngs þræli einum
eyrað sneyddi höfði frá;
Jesús aptur eyrað við hausinn græddi:
„geym þitt sverð í góða slíðr",
guðs son blíðr
við postulann Petrum ræddi.

15. Gripinn af Gyðínga höndum
guðs son bæði skær og hreinn,
barður berr með vöndum
og bundinn þar við stólpann einn,
þeir lemja hann síðan, leiðir hrækja og spýta,
fram fyrir Kaífam kennimann,
þeir kalla á hann,
lögbrots mann til lýta.

16. Þitt blessaða andlit byrgðu,
börðu knefum og skældu að því,
konur og karlar syrgðu,
Kristi fylgðu garðinn í;
guðs postular grátnir hèldu' á flótta,
sögðu guði sætu náð,
svo var spáð,
merki mannlegan ótta.

[1] þ. e. teikn.

17. Lausnara vorn hinn ljúfa
leiddu fram fyrir Pílatus knè,
ei má ritníng rjúfa,
rèttarinn frá eg að þetta sè;
látum, herra! lögmál yfir hann gánga,
þessi kallast kóngur einn
og Kristur hreinn,
og vekr svo villu ránga.

18. Honum bauð hörmúng nauða,
hjartað laust en ótrú gild,
drottinn vorn til dauða
dæmdi' hann eptir Gyðínga vild,
kalla þeir á krossinn skuli hann festa,
annað fólk fyrir föður vorn stè
og fèll á knè,
þeir gjörðu' að gabbið mesta.

19. Allan dag frá óttu
ángist beiðstu, drottinn minn!
fyr þig með falsi sóttu
og fýsast vildu' á dreyrann þinn;
barður vartu berr í grimdar frosti,
í purpura möttul prúðan færðr,
píndr og særðr,
þig mæddi mein og þosti.

20.[1] Þrengd var þèr að enni
þyrnkórónan hvöss og bitr,
holdið skarst fyrir henni,
hrörna tók þinn skæri litr;
skóku höfuð og skelfdu að þèr sverðum;
lofaðr drottinn! leystu oss,
fyrir ljúfan kross,
er þú bart þèr á herðum.

21. Dýrstur vildi deyja
drottinn minn fyrir Adams ætt,
sá það signuð meyja,
sjálfan guð hefir getið og fætt;

[1]) Þetta erindi er ekki í 714 (723 B).

Jón postuli, einn af lærisveinum,
beiskan harminn báru þau
í brjósti tvau
Krists hjá krossi hreinum.

22. Píndr á Pílatus dómi,
pústra fèkk og hálsins slag,
vor var faðirinn frómi
festr á kross um miðjan dag;
sólina gjörði svarta' en björgin sprúngu,
urðu myrkr af ógnum þeim
um allan heim,
er gaddar guðs son stúngu.

23. Nóni sjálfu nærri
nógan ángist veröldin fèkk,
með róma röddu skærri
ríkur guð á krossi hèkk:
„faðir, minn anda fel eg á náðir þínar!"
friðarins blóm að formast hèr
og fullgjört er
rètt um rásir mínar.

24. Nú skal sannlega segja
hvað Satan gamli hafðist að,
víst ei vill hann þegja
vítis árinn þegar í stað:
vær höfum litið Jesús fánga og pína,
Kristr var negldr á krossinn hátt,
hann kemur brátt
undir ánauð mína.

25. Ekki er oss um þenna,
allir djöflar svöruðu þá,
megu vær mátt hans kenna,
mun það nokkuð Jesús sá?
Lazarum burtu leiða frá eg hann þorði, —
fjóra dagana fèkk hann pín
í fjötrum mín, —
með einu sínu orði.

26. Lítt mun hann leita oss nauða,
ef lýk eg upp gólfum vísdóms míns,
hann frá eg hræðast dauða
og hyggja mikið til andláts síns;
á loga og frosti látum vær hann kenna,
hefi' eg svo allan heiminn hèr
í hendi mèr,
fengi' eg fángað þenna.

27. Varð að drekanum dökkva
djöfla faðirinn eptir það,
hugði honum að sökkva
og hann að gleypa þegar í stað,
dauðans ángist drottinn þolir hinn mildi,
uppá krossinn ormrinn skreið
og andláts beið,
sálina svelgja vildi.

28. Sá það svikarinn ljóti
síða drottins opnast hrein,
grafin í gegn með spjóti,
guðdómr út af líkama skein;
þá nam steypast stýri Babylonis,
tjaldið góða teygðist fast
og í tvenníng brast,
í templum Salomonis[1].

29. Hann hlaut heim að skríða
í helvíti og pínu brátt,
segist með sorg og kvíða
sigraðr vera af Jesús mátt:
rèttlega eru nú ritníngarnar skýrðar,
biðr að læsa borgar hlið
og búast við,
því hèr kemr kóngur dýrðar.

---

[1]) þ. e. í Salomons musteri í Jerusalem.

30. Árar æptu og þustu,
endast mun þeim kvalanna vist,
lömdu hann og lustu:
þú lokkaðir híngað Jesúm Krist;
þeir drógu hann út af djöfla porti þröngu,
hinn enn gamli Belzebupp
að beljar upp,
og vildi verða að öngu.

31. Róma raddir skýrðar
ræði' eg nú sem diktað er,
nú mun drottinn dýrðar
draga' að oss svo mikinn her:
hann er svo stór og stoltuglegr að herja
og svo sterkr, að stökkva' upp hlið
þó staðið sè við,
öngum vinnr að verja.

32. Kemr upp kallið mesta,
kóngr himnanna stígur niðr,
borgir fjandans bresta
bál og eisa sloknar viðr;
dökkva treðr hann djöfla fótum undir,
skaparinn huggar með skærri vörn
sín skepnu börn,
þar urðu fagna fundir.

33. Adams ættir einar
allar stóðu saman í krans,
lásu lofspár hreinar,
lángar mjög til kvomu hans:
minntust á hvað mælt var í bókum hreinum,
dýrðar vers að drottinn bað
og Davíð kvað;
það segir í sálmi einum.

34. Engla kórus kallar
kappsamlega' á vítis lið,
lokur og lása alla
lúkið upp, og dvelið ei við;

Nú er sá kominn, að Satan gjörir að fánga,
dýrðar faðirinn drottinn vár,
fyrir dauðans sár
inn og út vill gánga.

35. Jesús á Adam kallar,
Eva greip um bóndann sinn,
þar með þjóðir allar:
þiggið nú lausn fyrir dreyrann minn!
dýrleg frá eg að drottins höndin hægri
leysti alla lýði sín
frá logandi pín,
för var engin frægri.

36. Þrengdr í þessari reisu
þríhöfðaður Belzebupp,
byrgðr í báli og eisu
bólnar þar af píslum upp;
fjötraðr var hann af fögrum guðdóms höndum,
um allar aldir, Jesús bað
í Adams stað,
brenn þú í þessum böndum![1]

---

[1]) Þetta er innskots erindi, og er á ymsum stað í röðinni: í 716e. 42. er.; í 716f. 44. er.; í 716g. 36. erindi:

Á föstudaginn lánga
allir ættu að fella tár,
á berum fótum gánga,
minnast á Jesú píslar sár;
heimrinn allur hrapaði' í sáran dauða
breið þú yfir oss möttul þinn
Jesú minn!
ríka og svo snauða.

En 104. hefir það þannig breytt (43. erindi í röðinni):

Þann dag þrauta lánga
þjóðin skyldi fella tár,
bljúg og berfætt gánga,
blessuð guðs á minnast sár;
heimrinn rèð svo hrapa í sáran dauða,
keypti oss aptur Kristur minn,
fyrir kraptinn sinn,
með blessuðu blóði rauða.

37. Páska frjádag[1] með prýði
pindr var guð á helgan kross,
þú leystir alla lýði
og lokkaðir burtu fjötur af oss;
til helvítis þú herjaðir styrkum anda,
einvaldskóngrinn ætlar þá
með afla' að fá
fólk sitt allt frá fjanda.

38. Hóf sig upp til himna
herra guð með flokkinn sinn,
englar súngu ymna
allir lofa þig drottinn minn!
reistu af dauða ríkr í páska óttu,
gafst þeim sómi og gleðinnar náð
er grètu áðr,
fegnir á fund þinn sóttu.

39. Myskun þína mjúka,
Maríu son! eg beiði nú,
með samvizku sjúka
syndir vorar mýkir þú!
lát oss burt frá lasta djúpi venda,
svo allir megum vær iðran fá
og öðlast þá
gleði og góðan enda.

40. Láttu' ei ljótar syndir
lokka, drottinn! oss frá þèr,
þeirra þúngar myndir
þrengja önd af líkama mèr;
mikið hefir þú til mannsins kristna unnið,
þá um kross þitt blessaða blóð
úr benjum stóð,
af öllum æðum runnið.

---

[1]) Páskanátt, 713; föstudag, 716e.

41. Hjálp mèr herrann mæti,
sem hèkkst á krossinum upp fyrir mig,
svo að eg syndir bæti
og sjái' eg ekki reiðan þig;
einkum bið eg þig, Jesús minn! í kvæði:
óhreins anda illsku spè
að aldri sè
þar formast þetta fræði.

42. Oss á efsta dómi
öllum hjálpa þú, drottinn minn!
María, meyjanna blómi!
að megum vèr komast í flokkinn þinn,
svo öndin nái þeim öllum krapti að halda,
sem glósað finnst um gleðina skýrð,
og guðdóms dýrð,
um allar aldir alda!

---

## 5. KROSSVÍSUR[1].

1. Dýrðarfullur drottinn minn!
dýrka vilda eg þig,
hæðstur guð á himnum skínn
hefir þú leystan mig;
júngfrúin innilig!
í holdi þínu, helgust mær,
huldi guðs son sig.

2. María[2] drottníng mild og skær!
meyjanna ertu blóm,
höfuðengillinn, háleit mær,
þinn heiðrar júngfrúrdóm,

[1]) Í sumum handritum er kallað „Krosskvæði". Handrit þau, sem kvæði þetta er prentað hèr eptir, hefir kyn sitt að rekja til fjögra handrita á skinni, allra frá sextándu öld. Elzt þeirra, sem vèr höfum nú, er Nr. 713 í 4to í safni Árna Magnússonar (bls. 107—110) og er prentað hèr eptir því. Það var seinast í eign sira Ólafs Gíslasonar á Hofi í Vopnafirði (1675 og þar eptir), komst síðan í tveim brotum til Jóns biskups Vídalíns og til prófastsins á Þíngvöllum sira Árna Þorvarðssonar, og frá þeim til Árna Magnússonar. Önnur skinnbók kom vestan úr Önundarfirði, og keypti Árni Magnússon hana 1708; en hún var komin í Önundarfjörð frá Þorkötlu Snæbjarnardóttur í Lokinhömrum í Arnarfirði. Þriðja skinnbókin var norðan úr landi, og sýnist hún muni vera hin sama, sem nú er í handritasafni Breta í Lundúnum. Hún er frá hèrumbil 1583. Það er mark á kvæðinu þar, að 30. er. er bætt við að mestum hluta, og tveim erindum þar á eptir; þar af má ráða, að sú bók, sem Lundúnabókin er rituð eptir, hefir verið búin að missa blöð 1583 eða fyrri, og hefir það sem vantaði verið fyllt þar út, annaðhvort þegar bókin var rituð eða nokkru fyr, en sú bókin sem vantaði í, eða afskript eptir henni, hefir verið til þegar Peringskjöld lèt prenta kvæðið og önnur fleiri í riti nokkru, sem hann kallaði Fragmentum runico-papisticum (Stockh. 1721. Fol.) og er það prentað þar eptir þessari bók eða afskript af henni. Þar er kvæði þetta kallað „Krossvísur gamlar. autor Herra Jón biskup Arason", og er þess getið, að „Ljósarvatns (Ljósavatns) fólk", það er án efa Ljósvetníngar, sem þá voru uppi, hafi mjög elskað og iðkað þetta kvæði. Þess má geta, að „Krossvísur" heita einnig annað kvæði, sem lítr út til að vera ort skömmu eptir siðaskiptin og er prentað í Vísnabók Guðbrands biskups (1612, bls. 262—264).

[2]) Kvæðið byrjar á þessu erindi í sumum handritum.

Ave! fögur og fróm,
gratia plena, guð er með þèr,
Gabríel talar með róm.

3. Semja vilda eg sónar hljóð
um þá sætu náð,
er lifandi drottinn leysti þjóð,
líknar gaf til ráð,
með allri dygð og dáð,
því að guðdómrinn gjörðist maðr
og gekk um heimsins láð.

4. Djarfleg er mèr diktan sú
um dýrðar efnið frítt,
glæpa svellið grimma nú
gengur að svo strítt,
það fær eigi þídt;
þúsundsinnum það hefir skeð
og þvíngað hjartað mitt.

5. Lifandi drottinn líkna mèr
fyrir þá líkams neyð,
er grimmir Júðar gjörðu þèr
og girntust á þinn deyð,
öllum syndum eyð!
sjálfviljandi særðr vartú,
signuð rósin reyð!

6. Þú vart bæði barðr og flengdr
og bundinn stólpa við,
Kristur upp á krossinn hengdr
keypti oss í frið:
allt það Adams lið
svartur púkinn sæmdar snauðr
sveik frá himna smið.

7. Hjálp mèr Kristur, fyrir þann kross
og fyrir þá krönku pín,
og fyrir þann dýra dreyra foss
er dundi af sárum pín,

blessað benja vín,
þú ert að vísu, voldugr guð,
von og heilsa mín.

8. Breiddi út sínar báðar hendr
blessaðr herrann mætr,
í gegnum lófa gaddrinn stendr
og göfga báða fætr,
áðr en lífið lætr;
heimskir Júðar hræktu' á þig
himna kóngrinn sætr!

9. Herra minn, þú hjálpa mig
fyrir þá helgu und,
og fyrir þá nagla, er nístu þig,
og fyrir þá nauða stund;
hristist himin og grund;
gyðínga á millum grátið stóð
guðs hið fagra sprund.

10. Móðir Krists hjá krossi stóð
og kvölina sára leit,
hjartans rann hið heita blóð,
hrygð á júngfrú beit;
engi mann það veit,
hversu að sorgin hyggju past
harðlega sundur sleit.

11. Fyrir þá sorg, hið sæta víf,
af syninum fèkktu þá
frelsa mitt hið ljóta líf,
þar liggur maktin á;
mætust María,
líknar æðr og lífsins brunnr
láti oss miskun fá.

12. Petrus flýr og postula lið
plóman stendur mæt,
Jóhannes á aðra hlið
og Jesús móðir sæt,

júngfrúin, öllum bæt
hrygð og ángur, harða kvöl
af hjartans grunni ræt.

13. Kristur talar á krossi fínn
við það kærasta víf,
þèr fel eg á hendi, frændi minn,
hið fegursta móður líf,
hún skal vera þín hlíf;
sonrinn hlýtr að sæfast hèr
synda fyrir það kíf.

14. Fyrir þyrnkrúnu og þúnglegt fár
og þína helgu önd,
fyrir nagla sporin og síðu sár
sálanna þú leystir grönd,
skulfu legir og lönd,
úr axlar liðinum önnur gekk
þín elskulegasta hönd.

15. Drottins míns hið helga hold
hörmulega var sært,
úr benjum niðr á breiða fold
blóðið rann svo skært,
fórn var fyrir oss fært;
lambið helga lángafrjádag
lýðum sè það kært.

16. Fyrir þá döpru dauðans pín
drottinn! hjálp þú mèr,
og fyrir þau sætu sárin þín,
er seggir veittu þèr;
bókin brögnum tèr:
að fyrir þegna þýður guð
þoldi dauða' á sèr.

17. Jesús talar með elsku ráð,
Jórsala syrgir land:
nú er það fyllt, er fyrir var spáð,
fel eg því mína and

föðurs í fríða hand,
sjálfum þeim er sendi mig
að sigra heimsins grand.

18. Kristur gaf sinn andann út
á því helga trè,
köllus frá eg kryppan lút
að krossi stilli og stè,
spyr: hvar syndir sè;
ætlar sá sem Adam sveik
Jesúm koma á hnè.

19. Fjandinn varð að flýja þá
fagnaðarlaus á braut,
knepptur undir krossi lá,
Kristur sigrinn hlaut,
honum til heljar skaut,
vítis árinn veinar upp
og vildi komast úr þraut.

20. Guðs líkami var grafinn í jörð
en Gyðíngar hèldu vakt,
ramma höfðu ráðagjörð,
sem ritníng hefir það sagt,
og opt til orða lagt:
að drottinn rísi af dauða upp
með dýrðarfullri magt.

21. Fjandur tóku að fregna það
á fróni gjörðist drótt,
kóngur dýrðar kemr í stað
og knýr á þessa nótt
hurðir harðla fljótt,
á lið sitt kallar Lucifer:
þèr læsið portin skjótt!

22. Í helvíti var harkið mest,
hurðum slegið á gátt,
herra Jesúm hræddist flest:
hann mun koma hèr brátt!

fjandur hrópa hátt,
hver mun döglíng dýrðar sá
er djöfla sigrar mátt.

23. Satan hefir þú sent oss mann,
svo er þinn orðinn kraptr,
Lazarum burtu leiddi hann,
logandi vítis kjaptr!
aldri fær þú hann aptr,
í upphafi vartu engill guðs
öllum fegri skaptr.

24. Við þengil himna þarftu ei
að þreyta nokkuð stríð,
Belzibupp! þèr verði vei
vesall á hverri tíð,
bæði árla og síð;
Adam tók og Evu með
Jesús höndin fríð.

25. Bundinn liggr og brotin hlið
bölvaður púkinn þar,
Adam leystr og allt hans lið
það eigi fordæmt var,
fjötra sundur skar;
andir þeirra allar senn
upp til himna bar.

26. Hreinum guði skal halda jól,
hefi eg sett í brag,
reis af dauða er roðin var sól
ríkr á páskadag;
prestar hafa það plag:
sýngja þá með sætan tón
söngs hið bezta lag.

27. María fèkk þá lifandi lyst,
linaði sárum þjóst,
því að guðdómrinn gladdi fyrst
geðlegt hennar brjóst,

og hann til himna bjóst,
móður sína mektar guð,
mönnum er það ljóst.

28. Hátíð kemr að höndum ný
harðla mikil og stór,
leið hann upp yfir lopt og ský
ljós á himna kór,
með önd og líkama fór,
hans lærisveinar litu á það
hvar líknarbrautin var vór.

29. Síðan frá eg hann sendi þeim
sjöfalds anda gipt,
túngur allar tala um heim,
tigin segir það skript,
þjóð var þrautum svipt;
lýð að kenna ljósa trú
til landa var þeim skipt.

30. Aptur kemr í annað sinn
Jesús herrann frómr![1]
kraptafullur krossinn þinn,
þá kemr hinn efsti dómr,
lágr er lýða rómr,
hræddur er þá hver um sig
halrinn gæzku tómr.

---

[1]) Hèr endar kvæðið í Peringskjölds útgáfu, með þeim viðbæti, að niðrlagið vanti („finis deest"). En í Lundúnabókinni er sett inn niðrlag þessa erindis og tvö að auki, og hefir þetta verið ort aptanvið kvæðið:

30. [Aptur kemr í annað sinn
Jesús herrann frómur],
rèttan halda reikníngin
raskast ei sá dómur,
skelfir hans skýri rómur,
óguðlegra og djöfla dans
dáðlaus heyrist ómur.

31. Himins skæra blómið bezt,
blessuð María góð,
liðs þíns njóta lát mig mest,
þú líknar aumri þjóð,

31. Hefir sá guð, er heiðrum vær,
heimi öllum stýrt
svo elskulega' að enginn fær
með orðum sínum skýrt,
allt er annað hýrt,
himnum ræðr og helvíti,
hans er valdið dýrt.

32. Hjálp mèr guðs hin helga frú!
heims frá ljótri lygð,
himna drottníng heitir þú,
hlaðin af allri dygð,
glæsta guðdóms frygð,
sættu oss við son þinn Krist
sjöfalds anda bygð.

33. Syndgazt hefi eg síð og ár
sjálfum guði á mót,
Jesús móðir júngfrú klár
elskuleg hjartans rót,
veittu vegleg snót,
mildleg æður, María frú!
á mínu ráði bót.

34. Drottins míns hinn dýra kross
dýrkar gjörvöll þjóð,
hann er með sigri sendur oss
að sigra karl og fljóð,

---

bittó (bið þú) þitt blíða jóð:
úr hreinsunareldsins kvala kveini
komi fyrir sitt blóð.

32. Sanctus skal eg þá sýngja þèr
svo sem bezt eg má,
og prísa þig, sem hjálpar hèr
hverskyns nauðum frá;
með herranum himnum á,
föður, anda og syni sè
súngin gloríá

ýngismenn og jóð,
því eplið bannað át af trè
Adams húsfrú rjóð.

35. Stóð með blóma burðug eik,
bannað epli á hèkk,
ormrinn bjúgi Evu sveik
og Adam teygðan fèkk,
af boðorðum guðs hann gekk;
veraldar lýðrinn verri en dauðr
varð fyrir synda flekk.

36. Bannað trè var bölvan vífs
og beiskum harmi spent,
nú er það orðið lignum lífs[1]
lýðum öllum kennt,
um með æru vent,
hjálparinn sjálfur hèkk á því
sem hefir oss lífið sent.

37. Lífið hèkk á lífsins trè
er lífgar vora sál,
dauðinn þar yfir dauðann stè,
dauðans hverfur tál,
sloknar bruni og bál,
lifir og ríkir ljós og hreinn
sá lífið gefr og mál.

38. Drottníng hefir það Saba sèð,
er sem eg um fræða spil,
Salamon kóngur sæti rèð
á siðunum kunni hann skil;
auðgrund ansar til:
þèr gángið ofaná göfgast trè
gulls kvað hrínga bil.

---

[1]) lignum lífs, þ. e. lífsins trè.

39. Harðla mikil var miskun sú,
er mönnum var þá veitt,
sjálfur guð hefir Satan nú
svo með brögðum beitt,
hann vissi eigi til neitt:
að sonar guðs mundi signað hold
fyrir syndir vorar meidt.

40. Þann sæti viðr og signað blóm,
sem merkir Jesúm Krist
sonar persónan fögr og fróm
fjórum nöglum níst,
uppá eðla kvist;
herra guð fyrir helgast trè
himna gefr oss vist.

41. Voldugr drottinn veiti náð
vísur þeim er fann,
svo æfinlega með allri dáð
aldrei týnist hann;
sýngi upp sá sem kann,
brag skal eiga blessaðr kross;
byrgi' eg hljóða rann.

42. Yrkja rèð eg fræðið fast
fjóra tigi í vetr,
enga trú' eg á það brast,
einni mun þó betr,
mæðist mærðar setr;
brögnum vil eg nú bjóða það
og birta þar með letr.

[1]) Þar sem hèr eru talin 41 erindi í kvæðinu, en eru reyndar 42, þá má koma því svo heim, að hèr sè ekki talið með þetta hið seinasta erindi.

6. LAUSAVÍSUR, SMÁKVÆÐI OG STÖKUR.

Þessar lausavísur og tækifærisvísur, sem hèr eptir fylgja, eru eignaðar Jóni biskupi Arasyni, og finnast í ymsum handritum og nokkrum prentuðum bókum, svosem í Kirkjusögu Finns biskups, Annálum Björns á Skarðsá, Árbókum Espólíns og fleirum.

I. (um 1500). Jón Arason var fæddr á Grýtu[1] hjá Múnka-Þverá í Eyjafirði, hann kvað þetta um hana[2]:

Ýtar buðu Grund við Grýtu
Gnúpufell og Möðruvelli,
en ábótinn vill ekki láta
aðalból, nema fylgi Hólar.

Jarðirnar Grund, Gnúpufell og Möðruvellir voru helztu höfuðból í Eyjafirði af bændaeignum á dögum Jóns Arasonar; Hólar hafa menn haldið væri Hólar í Hjaltadal, en það gæti og verið Hólar í Eyjafirði, því allar hinar jarðirnar eru bændaeignir.

II. (um 1500). Þegar Jón Arason var í uppvexti, hitti hann einusinni bónda, sem Jón hèt; hann átti góðan hest, móalóttan. Jón Arason falaði hestinn að nafna sínum, en hann svaraði, að hann mætti eiga hestinn ef hann gæti kveðið vísu meðan hann gengi í kríngum hann einusinni, og nefna Móalíng í öðruhvorju vísuorði. Jón Arason kvað þá þessa vísu meðan hann gekk í kríngum hestinn:

Mín er lyst í ferðum fyrst
að fara í kríngum Móalíng,
finna þann hinn fróma mann,
er fær mèr slíngan Móalíng;
átt hef eg í aurum fátt
annað þíng sem Móalíng,
því er mín bón að bóndinn Jón
bríngi mèr sinn Móalíng.

Síðan eignaðist hann hestinn.

[1]) Grýta er enn Múnkaþverár klausturs jörð (Johns. Jarðatal. Eyjafj. sýsl. Nr. 406, í Aungulstaða hrepp) 20 hdr. að dýrleika; í Nýju jarðabókinni er Grýta óbreytt að dýrleika, og talin í Eyjafjarðar sýslu, Aungulstaða hr. Nr. 24.

[2]) sbr. að framan bls. 339.

III. (fyrir 1520?). Annálsgrein eptir sira Arngrím lærða á Melstað: Anno 1521 siglir Ögmundr biskupsefni, en Norðlendíngar voru í umráðum að kjósa til biskups Jón prest Arason frá Hrafnagili í Eyjafirði, er biskup Gottskálk hafði vígt og þá var prófastr í Eyjafirði. Hann var höfðíngi mikill og mönnum vel geðþekkr, málfærismaðr góðr og mikið skáldmenni, en ekki á Latínu lærðr.

Hann hafði kastað fram stöku einn tíma við Böðvar nokkurn, animi gratia[1]:

Látína er list mæt,
lögsnar Böðvar,
í henni eg kann
ekki par, Böðvar;
þætti mèr þó rètt
þitt svar, Böðvar,
ef míns væri móðurlands[2]
málfar, Böðvar[3].

Ekki sigldi Jón prestr á því ári.

IV. (1524). Ólafr prestr Gilsson sendr af Ögmundi biskupi með brèf; hann staðnæmdist í Víðinesi, en fór ekki heim að Hólum, og gjörði boð Jóni Arasyni, að koma þángað að hitta sig. Jón sendi Þorstein Gunnason. Hann sá ráð fyrir brèfi Ögmundar biskups, svo Jón Arason sá það aldrei, en hann ritaði Ögmundi biskupi afsökunarbrèf og vísu fyrir neðan, og er þetta upphaf að:

Vasaði í Víðines
valinn til að bera skjal.

en þetta er niðrlag:

Setti niður sinn hatt
þá sveininn fann hann Þorstein[4].

---

[1]) þ. e. að gamni sínu. Þar er þá vísan ekki beinlínis tengd við biskupstignina, og er það líklegra, því það er harðla ólíklegt, að Jón Arason, gamall prestr og prófastr, hafi ekkert kunnað í Latínu á þeim tíma sem hann varð biskup.

[2]) sira Arngrímr hefir: „þótti mèr" og „mekta eg móðurlegt", sem virðist afbakað.

[3]) vísa þessi er með nokkurri breytíngu hèr fyrir framan, bls. 341.

[4]) sbr. að framan 318 og 328.

v. (1524). Jón biskup Arason orti kvæði um utanferð sína til biskupsvígslu og sjóhraknínga þá, sem hann varð fyrir á þeirri ferð. Úr því kvæði er þessi staka, og er hrynjandi:

Fokkan vor var freðin nokkuð,
vær felldum hana og þíddum við eldinn[1].

vi. (um 1530). Jón biskup kvað þetta um skáld, er þá voru bezt uppi (sbr. 8,x).

Öld segir afbragð skálda
Einar prest[2] fyrir vestan;
Halls son[3] hróðrar snilli
hefir kunnað fyr sunnan;
Blind[4] hafa bragnar fundið
bragtraustan fyr austan

---

[1]) sbr. bls. 320 að framan.

[2]) Einar Snorrason var prestr að Stað á Ölduhrygg (Staðastað) og kallaðr Ölduhryggjar-skáld, hann var faðir Marteins biskups og var officialis Skálholts biskups milli Botnsár og Gilsfjarðar, það er yfir Borgarfjarðar, Mýra, Snæfellsness og Dala sýslum. Hann var á lífi 1532 eða allt að 1538. Ekkert af kvæðum hans er nú kunnugt.

[3]) Jón Hallsson bjó austr í Rángár þíngi, í Næfrholti og síðar í Eyvindarmúla, og hafði þar sýslu um tímabilið 1521 til 1537. Hann hafði orð af Hólmfríði Erlendsdóttur, konu Einars Eyjólfssonar í Stóradal undir Eyjafjöllum (Safn til sögu Íslands II, 93) og átti hana síðar. Jón Hallsson hefir ort Ellikvæði, og er prentað nokkuð úr því í kvæðabók Guðbrands biskups 1612. Ekki eru oss kunnug fleiri kvæði hans.

[4]) Blindr, sem hèr er nefndr, halda menn sè Sigurðr blindi, sem hefir verið talinn með elztu og frægustu rímnaskáldum á Íslandi. Jón Guðmundsson lærði segir í „Tíðsfordríf", að hann hafi verið í Fagradal í Dala sýslu, en í sögunni um Bjarnanesreið Jóns biskups Arasonar er sagt svo frá, að hann væri fyrir austan í leið Jóns biskups (1547) og orti þar vísu til biskups og varaði hann við fallvelti gæfulánsins (sbr. hèr að framan bls. 443). Það var mælt, að hann yrði blindr af því, að hann formælti sólinni einusinni, er hann kom út. Á hverju sumri er sagt, að Sigurðr blindi færi til alþíngis og færði Jóni biskupi þángað tólf rímur í hvert sinn. Margar af rímum þeim, sem honum eru eignaðar, eru til enn, svosem þessar:

Andra rímur gömlu (Öndrur). 13 að tölu. Aðrir eigna þær Bergsteini blinda, sem átti einnig að vera samtíða Jóni Arasyni og

Gunna[1] get eg að sönnu
greiðorðr sè fyr norðan.

VII. (um 1530 sbr. bls. 454 að framan). Jón biskup

---

hafa seinast verið á Hóli í Þverárhlíð. Rímur þessar eru taldar 24, en það er líklega dregið af hinum nýjari Andra rímum, sem eru 24, en hinar fornu eru annaðhvort 9, 11 eða 13.

Áns rímur bogsveigis, 8. Skáldið telst vera gamall maðr.

Brönu rímur, 15. Sá segist vera blindr, sem kvað. Páll Vídalín eignar þær Rögnvaldi blinda; hann er sagt verið hafi almúgamaðr, og hefir ort rímur af Skógar-Kristi, þar sem hann nafngreinir sig með þessum orðum: „Rekkar taki nú rímur tvær, Rögvaldr hefir yrktar þær", o. s. frv.

Hektors rímur og kappa hans, síðari hluti er talinn Sigurði, eptir að Jón biskup Arason hafi hætt (4 rímur, 13—16).

Hrómundar rímur Gripssonar (Griplur), 6.

Mábils rímur, 9 fornar, 10 í handriti frá 17du öld í Stokkhólmi Nr. 21. 8vo., ná þó ekki til enda sögunnar. Sá telst vera blindr, sem kvað, og eigna sumir þær rímur Bergsteini blinda.

Ólafs rímur Tryggvasonar, 8 (um Indriða ilbreið 3, Svoldar rímur 5).

Philpó rímur hins fagra, 8.

Reinalls rímur og Rósu, 12; sumir eigna þær Bergsteini blinda.

Svoldar rímur í Ólafs rímum fyr töldum. Sira Magnús Ólafsson í Laufási (um 1600) eignar Sigurði blinda rímur þessar.

Viktors rímur og Bláus, 8.

Fleiri höfum vèr ekki sèð honum eignaðar, af þeim sem til eru. Flestar af rímum þessum eru í Staðarhólsbók á skinni (A. Magn. Nr. 604. 4to.), og er sú bók varla rituð síðar en ár 1500. Ef að Sigurðr blindi hefir verið á lífi 1547, þá hefir hann ort rímur sínar snemma og orðið gamall maðr, sem auðráðið er af því, að rímur hans mega hafa verið komnar út meðal alþýðu um eða fyrir 1500, sem af handritunum má ráða

[1]) Gunni er nefndr prestr og ráðsmaðr á Hólum, og stundum kallaðr Hólaskáld. Þess er getið, að hann væri níðskældinn og hefði fengið af því þá óvirðíng, að hann hefði ekki verið talinn í skáldatölu, þó hann hefði ort mart, og ort vel. Gunna er sumstaðar eignað kvæði um Ólaf konúng helga og hans jarteiknir, sem víða finnst í handritum og byrjar svo: „Herra kóng Olaf, hjálpin Noregs landa" o. s. frv. Jón Ólafsson frá Grunnavík vill láta nafnið „Gunni" eiga að þýða Jón biskup sjálfan. Sonr sira Gunna var Þorsteinn prestr Gunnason, sem Jón biskup nefnir í vísunni 1524. Hann var á Hólum og var skáld, og er honum eignað sumstaðar kvæðið um Ólaf konúng, sem fyr var nefnt. Hann andaðist 1580, en hvenær Gunni faðir hans dó, vita menn ekki.

Arason hefir ort margar vísur, og er þetta ein, er hann mælti fram einn vetr er menn komu til hans og hann þóttist ei mjöð eðr mungát fyrir hendi hafa, sínum gestum að veita:

Til hefi' eg tafl með spilum,
tölur, sem leggi og völur,
skák með sköfnum hrókum
skjótt og kotru hornótta,
hörpu heldur snarpa
hreysta með girnis neistum,
fón[2] með fögrum sóni
fengið til lykla og strengi.

VIII. (1539). sbr. 8, XIII. Missætti varð með þýzkum mönnum og Alexíus ábóta í Viðey, og komu þeir þángað þá síðar að óvöru og ræntu klaustrið, en hröktu þá menn, er fyrir vildu standa. Þetta frètti biskup Jón norðr. Aumkaði hann þetta mjög, að engi vörn væri fyrir á landinu eðr um kríng landið, og kvað þá vísu:

Sunnan að segja menn
sum klaustr haldi laust[3],
þýzkir gjöra þar rask
þeygi gott í Viðey;
öldin hefir ómild
Ála bruggað vont kál;
undr er ef Ísland
eigi rèttir hans stètt.

IX. (hèrumbil 1540). Tófakvæði segir hinn nafnkunni fræðimaðr sira Eyjólfr Jónsson á Völlum í Svarfaðardal (1705)[4] að Jón biskup Arason hafi ort. Það var háðkvæði um Tófa nokkurn, og er kallað skrýtið kvæði og mörgum kunnugt á þeim tímum (faceta et multis nota cantilena); þar var þetta stef í:

— — — — — — —

Til fylgdar hefir hann fengið
prestinn sira Björn,
og svo bóndann Ara,
það eru engin börn.

— — — — — — —

---

[1]) sbr. að framan bls. 454.

[2]) þ. e. symfón.

[3]) sumir hafa Sundklaustr, sbr. Viðey með Sundum.

[4]) Ritgjörð sira Eyjólfs á Völlum (óprentuð), um orðið Bóndi, kölluð „Schediasma de voce bóndi".

Það virðist vera vafalaust, að kvæði þetta hafi verið alkunnugt í Svarfaðardal og þar um kríng á fyrra hluta átjándu aldar, og muni vera ort um það leyti, sem þeir feðgar fóru að ríða með flokka um hèruð.

X. (1545). Þessi vísa er líklega ort um það leyti, sem Jón biskup reið í fyrra sinni til Bjarnaness, og honum þótti Gizur biskup bregðast sèr; hún gæti og verið ort síðar (1549 eða 1550), þegar biskup sá að ekki var öruggt fylgi að fá, til að halda fram katólskri trú. Fyrirsögn vísunnar er: „Um ósóma aldar sinnar".

Hnigna tekr heims magn,
hvar finnur vin sinn?
fær margur falsbjörg,
forsómar manndóm;
trygðin er trylld sögð,
trúan gjörist veik nú,
drepinn held eg drengskap,
dygð er rekin í óbygð.

XI. (1546). Þetta orti Jón biskup í Vatnsfjarðar-reið (sbr. hèr síðar 8, IX).

Virðist mèr Vatnsfjörðr
vera svo sem sagðr er,
heiðarlega húsaðr,
horfinn um með grænt torf;
Kristín hefir byggt bezt
og búið hèr vel frú;
hann kalla eg heppinn
er hlotið fengi slíkt kot.

XII. 1547 var Bjarnanes reið. Um heimkomu sína úr þeirri reið kvað hann[1]:

---

[1]) Jón Espólín heimfærir þessa vísu til sumarsins 1550, þegar Jón Arason og þeir feðgar riðu vestr í fyrra sinnið, áðr en synir hans rituðu cancelleranum (í August — vísan væri þá kveðin í Juli eða snemma í August 1550). Vísa þessi gæti og verið niðrlag af bragnum 1549, þegar Marteinn var tek inn.

Nú er hann kominn til Hóla heim
hægr í sínu sinni,
eg inni;
orðinn er hann af elli mæddr
aldrei trúi' eg hann verði hræddr
þó ljóðin linni.

XIII. 1548. var Jón biskup Arason í Skálholti, og bauðst til að fremja þjónustu og önnur embættisverk þar í suðrstiptinu. Á þeirri ferð halda menn hann hafi kveðið vísu þessa

„Um róðukrossinn í Rèttarholti".

(Eptir Vísnabók frá Magnúsi í Vigr, í safni Árna Magnússonar Nr. 148. 8vo. bl. 22).

Krossinn ber þú Christum dýra,
kallast máttu hjálpin hèr,
veitt hefir guð þèr valdi' að stýra,
var hann sjálfur píndr á þèr;
má það enginn maðrinn skýra,
mektar blóm hvert krossinn er.

XIV. 1549. Jón biskup Arason sendi sira Þorlák Hallgrímsson og XV menn með honum vestr til Skarðs, máske að taka Þorleif lögmann, en síra Þorlákr fór þá ferð meir af yfirvarpi en til stórræða, eðr að brjóta lög á mönnum, og riðu aptr svo búnir, svo sem þau erindi biskups Jóns hljóða, er hann fram hreytti um þeirra ferð:

Sendir voru sextán menn,
sagan er þessi uppi enn,
riðu þeir heim á ríkan garð,
rausnarlítið erindið varð,
höldar segja höfuðból þetta heiti Skarð[1].

Enn fór heiman elliraumr
augnaveikr, á gjaldi naumr,
aldrei var hann í orustu frægr,
ýtum þótti ráðaslægr,
sókt hefir jafnan sína vild í svörunum hægr.

[1]) sbr. hèr að framan bls. 343.

— — — — — — —
— — — — — — —
byssur voru á bænum þrjár,
brögnum þótti kátlegt fár,
karlmaðr enginn kom þar út, sem kvæðið gár.

— — — — — — —
— — — — — — —
oddvitinn var ekki frekr,
engi þeirra gjörðist sekr.
Hægt er þeim, sem heilum vagni heim að ekr[1].

XV. (1549). Svo er sagt, að Jón biskup hafi kveðið þessi erindi, þegar búið var að taka Martein biskup og setja í varðhald, en þó getr þess Björn á Skarðsá, að bragr þessi hafi verið lengri.

Bóndi nokkur bar sig að
biskups veldi stýra
því dýra;
en honum fór illa það,
öllu var honum betra á Stað[2]
heima að hýra.

---

[1]) Þorleifr á Skarði kvað um varnarlið sitt, og taldi fyrsta konu sína, Steinunni Eiríksdóttur:

Steinunn heitir stoltar kvinna,
stóra tel eg ekki Þóru,
björgin Þórs og báðar Siggur, a)
bendir vísan tveimur Dísum;
Gunnur fimm eg greini að sönnu, b)
gefið er mèr að telja Ólöfu;
Þuríði man eg en Þorlaugu varla,
þagna bað mig píkan Ragna.

Þar eru alls sextán, eins og norðanmenn voru.

[2]) Marteinn biskup hafði verið prestr á Staðarstað áðr en hann varð biskup.

---

a) þ. e. Þorbjörg og tvær Sigríðar.
b) þ. e. fimm Guðrúnar.

Bóndinn Skálholts[1] bar sig að
biskups stólnum stýra
þeim dýra;
villu marga og vantrú bauð,
vex honum af því sárleg nauð,
sem skáldin skýra.

Skírnar oleum skipar hann af,
og skaparans móður að biðja;
það þriðja:
vatnið bannar vígt að sè,
verður því að spotti og spè
hans aumleg iðja.

Stendr á móti stafkarl einn,
stirðr í öllum hætti
og mætti,
sendi hann sína synina tvo,
að sækja hann og fánga svo,
nema bóndinn bætti.

XVI. (1549). Annálsgrein eptir Arngrím prest Jónsson á Melstað: Þá biskup Marteinn sat fánginn að Hólum, var maðr fenginn til að gæta hans, sá er Steinn hèt, en eitt sinn komst Marteinn út og í burt, og gekk af stað yfir um Hjaltadalsá, og stefndi upp þann dal, er heitir Vindárdalr, og vildi svo komast í Skagafjörð, en það vannst ekki; var þegar riðið og runnið eptir honum, og náðist í dalnum, var þá lítt til reika að fótabúníngi; var hann þá hafðr heim aptr í sterkara varðhald. Biskup Jón kastaði þegar fram stöku:

Biskup Marteinn brá sitt tal:
burt hljóp hann frá Steini,
vasaði fram á Vindárdal,
varð honum það að meini.

Á þeim sama Vindárdal faldi sig lengi Helga Sigurðardóttir, barnamóðir biskups Jóns, með sínu hyski litlu síðar, þá Danir komu til Hóla eptir biskup Jón og leituðu hennar, hefir hana þá og aðra minnt þess, að biskup Marteinn fannst í þeim sama

[1]) hann kallar Martein biskup bónda í Skálholti.

stað á sínum flótta. — Nokkru síðar var Marteinn biskup látinn norðr til Möðrufells, til Ara biskupssonar. — Til er brèf Marteins biskups, útgefið 1. Januar 1550, þar sem hann afsalar sèr kröfu sína uppá Bjarnanes; hann var þá í Möðrufelli.

XVII. (1550). Annálsgrein sira Arngríms á Melstað: Sira Árni Arnórsson úr Hítardal var á Hólum í haldi; þá voru kallaðir saman prestar að bannfæra Daða í Snóksdal, og er svo frá sagt, að biskup Jóni hafi þótt einn prest vanta til þess embættis og hafi viliað sira Árni væri einn með þeim að þessu, en Árni vildi ekki. Þá var bannsúnginn Daði Guðmundsson í Snóksdal heima á Hólum, á hinn átta dag jóla [1550] fyrir messu, og lýst síðan hans banni víða um Ísland.

Eptir þetta er talað, biskup hafi látið herða veitíng og varðhald við Árna prest úr Hítardal, og hafði verið byrgðr niðr undir einn smjörpall í búri, svosem erindi biskups Jóns sjálfs hljóðar og hermir:

Hann[1] var síðan haldinn miðr,
heldr tók að kárna
fyrir Árna,
þrengdr fast í þverpall niðr,
þá nam bæði brjóst og kviðr
með síðum sárna.

Eptir það kom kona sira Árna, og fèkk hann lausan og lagði fram ótæpt af silfri, er hún hafði með sèr; en Árni prestr lofaði trygðum, að vera ekki í mótfalli við Jón biskup.

XVIII. (1550). Jón biskup ríðr þetta sumar með fjölmenni til alþíngis og þaðan í Skálholt, og setr hann þá þar niðr alla þá gömlu siðu og ríðr suðr til Viðeyjar, til ábóta Alexius, og skikkar þar skuli allt haldast sem fyrr var, á dögum Ögmundar biskups. Vestr þaðan ríðr biskup Jón allt til Helgafells klaustrs; þar hafði ei ábóti verið síðan það var veitt Claus von Mervitz, og deyddr var fyrir hans ofbeldi, rán og manndráp. Þar setr biskup niðr gamlan ábóta, sem Narfi hèt. Hann hafði þar fyr verið, og skipar að halda það gamla. Um sína alþíngisreið kvað Jón biskup þessa vísu:

[1]) sbr. hèr að framan bls. 344.

Þessi karl á þíngið reið
þá með marga þegna
svo gegna;
öllum þótti hann ellidjarfr,
Íslandi næsta þarfr
og mikið megna.

Víkr[1] hann sèr í Viðeyjar klaustr,
víða trúi' eg hann svamli
hinn gamli,
við Danska var hann djarfr og hraustr
dreifði hann þeim á flæðar flaustr
með brauki' og bramli.

Frá Helgafelli ríðr biskup Jón og synir hans tveir, síra Björn og Ari lögmaðr, í Breiðafjarðardali að Sauðafelli — —

XIX. (1550.) Jón biskup reið að norðan nær Mikjálsmessu, og synir hans Ari og Björn með honum; þeir höfðu XC manna. — Helga fylgikona hans afrèði honum þeirri för, kvað hann enga hamíngju sækja mundi vestr þángað að því sinni, en hann lèt sem hann heyrði eigi slíkt, og treysti afla sínum. Hann kvað um þá ferð og sneiddi til Daða og fylgikonu hans:

Geita hvanna[2] grönn rót
galar hátt í Snóksdal,
heyrðust hennar heimsk orð
hörð allt í Eyjafjörð;
firnin þessi falsgjörn
fjöllin gjörðu skelfd öll,
drjúgum mest varð digr raust
og dvergmál í Breiðuskál.[3]

---

[1]) sbr. Safn. til s. Ísl. I., 93.

[2]) geita hvönn (geitnahvönn) er og kölluð „snóka hvönn", og er það tekið sem sneið til fylgikonu Daða í Snóksdal, Íngvildar Árnadóttur, sem var fyrir búi hans á Sauðafelli; sbr. Espól. Ættartölubók, 5318.

[3]) sumstaðar er síðari vísuhelmíngr þannig:

Þoldu eigi þegnar vel
þetta hrópið Dalaglóp,
fóru af staðnum feðgar þrír
og fengu með sèr margan dreng.

Snöggr reið í Snóks bygð,
snjallr fór heiman karl,
lagði' á þessi lóms brögð
lakast var það viðtak:
byrgði hann inni búnjörð,
börðust niðr hljóð hörð,
þá var sú þraut gjör
að þagnaði Dalamagn.

XX. 1550. Eptir að ályktað var í Skálholti, að taka skyldi af Jón biskup Arason og sonu hans, var þeim feðgum sagt, hvað af var ráðið, en þángaðtil voru þeir lengi góðrar vonar, að þeir mundu lausir látnir, og mælti Jón biskup það opt: „á jólum verðum vèr á Hólum"; — en nú tók hann að kannast við, hve lángt hann hafði farið í slíkum stórræðum, og kvað þetta:[1]

Vondslega hefir oss veröldin blekkt,
vèlað og tælt oss nógu frekt:
ef eg skal dæmdr af danskri slekt,
og deyja svo fyrir kóngsins mekt.

XXI. (1550). Á síðustu dögum Jóns biskups, eptir að þeim feðgum var boðað, að þeir mundu líflátnir verða, er sagt hann hafi ort þessa vísu:

Þessa hefi' eg snöruna snarpa
snúið að fótum mèr,
hent hefir áður gilda garpa
að gæta lítt að sèr.
Svaði[2] lèt semja gröf,
sízt hann hafði töf,
en hann sjálfur í hana fèll
og allmörg þoldi köf,
hann hreppti harða pínu
af handaverkum sínum.

---

[1]) sbr. hèr að framan bls. 353.

[2]) um Svaða á Svaðastöðum í Skagafirði sjá Ólafs s. Tryggvas. í Fornm. s. II., 222.

### 7. LJÓÐMÆLI VAFASÖM EÐA ÓVISS.

Nokkur ljóðmæli eru eignuð Jóni biskupi Arasyni af sumum rithöfundum, en þó eigi með þeirri vissu eða samhljóðan, að vèr þorum að fullyrða, að þau sè af honum ort; sum vitum vèr með rökum, að eru ort af öðrum. Frásagnir um þessi ljóðmæli eru helzt upprunnar frá rithöfundum úr Skagafirði: Jóni Eggertssyni, Hálfdani Einarssyni og Einari á Mælifelli Bjarnasyni. Það er þá fyrst Jón Eggertsson frá Ökrum, sem lifði á síðara hluta seytjándu aldar, og var nafnkendr fyrir málaferli sín og deilur við Gísla biskup Þorláksson, og svo fyrir rit sitt um íslenzk mál og landstjórn, sem kallað var „viðleitni", og metið sem hinn mesti rógr, borinn uppá íslenżka embættismenn; varð hann fyrir það sem útlagr og kom sèr þá í kynni við Svía, og gaf þángað handrit sín, sem eru enn geymd í bókhlöðu konúngs í Stokkhólmi. Skömmu síðar andaðist hann, og var þá nýlega orðinn borgmeistari í Málmey, 1689, en útför hans var gjör á kostnað Svía konúngs.[1] Sum af handritum þeim, sem Jón lèt eptir sig, eru rituð með hendi hans sjálfs, því hann var fróðr maðr og víðlesinn, en sum af öðrum. Pappírshandrit Nr. 64 í arkarbroti er mikið safn ýmislegs efnis af ritum, sem eru komin frá Jóni Eggertssyni, og þar í meðal annars safn af mörgum kvæðum andlegs efnis, frá katólskri öld, sem ritað hefir Helgi Ólafsson, er var einusinni um hríð í Svíþjóð, en varð síðan prestr að Stað í Hrútafirði (1689—1707). Þar eru ritaðar fyrstar meðal kvæðanna Maríuvísur þrennar.

1. „Maríuvísur" eða „Maríuljóð"[2], sem eru 6 erindi, og eru með lagi latínusálms: „Personent hodie". Af því oss þykir mest líkindi til að Jón biskup hafi ort þetta kvæði, þá tökum vèr það hèr allt í heild sinni, og er það þannig:

---

[1]) Specimen biographicum de antiquariis Sveciæ, in quo . . . Islandorum curæ enarrantur. auct. Nicol. Dal. Stockh. 1724. 4to. bls. $Q_2$ verso.

[2]) Þetta nafn hefir eitt handrit í safni Bókmentafèlagsins Nr. 37. 8vo. bls. 68—78 sjá Skýrslu um handritasafn Bmf. bls. 115.11. en kvæðið sjálft er þar nokkuð afbakað.

1. María meyjan skæra!
minníng þín og æra,
verðugt væri að færa
vegsemd þèr og sóma,
svoddan sólar ljóma.
:|: þú vart ein, ein, ein :|:
þú vart ein svo helg og hrein,
hæstum vafin blóma.

2. Gleðina fèkktu forðum
af fögrum Gabríels orðum,
ber þú af bauga skorðum
sem blóðrautt gull af eiri
eða sól af svörtum leiri,
:|: þúsund sinn, sinn, sinn :|:
þúsundsinnum það vil eg tjá
þín er sæmdin meiri.

3. Með ave[1] engill kvaddi
það ágæta mey gladdi,
sætt ave þá saddi
þig signuð gratiosa,[2]
ber ein blómann drósa;
:|: fanntu náð, náð, náð, :|:
fanntu náð yfir lopt og láð,
lifandi drottins rósa!

4. Blessuð meðal manna,
matrona[3] englanna,
fæddi frelsarann sanna
fríð gemma polorum,[4]
gloria sanctorum[5];

---

[1]) Katólskir menn hafa þetta ávarp engilsins, „Ave Maria", jafnframt og Faðirvor, í daglegum bænum. Í Nýja Testamentinu er það útlagt: „Heil sèrtu náðarfulla! drottinn er með þèr! blessuð ertu á meðal kvenna!" (Heil vertú, sem nýtr náðar guðs, þú hin sælasta allra kvenna!)

[2]) þ. e. náðarfulla.

[3]) þ. e. höfuðfrú.

[4]) þ. e. gimsteinn heimskautanna (himnanna), ein af kenníngum Maríu meðal katólskra manna.

[5]) það er dýrð heilagra, kenníng Maríu.

:|: þú ert blóm, blóm, blóm, :|:
þú ert blóm með blíðan dóm
og björgin miserorum[1].

5. Himins drottníng hreina!
þá heyrir þú nokkurn kveina
seggja til sinna meina,
sjá nauð mortuorum,[2]
mætt exemplar morum[3];
:|: leið þú þá, þá, þá, :|:
leið þú þá með líkn og náð
í ljósið beatorum.[4]

6. Mest skal virðíng vanda
vífinu allra landa,
helgri mey til handa
sem heitir porta celi[5]
tutamen fideli[6];
:|: María ein, ein, ein, :|:
María ein svo mild og hrein,
móðir sönn að Elí.

Kvæði þetta finnst í allmörgum handritum (A. Magn. 717e, 717h, í 4to. 150. 8vo) sem ekki tilgreina höfundinn, en á einum stað í handritinu í Stokkhólmi (E. bls. 61—62) er kvæðið eignað fortakslaust Jóni biskupi Arasyni, ásamt tvennum öðrum Maríuvísum, sem hèr eru síðar taldar. — Í kvæðasafni sira Gunnars Pálssonar í British Museum (Addit. mss. 11,192 frá Bjarna Pálssyni, eða með hans hendi) eru Bogavísur eptir hann („Margur bendir bogann") taldar að vera með „Maríuvísna lagi Jóns biskups Arasonar", og er það vottr um, að Jóni biskupi hafa verið eignaðar Maríuvísur, annaðhvort þessar, eða aðrar með sama laginu. Finnr biskup í Kirkjusögu sinni sýnist og að hafa eignað Jóni biskupi Maríuvísur (Hist. Eccl.

[1]) þ. e. hinna aumstöddu.
[2]) þ. e. hinna dauðu.
[3]) þ. e. siðferðis fyrirmynd.
[4]) þ. e. hinna sælu, sáluhólpnu.
[5]) þ. e. himinsins port (eða dyr), kenníng Maríu.
[6]) þ. e. vernd hins trúaða (trúfasta), kenníng Maríu.

II., 394), og sömuleiðis Harbó biskup í Siðaskipta-sögu sinni, Hálfdan Einarsson og fleiri. Harbó hefir vefengt, að Jón biskup hafi ort kvæðið, með því, að hann kveðst efast um, að Jón biskup hafi kunnað svo mikið í Latínu, sem þar er. Í handriti í safni Árna Magnússonar Nr. 719c í 4to er kvæði þetta eignað „Jóni Maríuskáldi, föður Finnboga lögmanns", þ. e. sira Jóni Pálssyni, presti á Grenjaðarstað á fyrra hluta fjórtándu aldar (Finns Histor. Eccl. II., 391). — Síðar í Stokkhólms-handritinu, í sama kafla, eru ritaðar þessar sömu Maríu vísur, og eignaðar Brynjólfi biskupi Sveinssyni í Skálholti. Það virðist oss helzt benda til þess, að Brynjólfr biskup hafi haft mætur á þessum vísum og eignað þær Jóni biskupi.

2. „Maríuvísur" heita annað kvæði, og er það 22 erindi, og þetta fremst:

María móðirin skæra,
meyja blóm og æra,
feginn skal þèr færa
fagurt lof til handa
og virðíngu vanda,
:|: þú ert sú, sú, sú, :|:
þú ert sú hin fríða frú
föstnuð heilögum anda.

Í handriti Jóns Eggertssonar í Stokkhólmi, sem fyr er talið (E. bls. 62—65), er kvæði þetta eignað fortakslaust Jóni biskupi Arasyni, en síðar í bókinni kemr það fyrir í annað sinn, og þar er það eignað Lopti bónda Guttormssyni hinum ríka. Harbó eignar það fortakslaust sira Jóni Pálssyni Maríuskáldi.[1] Í þessu kvæði er mikið af latínuglósum; í handritum finnst það á nokkrum stöðum, svosem í safni Árna Magnússonar Nr. 717 h. í 4to og í safni Bókmentafèlagsins Nr. 37 í 8vo (bls. 61—66).

3. Þriðja kvæðið heitir einnig „Maríuvísur", og eru 9 erindi, og þetta upphaf:

---

[1]) Videnskab. Selsk. Skrifter V, 290.

María heyr mig, háleitt víf!
hróðrinn vil eg þèr færa;
María vertu vor vernd og hlíf,
voldug himna kæra!
María öðlast allt mitt líf
að aumar syndir hræra.
María' er heiðruð um heimsins bygð
háleit sæmd og skaparans frygð,
hjálp mèr heiðr og æra!

Þetta kvæði kemr fyrir á tveim stöðum í Stokkhólms bók Jóns Eggertssonar, á fyrra staðnum í kaflanum E, bls. 65—66 og eignað fortakslaust Jóni biskupi Arasyni, á síðara staðnum í sama kafla, bls. 99—101, og eignað þar eins fortakslaust Lopti bónda Guttormssyni hinum ríka á Möðruvöllum. Það er og ritað í fleirum handritum íslenzkum, svosem í safni Árna Magnússonar Nr. 713 í 4to á skinni, aptan á Ormseddu 242 í arkarbroti (úng afskript), og á pappírshandritum í safni Árna 711 A. 4to, 711 B og 717 h í 4to, einnig í Bókmentafèlagsins handriti Nr. 37. 8vo bls. 66—68. Kvæðið er þar stundum 4 erindi, stundum 8 og stundum 9.

Með þessum þrennum Maríuvísum, sem hèr voru taldar, er þetta ritað í Stokkhólmsbókinni (bls. 61—66): „Framanskrifaðar Maríuvísur þrennar er haldið að ort hafi biskup Jón Arason, og eptir því áðr er um hann skrifað til auðsjáanlegs merkis um hans trú, og hefir hann verið mjög vandlætíngasamr og nidkiær um sín trúarbrögð, eptir sem hann var þarvið uppfæddr; haldið er og hann ort hafi Krosskvæði. Aðrir í hans tíð hinar vísurnar". Það sem hèr er nefnt „Krosskvæði", ætlum vèr sè kvæði það, sem hèr er áðr prentað hið fimmta í röðinni, fremri hlutinn, og hjá Peringskjöld (Fragm. Runico-papisticum Stockh. 1721, Fol. p. 16—20); því það er þar eignað Jóni Arasyni. En til er annað „Krosskvæði", sem finnst í mörgum handritum, og að vorri hyggju eldra og af öðrum ort en Jóni Arasyni, og er því þessvegna hèr sleppt.[1]

---

[1]) Kvæði þetta hefir ýmist 30 erindi („Hlýði allir ýtar snjallir óði mínum" t. d. í Additam. 72. í 4to), eða 46 er. (Á. Magn. 717 A. 4to. 150. 8vo); ýmist 42 erindi („Guð himnanna, græðarinn manna, geymi

Í sögubrotinu um Jón Arason frá tíð Odds biskups, sem er prentað hèr að framan í þessu bindi (bls. 426) er talað um, að hann hafi ort tvö kvæði, sem eru kölluð, annað „Historia passionis Dominicæ", en annað „cantio de lacrymis beatæ virginis". Þar er enginn efi á, að hið fyrra á að þýða „Píslargrát", en hið síðara „Maríugrát". Píslargrátr teljum vèr víst að sè það kvæði, sem hèr er prentað fyrst í röðinni, en Maríugrátr er hvergi annarstaðar talinn með kvæðum Jóns biskups; þorum vèr því ekki að eigna honum það kvæði, þó það hafi nokkur líkindi til kveðskapar þess, sem kemr í ljós í kvæðum eptir hann. Upphafið á kvæði þessu er:

Blómstrið brúða og kvenna o. s. frv.

Þar eru einnig mörg hin sömu orðatiltæki einsog í Maríuvísum, svosem til dæmis í 3. erindi:

Þá þú vart hafin til himna
júngfrú innilig,
englar súngu ymna,
allir lofuðu þig;
syninum þínum saztu hjá,
veglegr Jóhannes var þar næst
mín voldug María!

alls er kvæði þetta 17 erindi, og finnst ritað í kvæðabókum eldri og ýngri. Það er og í kvæðabókinni í British museum frá 1583, sem áðr er getið.

Finnr biskup telr meðal kvæða Jóns biskups nokkur Lofkvæði um Maríu („quædam Encomiastica Mariæ"); mun hann því hafa talið Jóni biskupi að minnsta kosti þær þrennar Maríuvísur, sem fyr voru nefndar. Þar að auki telr Finnr biskup og aðrir eptir honum (Hist. Eccl. Island II., 394) með kvæðum Jóns biskups yms andleg og veraldleg kvæði („alia poëmata sacra et profana") sem prentuð sè í vísnabókunum frá Hólum 1612 og 1748; en þetta er mjög óvíst, því engin kvæði, sem þar eru prentuð, eru eignuð Jóni biskupi, hvorki í vísnabókinni nè annarstaðar, nema Píslargrátr og Davíðs diktr.

---

oss alla", Á. Magn. 713 í 4to o. fl.); ýmist 43 er. (Heill heilagr kross, guð hjálpi oss með himneskri dýrð), Á. Magn. 717 h., og er kallað ýmist Krosskvæði eða Krossvísur gömlu.

Í Bókmentasögu Íslands (Sciagraphia Historiæ Literariæ Islandicæ) eptir Hálfdan Einarsson (Hafn. 1778. 8. bls. 45) eru talin upp kvæði þau, sem eignuð eru Jóni biskupi Arasyni. Þar er talið Ljómur, Davíðs diktr og Niðrstigsvísur af kvæðum þeim, sem hèr eru með vissu eignuð Jóni biskupi; þar að auki er talin Píslarminníng, sem að rèttu lagi mun vera Píslargrátr, því hann er ekki talinn, og er það án efa rángminni höfundarins. Kvæðið Pislarminníng er að rèttu lagi eptir Arngrím hinn lærða á Melstað og prentað í Vísnabók Guðbrands biskups,[1] en Jón Arason hefir ekkert kvæði ort sem svo heitir, það menn vita; hèðan er það þó líklega komið, að ymsir höfundar hafa síðan talið Jóni Arasyni Píslarminníng sira Arngríms. — Þá telr Hálfdan enn með kvæðum Jóns biskups Gimstein, en segir, að sumir eigni það kvæði bróður Eysteini Ásgrímssyni, sem orti Lilju. Hvorki Jón biskup nè bróðir Eysteinn hafa ort „Gimstein", en það kvæði er ort af Halli presti Ögmundarsyni, sem mun hafa verið á lífi um eða eptir 1400, og hefir ort þar að auki Nikulásdrápu, Michaelsflokk, Maríuvísur og máske fleira, sem allt er til enn í safni Árna Magnússonar og víðar, og er allt vel ort. Hálfdan Einarsson nefnir og þann Hall prest og kvæði eptir hann „de s. cruce" (bls. 44); það er án efa Krossdrápa eða Gimsteinn, en skýrt frá því eins og það sè annað kvæði.[2]

Í Fræðamannatali Einars Bjarnasonar á Mælifelli, sem er til í handritum frá 1836 og 1839, eru talin þessi kvæði Jóns biskups: Daviðs diktr, Hljómur (þ. e. Ljómur), Píslarminníng (Arngríms), Píslargrátr, Niðrstigníngarvísur, Útskýríng yfir Davíðs sálm 57da (án efa sama og Davíðs diktr), Maríuvísur

[1]) Mèr er í hug að minnast
mildi Jesú píslar þín, o. s. frv.

Vísnabók 1612, bls. 265—269, 62 erindi með sama bragarhætti og Niðrstigsvísur. — Annað kvæði með nafninu „Píslarminníng", útaf sjö orðum Krists á krossinum, er í Vatnshornsbók í safni Bókmentafèlagsins Nr. 105 í 4to (40 erindi).

[2]) Kvæði sem heitir „Náð", drápa með stefjum, er til (Árna Magn. Nr. 622. 4to) og er ort af Halli nokkrum, en hvort það sè sá sami Hallr prestr, er óvíst. Sveinbjörn Egilsson (Lex. Poët. við orðið edda) lætr Hall prest vera sama mann og Hall ábóta á Múnkaþverá 1385—1393.

og Gimsteinn svo sem óviss. Af því, sem áðr er sagt, má sjá, hvað Jóni biskupi muni vera hèr órèttilega eignað.

Nokkrar rímur hafa verið eignaðar Jóni biskupi Arasyni. Það er líklega gömul frásögn, sem Hálfdan Einarsson nefnir og margir síðan, að hann hafi ort fyrra hlutann af rímum af Hektori og köppum hans, en Sigurðr blindi, sem Jón biskup telr skáld fyrir austan, hafi ort síðara hlutann. Rímur þessar eru tólf að fornu, og eru ellefu af þeim í rímnabókinni í bókasafni Brúnsvíkur-hertoga í Wolfenbüttel („Fróðra er það fyrða plag fornar bækr að kanna" o. s. frv. bls. 66—79 b). Það handrit er á skinni, og sýnist vera ritað í kríngum ár 1500; lík að aldri er rímnabókin frá Staðarhóli (Á. Magn. 604. 4to), sem hefir brot af rímum þessum, og hafa verið þar tólf; en nokkru ýngri sýnist vera rímnabókin í Stokkhólmi, sem er Nr. 22 í 4to. Pappírsafskriptir frá 17du öld eru til að vísu þrjár í brotum, en ein heil. Þar eru komnar til fjórar rímur, svo rímurnar eru þá orðnar alls 16, og mun það vera svo að skilja, sem hinar seinustu fjórar sè eptir Sigurð blinda. En þessi frásögn öll er mjög óviss, og eptir aldri handritanna yrði rímur þessar svo gamlar, að Jón biskup gæti tæplega hafa ort þær, nema hann hefði þá verið mjög úngr, svosem 12—16 vetra, sem þykir ólíklegt. Vèr teljum það því með munnmæla sögum, að Jón Arason hafi ort nokkuð af hinum fornu Hektors rímum, og svo hitt, að það hafi verið samníngr milli Jóns biskups Arasonar og Sigurðar blinda, að Sigurðr skyldi færa biskupi tólf rímur á hverju ári á alþíng. Saga sú, að Jón biskup hefði ort Hektors rímur, væri þó merkileg að því leyti, að hún væri nokkur sönnun fyrir því, sem hèr var áðr sagt, að Jón biskup hefði lært Latínu og kunnað nokkuð í henni, því í Hektors rímum er (XI. ríma, mansöngr) talað um mansöngva Ovidius skálds, og mælt fram með að lesa þá og iðka, ef maðr vili leggja hug á konu.[1]

---

[1]) Til eru aðrar ýngri rímur af Hektori og köppum hans; vèr höfum sèð taldar tvennar: 1) ortar af Ólafi Jónssyni á Þverbrekku í Öxnadal 1756, 18 að tölu, upph. „Geðjast mèr um greina lóð" o. s. frv. í safni Bókmentafèlagsins Nr. 298. 8vo. — 2) ortar af Árna Sigurðssyni á Skútum í Eyjafirði; hann var á lífi 1838. Þær eru til í handritasafni sira Eggerts Briems á Höskuldstöðum, og munu vera 14 að tölu.

Þess er enn getið, að Jón biskup Arason hafi ort Grímalds rímur að nokkrum hluta, en annan hluta þeirra Sigurðr blindi. Þetta er blandað málum, og er það að rèttu lagi sira Jón Arason prófastr í Vatnsfirði († 1674) sem hefir ort Grímalds rímur 1649 („Hèr skal lítinn hefja brag" o. s. frv. Á. Magn. 611. 4to og 211. 8vo), en Sigurðr blindi hefir fortakslaust engan þátt átt í þeim, því hann var þá dáinn fyrir rúmum hundrað árum áðr, og rímur þessar eru þar að auki einúngis þrjár að tölu, svo þær eru naumast til tvískiptanna. Engin rök eru til þess, að Grímalds rímur hafi verið til aðrar en þessar einu.

---

## 8. ÓVISSAR LAUSAVÍSUR.

Á skinnbókinni í bókhlöðu konúngs í Stokkhólmi Nr. 22 var þess hèr fyr getið, að ritaðar væri meðal annars Hektors rímur og kappa hans. Þær eru þar tólf, og eru ritaðar á blöðunum 72 til 90 í skinnbókinni, en eru þó ekki fullkomnar. Í öðrum handritum eru rímurnar sextán, og kemr það saman við það, sem sagt er, að Sigurðr blindi hafi bætt við fjórum nýjum. Það virðist mjög efasamt, hvort Jón biskup Arason hafi ort þessar Hektors rímur, og rímurnar sjálfar bæði ófullgjörvar og ekki atkvæðamiklar; vèr höfum þessvegna ekki prentað þær hèr, en það er merkilegt, að neðanmáls í skinnbókinni, þar sem einmitt rímur þessar eru ritaðar, eru nokkrar lausavísur, og þar á meðal þrjár af þeim, sem allir eigna Jóni biskupi Arasyni, og hèr eru prentaðar áðr með nokkrum orðamun (IX, X og XIII). Hèr-umbil helmíngr vísnanna er einskonar flokkr, eða sýnist hafa samfellt efni (vísurnar V–VIII, XI–XII, XIV, XVI–XVII) og sýnast vera svipaðar skáldskaparbrag Jóns Arasonar. Þessvegna sýndist vel fallið að taka hèr vísur þessar, sem annars mundu eiga örðugt að komast til rúms, en þótti þó vert að halda á lopti. Tvær seinustu vísurnar eru ekki á skinnbókinni, en þær eru eignaðar Jóni biskupi í ritum, sem oru miklu nýjari, og er þó vafasamt hvort þær sè eptir hann.

I. Stokkhólmsbók Nr. 22, 4to. bl. 19 b., neðanmáls við Böðvars rímur bjarka:

Um Krók vil eg kvæði byrja,
kappann Trítil með,
Lómr sem lýðir spyrja,
ljúf er Budda' í geð;
Víngull or vakr og snar,
vinnr ei Snati þar;
Fundr er grimmr og firtinn mjög,
fljóðum gefr ei svar;
svo skal lykta ljóðum,
lofa' eg hann eigi þjóðum.

II. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 29 b., neðanmáls við Bragða-Mágus rímur.

Borðaði baugskorð
blíðlega' á einni tíð,
hoskust brúðr hafði ask
höldum voru kerin völd;
setti fram fyrir seggi rètt
seima bil og bauð til,
lypti loki ljós nipt:
lýðir brostu að því.

III. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 46a neðanmáls við Rollants rímur.

Heinrek hèr vil eg greina:
hann er gildastr manna,
rekkr er roskinn nokkuð
raupar mikið í kaupum;
ærist[1] opt og tíðum
æðikollr með bræði,
þegnar berja þenna
þrjót með hörðu grjóti.

IV. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 72b neðanmáls við Hektors rímur.

Hvíla gjörði hlaðsól,
hvatr er eg að skera mat;
nauð er í að baka brauð
byljum lystr í Sundhyl[2];
fögur er hún Fljótshlíð[3],
fjöllin eru drifin mjöll,
sunnan fara sumir menn,
seldu aptur mèr feld!

V. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 73a neðanmáls við Hektors rímur.

Mánuð hefi eg menskorð
mjög girnzt að sjá þig

---

[1]) æðist?
[2]) Sundhylr í á í Rángárvalla sýslu?
[3]) skrifað í skinnbókinni: fioðz hlijó.

fýsir mig þó falds fríð
að finna þig eitthvert sinn;
— — — — auðskorð
óttast bæði dag og nótt,
þó eg hverfi þaðan frá
þitt er þó skapið mitt.

VI. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 73 b neðanmáls við Hektors rímur.

Ekki er til, mín auðhlökk,
öngvan kann eg mansöng;
fer eg sem eitt daprt dýr
dreginn út af gleðiveg;
særir mig hið sama fár
svíðandi hvern tíð,
settr er eg því þrátt
þrútinn af gleði út.

VII. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 74 neðanmáls við Hektors rímur.

Reikaði' eg fyrir baugs brík,
bölvi spentr og harms kvöl
úti, þá eð öll mæt
inni' er skipaðr dansinn.
Ýtar höfðu[1] um orð:
eg er sagðr kynlegr;
mèr er kunnigt mitt far:
eg má þar ekki koma frá.

VIII. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 74 b neðanmáls við Hektors rímur.

Ýtra man eg enn snót
að mig lysti þín fyrst,
að binda við bjart sprund
blíðu leik á einni tíð:
þessi var hríngs Hnoss
hyggin og vel dygg;
bæði voru við börn úng,
bar hún lángt af öllum þar.

[1]) gerðu?

IX. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 75 b neðanmáls við Hektors rímur.

Virðist mèr Vatnsfjörðr
vera svo sem sagt er:
heiðarlega húsaðr
og horfinn með grænt torf;
Ólöf hefir byggt bezt,
sem búið hefir hèr nú,
heita má sá heppinn
sem hlotið hefir það kot.

X. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 76 a neðanmáls við Hektors rímur.

Á öldu kveð eg afbragð skálda
Einar prest fyrir vestan;
Halls son með hróðrar snilli
hann er kunnr fyrir sunnan;
blindan hafa bragnar fundið
bragar traustan fyrir austan;
Gunna get eg að sönnu
greiðorðan fyrir norðan.

XI. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. fol. 76 b við Hektors rímur neðanmáls.

Nenni' eg ekki, nýt snót!
Norðra semja dreka borð,
virðum færa vant smíð
viljann hefi' eg borið til;
höllumst eg harmsfullr
af hróðri fæ eg illt mót:
temparaðr mun tregi vondr
taka mèr um allt bak.

XII. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. fol. 77 a neðanmáls við Hektors rímur.

Ýtrust vildi öll orð
efna við mig hlaðs gefn

ágæt og auðmjúk;
jókst mèr stríð, en ekki tókst;
frændr vildu gulls grund
gefa fyrir utan ef,
ristils faðir (með) ráð klók
ripti af mèr hlaðs nipt.

XIII. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. fol. 78 b neðanmáls við Hektors rímur.

Sunnan segja menn
sum klaustr haldin laust:
þýzkir gjörðu þar rask
þeygi gott í Viðey;
öldin er ómild,
Ála bruggar vont kál,
undarlegt er Ísland
ef enginn rèttir þess stètt.

XIV. Stokkhólmsbók Nr. 22, 4to. fol. 79 a neðanmáls við Hektors rímur.

Mansöngs orð um menja skorð
mun eg enn tjá af bauga ná,
flæða borð er (eðr?) Fjölnis storð
fljóðið þá ef vildi fá;
munda eg sprundum, motra hrund,
mærðir binda' af brúði hèr,
hróðrar blund skal hefja' um stund
hrínga lindin trúði mèr.

XV. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 79 b neðanmáls við Hektors rímur.

Skipið heitir Öðlíngur,
er hefi þig upp á sett.
Þú ert mikill villíngur,
leikur mörgum prett,
nema þú stýrir strákskapnum stafrètt.

XVI. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 80 neðanmáls við Hektors rímur.

Eg vil blanda Boðna[r] vín,
bauga grund, fyrir elsku þín;
kann eg varla[1], kyrtla lín,
kveða sem er um æru þín,
með orðin mín;
lifandi er sú lindin fín,
leiptrar víða' og af henni skín.

Ber hún af flestum blíðu' og makt,
brögnum mun þar mest af sagt,
hamíngjan hefir að henni lagt;
drósin hefir sig dygðum þakt
með dýrri agt,
vizkan prýðir vífið spakt,
veraldar fèkk hún nóga makt.

XVII. Stokkhólmsbók Nr. 22. 4to. bl. 83 b neðanmáls við Hektors rímur.

Byrja eg brag um brúðar hag:
baugskorð rjóð er vitr og fróð;
hróðrar lag að hefja í dag,
hrindi móði önnur fljóð;
siklíng þeim er á söltum geim,
— — — — — að rjóða fal,
sem leiðir heim í lönd með seim
— — eg aptr — — — —

XVIII. Í „Fræðimanna tali" Einars Bjarnasonar á Mælifelli er rituð vísa þessi, og sýnist vera eignuð Jóni biskupi Arasyni, en mun þó heldr vera ýngri:

Nú er kæla, nokkuð frýs,
norðan gustur gránar;
á morgun batnar, bráðnar ís,
blíðkast veður, hlánar.

[1]) kuæðu, b. v. í skinnb., líklega ofaukið.

XIX. Þessi vísa er höfð eptir Jóni biskupi Arasyni, að hann hafi ort þegar Ari lögmaðr sonr hans stökk á hest sinn í Skálholti (aðrir segja í Borgarfirði), eptir að þeir feðgar voru komnir í hald.

Eg held þann ríða úr hlaðinu bezt,
sem harmar engir svæfa;
hamíngjan fylgir honum á hest,
heldr í tauminn gæfa[1].

[1]) Biskupa s. II., 450 (hèr að framan).

# ÞÁTTUR UM GIZUR BISKUP EINARSSON[1].

## I. Um herra Gizur Einarsson og hans ætt.

1. SIGVALDI, kallaður lángalíf, var vestan að úr Ísafirði. Hann hefir smíðað kirkjuna í Vatnsfirði. Hún er með spónþaki, og er sagt mynd hans sè á dyrastafnum, og nái nú hæstu menn henni undir höku. Sigvaldi skamtaði sèr sjálfur smíðalaun. Börn Sigvalda: Einar Sigvaldason. — Halldóra Sigvaldadóttir, abbadís austur á Kirkjubæjar-klaustri. Hún var kvenna hæst. — Guðmundur Sigvaldason; var austur á Síðu. Hans son Halldór Guðmundsson í Ásgarði í Landbroti. Þuríður hans dóttir, móðir Guðmundar Jónssonar í Ölvarsholti.[2] — Geirþrúður Sigvaldadóttir. — Helga Sigvaldadóttir. — Gunnar Sigvaldason; hans dóttir Guðrún Gunnarsdóttir; hennar dóttir Guðrún Ámundadóttir í Stafholti. Sigvaldi Gunnarsson var faðir Vilborgar, sem síra Þorlákur Einarsson átti.

2. Börn Einars Sigvaldasonar og Gunnhildar af fátækum stigum:

Herra GIZUR, biskup í Skálholti. Hann var kjörinn til biskups af sjálfum biskup Ögmundi, að honum lifanda, og samþykktur af öllum prestum í Skálholts biskupsdæmi. Hann kom til stiktisins anno 1541, og rèð fyrir Skálholti í 7 ár. Hann var sá fyrsti evangeliski biskup á Íslandi.

Eysteinn Þórðarson[3], prestur í Skálholti, kallaður Eysteinn sterki, hann komst yfir festarkonu herra Gizurar Einarssonar

---

[1]) Ættartölubókanna í Safni Árna Magnússonar Nr. 254 og 255 í arkarbr. er getið II, 317, og 338 (neðanmáls) og víðar. Eptir hinni fyrnefndu (254), bl. 246—282, eru prentaðar ritgjörðirnar um Gizur biskup Einarsson og ættbálk hans, og um biskupana Martein Einarsson, Gísla Jónsson og Odd Einarsson, en bornar saman við Nr. 255, bls. 20—45; og þaðan er inn í þær tekið til fyllíngar og leiðrèttíngar. Enn fremur er mart tekið inn frá ýmsum öðrum stöðum í Nr. 254, sem til er vísað, og þar sem lengra er talið, eða nánar greint um suma menn. Kapítulatölunni er bætt við.

[2]) þann. báðar bækurnar.

[3]) báðar bækurnar: „Brandsson", rángt, sbr. II., 249—250.

meðan hann var utanlands, og var fyrir það skemmdur af bræðrum biskupsins. Hún hèt Guðrún Gottskálksdóttir, systir Odds Gottskálkssonar lögmanns; og var biskupi þó til sinnis að eiga hana, sem áður, en Oddur lögmaður afrèð honum það, sakir hneyxlis.

Kvinna herra Gizurar var Katrín Hannesdóttir, systir Eggerts Hannessonar[1], og var þeirra brúðkaup haldið heima í Skálholti um veturinn anno 1543 eður 44. Hann andaðist heima í Skálholti um veturinn anno 1548; því þá var herra Marteinn útvalinn. Herra Gizur og Katrín áttu tvær barnaskepnur, bæði vansköpuð.

Síra JÓN EINARSSON, sem hèlt síðast[2] Reykholt. Hans kvinna var Guðríður Jónsdóttir[3] af ætt Slítandistaðamanna[4] í Staðarsveit. Hún hafði verið búrkona í Skálholti, og átti þar barn við síra Jóni — síra Böðvar Jónsson — og giptist honum síðan í Görðum á Akranesi; því síra Jón hèlt þann stað fyrst. — Þórður lögmaður hafði haldið Reykholt eptir Odd Gottskálksson. Eptir hann fèkk Reykholt síra Einar Marteinsson, síðan Jón Einarsson. Börn síra Jóns og Guðríðar voru:

Síra Böðvar, Halldóra, Guðrún og Margrèt.

3. Síra Böðvar Jónsson hèlt Reykholt síðar, eptir föður sinn, og var prófastur í Borgarfirði fyrir sunnan Hvítá. Hans fyrsta kvinna var Ásta, dóttir síra Pantaleons Ólafssonar. Ólafur var Eiríksson, bróðir Sæmundar Eiríkssonar í Ási austur. Brigiða Jónsdóttir var móðir síra Panta. Síra Böðvar hèlt Stað í Grunnavík í 8 ár[5] eptir síra Panta; því hann gaf upp staðinn við mág sinn síra Böðvar; og áttu þau síra Böðvar og Ásta 10 börn saman, sem hún andaðist í Reykholti af meini. — Þeirra börn, sem á fætur komust, voru þessi:

Síra Jón, Vigfús, Þórður, Steinvör, Sigríður.

Síra Jón Böðvarsson eldri var fyrst á Húsafelli. Hann

[1]) þ. e. lögmanns, eða „Hannessonar, Eggertssonar gamla, riddara og lögmanns í Víkinni í Noregi", sem segir á öðrum stað í 254.

[2]) þann. 255; síðan hèlt 254.

[3]) síðar (í „Móðurætt síra Böðvars", 9. kap.) er hún í báðum bókunum kölluð „dóttir Sigurðar Þorbjarnarsonar austan". Á öðrum stað framar í 254 (bl. 154, og síðar í 255 bls. 195) er síra Böðvar kallaður son „síra Jóns Einarssonar og Guðríðar Jónsdóttur."

[4]) Slítandi-, þann 254; Slítanda-, 255.

[5]) þann. 255; x ár 254.

fèkk til ektakvinnu fyrst Þórunni, dóttur síra Sveins Símonarsonar og Þórunnar Björnsdóttur, Hannessonar. Þeirra börn: Einar, Pantaleon, Ástríður. — Einar Jónsson giptist Guðrúnu, dóttur Jóns látúnsmiðs Halldórssonar og Helgu Þorleifsdóttur. — Þeirra börn: Jón, Halldór, þrjár Guðrúnar. — Pantaleon sigldi í Danmörk og víðar fyrir bátsmann; giptist í Hollandi 1646. — Ástríður átti Þorlák Bjarnason[1] í Rifi.

Síra Jón Böðvarsson eldri giptist aptur Guðrúnu Jónsdóttur (Jóns dándukalls), bróðurdóttur Jóns þúfuleggs. — Þeirra börn: Bjarni, Íngibjörg. — Bjarni Jónsson sigldi í Danmörk, en er giptur í Hollandi 1645. — Íngibjörg átti Þorkel Jónsson, Benediktssonar og Elenar Þorkelsdóttur; bjuggu á Miðfelli.

Þórður Böðvarsson á Hurðarbaki átti Guðrúnu, dóttur Teits í Ásgarði og Katrínar Pètursdóttur.[2] Þeirra börn: Vigfús, Halldór, Katrín, Geirlaug. Vigfús Þórðarson átti Steinríði Vigfúsdóttur, Eiríkssonar frá Ási og Guðlaugar Björgúlfsdóttur. Þeirra börn: Þórður, Þorsteinn, Vigfús og Sigurður, Guðlaug, Setselja og Sigríður.[3] — Halldór Þórðarson sigldi með Eiríki Teitssyni,[4] móðurbróður sínum, í Holland; kom hèr undir land anno .... og hefir það spurzt, að hann hafi gipzt í Hollandi, en drukknað undir Englandi anno 1647.[5] — Katrín Þórðardóttir átti Jón Hallsteinsbróður, launson Jóns Sigurðarsonar í Einarsnesi. [Þeirra börn: Jón, Halldór, Guðrún.[6] Geirlaug Þórðar-

[1]) Þann. 255, að því sýnist; en skrifarinn hefir fyrst skrifað „Bjarna", sem 254, og bætt „Þorlák" síðan við fyrir framan utanmáls, en „Bjarna" er hèr fremsta orðið í línunni. Um leið hefir hann svo sett „son" aptan við „Bjarna", en fyrir ofan línuna, og vísað þar niður. Reyndar stendur sínkilmyndað merki milli orðanna og framan við línuna, en það merki stendur ekki innanmáls, eða fyrir framan „son" (svo að lesa mætti Bjarna Þorláksson), og virðist því sett til að sýna, að orðið „Þórlák" (sem stendur nokkuð frá) eigi heima á þessum stað.

[2]) þ. e. Pèturs Einarssonar, bróður Marteins biskups, og Íngiríðar, systur Daða í Snóksdal.

[3]) b. v. 255, eptir síra H. B. S.

[4]) um hann segir í öðrum stað: „E. Teitsson sigldi í Holland, og varð þar innbyggjari. Hann sigldi lengi fyrir stýrimann og skipherra hingað til Íslands, Spanien, Frankaríki etc. Hans kvinna hèt Gielt."

[5]) b. v. 255 , en hèr í ógáti 1547 f. 1647.

[6]) b. v. 255, eptir síra H. B. S.

dóttir giptist Pètri Björnssyni, Ólafssonar, og Kolfinnu Benediktsdóttur. [Þeirra börn: Þórður, Björn, Sveinn, Pètur, Steinunn, tvær Margrètar, Gróa.[1]

Vigfús Böðvarsson var sveinn hjá Jóni bónda (sýslumanni) Magnússyni eldra. Hann reið með sínum húsbónda frá Ólafsvík; og er hann hafði eptirskilið dómabók Jóns, þar þeir höfðu frá riðið, fór hann heim eptir henni, en Jón og hans fylgdarmenn biðu hans á meðan og sátu á hestbaki við Forsá fyrir neðan Forsárdal. En þá þeir litu við, var Fúsi á fjórum fótum gruflandi í ánni Forsá, millum Höfða og Ennis, en þeir sáu, að hann stökk á bak sínum hesti og svo riðu þeir af stað, er þeir sáu hann á hestbak kominn. En þá þeir litu við aptur, þá var hann horfinn og fannst dauður í ánni við sjóinn.

Steinvör Böðvarsdóttir giptist Torfa, syni Ögmundar Hallssonar og Arndísar Þorsteinsdóttur, og var hans seinni kvinna. Þeirra börn: Vigfús, Ögmundur, Orný, Arndís. —

Vigfús Torfason giptist Íngibjörgu, dóttur Illuga Fúsasonar og Setselju Árnadóttur á Kalastöðum.[2] Þau bjuggu á Hlíðarfæti. [Þeirra börn: Þórður, Setselja.[3] — Sira Ögmundur Torfason var fyrst þíngaprestur á Barðaströnd og giptist Gróu Gvöndardóttur [frá Hrafnseyri.[4] Þeirra einberni Torfi Ögmundarson á Skriðnafell mest allt, og býr þar. Hann giptist Halldóru, dóttur Jóns Özurarsonar norðlenzka og Íngveldar Gunnlaugsdóttur, sem voru ráðsmenn Eggerts Björnssonar fyrir hans búi á Bæjarstað[5] um 8 ár. — Síra Ögmundur giptist aptur Guðrúnu Ólafsdóttur, Hannessonar.[6] Þ. b.: Magnús, Gróa Ögmundsdóttir (átti Eyjúlf Jónsson, lögrèttumanns, Þorlákssonar), Steinvör, Halldóra. Orný Torfadóttir giptist Pètri, syni Ólafs Pètursonar í Gröf í Miklaholtshrepp. Hans móðir var Guðrún Narfadóttir. — Arndís Torfadóttir giptist Einari Illugasyni.[7]

---

[1]) b. v. 255, eptir síra H. B. S.

[2]) sbr. ritg. um Gísla biskup Jónsson 8. kap. („Setselja Árnadóttir").

[3]) [b v. 255, eptir síra Hannesi Björnssyni.

[4]) b. v. 255, sem les rangt: Hrafnseyju; sbr. annars kap. 10.

[5]) Bæ á Rauðasandi.

[6]) Björnssonar og Þórunnar Daðadóttur í Snóksdal.

[7]) sjá ritg. um Gísla bisk. Jónsson kap. 8 („Setselja Árnadóttir").

Sigríður Böðvarsdóttir giptist fyrst Guðmundi Einarssyni, syni Einars Ásmundssonar söðlasmiðs. Þau áttu ekkert barn. Sigríður giptist aptur Pètri Þórðarsyni, Brandssonar frá Fellsenda, og var hans seinni kvinna.[1] Þeirra börn: Guðmundur Pètursson, Evfemía Pètursdóttir, giptist Steinþóri, syni Jóns eldra Gvöndssonar og Ingunnar Jónsdóttur.

4. Önnur kvinna síra Böðvars Jónssonar var Guðrún Þorleifsdóttir, systir Bjarna Þorleifssonar á Mýrum í Dýrafirði. Sá Þorleifur var Bjarnason, bróðir Björns Bjarnasonar í Dal.[2] Móðir Guðrúnar hèt Kristín. Síra Böðvar og Guðrún áttu tvö börn saman á þremur árum, sem þau til samans lifðu, pilt og stúlku. Var síra Böðvar þá kominn í Reykholt, því faðir hans, síra Jón Einarsson, veiktist og hafði gjört honum boð að fá staðaskipti. Fór þá síra Böðvar til Reykholts, en síra Þorlákur tók við Grunnavíkurstað, en síra Tomás Pálsson eptir hann.

Ásta Böðvarsdóttir og Guðrúnar giptist Vilhjálmi Vigfússyni. Hann átti Geldíngaá, og seldi hana síra Gísla Oddssyni, sem síðar varð biskup í Skálholti. Þeirra börn: Þórður, Finnur, Fúsi, Ámundi, Ásta, Guðrún,[3] Vigdís og Kristín. — Þórður Vilhjálmsson sigldi í England og giptist þar, [og er sagður látinn nú.[4] Finnur átti Helgu [Einarsdóttur, Halldórssonar.[5] Ámundi átti Ornýju Narfadóttur. Ásta átti Jón Jónsson, son síra Jóns undir Staðarhrauni.[6] — Guðrún átti Halldór Marteinsson[7] frá Álptanesi. — Vigdís [átti Björn Jónsson af Kjalarnesi, umkomulítinn.[8] — Kristín.

5. Þriðja kvinna síra Böðvars var Steinunn Jónsdóttir, dóttir Jóns Sigurðarsonar frá Búðardal og Margrètar Eiríksdóttur. Hún hafði áður átt Finn Steindórsson á Ökrum í

---

[1]) sbr. II, 378.

[2]) Bjarni faðir þeirra var son Narfa ábóta á Helgafelli, en móðir þeirra var Sigríður Björnsdóttir, Guðnasonar (sýslumanns í Dalasýslu 1492).

[3]) þessu hefir síðar verið breytt í 255 í: „Guðrúnar tvær".

[4]) [b. v. 255.

[5]) [þannig 255, eptir síra H. B. S.; Halldórsdóttur 254.

[6]) Um síra Jón stendur á öðrum stað: „varð 113 ára gamall; saung þó, skrifaði og las til síns síðasta árs". Af sonum hans hètu þrír Jónar, en bóndi Ástu var hinn ýngsti.

[7] bróður síra Halldórs Marteinssonar í Hítarnesi.

[8]) [b. v. 255 á aukablaði með hendi Árna Magnússonar eptir síra H. B. S.

Hraunhrepp og við honum mörg börn: síra Sigurð, síra Jón, Steinþór og Eirík. Börn síra Böðvars og Steinunnar:

Síra Jón, Finnur, Solveig.

Síra Jón ýngri Böðvarsson hèlt Reykkolt eptir föður sinn. Hans kvinna Setselja, dóttir síra Torfa Þorsteinssonar og Margrètar[1] Aradóttur frá Gilsbakka. Hún sálaðist 1649. Þeirra börn: síra Torfi, síra Halldór, Ólafur, Halldór annar, Margrèt, Steinunn. — Síra Torfi var fyrst kirkjuprestur í Skálholti, síðan kapellán hjá föður sínum í hans veikleika. [Hann andaðist á Saurbæ á Hvalfjarðarströnd (1668, *ætatis* 45.); var þar eitt ár prestur; ógiptur.[2] — Síra Halldór eldri sigldi og fèkk attestatiu og síðan staðinn eptir föður sinn fyrir þá skuld, að síra Torfi hafði ekki siglt; hèldu þó báðir saman búskap bróðurlega — *rarum caritatis et fraternitatis exemplum* — og svo, að annar sagði ekki nei, sem annar sagði já, og voru svo lengi báðir ógiptir. Síra Halldór giptist Hólmfríði dóttur Hannesar Helgasonar og Ragnhildar Daðadóttur.[3] Þeirra börn: Jón, [Hannes, Torfi, Jón, Setseljur tvær, Guðrún, Katrín.[4] Síra Halldór var prófastur í Borgarfirði fyrir sunnan Hvítá. — Ólafur sigldi líka og var locator í Skálholti 1660 og 6 ár þar eptir; síðan skólameistari. Hann giptist 1680. [Hans kvinna Hólmfríður, dóttir síra Sigurðar Oddssonar og Guðrúnar Jónsdóttur í Stafholti. Þeirra börn: Sigurður, Vigfús.[5] — Halldór ýngri lærði líka í skóla; var fyrst Skálholtsstaðar ráðsmaður, síðan prestur á Stað í Grunnavík. Hans kvinna: Elen, dóttir Jóns Magnússonar og Jórunnar Magnúsdóttur frá Reykhólum.[6] — Margrèt giptist Guðmundi, syni Árna Guðmundssonar frá Hjarðarholti[7] og Þorgerðar Tyrfíngsdóttur. Þeirra börn: Árni, [Anna, Margrèt, Setselja, kvinna Pèturs Pálssonar, sýslumanns

---

[1]) ýngri b. v. 255.

[2]) [b. v. 255, á aukablaði með hendi Árna Magnússonar, eptir Sigurði Björnssyni og síra H. B. S.

[3]) Jónssonar, Ólafssonar, prófasts (Guðmundssonar) í Hjarðarholti.

[4]) (b. v. 255 á aukablaði með hendi Árna Magnússonar, eptir S. B. S.

[5]) [b. v. 255 á aukablaði með hendi Árna Magn. eptir S. B. S.; sbr. ritgjörð um Odd b. Einarsson 6. kap. („Síra Sigurður Oddsson").

[6]) sbr. II, 363.

[7]) Deildartúngu 255.

í Stranda sýslu.[1] — Steinunn giptist síra Hannesi Björnssyni frá Bæ.[2] Hann hèlt fyrst Borgarþíng. [Þeirra börn: Björn, Jón, Torfi, Setselja, Þuríður, Þórunn, Íngibjörg. Þessi öll á lífi anno 1686.[3]

Finnur Böðvarsson stúderaði utanlands, vellærður maður, andaðist þar barnlaus.

Solveig Böðvarsdóttir giptist [Jóni ýngra, syni Vigfúsar Jónssonar og Ragnhildar Þórðardóttur, lögmanns, frá Kalastöðum.[4] Þeirra börn: síra Finnur, Jón, Böðvar og Guðrún. — Síra Finnur stúderaði utanlands, fèkk attestatíu og var fyrst kirkjuprestur í Skálholti; síðan fèkk hann Vallanos-stað fyrir austan og dó þar strax eptir, ógiptur og barnlaus. — Jón Jónsson skán; hans kvinna Guðrún, dóttir Hinriks Gíslasonar og Guðrúnar Magnúsdóttur frá Innra-Hólmi. Þau áttu ekki börn. Hans seinni kvinna Helga, dóttir Björns heitins Ásgrímssonar.[5] Böðvar Jónsson; [hans kvinna Helga, dóttir síra Halldórs á Staðarhrauni og Guðrúnar Tyrfíngsdóttur frá Hjörsey. Þeirra börn: Einar, Jón, Finnur, Guðrúnar tvær.[6] — Guðrún Jónsdóttir, [kona Þorvarðar Hallssonar af Akranesi[7].

6. Halldóra Jónsdóttir, systir síra Böðvars, giptist og átti ekkert barn við sínum fyrra manni. Síðan fèkk hennar Styr Þorvaldsson, Styrs sonar frá Varmalæk og Sigríðar Jónsdóttur. Þeirra börn: tveir Jónar, Erlendur, Einar, Þorlákur; hann drukknaði í Selá, er hann fór á Strandir með föður sínum; reið ofan á hesti, sem bar sái, og náði vatnsstraumurinn sánum og fèll þar inn; snaraðist svo af hestinum. Sá Styr alleina hèr uppá og gat ei að gjört. Hinir fjórir synir Styrs

---

¹) [b. v. 255, á aukablaði með hendi Árna Magn.

²) þ. e. Saurbæ á Hvalfjarðarströnd. Það er þessi síra Hannes Björnsson, sem vitnað er til í 255 (utanmáls eða neðan og með ýmsum höndum) með skammstöfuninni Síra H. B. S.

³) [b. v. 255, á aukablaði af Árna Magnússyni. Framar í 254 eru börnin talin, en þar vantar Torfa og Íngibjörgu.

⁴) [255 hefir fyrir þetta: „Jóni Vigfússyni, sem átti Öskuholt, og seldi það fyrir Indriðastaði.

⁵) [b. v. 255, utanmáls eptir Sigurði Björnssyni, með hendi Árna Magnússonar.

⁶) [b. v. 255, utanmáls af Árna Magn. eptir S. Björnss.

⁷) [b. v. 255, neðanmáls af Árna Magn. eptir S. Björnss.

drukknuðu af skipi í Borgarfirði með sviplegum atburð í hvirfilvindi allir í einu.

Dætur Styrs voru fjórar: Sigríður, Orný, Guðríður, Guðrún. Sigríður Styrsdóttir giptist Torfa, syni Helga Torfasonar og Setselju Aradóttur. Þeirra börn þessi: síra Jón Torfason, giptist Margrètu Fúsadóttur, þeirra börn fjögur. — Styr Torfason; giptist eystra. — Þorvaldur Torfason [giptist Þórdísi Gamalielsdóttur úr Biskupstúngum; þeirr börn: Styr, Halldór, Gróa[1]. — Markús Torfason. — Jón annar Torfason. — Setselja Torfadóttir; lèt fallerast. Hún giptist Magnúsi Erlendssyni. — Solveig Torfadóttir, giptist Skíða Jónssyni í Laugardalshólum. Þeirra börn: Guðrún, Solveig, Guðríður.

Orný Styrsdóttir átti fyrst Eyjúlf, son Jóns Pálssonar og Þórdísar Jónsdóttur.[2] Eyjúlfur var góður látúnssmiður. Þau bjuggu á Glysstöðum. Þeirra börn: Styr, Valgerður. — Styr Eyjúlfsson; hans kvinna Margrèt, dóttir Guðmundar Jónssonar á Fróðá og Þórunnar Steindórsdóttur.[3] — Valgerður Eyjúlfsdóttir; hennar maður Steindór Daðason á Vatnabúðum [og Setselju Skúladóttur.[4] — Orný giptist aptur Jóni, syni Þórðar Jónssonar og Guðrúnar Gunnlaugsdóttur. Þeirra börn: Eyjúlfur, Ásmundur. — Eyjólfur Jónsson giptist ......

Guðríður Styrsdóttir átti Arnbjörn, son Sæmundar ...... og Íngibjargar ...... Þeirra börn: Þórður, Guðrún.

Guðrún Styrsdóttir giptist Jóni eldra Þorsteinssyni í Eyrarsveit, og andaðist af barnsför, þó barnlaus, mædd í mótgángi og sinnisveiki.

7. Guðrún, sýstir síra Böðvars, giptist síra Rafni Þorvaldssyni, sem hèlt Saurbæ á Hvalfjarðarströnd. Þeirra börn: Þorvaldur, Halldór, Vigdís, Arnfríður, Guðríður.

---

[1]) [b. v. 255, neðanmáls af Árna Magnúss., eptir síra Hannesi Björnssyni.

[2]) systur síra Högna Jónssonar á Stafafelli.

[3]) þ. e. Steindórs Finnssonar, sýslumanns, í „Snæfellssýslu parti; bjó fyrst í Ormsbæ og Miðgörðum, en lengst af á Íngjaldshóli" (framar í 254); sbr. ritg. um Martein biskup Einarsson 2. kap.

[4]) [b. v. 255; Daði var Arnórsson, Helgasonar og Guðrúnar, systur Daða í Snóksdal.

Þorvaldur Rafnsson giptist Önnu, laundóttur Setselju Magnúsdóttur, er hún átti við Sigurði presti austfirzka. Þeirra börn: Sigurður, tvær Guðrúnar, Vigdís, Þórdís, Þóra, Margrèt, Elen. — Sigurður Þorvaldsson. — Guðrún Þorvaldsdóttir (eldri) átti Sigurð Jónsson í Höfn.[1] — Guðrún önnur Þorvaldsdóttir. — Vigdís Þorvaldsdóttir átti Gunnar Bjarnason 1649. [Þeirra börn: Helgi, Kristín, Guðríður, Halldóra, Hallfríður, Skapti.[2] — Þórdís Þorvaldsdóttir. — Þóra Þorvaldsdóttir var síðari kvinna síra Jóns Ólafssonar í Hvammi[3]. — Margrèt átti Bjarna Ámundason; dó barnlaus. — Elen var þjónustustúlka á Leirárgörðum hjá Elenu Magnúsdóttur 1666.

Síra Halldór Rafnsson var prestur á Skarðsströnd og andaðist barnlaus.

Vigdís Rafnsdóttir andaðist í bólunni barnlaus.

Arnfríður Rafnsdóttir átti Teit Helgason í Höfn. Þeirra son Halldór andaðist barnlaus.

Guðríður Rafnsdóttir eignaðist fyrst Björn Þórðarson frá Hjarðarholtsstað.[4] Þeirra son Björn. — Guðríður giptist síðar síra Ólafi, syni Böðvars Einarssonar eyfirzka, bróður Björns bryta og Unnar, sem var skólaþjónusta í Skálholti. Þeirra börn: síra Rafn Ólafsson; [hann missti embættið fyrir bænadagabrot; og Helga, sem átti Pál Ellendsson; Guðrún ógipt og barnlaus.[5]

8. Margrèt systir síra Böðvars giptist Jóni Pálssyni norðlenzka.

Þeirra börn: Snorri á Geldíngaá (eg meina Lataleifa, öðru nafni vegabætir, hans bróður), sem á Guðríði, dóttur Jóns Kolbeinssonar á Heynesi og Svanhildar Hallvarðsdóttur. Þeirra börn: Jón, Kollbeinn — hann varð bráðkvaddur —, Böðvar, Margrèt, Guðrún, [Agnes, Ólafur[6], Orny.

---

[1]) [b. v. 255, eptir S. B. S.

[2]) ]b. v. 255, eptir síra H. B. S.

[3]) Jónssonar (og Guðrúnar, laundóttur Árna Gíslasonar á Hlíðarenda), Ólafssonar prófasts (Guðmundssonar) í Hjarðarholti í Laxárdal.

[4]) Þó báðar bækurnar hafi þetta um fyrri giptíngu Guðríðar, er það víst rángt, og 254 bendir til utanmáls, að það komi ekki saman við það sem áður hefir verið sagt um giptíngar Þórðar Brandssonar.

[5]) [b. v. 255.

[6]) [b. v. 255, eptir síra H. B. S.

Margrèt (Jónsdóttir[1]) giptist síra Jóni Þorsteinssyni, syni Þorsteins Sighvatssonar og Ástu Eiríksdóttur. Hún var hertekin af Tyrkjum, en hann í hel sleginn anno 1628 í Vestmannaeyjum. Einnin voru hertekin tvö þeirra börn, Jón, Margrèt. Jón Jónsson, skólagenginu, var lengi í Tyrkiríinu og kom til Danmerkur 1645; [nefndur Jón Vestmann.[2] Margrèt ýngri var leyst frá Tyrkjum af frönskum manni; giptist hún honum, en hann yfirgaf hana síðan. — [Síra Jón Jónsson á Melum, prófastur, vel látinn maður og veltalandi, sem hafði siglt og stúderað vel. Hann eignaðist Margrètu Daðadóttur, dóttur Daða Árnasonar frá Eyrarlandi og Kristínar Jónsdóttur. Þeirra börn: Daði, Þorleifur prestur, Helgi, Jón, Halldóra, Margrèt, Guðrún. — Síra Þorsteinn Jónsson að Holti undir Eyjafjöllum; átti Solveigu, dóttur Ísleifs Eyjúlfssonar í Saurbæ og Setselju Magnúsdóttur. Þeirra börn: Þórður, Margrèt, Hildur. Þórður, skólagenginn, andaðist barnlaus. Margrèt kvinna síra Þorkels Arngrímssonar í Görðum; þeirra börn: Þórður, Jón, Arngrímur, og Guðrún, kvinna síra Árna Þórvarðssonar[3] á Þíngvöllum. Hildur, kvinna síra Odds Eyjúlfssonar (forðum skólameistara), prests í Holti undir Eyjafjöllum; þeirra börn: Þorsteinn, Þórður, Þorkell, Jakob.[4]

### MÓÐURÆTT SÍRA BÖÐVARS.

9. Guðríður, móðir síra Böðvars, var dóttir Sigurðar Þorbjarnarsonar austan.[5] — Bróðir Guðríðar hèt Þorbjörn. Hans son Snorri, ómagi síra Böðvars og síra Jóns í Reykholti, varð XI tuga ára gamall. — Guðrún sem átti Jón smið á Fellsöxl; þeirra son Bjarni skáldi. — Laundætur Guðrúnar við Þorsteini Sigvatssyni var Sigurborg, sem Jón Grímsson í Kalmanstúngu átti. Þeirra son síra Grímur; hans synir Jón og síra Helgi á Húsafelli. — Helga Þorsteinsdóttir; hennar maður Hildibrandur; þeirra börn: Þórhallur, Guðrún, Þórdís, Helga.

---

[1]) sbr. II. 371. 254 hefir hèr: „eg meina Snorradóttir", en hún hefir verið systir Snorra Jónssonar.

[2]) [b. v. 255.

[3]) báður bækurnar Þórðarsonar; víst ráugt.

[4]) b. v. 255, um börn síra Þorsteins með annari hendi og á innfostum miða.

[5]) í mótsögn við það, sem áður er sagt 2. kap.

10. Síra Halldór Einarsson, annar bróðir herra Gizurs, hann hèlt Selárdalsstað og átti Margrètu, dóttur Hannesar Eggertssonar norska[1] og Guðrúnar Björnsdóttur, Guðnasonar, þeirra börn: síra Bjarni, Halldóra.

Síra Bjarni Halldórsson hèlt Selárdal, og var prófastur í Barðastrandarsýslu. Hann var haldinn einn af þeim lærðustu klerkum um hans daga, og mikið höfðíngsmenni í geðsmunum til veitínga og útláta og annara manndómsatvika. Svo hefir þeim þótt, er þessa vísu kveðið hefir:

Í Selárdal vestur situr prestur, sveigir hrínga,
eg ætla hann sè til allra þínga
afbragð þeirra Vestfirðínga.

Kvinna síra Bjarna var Helga, dóttir Einars Gíslasonar í Hvestu og Sigríðar, dóttur Jóns Einarssonar á Melgraseyri og Margrètar Björnsdóttur, Þorleifssonar, Björnssonar ríka. Þeirra börn: Síra Halldór, Egill, Þorlákur, Dís, Sigríður, Margrèt, Anna. — Einar Bjarnason dó ógiptur og barnlaus í bólunni.

Síra Halldór var kapellán hjá föður sínum, og tvö ár síðan, eður þar um, hjá síra Páli Björnssyni, er Selárdalsstað fèkk eptir síra Bjarna. Síra Halldór dó ókvæntur og barnlaus, og erfðu hann bræður hans, Þorlákur og Egill.

Egill Bjarnason; hans kvinna Jórunn Ólafsdóttir, [Jónssonar og Ingibjargar Fúsadóttur frá Svarfhóli[2], þeirra börn: Einar, Bjarni, Finnbogi, Helga; Ingibjörg og Anna dóu. — Einar Egilsson giptist Gyríði, dóttur Sturla Gottskálkssonar; búa á Geirseyri í Patriksfirði. Þeirra börn: Jónar tveir, Agatha, Ingibjörg, Maria[3]. — Bjarni Egilsson. — Helga Egilsdóttir giptist Gunnlaugi Pálssyni. — Finnbogi Egilsson drukknaði ógiptur og barnlaus í mannskaðabylnum 1665 fyrir Hænuvík.

Þorlákur Bjarnason giptist anno 1625 Guðleifu, dóttur síra Sigurðar austfirzka og Setzelju Magnúsdóttur. Hún var uppalin af ömmu sinni sálugu, Ragnheiði Eggertsdóttur í Sauðlauksdal, og af henni heiman gefin. Hún gaf henni 6 hundruð í Botni í Tálknafirði og þar til 4 hundruð í lausafè. Einninn gáfu frændur Guðleifar henni peninga, og hún sjálf átti 5

---

[1]) þann. 255, og 254 á öðrum stöðum, en hefir hèr: „danska".

[2]) [þ. v. 255.

[3]) skrifað: Mario.

hundruð, til samans 26 hundruð. Þau bjuggu allan sinn búskap í Túngu í Tálknafirði; voru saman 35 ár. Þeirra börn: Einar, Helgi Sigríður, Helga, Guðrún, Ragnheiður, Valgerður; önnur 7 sáluðust úng. — Einar Þorláksson fèkk 6 hundruð í Botni og 4 hundruð í Gljúfurá, er Þorlákur erfði eptir síra Halldór bróður sinn. Þetta hvorttveggja seldi hann Magnúsi Magnússyni. Kona Einars hèt Guðrún, dóttir Ara Tumássonar. Einar andaðist örfátækur, volaður og veikur 1679 sjálfan nýjársdag. Börn Einars og Guðrúnar: Jón ....... — Helgi Þorláksson giptist Íngveldi, dóttur Jóns Gottskálkssonar[1] og Gunnhildar Ólafsdóttur[2]. Þeirra börn: Þorlákur, Jón, Páll, Gísli, Þórólfur, Sigríður. — Sigríður Þorláksdóttir lèt fallerast, og fór illa, því Oddur Tumásson, er hún kenndi, gekk í móti. Hún fór eptir það norður í Grunnavík til föðursystur sinnar Margrètar, og giptist þar fátækum manni. — Helga, ógipt gaf próventu sína Helga bróður sínum. — Guðrún Þorláksdóttir giptist Jóni eldra Ólafssyni, Ásbjörnssonar, og Höllu Jónsdóttur norðlenzkrar[3]. Guðrún átti 6 hundruð í Bakka í Tálknafirði, hver hún seldi Eggert Björnssyni fyrir önnur ónefnd 6 hundruð. Jón og Guðrún voru saman hèrum 19 ár. Hann drukknaði í Bæjarós 1678, 17. apr. með syni sínum Ásbirni 18 vetra gömlam, ásamt öðrum hásetum, er til vers ætluðu. Börn Jóns og Guðrúnar: Ásbjörn, er drukknaði, Setselja, uppfóstruð af móðursystur sinni Ragnheiði, Guðrún, Íngibjörg, Þorlákur; Þorvaldur, Ólafur, Halla önduðust úng. — Ragnheiður Þorláksdóttir giptist síra Jóni ýngra Ólafssyni, bróður þess, er Guðrún systir hennar átti. Hann var í Hólaskóla um 8 vetr, fyrir tilhlutan og meðgjöf að miklum parti herra hirðstjóra Eggerts Björnssonar[4]; þjónaði honum síðan um 7 ár á Skarði, og prestvígðist í Skálholti 3. dag hvítasunnu, sem var 1. júni 1669, af Mag. Brynjúlfi Sveinssyni til Rauðasandsþínga, að uppgefnum síra Þorbirni Einarssyni. Ragnheiður átti 6

---

[1]) Sturlasonar, Eyjúlfssonar (á Hjalla) og Ásdísar Pálsdóttur (systur Ögmundar biskups).

[2]) „laungetna, Björnssonar, Eggertssonar lögmanns; móðir Gunnhildar var Íngveldur Þorláksdóttir undan Núpi" (framar í 254); sjá 13. kap.

[3]) sbr. II. 397.

[4]) ɔ: á Skarði.

hundruð í Túngu. Þeirra börn: Guðrún, Halla, Ólafur, Þuríður. — Valgerður Þorláksdóttir ógipt.

Dís Bjarnadóttir átti fyrst síra Guðmund Skúlason. Þeirra börn: Magnús, Gróa, Sigríður og Anna. — Magnús Gvöndsson sigldi; var tinsmiður góður, bjó á Kúlu í Arnarfirði. Hans kvinna Kristín, dóttir síra Þorleifs Bjarnasonar á Söndum. Þeirra börn: Torfi. — Gróa Guðmundardóttir átti síra Ögmund Torfason í Oturárdal[1] og var hans fyrri kvinna. — Sigríður Guðmundsdóttir átti síra Hall[2] Árnason að austan, sem fyrst hèlt Skarðsþíng og síðan Rafnseyri. Þeirra börn: Sigurður, Torfi. Sigurður Hallsson lærði í skóla og vígðist síðan til Hrafnseyrar eptir föður sinn. Hans kvinna ..... dóttir síra Ásgeirs Einarssonar[3]. Torfi .... — Anna Guðmundsdóttir átti Jón Egilsson af Skarðsströnd; bjuggu lengstum í Ólafsdal, síðan á Krossi. Þeirra börn: Guðmundur Jónsson. Guðríður Jónsdóttir giptist svarta Arna eptir Ásu heitna Sturladóttur; þeirra börn: Ása. Guðríður giptist aptur Guðmundi Björnssyni. Jón Jónsson. — Dís Bjarnadóttir giptist síðar síra Sigurði Snorrasyni. [Hann hèlt Hrafnseyri og andaðist þar[4].

Sigríður Bjarnadóttir giptist Jóni Ívarssyni[5]; bjuggu lengstum á Neðrabæ og björguðust vel. Jón Ívarsson drukknaði í fiskiróðri fyri Kópavík 1677 um vorið, og rak hann lángan veg óskertan norður á Sauðanes hjá Súgandisfirði, og fèkk kirkjuleg við Staðarkirkju. Þeirra börn: Einar, Sigurður, Magnús, Ívar og Helga. — Einar Jónsson; hans kvinna Guðrún Bjarnadóttir (önnur)[6]; búa á Bæjarkirkju jörð Fífustöðum. Þeirra börn

---

[1]) Brjánslæk, 255 (á innfestum miða), sem líka er rètt; sbr. annars bls. 5.

[2]) Halldór 255 (á innfestum miða); rángt.

[3]) sbr. ritg. um Odd bisk. Einarsson kap. 9. („Marin Erasmusdóttir").

[4]) [b. v. 255, sbr. annars ritg. nm Odd biskup 9. kap. („Marín Erasmusdóttir").

[5]) Eyjúlfssonar, Magnússonar, Eyjúlfssonar mókolls (hins ýngra) og Helgu Þorleifsdóttur (Björnssonar ríka).

[6]) á Arngerðareyri, Bjarnasonar á Melgraseyri og Þorgerðar Jónsdóttur (Einarssonar á Melgraseyri); móðir Guðrúnar Sigríður, dóttir Jóns Þorleifssonar á Snæfjöllum.

þessi: Sveinn Einarsson, Guðný Einarsdóttir, kvinna Þórðar Jónssonar í Laugardal, ...... kvinna Jóns Guðmundssonar í Austmannsdal. — Sigurður Jónsson; hans kvinna Þuríður, laundóttir Gunnars Arngrímssonar[1] og Guðrúnar Özursdóttur. Þeirra barn: Gunnar. — Magnús Jónsson var nokkra stund í Skálholtsskóla; hann drukknaði með föður sínum ókvæntur, barnlaus. — Ívar Jónsson var fyrsti maður Þórunnar Ólafsdóttur, Hannessonar. Þeirra börn: Ívar, Jón. — Helga Jónsdóttir (ágæt kvinna) giptist Þórólfi á Vatneyri, syni Jóns Gottskálkssonar.

Margrèt Bjarnadóttir giptist fyrst síra Torfa Bjarnasyni[2]; áttu ekki börn. Margrèt giptist aptur síra Sigurði Gíslasyni er þann stað[3] hèlt eptir síra Torfa.

Anna Bjarnadóttir átti Pál Skúlason. Hún dó og barnlaus[4].

11. Halldóra Halldórsdóttir (systir síra Bjarna); hennar fyrsti maður var síra Guðmundur. — Hann hèlt Gilsbakka í Borgarfirði. Hann drukknaði suður í Hafnarfirði; hafði áður misst máldaga kirkjunnar ofan í Hvítá; var fyrst skrifari Eggerts sál. Hannessonar. Þeirra barn Úlfur, sem átti Guðrúnu Lazadóttur (af þýzkri ætt). Þeirra börn: Diðrik, búandi á Rauðasandi. *Item* Jón Úlfsson, sem í galdramál kom, og á alþíngi var refsað 1671. — *Item* Gvöndur Úlfsson: sigldi í England. — *Item* Torfi Úlfsson; átti dóttur síra Eyjúlfs Ásmundssonar[5]. Þeirra börn: Jörundur, Guðmundur, Sigurður. — In.... Úlfsdóttir, móðir Jóns Sigurðssonar á Skarði, vinnumanns.

Halldóra Halldórsdóttir giptist í annað sinn síra Jóni Þormóðssyni látúnssmið. Hann misti embættið, er hann varð sár. Þeirra börn: Guðmundur, hèt eptir hennar fyrra manni. *Item* ein dóttir; fór vestur með foreldrum sínum. — Halldóra giptist í þriðja sinn síra Jóni Styrkárssyni.

---

[1]) lærða.

[2]) sóknarpresti í „Rauðasandsþíngum" (síðar á Stað í Grunnavík), og bróður síra Brynjúlfs prófasts í Hjarðarholti.

[3]) þ. e. Stað í Grunnavík (ógreinilega orðað); sbr. annars ritg. um Odd biskup Einarsson 8. kap.

[4]) þann. 254; og dó barnlaus 255. Af þessu („dó og") er að skilja, að Margrèt hafi ekki heldur átt börn við seinna manninum.

[5]) Guðrúnu ýngri (við hans fyrri konu, Brit).

12. Síra Halldór Einarsson giptist aptur Íngu, dóttur síra Jóns Þorleifssonar í Gufudal. Þeirra börn: Teitur, Íngibjörg, Margrèt.

Síra Teitur í Gufudal átti fyrst Þóru, dóttur Torfa Jónssonar á Kirkjubóli í Lángadal[1] Þeirra börn: Síra Halldór Teitsson [í Gufudal, sem fyrst átti Helgu Sæmundardóttur, en síðan Guðrúnu Skúladóttur, systur herra Þorláks biskups á Hólum[2]. Kristín Teitsdóttir átti fyrst Þorleif, son Bjarna Björnssonar og Setselju Sigurðardóttur; hann dó barnlaus. Aptur giptist Kristín síra Jóni Sigurðssyni á Breiðabólstað austur. Þeirra dóttir Guðrún giptist Jóni Sigurðssyni lögrèttumanni[3]. — Aptur giptist síra Teitur Hildi Þorgrímsdóttur úr Lögmannshlíð. Þeirra börn: Þorgrímur, dó barnlaus; *item* Ólöf Teitsdóttir; giptist Hákoni Þorsteinssyni lögrèttumanni fyrir austan og klausturhaldara, bróður Magnúsar. Hún dó barnlaus.

Íngibjörg Halldórsdóttir giptist síra Ásmundi Þórmóðssyni frá Hvammi í Norðurárdal. Þeirra börn: Halldór, Bárður — önduðust úngir —, Guðmundur, Þóra. — Guðmundur Ásmundsson átti Stóra-Holt, í Saurbæ, og bjó þar. Hans kvinna Guðrún, dóttir Jóns Magnússonar dans og Íngveldar Gvöndardóttur. Þeirra einberni Ólöf, sem giptist Magnúsi Magnússyni frá Haga á Barðaströnd[4]. Þeirra börn: Jónar tveir, Íngibjörg. — Þóra Ásmundsdóttir giptist fyrst Pètri Pálssyni á Staðarhóli[5]; áttu eigi börn saman. Þóra fèkk eptir hann í tilgjöf sína Stóra-Holt og seldi það bróður sínum Guðmundi fyrir smájarðir. Hennar báðu eptir það margir góðir og göfugir menn. Síðan giptist hún Þorsteini Jónssyni, ættuðum úr Rútafirði. Hans móðir hèt Sigríður Kráksdóttir, systir Helga Krákssonar. Þorsteinn tók framhjá Þóru.

Margrèt Halldórsdóttir, systir síra Teits, átti Guðmund, son Árna Oddssonar og Dórótheu, útlenzkrar konu, í Hofgörðum í Staðarsveit[6]. Þeirra dóttir Dóróthea, sem fyrst átti Gísla

---

[1]) [b. v. 255.

[2]) [þetta tekið úr 255, en sjá síðustu grein kapítalans (úr 254).

[3]) [b. v. 255.

[4]) sýslumanni í Ísafjarðarsýslu.

[5]) sjá II 361.

[6]) sbr. II 370.

Magnússon í Drápuhlíð, og við honum .... Síðan giptist Dóróthea Jóni norðlíng, drengtötri.

Síra Halldór Teitsson giptist Guðrúnu Skúladóttur. Þeirra börn þessi: Síra Teitur Halldórsson, sá síðari, í Gufudal; hans kvinna Margrèt Eggertsdóttir. — Helga eldri Halldórsdóttir. — Kristín Halldórsdóttir. — Þóra Halldórsdóttir, kvinna síra Hannesar Benediktssonar á Snæfjöllum. — Þorgrímur Halldórsson. — Helga ýngri Halldórsdóttir. — Ólöf Halldórsdóttir. — Steinunn Halldórsdóttir.

12. Þorlákur bóndi Einarsson sat vestur á Núpi í Dýrafirði. Hans kvinna sú fyrri var Guðrún, dóttir Hannesar hirðstjóra Eggertssonar og Guðrúnar Björnsdóttur. Þeirra son Gizur, er átti Ragneiði dóttur Páls Jónssonar á Staðarhóli og Helgu Aradóttur[1]. Þeirra börn:

Magnús, Jón.

[Magnús Gizursson giptist Þorkötlu, dóttur síra Snæbjarnar og Þóru Jónsdóttur frá Kirkjnbóli; áttu ekki börn. Magnús var barskeri.

Jón Gizursson bjó á Núpi í Dýrafirði. Hann átti Þóru, dóttur Ólafs Jónssonar frá Hjarðardal og Íngibjargar Jónsdóttur frá Gufudal. Þeirra einberni er síra Torfi Jónsson; heldur Gaulverjabæjarstað, prófastur í Árnessýslu; hafði stúderað utanlands; eignaðist Sigríði, dóttur Halldórs lögmanns: Þeirra börn: Jón, Halldór, Sveinn, Ragneiður, Þóra, Rannveig, Katrín, Þórunn.[2] — [Síra Jón, prestur á Breiðabólstað í Fljótshlíð. Hans kvinna Sigríður, dóttir Björn Pálssonar, Guðbrandssonar, Þorlákssonar. Þeirra barn: Björn. — Síra Halldór í Gaulverjabæ. Hans kvinna Þuríður, dóttir Eggerts Sæmundssonar af Vestfjörðum. Hún var áður kvinna Eggerts Jónssonar í Flatey. — Sveinn Múkaþverár klausturhaldari; eignaðist ..... dóttur síra Magnúsar Sigurðssonar á Kvíabekk. — Ragneiður, kvinna Jóns Sigurðssonar í Einarsnesi, sýslumanns. Þeirra börn: Sigurður, Jón, Torfi, Magnús, Þóra, Margrèt, Kristín, Helga, Halldóra, Rannveig, Ragnhildur, Ragnheiður, Helga. — Þórunn, kvinna síra Högna Ámundasonar á Hólum undir Eyjafjöllum. — Rannveig, fyrri kvinna Vigfúsa Hannessonar,

---

[1]) sbr. II, 360 og 364.

[2]) [b. v. 255; sbr. II 364.

sýslumanns í Árnessýslu. þeirra barn: Setzelja. — þóra, kvinna síra Einars Einarssonar í Görðum á Álptanesi. þeirra börn: Brynjólfur, Margrèt, Halldóra, Málfríður, Íngibjörg. — Katrín, ógipt 1700.[1]

13. þorlákur giptist aptur Vígdísi, dóttur þórólfs Eyjúlfssonar og Margrètar Erlendsdóttur. — þorlákur bóndi var sýslumaður í Ísafjarðar sýslu. — þeirra börn:

Jón, Íngveldur, Guðrún, Margrèt, Gunnhildur.

Jón þorláksson bjó lengi í Kerlíngarfirði[2]; var lögrèttumaður. Hans kvinna þóra, dóttir Eyjúlfs Einarssonar á Ballará, sem átti Ragnhildi, laundóttur Páls Jónssonar á Staðarhóli. þeirra börn: Eyjúlfur, Pètur, Íngibjörg, Vígdís, Halldóra; Daði andaðist, var alltíð veikur. — Eyjúlfur Jónsson giptist Gróu, dóttur síra Ögmundar Torfasonar í Oturárdal og Guðrúnar Ólafsdóttur, Hannessonar; voru saman fá ár. Andaðist hann úr sótt, en hún var með barni; hèt Eyjúlfur. — Pètur enn nú ógiptur. — Íngibjörg giptist Ara Pálssyni úr Dýrafirði, sem nú er í galdramáli staddur.

Vigdís fyrri kvinna Hannesar Einarssonar[3] á Kleifum. þeirra börn: Einar, þorleifur, Halldóra, Valgerður[4].

Halldóra átti Guðmund Einarsson, bróður Hannesar. þeirra börn: Einar, Jón, Sigríður.

Íngveldur þorláksdóttir giptist Ólafi, syni Björns Eggertssonar laungetnum. þau bjuggu á Suðureyri í Tálknafirði. Íngveldur hafði fyrst verið kvenna fríðust, krenktist síðan og varð sjónlaus. þeirra börn: Ólafur, Gunnhildur, [kvinna Jóns Gottskálkssonar frá Vatneyri[5], þrúða (Jarþrúður). — [Ólafur Ólafsson átti Vígdísi, dóttur Bjarna þorleifssonar á Mýrum[6].

[Guðrún þorláksdóttir, kvinna Einars þorleifssonar undir Múla á Skálmarnesi. — þau áttu þrjá sonu: þorleif, þorlák, þórólf.

---

1) [b. v. 255 (á aukablaði — innfestum miða — og með annari hendi) eptir S. B. S.

2) á Firði á Skálmarnesi 255.

3) þ. v. síra Einars á Stað á Reykjanesi, Guðmundssonar.

4) 255 nefnir að eins tvö börn: Einar og Jón, og villist þar líklega á sonum Halldóru, en getur annars ekki um hennar börn.

5) [b. v. 255.

6) [b. v. 255.

— Þorleifur og Þorlákur, drukknuðu báðir og dóu barnlausir. — Þórólfur, átti Þorkötlu dóttur Finns í Flatey. Hann drukknaði í fiskiróðri í Oddbjarnarskeri. Þeirra börn: Finnur, skólagenginn á Hólum nokkur ár, og Einar, dóu ógiptir og úngir; *item* Ragnhildur, Íngibjörg. Ragnhildur giptist fyrst síra Erlendi Einarssyni (Guðmundssonar) í Hjarðarholti; hann krenktist; áttu engin börn. Aptur giptist hún Þórði Steindórssyni, Finnssonar á Íngjaldshóli og Guðlaugar Þórðardóttur. Þeirra börn: Erlendur. Íngibjörg Þórólfsdóttir giptist síra Nikulási Guðmundssyni, sóknarpresti í Múla og Eyjaþíngum, ættuðum úr Borgarfirði. Þeirra börn: Þórólfur, Þorkatla, Guðrún.

Margrèt Þorláksdóttir, kvinna Steinþórs, sonar Orms Jónssonar[1] og Ragnhildar Steinþórsdóttur frá Ökrum. Þeirra einberni Ragnhildur, sem Eggert Sæmundsson átti. Hann bjó á Sæbóli þá hann drukknaði, og átti eptir þessi börn: Sæmund, Sigríði, Helgu, Margrètu, Þóru. — Sæmundur Eggertsson giptist Þuríði Árnadóttur, Teitssonar.[2] — Sigríður Eggertsdóttir giptist Þorleifi bónda Magnússyni; sitja í Haga á Barðaströnd. Þeirra einberni Ástríður. — Helga Eggertsdóttir giptist Snæbirni Torfasyni[3]. — Margrèt Eggertsdóttir giptist síra Teiti í Gufudal[4]. — Þóra Eggertsdóttir.

Gunnhildur Þorláksdóttir var önnur kvinna Þórðar Þorlákssonar [á Marðarnúpi,[5] bróður herra Guðbrands.

14. Síra Jón Einarsson annar, laungetinn. Hans son var síra Gizur á Stafafelli, sem átti Helgu Bjarnadóttur, systur Bergljótar á Kalfatjörn, kvinnu síra Orms Egilssonar. Dóttur síra Gizurs, Helgu, átti Páll Halldórsson, bróðir Marteins. Helga var kunnig Jóhann Bockholt og sængaði með hann opinberlega (so sem vísan hljóðar:)

Kvinnan úng fèkk klúnk af júnk.

---

[1]) þ. e. síra Jóns Þorleifssonar í Gufudal.

[2]) sjá II 374.

[3]) sjá II 369—70.

[4]) sjá II 614.

[5]) b. v. 255, sem svo hefir þetta: „Þeirra son Hallgrímur, studiosus, dó af brennivíni barnlaus". En sjá þátt um Guðbrand biskup 15. kap.

# ÞÁTTUR UM MARTEIN BISKUP EINARSSON.

## Um herra Martein Einarsson,

### BISKUP Í SKÁLHOLTI, OG HANS ÆTTFÓLK FLEIRA[1].

1. Herra MARTEINN EINARSSON var kjörinn til biskups eptir herra Gizur Einarsson anno 1547, stendur í annálum; sumir segja 1548. Herra Marteinn tók við Skálholti 1548, og rèð fyrir stigtinu sex ár. Hann var einfaldur og hógvær maður. Hann var tekinn til fánga af biskups Jóns Arasonar sonum á Staðarstað og hafður í haldi fyrir norðan til þess þeir feðgar voru teknir á Sauðafelli anno 1550; og bæði þessara ofsókna vegna og þess annars, að það danska valdið þrengdi meir og meir að Skálholti, og höfuðsmenn vildu koma Nesjajörðum undan Skálholti (svo sem þeir gjörðu í tíð herra Gísla Jónssonar, sem þó þótti vera fótur undan staðnum). Afgjald af þeim Nesjajörðum hafði verið 16 vættir skreiðar annars hundraðs, mjöl og kúgildi að auki. Voru þessar landskyldir fluttar til Garða, meðan síra Einar Ólafsson var staðarins ráðsmaður eða umboðsmaður. Hann bjó á Hólum í Ytra-Hrepp eptir það og var ráðsmaður Skálholts. Þá supliceraði herra Marteinn fyri kónginn, og vildi vera frí frá stiktinu, og fèkk hann þar kóngsbrèf uppá. Svo gaf herra Marteinn upp staðinn anno 1556, en herra Gísli Jónsson tók við. Sumir segja herra Marteinn hafi suplicerað um fríunina 1555. Þá var Knud Steinsson höfuðsmaður, og hann kom út með það leyfisbrèf 1556. Á því sama sumri var síra Gísli Jónsson frá Selárdal kjörinn til biskups; og um haustið afhenti herra Marteinn staðinn og skildi sig við, og fór til Haukadals og var þar um veturinn. Þetta var næsta ár eptir stórubóluna.

Pètur Einarsson bróðir herra Marteins Einarssonar var þá Skálholts ráðsmaður; var hann þá enn ekki vígður, en áður höfðu prestar verið ráðsmenn, og var enginn lengur enn 3 ár. Er sagt það hafi dæmt verið fyrr meir, að engi prestur

[1]) sjá neðangreinsmál II 599.

skyldi synja þess að vera Skálholts ráðsmaður, hvern sem biskup vildi þar til nefna. Eptir það hafði herra Marteinn ekki par með stiktið, en sat að sínum eignum. Hans eiginkvinna hèt Íngibjörg. Hann hafði haldið Staðarstað, áður en hann varð biskup, og hafði alltjafnt ráð yfir honum, þángað til hann gaf hann upp við launson sinn síra Einar, sem lengi hèlt Staðarstað. Hans móðir var Guðrún Jónsdóttir. En kvinna síra Einars var Þórunn, dóttir síra Ólafs Gvöndssonar frá Hjarðarholti. Þeirra börn: Þórður, Páll, Guðrún; Einar og Ólafur sigldu, dóu utanlands báðir.

2. Þórður Einarsson var málari. Hann sigldi og andaðist utanlands. Hann átti hèr eina laundóttur, sem hèt Guðlaug, kvinna Steinþórs Finnssonar á Íngjaldshóli. Móðir hennar var Ólöf Bjarnadóttir, sem átti Jón Bárðarson[1]. Börn Steindórs og Guðlaugar: Finnur, Bjarni, Böðvar, Halldór, Guðmundur, Þórður, Þórunn, Margrèt, tvær Guðrúnar. Bjarni Steindórsson dó úr spítelsku.

[Böðvar Steinþórsson, skólagenginn, drukknaði í Ölvisá með Jóni frænda sínum Halldórssyni, Skálholts ráðsmanni, föstudaginn eptir Kyndilmessu. Böðvar fannst ekki. Jón Halldórsson var jarðaður í Skálholts kirkju laugardag annan í gói 1645[2].

Finnur Steindórsson sigldi eitt ár til lítils; eignaðist hálfan Vog, giptist Þórunni Eggertsdóttur[3]. Þeirra barn: Margrèt. Hann varð *leprosus.*

Halldór Steindórsson krenktist sem bróðir hans.

Guðmundur Steindórsson sigldi í Holland; var kramari Hollenzkra í Bjarneyjum; síðan um eitt ár eður tvö sýslumaður yfir hálfu Húnavatnsþíngi; giptist umkomulausri krennsvift, [Íngibjörgu Guðmundsdóttur, norðlenzkri[4].

Þórður sigldi í Holland og England; bjó síðan á Íngjaldshóli eptir föður sinn, átti tvö börn við Guðrúnu Jónsdóttur[5],

---

[1]) „sem lengi bjó á Öxnakeldu og síðan í Keflavík, og andaðist þar í góðri elli" 255 (á öðrum stað).

[2]) [b. v. 255. Sbr. annars II 367.

[3]) Hannessonar í Snóksdal; sjá 5. kap.

[4]) [b. v. 255.

[5]) þ. e. Jóns Ketilssonar á Heinabergi og Guðrúnar, dóttur síra Þorsteins í Túngu.

áður hann giptist Ragnhildi Þórólfsdóttur, sem áður átti síra Erlend[1].

Þórunn Steindórsdóttir giptist Guðmundi á Fróðá Jónssyni, Þormóðssonar og Íngveldar Vigfússdóttur. Hann átti Svefneyjar og seldi þær með hálfri Bessatúngu fyrir Fróðá. Þeirra börn: Margrèt, Íngveldur, Steinunn, Sigurður. — Margrèt Gvöndardóttir; hennar maður Styr, sonur Eyjúlfs Jónssonar og Ornýjar Styrsdóttur frá Glysstöðum[2].

Guðrún eldri Steindórsdóttir; hennar maður Halldór Guðmundsson, lögrèttumaður í Þórnessþíngi; bjó í Máfahlíð. Hann átti 8 hundruð í Glysstöðum. Þeirra barn: síra Sigurður[3].

Margrèt Steindórsdóttir giptist Jóni Eggertssyni ýngra. bróður Þórunnar, sem Finnur Steindórsson átti. Jón átti Hefstaði og bjó þar. Andaðist Margrèt þar fyrir þrítugs aldur 1644. Þeirra börn: Steinunn, Þórunn, Jón, Guðmundur, Háken.

Guðrún ýngri Steindórsdóttir giptist síra Eiríki Vigfússyni í Hjarðarhelti.

3. Páll Einarssen var mikið geðmenni. Hann hafði Stapans umboð og sýsluna. Hann drakk hjá þýzkum við Búðir og reið út í Búðarósa um flæði og drukknaði. Ekki var hann kvengaður og engin börn lèt hann eptir. Hann var góður silfursmiður. Hann hafði dreymt um vorið fyrir og sagt fyrir dauða sinn, að hann mundi deyja í Búðarósum. Faðir hans síra Einar tók að sèr það ár Stapaumboð.

4. Guðrún Einarsdóttir giptist fyrst Jóni Jónssyni lögmanni. Hann átti tvö börn við henni, og komust eigi á legg; annað lifði þó föður sinn og erfði hann, en andaðist litlu síðar, og svo erfði Guðrún eignirnar, þó þeir bræðrasynir Jóns lögmanns lèti illa yfir því; og svældi Ari Magnússon með það sama Silfrastaði af Guðrúnu, lèzt hafa umboð hennar eitt ár; þó átti það að heita hans umboðskaup. Guðmundur Stefánsson, sem verið hafði sveinn, skrifari og ráðsmaður Jóns lögmanns, var og hennar ráðsmaður. Hann vildi feginn eiga hana, og var þeim vel til vina, svo hún var óryktuð af honum, en sór fyrir hann og alla menn aðra (utan Jón lögmann) kláran

---

[1]) Einarsson í Hjarðarholti.

[2]) sbr. að framan þátt um Gizur biskup 6. kap.

[3]) á Íngjaldshóli.

bókareið. Jörð gaf hún Guðmundi í þjónustulaun. Eptir það giptist Guðrún Steindóri Gíslasyni, og var þeirra brullaup haldið á Laugarbrekku. Voru honum talin með Kneri 2 hundruð hundraða, og henni [var talið það hún átti[1]. Silfur hennar vó með fyrsta hálfvætt, og barnsins arfur önnur hálfvætt. Þau bjuggu á Laugarbrekku, Kneri, Stóruborg, Arnarstapa. Steindór hafði allt Stapans umboð og Snæfellssýslu allt að Hítará um mörg ár, og hèlt sig höfðínglega með vols og sveinahald mikið, en lagðist í drykkjuskap úr hófi, eyddi svo og spenti mestallri eign Guðrúnar, fastri og lausri, svo þau urðu um siðir að þiggja af öðrum, taka lán og fá þó varla; liðu svo um síðir neyð, þó Knör og fáeinar jarðir þeirra væri þá óseldar. Misti Steindór þá öll völd og störf. Eptir það andaðist Guðrún Einarsdóttir og er greptruð á Laugarbrekku; en Steinþór var hjá ymsum náúngum sínum, undi þó hvergi til lengdar að vera. Steindór andaðist í Hítardalsbrullaupi msr. Jóns Vigfússonar og Guðríðar Þórðardóttur 1668. — Þeirra einberni Jón, sem erfði móður sína. Hann átti Knör, Kirkjufell, Laugarbrekku og Öxnakeldu. Hann giptist Solveigu, dóttur síra Guðmundar Einarssonar [og Elenar Sigurðardóttur[2] á Staðarstað. Þeirra börn:

Sigurður, Halldóra, Guðrún, Guðný.

Sigurður, skólagenginn, giptist Íngibjörgu eldri, dóttur Björns Gíslasonar og Íngibjargar Ormsdóttur[3] [frá Bæ í Borgarfirði. Þeirra börn: Björn, Guðmundur, Þórður, Guðlaug, Elín, Sæunn, Guðný, Ólöf, Íngibjörg[4]. — Halldóra [giptist síra Jóni Guðmundssyni, sem hèlt Staðarhraun, og Jórunnar Illugadóttur frá Þæfusteini. Þeirra börn: síra Helgi, síra Guðmundur, Elín, Valgerður[5]. — Guðrún giptist Guðna Sigurðssyni, [Guðnasonar; bjuggu á Kirkjufelli[6]. — Guðný átti síra Hallkel á Hvalsnesi, son síra Stefáns Hallkelssonar [í Nesi og Úlfhildar Jónsdóttur. Þeirra börn: síra Stefán, Tómas, Eyjólfur, Gunn-

---

[1]) [þann. 255 á öðrum stað; en hèr er eyða í 254.

[2]) [b. v. 255 (á öðrum stað).

[3]) „Fúsasonar og Guðríðar Árnadóttur í Eyjum" (framar í 254).

[4]) [eptir 255 (á öðrum stað), eptir S. B. S.

[5]) [b. v. 255 (á öðrum stað), eptir S. B. S.

[6]) [b. v. 255 (á öðrum stað).

hildur. Síra Stefán, prestur á Stað í Grindavík, giptist Hólmfríði, dóttur síra Þórðar Þórlákssonar og Þóru, dóttur Páls Gíslasonar, sem var á Hvanneyri[1].

5. Jón Marteinsson, skilgetinn sonur herra Marteins, átti Þorbjörgu Erlendsdóttur lögmanns, Þorvarðssonar lögmanns, Erlendssonar. Þeirra dóttir Solveig, kvinna Hákonar Björnssonar í Nesi. Þeirra börn þessi:

Guðmundur Hákonarson, er hèlt Þíngeyraklaustur með loflegu mannorði; andaðist 1659 á Þíngeyrum laugardaginn fyrir hvítasunnu. Hans kvinna Halldóra Aradóttir[2]. Þeirra börn: Þorkell, Helga. — Þorkell Guðmundsson hèlt klaustrið nokkur ár eptir föður sinn. Hans kvinna Solveig, dóttir Magnúsar lögmanns[3]. — Helga Guðmundsdóttir giptist Birni syni Magnúsar Björnssonar[4].

Sigurður Hákonarson.

Þórunn ýngri andaðist í bólunni 16..

Halldóra kvinna Eggerts Hannessonar. Halldóra andaðist fyrr en Eggert og var greptruð í Snóksdal anno 16.. En Eggert var síðan til skiptis hjá börnum sínum. Þessi voru börn Eggerts og Halldóru: Jónar tveir, Hannes, Ragneiður, Þórunn. — Jón eldri Eggertsson átti Sandgerði og seldi þá jörð Guðmundi Hákonarsyni á Þíngeyrum móðurbróður sínum fyrir ..... Jón var fáskiptinn og fyrirhafnarlítill, giptist ekki og gaf próventu sína Pálma Henrikssyni systurmanni sínum. — Jón ýngri Eggertsson eignaðist Hofstaði í Miklaholtshrepp, Breiðabólstað í Sökkólfsdal, 24 hundruð, og Ormsbæ við Hellna, 4 hundruð. Hann giptist Margrètu, dóttur Steindórs Finnssonar og Guðlaugar Þórðardóttur. Þau bjuggu á Hofstöðum. Andaðist Margrèt þar fyrir þrítugs aldur anno 1644. Jón lifði eigi lengi eptir hana; varð *leprosus*. Þeirra börn: Steinunn, Þórunn, Jón, Guðmundur, Hákon. — Hannes Eggertsson giptist Jórunni, dóttur Jóns bónda Magnússonar og Ástríðar Gísladóttur. Þau bjuggu í Snóksdal; átti Hannes þá jörð og fleiri í Dölum, en Jórunn Höfn á Fellsströnd. Þeirra börn: Jón,

[1]) [b. v. (á öðrum stað) 255, eptir S. B. S.

[2]) Magnússonar í Ögri (sýslumanns).

[3]) sbr. II 363.

[4]) sbr. II 362.

Þórður, Ástríður. Hannes var lögrèttumaður, skynsamur, og bæði þau hjón fyrirsjónarsöm. Síra Jón Hannesson lærði í Hólaskóla og dimitteraðist 1662; giptist Guðríði, dóttur Jóns Gíslasonar, Björnssonar, og Sigríðar Jónsdóttur. — Þórður Hannesson giptist Caritas, dóttur síra Jóns Ormssonar á Kvennabrekku og Jórunnar Gísladóttur. Þórður erfði hálfan Snóksdal og bjó þar. — Ástríður giptist síra Illuga Vigfússyni á Setbergi. — Ragneiður Eggertsdóttir átti Skörð og Hamraenda í Miðdölum, 40 hundruð. Hún giptist fyrst síra Sigurði, þíngapresti í Miðdölum, syni síra Ólafs Brandssonar og Valgerðar Stefánsdóttur. Þau áttu saman eina dóttur; hèt Halldóra. Síra Sigurður varð lítt meir en þrítugur, og sem hann var eitt sinn sóktur, anno 1643, til Hamraenda frá Snóksdal, að þjónusta vinnustúlku þar, og fór fylgdarlaust heim upp yfir hálsinn í snjó og útsyníngs èlum, loiddi hann hestinn svo longi í villunni, að hann hrapaði ofan fyrir björgin fyrir vestan Hamraenda, 20 faðma hæð eður meira, og fannst að morgni dauður af leitunarmönnum; en hesturinn sotti heim til Hamraenda um kvöldið, en taumurinn var niðri. Þótti Ragneiði og mörgum þetta vera ávirðíngu Hannesar að kenna, og var stór kæla þar í milli árið eptir, en þó settist það niður með góðri sætt anno 1646. — Aptur giptist Ragneiður Pálma lögrèttumanni, launsyni Hinriks Gíslasonar við Gróu Sæmundardóttur. Þau bjuggu á Varmalæk til anno 1649. Þá flutti Pálmi bygð sína til Kolbeinstaða, þaðan til Hofstaða, þaðan til Hjörseyjar, þá til Krossholts, síðan til Breiðabólstaðar í Sökkólfsdal. Þeirra börn: Sigurður, Guðlaug. — Þórunn Eggertsdóttir giptist fyrst Finni, syni Steindórs Finnssonar og Guðlaugar Þórðardóttur; bjuggu á Hofstöðum anno 1648. Þeirra barn: Margrèt. Finnur varð *leprosus.* — Aptur giptist Þórunn Þorvarði Runólfssyni, vel kenndum manni frá Brennistöðum. Var haldið hann mundi ekki vel við hana búið hafa.

Þórunn eldri átti barn við Gottskálk norðlenzka, en giptist þar eptir Kort Þormóðssyni. Þeirra börn: Þorleifur Kortsson; hèlt síðast Þíngeyraklaustur og lögmaður norðan og vestan. Hans kvinna Íngibjörg Jónsdóttir[1]. — Magnús Kortsson, lögrèttu-

[1]) Magnússonar sýslumanns í Dalasýslu. Þorleifur var þriði maður Íngibjargar. Hún hafði áður átt Gunnar, son síra Arngríms (lærða) Jónssonar, og svo Jón, son Halldórs lögmanns; sbr. II. 366—367.

maður. Hans kvinna Þuríður, dóttir Magnúsar Þorsteinssonar, lögrèttumanns[1]. — Katrín Kortsdóttir, kvinna síra Jóns Daðasonar í Arnarbæli. Hann keypti mikla fasta eign af Sigurði Hákonarsyni og Hákoni Bjarnasyni. Þeirra börn: Íngveldur, Solveig, Katrín, Hannes, Hákon. Íngveldur giptist Bergi Benediktssyni. Bergur var lögrèttumaður og bjó á Hjalla. Þeirra börn: Margrèt, Setzelja.

Björn Hákonarson á Bakka í Öxnadal. Hans kvinna Þorkatla, dóttir Jóns Sigurðssonar í Kristsnesi.

6. Guðrún, skilgetin dóttir herra Marteins, átti síra Einar Þórðarson, sem hèlt Melastað lengi[2]. Þeirra börn:

Halldóra Einarsdóttir, kvinna síra Jóns Finnssonar. Þeirra börn: Finnar tveir, Jón og Sigríður. — Finnur Jónsson eldri; hans kvinna Elízabet, dóttir síra Jóns Jónssonar undir Staðarhrauni og Þórdísar Jónsdóttur. Finnur átti 5 hundruð í Ökrum og seldi þau fyrir hálfa Gullberastaði, 12 hundruð, og þar til 6 hundruð í lausafè, þeim bræðrum Finni og Sigurði Sigurðssonum. Þeirra börn: Jón, Steinunn. — Finnur ýngri; hans kvinna Bóthildur, dóttir síra Nikulásar Narfasonar og Íngigerðar Guðnadóttur. Finnur þessi átti og 5 hundruð í Ökrum, og seldi þau fyrir 12 hundruð í Kálfalæk, og þar til fèkk hann í lausafè, sem hinn. Þeirra börn: Nikulás, Jón. — Jón Jónsson var lengi ógiptur, sigldi í England og græddi mikla penínga, spaklátur maður. Hann átti þriðju 5 hundruð í Ökrum og seldi þau fyrir hálfan Lækjarbug síra Þórði Jónssyni í Hítardal, en síra Þórður seldi þau Finni Sigurðssyni fyrir hálfan Svarfhól í Breiðafjarðardölum. — Sigríður Jónsdóttir giptist Árna, syni síra Ólafs Brandssonar frá Kvennabrekku og Valgerðar Stefánsdóttur. Þeirra barn: Jón.

Snorri Helgason giptist eptir síra Jón Finnsson látinn Halldóru Einarsdóttur. Þeirra dætur: Íngiríður Snorradóttir; hennar maður Árni, sonur Jóns Ólafssonar, sem bjó í Lóni, og Íngu Árnadóttur frá Narfeyri. — Guðrún Snorradóttir; hennar maður Sigurður Þorsteinsson, síðari, frá Hlíð í Hörðudal.

---

[1]) sjá ritg. um Gísla biskup Jónsson 8. kap. („Guðríður Árnadóttir önnur").

[2]) „hvern hann um síðir uppgaf síra Jóni Finnssyni, mági sínum, sem átti Halldóru Einarsdóttur", b. v. 255.

Katrín Einarsdóttir, kvinna Erlends Þorvarðssonar. Þau bjuggu á Suðurreykjum[1].

Íngiríður, önnur dóttir herra Marteins, átti Ólaf Jónsson bagga. Þau áttu eitt barn; hlaut ekki skírn.

7. Halldór Marteinsson, skilgetinn sonur Marteins biskups, giptist Herdísi Nikulásdóttur frá Seljalandi. Þau bjuggu á Álptanesi. Þeirra börn: Marteinn, Einar, Guðlaug; *item* Árni — sem átti Dómhildi Ormsdóttur; þeirra einberni Guðrún Árnadóttir, kvinna Hannesar Árnasonar[2] —; *item* Páll Halldórsson.

Íngunn, dóttir síra Jóns Egilssonar og Valgerðar Halldórsdóttur, giptist til Álptaness Marteini bónda Halldórssyni. Þau bjuggu þar. Þeirra börn: síra Halldór, Einar, tveir Jónar, annar Halldór, Nikulás, Kristín, Íngibjörg, Valgerður, tvær Guðrúnar og kvennborgin Þórdís Marteinsdóttir, Mýraskrípið (svo er fyrr skrifað).

Síra Halldór Marteinsson átti 40 hundruð í Álptanesi. Hans kvinna Þórey, dóttir Jóns Kolbeinssonar undir Jökli og Ástu Guðmundsdóttur. Þeirra börn: síra Jón Halldórsson, Guðlaug Halldórsdóttir, kvinna Jóns Eiríkssonar[3] — Jón Eiriksson átti hálfan Lángárfoss; hann ólst upp í Hítardal hjá síra Jóni frænda sínum og giptist þaðan Guðlaugu (o. s. frv.[4]). Þeirra börn: síra Halldór, Eiríkur, Helga. — Síra Halldór Jónsson átti hálf Miðhús og fèkk til ekta Guðrúnu, dóttur Tyrfíngs Ásgeirssonar og Þórdísar Halldórsdóttur frá Hjörsey. Þeirra börn: Helga, Steinþór, Sigríður, Randalín; hún þjónaði Matthías á Stapa. — Eiríkur Jónsson átti hálfan Lángárfoss og bjó þar. Hans kvinna var Steinunn, dóttir Sigurðar heitins Arngrímssonar, í Álptartúngu var, og Setzelju Einarsdóttur. Þeirra börn: Ásgeir, Sigurður, Ari, Jón. — Helga Jónsdóttir .....

Einar Marteinsson (nafnkunnugur) átti 20 hundruð í Hvassafelli og bjó þar. Hann giptist fyrst Þuríði, laundóttur Jóns Sigurðssonar frá Einarsnesi og Íngibjargar Bjarnadóttur. Þeirra

---

[1]) sjá II 294—295.

[2]) hèr er sett við utanmáls í 255: „þeirra börn: Dómhildur, Árne, Hákon, Árne".

[3]) Steinþórssonar á Ökrum í Hraunhrepp.

[4]) Þetta er frá öðrum stað, sem vísað er til.

börn: Sigmundur, Solveig, Þórður, dó 15 eður 16 vetra, svo og svo. — Aptur giptist Einar Þórunni Bjarnadóttur úr Króksfirði. Þeirra börn: Bjarni, andaðist úngur, og María; hana tóku Jón Þórðarson á Glysstöðum og Orný Styrsdóttir[1] og ólu hana upp. — Þriðja sinn giptist Einar Guðrúnu Einarsdóttur frá Jökli. Þeirra börn: Jón, Sigríður, Guðrún.

Jón Marteinsson eldri átti hálfa Lambastaði. Hans kvinna Ínga, dóttir stóra Brynjúlfs Jónssonar og Guðrúnar Kolbeinsdóttur frá Dagverðará.

Halldór Marteinsson eldri gaf fyrst bróður sínum síra Halldóri 20 hundruð í Álptanesi í próventu með sèr, og gekk svo aptur úr próventunni, en seldi föður sínum þá þessi 20 hundruð; giptist síðan gamalli kerlíngu, Guðrúnu Hallbjarnardóttur, sem Gísli Þorvaldsson hafði áður átta. Svo misti hann hennar, en giptist aptur Guðrúnu ýngri, dóttur Vilhjálms Fúsasonar og Ástu Böðvarsdóttur.

Jón Marteinsson ýngri; hans kvinna Anna, dóttir Arngríms ... — Þorbjörn Marteinsson; hans kvinna.... — Nikulás Marteinsson gaf Jóni eldra bróður sínum próventu; giptist ei. — Kristín Marteinsdóttir giptist síra Halldóri á Ferjubakka; áttu ekki börn. — Íngibjörg Marteinsdóttir; hennar fyrri maður Einar Guðmundsson frá Bláfelli. Þeirra son Guðmundur. Íngibjörg giptist aptur norðlenzkum manni Guðmundi Árnasyni. — Guðrún Marteinsdóttir önnur giptist Guðmundi Björnssyni frá Stóra-Skógi, og var hans síðari kvinna. — Guðrún önnur ógipt. — Valgerður Marteinsdóttir ógipt. — Þórdís Marteinsdóttir ógipt.

---

Seinni maður Herdísar var síra Högni Jónsson, sem hèlt Stafafell í Lóni. Þau áttu engin börn saman, en hann fèll fram hjá henni og missti prest og stað; lífinu hætt; andaðist 1648. Hans launsonur Bjarni.

---

[1]) sjá að framan bls. II 606 (6. kap.).

ÞÁTTUR OG ÆTTARTALA

# GÍSLA BISKUPS JÓNSSONAR

Í SKÁLHOLTI.

# ÞÁTTUR UM GÍSLA BISKUP JÓNSSON.

---

## Um herra Gísla Jónsson biskup í Skálholti[1],

HANS MÁGAFÓLK, ÆTTMENN OG AFKOMENDUR.

1. Er fyrst að telja síra Gísla, sem hèlt Bæjarstað í Flóa. Hans synir voru síra Stefán, síra Felix, síra Jón. Sá síra Gísli var Arnbjarnarson, bróður Erlends, föður Guðmundar, föður Þórðar lögmanns[2]. — Síra Stefán hèlt Bæjarstað eptir föður sinn. — Síra Felix hafði Kjalarnessþíng. Hans dætur voru Kristín og Guðrún.

Kristín átti Teit í Auðsholti.

Guðrún átti Björn. Þeirra börn: Þóroddur Björnsson, barnlaus, og Guðmundur Björnsson, sem átti Sigríði eldri, dóttur Jóns Einarssonar á K. T.[3]

Síra Jón Gíslason átti Vilborgu Þórðardóttur. Hann bjó fyrst með sinni kvinnu í Hraungerði í Flóa, og þar var herra Gísli sonur þeirra barnfæddur, og þar missti hann móður sína. Um þann tíma bjó ein ekkja á Úlfljótsvatni í Grafníngi, og fór síra Jón Gíslason þángað frá Hraungerði og bjó þar margt ár með henni. Þá hèlt síra Alexíus Pálsson Þíngvallastað, sem eptir það varð ábóti í Viðey, og kom síra Jón Gíslason þessum sínum syni til hans. Svo ólst Gísli Jónsson upp á Þíngvöllum, til þess hann var 15 eður 16 vetra. Eptir það kom faðir hans honum í Skálholt til biskups Ögmundar. Þessi síra Jón Gíslason fèkk síðan Bæjarstað í Flóa og var þá Skálholts ráðsmaður yfir öllum Nesjajörðum. Hann andaðist þar í Bæ úr sótt um fardaga (1537?). Eptir það var Gísli Jónsson vígður af biskup Ögmundi og var í Skálholti kirkjuprestur um nokkur ár; og um það leyti var Skálholts kirkja í smíðum.

Vilborg móðir herra Gísla átti áður annan mann, fyrr en hún

---

[1]) sjá neðanmálsgr. II 559.

[2]) [b. v. utanmáls 255 eptir Sig. Björnssyni.

[3]) þann. báðar bækurnar; = Kalmanstjörn(?).

kom til Síra Jóns Gíslasonar. Sá hèt Þorleifur. Þeirra son Guðmundur Þorleifsson bjó á Ragneiðarstöðum í Flóa, og því var hann hálfbróðir herra Gísla.

Móðurbróðir herra Gísla hèt Íngimundur Þórðarson. Hans son Erlendur Íngimundarson; hans son síra Jón Erlendsson á Rafnseyri. Þórdís Erlendsdóttir, kvinna síra Jóns (kópsvatns[1] kallaðs) á Þíngvöllum. Sólvör var og Íngimundsdóttir, kona Þorláks Hreiðarssonar, sem bjó á Loptsstöðum. Þeirra dóttir Anna, kvinna síra Gvöndar Gíslasonar í Gaulverjabæ í Flóa. Þeirra börn: Magnús og Sólvör. Sólvör átti Bjarna Sigurðsson á Stokkseyri[2].

Systir herra Gísla hèt VALDÍS JÓNSDÓTTIR, sem bjó á Kötlustöðum. Hennar maður hèt Ketill. Þeirra börn:

Vilborg, Margrèt.

Vilborg Ketilsdóttir bjó á Járngerðarstöðum, og átti tvo menn. Sá fyrri hèt Árnþór Guðmundsson — en Guðmundr Ólafsson, [Þórður Ólafsson, Íngibjörg Ólafsdóttir, móðir síra Böðvars í Saurbæ; Páll Böðvarsson, Ólafur Pálsson og hans systkin[3]. — Þeirra barn síra Eyjúlfur í Görðum á Akranesi. Hans kvinna hèt Íngibjörg Jónsdóttir frá Svarfhóli [í Laxárdal[4]. Þeirra börn: Þorkell, Gróa, Anna, Úlfhildur[5], Hallbera; Helga og Valgerður dóu úngar, barnlausar.

Þorkell Eyjúlfsson, lærður í skóla til lítils; dó ógiptur, barnlaus.

Gróa Eyjúlfsdóttir giptist fyrst norðlenzkum manni, Birni Ásgrímssyni (hún var áður kunnug herra Gísla Oddssyni). Þau bjuggu víða: á Brekku, Heynesi, Krossi, Reyni, og víðar, en blómguðust lítt. Þeirra börn: Ásgrímur, Guðmundur, Valgarður, Ragnhildur, Vilborg, Bryngerður. — Ásgrímur Björnsson var lánlítill, en lèt þó mikið yfir sèr í orði; vildi ekki svo

---

[1]) leiðrètting; bækurnar hafa: „kockvatnz" (254) og „kokrvatnz".

[2]) sbr. II 381.

[3]) [b. v. 255; hèr vísar 254 til annars staðar (157da blaðs) og bendir á, að Arnór er þar sagður Ólafsson. Önnur villa á þeim stað er sú, að Vilborg móðir síra Eyjúlfs í Görðum er kölluð „systir herra Gísla Jónssonar bisk. í Skálholti".

[4]) [b. v. 255.

[5]) hèr stendur „Vigfús" í 254; líkast ritvilla.

úr rekjast, þá á reyndi; tildraði uppá sig fjöðrum þeim, sem ei áttu heima hjá honum. Hans kvinna Ragnhildur. — — — Vilborg Björnsdóttir; hennar maður Helgi Gunnlaugsson, norðlenzkur; þeirra barn: Gunnlaugur. — Bryngerður Björnsdóttir; hennar maður Halldór Sveinbjarnarson úr Lundareykjadal. — Gróa Eyjúlfsdóttir giptist aptur norðlenzkum manni, Guðmundi Eyjúlfssyni, og eiga þau eigi börn.

Anna Eyjúlfsdóttir giptist Bjarna kamp, syni Jóns Guðmundssonar ýngra og Kristínar, dóttur Einars Ásmundssonar látúnsmiðs. Þeirra börn: Helga, Kristín, Valgerður, Guðrún, Guðmundur. Kampur fór illa með sína jörð Gullsmiðs-Reyki. *Item* þeirra börn: Margrèt, Guðríður. — Helga Bjarnadóttir giptist heimsku drengtötri; hèt Árni Þorleifsson, en móðir hans Halldóra. — Kristín Bjarnadóttir giptist Guðmundi, syni Gísla Jónssonar og Þóru Jónsdóttur, frá Öskholti. — Valgerður Bjarnadóttir giptist Torfa Bárðarsyni frá Laxholti. Þeirra börn: Þorsteinn, Anna. — Guðrún Bjarnadóttur giptist Bjarna Þorleifssyni úr Bæjarhrepp.

Úlfhildur Eyjólfsdóttir átti Ásmund, son Þorleifs Ásmundssonar og Þórdísar Erasmusdóttur. Hún missti hann barnlaus, en fèkk jarðarpart í sína tilgjöf. Svo giptist hún aptur barnamanni, Erlendi Bjarnasyni, bróðursyni síra Gunnlaugs frá Hruna.

Hallbera Eyjúlfsdóttir giptist fyrst Jóni, syni Nikulásar Brandssonar. Jón var undirbryti í Skálholti nokkur ár. Þau áttu engin börn. Svo andaðist hann, en Hallbera giptist aptur Þorláki, syni síra Jóns Jónssonar frá Reykjadal.

Vilborg Ketilsdóttir giptist aptur Þórði Jónssyni. Þeirra dóttir Guðlaug, sem átti Ólaf Brynjúlfsson úr Hörgárdal. Þeirra dóttir Þórunn, som seinast átti Helga[1].

3. Margrèt Ketilsdóttir giptist Helga Vèðinssyni, sem bjó í Grindavík[2]. Hans son Jakob Helgason á Þorkötlustöðum, sem átti Guðríði, dóttur Jóns undir Fjöllum austur, Jónssonar úr Holtshjáleigu. Þeirra börn: Árni [lögrèttumaður,

[1]) hèr hefir 255 fyrst bætt við: „son Magnúsar Ólafssonar" en síðar dregið undir þessi orð og sett fyrir ofan: „ein (= einn — líklega: einn maður Þórunnar) er Magnús Ólafsson".

[2]) framar í bókinni er sagt, að Helgi hafi átt Helgu dóttur síra Magnúsar Eyjúlfssonar í Selárdal, og hefir hún verið hans fyrri kona.

sem býr á Stórahólmi í Garði[1]; Arnbjörg átti Jón Egilsson [á Landi[2]; Kristín, [sem á Jón Halldórsson í Norðvík, lögrèttumann[3].

Þorsteinn Helgason, bróðir Jakobs, átti Guðrúnu, dóttur síra Orms Egilssonar og Bergljótar Bjarnadóttur. Þeirra dóttir Orný, sem átti fyrst Lopt Gunnarsson frá Ferjunesi á Eyrarbakka; þeirra dóttir Sigríður. Orný átti síðar Jón, son Þorsteins Pèturssonar, skipasmiðs, og Katrínar . . . . Þeirra son Loptur. — Hallgerður Þorsteinsdóttir átti Guðmund, son Narfa Magnússonar og Katrínar . . . . . [Þau bjuggu[4] á Skeiðum og áttu 4 börn[5]. — Halldóra Þorsteinsdóttir giptist norður í Skagafjörð Jóni Ívarssyni.

Jón Helgason giptist aldri og dó barnlaus.

Ketill Helgason átti . . . . . . Þeirra barn Helgi í Grindavík, sem átti Guðnýju dóttur Jóns Guðnýjarsonar á Skúmstöðum.

Hallgerður Helgadóttir giptist austur; hennar sonur Vèðinn í Hvolhrepp.

Helga Helgadóttir; hennar maður Einar Jónsson. Þau bjuggu í Vogum á Vatnsleysuströnd. Þeirra börn: Jón Einarsson. — Anna átti Björn Sturlason á Nesjum suður, skáld mikið og listamann. Þeirra barn Ósk, hennar maður Þorleifur, sem hengdur var. Hún flæktist um Bersastaði. Þeirra barn Sigmundur.

Gunnhildur Helgadóttir átti Erlend Erlendsson norðan úr Fljótum. Þeirra börn: Ásbjörn á Ófriðarstöðum, Hèðinn á Ófriðarstöðum. Helgi giptist norður.

4. Herra Gísli Jónsson var fyrst kirkjuprestur í Skálholti í tíð biskups Ögmundar, sem fyrr var sagt. Þá fèllu til þau

---

[1]) [b. v. 255.

[2]) [þann. 254 og við leiðrètting eða breyting 255, sem fyrst hefir skrifað: „í Haukholtum í Hreppum".

[3]) [b. v. 255.

[4]) hèr hefir 255: „Sá Guðmundur var aftekinn á Alþíngi. Hann bjó". Síðar er þetta undirstrykað og sett fyrir ofan: „þau búa".

[5]) hèr hefir 255 (óskipulega): „Ólafur Arnþórsson var suður á Miðnesi; hans kvinna Þorbjörg Guðnadóttir af Klofa ætt", bróðir síra Eyjólfs Arnórssonar í Görðum(?).

stórmæli í Barðastrandarsýslu, að Gísli Eyjúlfsson, sonur Eyjúlfs mókolls ýngra Gíslasonar í Haga vestur og Helgu Þorleifsdóttur, varð brotlogur með sínum tveimur systrum, Kristínu og Þórdísi, Eyjúlfsdætrum, og átti barn við Kristínu, sem hèt Guðrún Gísladóttir. Hennar sonur síra Gísli Guðbrandsson, en hans faðir var almúgamaður. Síra Gísli hèlt Hvamm í Hvammssveit, vel lærður maður, söng vel og málverksmaður. [Hans fyrri kvinna Ráðhildur dóttir Guðmundar Halldórssonar og Sigríðar Ormsdóttur. Þeirra börn: Sigurður Gíslason húsasmiður, sem átti Jórunni á Skarðshömrum, dóttur síra Jóns Þormóðssonar og Íngvöldar Fúsadóttur. Þeirra börn: Gísli, Guðrún, dóu bæði barnlaus og ógipt —. Kristín dóttir síra Gísla átti Einar Pètursson, Magnússonar, austur í Vík. Þeirra börn: Gísli (sigldi og varð skólameistari í Skálholti. Síðan vígðist [hann] vestur til Helgafells), Ráðhildur, Gróa (giptist síra Árna Claussyni í Vestmannaeyjum). — Sigríði Gísladóttur átti Pètur Einarsson á Ballará. Þeirra börn: Gísli, Steinunn[1]. Gísli Pètursson átti Guðrúnu, dóttur Brands í Stóraskógi; þeirra börn: Pètur, Sigríður, Guðrún. Steinunn átti Daða Þorvaldsson[2]. — Síra Gísli átti síðar Ragnhildi Egilsdóttur, sem áður hafði átt Halldór á Fróðá.

5. Þau systkin Gísli Eyjúlfsson, Kristín og Þórdís flúðu öll til Skálholtskirkju, svo sem þá plagaðist; og af því það fólk var áður í góðri vingan við biskup Ögmund, tók hann yfir allt þetta, því hann var bæði biskup og hirðstjóri, og Oddur Eyjúlfsson bróðir þeirra var áður orðinn yfirbryti í Skálholti, og var þar í góðu yfirlæti og mikilli virðíng, en biskup fèkk þar á móti hvað hann vildi. Kom biskup Gísla Eyjúlfssyni strax í skip, og er sagt, að hann hafi verið sleginn í hel utanlands; en þær systur, Kristín og Þórdís, voru í góðu haldi í Skálholti, og er ei þess getið, að þær hafi neitt straff fengið. Um þann tíma var síra Gísli Jónsson kirkjuprestur í Skálholti og fèkk ástarþokka til Kristínar Eyjúlfsdóttur, en síra Magnús Eyjúlfsson bróðir hennar gaf upp Solárdal með ráði biskups,

---

[1]) b. v. 255: 254 hefir hèrumbil það sama á öðrum stað; um Kristínu Gíslad. sbr. II 373.

[2]) sbr. II 369.

og veitti biskup Ögmundur þann stað síra Gísla. Hafði hann þá vestur þángað með sèr Kristínu Eyjúlfsdóttur, og sigldi [síðan hann var vestur kominn[1], og fèkk kvittun fyrir Kristínu og leyfi til að giptast henni. Svo er mælt, að kóngurinn og ríkisins ráð hafi eigi gjörla vitað af sakferli þeirra systkina, heldur meint, að því mundi svo varið, að einn vandalaus maður hefði fallið með þeim báðum systrum.

Anno 1548, eður þar um bil, sendi biskup Jón Arason síra Gísla bannfæríngarbrèf, sem áður getur[2], og þar eptir skömmu lèt hann dæma af honum stað, heiður og alla hans penínga, svo Kristín kvinna hans (hann var þá sigldur) varð að gánga með sín börn burt af staðnum. En síra Magnús bróðir hennar bjó þá í Haga á Barðaströnd og var eigandi garðsins. Hann tók við Kristínu systur sinni, og hafði hjá sèr með börnunum til vorsins. Kom þá síra Gísli út aptur í Straumfirði með Ótta Stígssyni höfuðsmanni, og voru þá orðin önnur umskipti. Því hefir síra Gísli siglt af landinu í þrjár eður fjórar reisur. Ekki hafði hann kunnað látínu, en var góður þýzkur.

Halldór Ormsson, sem seinna var hjá biskup Ögmundi: hann átti hina systurina, Þórdísi Eyjúlfsdóttur, og við henni Eyjúlf Halldórsson í Saurbæ og Valgerði, kvinnu síra Jóns (Egilssonar) í Stafholti[3].

6. Anno 1556 kom Knút Steinsson með leyfisbrèf kóngs, að herra Marteinn Einarsson mætti gefa sig frá staðnum eður stólnum og Skálholts biskupsdæmi. Á sumri því sama var síra Gísli í Selárdal, officialis fyrir vestan, kjörinn til biskups aptur; en af því að þessi kosníng kom honum á óvart, þá gat hann ei siglt á því ári, og reið vestur aptur af alþíngi, og

[1]) [þann. 254, og við leiðrètting utanmáls 255, en hefir fyrst skrifað: „síðan, og var utanlands um veturinn".

[2]) sbr. II 342—343; 255 hefir hèr að mestu leyti, eða með litlum orðamun, það sama, sem þar stendur.

[3]) 255 hefir hèr á innfestum miða og með annari hendi eptir S. B. S. þetta: „Síra Halldór Tyrfíngsson, sem ábóti varð á Helgafelli, var síðar ábóti þar en Halldór Ormsson. Dóttir Halldórs Ormssonar hèt Katrín, kvinna Einars Þórólfssonar, föður Orms; sá Ormur átti Saurbæ á Kjalarnesi, og var drepinn í Viðey af Erlendi lögmanni á Strönd".

strax um haustið vestan að aptur með sitt fólk, og tók þá við Skálholti, en herra Marteinn afhenti og skilaði strax öllu og fór til Haukadals. Er svo sagt, að sá reikníngur, sem nú er í Skálholti, hafi verið gjörður eptir því, sem þá reiknaðist á jólum, eptir alla haustaflógun og vanhald til áttadags, þá síra Gísli hafði fyrst við tekið.

Anno 1557 sigldi síra Gísli Jónsson *electus* eptir biskupsdæminu, en hann kom út aptur 1558, þá var enn Knút Steinsson höfuðsmaður. Síra Snorri Hjálmsson, sem hèlt Holt undir Eyjafjöllum, var officialis meðan herra Gísli var utanlands, og sat heima á staðnum Skálholti, svo lengi herra Gísli rèð Skálholti um 38 ár. — Eigi[1] er sagt, herra Gísli hafi útlagt utan Síraksbók. — Hann andaðist í Görðum á Álptanesi anno 1587, þá hann var í heimreið úr sinni visítatíu um haustið, og skeði hans afgángur kristilega. — Á sama ári deyði Árni bóndi Gíslason á Hlíðarenda. — Þann 29. Augusti kom herra Gísli til síra Jóns Krákssonar í Görðum, og var þá heill og ósjúkur eptir vana það kvöld (eptir því menn máttu á merkja). Lèt hann þá fyrst, sem endrarnær, lesa fyrir sèr guðsorð, og var það fyrsti Johannis pistill. Að endaðri bæninni í kirkjunni gekk hann til borðs og sat þar lengi um kvöldið, hafði gott og kristilegt samtal, til þess hann gekk til sængur. Þetta var á þriðjudogi; en miðvikudagsmorguninn, sem var 30. Augusti, vakti hann upp sína menn, og skipaði þeim að klæðast og standa upp. Og sem hann sjálfur var klæddur, las hann fyrst sinn catechismum, og síðan heilags anda tíðir, og krosstíðir, og síðan octonarium af Davíðs psaltara, svo sem hann var vanur, og síðan 1. capit. af *Canticis Salomonis*, og eina bæn *Johannis Avenarii*. Síðan lèt hann sinn eigin prest, sem var síra Ásmundur Þormóðsson, skrifa tvö brèf, annað brèfið Pètri Tómássyni á Bessastöðum, sem var einn Capitan og umboðsmaður hèr á landi þann tíð, en annað herra Guðbrandi Þorlákssyni, sem þá var biskup á Hólum. Eptir það var gengið til kirkju, og lèt hann þá lesa sèr Páls pistil til Titum, og þar eptir var súngið venjulegt vers: „Heiðrum Guð föður himnum á" etc. Í sama tíma var þar kominn einn sakamaður frá Bessastöðum, sem hèt Guðlaugur, og leitaði til biskupsins góðra ráða; og

[1]) þann. 255.

þegar hann vissi mannsins erindi og heyrði hans orð og sá hans kvittunarbrèf, gegndi hann honum með allri hógværð, og gjörði honum áminníng til rèttrar og alvarlegrar iðranar með svo nákvæmlegum orðum, að bæði þeim manni og öllum öðrum, sem þar voru við staddir, máttu vel vera minnisstæð. Einkanlega talaði hann um þann rètta einasta veg til sáluhjálparinnar, sem er rèttlæti og forþènusta Jesú Christi. En sem ræðan tók til að lengjast fyrir honum, þá sáu menn, að honum var orðið við gust, því hann tók til að skjálfa af kulda, og hann var með öllu fastandi. En sem hann hafði úttalað við manninn, var honum fylgt inn í staðinn og í það sama hús, sem hann hafði setið um kvöldið fyrir. Og strax sem hann var þar kominn, og skyldi taka til matar, varð hann mjög kránkur þar í bekknum við borðið, svo menn urðu að fylgja honum til sængur með stuðníngi. Hugðu menn fyrst, að þetta mundi ei vera nema nokkur lítilleiki, því honum hafði brugðið til hans fyrri um sumarið í þeirri seinustu visítatíureið. Lá hann nú svo um stund í sænginni í öllum sínum klæðum, en hans menn stóðu þar hjá. Heyrðu menn gjörla, að hann var altíð að ákalla guð með innilegri bæn. Og þá stund var liðin leit hann til sinna manna segjandi: „piltar mínir! sem nú eruð hèr standandi, fari þèr heim í Skálholt og segið mína kæra kveðju minni kvinnu og mínum börnum og öllum mínum kunníngjum, og segið þeim öllum góða nótt fyrir mig; biðjið fyrir mèr til guðs og fyrirgefið mèr!" En seinast talaði hann þessum orðum: „í þínar hendur, drottinn! befala eg minn anda". Og eptir þessi orð gaf hann upp öndina. — Svo endaði hinn frómi mann, herra Gísli, sitt líf; og að svo í sannleika er, voru þar vitni til margir frómir menn, einkum þessir: síra Jón Kráksson, síra Teitur Helgason, síra Hákon Ásgeirsson, síra Ásmundur Þormóðsson, Þórarinn Stefánsson, Þóroddur Björnsson, Arnljótur Geirmundsson og Þorlákur Jónsson.

7. Eiginkvinna herra Gísla Jónssonar var Kristín Eyjúlfsdóttir (sú fyrri, er getur). Þeirra börn:

Síra Stefán, síra Árni, Helga, Vilborg, Guðrún.

Síra Stefán Gíslason hèlt Oddastad. Hans kvinna var Þorgerður, dóttir Odds prests Halldórssonar frá Bæjarstað í Flóa og Þórdísar Jónsdóttur. Þeirra börn:

Sigurður, síra Oddur, síra Snæbjörn, Kristín, Þuríður, Sólvör, Helga, Jónar tveir.

Sigurður Stefánsson stúderaði vel utanlands, kunni og málverk, varð skólameistari í Skálholti, en drukknaði öndverðlega vetrar í Brúará; reið drukkinn frá Mosfelli, en sofnaði við ána, og sveinn hans síra Ormur Narfason; valt svo sofandi ofan í ána. Er sagt, síra Gísli Einarsson væri sottur í hans stað til skólameistara. Liðu kennslupiltar hann misjafnt, en biskupinn, herra Oddur, visiteraði opt skólann og sá til það bezta með honum. Síra Loptur veik burt.

Síra Jón Stefánsson hèlt Kálfholt. Hann átti Þórdísi, dóttur Fúsa Hjaltasonar og Guðrúnar Ólafsdóttur. Sá Ólafur var Björnsson og bjó í Marteinstúngu.

[En annar Jón Stefánsson veik[t]ist; hann átti Sotselju, systur Erlends Ásmundarsonar. Hún giptist aptur síðar moir Daða Jónssyni; þeirra börn: síra Jón Daðason í Arnarbæli í Ölvesi, og Ragnhildur Daðadóttir í Kolsholti (sem átti Hannes Helgason; þeirra börn: Vigfús, Hólmfríður)[1].

Síra Snæbjörn Stefánsson hèlt Oddastað eptir föður sinn. Hann átti fyrst Helgu, dóttur Eiríks Jakobssonar, danska, og Guðrúnar Björnsdóttur (Helga hafði áður látið fallerast, sem tíðum plagast). Þau áttu saman eitt barn, sem erfði móður sína, en þó varð síra Snæbjörn að sloppa þeim fasta eignararfi við móðurafa-bræður barnsins, eður missa staðinn, því þeim þótti hann fyrr hafa samrekkt Helgu, en þau voru saman gefin. Hann náði þó dómi upp á hjónabandið.

Síra Snæbjörn átti síðar Margrètu Markúsdóttur, Ólafssonar, í Stóradal norður. [Hennar móðir var Ragneiður Björnsdóttir, systir Jóns Björnssonar á Grund[2].

Síra Oddur Stefánsson var vellærður maður og hèlt Gaulverjabæ í Flóa. Hann var officialis þegar Oddur Einarsson andaðist, en herra Gísli Oddsson var kosinn. Hans fyrri kvinna var Ingibjörg, dóttir Eiríks Eyjúlfssonar frá Kirkjubæ og Ólafar

---

[1]) [b. v. 255; það sem er í sviganum, er undirstrykað; en hèr er sumu breytt eptir á, og sýnir strykið, sem optar, hvar 255 hefir munað frá öðru riti.

[2]) [b. v. 255; sbr. annars (og um börn þeirra síra Snæbjarnar) II 382—384.

Nikulásdóttur. Þeirra börn þessi: Síra Sigurður Oddsson, vellærður maður, hèlt Arnarbæli í Ölvesi og átti Brynhildi dóttur Ara Magnússonar, bróður Erlends Magnússonar, og Ragneiðar Hemíngsdóttur. Þeirra börn: Páll, Íngibjörg. — Síra Vigfús Oddsson hèlt Bæjarstað eptir föður sinn. Hann átti Katrínu, dóttur síra Gísla Bjarnasonar í Grindavík og Guðrúnar Pálsdóttur. Þeirra börn: Bjarni, skólagenginn, Arnór, Íngibjörg, Guðlaug. [Arnór fátækur. Íngibjörg ekkja á Hvítanesi í Kjós átti áður Jón Ámundason; en Guðlaug er kvinna Þórarins Ólafssonar á Káranesi í Kjós 1694[1]. — Nikulás Oddsson, atkvæðalaus, dó barnlaus. — Þorgerður Oddsdóttir giptist Jóni Arnórssyni, [syni laga-Nóra, sem átti Öndverðarnes[2].

Kristín Stefánsdóttir giptist síra Ólafi Einarssyni skólameistara, bróður herra Odds, 1605. Hann hèlt síðast Kirkjubæ. Þeirra börn: síra Stefán, Margrèt, síra Eiríkur. — Margrèt Ólafsdóttir giptist Jóni skólameistara, syni síra Gizurs Gamlasonar[3]. Hann hèlt Múlastað norður. Hann var 10 ár skólameistari í Skálholti og eitt eður tvö á Hólum. Þeirra börn Jón og Gísli voru báðir í Hólaskóla. — Síra Stefán Ólafsson, vellærður studiosus, gott skáld, giptist Guðrúnu Þorvaldsdóttur[4]. — Síra Eiríkur Ólafsson hèlt Kirkjubæ eptir föður sinn; átti Ólöfu dóttur Jóns Einarssonar [í Túngu[5] í Öxarfirði. þ. b. Ólafur.

Þuríður Stefánsdóttir giptist Þorleifi syni Árna Magnússonar og Sigríðar Árnadóttur anno 1604[6]. — Þorleifur bjó í Mýrdal austur.

Helga Stefánsdóttir giptist Eiríki, syni Jóns Gvöndssonar og Ólafar Nikulásdóttur á Kirkjulæk í Fljótshlíð.

Sólvör Stefánsdóttir giptist fyrst Jóni skólameistara frá Hólum, syni Einars Eiríkssonar og Bergljótar Hallsdóttur.

---

1) [b. v. 255 utanmáls eptir S. B. S.

2) [Þann. 254, og breytt svo í hinni, en hún hefir fyrst haft fyrir það: „í Háfholti".

3) sbr. ritg. um Guðbrand biskup 1. kap. („Gizur Hallgrímsson").

4) sbr. II 369.

5) [Úr neðanmálsgrein á öðrum stað í 255, með hendi Árna Magnússonar.

6) sbr. II 390.

Brúðkaup þeirra í Odda anno 1594. Áttu þau saman eitt barn, og erfði það afinn.

Sólvör giptist síðan Erlendi Ásmundssyni á Hvoli. Erlendur átti Hvol. Hann var lögrèttumaður og vel ríkur af lausum aurum. Hans ein dóttir skilgetin var Katrín Erlendsdóttir, kvinna Vigfúsar Gíslasonar sýslumanns, sem bjó síðan á Hvoli (Stórólfshvoli). Þeirra börn: Gísli, Jónar tveir, Þorbjörg, Sólvör. — Gísli Vigfússon sigldi og framaði sig vel; fèkk meistara titil, var nokkur ár skólameistari á Hólum, giptist síðan Guðríði, dóttur síra Gunnars Björnssonar[1]. Áttu eitt barn. — Jón Vigfússon eldri sigldi einnig, fèkk Árnessýslu og giptist Helgu, dóttur Þorláks Arasonar[2] og Málfríðar Gísladóttur. Hann sat að Stórólfshvoli eptir föður sinn. — Jón ýngri Vigfússon sigldi ogsvo; fèkk Borgarfjarðarsýslu og hèlt henni ei longi; giptist Guðríði, dóttur Þórðar í Hítardal og Helgu Árnadóttur lögmanns, Odds biskups sonar; sigldi síðan aptur, og fèkk *gradum magisterii* og vice-biskupsdæmi til Hólastiptis eptir herra Gísla Þorláksson, sat á Leirá. — Þorbjörg Vigfúsdóttir; hennar maður Gísli Sigurðsson, Oddssonar biskups, frá Stafholti. — Sólvör Vigfúsdóttir; hennar maður síra Sæmundur Oddsson, prestur í Hítardal.

8. Síra Árni Gíslason hèlt Holtsstað undir Eyjafjöllum. Hans kvinna var Hólmfríður, dóttir Árna Gíslasonar á Hlíðarenda og Guðrúnar Sæmundardóttur. Þeirra börn mörg; áttu saman 24 börn; Gíslar tveir, Ólafur, Þorleifur, Eiríkur, Páll, Guðríðar tvær, Setselja, Kristín.

Ólafur Árnason giptist Sólveigu frá Teigi, dóttur Einars Grímssonar og Þrúðu Magnúsdóttur[3].

Síra Gísli Árnason, giptist Margrètu, dóttur síra Sigurðar Einarssonar á Breiðabólstað. Hann drukknaði í Markarfljóti anno 1611, er hann hafði fengið Holtsstað fyrir 80 dali af Herluff Daa. Þeirra börn: Jón Gíslason á Velli í Hvolhrepp. Guðríður Gísladóttir, [giptist fyrst Jóni Pálssyni frá Túngu. Hann átti Nes í Selvogi og dó þar. Þeirra börn tvö: Jón og Guðrún. Jón er lögrèttumaður; býr á Nesi í Selvogi, sem á

---

[1]) sbr. II 375.

[2]) í Súðavík, en Ari Magnússon í Ögri (sýslumaður).

[3]) sbr. II 394.

þá jörð, ógiptur 1694. Guðrúnu átti Símon son Árna Pálssonar í Ölvesi. Seinni maður Guðríðar var Ólafur, bróðir Bárðar Gíslasonar[1]. — *Item* önnur Guðríður. — Gísli, [giptist Guðrúnu dóttur Álfs Gíslasonar á Reykjum[2]. — Þórarinn.

Gísli annar Árnason andaðist barnlaus.

Páll Árnason var hjárænumaður, vífinn og vanvita; dó barnlaus.

Eiríkur Árnason giptist anno 1611 Helgu Erasmusdóttur. Hann drukknaði í Hvítá á Kotferju.

Guðríður Árnadóttir giptist Ormi Vigfússyni, Jónssonar. Hans móðir var Ragnhildur dóttir Þórðar lögmanns. Ormur sat á Eyjum í Kjós. Þeirra börn: Vigfús, Þórður, Hákon, Íngibjörg, Kristín, Jórunn, þrjár Guðrúnar, Ásta, Guðríður, Þuríður, Dómhildur. — Vigfús Ormsson giptist Ragnhildi, dóttur Gísla Björnssonar og Þórunnar Hannesdóttur. Þeirra barn Þórunn[3]. — Þórður Ormsson giptist Íngibjörgu, dóttur Guðmundar Guðmundssonar og Sigríðar Jónsdóttur[4]. Þeirra börn: [Halldór, Gvöndar tveir, síra Björn, Snorri, Ísleifur, Helga, Ragneiður, Vigfús (andaður)[5]. — Hákon var skólagenginn, landsskrifari fyrir Pál Gíslason, síðan Skálholts ráðsmaður, og eptir á sýslumaður yfir Rangárvallasýslu; [fullmektugur síðast á Bessastöðum og hvílir þar í kór norðan(?) fram við legstein Mathís Söfrenssonar[6]; andaðist ógiptur og barnlaus. — Íngibjörg Ormsdóttir giptist Birni (vel látnum lögrèttumanni) syni Gísla Björnssonar og Þórunnar Hannesdóttur. Þau bjuggu á jörð sinni Vatnsenda og í Bæ. Þeirra börn: Hannes, Sigurður, tvær Íngibjargar. Hannes Björnsson, skólagenginn og prestvígður, heldur Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, giptist Steinunni dóttur síra Jóns Böðvarssonar og Setselju Torfadóttur frá Reykholti. Þeirra börn; Setselja, Þuríður, Þórunn, Björn, Jón.

---

1) [að mestu eptir 255, og „í Selvogi — 1694" utanmáls eptir S. B. S.

2) [b. v. 255.

3) þann. 254 (framar í bókinni); Þórunn, Illugi 255, utanmáls eptir S. B. S.

4) þ. e. síra Jóns Egilssonar í Stafholti (föður síra Högna á Stafafelli).

5) [þann. 255, eptir síra H. B. S.; á þeim stað, sem til er vísað í 254 er svo talið: Ísleifur, Halldór, Guðmundur, Helga, Snorri, Marín.

6) [b. v. 255, utanmáls (nema orðin; „síðast á Bessastöðum"), eptir S. B. S.

Sigurður Björnsson, skólagenginn, var lengi sveinn hjá Sigurði lögmanni Jónssyni í Einarsnesi, og síðan landskrifari eptir Pál Einarsson; þar eptir kosinn lögmaður sunnan og austan 1676; giptist sama haust Ragneiði, dóttur sál. Sigurðar lögmanns Jónssonar. Íngibjörg Björnsdóttir; hennar maður Sigurður, sonur Jóns Steindórssonar frá Knör og Sólveigar, síra Guðmundar Einarssonar dóttur. Íngibjörg ýngri giptist Sigurði Magnússyni, syni Magnúsar Þorvarðssonar og Þóru Sigurðardóttur frá Einarsnesi. — Kristín Ormsdóttir átti [Sigurð, son Guðmundar Guðmundssonar og Sigríðar Jónsdóttur. Þau bjuggu á Fossá og síðar á Brekku á Hvalfjarðarströnd[1]. Þeirra börn: Jón, þrír Guðmundar, Þórunn, Sigríður. — Jórunn Ormsdóttir átti síra Jón Oddsson, sem bjó í Skrauthólum. Þeirra börn: Árni, [Gunnar, Alexius, Páll, Anna, Jórunn, Guðrúnar tvær, Hildur, Sigríður, Setselja[2]. — Guðrún Ormsdóttir ein giptist Guðmundi Narfasyni á Hálsi í Kjós. Þeirra börn mörg: [Narfi, Gísli, Jón, Vigfús, Þóra, Sólvör, Hólmfríður, Íngibjörg[3]. — Guðrún önnur Ormsdóttir átti síra Halldór Ketilsson, sem hèlt [Kálfafell í Hornafirði[4]. Þeirra börn: Ketill, skólagenginn, Gísli, Hólmfríður, Ólöf[5]. — Guðrún þriðja Ormsdóttir giptist Ásbirni Guðmundssyni frá Ólafsvík 1649. [Hans aldur þá 59 ár[6]; dó barnlaus. — Ásta Ormsdóttir giptist 1648 síra Guðmundi Bjarnasyni í Laugardælum. Þeirra börn: [Þórunn, Svanborg. Þórunn kvinna síra Björns, prests í Hólum í Hreppum, sonar Jóns, nafnfrægs Skálholts-

---

¹) [þann. 255; orðað nokkuð styttra („á Fossá og síðar" sleppt) í 254.

²) [b. v. utanmáls 255, eptir síra H. B. S.

³) [b. v. 255 (utanvið) eptir síra H. B. S.

⁴) [leiðrettíng utanmáls í 255 eptir S. B. S.; en báðar hafa „Valþjófsstað austur".

⁵) þrjú börn fleiri talin síðar eptir S. B. S. (255) í ættartölu Odds biskups Einarssonar (11. kap.). Hèr nefnir 255 að eins tvö börnin, Ketil og Gísla, og er það utanmáls — einnig eptir S. B. S. — og bætir svo þar við: „þessi síra Ketill (á Kálfafelli, faðir síra Halldórs) var sonur síra Ólafs Guðmundssonar á Sauðanesi. Börn síra Ketils: Jón, Ólafar tveir, síra Eirekur, sem hèlt Vallanes, Ólufi; hún eignaðist síra Þorvarð Árnason á Klyppstað".

⁶) [þann. 255; 254 á öðrum stað: „þá var hann 60 ára": þar segir og, að Ásbjörn hafi gefið kóngi eignir sínar.

bryta á Hömrum; en Svanborg er kvinna síra Jóhanns í Laugardælum, sonar síra Þórðar sáluga Guðmundssonar á Kálfafelli á Síðu og Guðnýjar Pálsdóttur[1]. — Guðríður Ormsdóttir [giptist ekki[2]. — Þuríður Ormsdóttir giptist Þorvarði Magnússyni[3]. Hún dó barnlaus. — Dómhildur Orms dóttir átti Árna Halldórsson frá Álptanesi. Hans móðir var Herdís Nikulásdóttir[4]. Þeirra dóttir Guðrún, kvinna Hannesar Árnasonar lögrèttumanns. Dómhildur átti síðar Hjalta Pálsson[5] og við honum Þórunni, sem giptist Sigurði, syni Páls Gíslasonar, en lèt þó fallerast áður.

Guðríður Árnadóttir önnur giptist Þorsteini bónda Magnússyni, sýslumanni fyrir austan 1605. [Hann var einn af fjórum commendantum, sem landið gerði út fyrir konung að semja niður danska taxtann anno 1619. Hans faðir var Magnús Árnason frá Stóradal í Eyjafirði, en Þuríður Sigurðardóttir móðir hans. Þeirra börn: Magnús, Hákon, Einar; voru allir lögrèttumenn 1648. — Magnús Þorsteinsson átti fyrst Guðrúnu Teitsdóttur, Björnssonar (hún hafði látið fallerast áður við Þórði Sturlasyni. Það var sá Þórður, sem hestur Þorláks Þórðarsonar hreytti steini í augað, svo hann missti sjón á því). Þeirra dóttir Þuríður, kvinna Magnúsar Kortssonar. Magnús giptist síðar Guðrúnu dóttur síra Jóns Sigurðssonar og Kristínar Teitsdóttur. — Hákon Þorsteinsson átti Ólöfu Teitsdóttur frá Gufudal. Hún dó barnlaus. Aptur giptist Hákon Guðrúnu Einarsdóttur frá Hörgslandi. Þeirra barn Sigurður. — Einar Þorsteinsson átti Auðbjörgu Filippusdóttur, Teitssonar. Þeirra börn: Ólafur, Gunnar, Sigurður, Jón, Þorleifur, Ísleifur, Þorsteinn, Filippus[6].

---

[1]) [b. v. utanmáls 255, eptir S. B. S.

[2]) [b. v. 255.

[3]) sbr. II 295. „Var hans önnur kvinna" b. v. 255 (með annari hendi og undirstrykað).

[4]) sbr. II 626.

[5]) sbr. II 394.

[6]) [þetta eptir 255, sem hefir nokkuð meira (og sumt öðruvísi) en hin, þó saman sè tínt af ymsum stöðum. Utanmáls og með nýjari hendi eru tilgreind börn Einars Þorsteinssonar og barn bróður hans, Hákonar. Sbr. annars II 374 og 394—395.

Setselja Árnadóttir giptist Illuga Vigfússyni á Kalastöðum lögrèttumanni, bróður Orms í Eyjum. Þeirra börn: síra Vigfús, síra Einar, annar Einar, Þórarinn, Jón og þrjár dætur; *item* Nikulás, Þórður. -- Síra Vigfús var kirkjuprestur í Skálholti anno 1630, og þar um bil; fèkk síðan Setberg í Eyrarsveit. Hann giptist þar Bergljótu, dóttur síra Lopts Skaptasonar og Kristínar Odds biskups dóttur. Þeirra börn þessi: síra Illugi Vigfússon; fèkk Setberg eptir föður sinn. Hans kvinna Ástríður Hannesdóttir frá Snóksdal. Hún sálaðist um veturinn 1678. Síra Illugi giptist aptur Valgerði Eyjúlfsdóttur [frá Vatnabúðum[1], hverja fyrr átti Steindór Daðason. Kristín Vigfúsdóttir giptist síra Gísla Einarssyni á Helgafelli[2]. Karítas Vigfúsdóttir; hún gipt síra Sigurði Halldórssyni á Þæfusteini. Ragneiður Vigfúsdóttir giptist Teiti Hallssyni gullsmið[3]. — Síra Einar Illhugason hèlt Reynivelli í Kjós, og giptist Guðríði [dóttur Einars Teitssonar í Ásgarði og Höllu Sigurðardóttur. Þeirra börn: síra Einar, síra Snæbjörn, Guðríður. Einar, skólagenginn, sigldi, varð í Skálholti biskupsskrifari, locator, kirkjuprestur; fèkk Garða á Álptanesi og varð prófastur í Kjalarnesþíngi; giptist anno 1680 Þóru Torfadóttur frá Gaulverjabæ. Þeirra börn: Brynjólfur, Margrèt. Snæbjörn lærði, vígðist, fèkk Reynivelli; giptist 1678 Þórunni eldri Sigurðardóttur frá Esjubergi Narfasonar(?). Þeirra börn: Sigríður Guðrún, Katrín. Guðríður varð seinni kvinna Odds á Fitjum, Eiríkssonar, Oddssonar biskups. Þeirra börn: Vigfús, Einar, Setselja[4]. — Einar Illhugason annar giptist Arndísi, dóttur Torfa Ögmundssonar og Steinvarar Böðvarsdóttur[5]. [Þeirra börn: Illhugi, Gróa, Guðríður[6]. — Þórarinn Illhugason á Hvítárvöllum, lögrèttumaður, giptist [anno 1642 Þorbjörgu dóttur Gísla Björnssonar og Þórunnar Hannesdóttur. Þorbjörg hafði látið fallerast og átt barn við Þorsteini Ingusyni (það dó).

1) [b. v. 255, utanmáls, eptir S. B. S.

2) sbr. II 393.

3) sbr. II 384. Utanmáls eru börn síra Vigfúsar talin upp í röð í 255 eptir S. B. S., en þar stendur „Hallur" fyrir Ragneiður.

4) [b. v. 255, og skotið inn í eyðu með nýjari hendi eptir síra H. B. S.

5) sbr. II 502.

6) [b. v. 255, eptir síra H. B. S.

þeirra börn nú á lífi: Gísli, síra þorsteinn, Björn, Árni, Gróa, Halldóra, Setselja[1]. — Jón Illhugason giptist Hallvöru, dóttur Jóns Gíslasonar á Brimilsvöllum og Holgu Skaptadóttur. þeirra börn: [Bjarni Jónsson, locator í Skálholti, Steinþór, Hólmfríður, Setselja[2], Guðríður, Ragnhildur. — Nikulás Illhugason giptist Guðrúnu Nikulásdóttur, Ásgeirssonar, og Guðlaugar Einarsdóttur frá Hvanneyri. þeirra börn: Illhugi, [Jón, Setselja. Jón drukknaði síðan ógiptur barnlaus[3]. — þórður Illhugason [ógiptur, barnlaus[4]. — Jórunn Illhugadóttir átti síra Guðmund Jónsson á þæfusteini. Hans móðir var Kristín Einarsdóttir, Ásmundssonar látúnsmiðs. þoirra börn: Jón, Kristín, Rósa, Setselja. Síra Jón Guðmundsson var fyrst capellan á Helgafelli, síðan undir Staðarhrauni. — Guðríður Illhugadóttir giptist Guðmundi Jónssyni, sem var kallaður Hallsson. þau áttu lífs eitt barn, þá hún andaðist. Síðar átti Gvöndur Guðrúnu, dóttur síra Engilbrikts[5] á þíngvöllum. [þoirra börn: Jóhann, Guðríður, Halldóra; en dóttir Guðríðar Illugadóttur og Guðmundar giptist síra Benedikt Pètursyni. þeirra börn: Auðunn, Guðrún[6]. — Íngibjörg Illhugadóttir giptist Vigfúsi Torfasyni[7], [bróður Arndísar, sem Einar Illhugason átti. þeirra börn: þórður, Setselja[8].

Kristín Árnadóttir átti Magnús, son Eiríks Eyjúlfssonar í Múla og Ólafar Nikulásdóttur frá Kirkjulæk[9]. þeirra börn: Fúsi Magnússon, [sem átti Jórunni, dóttur Guðmundar Fúsasonar frá Mófellsstöðum og Guðrúnar Hannesdóttur. þeirra börn: Magnús, Guðmundur, Ólöf, Ragnhildur[10]. *Item* Hallgrímur Magnússon, sem átti dóttur Páls Magnússonar frá Heylæk.

---

[1]) [eptir 255; hin bókin segir á öðrum stað, að þorsteinn Íngason hafi verið stjúpsonur síra Jóns Grímssonar (í Görðum á Akranesi?).

[2]) [b. v. 255, „Steinþór — Ragnhildur" eptir síra H. B. S.

[3]) [b. 255, eptir síra H. B. S.

[4]) [b. v. 255.

[5]) þann. („Engilbricktz") 254, og hin við leiðrèttíng, en hefir fyrst haft „Engilbertz".

[6]) [b. v. 255 eptir síra H. B. S.

[7]) sbr. II 602.

[8]) [b. v. 255, og börnin eptir síra H. B. S.

[9]) sbr. II 399.

[10]) [b. v. 255; sbr. II 399.

9. Helga Gísladóttir átti síra Erasmus Vilhaðsson anno 1565. Þeirra brúðkaup haldið í Skálholti. Var herra Guðbrandur þá skólameistari. Hèlt síra Erasmus þá Garðastað suður. Hann var útlenzkur maður. Í hans brúðkaupi var höfuðsmaðurinn Páll Stígsson, hver eð andaðist vorið eptir á Bessastöðum 1566 um krossmessu, og liggur þar í kórnum undir úthöggnum marmarasteini kostulegum[1]. Eptir það fór síra Erasmus austur, og hafði Oddastað, síðan Breiðabólstað í Fljótshlíð, og var hann officialis, og afhenti staðarins peninga herra Oddi Einarssyni. Þeirra börn:

Páll, Kristín, Helga, Gísli, Marín.

Síra Páll Erasmusson hèlt Hóla í Hrunamannahrepp; var seinast kirkjuprestur í Skálholti. Hann giptist Halldóru ýngri, dóttur Árna Magnússonar á Grýtubakka [og Sigríðar Árnadóttur. Þeirra börn: síra Erasmus, síra Magnús, Guðlaug, Guðný, Katrín, Helga. — Síra Erasmus heldur Hóla. Hann á Guðrúnu, dóttur Magnúsar Guðmundssonar í Háfi. — Síra Magnús heldur Kálfholt; giptist Guðrúnu annari dóttur Magnúsar Guðmundssonar í Háfi. — Helga átti Torfa Eiríksson frá Keldum. Síðan giptist hún barnlaus (eptir Torfa liðinn) síra Gunnlaugi Sigurðssyni í Saurbæ norður. — Guðlaug Pálsdóttir giptist síra Katli Jörundssyni, sem lengi var locator í Skálholti og hèlt síðan Hvamm í Hvammsveit. Þeirra börn: síra Páll, Guðrún, Halldóra. — Guðný giptist síra Þórði Guðmundssyni, syni Gvöndar Guðmundssonar í Bæ og Sigríðar Jónsdóttur. Hann hèlt Kálfafellstað fyrir austan. Þeirra börn: síra Jóhann, Guðmundur; síra Páll dó barnlaus. — Katrín giptist Gunnlaugi Filippussyni á Ferjubakka[2].

Gísli Erasmusson giptist Katrínu, dóttur Ásmundar Þorleifssonar á Hvoli. Þeirra dóttir Katrín, kvinna Nikulásar Þormóðssonar á Kirkjubæjarklaustri. Þ. b. Björn; sigldi í England, . . . . . kvinna Björns Jónssonar[3].

Marín Erasmusdóttir hafði látið fallerast. Hún giptist Snorra Ásgeirssyni, og andaðist af sængurför í Vatnsdal anno

[1]) 255 hefir hèr utanmáls (eptir S. B. S.) latínska versið á steininum.

[2]) [eptir 255; en sbr. II 390 og 391.

[3]) Brynjúlfssonar, prófasts í Hjarðarholti; á öðrum stað framar, þar sem talað er um Björn, er kona hans eigi heldur nefnd.

1607 þann 14. aprilis. Þeirra börn: Sigurður, Erasmus, Helga, Guðrún[1], Guðlaug; Ásgeir dó barnlaus. — Síra Sigurður Snorrason hèlt Hrafnseyri vestur í Arnarfirði. Hans kvinna Dís Bjarnadóttir frá Selárdal, sem áður átti Gvönd Skúlason[2]. — Síra Erasmus hafði Skúmstaðaþíngin. — Helga Snorradóttir giptist síra Einari Sigurðssyni, prófasti í Strandasýslu. Hann hèlt Stað í Steingrímsfirði. Þeirra börn: síra Ásgeir, síra Árni prestlausi, [síra Magnús, síra Teitur, Marín, Guðrún, Þórunn, Þrúður, Íngunn. Síra Ásgeir hèlt Túngu í Steingrímsfirði. Hann giptist Sigríði, dóttur Björns Þorleifssonar undir Múla á Skálmarnesi. Síra Árni missti prestinn, og fèkk hann aptur og Skarðsþíng með. Síðan missti hann prestinn aptur og fèkk eigi síðan. Það (var) fyrir frillulifnaðarbrot. Hann átti Guðrúnu Björnsdóttur, systur Sigríðar, kvinnu síra Ásgeirs. Síra Magnús átti Guðrúnu Halldórsdóttur, sonardóttur Andrèsar á Melgraseyri. Þeirra börn: Andrès, Halldór. Síra Teitur átti Þóru Arnfinnsdóttur og Þórdísar Gvöndardóttur. Þeirra börn: Sigurður, Halldóra, Sigríður, Guðrún[3]. Marín Einarsdóttir átti Guðmund son Gísla Diðrikssonar fyrir austan, bróður Bárðar [í Vatnsdal[4]. Þeirra barn: síra Sigurður[5]. Þrúður[6] átti síra Jón Loptsson í Saurbæjarþíngum. — Guðrún Snorradóttir[7] átti síra Jón Sigurðsson á Breiðabólstað, og var hans þriðja[8] kvinna; barnlaus. — Guðrún Snorradóttir (önnur meina eg) átti síra Jón Bergsson, sem hèlt Teigsþíng í Fljótshlíð. Þeirra börn: síra Hinrik; *item* síra Sigurður Jónsson í Ögur-

---

[1]) þann. 254; Guðrúnar tvær 255, og kemur saman við það sem rètt á eptir er talið.

[2]) sbr. II 611.

[3]) [eptir 255. „Hann giptist Sigríði — Sigríður, Guðrún" utanmáls og með nýjari hendi.

[4]) [b. v. 255.

[5]) 255 bætir hèr við utanmáls og með nýjari hendi: „Þórunn, Þrúður, Íngunn", en virðist vera endurtekníng nafnanna á dætrum síra Einars, sem hèr eru tveimur línum ofar.

[6]) stytting á nafni fyrir Sigþrúður (Einarsdóttir;?); sbr. II 380.

[7]) „ýngri" b. v. 255, en síðar undirstrykað.

[8]) þann. 255; en hefir breytt „3ja" í „seinni" eptir 254 á þessum stað, sem síðar (í ritg. um Odd biskup Einarsson 7. kap.) hefir „þriðja kvinna".

þíngum var; dó ógiptur og barnlaus; Kristín, Maríu. — Guðlaug Snorradóttir átti Pálma, launson Hinriks Gíslasonar. Hann var lögrèttumaður, og bjó fyrst á Varmalæk. Þeirra börn: Hinrik, Marín, Anna. Pálmi átti síðar Ragneiði Eggertsdóttur[1], [sem átt hafði síra Sigurð Ólafsson, og við honum eitt barn, Halldóru; þeirra börn: Sigurður, Guðlaug. Sigurður varð lögrèttumaður, en Guðlaug giptist Sigurði Þorsteinssyni í Dölum[2].

Þórdís Erasmusdóttir átti Þorleif Ásmundsson ýngra. Þeirra börn: Ásmundur, Jón, Þorgerður, Emerantiána (eg meina líka Ásbjartur Þorleifsson. Herra Oddur skrifar, hann hafi andazt kristilega á Hvoli 16 . . 23. aug. eptir lánga þvíngan. Átti sá frómi guðhræddi maður eptir 6 börn). — Ásmundur átti Úlfu, dóttur síra Eyjúlfs Arnþórssonar[3] og Íngibjargar Jónsdóttur; dó barnlaus. — Jón átti Ástríði, dóttur Guðmundar Guðmundssonar frá Bæ í Borgarfirði og Sigríðar Jónsdóttur. — Þorgerður Þorleifsdóttir [dó barnlaus[4] — Emerentiána átti Þórarinn, bóndamann[5].

Guðríður Erasmusdóttir átti Björn, [son Guðmundar Eyjólfssonar á Flageltu og Ásdísar Sigmundardóttur frá Hofi[6].

Guðlaug Erasmusdóttir átti Þórð, launson Magnúsar Hjaltasonar; ekkert barn.

Kristín Erasmusdóttir átti Pál Sigmundsson, Þórólfssonar, [og Margrètar Björns Þorleifssonar dóttur frá Keldum[7]; áttu ekki börn.

Helga Erasmusdóttir átti Ögmund Sigmundsson, bróður Páls, frá Hofi; áttu engin börn.

Seinni kvinna síra Erasmusar Vilhaðssonar var Þórunn, [dóttir Þórólfs Eyjólfssonar frá Hjalla og Margrètar Erlends-

---

[1]) systur Hannesar Eggertssonar í Snóksdal (og þeirra systkina).

[2]) [b. v. 255; „og við honum — Dölum" utanmáls, eptir síra Hann. Björnssyni.

[3]) af Akranesi 255 (nefnir ekki móðurina).

[4]) [b. v. 255.

[5]) þann. 255; bónda (eða rèttara: bónda . . . .) 254.

[6]) [eptir 255; en „Ásdísar" er leiðrètting eptir 254 (á öðrum stað) fyrir „Ástríðar". „Flageltu" hafa báðar bækurnar hèr og víðar.

[7]) [b. v. 255.

dóttur. Þeirra börn Margrèt og Helga[1]. — Margrèt Erasmusdóttir átti Árna Eyjúlfsson frá Saurbæ, [sem drukknaði á Kotferju í Hvítá[2]. Þeirra einberni Solveig, sem átti Ámunda Þormóðsson í Skógum. Þeirra börn: þrír Pálar, síra Árni, síra Högni, Álfheiður, Kort[3]. — Helga giptist Eiríki, syni síra Árna Gíslasonar[4].

10. Guðrún Gísladóttir giptist Gísla Sveinssyni, sem lengi var Skálholts ráðsmaður. [Móðir Gísla Sveinssonar var Guðlaug, dóttir Jóns Erlendssonar, bróður Þorvarðs Erlendssonar lögmanns. Hálfsystir Gísla, Kristín Sveinsdóttir, varð brotleg með stjúpsyni sínum, Ögmundi bryta í Skálholti[5]. — Þeirra börn þessi:

Síra Guðmundur Gíslason hèlt Bæjarstað í Flóa. Hans kvinna var Anna Þorláksdóttir. Hann andaðist á Stokkseyri 1605. Þeirra börn: Sólvör, kvinna Bjarna Sigurðssonar[6]. — Guðlaug Guðmundsdóttir giptist Torfa á Keldum, og var hans fyrsta kvinna. Þeirra barn: Guðmundur, sem átti Valgerði Halldórsdóttur, lögmanns[7]. — Helga kvinna Arnórs holgóma, sem átti Öndverðarnes [í Grímsnesi[8]. — Gísli Guðmundsson átti Kristrúnu[9] Eiríksdóttur frá Keldum. Þeirra börn: Guðmundur, Eiríkur. Guðmundur Gíslason á Guðrúnu, dóttur síra Jóns Pálssonar á Vogshúsum [í Selvogi[10]. Eiríkur Gíslason

---

[1]) [eptir 255.

[2]) [b. v. 255, utanmáls.

[3]) [b. v. 255.

[4]) sjá II 642.

[5]) [Þetta stendur í 254 milli greinakaflanna um þá síra Guðmund og síra Bjarna, en er líka óreglulega sett í 255; þar stendur og: „Gísla börn voru 6 og fèkk hver hans dætra 60 hundruð".

[6]) sbr. II 381—82. Nokkru af því sem þar stendur bætir 255 við utanmáls eptir S. B. S. Hèr segir að auk, að kona Markúsar Snæbjörnssonar hafi heitið Kristín Einarsdóttir, og að seinni maður Helgu Gísladóttur hafi heitið Bjarni, sonur Sigurðar Árnasonar og Elenar Magnúsdóttur. Líklega við misritan er hèr nefnd Rannveig fyrir Ragneiði Bjarnadóttur, sem átt hafi Einar Ólafsson.

[7]) sbr. II 368.

[8]) [b. v. 255.

[9]) Kristínu, 255.

[10]) [b. v. 255 („Vogshúsum" báðar).

giptist Önnu, dóttur Jóns Björnssonar búanda í Önundarholti. Þeirra börn mörg. Eiríkur dó fèlaus og sem útkominn. — Magnús Guðmundsson átti Guðrúnu . . . .

Síra Bjarni Gíslason átti fyrst Katrínu Gísladóttur frá Þykkvabæjarklaustri, og við henni síra Gísla, sem var í Grindavík. Síðar átti hann Halldóru Jónsdóttur af fátækum stigum. Síra Gísli Bjarnason átti fyrst Guðrúnu, dóttur Páls á Hólmi og Hallóttu . . . . . Þeirra börn: Jón Gíslason; bjó í Grindavík; [hans börn þrjú: Jón, Eyjólfur, Guðrún[1]. — Síra Ólafur [Gíslason bjó í Krísuvík[2]; missti prestinn fyrir hórdóm. — [Bjarni og Sigurður sigldu í Holland 1645[3]. — [Halldór Gíslason drukknaði í Járngerðarstaðasundi og margir menn með honum[4]. — Katrín Gísladóttir átti síra Vigfús Oddsson í Bæ[5]. — Guðríður Gísladóttir átti Helga Jónsson, sem kom frá Tyrkjum, son Jóns Guðlaugssonar[6]. — Íngvöldi[7] Gísladóttur átti síra Sumarliði Ormsson frá Kálfatjörn, og missti hann prest á Mosfelli fyrir hórdómsbrot. Þeirra börn: Sigurður, Þorleifur, Helga, Bergljót[8].

Seinni kvinna síra Gísla á Stað var dóttir síra Jóns á Stað í Grindavík, Guðrún, sem áður hafði átt Jón Gunnlaugsson, smiður, og frá honum af Tyrkjum var hernumin, en kom aptur og giptist eptir Jón síra Gísla.

Sveinn Gíslason átti Guðríði Sveinsdóttur frá Kálfafelli og Guðríðar, seinni kvinnu síra Gísla. Þeirra dóttir ein, Katrín, og tveir piltar. Annar giptist Kristínu, dóttur Þormóðs í Bræðratúngu, og átti ekki barn. — Katrín Sveinsdóttir átti launbarn; dó ungt. Hún giptist aldrei. — Íngunn lèt fallerast við kvæða-Eyjúlfi. Hún átti Sveinbjörn Geirmundsson (hans

---

¹) [b. v. 255.

²) [b. v. 255.

³) [þann. 254, og hin við breytíng, en hefir áður haft: „Bjarni Gíslason sigldi í Holland; kom ekki aptur. Sigurður Gíslason sigldi, kom aptur, býr nú á Stafnesi".

⁴) [b. v. 255.

⁵) sjá II 640.

⁶) 255 bætir hèr við: „Þeirra börn mörg: Jón Helgason" . . . .

⁷) vantar 254.

⁸) 255 telur að auk: „Ormur, Magnús, Guðrún, Íngiríður, Helga" (síðasta nafnið með nýjari hendi).

bræður voru þeir Arnljótur og Björn, Geirmundssynir). Þeirra börn: Brynjúlfur, Guðmundur; Magnús, á Skúmstöðum var, átti systur sterka Fúsa Jónssonar. Brynjúlfur, skipasmiður og marghæfur, átti Guðríði Níelsdóttur[1] úr Vestmannaeyjum. Þeirra barn: Níels.

Magnús Gíslason var í Miðfelli, átti Katrínu, dóttur Þormóðs Ásmundssonar, Lýtíngssonar, og Ingibjargar Þorsteinsdóttur. Hann varð krenktur. Þeirra dóttir giptist Ívari Gvöndssyni, og var hans fyrri kvinna, en andaðist barnlaus. Nú seinna átti hann Vigdísi, dóttur Jóns Bárðarsonar, systur síra Álfs í Kaldaðarnesi.

Valgerður á Skarði á Landi átti Brynjúlf, son Jóns Eiríkssonar og Guðrúnar Brynjúlfsdóttur. Þeirra börn: Gísli Brynjúlfsson, [sem bjó í Ölvarsholti, Hans synir á lífi: Jón, Árni[2]. — Ásmundur Brynjúlfsson á Minnivöllum á Landi, mikill smiður. Hann átti Katrínu Gísladóttur, systur Bárðar í Vatnsdal. Þeirra börn mörg. — Guðrún kvinna Álfs Gíslasonar á Reykjum í Ölvesi. Þeirra börn: Björn, Gísli, Katrín. Björn Álfsson átti Álfeiði dóttur Björns í Skildínganesi. Gísli Álfsson átti Katrínu, dóttur Hákonar Bjarnasonar. Katrín Álfsdóttir. — Helga Brynjúlfsdóttir átti Kolbein, launson Guðmundar Eyjúlfssonar á Hofi. Þeirra börn: Bjarni, Arnþór, Erlendur, tveir Jónar, Íngunn, Kristín, Valgerður, Anna, Guðrún. Kristín Kolbeinsdóttir á Eirík Guðnason í Miðfelli.

Guðrún í Hraungerði átti síra Gísla Árnason. Meinast hann væri sonur Margrètar, sem verið mun hafa fyrri kona Stefáns heitins Gunnarssonar; en síðar átti Stefán, eptir Gísla Sveinsson, Guðrúnu, áður skrifaða dóttur herra Gísla. Guðrún í Hraungerði giptist seinna Stefáni, launsyni Gunnars Gíslasonar. Hann hafði verið skólameistari í Skálholti, vellærður maður. Hann var og lengi ráðsmaður í Skálholti. Þau bjuggu á sinni jörðu Oddgeirshólum. Þeirra skilgetin börn komust ekki á legg.

Síra Jón Stefánsson í Laugardælum var bróðir síra Hallkels í Laugarnesi. Síra Jón var laungetinn. Hann hèlt

[1]) [b. v. 255.

[2]) [b. v. 255.

Mosfell í Grímsnesi og giptist þorgerði dóttur Jóns Ormssonar og þórunnar Gísladóttur. þeirra börn: síra Jón á Fellsmúla. — Ormur Jónsson á Skúmstöðum á Eyrarbakka. — Gunnar Jónsson bjó í Hvammi á[1] Landi. — þórdís Jónsdóttir; giptist Diðrik á Vomúlastöðum. þeirra barn: síra Jón Diðriksson, Selvogsprestur.

11. Vilborg Gísladóttir og hennar ættfólk og niðjar eru áður skrifaðir með ættfólki biskups Ögmundar[2]. Hún fèkk sinnisveiki í tvær eða þrjár reisur og varð hana að athuga; en sonur hennar Gísli var með fásinnu alla sína daga, og hvarf svo um síðir, að enginn vissi, hvað af honum varð eður hver hans afdrif urðu.

---

[1]) [b. v. 255.

[2]) sjá II 294—295.

## Um herra Odd Einarsson biskup í Skálholti
OG HANS ÆTTFÓLK.[1]

1. Eptir herra Gísla Jónsson afgenginn var Oddur Einarsson útvalinn til biskups í Skálholti á alþíngi anno 1588. Sigldi hann í Danmörk á sama ári. Hann hafði þá verið nokkur ár skólameistari á Hólum hjá herra Guðbrandi, og hèlt hann honum vel fram. Hann var norðlenzkur að ætt og skyldur biskup Jóni að þeirra forfeðrum beggja. Hann hafði áður siglt og vel stúderað, svo hann var *Baccalaureus Artium* og *Præpositus* í klaustrinu. Hann var vígður til biskups í Kaupinhafn um Maríumessu *annunciationis* anno 1589 af doctore Paulo Mathíassyni, som þá var erkibiskup í Danmörk. Hann tók við Skálholti á því sama ári eptir alþíng; en afhendíngarmenn staðarins voru: síra Erasmus Vilhaðsson, officialis Skálholtskirkju, og synir sál. herra Gísla Jónssonar, síra Stefán og síra Árni; *item* Stefán Gunnarsson, Skálholts ráðsmaður. Þar eptir rèð herra Oddur stólnum og stigtinu í heil 42 ár. Hann giptist fyrir norðan, og var hans brúðkaup haldið á Holtastöðum anno 15[91]. [En hann andaðist í Skálholti í góðri elli og kristilega anno 1631 þann 28. desember. Hefir hann þá haft 72 ár.[2]

## Þetta er föðurætt herra Odds Einarssonar.

2. Þorsteinn bjó í Svarfaðardal. Hans sonur síra Sigurður. Hann átti Guðrúnu, dóttur ábóta Finnboga, sem hèlt Múkaþverár klaustur. Ábóti Finnbogi fèkk þá konu, sem hèt Íngveldur Sigurðardóttir; var hún ekkja austfirzk. Hans faðir var ábóti Einar Ísleifsson, sem áður hafði haldið það sama klaustur, og andaðist þar í góðri elli hjá syni sínum ábóta Finnboga. Á þeirra dögum voru öngvir lærðari, eður ekki svo

---

[1]) sjá fyrstu neðanmálsgrein II 599.

[2]) [þ. v. 255.

vel lærðir menn í Norðlendíngafjórðúngi, einkum í látínumáli, og stunduðu þessir menn miklu framar sínar bækur, en veraldlegar sýslanir, og voru frómir og ærlegir menn í allri sinni skikkan, og af stórum ættum komnir.

Móðir ábóta Finnboga var Guðrún Torfadóttir, systir Málfríðar Torfadóttur, sem var kvinna Finnboga lögmanns, en Torfi var Arason, hirðstjóri, sem útvegaði þá löngu rèttarbót 1450. Torfi hirðstjóri átti Kristínu, dóttur Þorsteins Ólafssonar, lögmanns sunnan og vestan á Íslandi 1431. Þorsteinn hafði áður verið hirðstjóri yfir hálfu landinu 1428.

Eptir afgáng þessara fyrnefndra ábóta, Einars og Finnboga, fór þeirra afkvæmi mjög hnignandi fyrir fátæktar sakir.

3. Príor Nikulás Þormóðsson var á Möðruvöllum um pláguna miklu. [Hún byrjaðist 1495 og gekk um allt land vestur að Holti í Saurbæ.[1] Hann tók upp fátæka stúlku, Þóreyju. Hennar synir voru þeir Þorsteinn og Þorbjörn (hver sem faðir var). Þorbjörn[2] var prestur, og hèlt Vallnastað í Svarfaðardal. Hann var afi Þorbjarnar í Útverkum. Þorsteinn var fátækur maður, og bjó á Hallgilsstöðum.[3] Hann var afi Þorsteins Sigurðssonar og þeirra systkina. Einn af sonum Þorsteins var síra Sigurður, sem hèlt Stað í Kinn, og var þaðan tekinn og látinn í Grímsey. Þar andaðist hann.

Börn Þorsteins og Guðrúnar voru þessi:

Síra Sigurður, Þormóður, Þóra, Vigdís. Anna dó úng stúlka.

Vigdís Þorsteinsdóttir lèt fallerast. Síra Halldór, faðir Benedikts ríka, átti við henni barn, það er Guðrún hèt, kvinna Þórarins Filippussonar norður á Dálkstöðum.

Þóra Þorsteinsdóttir giptist; bjó í Skagafirði framarlega til ellidaga, og var haldin ágæt kona; gjörði mörgum fátækum til góða.

Síra Sigurður Þorsteinsson (sem áður greinir) hèlt Stað í Kinn, og var þaðan tekinn til Grímseyjar, einn frómur guðhræddur maður, vel látinn af öllum. Hans kvinna Guðrún Finnbogadóttir, ábóta, frá Múkaþverá. Þeirra börn: síra Einar,

[1]) [sl. 255.

[2]) getgáta; báðar bækurnar: þorsteinn.

[3]) þann. fyrst 255, en hefir með nýjari hendi „Hagels" yfir Hallgils-, og líklega breytt eptir „Hagils" (Hágils-) í 254.

Guðný, Íngveldur, Þorsteinn, Hróðný. — Síra Einar Sigurðsson átti Margrètu, dóttur Helga Eyjúlfssonar og Sigríðar Ólafsdóttur. Hann var fæddur anno christi 1539, en hann vígðist, þá hann var 18 vetra, af herra Ólafi Hjaltasyni, og hafði hann verið í skóla 4 ár. Síðan varð hann fyrst kirkjuprestur á Möðruvallaklaustri, en Margrèt kona hans ráðskona. Þá hèlt klaustrið síra Björn Gíslason. Þá var herra **Oddur** fæddur í Möðruvallaklausturs seli anno 1559, nærri viku fyrir Maríumessu seinni á fimtudagskveld; og var þá síra Einar tvítugur rètt. — [Síra Björn hafði komið herra Oddi fyrst í skóla, því að í erfiljóðum eptir síra Björn hafði herra Oddur svo kveðið:

föður minn fræddan studdi,
fèkk á Hólum mèr skóla.[1]

Guðný Sigurðardóttir varð vel áttræð. Hún andaðist í Skálholti 21. Septembris 1610.

Íngveldur Sigurðardóttir; hennar maður Jón. Þau bjuggu í Fljótshlíð.

Þorsteinn Sigurðarson, afi síra Sigurðar í Miklaholti.

Hróðný Sigurðardóttir [átti tvo menn; fyrst Ásmund, síðan Eyjólf. Þeirra börn: Ásmundur, Jón, Þorbjörg, Guðbjörg, Kolfinna, Jófríður.[2]

### Móðurætt herra Odds Einarssonar.

4. Ólafur Gunnarsson átti þrjár konur. Hann hafði 94 vetur, þá hann andaðist.

Fyrsta hans kona hèt Sigríður, fín kona. Ólafur var 33 ára, þá hann missti hennar, eður litlu fyrir miklu pláguna. Önnur hans kona hèt Ingibjörg, þriðja Steinvör Aradóttir, systir Arnesar. Þau áttu ekkert barn, utan áðurgreinda Sigríði Ólafsdóttur. Hún giptist 16 vetra Helga Eyjúlfssyni. Hans bróðir var Sveinn Eyjúlfsson, sem átti Svanhildi. Hans dóttir Margrèt Sveinsdóttir. Hennar dóttir Guðný Brandsdóttir. Hennar son 16 vetra gamall piltur, að nafni Þorsteinn, sálaðist í verferð 1604. Hann fór munaðarlaus norðan að eptir vermönnum á Tvídægru; en á einu slèttu svelli reið Björn Jónsson óforsjállega fram á hann, og stè hesturinn hann skemmdaráverka,

[1]) [b. v. 255, utanmáls, eptir S. B. S.

[2]) [b. v. 255, með nýjari hendi (sömu sem er utanmáls á því, sem tekið er eptir Sigurði lögm. Björnssyni), og skotið inn í eyðu.

og reiddu þeir hann svo tvo daga, og skildu hann eptir ófæran á næsta bæ hjá Reykholti. — Þóra Sveinsdóttir, móðir síra Stefáns á Undirfelli. — Vigdís Sveinsdóttir var móðir Hákonar Ólafssonar, sem var í Skálholti 1607.

Bróðir Steinvarar Aradóttur (áðurgreindrar lángömmu herra Odds) var Arnes Arason, en sá Ari var Arnesson, og segja sumir, sá Ari hafi átt dóttur Ólafs Gunnarssonar, Jórunni.

Þá er Snorri Arnesson. Í aðra ætt Snorra Arnessonar er Símon bóndi, er bjó í Leyníngi. Hann hafði á sèr almonníngs orð. Hèt kona hans Þórunn Einarsdóttir. Hennar bróðir Einar Einarsson, som átti móður Sigríðar Þórarinsdóttur.[1] Þá er Þorgerður Símonardóttir. Hennar maður var Hálfdan Hallsson. Hallur var sonur Jóns lángs. Hennar dóttir Steinvör Hálfdanardóttir. Hennar maður Arnes, faðir Snorra. — Önnur dóttir Símonar var Guðríður. Hennar maður Þórálfur. Þeirra son Ketill; hans son Jón Ketilsson, sem var á Hrauni í Ölvesi. — Brandur Símonarson, laungetinn. Hans börn: Sveinbjörn Brandsson, Sveinn og Fúsi Brandssynir, Valgerður, Íngveldur, Árni Brandsson; Þorbjörn hèt hans son, skilgetinn af skilgetnum föður. Hann var í Laugarási.[2]

Flestallt móðurfólk herra Odds hefur verið norður í Hörgárdal, og flestir í hans móðurætt verið leikmenn og ærlegir búendur, en ekki stórríkir.

## Börn Helga Eyjólfssonar og Sigríðar Ólafsdóttur, ömmu herra Odds.

5. Þau áttu saman 18 börn eður 19, hálft hvort, pilta og stúlkur, en hún var ekki meir enn 40 ára, þá hún missti hann.

Árni Helgason . . . . . . Arnes átti Kolþernu Eyjúlfsdóttur. Þeirra dóttir Steinvör dó barnlaus. Þuríður átti Nikulás. Þeirra börn mörg. Íngimundur gesthús, Jón, Ólafur, kalli afgamall, nautamaður í Skálholti, átti barn við dóttur Odds á Spóastöðum, Björnssonar. Það hèt Ásmundur. —

[1]) Þormóðsdóttur hefir 255 fyrst skrifað, en breytt síðan eptir hinni; líka hefir hún haft á eptir: „Þá er Þormóður Símonarson" en dregið svo undir nafnið.

[2]) Þann. 255; Laugarnesi 254.

Þorvarður varð 16 votra, og dó undir heykumbli. — Sveinn dó barnlaus. — Guðrún; af henni er kominn Kári, blástrarmaður í Skálholti forðum, hálfvita.[1] Indriði, Gunnar, Eyjúlfur önduðust barnlaus.

Bjarni Helgason varð gamall maður. Hann lifði anno 1604. Hann átti Margrètu og bjó á Skammbeinsstöðum. Þeirra börn: síra Jón, síra Sveinn, Helgi, Ásdís. — Síra Jón Bjarnason á Fellsmúla átti Margrètu Stefánsdóttur. Þeirra son Gísli á Berghyl. Hann átti . . . — Síra Sveinn Bjarnason hèlt Dyrhóla. Hann átti Guðríði, dóttur síra Gunnlaugs í Runa. — Helgi Bjarnason, skólagonginn, vellærður maður, andaðist barnlaus og ógiptur. — Ásdís átti síra Jón í Hólum undir Eyjafjöllum, son Magnúsar . . . . .

Þessar voru dætur Helga Eyjúlfssonar og Sigríðar Ólafsdóttur:

Sigríður var móðir Jóns Þorsteinssonar, sem gaf herra Oddi sína próventu, og var síðan hjá hans örfum, en seinast í Stafholti; og þar andaðist hann. Hans kona hèt Sigríður. Jón átti hjábarn, sem hèt Aldís. Hennar móðir var Hallbera, dóttir Þórðar halta. Hún giptist Þorkeli Torfasyni úr Borgarfirði.

Margrèt Helgadóttir, móðir herra Odds, hafði 44 ár, þá hún andaðist. Hennar maður var síra Einar Sigurðsson. Þeirra börn: herra Oddur, síra Sigurður, Setselja. — Önnur kvinna síra Einars var Ólöf, dóttir Laga-Þórarins í Húnavatnsþíngi. Þeirra börn fjórir prestar og fjórar stúlkur.

Eydís Helgadóttir var í Fjalli anno 1604, og átti Jón Ásgrímsson[2], og bjó þar fyrst. Eptir það varð hann bryti í Skálholti. Þeirra dætur: Anna, Þóra, Guðrún. — Anna Jónsdóttir átti síra Erlend Jónsson í Miðdal; þeirra son síra Jón í Villíngaholti. — Þóra Jónsdóttir átti síra Jón, bróður síra Erlends. Hann hèlt Þíngvelli. Þeirra son Ketill. — Guðrún átti Jörund bryta. Þeirra börn: síra Ketill Jörundsson, locator, sem hèlt eptir það Hvamm í Hvammssveit, og átti Guðlaugu Pálsdóttur[3]. Systur síra Ketils: Íngveldur, Sigríður.

---

[1]) b. v. 255.

[2]) 255 hefir fyrst skrifað: „son langa Ásgríms", og síðar breytt því í „sáluga" (með því letri, sem er á flestum aukagreinunum), en þetta stendur víst í einhverju sambandi við viðurnefni Jóns (Ásgríms?), sem kemur fram í 14. kap. (byrjun).

[3]) sbr. II 391.

Vigdís Helgadótttir, móðir Þorsteins Snorrasonar, hún andaðist 80 ára. Hennar maður Snorri, bjó á Þverá í Öxnadal. Þeirra börn: Þorsteinn, Sigurður[1], Margrèt, Sigríður. — Sigríður átti Jón Bárðarson í Kaldaðarnesi. Þeirra börn: síra Álfur, sem á Ragneiði dóttur Árna Gíslasonar frá Ytra Hólmi, Vigdís á Brúnastöðum, Anna, kvinna Gísla í Smjördölum. — Þorsteinn Snorrason átti Margrètu, [dóttur síra Þorsteins í Úthlíð[2]. Þeirra börn: Jón, Jörundur, Arnes, Snorri[3]; Ásgautur dó úngur; Þorlaug, tvær Vigdísar. Önnur þeirra á Odd Ögmundsson á Neðra Skarði í Leirársveit, og eiga mörg börn. Item: síra Eiríkur Þorsteinsson á Krossi í Landeyjum. [Guðný Þorsteinsdóttir, kvinna Sveins Sveinssonar[4].

Gróa Helgadóttir andaðist þrèvetur, og hin börnin úng.

## Nú eptirfylgja börn síra Einars Sigurðssonar og Margrètar Helgadóttur.

6. Herra Oddur Einarsson, síra Sigurður Einarsson og Setselja Einarsdóttir, þeim samborin. Enn síra Gísli, síra Ólafur, síra Höskuldur, síra Jón Einarsson í Eydölum og síra Eiríkur af Ólöfu, og hinar dæturnar.

Herra Oddur Einarsson, biskup i Skálholti, giptist á fyrsta eður öðru ári síns biskupsdóms á Holtastöðum Helgu, dóttur Jóns bónda Björnssonar fyrir norðan og Guðrúnar Árnadóttur frá Hlíðarenda, Gíslasonar. Þeirra börn:

Árni, Sigurður, Gísli, síra Sigurður, Eiríkur, Margrèt.

Árni Oddsson var skólagenginn, sigldi anno 1609 og stúderaði utanlands þrjú ár. Hann var skólameistari í Skálholti um nokkur ár[5], og giptist fyrst Helgu, dóttur Jóns bónda Fúsasonar austur á Galtalæk og Íngibjargar Björnsdóttur, Gíslasonar[6]. [Þau áttu eitt barn, Íngibjörgu, og andaðist það fyrr en móðirin[7]. Hún dó svo barnlaus í bólunni, þá þau

---

[1]) honum sleppt síðar (16. kap.).

[2]) [b. v. 255.

[3]) b. v. 255.

[4]) [b. v. 255.

[5]) [b. v. 255 (utanmáls).

[6]) sbr. II 399.

[7]) [b. v. 255.

höfðu saman verið nokkur ár[1]. Árni giptist aptur fyrir norðan Þórdísi, dóttur Jóns Jónssonar og Sigríðar Þorgrímsdóttur, [sem bjuggu á Sjávarborg í Skagafirði, og áttu þá jörð[2]. Árni Oddsson átti Holtastaði í Lángadal norður og [hafði þar bú nokkur ár[3]. Hann var og Skálholts ráðsmaður nokkur ár. Síðar fèkk hann Reyninesstaðar klaustur, og var kosinn til lögmanns sunnan og austan á Íslandi anno 1631 á alþíngi. Eptir það flutti hann sig í Borgarfjörð til Leirár, og keypti þá jörð og bjó þar til dauðadags[4]. Börn Árna lögmanns og Þórdísar Jónsdóttur, sem til ára komust: Jón, Sigurður, Helga. — Jón Árnason, [málrómslítill maður[5], sigldi tvisvar; var lengstum á Leirá hjá föður sínum. Síðan giptist hann norðanlands Þórunni, dóttur Hallgríms Halldórssonar og Ólafar Jónsdóttur á Víðimýri; andaðist 1684; dó barnlaus[6]. — Sigurður Árnason var skólagenginn og biskupssveinn. Hann giptist Elenu Magnússdóttur frá Haga á Barðaströnd 1651. Þeirra börn: Bjarni, Hákon, Þorbjörg, Margrèt, [Árni, Halldór, Kristín, Guðlaug, Ljótunn, Helga[7].

Helga Árnadóttir giptist síra Þórði Jónssyni í Hítardal. Þeirra börn: Þorsteinn, Guðríður; Jón dó úngur. — Þorsteinn Þórðarson erfði Hvol og Hjörsey og fleiri jarðir eptir föður sinn síra Þórð. Hann giptist Arnfríði Eggertsdóttur á Skarði og Valgerðar Gísladóttur; og voru bæði brúðkaup, Björns sál. Gíslasonar og Þorsteins saman haldin á Skarði 1675 7. Septembris. Þorsteinn settist fyrst að jörðu sinni Hrafnabjörgum í Hörðudal. Þeirra börn: Elen, Ragneiður. — Guðríður Þórðardóttir giptist anno 1668 Jóni yngra Vigfússyni. Þeirra brúðkaup heiðarlega haldið í Hítardal; (gengu þar upp að sögn heimamanna 4 tunnur brennivíns að auk annars öls og sæmilegra veitínga, allt til föstudagskvelds burt var riðið). Þar voru

---

[1]) sbr. II 407.

[2]) [b. v. 255.

[3]) [þann. 259 og hin eptir breytíng, en hefir fyrst haft: „bjó þar lengi".

[4]) þann. og breytt í 255, en hèr hefir fyrst verið skrifað: „lengi".

[5]) [sl. 355, en hefir eptir „sigldi tvisvar": „og lærði lítið í skóla".

[6]) [b. v. 255, eptir S. B. S.

[7]) [b. v. 255, eptir S. B. S.

þau heiðurshjón Eggert Björnsson og Valgerður Gísladóttir frá Skarði.

Gísli Oddsson var skólagenginn, sigldi og stúderaði vel; var síðan skólameistari í Skálholti og kirkjuprestur nokkur ár. Þar eptir fèkk hann Stafholt í Borgarfirði og hafði Heynessumboð; eptir það Holtsstað undir Eyjafjöllum; giptist Guðrúnu Björnsdóttur, Benediktssonar, fra Möðruvöllum, og Elenar Pálsdóttur [1]. Seinast var hann biskup í Skálholti, og var kjörinn anno 1631 í Skálholti, en samþykktur á alþíngi. Sigldi hann það sumar, og kom út aptur vestur á Dýrafirði með biskupstign anno 1632. Hann missti skömmu þar eptir sína kvinnu Guðrúnu af sængurför. Andaðist hún barnlaus; Magnús Björnsson, bróðir hennar, erfði[2]: Í sjö ár var herra Gísli Oddsson biskup í Skálholti eptir föður sinn, en anno 1638 á alþíngi andaðist hann í Þíngvallakirkju innar í kórnum í sæng sinni á Þíngmaríumessu sjálfa; ok var hans líkkista flutt þaðan á kviktrjám [3] í Skálholt með góðra manna fylgd. Bóndinn Árni Oddsson, bróðir hans, var fyrirliðinn. Var hann jarðaður innankirkju fyri framan kórdyrnar. Síra Páll Erasmusson saung og prèdikaði yfir hans líki, og var þar margur góður maður viðstaddur. Herra Gísli hafði átt Voðmúlastaði fyrir austan og fleiri jarðir, og erfðu bræður hans þær, en mikið gekk upp í skuldir, Skálholtskirkju aðbót og annað. Eptir herra Gísla var kosinn Mag. Brynjúlfur Sveinsson til biskups, hver þá daga tafði í Skálholti, en var nýkominn úr siglíng; en til officialis var kjörinn síra Sigurður Oddsson.

Síra Sigurður Oddsson hafði siglt og stúderað utanlands í þrjú ár, var síðan locator og kirkjuprestur í Skálholti. Hann giptist fyrst Hólmfríði, dóttur Jóns Fúsasonar [og Íngibjargar Björnsdóttur frá Galtalæk, og voru þau saman . . . . . Svo andaðist hún barnlaus, en gaf manni sínum Háeyri á Eyrarbakka 16 hundruð að dýrleika [4]. Eptir það fèkk síra Sigurður

---

[1]) sbr. II 361 og 364.

[2]) [b. v. 255.

[3]) þann. báðar bækurnar.

[4]) [b. v. 255. Orðin: „og voru þau saman" sett utanmáls með nýjari hendi; sömuleiðis eru orðin „að dýrleika" undirstrykuð, og utanmáls sett: „en árlega gjaldast af" . . . . Sbr. II 401.

Stafholt, þá herra Gísli bróðir hans veik þaðan, og giptist þar Guðrúnu, dóttur síra Jóns Guðmundssonar frá Hítardal og Guðríðar Gísladóttur 1636. En þau voru þrímenníngar að skyldsemi; því keypti síra Sigurður kóngsleyfi fyrir 200 dali. Hann hafði nokkur ár Heynessumboð og var líka prófastur í Mýrasýslu. Þeirra börn: Oddur, Gísli, Sigurður, Guðríður, Hólmfríður. Guðrún og Torfi önduðust úng. — Oddur Sigurðsson var studiosus; andaðist ógiptur og barnlaus. — Gísli Sigurðsson var og studiosus. Hann giptist Þorbjörgu Vigfússdóttur frá Hvoli. — Sigurður Sigurðsson studiosus, prestvígðist; fèkk kóngsbrèf fyrir Staðastað á Ölduhrygg. Hann giptist í Bræðratúngu 1680 Sigríði, dóttur Hákonar Gíslasonar, lögmanns, og Helgu Magnússdóttur, lögmanns, Björnssonar. — Guðríður Sigurðardóttir giptist . . . . — Hólmfríður Sigurðardóttir giptist 1680 Ólafi Jónssyni, skólameistara[1].

Sigurður Oddsson annar giptist Þórunni dóttur Jóns Vigfússonar, og Íngibjargar systur þeirra Helgu og Hólmfríðar. Þau bjuggu tvö eður þrjú ár í Hróarsholti í Flóa. Drukknaði Sigurður Oddsson í Ölvesá hjá Oddgeirshólum á ferju, og annar maður með honum anno 1617. Þórunn erfði tilgjöfina, og systur sínar báðar, og voru það miklar eignir. Sigurður Oddsson og Þórunn áttu eina dóttur, Hólmfríði. Hún giptist síra Jóni Arasyni í Vatnsfirði, sem hèlt Vatnsfjarðarstað eptir síra GíslaEinarsson[2].

Eiríkur Oddsson giptist fyrst Helgu, dóttur Guðmundar Guðmundssonar og Sigríðar Jónsdóttur, sem bjuggu í Bæ í Borgarfirði. Þau áttu þríbura; og dó hún svo af sængurför. Tvö börnin lifðu móður sína. Eitt var á lífi 1649; hèt Guðrún. Hún ólst upp í Öndverðarnesi og Stafholti, og giptist síðan Snorra handleggjastutt. Eiríkur giptist þar eptir Þorbjörgu, dóttur Bjarna Oddssonar á Bustarfelli [og Þórunnar Björnsdóttur[3]. Þau bjuggu á Fitjum[4], og átti Eiríkur þá jörð og aðrar fleiri í Borgarfirði. Þeirra börn: Oddur, Gísli, Helga. — Oddur Eiríksson bjó á Fitjum eptir föður sinn, því hann átti þá jörð. Hann giptist Setselju frá Arnarholti, dóttur Halldórs Helgasonar og Elízabetar Ísleifsdóttur. — Gísli Eiríksson var haltur í fæti, gekk við hækju, dó af brennivínsdrykk, að heyrzt

[1]) sbr. að framan II 604.

[2]) [b. v. 255. Um börn síra Jóns og Hólmfríðar sjá II 400.

[3]) [b. v. 255; sbr. II 386.

[4]) í Skoradal b. v. 255.

hefir; giptist ekki, dó barnlaus — að eg meina. — Helga Eiríksdóttir giptist síra Páli eldra Gunnarssyni á Gilsbakka.

Margrèt Oddsdóttir hèlt jómfrúrstètt, og bjó á sinni jörðu, Öndverðarnesi í Grímsnesi. Hún átti og Oddgeirshóla og fleiri jarðir.

Herra Oddur hafði og átt tvær laundætur, Kristínu og Bergljótu. Móðir Kristínar hèt Bergljót, en móðir Bergljótar Hallfríður (kennd Biskupsfríða); hún var þrígipt og átti börn.

Kristín laundóttir herra Odds giptist síra Lopti, syni síra Skapta Loptssonar og Hallvarar Eyjúlfsdóttur á Setbergi. Síra Loptur hafði siglt og framað sig. Hann hafði fyrst Miklaholt í nokkur ár, og fèkk síðan Setberg eptir föður sinn, og þar andaðist hann anno 1629. Þeirra börn: síra Jósep, Sigríður, Bergljót. — Síra Jósep átti fyrst barn ógiptur við Íngibjörgu Gísladóttur, þjónustu í Skálholti, fátækri konu. Það hèt Jón. Síðan giptist hann Sigríði, dóttur Ísleifs Eyjúlfssonar og Setselju Magnúsdóttur. Þeirra börn: Loptur, Björn, Skapti, Þorleifur[1], Setselja, Kristín. Loptur lærði í Skálholtsskóla, sigldi uppá studium, varð kirkjuprestur í Skálholti 1668 og þar um bil; komst síðan í galdramál og sigldi. — Sigríður Loptsdóttir ólst upp í Skálholti og giptist síra Jóni Ólafssyni, Jónssonar frá Svarfhóli í Laxárdal, og Íngibjargar Fúsadóttur. [Hann keypti Hjarðarholt í Stafholtstúngum, og fèkk síðan Hvammstað eptir síra Þorstein heitinn Tyrfíngsson. Þeirra dóttir Kristín, sem giptist Finni Sigurðssyni anno 1649. Þeirra börn: Þórður, Sigríðar tvær, Íngibjörg; item Steinþór, Sigurður, Kári.[2] — Bergljót Loptsdóttir giptist síra Vigfúsi Illhugasyni og Setselju Árnadóttur[3].

Bergljót, önnur laundóttir herra Odds biskups, giptist síra Brynjúlfi Bjarnasyni [í Hjarðarholti[4]. Þeirra börn: Jón, Kristín. — Jón Brynjúlfsson, [mikill blótkompán[5], giptist í Laxárdal Halldóru, dóttur Björns Þórðarsonar og Önnu Arnórs-

[1]) 255 bætir hèr við: „Ísleifur" (síðar undirstrykað).

[2]) [þ. v. 255 (börn síra Þorsteins eptir S. B. S.).

[3]) sjá að framan II 645; 255 sleppir af börnum þeirra Ragneiði, en hefir í staðinn (utanmáls): „Hallur, Ragnhildur".

[4]) [sl, 255, sem hèr hefir: „sonar síra Jóns Þorleifssonar í Gufudal".

[5]) þ. v. 255.

dóttur; bjuggu í Lángadal á Skógaströnd. Þeirra börn: tveir Birnir, Ásgeir, Bergljót. Björn eldri giptist Valgerði, dóttur Jóns Pèturssonar, í Brokey, fálkafángara. Björn ýngri lærði í Skálholtsskóla, var síðan nokkur ár sveinn hjá Magnúsi sál. Jónssyni í Miðhlíð, þar eptir hjá Mag. Brynjúlfi, sigldi síðan í England; giptist þar eptir austur dóttur Nikulásar Þormóðssonar á Kirkjubæjarklaustri. Ásgeir. Bergljót giptist Eiríki, syni síra Sigurðar í Miklaholti. — Kristín Brynjúlfsdóttir, sammædd Jóni, giptist Guðmundi syni Björns Guðmundssonar í Stóraskógi og Margrètar Bjarnardóttur, Sumarliðasonar. Guðmundur keypti Hundadal fremra, 40 hundruð, fyrir hálfan Stóraskóg. Þeirra börn: Snæbjörn, Nikulás, Bergljót, Sigríður.

7. Síra Sigurður Einarsson, bróðir herra Odds sammæddur; var fæddur 1562. Hann hèlt Breiðabólstað í Fljótshlíð. Hans kvinna var Íngunn, dóttir Jóns Ormssonar á Einarsstað og Þórunnar Gísladóttur. Bróðir Þórunnar var síra Gísli á Hrafnagili. Þeirra börn:

Síra Einar, síra Jón, Margrèt, síra Þórarinn, Þórunn.

Síra Sigurður andaðist 1626. 66 ára.

Seinni kvinna síra Sigurðar var Valgerður, dóttir Ólafs Helgasonar frá Búðarhvoli. Þeirra dætur: Þórunn, Íngunn.

Síra Þórarinn Sigurðsson var fyrst kirkjuprestur í Skálholti. Síðan fèkk hann Stað í Steingrímsfirði, og andaðist þar ógiptur og barnlaus.

Síra Einar Sigurðsson átti Helgu, dóttur Snorra Ásgeirssonar og Marínar Erasmusdóttur.[1]

Síra Jón Sigurðsson var fyrst skólameistari í Skálholti, með leyfi lögmannsins Gísla Þórðarsonar, því hann hafði útvegað kóngl. Majestatis brèf fyrir Skálholtsskóla handa Steindóri Gíslasyni, syni sínum, sem þá var studiosus utanlands. Hann var síðan Capellan á Breiðabólstað, og hèlt staðinn með föður sínum, síra Sigurði; giptist þar Guðrúnu Gísladóttur, Árnasonar fra Hlíðarenda, og Ragnhildar Guðmundardóttur. Voru honum talin eitt hundrað hundraða og tuttugu betur, anno 1610, en henni eitt hundrað hundraða. Þeirra börn: síra Magnús sigldi og stúderaði, og fèkk Breiðabólstað eptir föður sinn. Hann giptist Ragnhildi, dóttur sira Halldórs Daðasonar

[1]) sjá að framan II 648.

í Runa og Halldóru Einarsdóttur. Þeirra börn mörg: Jón, Björn, Guðrún, Íngunn, Kristín, Ragnhildur, Guðný, Auðbjörg[1]. — Elín Jónsdóttir (systir síra Magnúsar) giptist Birni, syni Páls Magnússonar í Teigi[2].

Síra Jón Sigurðsson giptist aptur Kristínu Teitsdóttur frá Gufudal og Þóru Torfadóttur. Þeirra dóttir: Guðrún, kvinna Magnúsar Þorsteinssonar[3]. Þriðja kvinna síra Jóns var Guðrún, dóttir Snorra Ásgeirssonar og Marínar[4]; áttu ekki barn.

Margrèt Sigurðardóttir var fyrst trúlofuð Jóni bónda Fúsasyni á Galtalæk[5], og andaðist hann í festum. Eptir það giptist hún síra Gísla Árnasyni[6]. Þriðji maður Margrètar var Jón, son Jóns Magnússonar á Núpi og Guðrúnar Jónsdóttur.

Þórunn Sigurðardóttir átti Eirík lögrèttumann, son Sigvalda Halldórssonar á Búlandi og Elenar Jónsdóttur. Þeirra börn: síra Þórarinn, síra Halldór, Bjarni, Þórunn, önnur Þórunn, Járngerður[7], Elen. Item launsonur Jón, vígður Capellan hjá síra Halldóri í Eydölum. — Síra Þórarinn Eiríksson sigldi og stúderaði utan, kom aptur og vígðist; fèkk Eydali, kom þar í illt órykti um kvennamál, missti síðan prestskapinn og sigldi aptur; var svo innskikkaður að komast yfir gamlar historíur híngað í landið með kóngsbrèfi, en útrètti lítið; sigldi svo í þriðja sinn. Hann hefir kveðið Kusavísur, þær fyrstu (að meinast). — Síra Halldór Eiríksson [var kirkjuprestur í Skálholti. Síðar fèkk hann[8] Eydalastað eptir Þórarinn bróður sinn. — Bjarni Eiríksson var Skálholts ráðsmaður, síðan lögrèttumaður. Hans kvinna Sigríður, dóttir Bjarna Oddssonar og Þórunnar Björnsdóttur frá Bustarfelli[9]; [giptist anno 1649[10]. — Þórunn eldri Eiríksdóttir. — Þórunn yngri Eiríksdóttir. — Járngerður

[1]) eptir 255; hið sama að nokkru leyti á öðrum stað í 254.
[2]) sbr. II 394.
[3]) sbr. II 394 II 644.
[4]) sbr. II 648.
[5]) sbr. II 399.
[6]) sjá að framan II 641.
[7]) Þorgerður 255.
[8]) [eptir 255.
[9]) sbr. II 386.
[10]) [b. v. 255.

Eiríksdóttir. — Elen Eiríksdóttir giptist Hjalta Pálssyni í Teigi, og var hans síðari kvinna[1]. Elen giptist aptur síra Gunnlaugi Sigurðssyni í Saurbæ, norður í Eyjafirði, og var hans þriðja kvinna. — Jón Eiríksson laungetinn.

8. Síra Gísli Einarsson, bróðir herra Odds (en ekki sammæddur) giptist Hróðnýju, dóttur Narfa Ormssonar, suður í Vík, og Guðrúnar Magnúsdóttur, systur Halls Magnússonar, skálds. Hann var fyrst skólameistari í Skálholti og fèkk Vatnsfjörð; skipti síðan þeim stað fyrir Stað á Reykjanesi. Þeirra börn:

Þórarinn, Ormur, Páll, Guðmundur, Eiríkur, síra Sigurður, Jón, Kristín, Helga, Guðný, Margrèt, Íngibjörg, Jóhanna, Herdís.

Þórarinn Gíslason giptist Svanborgu, dóttur Andrèsar á Melgraseyri, [Bjarnasonar og Valgerðar Halldórsdóttur. Þeirra barn: Bjarni[2].

Guðmundur Gíslason giptist Helgu Erasmusdóttur eptir Eirík Árnason frá Holti[3]. [Þar eptir giptist Guðmundur Guðrúnu, dóttur Einars Egilssonar úr Hreppum[4]. — Ormur Gíslason. — Páll Gíslason dó barnlaus.

Síra Sigurður Gíslason hafði fyrst Ögurþíngin vestra, fèkk síðan Stað í Grunnavík og giptist Margrètu Bjarnadóttur frá Selárdal[5].

Eiríkur giptist Arnfríði Jónsdóttur. Síðar átti Eiríkur Þuríði Brynjúlfsdóttur[6], hverja áður átt hafði Alexíus Sigurðsson.

Jón Gíslason átti Unni Grímsdóttur úr Sögundarfirði[7]. Þeirra börn: Grímur, Magnús.

Kristín Gísladóttir giptist síra Gunnlaugi Snorrasyni, [Ásgeirssonar, og Önnu Árnadóttur[8] á Stað á Reykjanesi. Þeirra börn þessi: Hannes Gunnlaugsson; átti launbörn eptir það úr

---

¹) sbr. II 394.

²) [eptir 255.

³) sjá að framan II 642.

⁴) [b. v. 255.

⁵) sjá að framan II 612.

⁶) leiðrètting (fyrir „Ísleifsdóttur") eptir því sem stendur á öðrum stað; Brynjúlfur faðir hennar var sonur Jóns í Hjarðardal og Íngunnar Brynjúlfsdóttur, prests, Halldórssonar; hálfbróðir Brynjúlfs var Torfi Jónsson, sýslumaður í Ísafjarðarsýslu.

⁷) þ. e. Súgandafirði. — ⁸) [b. v. 255.

skóla kom, stundaði síðan lækníngalærdóm, og tókst vel. Hann giptist ráðskonu sinni . . . . .; krenktist þar eptir. — Einar Gunnlaugsson giptist Rannveigu Jónsdóttur, Torfasonar úr Flatey. — Bjarni Gunnlaugsson á Margrètu Torfadóttur[1]. Þau búa á Arngerðareyri. — Anna Gunnlaugsdóttir . . . .[2].

Helga Gísladóttir, kvinna Lopts Árnasonar í Sælíngsdal, sú síðari meina eg. [Þeirra börn engin[3].

Jóhanna Gísladóttir átti Oddleif Gunnarsson; bjuggu á Hamralandi. — Guðný Gísladóttir. — Herdís Gísladóttir átti Þorleif Snæbjörnsson[4]. — Íngibjörg Gísladóttir . . . .

Margrèt Gísladóttir; [hana átti síra Eyjólfur Bjarnason. Hans móðir Guðríður Eyjólfsdóttir, systir Ísleifs í Saurbæ. Hans faðir var Bjarni, sonur síra Orms á Kálfatjörn[5].

9. Síra Ólafur Einarsson (bróðir herra Odds að faðerni), giptist Kristínu Stefánsdóttur frá Odda.[6] Síra Ólafur var vellærður maður og næst herra Oddi í bóklegum listum, og ekki síður (undanteknu í astronomia). Hann var og gott sálmaskáld, var skólameistari í Skálholti nokkur ár. Hann hèlt Kirkjubæ í Útmannasveit og var prófastur í Austfjörðum, og mætti opt þúngum freistíngum. Á hans síðustu árum varð hann sjónlaus, og þrjár hans dætur. Hans börn supra.[7]

Síra Jón Einarsson (hálfbróðir herra Odds) bjó á Hálsi[8] í Álptafirði. Hans kvinna hèt Guðrún, dóttir Árna Magnússonar og Guðrúnar Árnadottur[9]. Þau giptust 1612 í Skálholti. Þeirra barn Jón Búrmann[10], sem gaf próventu sína herra Brynjúlfi.

---

1) sbr. II 370.

2) 255 telur fjórða son, Sigurð að nafni.

3) [b. v. 255.

4) Snæbjörn var son síra Árna Jónssonar í Flatey.

5) [b. v. 255.

6) sbr. að framan II 640.

7) þ. e. áður talin; sjá II 640. Utanmáls stendur hèr í 255 um síra Stefán Ólafsson: „Síra Stefán stúderaði utanlands, vellærður maður og gott skáld; giptist Guðrúnu, dóttur Þorvalds Ólafssonar og Halldóru Jónsdóttur, ýngri, frá Auðbrekku. Þeirra börn: Þóra, Anna, Kristín, Ólafur studiosus".

8) þann. báðar bækurnar, en á víst að vera: Hofi.

9) sbr. II 372.

10) [.,þ. b. 2. Jón Búrmann og Guðrún. Þar eptir giptist síra Jón

Síra Höskuldur Einarsson (hálfbróðir herra Odds); hann hèlt Eydali austur eptir föður sinn. Hans kvinna var Úlfhildur, dóttir síra Þorvarðs. Þeirra börn: síra Eiríkur, síra Björn, síra Jón, Magnús, Eiríkur. — Síra Eiríkur Höskuldsson átti launbarn þá hann var í Skálholtsskóla 1630. Hann bjó á Hálsi. — Síra Björn Höskuldsson bjó á Reyðarvatni.

Eiríkur Einarsson, hálfbróðir herra Odds, andaðist úngur, barnlaus.

10. Setselja Einarsdóttir, samborin systir herra Odds, átti síra Hall í Bjarnanesi. Þeirra börn: Eiríkar tveir, Margrètar tvær, Hróðný — dóttir Hróðnýjar Guðríður, sem átti Eirík Magnússon, er bjó að Bót í Fljótdalshèraði. — Guttormur Hallsson var hertekinn og komst aptur í England og dó þar. — Börn Eiríks: Jón giptist dóttur Jóns Hallssonar, Guðrúnu. Þeirra börn 4. — Einar giptist dóttur Jóns thimis[1], Helgu. Þeirra börn 9. — Hallur giptist dóttur Páls Jónssonar. Þeirra börn 4. — Kristín giptist síra Sigfúsi Tómássyni frá Hálsi í Hnjóskadal: þeirra börn: Hróðný, giptist Ásmundi Ólafssyni; þeirra börn 9. Snjófríður giptist Þorláki Jónssyni; ekkert barn. Arndís, giptist Páli Höskuldssyni; þeirra börn 4. Sveinn, Ólafur, var í Skálholtsskóla 8 vetur. Síra Guttormur Sigfússon, var á Hólum 8 vetur. Jón. Ögmundur. Helga. Katrín, giptist Vilhjálmi Jónssyni. Þórunn. Ingibjörg. Snjófríður. Brettifa. Þrúður. — Margrèt önnur, Hallsdóttir, átti síra Jón Jónsson á Fellsmúla. Þeirra barn: Oddur.

Margrèt, önnur dóttir síra Einars Sigurðssonar[2], andaðist af barnsför anno 1605. Hennar maður var síra Árni Þorvarðsson á Stöðvarstað. [Þeirra barn: síra Þorvarður Árnason, faðir síra Árna Þorvarðarsonar á Þíngvöllum, prófasts[3].

11, Anna, dóttir síra Einars Sigurðssonar og Ólöfar Þórarinsdóttur, átti síra Ketil Ólafsson, son síra Ólafs Guðmundssonar, sálmaskáldsins, á Sauðanesi. Þeirra börn:

annari kvinnu" 255, en síðan hefir það verið undirstrykað, sem mismunar frá hinni bókinni.

[1]) þann. 254; thunis (eða thúnis) 255.

[2]) af þessu og af upptalníngunni á eptir mætti helzt ráða, að Margrèt hafi verið alsystir herra Odds og Setselju, þó sagt sè áður, að aðrar dætur síra Einars en Setselja hafi verið við hans seinni konu.

[3]) [b. v. (utanmáls) 255, eptir S. B. S.

Síra Eiríkur, síra Halldór[1].

Síra Eiríkur Ketilsson, vellærður og málsnotur, hèlt Vallanesstað, og átti Guðrúnu, dóttur Árna Magnússonar, sýslumanns, á Eyðum austur. Þeirra börn: Þorleifur, giptist dóttur Einars Magnússonar og Íngveldar Pètursdóttur. — Ketill. — Gísli. — Árni. — Jón. — Halldóra. — Ragnhildur, giptist syni Einars Magnússonar og Íngveldar Pètursdóttur. — Guðrún. — Ragnhildur.

Síra Halldór Ketilsson átti Guðrúnu Ormsdóttur frá Eyjum[2]. Þeirra börn: Ketill, Gísli, [Sigurður, Árni, Ólöf, Ragnheiður, Hólmfríður.

12. Sigríður Einarsdóttir, systir Önnu, var kvinna Bjarna silfursmiðs á Berunesi. Þeirra börn: síra Jón, síra Eiríkur, síra Sigurður, Margrèt. — Síra Jón Bjarnason í Bjarnanesi átti Guðrúnu Hjörleifsdóttur. Þeirra börn: Einar, Sigríður, Setselja, Margrèt, Anna. — Síra Eiríkur Bjarnason á Hallormsstöðum, í Fljótsdal á Austfjörðum, átti Þórdísi Hjörleifsdóttur, hver að hèlt Bjarnanes í Hornafirði. Þeirra börn: síra Einar, átti dóttur síra Ólafs Böðvarssonar, sem hèlt Saurbæ; Hjörleifur, Gunnar, Bjarni, Halldóra, Ólöf, Guðrún. — Síra Sigurður Bjarnason á Kálfafelli í Hornafirði átti [Ragnhildi, dóttur Árna Magnússonar á Hoylæk[4]. Þeirra barn Björn. — Margrèt Bjarnadóttir átti Björn, sem bjó á Borunesi, son Bjarna, almúgamann.

## Til föðurættar herra Odds heyrir þetta fólk:

13. Hans föðursystkin voru: Þorsteinn Sigurðsson, bróðir síra Einars, Hróðný Sigurðardóttir, Íngibjörg Sigurðardóttir, Guðný, Íngiríður, Íngveldur, Sigurðardætur[5].

Þorsteinn Sigurðsson átti tvo sonu, Jón og Sigurð. Sá Sigurður drukknaði á Grímseyjarsundi. — Jón Þorsteinsson;

---

[1]) milli sviga bætir 255 við utanmáls: „síra Guðmundur" (= síra Guðm. Ketilsson á Refstöðum í Vopnafirði?).

[2]) sbr. að framan II 643.

[3]) [þ. v. (à innfestum miða) 255 eptir S. B. S.; sbr. að fr. II 643.

[4]) [fyrir þetta hefir 255 fyrst haft: „dóttur síra Bjarna Gamalielssonar á Grenjaðarstað".

[5]) hèr bætir 255 við: „Allar þær giptust og áttu mörg börn, en fá hafa til menníngar komizt".

hans son síra Sigurður, sem hèlt fyrst Torfastaði hjá Skálholti, en síðar Miklaholt í Miklaholtshrepp. Hans kvinna Þóra Þórðardóttir. Þeirra börn: síra Jón, Eiríkur, Guðni, Ránka. Síra Jón bjó í Þúfu í Miklaholtshrepp, og átti Þorlaugu, dóttur Erlings Jónssonar í Hraunhöfn; þeirra börn: Eiríkur, Guðni, Ránka[1]. Eiríkur Sigurðsson giptist Bergljótu, dóttur Jóns Brynjúlfssonar í Lángadal á Skógaströnd og Halldóru Brynjúlfsdóttur. Guðni Sigurðsson. Ránka.

Hróðny Sigurðardóttir var í Grímsey og átti tvo menn; Ásmund son . . . . . Seinni maður Hróðnýjar var Eyjúlfur, þeirra son Ásmundur[2], hans son síra Eyjúlfur Ásmundsson, [búandi í Laugardal í Tálknafirði[3]; hans fyrri kvinna Brit Brynjúlfsdóttir[4], þeirra börn Jón, tvær Guðrúnar. Jón drukknaði í mannskaðabylnum 1665, ógiptur og barnlaus. Guðrún Eyjúlfsdóttir önnur, á Jón Aronsson í Tálknafirði. Guðrún hin, átti Torfa Úlfsson; bjuggu í Tálknafirði; þeirra börn: Jörundur, Guðmundur, Sigurður. Síðar átti síra Eyjúlfur Þórunni, dóttur Fúsa; þeirra börn þessi: Þorlákur Eyjúlfsson sigldi í England; Guðrún Eyjúlfsdóttir giptist Rafni, syni Ásmundar og Elenar; Brit Eyjúlfsdóttir giptist Halldóri Guðmundssyni, og Grímu Jónsdóttur, Greipssonar. — [Börn Eyjúlfs og Hróðnýjar voru og þessi: Jón, Guðbjörg, Kolfinna, Jófríður, Þorbjörg; hennar maður Jón Hallsson; bjuggu í Grímsey; þeirra börn: síra Eyjúlfur, sem var prestur á Lundi og átti Katrínu Einarsdóttur, Teitssonar og Höllu Sigurðardóttur; item Hallur og ein stúlka[5].

Íngibjörg[6] Sigurðardóttir . . . .

Guðný Sigurðardóttir átti Kára í Bárðardal. Þeirra börn; Sturli, Guðrún, Guðríður, — Sturli Kárason átti . . . . Þeirra börn: Jón, Guðrúnar tvær; Una laungetin. Jón Sturla-

---

[1]) [b. v. (utanmáls) 255 (virðist ekki geta verið upptekníng í ógáti nafnanna, sem á undan eru komin — og hèr í sömu utanmálsgreininni).

[2]) á öðrum stað er hann kallaður „Ásmundur í Grímsey".

[3]) [eptir 255, sem fyrst hefir haft „Arnarfirði vestra" fyrir Tálknafirði; hin hefir (rangt): „sem var prestur í Tálknafirði". Síra Eyjólfur (á Brjánslæk), hefir búið í Laugardal eptir það að hann misti prestinn.

[4]) systir Þuríðar Brynjólfsd.; sjá athugagrein II 669.

[5]) [b. v. (neðanmáls) 255.

[6]) „vestra" b. v. 255 (og síðar undirstrykað).

son átti Þóru, dóttur Jaspars úr Vestmannaeyjum. Hann átti tvö börn, annað skilgetið en annað laungetið. Guðrún Sturladóttir eldri átti Hallvarð Jónsson; þeirra börn: þrír Jónar, Sturli, Þorleifur, Þorbjörg. Guðrún Sturladóttir ýngri, ógipt; var barnfóstra í Stafholti. Una Sturladóttir átti Sölmund Jónsson í Sigluvík, almúgamann. Þeirra börn mörg: Stóri Símon, Guðbjörg, Jórunn, Katrín; hennar maður Jón Snorrason; bjó á Bjámusstöðum[1]; þeirra börn 9. — Guðrún Káradóttir átti eitt launbarn með Skúla Einarssyni, föður herra Þorláks; andaðist það.[2]

Íngveldur Sigurðardóttir; hennar bóndi Jón. Þau bjuggu í Fljótshlíð. Þeirra börn: Ólafur, Íngjaldur, Guðrún. — Ólafur Jónsson átti Gunnfríði Jónsdóttur. Þau bjuggu í Lambey, almúgamenn. Þeirra börn: Jón eldri Ólafsson, giptist Gróu Þórarinsdóttur; fátækir menn, áttu mörg börn. Jón ýngri Ólafsson átti Raunku Sigurðardóttur; bjuggu í Markarskarði, fátækir menn. Sigríður Ólafsdóttir átti tvo menn. Sá eini hèt Hallur Höskuldsson. Þeirra börn þrjú á lífi. Annar hennar maður hèt Jón Úlfsson, fátækur maður; bjó í Hvolhrepp. Guðrún Ólafsdóttir barnlaus, ógipt. Anna Ólafsdóttir ógipt; átti þrjú börn í frillulífi. Hún var í Njarðvík barnfóstra hjá Magnúsi Eiríkssyni. Hennar son á Leirá Hákon Bjarnason; Helga, Sunnefa. Guðríður Ólafsdóttir barnlaus. — Íngjaldur Jónsson átti Þórunni. Þau bjuggu í hjáleigu hjá Breiðabólstað. Þeira börn: Bjarni, Guðrún, Jón, Margrèt, Þorbjörg[3]. Bjarni átti barn; hèt Jón; giptist síðan; fátækur maður. Jón Íngjaldsson dó barnlaus. Þorbjörg og Margrèt barnlausar. Guðrún átti Einar Þorvaldsson (sem Jón Fúsason stakk í Ögri förðum); bjuggu í Neðradal. Þeirra börn: Jónar tveir, Magnús, Björn og ein dóttir. — Guðrún Jónsdóttir á Rúnka Erlendsson á Ormstöðum. Þeirra börn: Jónar tveir,

---

[1]) þann. báðar bækurnar.

[2]) í 255 hefir fyrst verið skrifað, að Guðríður Káradóttir hafi átt þetta barn, en síðar hefir verið breytt um og sett Guðrún fyrir Guðríður. Á undan er sagt: „Guðrún Káradóttir átti eina laundóttur; hèt Ásta. Maður Ástu var Stóre Brandur; þeirra börn mörg: Símon etc.“ Undir þetta hefir svo verið strykað um leið og nafninu var breytt — líkast til að gjöra allt samhljóða 254, en þar er Guðríðar eigi framar getið, en áður er komið.

[3]) „Þórun“ 254 (víst í ógáti).

Jörundur, Margrèt, Anna. (Þorsteinn þessári Björnsson or laungetinn sonur Guðrúnar), Jón eldri Rúnkason ógiptur.

[Íngiríður Sigurðardóttir . . . .[1]

## Til móðurættar herra Odds Einarssonar hlýða þessar eptirskrifaðar persónur:

14. Systur Margrètar Helgadóttur, sem var móðir herra Odds:

Eydís Helgadóttir, forstandug og guðhrædd dándiskvinna, átti heiðurlegan dánumann Jón lága | Ásgrímsson[2]. Hann átti Hóla í Öxnadal, og bjó þar fyrst. Eptir það var hann bryti í Skálholti, síðan í margt ár ráðsmaður fyrir Fjalls búi. Þeirra dætur: Anna, Þóra, Guðrún, Sigríður.

Anna Jónsdóttir átti síra Erlend Jónsson í Miðdal. Þeirra son síra Jón Etlendsson í Villíngaholti. Hann átti Steinvöru, dóttur Íngimundar Magnússonar, yfirbryta í Skálholti, sem og stundum var ráðsmaður fyrir Haukadals búi, einn knappur og trúr fyrirsjónarmaður. Börn síra Jóns Erlendssonar og Steinvarar: Erlendur, síra Gísli, Íngimundur, Jón, Þorsteinn, Snorri, Anna, Björg, Þórunn. — Erlendur Jónsson átti tvær konur. Sú fyrri var Björg Þorsteinsdóttir, Erlíngssonar, frá Gljúfurárholti. Hún andaðist barnlaus. Önnur hans kvinna var Kristín Kolbeinsdóttir frá Súlholti. Þeirra börn: Kolbeinn, Jón, Sigríðr, Anna. *Item* átti Erlendur eitt launbarn við Sigríði Valdadóttur; hèt Íngigerður, uppólst hjá síra Birni Stefánssyni. — Síra Gísli Jónsson í Villíngaholti giptist Ragneiði[3] Hákonardóttur, Bjarnarsonar, og Raunku Snæbjarnardóttur. — Anna Jónsdóttir giptist Gunnari Pèturssyni frá Kaldárholti. Þeirra börn: Pètur, Gunnlaugur. — Björg Jónsdóttir; hennar maður gæfulítill, launsonur Staðarhrauns-Jóns og Guðnýjar Bjarnadóttur Stattholdts, Nikulás að nafni, þeirra börn: Björg, Halldóra, Snorri. — Þórunn giptist Jóni Jonssyni, Björnssonar, frá Önundarholti. — Íngimundur. — Snorri sáladist 18 vetra barnlaus. — Þorsteinn.

Þóra Jónsdóttir og Eydísar átti síra Jón Jónsson, bróður

[1]) [sl. 254.

[2]) sbr. að framan II 661; á hèr að lesa: Jón, lága Ásgríms son?

[3]) sbr. II 384.

síra Erlends. Sá síra Jón hèlt Þíngvelli. Þeirra son Ketill, [bjó í Hvammi í Skoradal,[1] átti tvær konur; hans börn skilgetin .... Hans son laungetinn Ólafur[2].

Guðrún Jónsdóttir og Eydísar átti þrjá menn. Fyrsti var Ketill Halldórsson, sem bjó í Kaupángi norður. Þeirra dætur: Sigríður og Íngveldur. — Sigríður átti Halldór, son síra Jóns úr Miklagarði norður. Hann var lögrèttumaður og reppstjóri, og bjó í Auðsholti í Ölvesi. Þeirra börn: Ketill, Eydís. — Íngveldur Ketilsdóttir og Guðrúnar átti Jón Brandsson frá Sviðholti. Þeirra börn tvö, uppólust hjá síra Katli í Hvammi. — Annar maður Guðrúnar hèt Jörundur Hálfdanarsson; var bryti í Skálholti, og þar eptir bjuggu þau í Miðfelli og Efstadal. Þeirra son síra Ketill í Hvammi[3]. [Anna Jörundardóttir, kona Jóns Sigurðssonar, sem var í Káranesi[4]. — Þriði maður Guðrúnar Jónsdóttur var síra Ormur Þorvarðsson; áttu ekki börn.

Sigríður Jónsdóttir og Eydísar átti Jón Halldórsson í Kaupángi norður. Þeirra synir: Síra Halldór, fèkk Ferjubakka og þau þíng; átti fyrst Guðrúnu, [dóttur síra Guðmundar frá Stað á Reykjanesi og Halldóru Guðmundardóttur frá Hvoli[5]. Þeirra börn: Halldóra Halldórsdóttir; var kvinna Gísla Ólafssonar í Bæ í Breiðafjarðardölum. Sigríður Halldórsdóttir, Þóra Halldórsdóttir. Seinni kvinna síra Halldórs var Kristín Marteinsdóttir[6] frá Álptanesi; barnlaus. — Snorri Jónsson, smiður mikill, átti nokkur launbörn áður hann giptist: Jóna tvo; annar þeirra átti Þuríði, dóttur síra Salómons á Mosfelli; vígðist og hèlt þann stað. Annar giptist Þuríði, dóttur Jóns heitins Jónssonar, sem bjó lengi í Þorlákshöfn. Snorri Jónsson giptist Helgu Örnólfsdóttur. Þeirra börn: Kolbeinn, Jón, Hallfríður; hennar maður Sveinn Gíslason, sonur Gísla Brynjúlfssonar frá Ölversholti[7]. Gróa heitir og dóttir Snorra og Helgu. Laungetin

---

[1]) [b. v. 255.

[2]) [eptir 255 (á innfestu blaði, og með nýjari hendi; og hefir fyrst haft í aðalmálinu: „Ólafur Ketilsson laungetinn"); „Ólafur laungetinn sonur síra Jóns" 254 (rángt).

[3]) sbr. II 391 og 661.

[4]) [b. v. (utanmáls) 255.

[5]) [eptir 255.

[6]) Halldórssonar og Íngunnar, dóttur síra Jóns Egilssonar.

[7]) þann. báðar bækurnar.

dóttir Snorra Halldóra, giptist vestur. — Eyjólfur Jónsson, bróðir síra Halldórs og Snorra. — Guðmundur Jónsson.

15. Sigríður Helgadóttir átti Þorstein Rögnvaldsson, sem bjó á Skriðu í Hörgárdal; þau áttu 10 börn eptir sig. Þessi: Helgi, Þorvarður, Jón, Sigríður, Una, Íngunn; Guðrún; dóu öll barnlaus nema þessi, sem hèr eptir skrifuð eru.

Jón Þorsteinsson átti Sigríði .... Jón átti hjábarn við Hallberu, dóttur Þórðar halta, hèt Aldís, giptist Þorkeli Torfasyni frá Gilsbakka. Hann tók bæði fram hjá henni og kom í stórt klamarí, og bæði þau hjón.

Una Þorsteinsdóttir átti Arnkel Hallsson. Þeirra son Hallur, dó barnlaus. — Bjarni Arnkelsson, bjó á Laugum austur í Reppum, frómur maður. Hans kvinna hèt Hildur, norðlenzk. Þau áttu saman 10 dætur. — Guðrún, hennar maður Gísli Skæríngsson; búa í Háholti á Skeiðum. Þeirra barn Skæríngur. — Helga; hennar maður Jón Jónsson, ættaður úr Eystra-Repp. Þeirra börn: Jónar tveir, Sigurður. — Setselja; hennar maður Jón Clemusson; bjuggu í Jaðarkoti. Þeirra börn mörg: Clemens. — Marín; hennar maður ....

Guðrún Þorsteinsdóttir, átti Þorbjörn Árnason í Laugarási hjá Skálholti. Þeirra börn þessi: síra Gísli Þorbjarnarson, sem var í Villíngaholti og missti prestinn. Hans kvinna var Þórunn, dóttir síra Magnúsar Hróbjartssonar austan úr Holtum. Þeirra dætur þrjár[1] og einn son, Guðmundur. — Jón Þorbjarnarson bjó í Árbæ í Holtum; átti tvo syni og eina dóttur. Annar hans sonur átti dóttur Tumásar, á Skammbeinsstöðum var. Anna, hans dóttir, átti .... Þorsteinsson, bróður síra Jóns Þorsteinssonar í Dufþekju.

Íngunn Þorsteinsdóttir átti Illhuga, son síra Halls, sem hèlt Bjarnastaðahlíð. Þau bjuggu á Hallgrímsstöðum í Túngusveit. Þeirra börn: Magnús, Þuríður. — Magnús Illhugason, kallaður Miser, átti Ástu, dóttur síra Magnúsar Hróbjartssonar. Þeirra börn þessi: (1) Magnús; giptist Helgu Þorsteinsdóttur, Þórólfssonar, sem ólst upp í Bræðratúngu að forlagi frænda síns Hannesar Helgasonar; þeirra börn: Ólöf kvinna Styrs Þorvaldssonar, *item* Guðrún, vínglaðist, og Guðmundur etc.[1] (2) Illhugi; átti Katrínu.

[1]) „Tvær voru á Leirá, Guðrún og Þuríður; þriðja var gjörð upp á síra Sigurð og dó hjá honum" b. v. 255.

[1]) [b. v. (á innfestu aukablaði) 255, eptir síra Hannesi Björnss.

(3) Íngimundur; átti Guðrúnu Jónsdóttur.. (4) Filippus. (5) Íngibjörg; átti Jón, sem drukknaði í Hvítá. (6) Íngibjörg önnur; átti Gísla Ólafsson, son síra Ólafs Böðvarssonar í Saurbæ; [þeirra börn: Magnús, Anna, Elín; Magnús var fyrst undir- síðan yfir-bryti í Skálholti; hans kvinna Borghildur frá Hömrum Jónsdóttir, líka ráðsmanns, forðum yfirbryta, Jónssonar; þeirra börn: Grímur, Anna — giptist Guðmundi Eiríkssyni frá Litlaskarði, Jónssonar —, Elín, giptist Þorsteini Hallssyni, Þóroddssonar og Guðrúnar . . . . —, barnlaus[2]. (7) Ínga. (8) Þóra; átti Hermann Einarsson, Gestssonar. (9) Þorgerður; átti Jón Ólafsson ýngra, son síra Ólafs Böðvarssonar í Saurbæ; [þeirra börn: Magnús, Þórdís, Þorbjörg. Hennar Þorgerðar seinni maður var Jón Jónsson, Benediktssonar; þeirra börn: Valgerður, veiktist og dó ógipt, Elín tvígipt; fyrri maður Sigurður Ólafsson frá Morastöðum í Kjós; þeirra börn: Eyjólfur, Magnús. Seinni maður Elenar Guðmundur Gíslason, Gíslasonar (laungetins), Jónssonar prests að Hítardal, Guðmundssonar; þeirra börn Jón etc. eru fátæk orðin[3]. (10) Sigríður. — Þuríður Illhugadóttir.

16. Vigdís Helgadóttir átti Snorra, sem bjó á Þverá í Öxnadal. Þeirra börn: Þorsteinn, Sigríður, Margrèt[4]. — Þorsteinn Snorrason átti Margrètu. Þeirra börn: Arnes, Jón, Jörundur, Snorri; Ásgautur dó úngur; síra Eiríkur, tvær Vigdísar, Þorlaug[5]. Síra Eiríkur Þorsteinsson bjó á Krossi í Landeyjum. Arnes. Jón, kallaður Drauma-Jón. Jörundur. Snorri, skólagenginn, giptist. Vigdís átti Odd Ögmundsson á Skarði í Leirársveit. Vigdís önnur. Þollaug. Guðný varð sinnisveik. — Sigríður Snorradóttir átti Jón Bárðarson í Kaldaðarnesi. Þeirra börn: Álfur, Vigdís, Anna. — Margrèt Snorradóttir átti Símon Halldórsson í Austurhlíð. Þeirra börn: Hermann, Halldór [báðir barnlausir[6], Eyjólfur; hans börn: Torfi . . .. .

Steinunn Helgadóttir . . . .

Síra Ólafur Jónsson, kirkjuprestur á Hóli í Bolungarvík . . . .

---

[2]) [þ. v. (á aukablaðinu) 255, eptir síra H. B. S.

[3]) [þ. v. (á innfestu aukablaði) 255, eptir síra H. B. S.

[4]) sbr. að framan II 662.

[5]) fleiri ekki talin hèr, þó Guðnýjar sè minnzt rètt á eptir; sbr. II 662.

[6]) [þ. v. 255.

## Um herra Ólaf Hjaltason, biskup á Hólum[1].

Þá síra Sigurður Jónsson á Grenjaðarstað sigldi vegna föður síns, fengu þeir honum síra Ólaf Hjaltason, því hann var vel talandi og framur maður. Faðir hans hafði verið hríngíngamaður á Hólum, sumir segja járnsmiður; ekki var sá góði herra af hærri stigum, og ólst þar upp, og varð síðan capellan biskups Jóns, og fèkk eptir það Laufás, og var vel skiljandi Latínu og sló opt Priscianum. Þar fyrir norðan kom hann fyrst með Evangelium, og fór með í hljóði, en lagði út sálma og annað gott. En strax sem það kom upp, varð hann að rýma af Laufási og sigldi og kom út með biskupsdæmið á sama ári sem stríðsskipin komu, því kóngurinn hafði skipað fyrst að setja hann inn. Þó meinast hann hafi siglt út aptur með stríðsskipunum, og tekið vígslu, því ekki er hans getið í Crymogæa fyrr en anno 1553, og svo stendur í Annálunum, hann hafi komið með biskupsdæmið út og nýja siði fyrir norðan anno 1553. Hann sór fyrstur uppá þá dönsku Ordinantíu, og tók af marga ósiðu og villuhjátrú páfadómsins fyrir norðan, en framfylgði hreinu og kláru Guðs orði og sakramentum eptir Lutheri lærdómi. Hann innsetti og í öllum kirkjum messusaunginn, sem enn er tíðkaður. Hann lèt út gánga nýja sálma og guðspjallabækur og catechismum Lutheri og handbækur prestanna. XVI ár, eður þar um bil hèlt hann stólinn. Hans kvinna var Sigríður Sigurðardóttir; og andadist hann á Þorra anno 1569 (sumir skrifa 1568) *dominica secunda post epiphanias* um messutímann, meðan guðspjallið var lesið. Hann var vanur að halda mikið til þess dags, um brúðkaupið í Cana, og gjöra vinaveizlu. Hann hafði einatt verið kránkur um veturinn framan til, en lá ekki lengi — þrjár vikur, eða svo.

Sigríður Sigurðardóttir fèll fram hjá herra Ólafi með Bjarna

---

[1]) þessi ritgjörð er tekin eptir sömu bókinni (254, bl. 283—284), sem ritgjörðirnar á undan, og borin saman við 255, bls. 69—70.

syni Sturlu, og bar það fyrir sig, að biskup yrði sèr ekki að manni. Hann hafði haldið við hana áður en hann varð biskup. Sagt er, að í hans framsiglíng, sem hann kom í Noreg, hafi hann lofað eiginorði einni ekkju þar, en hann enti það ekki; og er það sagt, að sú hafi af einum Finni fengið, að gjöra biskupi glettíngar, svo hann væri síður til kvenna, og þá fèkk hann lífsýkina, sem honum ávallt fylgdi.

Eptir afgáng herra Ólafs var presta samfundur á Hólum. Var þá síra Sigurður Jónsson á Grenjaðarstöðum útvalinn til Officialis-embættis og að sjá fyrir staðnum; og vildu sumir kjósa hann, en sumir síra Björn Gíslason, til biskups. Síra Guðbrandur Þorláksson var þá utanlands, en á því sama sumri, eptir afgáng herra Ólafs, kom hann út á höfuðsmannsskipinu. Þar komu og út fleiri íslenzkir undir eins. Herra Guðbrandur sigldi sama sumar eptir biskupsvígslunni. Páll Jónsson, Jón Marteinsson og Jón Jónsson, sem varð lögmaður, komu út undir eins; líka Árni bóndi Gíslason. Höfuðsmaðurinn var Christoffor Walkendorf.

Sonur herra Ólafs var Hjalti prestur, sem hèlt Fagranes á Reykjaströnd. Síra Hjalti drukknaði á Skagafirði anno 1587, Þorláksmessu fyrir jól. Hans son Sigurður; hans kvinna var . . . . — Snorri nokkur á Reykjaströnd. Hans kvinna Þórunn . . , . — Íngibjörg; hennar maður Jón Jónsson. Herra Guðbrandur ól hann upp, og bjó síðan á Bjarnastöðum í Kolbeinsdal. Þeirra börn: Hjalti og Þorleifur. Hjalti var skólagenginn og sigldi; fór síðan vistum í Austfjörðu[1] og bróðir hans[2].

---

[1]) misritað „Austfjörður" 254; Austfjörðum 255.

[2]) Þorleifur b. v. 255.

# ÞÁTTUR

# UM HERRA GUÐBRAND ÞORLÁKSSON,

## BISKUP A HÓLUM OG HANS ÆTTMENN.

## Um herra Guðbrand þorláksson[1].

### Föðurætt herra Guðbrands.

1. Fyrst var Sveinbjörn, prestur á Múlastað, 50 barna faðir. Skrifað finnst, að móðir þessa Sveinbjarnar hafi heitið Þórdís, dóttir Finnboga gamla, og Þórunn hafi og verið systir Þórdísar, einnin dóttir þessa gamla Finnboga, hver eð skrifast verið hafi móðir Brands og Finnboga, lögmanna.

Hallgrímur var Sveinbjarnarson (einn af mörgum), sem átti [Guðnýju Sveinbjarnardóttur]. Þeirra börn:

Síra Gamaliel, síra Þorlákur, síra Gizur, síra Einar, síra Þorkell, Guðmundur, Guðný.

Síra Gamaliels börn þessi: síra Bjarni Gamlason hèlt Grenjaðarstað. Hann hafði studerað utanlands, og líka var hann skólameistari á Hólum. Hans börn: Sigríður, seinni kvinna síra Arngríms Jónssonar. Þeirra börn: síra Þorkell, síra Þorlákur, síra Bjarni, Guðbrandur, Solveig, Íngibjörg, Hildur. Síra Þorkell sigldi, var lengi utan, hèlt síðan Garða stað á Álptanesi; hans kvinna Margrèt, dóttir síra Þorsteins Jónssonar og Solveigar Ísleifsdóttur fra Holtsstað undir Eyjafjöllum. [Þeirra börn: Þórður, síra Jón, Arngrímur, Guðrún; Þórður var nokkur ár skólameistari í Skálholti; síra Jón kirkjuprestur í Skálholti; Arngrímur, Guðrún giptist síra Árna Þorvarðssyni á Þíngvöllum; þeirra barn Þorkell[2]. Síra Þorlákur hèlt Staðarbakka í Miðfirði; hans kvinna Björg Jónsdóttir[3]; [þeirra börn: Rannveig, Íngibjörg; hún giptist Ívari Ásgrímssyni, en Rannveig giptist Þorvaldi Ólafssyni á Lækjamóti[4]. Síra Bjarni var locator á Hólum 1661 og 1662, vígðist, fèkk Höskuldsstaði á

[1]) Eptir sömu bókinni, og rítgjörðirnar á undan, 254, bl. 210—224, og samanburður hafður á sama hátt og áður við 255, bls. 145 - 156, en sumt tekið til fyllíngar og leiðrèttingar úr þeirri bók og frá þeim stöðum í hinni, sem til er vísað.

[2]) [b. v. 255, eptir S. B. S.

[3]) sjá II 373.

[4]) [b. v. 255.

Skagaströnd; hans kvinna Setselja frá Breiðabólstað í Vesturhópi, Þorvarðsdóttir Ólafssonar[1]. Guðbrandur lærði og í Hólaskóla nokkur ár, fèkk síðan hálfa Húnavatnssýslu[2]; [hans kvinna Ragneiður, dóttir Jóns Egilssonar og Sigríðar Jónsdóttur frá Skarði í Lángadal; þeirra barn Þorlákur[3]. Solveig Árngrímsdóttir; hennar maður Jón, sonur Jóns Árnasonar silfursmiðs frá Narfeyri [og Þórunnar Pètursdóttur; þeirra börn: síra Jón, Ólafur, Guðrún, Kristín, Málfríður, Þórunn; Gunnar og Arngrímur önduðust úngir; síra Jón átti eina laundóttur áður hann vígðist — heitir Hallfríður —, en giptist Þuríði dóttur síra Ásmundar Eyjólfssonar á Breiðabólstað og Guðrúnar Jónsdóttur. — Þeirra barn Ásgeir; Ólafur; Kristín átti barn við Þórði Hannessyni í Snóksdal — það dó úngt; hennar maður Hannes sonur Ásmundar Árnasonar í Hraundal[4]. Íngibjörg Arngrímsdóttir; hennar maður Gísli eldri, sonur Jóns Halldórssonar og Guðnýjar Eyjólfsdóttur; [þeirra börn: Arngrímur, Jón[5]. Hildur Arngrímsdóttur [giptist Jóni í Víðidalstúngu Þorlákssyni, Pálssonar, Guðbrandssonar; þeirra börn: Páll, skólagenginn, sigldi, varð skólameistari í Skálholti 1690, Kristín, kvinna síra Jóns Magnússonar í Hjarðarholti, Sigríður[6]. — Halldóra Gamalielsdóttir. — Þorkell Gamlason (hjábarn síra Gamla)[7] átti Sæunni. Þeirra börn þessi: Þórlakur Þorkelsson, studiosus; vígðist utanlands, og giptist bakaradóttur; andaðist þar síðan. Guðrún Þorkelsdóttir, átti síra Þorberg Ásmundsson, kirkjuprest á Hólum; (þeirra barn Helga, átti síra Gunnlaug Sigurðsson)[8].

---

[1]) [þetta á innfestum miða í 255 og með nýjari hendi, eptir síra Hannesi Björnssyni; 254 hefir hèrumbil hið sama (en „Holtastað í Húnavatnsþingi" fyrir „Höskuldsst. á Skagastr.").

[2]) [þann. 254; hin hefir í aðalmálinu (textanum): „var nokkur ár sýslumaður í Húnavatnsþíngi", og á innfesta miðanum eptir síra H. B. S.: „hafði nokkur ár hálfa Húnavatnssýslu og komst um síðir frá þeirri ábyrgð".

[3]) [b. v. 255.

[4]) [b. v. 255.

[5]) [b. v. 255.

[6]) [b. v. 255.

[7]) framar í bókinni kallaður: Hóla ráðsmaður.

[8]) [b. v. 255. Síra Gunnl. var prestur í Saurbæ í Eyjafirði; framar

Guðný Hallgrímsdóttir var móðir síra Þorláks Ívarssonar, sem hèlt Eydali. Af henni er kominn Jón Þorláksson, austfiruzkr, búandi í Raknadal í Patreksfirði. Einnin Konráður Þorláksson flakkari, mjúkmæltur maður. Síra Gizur Hallgrímsson hèlt Staðarbakka í Miðfirði. Hans börn: tveir síra Jónar, Pètur. — Síra Jón eldri hèlt Múlastað norður. Hans kvinna Margrèt Ólafsdóttir, Einarssonar, frá Kirkjubæ[1]. — Síra Jón ýngri hèlt Staðarbakka. Hann átti Guðrúnu Andrèsdóttur frá Fjósum. — Síra Pètur Gizursson.

Síra Einar Hallgrímsson hèlt Útskálastað, og átti Þóru Eyvindardóttur. Þeirra börn: síra Guðmundur Einarsson á Staðastað. Hans kvinna Elen Sigurðardóttir[2]. — Síra Bergsveinn á Útskálum. — Síra Þorsteinn Einarsson á Mosfelli, laungetinn, átti Guðrúnu Þorsteinsdóttur. — Halldóra Einarsdottir; átti Árna Magnússon, smið, í Njarðvík. Þeirra barn: Hallgrímur. — Guðný Einarsdóttir; átti fyrst Jón Halldórsson. Þeirra börn: Guðmundur, Ránka, kona Jóns Ólafssonar . . . . Þorbjörg, kvinna Sigmundar . . . . Guðný giptist aptur Helga Torfasyni í Höfn, og áttu þau ekkert barn.

Síra Þorkell Hallgrímsson; hans son síra Oddur Þorkelsson á Hofi í Vopnafirði, sem átti Íngibjörgu Fúsadóttur eptir síra Bjarna Finnbogason. Þeirra börn: Bjarni Oddsson á Hofi, sem átti Þórunni Björnsdóttur[3], og Margrèt Oddsdóttir[4]. — Ólafur í Krossavík, var og annar sonur síra Þorkels Hallgrímssonar, sem átti . . . . . Þeirra börn: Jón, Þorlákur, Ólafur, Þorkell, Íngibjörg. Jón locator Ólafsson fór til Grænlands á kóngskipum anno . . . . Hann andaðist utanlands, vellærður, og skrifari kostulegur. Þorlákur Ólafsson, stúdent, dó utanlands, líka vel kominn í lærdómi. Síra Ólafur Ólafsson hèlt fyrst Grímstúngur; átti Guðrúnu Jónsdóttur, sem átt hafði síra Ólafur Halldórsson; en þau áttu ekki börn. Síra Ólafur fèll fram hjá, og

---

254 eru nefnd börn þeirra: Þorlákur, Þorsteinn, Sigurður, og sagt að þeir Þorsteinn og Sigurður hafi lært í Hólaskóla — hinn fyrri „í miklum mótlætíngum" og hinn „í sama atlæti".

[1]) sbr. að framan II 640.

[2]) Jónssonar, klausturhaldara á Reyninesstað.

[3]) sbr. II 386.

[4]) sbr. II 385.

missti prest og stað, því brotið var þúngt í skyldsemis sifjum. Þorkell Ólafsson í Njarðvík, góð byssuskytta, einsýnn, átti Önnu dóttur Páls skýttu; þeirra börn: [Efert; hann andaður; Þuríður dylja, kvinna Filippusar Grímssonar; þeirra börn: Henrik, Sölmundur, Anna[1]. Ingibjörg Ólafsdóttir átti Grím smið Eiríksson í Kolbeinsdal búanda, síðast í Víðivík; þeirra barn Þorlákur.

Guðmundur Hallgrímsson í Gröf. Hans kvinna . . . . . Þeirra börn þessi: Hallgrímur Gvöndsson; átti Halldóru Pètursdóttur, Magnússonar, og Elenar Björnsdóttur[2]. Þeirra dóttir Málfríður, sem átti Jón heitinn Halldórsson, og dó barnlaus[3]. — Pètur Gvöndsson, skynsemdarlítill en þó guðrækinn. Hann sofnaði bak til við múrinn á Hólum, er hann var að lesa Eintal sálarinnar. Hann var þá veizlukarl á Hólum og klukkari. Hans kvinna Solveig. Síra Hallgrímur Pètursson (hans son) hèlt Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, hjartnæmur prædicant, og mjúkt sálmaskáld. Hans kvinna Guðríður Símonardóttir, hver hertekin var af Tyrkjum og útleyst með öðrum anno 16 . . . [Þau eiga tvö börn á lífi; Guðmundur krenktist og dó barnlaus; Eyjólfur; hans kvinna Þóra, dóttir Guðmundar Narfasonar og Guðrúnar Ormsdóttur frá Hálsi í Kjós[4]. — Steinn Gvöndsson dó í bólunni. — Þorbjörg Gvöndardóttir, kvinna síra Jóns Sveinssonar í Holti í Önundarfirði. Þeirra börn: Síra Jón, Ólafur. Síra Jón Jónsson hèlt Holtsstað eptir föður sinn. Hann andaðist litlu fyrir fardaga 1680 í Reykjarfirði; var hann þar kominn í arfaskipti vegna kvinnu sinnar Halldóru, dóttur Jóns Magnússonar og Ástríðar Gísladóttur, eptir Gísla sál. Jónsson. Þeirra einberni Ástríður, sem var kvinna Magnúsar í Ögri. Ólafur Jónsson. — Sigfús[5] í Eyjafirði . . . . Þeirra börn: Guðmundur, sem Guðmundur Hákonarson kom í England með Seth, en síra Þorlákur helt Glæsibæ; [síra Þórður Myrká[6].

Síra Þorlákur Hallgrímsson, faðir herra Guðbrands og Þórðar á Marðarnúpi, hèlt Staðarbakka í Miðfirði um fjögur

---

[1]) [eptir 255.

[2]) sbr. II 393.

[3]) b. v. 255.

[4]) b. v. 255.

[5]) „Vigfús" báðar bækurnar (rángt)

[6]) b. v. 255.

ár, fór síðan til Þingeyra, og var þar kirkjuprestur um átta ár. Þá hèlt klaustrið Helgi ábóti.

## Móðurætt herra Guðbrands Þorlákssonar.

2. Solveigu Þorleiftdóttur og Vatnsfjarðar-Kristínar[1], systur Björns ríka, er fyrst að telja, hver eð átti Orm, launson Lopts ríka. Solveig átti tvö launbörn við síra Sigmundi Steinsþórssyni: Jón og Bergljótu. Ásgrímur var og Sigmundarson, bróðir Jóns, sem veginn var í Víðidalstúngu, er hann varði líf bróður síns og sitt. Guðrún Sigmundardóttir var og hans systir. Hennar son var Þorkell Snorrason; dóttir Þorkels var Þóra á Sævarlandi.

Jón Sigmundsson, kallaður Solveigarson, var lögmaður fyri norðan og vestan, 1512, og átti mótdrægt við biskup Gottskálk á Hólum. Jón átti þá kvinnu, er Björg hèt, dóttur Þorvalds bónda á Móbergi; hans son var Jón Þorvaldsson, ábóti á Þíngeyrum, báðir óðalbornir í Húnavatnsþíngi. Hústrú Solveig gaf launbörnum sínum, Jóni og Bergljótu, fjórðungsgjöf og tíundargjöf úr sínum peníngum, föstum og lausum, fríðum og ófríðum, anno 1461. Jóni gaf hún Auðunarstaði í Víðidal, en Bergljótu Reykjafjörð í Vatnsfjarðarkirkjusókn. Börn Jóns og Bjargar voru þessi:

Helga, Guðrún, Vilborg, Einar.

Helga giptist fyrst Kráki Hallvarðssyni, og bjuggu þau á Auðunarstöðum. Hann drukknaði í Víðidalsár fljóti, er hann fór til veiðiskapar. Þeirra börn: síra Jóns Kráksson, sem hèlt Garðastað suður, faðir síra Ólafs og Margrètar, kvinnu Gísla Hákonarsonar lögmanns. — Björg Kráksdóttir, sem giptist síra Erlendi Pálssyni, Grímssonar af Möðruvallaætt. Þeirra börn: síra Ólafur Erlendsson á Breiðabólstað í Vesturhópi. Þuríður Erlendsdóttir, kvinna Teits Björnssonar, biskupssonar[2].

Guðrún, systir Helgu, giptist Joní Hallvarðssyni, bróður Kráks. Hann drukknaði ásamt bróður sínum í Víðidalsá. Hans sonur Jón, faðir síra Arngríms[3].

---

[1]) [b. v. 255.

[2]) sbr. II 373.

[3]) þ. e. Arngríms lærða Jónssonar. Um hann stendur litið framar í 254: „Síra Arngrímur Jónsson, vellærðnr maður, og af bókagjörð og

Helga Jónsdóttir, fyrir ofan skrifuð, giptist aptur síra Þorláki Hallgrímssyni. Hann hèlt allra fyrst Stað í Hrútafirði, og hafði þar með Eyri í Bitru. Síðan fèkk hann Staðarbakka, sem fyrir ofan segir. Þeirra synir: herra Guðbrandur og Þórður á Marðarnúpi. — Vilborg, systir Helgu var svo sem rænulaus og með fásinnu; var kölluð saungva-Borga. Hún átti barn við einum dreng; hèt það Guðrún Nikulásdóttir. Þessi Borga varð úti í fjúki um veturinn nærri Víðidalstúngu, milli Hrísa og Fitja er sagt.

3. Herra Guðbrandur Þórláksson var fæddur anno Christi 1542 á því Beneficio Staðarbakka í Miðfirði. Hann ólst þar upp hjá foreldrum sínum, og lærði vel sín kristileg fræði, til þess hann var 12 eður 14 vetra. Þá var hann sendur til Hóla (11 vetra segja annálar, og var þar þá danskur skólameistari, er út kom með Olafi biskupi Hjaltasyni sama ár); og þó hann væri tornæmur, þá var hann þó skarpvitur og skilníngsgóður, sem raun gaf vitni síðar. Hann sigldi og stúderaði utanlands, þó ekki nema þrjú eður nærri fjögur ár. [Hann sigldi (segja annálar) anno 1561, en prestvígðist árinu áður 19 vetra af Ólafi biskupi, og var þar locator það ár. Sigldi hann á Patreksfirði, kom út anno 1566 á kóngsskipinu í Seilunni, og var skólameistari í Skálholti um þrjú ár. Anno 1566 var honum veittur Breiðabólstaður í Vesturhópi; fór eigi þángað fyrr enn síra Jón Matthíasson dó.[1] Skömmu þar eptir andaðist

skrifi velkenndur utanlands og innan. Hann var tvysvar skólameistari á Hólum og sigldi bæði fyrir og eptir. Hann var og svo sem meðhjálpari herra Guðbrands í hans aldurdómi, og var prestur á Miklabæ í Skagafirði nokkur ár, úr því hann flutti sig frá jörðu sinni Ökrum í Skagafirði. Hann fèkk sjö jarðir af Hólastaðarjörðum til rentu og undirholdníngar. Þar með hafði hann Melstað í Miðfirði, og bjó þar fyrst, og seinast í elli sinni, og þar andaðist hann 1647".

[1] [Það sem hèr svarar til i 255 er þetta: „Svo varð hann skólameistari í Skálholti anno 1565 (en árinu fyrri kom hann út á kóngsskipinu í Seilunni), í tvö eða þrjú ár síðan locator á Hólum og skólameistari. Eptir það vígðist hann til prests, og fèkk hann þá Breiðabólstað í Vesturhópi; hafði hann þá ei meira enn sex um tvítugt". Sumt kann hèr að vera rèttara; en hvorugri bókinni ber saman við „Prestatal og Prófasta" síra Sveins, þar sem sagt er, að Guðbrandur hafi vígzt 1567 og fengið það ár Breiðabólstað.

herra Ólafur Hjaltason. Var þá síra Sigurður (sonur biskups Jóns) á Grenjaðarstöðum kosinn, og var það kosníngarbrèf innsiglað af 24 prestum, en sumir prestar kusu þá síra Björn Gíslason, en enginn lagði þá þar til herra Guðbrands. En kóng Friderich II skikkaði boð eptir honum, og svo var herra Guðbrandur kallaður til biskupsdæmisins anno 1570, og var hann þá 28 ára gamall, en rètt þrítugur, þá hann giptist Halldóru, dóttur Árna bónda Gíslasonar á Hlíðarenda og Guðrúnar Sæmundardóttur. Þau voru saman 13 ár eður 14. Hún andaðist af sængurför um haustið anno 1585. Fèkk hún fyrst nokkur þrengsl í kverkarnar á mánudagsnóttina fyrir Mikaelismessu, og þýngdi henni svo meir og meir, en var þó á ferli þriðjudaginn, þó með litlu máli. En á miðvikudaginn lá hún, og hafði þá ekkert mál, en hún skrifaði með krít það sem hún vildi vora láta, bæði, hvað stúlkurnar skyldu láta til borðs Mikaelismessu, sem þá var á fimmtudegi, og svo um hvað annað. Þar var þá ráðsmaðurinn Gunnar bóndi Gíslason, því hann setti í fóður, eptir vanda, á þeim dögum. En á Mikaelismessu sjálfa tók hún eðlilega lèttasótt — það var á fimmtudagskvöldið — og varð lèttari nóttina eptir. Var það stúlkubarn, sem hún fæddi, og hèt Sigríður, eptir Sigríði Einarsdóttur, sem var á Múkaþverá, og lifði það barn þrjár nætur. Hafði Halldóra heitin haft nokkuð mál á milli hríðanna, en strax sem barnið var til komið, dró af henni málið aptur, og andaðist hún um morguninn eptir (það var föstudaginn). Stóð líkið uppi þrjár nætur, og var sett niður mánudag; fór svo bæði barnið og hún í eina gröf. Epitaphium eður yfirskrift hennar grafar: „Mitt hold hvílist í voninni". Halldóra heitin hafði átján um tvítugt, þá hún andaðist. Helga Jónsdóttir á Holtastöðum var þá 18 vetra, Steinunn Guðbrandsdóttir 13; hún andaðist 1649; Halldóru Guðbrandsdóttir 11 vetra, eður þar um; Kristín 9 vetra; Páll . . . . .

4. Anno 1571 suppliceraði herra Guðbrandur fyrst fyrir presta í sínu biskupsdæmi, sem ekki höfðu nóga rentu og uppheldi, og fèkk náðugt brèf, að árlega skyldi kóngl. majestets lènsmaður gefa af kóngsins rentu og skatti til fátækra presta 100 dali fyrir norðan, en 200 dali fyrir sunnan, og kaus herra Guðbrandur sèr árlega dalagjald til að útbýta þeim á meðal sinna presta. En herra Gísli Jónsson kaus sínum prestum

jarðir til ábýlis, svo sem enn er í Borgarfirði, Hestur, Ferjubakki, Þæfusteinn í Neshrepp, Litli Múli í Saurbæ etc., hvað allt verið hafa áður kóngsjarðir. Þetta prestatillag varð herra Guðbrandur að áfrýja optar en einu sinni, því at höfuðsmaðurinn Jóhann Bochollt vildi treglega láta þetta úti, þó það skerti kóngshlutann og ekki hans. Því voru út gefin þrjú kóngsbrèf um sama prestatillag, eitt Frideriksburgi 28. aprilis anno 1571, annað 1573 datum Scandeburgi, þriðja anno 1575. Og af þessu kom það mikla hatur, sem Jóhann Bochollt fèkk og hafði á biskupinum og prestum hans fyrir norðan, svo þó hann ætti málaferli að sækja eða verja á alþíngi, þá var því fyrir honum traðkað. Opt nefndur herra Guðbrandur var líka rægður og ófrægður hjá æðra valdi í Danmörk, svo sem það brèf var fullt af, sem Jóhann Bochollt dirfðist að bera fram fyrir regerendisherrana anno 1593, til brixla og fordjörfunar, bæði biskupinum og prestunum, þar Jóhanni var tilsagt að gefa þeim vitnisburð. Og sama þokka og hugarþel fengu þeir veraldlegu sumir, einkum Jón lögmaður og aðrir vinir Jóhanns Bochollts, til herra Guðbrands.

Að auk þessa árlega tillags prestanna af kóngl. náðar hendi, þá unti og veitti herra Guðbrandur þeim nokkuð líka af sínu, eður biskupsstólsins árlegri rentu, og gaf þeim til frí ábýlis og nota þessa staði, sem áður heyrðu til Hóla biskupsstól: Ríp, Myrká, Kúlu, Miklabæ, Eyjardalsá, Arnarvatn. Og svo að engi biskup, sem eptir hann kæmi til Hóla, kynni að svipta af kennidóminum sínum þessum veitíngastöðum, þá útvegaði greindur herra Guðbrandur kóngsbrèf uppá þessa staða aflagníng og prestanot.

5. Anno 1573 suppliceraði herra Guðbrandur á móti Íslendínga samþykt, þeirri, að engi íslenzkur skyldi mega sigla út af landinu utan með höfðíngjanna samþykki, etc. Þar á mót kom kóngsbrèf, að sèrhverjum frómum manni skyldi vera frítt að sigla út, datum Scandeburgi 20. Martii anno [1573] 1 .... Anno 1576 kom út kóngsbrèf uppá undirrèttíng og áfýsi herra Guðbrands, að allir stórbrotamenn skyldi taka lausn á dómkirkjunni fyrir biskupi, og þar skyldu prófastarnir um sjá, en sú skikkun stóð ekki lengi, því aðrir suppliceruðu til regerendisherranna, og klöguðu, það væri of þúngt iðrandi fátækum sakamönnum. Því gáfu þeir inn það brèf anno 1594, að sèr-

hver skyldi afleysast í sinni sókn, utan þar stórsyndir og glæpir væri fyrir höndum. Þá skyldi hver sóknarprestur ráðgast þar um við sinn prófast eða biskup.

Eg meina og, að herra Guðbrandur hafi með sinni supplicatiu útvegað kóngs Frideriks brèf um tíundir, að gjaldast skuli prestum af öllum jörðum, svo kóngs sem kirkna. Það er daterað 1575. Og ekki verður í stuttu máli upptalið það gagn og góða, sem herra Guðbrandur sálugi hefir sumpart sjálfur gjört, sumpart útvegað sínu föðurlandi.

6. Sèrlegast er það, að hann hóf hèr upp algerða prentsmiðju, og lèt svo á íslenzku útgánga margar góðar lærdómsbækur, fáfróðum almúga til stórs gagns og undirvísunar, einkum þá íslenzku Biblíu, hverja menn kunnu ekki áður að fá nè kaupa í sínu móðurmáli. Vel var hèr áður fyrir hans daga prentverk framið, því að síra Jón Matthíasson (að ætt og viðurnefni kallaður svenski), sem hèlt Breiðabólstað í Vesturhópi, hann hafði prentað guðspjallabók og pistla; *item* andlega sálma nokkra, handbók presta, og máske nokkrar fáeinar bækur fleiri. En hvort hann hefir gjört þetta uppá sinn eiginn kostnað, eða hafa biskupar kostað þar til: *item* nær hann hafi hèr í landi fyrst það prentverk framið — það veit eg ekki gjörla. Það eitt er og víst, að biskup Jón Arason hefir látið prenta guðspjallabók í quarto á Breiðabólstað í Vesturhópi af síra Jóni svenska. Þessi síra Jón átti son; sá hèt og svo Jón. Þenna áfýsti herra Guðbrandur að sigla og læra uppá prentverk, og var meðalgángari hjá kóngl. Majestat Fridericho II^do^, að Jón fèkk frí lènsjörð um sína daga, Núpufell, og uppbar þar af landskuld, að hann svo heldur skyldi á fús að fremja prentverk á Íslandi. Fyrir hendur þessa Jóns Jónssonar lèt herra Guðbrandur prenta margar bækur íslenzkar á Hólum, og uppreisti prentsmiðju þar heima í sínum herbergjum með miklum kostnaði, og lèt aðra læra þetta handverk af Jóni prentara, svo Ísland var fullt af góðum prentuðum lærdómsbókum, sem iðka máttu, ekki prestarnir alleinir, heldur líka leikmenn, konur og börn. Og fyrst margir guðhræddir menn keyptu þessar bækur, þá hugsaði þessi góði herra, ei síður mundi frómum mönnum smakka það sjálfa og sanna Guðs heilaga orð, sem innifalið er í heilagri Biblíu, með því það er svo sem brunnur og uppspretta allra annara guðhræðslunnar lærdóma, sem Justus Jonas,

Lutherus, Hubernius, Regius Palladius hafa í smábókum fram sett, og hèr voru áður útlagðar og á prent útgengnar. Þar fyrir tók herra Guðbrandur sèr fyrir að útleggja þá heilögu Biblíu, og hefir hann sumar bækurnar sjálfur alleina útlagt, sumar af öðrum útlagðar, samanlesið við þýzku Biblíu og útleggíng Lutheri, og lagfært þær, sem bezt hann kunni, bæði uppá málið og meiningunu; svo líka phrasin, það er: málsnildina og orðainntakið, hvert herra Guðbrandur hefir í sínum bókum haft betra enn nokkur annar. Vel höfðu nokkrir aðrir lærðir menn útlagt sumar bækur Gamla og Nýja Testamentisins, svo sem var herra Gísli Jónsson, biskup í Skálholti, sem útlagði Sirachs bók, og lögmaðurinn Oddur Gottskálksson (kallaður Otti hinn norski); hann útlagði allt Nýja Testamentið og Postillu Antonii Corvini, og lèt uppá sinn kostnað prenta þetta til Rostock. Herra Ólafur Hjaltason og aðrir fleiri hafa víst líka greitt til um Biblíunnar utleggíng, en herra Guðbrandur alleinn tók sèr fyrir að útleggja alla Biblíuna, og forbetra þar við þurfti annara útleggíngar. Hann hefir og einn vogað til að láta Biblíuna alla gánga út á íslenzkt prent; og hefir þar til þurft bæði hugvit, lærdóm, list og kostgæfni; þar með stóran kostnað, að kaupa allan prentstílinn, og annað fleira, sem þar hlýddi til, svo það hefði varla verið til vinnandi, ef sjálfur hann hafði ekki verið svo hagur og behendugur, að hann hefði getað lagfært stílinn sjálfur og smíðað. Hann hefir og einnin sjálfur uppdregið og grafið alla stórustafi og brotaknúta í vorri Biblíu. Hann hèlt til þessa biblíuverks áðurnefndan Jón prentara, og með honum sjö aðra sveina eður meðhjálpara, og varð þó ekki biblíuverkið búið fyrr en á tveggja ára tíma anno 1579 (í sjálfri Biblíunni stendur 1584). Og má þetta prentverk aungvu síðara virðast eður reiknast enn annara framandi staða sumra, svo sem til sýnis geymd er ein Biblía á kóngl. bibliotheca í Kaupinhafn til eptirdæmis og minníngar. Kónglegrar Majestatis náðarbrèf og privilegia eru og preutuð fyrir framan Biblíurnar allar, og skenkti Hans Majest. mildilega til þessa prentverks. En svo að þetta mikla og þarfa biblíuverk vantaði ekki sína fullkomnun og prýðilegan umbúníng, þá leigði herra Guðbrandur með sínum kostnaði einn bókbindara úr Hamborg um nokkra mánuði til að binda mörg Biblíunnar exemplaria, og kenna þá list öðrum prentsveinum, sem herra Guðbrandur til setti að

læra af honum, svo þeir gátu nærri með samri snilli bundið bækur og Biblíur, að auk þeirra hundrað, sem í Kaupinhafn bundnar voru. Svo voru þessar biblíur heyptar til hverrar sóknarkirkju á Íslandi fyrir 8, 9 eður 10 dali, sem staðahaldararnir og kirkjuverjararnir útgáfu eptir kóngl. Majestatis befalníngu. En svo að þessi prentverks fyrirhöfn og stórkostnaður mætti heita með rèttu hafður til Guðs dýrðar og hans heilagri kristni til nytsemdar, þá gaf sál. herra Guðbrandur sína algjörða heila prentsmiðju með öllum instrumentis Hóla dómkirkju og biskupsdæmi til eignar, og lèt það innsetja í sitt testament. Og svo enginn af erfíngjunum skyldi dirfast að rjúfa eða raska þeirri gjöf, þá var kóngsbrèf þar uppá útvegað anno 1628 fyrir meðalgöngu herra Þorláks Skúlasonar.

7. Anno 1585 varð herra Guðbrandur að supplicera um undirrèttíng til kóngs, hvort mönnum leyfðist að giptast í þriðja og fjórða lið; ekki það biskupinn vissi eigi vel og undirstæði lög Guðs, keisararèttinn og Danmerkur Ordinantiu, og skikkanir um hjónabandið, heldur þar fyrir, að nokkrir af Íslands innbyggjurum hèldu og þrættu við herra Guðbrand, það mætti ekki innan fjórmenníngs giptast, og það væri á móti, ekki alleinasta þeim gamla kristinrètti, heldur og líka íslenzkum lögum. Því kom þar kóngsbrèf uppá, að í þriðja og fjörða mættu menn eigast. Actum Frideriksborg 29. aprilis 1585. Og aptur anno 1587 var íslenzkum skipað af kóngi að halda lög og setnínga, sem í Danmerkurríki voru samdir og útgengnir á prent um hjónabandsmál og giptíngar. Actum Croneborg anno dicto.

Gamall pápiskur siður var það hèr á landi, að sèrhver stórglæpamaður, som sitt líf hafði forbrotið eptir Guðs lögum og manna, flúði á kirkjur svo sem heilaga frelsisstaði, og mátti engi draga þá þaðan; og svo varð Guðs hús að spillvirkjabæli. Því suppliceraði herra Guðbrandur enn einu sinni fyrir kóng, og óskaði, að kirkjur og bænhús væri ekki skálkum og óbótamönnum meira skjól í Íslandi, heldur enn þær væri í Danmerkurríki, eður hjá öörum lúthvorskum, sem er alleinasta í því tilfelli, þar einn kann ófyrirsynju hafa í hel slegið einn mann og kemst svo á kirkju. Og þar uppá kom kóngsbrèf anno 1587; actum Croneborg 2. junii.

8. Þessir og aðrir útvegir og framkvæmdir herra Guð-

brands juku honum öfund hjá mörgum rángsnúnum; og bríxluðu honum um nýjúngar, styrjöld og órósemi. Einkanlega reyndi herra Guðbrandur óvild þeirra veraldlegu, þegar hann átti mál að sækja, svo sem anno 1592 og anno 1593, er hann klagaði eptir nokkrum eignum afa síns, Jóns heitins Sigmundssonar. Þá komu upp nokkur gömul brèf, sem innihèldu, að móðurfaðir herra Guðbrands, Jón Sigmundsson, sem þá var fyrir 72 árum andaður, skyldi hafa framið ódæði, og drepið bróður sinn Ásgrím í Túngu innan kirkjugarðs, en drekkt barni sínu í soðkatli; með hverjum brèfum óvildarmenn herra Guðbrands vildu ei alleinasta fæla hann frá sinni nýrri klögun, heldur og líka svo sem hrinda honum frá þessum eignum, sem hann og hans samarfar höfðu áður náð og fengið. Þessi brèf voru lögð fram fyrir höfuðsmanninn Henrich Krag, og þar af var herra Guðbrandi gjörður stór óhróður, svo sem væri hann fæddur og kominn af óbótamönnum og óbættum illvirkjum. Og þá herra Guðbrandur hafði áður, nærri í 30 ár[1], átt að berjast við öfund sinna óvina og óvildarmanna, þá mátti nú mörgum virðast, að hann mundi ekki viðstaðið geta. En hann gat illa unað við þessa skömm, sagða og logna uppá sinn framliðna afa; því óskaði hann á alþíngi almennilegs dóms og álits anno 1592 á þessum brèfum og sínum afbötunum þar á móti. Höfuðsmaðurinn nefndi til 24 að rannsaka málið. Þeir, eptir vild og forlagi yfirdómaranna (Jóns lögmanns sèrdeilis), vildu ekki neitt álit þar á gjöra nè úrskurða, utan settu til kóngl. Majest.; greindu þó aungvar varnir nè afbatanir herra Guðbrands. Hann lèt sig það ekki fæla nè fella, heldur suppliceraði hann og sendi fram sínar afbatanir og traðkan brèfanna fyrir kóng og ríkisins ráð með vissum brèfberara og milliferðarmanni. Þeir regerendis herrar undirstóðu vel málefnið og aðferð dómsmanna, því skikkuðu þeir það aptur undir íslenzk lög og úrskurð. Svo dæma 24 þessi brèf vera uppdiktuð falsbrèf 1593, datum Öxará 1. julii, og voru þó sumir sömu dómsmenn, og fyrra árið þóttust ei geta tekið yfir þetta mál. Hálf önnur lína, eður þar um bil, sem innihèlt nöfn vottanna, var með gömlum bókstöfum og bleki skrifuð, og svo voru innsiglin þeim nöfnum samhljóðandi, enn allt brèfið annað, sem

[1]) 255 hefir „20 ár" og er það að líkindum rètt.

var gamalt pergment nýuppskafið (fyrir utan þessa hálfa aðra línu), það var með nýjum stíl og stafagjörð, og nýlegu bleki skrifað; var og nýleg samsetníng orðanna. Þessi brèf voru casseruð, sundurskorin og þó til sýnis geymd. Um þetta leyti voru þeir andlegu, og ekki biskup alleinn, diffameraðir ***gravi et atroci calumnia***, með þúngum rógi og umlestri fyrir regerendis herrunum. En þar kom uppá eitt meinlaust áminníngarbrèf, datum . . . . . . Þegar Lauriz Krus var höfuðsmaður, þá klagaði herra Guðbrandur Barð í Fljótum undir kennivaldið, hvern stað leikmenn höfðu lengi ránglega haft og haldið. Eptir það herra Guðbrandur hafði unnið málið um falsbrèfin, gramdist honum við sína öfundarmonn, og lèt útgánga á prent einn bæklíng, í hverjum hann ámælti mörgum ypparlegum mönnum, yfirdómurum sèrdeilis, og þeim[1] í Stóradal í Skagafirði, hinum fyrir lögleysu og rángt álit, en þessum fyrir falsbrèfagjörð. Bjarni Sigurðsson[2] vann þar fyrir tylftareið við lögrèttu anno 159 . .; fyrir hvað biskupinn kom í ófrægð utanlands og innan, og var skipað undir íslenzk lög og rannsak. Var biskup þá af tveimur tylftum dæmdur af embættinu undir kóngsins náð og ónáð. Stilltist svo, að hann varð að gefa út 1000 dali.

9. Þetta er það helzta í lífssögu herra Guðbrands, sem voru landi viðvíkur; en hvað hans persónu áhrærir, þá var hann ekki alleinasta vel lærður, heldur og líka vel málsnjull og orðríkur, nokkuð kappsamur; hagleiksmaður mikill, svo hann gat nálega smíðað eptir öllu því, hann sá. Hann fann og uppá margt. Hann hafði og nærri lagi undirstaðið og skilníng haft á astrologia[3], og með sinni hendi gjörði hann ***sphæram juxta nostram elevationem***, og dediceraði hana höfuðsmanninum Johanne Bocholtio, hver og var lærður maður. Hann annóteraði líka ***libellos sphæricos*** og ***astrologos*** með sinni eigin hendi ***Purbacchi Reinoldi. Globum terrestrem*** smíðaði hann einninn, og brúkaði þar til ***Opera Appiani*** og ***Orontii***. Stuttlega að segja: hann var mikill í mörgu;. guðhræddur, örlátur, flugríkur. Hann var og hraustur og heilsugóður allt til þess 43. ársins,

---

[1]) þann. 255; „það" 254.

[2]) sjá II 381.

[3]) þannig bæði handritin.

á hverju sínu aldurs ári hann misti sína frómu kvinnu, Halldóru Árnadóttur; og lifði síðan ekkjumaður með misjafnri heilbrigði þángað til anno 1624. Þá hann hafði tvo um áttrætt *in junio* mánuði, fèll þessi góði Guðs maður í þúngan sjúkdóm (snögglegt hræríngarleysi, *paralysin* eður *hemiplegiam*). Kom þessi veiki ofan yfir hann á Hólum sama sumar nærri um þíngtíma, er hans síðasta mál var dæmt, um einn morgun, er hann gekk út af húsi sínu, og sè þar niður. Svo þar eptir strax lagðist hann fyrir, og misti málið skömmu þar eptir, og lá svo sjúkur, máttlaus og mállaus í heil þrjú ár. Lèt hann opt lesa fyrir sèr heilaga Biblíu. Það gjörði hans þènari, Þorbjörn Einarsson[1]. Hann lèt sinn prest síra Þorberg Ásmundsson optlega veita sèr sacramentum herrans Christi, auglýsandi sína iðran með andvörpum og táraföllum.

11. Anno 1627 gekk mikil sótt fyrir norðan og víðar annarstaðar. Sú sótt þrengdi svo að optnefndum herra Guðbrandi, að hann 20. julii gaf upp andann, og leytist úr lángvarandi eymd og mæðu. Hafði hann þá fimm ár um áttrætt, og hafði verið biskup á Hólum 56 ár.

---

V. A. Hefði múrinn kunnað að mæla og trèn að tala, kórinn að kveina, kirkjan hin að veina, skólinn skynja, staðurinn allur að stynja, etc., þá mundi allt þetta með mönnum verið hafa í sama harmagrát og hjartasaung.

---

*Tumulus reverendi et incomparabilis viri, Domini Gudbrandi Thorlaci, Superintendentis Holensis in boreali Islandia, vigilantissimi &c. — Arngr. Jon(æus).*

*Thaumandrum vocitem quin te, Gudbrande, quid obstet?*
*Mirus eras vita, funere mirus eras.*
*[Vita poli donis resplenduit alma (caduca*
*Quid memorem!) a sancto funere vivus agis*[2].

[1]) síðar prestur „í Rauðasandsþíngum".
[2]) [þetta vers vantar í 254.

*Floruerat magno Germania vasta Luthero,*
*Gudbrando radiat patria nostra suo:*
*Biblia debentur Germanica scilicet isti,*
*Quod solum e multis jam tetigisse sat est.*
*Biblia debentur sancto vernacla labori*
*Hujus, et hinc poscit justa trophæa sibi.*
*Miles eras, Domini multum versatus in armis,*
*Gudbrande, est ratio nominis unde tui.*
*Hunc veterum si more ducum tumulemus Achillem,*
*Ut simul arma viri fulgida tumba tegat.*
*Biblia sarcophago vernacla reponere fas est:*
*Athletæ illa Dei fervidus ensis erant.*
*Sin statuæ vivo veluti de marmore surgant,*
*Res eodem recidit: Biblia marmor erint.*
*Pauca habet tumulus, nam læta Fama loquendo*
*Cum Sole æquatis passibus ire valet.*

*Epiphonema:*
*Nulla ferent talem secla futura virum!*

---

(Ljóð) Síra Einars Sigurðssonar.

1. Móðurjarðar Guð gjörði
Guðbrand föður viljandi.
Á Íslandi ljós reyndar
lífa verk yfirmanns klerka.
Mættu þjóðir þrátt ræða,
um þann Drottins mann votta.
Guðbrand heiður að hendi,
Herrans verk bera góð merki.

2. Kross lángur þess þýngri
þelhreinan vel reynir
Guði kæran, hvað heyrist,
hentar iðja prentsmiðju.
Orð Drottins varðveitti,
vel lærður til færði.

Guðbrand heiður að hendi,
Herrans verk bera góð merki.

3. Vorir landar örendir,
of blandnir, sofandi,
Guðs verk yður ei orka
að hræra; það lærið:
Lofa Herrans gjöf hærra,
sem hugur klár dugir með tárum.
Guðbrand heiður að hendi,
Herrans verk bera góð merki.

4. Svo lætur nú njóta
náðar fengjar Guð lengi
það land, þjóð ef fyndist
þakklát vel í máta.
Heill lifi alla æfi
æruverður kær hirðir.
Guðbrand heiður að hendi,
Herrans verk bera góð merki.

---

12. Börn herra Guðbrands biskups á Hólum og Halldóru Árnadóttur:

Páll, Krístín, Halldóra; *item* Steinunn Guðbrandsdóttir, laungetin.

Páll Guðbrandsson stúderaði hèr fyrst og síðan utanlands í þrjú ár; varð síðan skólameistari á Hólum eitt ár; giptist eptir það Sigríði, dóttur Björns Benediktssonar og Elínar Pálsdóttur frá Möðruvöllum anno 1605. Honum voru talin iiij hundruð hundraða, en henni ij hundruð hundraða. Fèkk Páll Guðbrandsson Þíngeyraklaustur, og hèlt það til dauðadags. Hann var frómur og mannorðsgóður höfðíngi. Hann andaðist á Víðimýri í Skagafirði anno 1622; lá ekki sjúkur utan fáa daga. Hans lík var flutt til Þíngeyra. Hans andlátsdagur er 10. novembris. Sigríður Björnsdóttir varð strax veik eptir afgáng Páls heitins, og lifði svo nokkur ár með þúngum kránkleika; andaðist á Márstöðum anno 1632. Börn

Páls og Sigríðar voru þessi: Þorlákur, Benedikt, Páll, Björn; Hákon dó úngur.

Þorlákur Pálsson [erfði Víðidalstúngu og bjó þar. Hann hafði nokkrar lènsjarðir á Vatnsnesi. Hans kvinna var Kristín, dóttir Jóns lögmanns Sigurðssonar, sem hèlt Reynistaðar klaustur eptir það hann var afsettur lögmannsdæminu. Hans kvinna var Þorbjörg, dóttir Magnúsar Fúsasonar og Ólafar Eiríksdóttur. Börn Þorláks og Kristínar: Páll, Jón.

Benedikt Pálsson sigldi, og lærði vel barskera embætti til Hamborg; sigldi þaðan, þá hann hafði útlært, og vildi í Spanien, en varð hertekinn, ásamt skipi og mönnum, af Tyrkjum, og var hjá þeim þrjú ár; var svo leystur af Hamborgurum og útborgaður af frændum sínum og vinum hèr með fyrir lítið miður enn 1000 dali. Hann keypti hèr og kóngsleyfi til að giptast sínum þremenníngi, sem var Hólmfríður, dóttir Einars Hákonarsonar og Ragneiðar Magnúsdóttur. Þau voru saman tvö ár, eður lítið minna. Andaðist hún af sængurför anno 1645. Benedikt hafði Möðruvallaklaustur eptir Halldór lögmann. Hann giptist aptur anno 1648 Sigríði, dóttur Magnúsar Jónssonar á Sjáfarborg; þeirra brúðkaup haldið á Hólum. Þeirra börn: Magnús, Björn, Hólmfríður,

Páll Pálsson átti Márstaði, og bjó þar lengi ógiptur; gaf sig með eignum sínum til bróður síns Björns, og varð hans gjafargjörníngur með kóngsbrèfi staðfestur.

Björn Pálsson hafði Eyjafjarðarsýslu eptir það Magnús Björnsson varð lögmaður. Hans höfuðból Stórihóll og Æsistaðir. Hann keypti leyfi, öðrum og þriðja, og giptist Ragneiði, dóttur Magnúsar bónda Arasonar og Þórunnar Jónsdóttur. Þeirra börn: Jón, Magnús, Sigríður, Hólmfríður, Íngibjörg, Þrúður, Anna, Björn — andaðist á Stórahóli af ókennilegri veiki, er margir hèldu af illræðum mengaða.[1]

13. Kristín Guðbrandsdóttir var gipt af herra Guðbrandi föður sínum á Hólum Ara bónda Magnússyni,[2] sem átti Ögur og Reykhóla, og hafði Ísafjarðarsýslu. Þeirra börn:

[1]) [eptir 255: sbr. II 263—264. Eptir orðið „lögmannsdæminu" standa orðin „svo vel sem fyrri", en hafa verið eptir á undirstrykuð; enn fremur hefir skrifarinn strykað undir r í bæjarnafninu Márstaðir á báðum stöðum og sett f fyrir ofan.

[2]) Jónssonar (Magnússonar og Kristínar Eyjúlfsdóttur. riddara, Arn-

Síra Jón, Þorlákur, Magnús, Halldóra, Helga. Magnús Arason var elztur þeirra bræðra. Hann eignaðist Reykhóla og sat þar. Hans kvinna var Þórunn ríka Jónsdóttir.[1] Þeirra börn: Jón, Sigurður, Guðbrandur, Helga, Ragneiður. — Jón Magnússon fèkk Reykhóla, og sat þar; hafði lengi Strandasýslu. Hans kvinna Jórunn, dóttir Magnúsar lögmanns Björnssonar. — Sigurður Magnússon sat á Skútustöðum norður við Mývatn, og átti þá jörð og fleiri jarðir þar. Hann var sýslumaður í Þíngeyjarþíngi hálfu. Hans kvinna Sigríður, dóttir Odds Þorleifssonar frá Borg í Borgarfirði og Guðrúnar Sæmundardóttur. Þeirra barn: Magnús. — Guðbrandur Magnússon hafði keypt sèr Elenu Eggertsdóttur á Skarði. Hún sálaðist, en hann lifði í einveru síðan. — Helga Magnúsdóttir, kvinna Jóns Vigfússonar í Lögmannshlíð.[2] — Ragneiður Magnúsdóttir, kvinna Björns Pálssonar á Stórahóli,[3]

Síra Jón Arason hèlt Vatnsfjarðar stað; hans kvinna Hólmfríður, dóttir Sigurðar Oddssonar og Þórunnar ríku Jónsdóttur.[4]

Þorlákur Arason bjó á Súðavík, jörðu sinni; hans kvinna Málfríður, dóttir Gísla Björnssonar prests, Gíslasonar.[5] Þeirra einberni Helga á Hvoli, kvinna Jóns eldra Vigfússonar.

Halldóra Aradóttir giptist Guðmundi, syni Hákonar Björnssonar frá Nesi suður. Guðmundur hèlt Þíngeyra klaustur vel og lengi; var nafnfrægur höfðíngi að mörgu góðu. Þeirra börn: Þorkell, Helga. — Þorkell Guðmundsson hèlt klaustrið nokkur ár eptir föður sinn; hans kvinna Solveig, dóttir Magn-

---

finnssonar, á Svalbarði) og Ragneiðar Pètursdóttur, Loptssonar, Ormssonar (launsonar Lopts ríka). Ormur átti Solveigu Þorleifsdóttur, systur Björns ríka. Um Ara stendur fyrr í bókinni: „mikill höfðíngi að burðum og geði; sat í Ögri".

[1]) sjá II 400.

[2]) Vigfús var Jónsson, Sigurðssonar, en Sigurður bróðir Magnúsar Jónssonar, föður Ara Magnússonar í Ögri.

[3]) sbr. II 364 og 400.

[4]) sbr. II 400.

[5]) Á öðrum stað segir svo fyr í bókinni: „Þorlákur átti Staðarfell og Prestbakka, en Málfríði voru gefin heiman alls 50 hundruð, þar til 20 hundruð af Þórunni Jónsdóttur á Reykhólum; því Málfríður var þar lengi og giptist þaðan".

úsar lögmanns.[1] — Helga Guðmundsdóttir giptist Birni, syni Magnúsar Björnssonar.[2]

Helga Aradóttir var haldin afbragðs stúlka; hún andaðist fulltíða, barnlaus.

Halldóra Guðbrandsdóttir hèlt æfinlega jómfrústètt. Hún var lengi á Hólum til aðstoðar og huggunar sínum veika og ellimóða föður; sagði nei mörgum biðlum. Síðast hèlt hún búi sínu á Óslandi og andaðist þar 1658.

14. Steinunn Guðbrandsdóttir og Valgerðar (laungetin) giptist Skúla, syni Einars Þórarinssonar í Bólstaðarhlíð og Guðrúnar Þorsteinsdóttur.[3] Þau bjuggu á Eiríksstöðum í Svartárdal. Skúli átti þá jörð og fleiri. Þeirra börn:

Herra Þorlákur, Þorvaldur, Einar, Íngunn, tvær Bjargir, Guðrún, Valgerður, Helga, Halldóra, Setselja.

Herra Þorlákur stúderaði utanlands og innan. Hann var locator, skólameistari, prestur og biskup á Hólum. Hann var kosinn 1628, og kom út með biskupsdæmið 1629. Hann hafði áður siglt, en þrysvar alls, og útvegaði hjá prins Christian V. tólf tylftir borða til Hólakirkju gefins. Hann giptist í Bræðratúngu 1629[4] Kristínu, dóttur Gísla lögmanns Hákonarsonar og Margrètar Jónsdóttur. Þeirra börn: Gísli, Skúli, Guðbrandur, Þórður, Jón, Elen. — Herra Þorlákur andaðist á Hólum um veturinn á jólum 1656.[5] — Herra Gísli Þorláksson var kosinn til biskups eptir föður sinn 1657, og kom út með biskupsdæmið 1658. Hann giptist það sama sumar Gróu Þorleifsdóttur frá Hlíðarenda og Setselju Björnsdóttur. Þau áttu ekkert barn. Hún andaðist á Hólum 1660 um veturinn eptir jól, og bar hann sig sorglega eptir hana, og allur staðurinn, sem von var, því hún var ljós í húsi og ágætur kvennblómi. Herra Gísli giptist í annað sinn Íngibjörgu, [dóttur Benedikts Halldórs-

---

[1]) sbr. II 363.

[2]) sbr. II 362.

[3]) hèr stendur utanmáls í 254: „Skal ekki Philippus Þórarinsson á Svínavatni, maður Solveigar frá Svalbarði, hafa mátt vera bróðir Einars?"

[4]) í 255 stendur 1630.

[5]) eptir 255; hin hefir 1657 (rángt). † 4. Januar 1656.

sonar og Jórunnar Henriksdóttur frá Seilu í Skagafirði[1]; áttu ekkert barn. Síðast giptist hann Ragneiði, dóttur síra Jóns Arasonar og Hólmfríðar Sigurðardóttur [frá Vatnsfirði.[2] [Þau áttu ekki barn eptir sig. Hann andaðist á Hólum anno 1684, in julio, við loflegan orðstír guðhræzlu, góðgjörða, friðsemi og geðgæðsku. Hann mátti segja við sína öfundarmenn: ***parum tuta per se ipsa probitas est.***[3] — Skúli Þorláksson sigldi úngur; var til skóla í Kaupinhafn, stúderaði þar einnin, var hèr síðan skólameistari á Hólum eitt ár, fèkk síðan Grenjaðarstað [1660 og var þar prófastur;[4] giptist Guðrúnu Benediktsdóttur. [Þau áttu ekki barn á lífi. Síðan giptist hann Elene, dóttur Sigurðar Magnússonar á Skútustöðum og Sigríðar, dóttur Odds Þorleifssonar og Guðrúnar Sæmundardóttur, sem bjuggu á Borg í Borgarhrepp.[5] — Guðbrandur var og í skóla og sigldi þar eptir til Hamborg. Hann giptist Þórunni Benediktsdóttur, [og var Hóla ráðsmaður. Þeirra einberni Ragnheiður[6]. — Þórður Þorláksson sigldi einnin, eptir það útlært hafði í Hólaskóla, kom aptur og var skólameistari á Hólum um þrjú ár eður . . . .; sigldi aptur og var lengi utan, til Roskild og víðar, fèkk gradum Magisterii, kom út aptur á Eyrarbakka með biskupsembætti yfir suðurstiptinu, að enn þá lifanda Mag. Brynjúlfi Sveinssyni. Sat herra Þórður vice-biskup þann vetur á Hólum hjá bróður sínum, herra Gísla. Voru þá þrír biskupar á Íslandi. Hann tók aldeilis við stólnum, þá Mag. Brynjúlfur afgekk 1675, um sumarið eptir alþíng. Mag. herra Þórður ektaði Guðríði Gísladóttur[7]. — Jón Þorláksson, skólagenginn, sigldi ogsvo, og þènti hirðstjóranum herra Henrik Bjelke, kom síðan híngað og fèkk Möðruvalla klaustur, hvert áður fengið hafði af umboðsmanninum á Bessastöðum, Thomasi Nicolai, Jón Eggertsson, hvar af með öðru misklíð varð og sundurþykki hans og Hólafólks á milli. En Jón Þorláksson hèlt, og hafði síðan klaustraskipti við systurmann sinn, Þorstein Þorleifsson á Skriðu austur. [Hans kvinna Setselja Hallgrímsdóttir frá Glaumbæ í Skagafirði. Þeirra börn: Þorlákur, Jón, Vigfús[8]. — Elen Þorláksdóttir giptist Þorsteini Þor-

[1]) [eptir 255; sbr. II 367. [2]) [b. v. 255; sbr. annars II 400.
[3]) [b. v. 255, eptir S. Björnssyni. [4]) [b. v. 255; sbr. annars II 367.
[5]) [b. v. 255, eptir S. Björnss. [6]) b. v. 255, eptir S. Björnss.
[7]) Magnússonar frá Hlíðarenda og Þrúðu; þ. b. Þorlákur og Brynjúlfur. b. v. 255. [8]) [b. v. 255.

leifssyni og Setselju Björnsdóttur. Þorsteinn fèkk Skriðu klaustur og hafði Múlasýslu: síðan Möðruvalla klaustur, og þar eptir Skagafjarðarsýslu. Þeirra einberni þrúður.[1]

Þorvaldur Skúlason giptist fyrst Guðrúnu, dóttur Erlends Magnússonar og Þórdísar Henriksdóttur.[2] Þeirra börn: Jón, Björn, Íngunn. — Jón Þorvaldsson giptist Setselju dóttur Jóns Jónssonar, sonar Jóns prentara. — Björn Þorvaldsson. — Íngunn Þorvaldsdóttir var lengi herbergjastúlka á Hólum, og krenktist þar eptir, að sagt var .... Þorvaldur Skúlason giptist aptur Kolfinnu, dóttur Þorleifs (búramennis).

Einar Skúlason giptist Þuríði, dóttur síra Sigurðar Jónssonar í Guðdölum og Bergljótar Bjarnadóttur.[3] Þeirra börn: Jón, Skúli, Einar, Illugi, Bergþór, Bergljót, Ragneiður, [Helga, Halldóra, Björg. Einar átti launsen; hèt Guðmundur; hann var skólagenginn; hann átti barn í skólavist, ekki tvítugur.[4] — Jón Einarsson, skólagenginn á Hólum, prestvígðist og giptist .... Hann var góður saungmaður og frækinn til glímu; druknaði í Hèraðsvötnum. — Skúli Einarsson; hans kvinna Guðrún, dóttir Sigurðar Hólabryta Jónssonar, sem gaf próventu sína Benedikt sál. Pálssyni. — Einar Einarsson, skólagenginn. — — — — Ragneiður giptist Marteini Rögvaldssyni, studioso; hann var úr Austfjörðum.

Íngunn Skúladóttir giptist síra Magnúsi Jónssyni á Mælifelli. Þeirra börn: Skúli, Einar. — Skúli giptist Arnþrúði, dóttur Björns Arnbjarnarsonar og [Guðrúnar Halldórsdóttur. Þeirra barn: Guðrún, giptist síra Þorsteini Jónssyni (prests Runólfssonar); hann hèlt fyrst Svalbarð í Þistilfirði, bjó síðan á Eyðum í Hèraði; þeirra börn: Kristín, kvinna síra Ketils Eiríkssonar á Svalbarði, Íngunn, kvinna Björns Nikulássonar frá Kirkjubæ, og Sigríður, sem átti síra Sigfús Vigfússon.[5] —

---

[1]) [b. v. 255, og „síðan — þrúður" eptir S. Sjörnssyni; sbr. annars II 296.

[2]) Þessi Erlendur hafði haldið Skriðu klaustur, en Henrik (Gerken Hannesson barskeri) faðir Þórdísar Þíngeyra klaustur; sbr. Tímarit Jóns Pèturss. 2. B. 56.

[3]) sbr. II 385.

[4]) [b. v. 255, þar sem og stendur um Einar: „Hann hafði lengi Fljóta umboð og bjó undir Hrauni í Fljótum 1650".

[5]) [b. v. 255 eptir síra H. B. S. (í viðaukagrein með seinni hendi).

Einar Magnússon stúderaði innanlands og utan; varð síðan locator á Hólum, dó 1646 á Hólum úr aðsókn.

Björg Skúladóttir átti Bergþór, son síra Sæmundar Kárssonar í Glaumbæ og Ragneiðar, dóttur Sigurðar bónda Jónssonar á Reyninesstað.[1] Þeirra börn: Sigurður, Kár, Ólafur, Þóra, Guðrún. — Sigurður Bergþórsson giptist Þuríði, dóttur Ólafs Jónssonar og Solveigar Hjaltadóttur. — Kár Bergþórsson giptist Rannveigu, dóttur Jóns Stígssonar og Kristínar Gottskálksdóttur. — Ólafur Bergþórsson, skólagenginn, var djákn á [Reynistað, giptist ekki; hans launsonur Skúli á Seilu, lögrèttumaður; hans kvinna dóttir Halldórs Þorbergssonar, lögrèttumanns.[2]

Halldóra Skúladóttir átti Illhuga, son Jóns Illhugasonar[3] í Reykjadal og Guðrúnar Þorgrímsdóttur (móðir Guðrúnar Þorgrímsdóttur var Þórdís Jónsdóttir frá Svalbarði[4]). Þeirra börn: Þorsteinn, Jón, Skúli, allir skólagengnir, item dætur: Þórdís, Ragneiður, Málfríður, Íngunn. — Þorsteinn sigldi, var locator á Hólum 1649, síðan skólameistari, vígðist þar eptir og fèkk Vallnastað í Svarfaðardal 1658. Hans kvinna Steinvör, dóttir síra Jóns Runólfssonar, systir Mag. Runólfs. [Þeirra börn: Sigríður, Kristrún, Gróa; Kristrún giptist Ara Jónssyni, prófasts frá Vatnsfirði, Arasonar.[5] — Jón Illugason; hans kvinna Margrèt, dóttir síra Guðmundar Erlendssonar í Felli. Jón var nokkra stund Hóla ráðsmaður, og bjó á Urðum í Svarfaðardal. Þeirra börn: [síra Jón á Tjörn á Vatnsnesi: síra Benedikt í Bjarnanesi; Erlendur; Guðrún kvinna síra Jóns í Miklabæ í Blönduhlíð, Þorvarðssonar frá Presthólum; Guðrún, kvinna Sigfúsa Skálholts ráðsmanns, Þórðarsonar prests frá Myrká; Halldóra, deyði ógipt, barnlaus.[6] — Skúli Illhugason sigldi

Fyrir „Guðrúnar Halldórsdóttur" hefir 254 Steinunnar . . . . ., og sama stendur í 255 með hendi textans.

[1]) Sigurður Jónsson, son Jóns Magnússonar (sjá hèr að framan neðanmálsgr. bls. s. 701—702), var klausturhaldari; dó 1602.

[2]) [b. v. 255 eptir síra H. B. S. (í viðaukagrein með annari hendi); textans hönd hefir, sem 254, Þíngeyrum fyrir Reynistað.

[3]) hèr stendur utanmáls: „Sira Illhuga Guðmundssonar getur í giptíngum Páls Jónssonar" og svo vísað fram í bókina. Síra Illhugi er meðal votta að kaupmálabrèfunum, sem nefnd eru 11 360 neðanmáls.

[4]) systir Sigurðar Jónssonar; sjá 1. neðanmálsgrein.

[5]) [b. v. 255, eptir síra H. B. S.

[6]) [b. v. 255, eptir síra H. B. S.

einnin; varð snikkari, kom hèr síðan og smíðaði í ymsum stöðum (port á Skarði og rúm þar í; item kirkjulopt, skáp í kirkju og kistil). Hann giptist síðan dóttur Þorvalds í Hrísey[1] — Þórdís Illhugadóttir; hennar maður síra Þorlákur á Kúlu, sonur síra Halldórs, sem lengi þènti Þíngeyra kirkju. — Ragneiður Illhugadóttir; hennar maður Magnús Bergsson, mikill tinsmiður. — Málfríður Illhugadóttir; hennar maður Guttormur Jónsson, ættaður úr Eyjafirði. Þeirra börn: Jón, Helga. — Íngunn Illhugadóttir; hennar maður Jón Guðmundsson.

Valgerður Skúladóttir giptist síra Vigfúsi Árnasyni frá Eyðum austur. Hann hèlt Hof í Vopnafirði. Þeirra börn: Árni, Fúsi, voru báðir í Hólaskóla. — [Síra Sigfús giptist með kóngsleyfi Sigríði, síra Þorsteins Jónssonar dóttur frá Eyðum. NB. Þau voru öðrum og þriðja, því hún var dótturdóttir Íngunnar Skúladóttnr. Hún andaðist barnlaus (kanske af sængurför).[2]

Setselja Skúladóttir giptist Bárði í Fljótshlíð, skynsömum lögrèttumanni, syni Gísla Diðrekssonar. Þeirra börn: síra Gísli, síra Þórður. — Gísli Bárðarson lærði í Hólaskóla, prestvígðist síðan til Hvolhrepps, Hans kvinna . . . . Síra Gísli varð í sjáfarhrakníngi undan Eyjasandi 26. martii 1681; náðu landtöku í Herdísarvík 26. martii á Suðurnesjum, fyrir milda herrans hjástoð. — Síra Þórður Bárðarson lærði og í Hólaskóla; er prestur á Torfastöðum hjá Skálholti.

Guðrún Skúladóttir giptist síra Halldóri, syni síra Teits Halldórssonar þess fyrra í Gufudal og Þóru Torfadóttnr.[3] Helga Skúladóttir giptist síra Þórði, syni síra Gísla Jónssonar og Íngunnar frá Hrafnagili. Þau bjuggu fyrst í Ólafsfirði. Þeirra börn: Magnús, Jón, Gísli, tvær Guðrúnar, Björg, Þór-

[1]) 255 hefir að eins um hann: „Skule, studiosus utanlands 1660, snikkare."

[2]) b. v. 255, eptir síra H. B. S.; þessi bók nefnir ekki Árna.

[3]) Um börn þeirra síra Halldórs og Guðrúnar vísar 254 aptur í bókina í ættartölu Gizurar biskups Einarssonar (sjá að framan II. 613), en 255 telur þau upp og segir um síra Teit ýngra, eptir síra H. B. S.: „hans kvinna Margrèt Eggertsdóttir, Sæmundssonar, og Ragnhildar Steindórsdóttur. Hann andaðist barnlaus 1687; fèkk þúngan og ókennilegan veikleika (bráðlega)".

unn. — [Magnús andaðist í siglingu til Englands (puto)[1] — Gísli Þórðarson var sveinn hjá Birni sál. Gíslasyni í Bæ á Rauðasandi; andaðist úr austurferð hans í Skálholti. — Guðrúnu eldri á Helgi Eyvindsson hálf-engelski.

Björg önnur Skúladóttir á Hrólf, son Sigurðar Hrólfssonar og Guðrúnar Sæmundardóttur frá Glaumbæ. Hrólfur hafði hálfa Þíngeyjarsýslu, fyrst við Þorberg föðurbróður sinn, síðan við Sigurð Magnússon á Skútustöðum. Þeirra börn: Sigurður, Skúli, Björn, Sæmundur, Sigurður annar, Arngrímur, Ragneiður, Steinunn.

15. Þórður Þorláksson, samborinn bróðir herra Guðbrands, hann bjó á Marðarnúpi í Vatnsdal, og átti sjálfur þá jörð. Hans fyrsta kvinna var Þórunn, dóttir Benedikts ríka Halldórssonar og Valgerðar Björnsdóttur. Þau áttu saman einn son; hèt Hallgrímur. Hann sigldi og stúderaði í Kaupinhafn. Hann varð bráðkvaddur norður í Hvammi í Laxárdal í biskupsveizlu og visitatíu; meintu menn það skeð hafa af brennivínsdrykk. Síra Jón Gottskálksson hèlt þá staðinn. — Þórður Þorláksson giptist aptur Gunnhildi, dóttur Þorláks bónda Einarssonar undir Núpi vestur. Þeirra börn:

Guðrún Þórðardóttir átti síra Ólaf, son síra Jóns í Grímstúngu og Filippíu. Hann hèlt Miklabæ í Skagafirði. Þeirra börn: Síra Hallgrímur, Hákon, Þorlákur, Gunnhildur, Vigdís. — Síra Hallgrímur Ólafsson var kirkjuprestur á Múkaþverá og átti . . . . dóttur Þorkels á Keldulandi, sonar Jóns Jónssonar, á Silfrastöðum var. — Síra Þorlákur Ólafsson hèlt Miklabæ eptir föður sinn. Hans kvinna . . . . — Gunnhildur giptist Jóni Arngrímssyni[2] í Sælíngsdalstúngu. Þeirra börn: Björn, Gunnar, Arngrímur, Guðríður, Solveig. Björn Jónsson giptist Íngibjörgu Daðadóttur og Íngunnar Sveinsdóttur. Gunnar Jónsson giptist Sigríði Bjarnadóttur. Arngrímur Jónsson giptist Ólöfu, dóttur Ólafs Ólafssonar á Suðureyri, Björnssonar, Eggertssonar, Hannessonar; móðir Ólöfar Vigdís Bjarnadóttir. Guðríður Jónsdóttir giptist Þórði Þorleikssyni. Solveig giptist Hafliða Gunnlaugssyni af Vestfjörðum. — Vigdís Ólafsdóttir á

---

[1]) [b. v. 255 eptir S. B. S.

[2]) syni síra Arngríms lærða.

Halldór, launson Þorbergs Hrólfssonar og Geirdísar. — Hákon Ólafsson . . . .

Björg Þórðardóttir var keypt af síra Jóni Brandssyni í Vatnsdal; hún andaðist, en hann misti prestskap fyrir barneign við skyldri konu.

Solveig Þórðardóttir andaðist ógipt.

16 Þórður Þorláksson giptist í þriðja sinn Hólmfríði, dóttur síra Jóns Björnssonar í Grímstúngum (systur síra Ólafs, er dóttir hans átti). Þeirra sonur Þorlákur á Marðarnúpi; hans kvinna Solveig, dóttir Björns Magnússonar og Ornýjar Jónsdóttur frá Bólstaðarhlíð.[1] Þeirra börn: Þórður, Halldóra, Filippía. — Þórður lærði í Hólaskóla; var síðan djákn á Þíngeyrum, prestvígðist þar eptir til Undirfells, giptist dóttur Páls Gíslasonar landskrifara; fèll síðan í kvennamál, misti prest, varð krenktur (að sögn), dó skammt eptir. — Halldóra Þorláksdóttir. — Filippía Þorláksdóttir.

[1]) sbr. II 376.

# Registur yfir mannanöfn.

## Registur yfir staða og landa nöfn.

